# ÞÚSUND OG EIN NÓTT.

ARABISKAR SÖGUR.



Fírus kóngsson og kóngsdóttirin frá Bengalslandi.

## IV. BINDI.

KAUPMANNAHÖFN.

ÚTGEFANDI PÁLL SVEINSSON.

PRENTUÐ HJÁ LOUIS KLEIN.

1864.

## Frá 583. til 601. nætur.

## Sagan af hinum tíu vezírum.

Einn af fornkonungum í Seistan á Persalandi hjet Asad-bacht*); hann rjeði fyrir voldugu ríki og var það öfluglega varið af fjölmennum hersveitum. Hann hafði tíu vezíra, er annast skyldu alla landsstjórn; einn þeirra hjet Sipehsalar**), og var hann afbragð annara manna að hreysti og harðfengi. Það kvað svo mikið að karlmennsku hans, að það var almennt orðtak, að tunglinu óaði svo við ljómanum af sverði hans, að það feldi sig á bak ved skýjin.

Þessi ráðgjafi átti eina dóttur barna; hún var svo fríð, að hún bar af rósinni að fegurð; hún var blíð og yndisleg einsog stjarna, sem líður fram úr skauti næturskýjanna; hún var einsog sólin, sem dreifir geislum sínum yfir láð og lög. Faðir hennar unni henni hugástum, sem eigi var mót von, og ljet sjer svo annt um hana, að hann mátti eigi af henni sjá. Samt hlaut hann stundum að fara frá henni sökum embættis anna, því hann varð að ferðast um lönd þau, er lutu undir konung hans, til þess að sjá hverju fram færi, rjetta hlut þeirra, sem áttu að sæta afarkostum af ráðríkum landstjórum, og kippa í lag því er þurfa þókti. Sipehsalar var lengi að heiman, og sendi hann því einn af trúnaðarmönnum sínum til að sækja dóttur sína. Segir eigi af ferðum sendimanns fyrr enn hann kom til dóttur húsbónda síns. Segir hann henni, hvers erindis hann sje kominn, að hann sje sendur til að sækja hana. Síðan útvegaði hann skrautlegan burðarstól og hesta svo marga sem þurfti til ferðarinnar; að því búnu lagði hann á stað með fjölmennu föruneyti. — Asad-bacht konungur var á dýraveiðum sama daginn og sendimaðurinn tók sig upp með dóttur Sipehsalars,

*) þ. e. mikil hamingja. **) þ. e. hershöfðingi.

og sá til ferðar þeirra á heimleið sinni um kvöldið. Fýsti hann að vita, hverjir það væru og reið til þeirra; spurði konungur hver það væri, er ferðaðist í svo fögrum burðarstól og hefði svo mikið og frítt föruneyti; þeir svöruðu konungi, að það væri dóttir Sipehsalars, ráðgjafa hans, og væri hún á leið til föður síns; reið konungur fast að burðarstólnum og fjellu þá allir förunautar hennar fram á ásjónur sínar til að sýna honum lotningu. Konungur bauð þeim að bera húsbónda þeirra kveðju sína; ætlaði hann því næst að halda heim, en þá lypti ráðgjafa dóttirin lítið eitt upp tjaldskörinni, því henni var forvitni á að sjá, hver valdið hefði dvölinni; varð henni þá litið á Asad-bacht konung. Fannst konungi þá svo mikið um fegurð hennar, að hann feldi þegar ástarhug til hennar, og bauð förunautum hennar að snúa aptur. „Farið þegar," mælti konungur, „með konuna aptur til bæjarins; síðan skal einn af ykkur fara og segja föður hennar, að eg muni ganga að eiga dóttur hans; býst eg við að honum muni þykja sómi að svo göfugum ráðahag."

Einn af þrælunum laut konungi og mælti: „Guð lengi líf yðvart, konungur! þjer eruð drottnari heimsins, og ríkastur konungur, sem nú er uppi, og hlýtur því sjerhver að gera það, er þjer bjóðið. Eg veit að vísu, að faðir hennar muni taka fegins hendi þeim sóma, er þjer ætlið að sýna honum, en þó þækti oss hlýða, að þjer lofuðuð henni að fara á fund föður síns, svo allt gæti fram farið eptir lögum og lands sið; mundi Sipehsalar þá senda dóttur sína með fögru föruneyti og allri viðhöfn til hallar yðvarrar." Konungur gaf engan gaum að þessum mótbárum, og ítrekaði skipun sína, að hverfa aptur til bæjarins. Þrátt fyrir það tók þrællinn aptur til máls og sagði: „Vjer skorum á yður, konungur! að þjer gætið þess, hve mjög það getur hnekkt mannorði konunnar, ef vjer framkvæmum boð yðvart. Fjandmenn hennar munu ekki sleppa þessu tækifæri til þess að breiða út um hana hvers kyns óhróður."

„Ertu svo ósvífinn, þrællinn þinn!" mælti konungur og tók nú að síga í hann, „að þú dirfist að leggja konungi þínum ráð? Eg skyldi drepa þig fyrir ósvífni þína, ef eg væri ekki hræddur um, að það mundi hryggja hina fögru mey, sem á þig." Síðan þreif konungur sjálfur í taumana á hestunum, sem báru burðarstól-

inn, sneri þeim við og hjelt heimleiðis. Kom konungur heim til kvennabúrs síns, um það leyti sem sól sje til viðar og næturskuggar færðust yfir jörðina.

Daginn eptir kvaddi konungur alla dómendur, lærða menn og höfðingja höfuðborgarinnar á sinn fund; lýsti hann því þá yfir, að sjer væri í hug að ganga að eiga ráðgjafadótturina. Allir rómuðu vel mál konungs, og bauð hann að efna skyldi þegar til brúðkaupsveizlu; fór brúðkaupið fram sama daginn og var mikið um dýrðir.

Síðan ljet konungur skrifara sína rita fjölda af brjefum, er senda skyldi víðsvegar út um ríkið, til þess að boða þegnum sínum þessi tíðindi. Einkum ljet hann rita ráðgjafanum tengdaföður sínum langt og rækilegt brjef, en ráðgjafinn varð fokreiður er hann las það. Asad-bacht konungur hafði að vísu haldið brúðkaupið með mesta veg og viðhöfn, en allt um það rann ráðgjafanum mjög til rifja, að konungur virti hann eigi meira enn svo, að hann hafði gert þetta að sjer fornspurðum; honum þókti þetta því sárara, sem hann nú varð að skilja við dóttur sína, er hann unni sem lífi sínu. Þó leizt ráðgjafanum bezt að bera harm sinn í hljóði. Ritaði hann konungi aptur og vottaði honum með fögrum orðum lotningu sína og undirgefni. Brjefið var svolátandi: „Óvænt hamingja hefur hafið mig upp á efsta stig gleðinnar. Eg skil eigi, hvernig eg hefi getað gert mig maklegan þess sóma, er þjer hafið sýnt mjer, og hlýt eg að blessa fæðingarstjörnu mína, þar sem svo tiginn konungur sýndi þá náð, að líta til þræls síns. Nei, konungur! mig skortir orð til að lýsa því, hversu eg er þakklátur, og hversu mjög eg þrái þá gæfustund, er eg fæ að falla fram fyrir fætur hátignar yðvarrar.“

Ráðgjafinn sendi konungi brjefið, og ljet eigi á öðru bera, enn að hann væri ærið glaður af gæfu þeirri, er honum hafði að höndum borið; hjelt hann ríkmannlegar veizlur til minningar um atburð þennan, en það var reyndar eigi til annars, enn að villa sjónir fyrir mönnum. Liðu svo þrír mánuðir, að eigi gekk á öðru enn veizlum og hátíðahöldum, en jafnframt hafði ráðgjafinn annað fyrir stafni. Hann dvaldi á landamærum ríkisins og þar kveikti hann samblástur og samsæri gegn konungi, og reyndi á allar lundir að gera menn óánægða með stjórn hans. Þegar hann þóktist vera búinn að koma

ár sinni svo fyrir borð, sem hann vildi, stefndi hann foringjum herliðs síns saman og mælti á þessa leið: „Eg ætla að segja yður leyndarmál; megið þjer af því ráða, hve mjög eg treysti slíkum mönnum sem þjer eruð. það hefur mjer lengi í brjósti búið, svo engann hefur grunað; nú ætla eg að gera yður það uppskátt, en þó með því skilyrði, að þjer vinnið mjer þess dýran eið, að gæta óbrigðanlegrar þagmælsku.“

þeir gerðu allir góðan róm að máli hans; sóru þeir og sárt við lögðu, að þeir skyldu reynast honum trúir og auðsveipir. Tók Sipehsalar þá aptur til máls og sagði: „Yður er kunnugt, hversu mjög eg hefi ávallt lagt mig í framkróka um, að gera ríkið Seistan svo blómlegt, sem það nú er orðið. þjer vitið að eg hefi verið konungi heilráður, og að tillögur mínar hafa jafnan reynzt heilladrjúgar. þó hefur konungi farizt ódrengilega við mig; hann hefur illa launað mjer dygga þjónustu; hann hefur sært mig þar, er mjer var sárast; hann hefur eigi svífzt að svívirða mig og mína, já, sjálfan sig; hann hefur látið ræna varnarlausri mey á þjóðbraut.“ Nú þerrði Sipehsalar tárin, sem hrundu ofan eptir kinnum hans. Hershöfðingjunum rann til rifja, að hann skyldi hafa ratað í slíkar raunir, og sóru þeir, að þess skyldi hefnt verða. Síðan skipti Sipehsalar ógrynni fjár á milli þeirra, dró saman óvígan her, og sagði konungi stríð á hendur. Braut hann undir sig hvert skattlandið á fætur öðru og rjeði til áhlaups á höfuðborgina.

Konungi þókti það hörmuleg tíðindi, er hann heyrði að Sipehsalar, ráðgjafi hans, hafði gert uppreisn móti sjer; fór hann þá til drottningar sinnar til að leita ráða hjá henni, því hún unni honum hugástum. „Faðir þinn,“ mælti konungur, „hefur þín vegna gerzt drottinssvikari við mig; er eg nú kominn til þín að leita ráða og huggunar, því nú er hánótt, og þori eg eigi að bíða unz dagur ljómar, því mjer þykir alls örvænt, að þessi hernaður megi til friðar snúast.“ „Mjer virðist eigi annað fyrir,“ mælti drottning, „enn að við flýjum til einhvers af grannkonungum vorum og leitum þar liðs og trausts; mun oss þá eigi verða mikið fyrir, að þröngva landinu aptur til hlýðni og stökkva óaldarflokki þessum.“

Asad-bacht þókti þetta óskaráð; hugði hann konunginn í Kerman voldugastan og veglyndastan allra sambandskonunga sinna; mundi

hann fúslega veita sjer ásjá og hvorki synja sjer um lið nje fje; kvaðst hann því mundu leita þangað. Leynidyr voru á höll konungs; það voru jarðgöng, er náðu allt til eyðimarkar einnar. Konungur ljet nú söðla tvo hesta í skyndi, og vopnaðist. Hann tók dýrmætustu gersemarnar úr fjehirzlu sinni og ljet í belti sitt. Síðan ljet konungur drottningu sína stíga á hestbak; riðu þau því næst út um jarðgöngin, og hjeldu til konungsins í Kerman. Á leiðinni varð þeim tíðrætt um hin þungu aðköst forlaganna, um það hve stopult væri að treysta auði og upphefð, og hversu ómissandi væri að sýna þrek og þolinmæði, hvað sem ábjátaði. Þess var heldur eigi lengi að bíða, að þeim varð á hvorutveggja þörf. Drottning var þunguð og á þriðja degi eptir að þau voru farin að heiman, fann hún á sjer, að hún mundi bráðum verða ljettari; voru þau þá í eyðimörk við tjörn eina. Ætlaði hún nú að svala þorsta sínum, en vatnið var svo salt, að það var með öllu ódrekkandi. Allt umhverfis var eigi annað, enn öræfi og eyðisandar og örvílnaðist hún í þessum dauðans vandræðum. Hún gat eigi svalað þorsta sínum, hún þjáðist af harmkvælum og óttaðist komu fjandmanna sinna; hana hryllti við öræfunum, er voru næsta ógurleg, en konungurinn varð sárhryggur, er hann sá hana kveljast.

„Farðu og flýðu frá mjer“, mælti drottning. „Yfirgefðu þá konu, sem eigi getur fylgt þjer lengur; leitaðu hælis fyrir fjandmönnum þínum og vatns við þorsta þínum. Tefðu eigi, því þá ná uppreistarmennirnir þjer; flóttinn einn getur frelsað þig undan grimdaræði þeirra; þeir munu eigi fá annað enn mig, auma konu, til skeyta skapi sínu á. Líf mitt er eigi þess vert, að þú missir fyrir það eitt höfuðhár. Flýðu því og láttu mig enda hjer hina grátlegu æfi mína.“

„Elskan mín!“ mælti konungur, »hvernig geturðu ætlazt til þess? Auðæfi mín, ríki mitt, líf mitt er einskisvirði í samanburði við þig. Mjer þykir miklu vænna um þig, enn sjálfan mig.“

Meðan þau deildu þessu kappi elskunnar, elnaði sóttin drottningar, og ól hún sveinbarn forkunnar fagurt. Hún tók barnið í faðm sjer, og ljet það á brjóst sjer, en Asad-bacht sagði harmþrunginn: „Það er ekki til neins, að þú sjert að hjúkra barni þessu; við getum ekki haft það með okkur á flóttanum; við verðum

að skilja það eptir hjerna á tjarnarbakkanum; guð almáttugur mun gæta þess og firra það öllu grandi.“ Síðan sveipaði konungur sveininn í glitofinn silkimöttul, og festi armband um handlegg hans; armbandið var úr tíu perlum og mesti kjörgripur. Að því búnu hjeldu þau konungur og drottning áfram til Kerman, hrygg í huga. Óðar enn konungurinn í Kerman frjetti til ferða þeirra, sendi hann móti þeim fjölmenna þrælasveit. En er þau komu, fagnaði hann þeim sem bezt og virdulegast og var þeim hinn blíðasti. Fyrsta daginn ljet hann efna til dýrðlegar veizlu og gerði allt hvað hann gat til að efla veg og virðingu Asad-bachts; meðal annars ljet hann son sinn og tvo hirðmenn þá, er göfgastir voru, ganga honum fyrir beina. Þrátt fyrir allan glaum og gleði, sem fram fór í höllinni, flóðu augu Asad-bachts og drottningar hans í tárum. Konungur reyndi að hughreysta þau á allar lundir. „Með guðs hjálp,“ mælti hann, „munum vjer sjá einhvern veg til þess, að bæta úr böli ykkar. Eg skal á morgun hugsa um, hvað tiltækilegast sje í þessu máli. En takið nú þennan bikar og tæmið hann.“

„Æ! hvernig ætti eg að vera glaður í raunum mínum?“ svaraði Asad-bacht, og sagði honum upp alla söguna um flótta sinn. Konungurinn í Kerman komst mjög við, er hann heyrði hvernig á öllu stóð, ljet hann þegar skera upp herör um ríki sitt og dró í skyndi saman allan liðstyrk sinn. Reyndi hann með allskonar skemmtunum að hrinda harmi þeim, er angraði huga Asad-bachts og drottningar hans.

Daginn eptir tók herinn sig upp frá Kerman og hjelt á stað til höfuðborgarinnar í Seistan. Uppreistarmennirnir flýðu þegar, er liðið sókti að borginni; hjelt Asad-bacht því viðstöðulaust inn í borg sína. Tóku bæjarbúar honum tveim höndum og óskuðu honum til hamingju, að hann væri kominn aptur í ríki sitt með ágætum sigri; lofuðu menn og liðið útlenda fyrir góða framgöngu. Leysti konungur liðið burt með góðum gjöfum og sendi konunginum í Kerman marga dýrgripi í þakklætis skyni. Stýrði hann síðan ríki sínu vel og viturlega. Nú sat hann í friði með drottningu sinni og undi sjer vel, er hann var aptur kominn til valda, en endurminningin um sveininn, sem þau höfðu skilið eptir í eyðimörkinni, dapraði samt gleði þeirra. Hjeldu þau hjónin vandlega spurnum

fyrir um hann, en voru þó jafn nær um það, hvað um hann hefði orðið, eða hvar hann væri niður kominn; þókti þeim líkast, að óarga dýr hefðu rifið hann í sundur. Þó fór því fjarri, sem nú mun greint verða.

Skömmu eptir að þau konungur og drottning fóru frá sveininum og hjeldu áfram flótta sínum, kom flokkur stigamanna, sem vanir voru að ræna ferðamenn, er fóru um eyðimörkina; tjölduðu þeir á tjarnar-bakkanum, og fundu þar sveininn. Ræningjaforinginn Farek-Servar*) fjell í stafi, er hann leit sveininn; svo mikið fannst honum um fegurð hans; þóktist hann og sjá af klæðum sveinsins að hann mundi vera sonur konungs eða einhvers tígins höfðingja. Ræningjaforinginn var sjálfur barnlaus, og rjeði því af, að taka sveininn sjer í sonar stað, og nefndi hann Khódadad. Fór hann með hann heim til sín og fjekk honum fóstru. Þegar Khódadad hafði aldur til, veitti ræningja foringinn honum bezta uppeldi, en einkum ljet hann sjer um það hugað, að kenna honum riddaralegar íþróttir. — Tók Khódadad slíkum framförum, að hann var öruggur til vígs við fimm hundruð fjandmanna, er hann var fimmtán vetra, þótt hann væri einn síns liðs. Farek-Servar þókti svo vænt um fósturson sinn, að hann mátti eigi af honum sjá, og hafði hann ávallt með sjer á ránsförum sínum.

Svo bar til einn dag, að Farek-Servar ætlaði að ráðast á lestamenn og vildi að fóstri sinn færi með sjer og hjálpaði til. Khódadad var tregur til þess, því hann kenndi í brjóst um ferðamenn, er þeir voru rændir, og hann heyrði kveinstafi þeirra; vildi hann jafnan vera undanþeginn að taka þátt í ráninu. Farek-Servar ljet það og eptir honum, að hann þyrfti eigi að vera í atsókninni sjálfri, en bauð honum að vera viðstaddur og sjá hversu færi. Ræningja flokkurinn rjeðist á lestamennina, en þeir brugðust drengilega við og vörðust vasklega; reyndist það brátt, að ræningjarnir áttu þar við ofurefli að etja; særðist Farek-Servar sjálfur í atlögunni og lá við sjálft hann yrði handtekinn. Hleypti þá Khódadad fram á vígvöllinn og vó fjandmenn sína drjúgum; en ofur-

*) þ. e. hraustur riddari.

hugi hans varð honum til falls; fjell hann af hesti sínum og festu kaupmenn þá fang á honum og lögðu hann í viðjar; fluttu þeir hann síðan til Asad-bachts konungs einsog annan ræningja.

Föðurhjartað viknaði ósjálfrátt, er konungur leit hinn unga mann, og fjekk hann eigi tára bundizt. „Ef sonur minn sá er eg skildi eptir í eyðimörkinni,“ mælti konungur við sjálfan sig, „lifði enn, þá mundi hann vera á reki þessa unga manns.“ Um leið og konungur mælti þetta, varð honum aptur litið á Khódadad, og sagði: „Hvernig gazt þú drengur minn! sem ert svo fríður sýnum, fengið af þjer að lifa á ránum og gripdeildum og brjóta þannig guðs og manna lög? Hvað er nafn þitt?“ „Eg heiti Khódadad,“ svaraði kóngsson. Sór hann síðan og sárt við lagði, að hann hefði aldrei tekið þátt í ránum og væri hann hafður fyrir rangri sök. „Sje það satt,“ svaraði konungur, „mun eg gefa þjer líf, og auk þess skaltu gerast hirðmaður minn.

Khódadad laut konungi og kyssti jörðina til merkis um þakklátsemi sína. Ljet konungur síðan færa hann í fögur klæði, og fá honum skrautlegan túrban.

„Þú skalt,“ sagði hann, „heita Bachtjar*) og vera hestavörður minn.“ Dæmdi hann því næst Bachtjar sýknan saka, ljet hina ræningjana sverja þess dýran eið, að þeir skyldu hætta ránum, og sleppti þeim lausum.

Bachtjar varð konungi kærari dag frá degi. Hann gegndi embætti sínu svo vandlega sem verða mátti; kvað svo mikið að dugnaði hans, að eigi leið langt um, að konungur gerði hann að fjehirði sínum. Er þar skjótt frá að segja, að Bachtjar varð mesti trúnaðarmaður konungs; gerði hann ekkert að honum fornspurðum og fylgdi í öllu ráðum hans. Fengu þá ráðgjafarnir brátt öfund á honum og tóku sig saman um, að sæta hverju tækifæri til að steypa honum úr tigninni, og beita öllum brögðum til að koma honum í óvild hjá konungi.

Einusinni hafði Bachtjar drukkið meira, enn hann átti að sjer, og svaf allan daginn í fjehirzlu sal konungs. Um kvöldið var öllum dyrum lokað. Þegar Bachtjar vaknaði, fann hann að allar

*) þ. e. gæfu vinur.

dyr voru harðlæstar; varð honum þá reikað að kvennabúri konungs og til þeirra herbergja, er innst voru í höllinni. Fann hann í einu herbergi fagra sæng uppbúna; þetta var svefnherbergi konungs; lagðist hann í rekkjuna og sofnaði. Kom konungur þar að honum og æpti með ógurlegri rödd: „Hvað hefstu hjer að, vesæll maður?“ Bachtjar heyrði að einhver var kominn og ætlaði að hafa sig á burt, en hnje aptur niður ljemagna. Kallaði konungur nú á þræla sína og bauð þeim að handsama Bachtjar og gæta þess, að hann eigi slyppi. Skundaði konungur þá til drottningar til að spyrja hana, hvernig á því stæði, að ókunnugur maður hefði getað komizt inn í svefnherbergi sitt; kvað hann það eigi hægt án vilja hennar og vitundar. Drottningu runnu til rifja þessi móðgunaryrði; kvaðst hún ekkert til þess vita og bað hún konung að láta hafa gætur á sjer um nóttina; gæti hann þá rannsakað málið og orðið þess vísari, hver sekur væri. Konungur gerði sem drottning rjeð honum; lá hann alla nóttina með heilabrotum um það, hvernig hann ætti að geta komizt að sannleikanum, og gert atburð þennan heyrum kunnan. Þegar ljóst var orðið, settist hann í hásæti sitt, og kvaddi hina tíu vezíra á sinn fund; var konungur þá svo reiður, að hann mátti eigi mæla. Æðsti vezírinn spurði konung, hvort hann væri orðinn nokkru vísari um atburð þann, er gerzt hefði um nóttina. Vezír þessi hafði lengi haft illan hug á Bachtjar, og gafst nú æskilegt tækifæri til að svala heipt sinni; þóktist hann viss um, að Bachtjar mundi til dauða dæmdur, og fórust honum orð á þessa leið: „Vjer vezírar yðrir, konungur! þorðum ekki í móti að mæla, er þjer tókuð við ræningja syni þessum; en nú er það orðið deginum ljósara, hvern mann hann hefur að geyma; vjer viljum því leyfa oss, að leiða yðar hátign fyrir sjónir, að það var með öllu ótilhlýðilegt, að hann fengi viðtökur í nokkurri konungshöll, svo óguðlegu lífi sem hann hafði lifað. Mannorði yðar og lífi er hætta búin. Þjer verðið að hegna honum harðlega, til þess að leiða öðrum framvegis að fremja slíka fúlmennsku.“

Nú ljet konungur leiða Bachtjar fyrir sig, og mælti: „Vanþakklátur ertu, varmennið þitt! Eg fyrirgaf þjer glæpi þína, og hef þará ofan hafið þig til svo hárrar tignar, að þú gengur nær því jafnt sjálfum mjer, en þú hefur nú launað gott með illu og svikið

mig í tryggðum; þú hefur eigi svifizt að brjótast inn í kvennabúr mitt, og ekki ætlað þjer minna enn að ganga í stað herra þíns.“

Bachtjar sveið svo sárt að heyra þessi ámæli, að hann felldi tár af augum; svaraði hann konungi aptur kjökrandi, að hann gæti ekki skilið, hvernig á öllu þessu stæði; en ef hann hefði fundizt inní svefnherbergi konungs, þá hlyti hann að hafa haft eitthvað illt í hyggju; kvaðst hann því eiga hegningu skilið.

Ráðgjafinn beiddi konung leyfis, að mega fara til drottningar til að spyrja hana um atburð þann, er gerzt hafði um nóttina. Leyfði konungur það og fór ráðgjafinn þá á fund drottningar og mælti: „það eru ljótar sögur, sem ganga af yður, drottning mín! menn segja þjer haldið við ræningjason.“

Drottning varð óð og uppvæg við þessi sáru brígslyrði, og margsór sig saklausa, en ráðgjafinn, sem var mesti bragðarefur, hjelt áfram og mælti: „Konungur er bálreiður af öllu þessu, enda er það honum til hins mesta vansa. Nú er eigi nema eitt ráð til að spekja konung; það tjáir ekki annað enn að ákæra Bachtjar. Farið að ráðum mínum, því eg vil frelsa yður. Segið þjer konungi, að þessi æskumaður hafi fellt ástarhug til yðar; hafi ástin svo mjög heillað hann, að hann hafi gleymt öllum velgjörðum, er konungur hafi veitt honum, og hafi viljað freista yðar til ósóma. þjer verðið jafnvel að segja, að hann hafi hótað yður að beita hörðu, ef þjer ekki lofuðuð honum með góðu að framkvæma vilja sinn; hann hafi og sagzt hafa það í hyggju, að drepa konung og setjast svo sjálfur að völdum. þetta er eini vegurinn til þess, at vinna aptur hylli konungs og sefa geð hans. Gerið sem eg ræð yður. þjer þurfið ekkert að óttast; eg skal ábyrgjast að ráð mín munu duga.“

Drottning varð hreint forviða, er hún heyrði þetta; kvaðst hún eigi vilja hafa það á samvizku sinni, að hafa stutt að því, að saklaus maður yrði til dauða dæmdur; guð mundi og láta ráðgjafanum hefnast fyrir það, að ráða sjer til slíkrar óhæfu.

Ráðgjafinn sat við sinn keip og mælti: „það er eigi svo sem því sje að skipta, að Bachtjar sje saklaus; hann er gamall stigamaður, og hefur fyrir löngu gert sig dauða sekan; mótbárur yðar eru því ástæðulausar. Annars er eg manna fúsastur til þess, að flytja

málið fyrir yðar hönd, er það kemur til dóms og laga. Á sá maður meðaumkvun skilið, sem sjálfur er svo harðbrjósta, að hann getur fengið af sjer að úthella blóði saklausra manna? þetta er auk þess eini vegurinn til þess, að frelsa líf og mannorð yðar hátignar.“

Drottning ljet sjer nú þetta að kenningu verða. Ráðgjafinn fór aptur á fund konungs og var hróðugur af því, að hann hafði fengið illræði sínu framgengt. Konungur spurði ráðgjafann, hvers hann hefði orðið vísari. Ráðgjafinn kvaðst eigi geta sagt honum það, er hann hefði orðið áskynja um hjá drottningu; mundi hún sjálf segja honum allan sannleikann. Konungur gerði nú boð eptir drottningu, en hún sagði honum frá öllu, eptir því sem ráðgjafinn hafði lagt undir við hana. Konungur þóktist viss um, að drottning segði satt frá öllu, og ámælti henni því eigi hið minnsta. Kvaðst hann eiga sök að sjálfum sjer, er hann hefði tekið við syni stigamanns, og gert hann að hirðmanni sínum. Bauð konungur að leggja Bachtjar í járn og varpa honum í dýflissu. Daginn eptir ætlaði hann að hegna honum, og það svo harðlega, að flestum yrði minnistætt.

Bachtjar sat nú harmþrunginn og andvarpandi í myrkrastofunni og bað til guðs, sem nú var hið eina athvarf hans. Fjandmenn hans voru aptur á móti að hugsa um, hversu þeir mættu fyrirkoma honum; þeir vildu búa svo um hnútana, að honum yrði ómögulegt að umflýja dauðann. Daginn eptir kom því annar af vezírunum á fund konungs, laut honum og mælti: „Njótið herra! langra og farsællegra lífdaga! Konungskórónan skreyti höfuð yðar en sút og sorg firrist höll yðar! Friður og farsæld blómgist í heiminum, en fjandmenn yðar tortýnist! En þessi ósk mín getur eigi rætzt fyrr enn þjer eruð búnir að gjöra enda á óláni því, er hlotizt hefur af Bachtjar. Eg er enda hræddur um, að óorð leggist á hirð yðra ef þetta skyldi kvisast til útlendra konunga.“

Asad-bacht bauð nú að sækja Bachtjar og böðulinn. þegar þeir voru báðir komnir, mælti konungur: „Eg hef boðið að uppræta blóm lífs þíns úr jarðvegi ríkis míns, til þess að þín víti verði öðrum til varnaðar, sem breyta vilja eptir þínu dæmi.“

„Guð láti yðar hátign lifa lengi og farsællega,“ mælti Bachtjar; hann láti stjórn yðar verða víðfræga; það er andláts ósk mín.

En leyfið mjer þó að sanna sakleysi mitt. Eg er saklaus, það sver og við saman guð. En hvað stoðar þó eg segi þetta? Óhamingjan steðjar að mjer, og ólánið eltir mig. Það er líkt ástatt fyrir mjer og kaupmanninum, sem ekkert gat heppnast, af því hann var öllum heillum horfinn.“

„Í hvaða óhamingju rataði kaupmaður þessi?“ mælti konungur. „Mjer er eigi kunnugt, hvað á daga hans hefur drifið, og er mjer því forvitni á því.“ Bauð nú konungur Bachtjar að segja sjer sögu þessa, en hann varð glaður við, óskaði konungi allra heilla cg hamingju, og tók svo til frásagna.

## Sagan af kaupmanninum heillum horfna.

„Herra! eitt sinn var kaupmaður nokkur í Balsora, vellauðugur, en það var skrifað i bók forlaganna, að hann skyldi hrapa niðrí yztu myrkur armæðunnar af hinu hæzta stigi auðlegðarinnar. Fje hans eyddist óðum og öll fyrirtæki hans mistókust. Eitt ár var korn mjög dýrt. Kaupmaðurinn bjóst við, að uppskera mundi verða ennþá minni árið eptir; varði hann því fje sínu, því er eptir var, til kornkaupa; flutti hann kornið í hlöðu og bjó vel um; ætlaði hann að geyma það til næsta árs. Hvern daginn af öðrum var hann að vona, að korn mundi hækka í verði, en það brást, því árið eptir var ríkuleg uppskera; var korn þá selt gjafverði. Kaupmaður rjeði af, að geyma kornforða sinn þangaðtil árið eptir, en það átti heldur eigi að heppnast, því nú komu fjarskalegar rigningar, og gerðist svo mikill vatnagangur, að flest hús fóru á flot; lenti þá og vatn á kornhlöðu kaupmannsins, og vöknaði kornið. Lagði þegar svo megnan óþef frá hlöðunni, að nágrönnum hans þókti eigi viðvært; báru þeir sig upp um það við stjórn bæjarins, og lauk málinu svo, að kaupmaðurinn neyddist til að tæma hlöðuna og fleygja korninu. Kaupmanni lá nú við örvilnan yfir óförum sínum og hugsaði að bezt væri að koma í peninga því er eptir væri af fjármunum sínum, svo hann gæti haft eitthvað fyrir stafni. Seldi hann hús sitt, er eitt var eptir af eigum hans, tók sjer fari með öðrum kaupmönnum, til að vita, hvort sjer gengi ekki betur sjóverzlunin. Á þriðja degi fengu þeir andviðri og gerðist allt í einu myrkt í lopti, og brast á bálviðri með fjarska-

legum sjógangi; brotnaði skipið og týndust flestir, er á því voru. Þó komst kaupmaðurinn og nokkrir aðrir til lands á fleka einum, alls lausir og mjög þrekaðir. Ráfaði kaupmaðurinn lengi vel í óbyggðum einum, en loksins sá hann mann skammt frá sjer; varð hann þá fegnari enn frá verði sagt, er hann sá að hann var kominn til mannabyggða, og þóktist vita, að hann mundi geta saðt þar hungur sitt og svalað þorsta sínum. Gekk hann á manninn og fann brátt þorp eitt fjölmennt; var fagur skógur allt umhverfis þorpið og kvísluðust þar tærar og svalandi lindir.

Yfirmaðurinn í þorpi þessu var vellauðugur og hinn bezti drengur; átti hann fagurt hús í grennd við bæinn og hittist svo á, að hann var þar; hafði kaupmaðurinn fyrst komið auga á hann. Yfirmaðurinn spurði kaupmann, hvort hann vildi eigi vistast hjá sjer; skyldi hann segja fyrir verkum þar á heimilinu og fá sex drökmur í laun á degi hverjum. Kaupmanni þókti þetta stórmannlega boðið og tók því feginsamlega; óskaði hann yfirmanninum alls góðs og fór þegar í vistina. Tók kaupmaður nú við búsýslu; fór honum það vel úr hendi, og gekk hann hvervetna í stað húsbónda síns.

Nú leið og beið heilt ár og fór allt vel fram. En þegar kom að uppskeru tímanum, varð kaupmaðurinn hræddur um, að hann mundi verða svikinn um launin. Tók hann því nokkuð af korninu og skaut undan, og faldi vandlega; vildi hann vera viss um það. að bíða engan halla, þó húsbóndi sinn eigi vildi gjalda sjer kaupið. Síðan stóð hann húsbónda sínum skil á því, sem eptir var. En húsbóndi hans greiddi honum skilvíslega allt kaupið, og kvaðst skyldu gera hið sama eptirleiðis. Kaupmaður fyrirvarð sig fyrir tortryggni sína, er húsbónda hans fórst svo vel, og vildi eigi þiggja launin. Fór kaupmaður nú þangað, er hann hafði fólgið kornið, en brá í brún, er hann sá að því hafði verið stolið. Fjekk hann þá eigi dulið harm sinn, og fór til húsbónda síns og sagði honum satt frá öllu. Húsbóndi hans veitti honum harðar átölur og rak hann burt í bræði sinni.

Kaupmaðurinn lenti nú aptur á flækingi; ráfaði hann hingað og þangað og vissi eigi, hvað hann skyldi til bragðs taka. Loksins hitti hann menn, sem ætluðu að fara að safna perlum; spurðu þeir

hann, hvað ylli harmi hans, en hann sagði þeim frá öllum raunum sínum; kenndu þeir þá svo mjög í brjóst um hann, að þeir hjetu honum helmingi þess, er aflaðist í fyrstu leit. Vildi svo vel til, að þeir fengu tíu stórar skeljar, er þeir köfuðu niður á mararbotn í fyrsta sinni; voru tvær stórar perlur í hverri skel. Gáfu þeir kaupmanni tíu perlur, einsog þeir höfðu heitið honum, og sögðu honum, að hann skyldi selja þær og fá fje fyrir. Kaupmaður rjeði sjer nú eigi fyrir gleði; ljet hann tvær perlurnar upp í sig, en hinar átta saumaði hann í föt sín. þjófur nokkur var þar í grennd við hann og fjekk veður af, hvað kaupmaður hafði fyrir stafni; þókti þjófnum nú vel í veiði bera og fór til fjelaga sinna og sagði þeim til; komu þeir þá allir í einu og tóku frá kaupmanni perlurnar, hvað sem hann sagði. Svo hraparlegt sem þetta var, huggaði kaupmaður sig þó við það, að hann átti eptir þær tvær perlurnar, sem hann hafði upp í sjer. Hjelt hann nú hið hraðasta til þess bæjar, er næstur var, og fjekk kallara einum perlurnar til að bjóða þær til sölu. Til allrar óhamingju var þar í bænum gimsteinakaupmaður einn, sem stolið hafði verið frá tíu perlum, sem voru næsta líkar þeim, er kaupmaðurinn frá Balsora hafði á boðstólum. Perlusalinn þóktist þar þekkja perlur sínar, og styrktist í trú sinni, er hann sá, hve aumlega sá var til reika, er perlurnar þóktist eiga; en til þess að ganga úr skugga um það, ljezt hann spyrja í grandleysi, hvað orðið væri af hinum átta. Kaupmaðurinn sagði einsog var, að hann hefði saumað þær í föt sín, en ræningjar tekið þær af sjer. Perlusalinn þóktist nú eigi lengur þurfa vitnanna við; tók hann kaupmanninn og leiddi hann fyrir dómarann og mælti: „Herra! hjer er eg kominn með þann, er stolið hefur perlum mínum. Hjerna eru tvær af þeim, er hann hafði fengið kallara til þess að bjóða til sölu. Hann hefur sjálfur játað, að hinum átta hafi verið rænt frá sjer.“

Dómarinn þekkti perlusalann eigi að öðru, enn ráðvendni og ljet því lemja kaupmanninn og síðan varpa honum í dýflissu; sat hann þar heilt ár. Einn dag komu nokkrir af fiskimönnum þeim, er svo drengilega hafði farizt við hann, inn í dýflissuna, því þeim var forvitni á að skoða hana. Komu þeir þá auga á kaupmanninn og þókti undrum gegna að sjá hann þar. „Á, já já!“ sögðu þeir, „hjer

ert þú kominn, sem við ætluðum að gera að gæfumanni, en það hefur ekki átt úr að aka fyrir þjer. Þú ert núna eins aumur, og þegar við sáum þig fyrst." Kaupmaður svaraði og sagði, að eigi mætti sköpum renna; þeir, sem ólánið elti, ættu aldrei uppreistar von. Þeir hefðu að vísu ætlað að gera sjer vel til, en hefðu með velgjörð sinni gefið tilefni til þess, að hann hefði verið hnepptur í harða fjötra. Sagði hann þeim síðan allt hvernig farið hafði. Fiskimennirnir hughreystu hann; kváðust þeir skyldu tala máli hans, og hjálpa honum til að ná rjetti sínum. Enda fóru þeir samstundis á fund konungs þess, er þar var, og sýndu honum fram á, hversu mikil rangindi kaupmaðurinn hefði orðið að þola, og hversu allt hefði eins og lagzt á eitt, til þess að böndin bærust að honum saklausum. Konungur bauð þegar að láta hann lausan, og fjekk honum fje til viðurværis og lofaði honum að búa í grennd við höll sína; gerði konungur það til að bæta honum upp rangindi þau, er hann hafði orðið fyrir.

Nú hugði kaupmaður, að endað væri ólán sitt og naut nú áhyggjulaus alls góðs í skjóli konungs, en hjer kom að því, sem mælt er, að fár veit hverju fagna skal. Hann fann í húsi sínu glugga einn. sem hlaðið var í grjóti. Var honum forvitni á að vita, hvað væri hinumegin, og tók nokkra steina úr glugganum; sá hann þá, að húsveggurinn var rjett upp við hliðina á kvennabúri konungs. Skaut honum þá skelk í bringu, og hlóð hann í dauðans ofboði aptur upp í opið. Til allrar óhamingju varð hann eigi svo fljótur að koma öllu í samt lag, að menn fengju eigi veður af athæfi hans. Geldingur einn sá til hans og sagði konungi frá. Konungur vildi eigi fyrir nokkurn mun gera kaupmanni rangt til, og auka ólán hans að ófyrirsynju; fór hann því til kaupmanns, til að sjá með eigin augum, hvort geldingurinn segði satt. Sá konungur þá gjörla, að steinar höfðu verið nýlega teknir úr veggnum, sem var á milli herbergja kaupmannsins og hallarinnar. Konungur varð óður og uppvægur, er hann sá, hvað kaupmaður mundi hafa haft í hyggju, og sagði við hann af mikilli reiði: „Óhræsið þitt! eru þetta launin fyrir velgjörðir þær, er eg hefi veitt þjer, að þú reynir til að brjótast inn í kvennabúr mitt? En þú skalt líka fá makleg málagjöld fyrir ósvífni þína. Eg skal þegar í stað

láta stinga úr þjer bæði augun, svo þú getir eigi illt gert eptirleiðis.“ Voru síðan augun stungin úr kaupmanni vægðarlaust, að boði konungs. Hljóðaði kaupmaður þá upp yfir sig og sagði: „Æ, eg aumur maður! það var þá ekki nóg með það, að ólánið svipti mig öllum eigum mínum, heldur varð það líka að leggjast á sjálfan mig.“

Nú var kaupmaðurinn orðinn blindur og allslaus; var honum því nauðugur einn kostur, að fara á vonarvöl. Hann beiddi alla þá, er fram hjá fóru, ásjár og var þetta jafnan viðkvæði hans: „Allt er ónýtt ef lánið vantar; án guðs fulltingis megnum vjer ekkert.“

„Þjer sjáið nú af dæmi kaupmannsins, hversu ólánið getur ásókt menn,“ mælti Bachtjar við konung. „Eg get ekki heldur spornað við gæfuleysi mínu, og það er einsog allt styðji að því, að steypa mjer í glötunina.“

Konungi brá svo við, er hann heyrði sögu þessa, að honum rann reiðin um stund. Frestaði hann lífláti Bachtjars, en ætlaði sjer þó að hegna honum síðarmeir. Daginn eptir kom þriðji vezírinn, sem einsog hinir var svarinn óvinur Bachtjars, og mælti: „Herra! oss ráðgjöfum yðar sárnaði ígær, er vjer sáum að þjer þyrmduð illmenni þessu, sem hefur svívirt allt landið með ódæði sínu. það er að vísu dyggð að vera brjóstgóður, en það er svo bezt, að það sje í hófi. Hunangið er að vísu mesta sælgæti, en þó er hættulegt að neyta of mikils af því. Vjer biðjum eigi um annað, enn það sem rjett er; yður er háski búinn, ef þjer frestið máli þessu.“

Konungur fjellst á þetta, ljet sækja Bachtjar og mælti: „Nú ætla eg ekki lengur að láta fresta dauðdaga þínum. þú hefur framið þann glæp, að eg hlýt að láta drepa þig, til þess að þegnar mínir láti sjer víti þín að varnaði verða.“

Bachtjar svaraði konungi stillilega einsog daginn áður og mælti: „Herra! þjer eigið ráð á lífi mínu, en hugsið yður vel um, áður enn þjer látið drepa mig. það hefur opt hlotizt illt af ofmikilli óþolinmæði og bráðræði, og menn iðrast opt eptir, að þeir hafa eigi haft stillingu til að bíða. Hált varð konungssyninum frá Halep á óþolinmæði sinni; hann missti ríkið og unnustu sína, af því hann óhlýðnaðist ráðum föður síns, og sat ekki á óðlæti sínu.“

„Hver var þessi konungsson frá Halep?“ mælti konungur.
„Eg skal segja yður söguna af honum,“ svaraði Bachtjar.

## Sagan af konungsyninum frá Halep, eða Behesad hinum óþolinmóða.

„Það er upphaf þessa máls, að konungur einn ríkti í Halep; var það á þeim tímum, er Halep ennþá var höfuðborg í nokkrum smáríkjum. Konungur þessi var svo ástsæll meðal þegna sinna, sökum rjettvísi, lítilætis og ljúfmennsku, að það mátti heita að hann væri hugljúfi hvers manns. Konungur var og einkar gestrisinn; var því viðbrugðið, hve góðar viðtökur hann veitti öllum útlendum mönnum, er komu í ríki hans.

Konungur átti einn son, Behesad að nafni, hinn efnilegasta mann; var konungsson hvorttveggja, bæði fjölfróður og fríður sýnum. Þó hafði hann einn ókost. Það var óþolinmæði í honum, hvað sem hann hafði fyrir stafni, og var stundum hávær mjög, og það þegar verst gegndi. Eitt sinn átti hann tal við kaupmenn nokkra, og bar margt á góma. Einn af kaupmönnum sagði frá skrítnum atburði, sem komið hafði fyrir hann. „Fyrir hjerumbil þremur árum,“ mælti kaupmaður, „var eg á ferð með úlfaldalest, klyfjaða varningi, sem eg átti. Í grennd við borg eina rjeðust stigamenn á mig og rændu mig. Flýði eg þá sem fætur toguðu til að forða lífi mínu, og tók eigi eptir, fyr enn eg var kominn inn í þykkan skóg. Nóttin datt á og sá eg eigi annað ráð vænna, enn að fara upp í þjettlaufgaða eik, er var skammt frá þjóðbrautinni, og láta þar fyrirberast. Skömmu eptir að eg var kominn upp í eikina, sá eg björt ljós í allmiklum fjarska; ljósin færðust smátt og smát nær mjer og loksins kom flokkur manna og fór fram hjá með glaum og gleði. Þeim fylgdu menn með reykelsispönnur; var reykelsið svo ilmsætt, að ilminn lagði um allan skóginn. Því næst komu margir menn með söng og hljóðfæraslætti, og þrælar með blys í höndum. Í miðjum hópnum sá eg burðarstól, og í honum sat konungsdóttir ein forkunnar fögur; hef eg aldrei á æfi minni sjeð jafnfríða konu. Ljóminn af andliti hennar var bjartari enn af

blysunum; gekk mjer svo mjög í augu fegurð hennar, að mjer hefur hún aldrei síðan úr minni liðið, og er æ sem eg sjái hana. Morguninn eptir fór eg niður úr trjenu og hjelt áfram ferðinni til borgarinnar. Var mjer sagt, að borgin væri Rómaborg, aðsetur keisaranna. Spurðist eg fyrir um það, sem borið hafði fyrir mig um nóttina, og varð þess vísari, að það hafði verið Nikarína hin fagra, dóttir keisarans, er eg hafði sjeð fara framhjá. Hafði keisaradóttirin farið út í skemmtihöll eina út á landsbyggðinni, til að njóta þar sumarblíðunnar og hlýða á hin angurblíðu ástaljóð, sem næturgalarnir kveða við rósirnar."

Behesad fannst svo mikið um sögu þessa, að hann fór þegar á fund eins af ráðgjöfum föður síns, og sagðist vera orðinn svo gamall, að mál væri orðið að sjá sjer fyrir einhverjum ráðahag, og að hann vildi kvongast. Ráðgjafinn svaraði honum og sagði, að hann skyldi aðeins velja sjer gott konuefni, það er honum væri samboðið, og mundi konungur þá fús, að gera það, er hann beiddist.

„Vel segir þú," ansaði Behesad. „Eg hef augastað á Nikarínu hinni fögru, dóttur keisarans í Rómaborg, en engri annari konu; verður faðir minn því að senda menn gagngert, til að hefja bónorðið."

Ráðgjafinn flutti þetta mál við konung, en hann kvað þess engan kost, að gera það, er Behesad beiddist; mundi keisarinn eigi gefa dóttur sína neinum biðli, sem ekki hefði nema lítinn landskika til forráða og sem auk þess væri annarar trúar.

Þegar Behesad heyrði, hvernig konungur tók undir málið, varð hann hamslaus, og strengdi þess heit, að ef föður sínum snerist eigi hugur, mundi hann taka til sinna ráða og fara sjálfur og biðja keisaradóttur. Fjekk það konungi svo mikillar áhyggju, að hann ljet undan, og sendi menn með dýrum gjöfum til keisarans. Keisarinn tók mæta vel við sendiherrunum, en varð þó fár við, er þeir báru upp erindið. Þó gerði hann Behesad kost á að fá dóttur sinnar, ef hann gæti sent sjer tíu miliónir gullpeninga.

Sendiherrarnir sneru nú heim aptur, og sögðu konungi málalokin, en hann kvaðst eigi sjá neinn veg til þess að safna svo miklu fje. Síðan ljet konungur það að orðum sonar síns, að hann safnaði saman öllu því fje, er fengizt gat og varð það þrjár miliónir gullpeninga. Behesad lagði æ fastara og fastara að föður

sínum, og loksins ljet konungur til leiðast og seldi mikinn fjölda þræla og dýrgripa, og fengust fyrir tvær miliónir gullpeninga; neyddist konungur þessutan til að leggja aukaskatt á þegna sína, og fjekk með því sex miliónir gullpeninga að öllu samtöldu; sendi hann keisara fje þetta. Keisarinn tók við fjenu, og hafði sendiherrana í hávegum; hjet hann þeim, að hann skyldi efna loforð sín, þegar hann væri búinn að fá allt fje það, er hann hefði áskilið sjer.

þegar Behesad heyrði þetta, fór hann þess á leit við föður sinn, að hann legði að nýu skatt á þegna sína, einkum jarðeigendur og kaupmenn. Konungur aftók það; kvaðst hann eigi leggja nýjan skatt á þá fyr enn þeir væru búnir að ná sjer aptur eptir hinn fyrra skattinn. Behesad hótaði föður sínum þá, að hann skyldi fara burt úr ríki hans og stíga þar aldrei fæti framar, ef að hann engi eigi vilja sinn.

„þá verður þú að bíða minnsta kosti eitt ár, sonur minn!“ mælti konungur.

„Nei, eg fer,“ svaraði Behesad.

„þá hálft ár.“

»Heldur ekki.“

„þrjá mánuði samt að minnsta kosti.“

„Nei, eg get ekki beðið þrjá daga.“

„Farðu þá, hvenær sem þú vilt,“ mælti konungur.

Behesad fór nú inn í herbergi sitt og kallaði á tvo af trúnaðarmönnum sínum; bjóst hann síðan til ferða og lagði á stað.

Fám dögum síðar mætti hann lestamönnum, er ætluðu til Rómaborgar, og höfðu hundrað úlfalda undir þungum áburði; rjeð ferðinni vellauðugur maður og aldavin keisarans.

Behesad komst í kunningskap við mann þennan. Veitti hann Behesad húsrúm í höll sinni í Rómaborg og varð svo kært með þeim, að Behesad sagði honum frá ástamálum sínum og ágreiningi þeirra feðga, sem af því hefði risið. Bauð maðurinn Behesad þá að lána honum þær fjórar miliónir er upp á vantaði, ef hann vildi gangast undir að borga sjer það síðarmeir, er hann yrði konungur á Sýrlandi, að föður sínum látnum. Behesad gekk að þessum kostum. Fór hann síðan í fögur klæði einsog konungssyni sæmdi, og gekk til hallar keisara með veglegu föruneyti, og beiddist orlofs

að mega ganga á fund keisara, til að greiða honum fjeð. Keisari tók honum tveim höndum, og kvaðst fús á að gefa honum dóttur sína, en beiddi um tíu daga frest til að búa undir brúðkaupið. Behesad kvaðst vera svo óðfús að stíga á brúðarbeðinn, að slíkur frestur yrði sjer með öllu óþolandi. Keisarinn vildi þá fá þrjá daga til undirbúnings, en Behesad vildi ekki gefa honum meira enn einn dag. Keisari skildi ekki í þessari óþolinmæði og bauð að halda skyldi brúðkaupið og efna til dýrðlegrar veizlu. Behesad fannst hver stundin leið og löng, sem hann varð að bíða brúðarinnar; hann reyndi því til, að komast eptir, hvar hún byggi í höllinni. Fann hann loksins sal þann, er keisaradóttir hafði verið flutt í daginn áður. Inní salinn mátti sjá um rifu eina, og horfði Behesad inn um hana. Nikarínu varð litið á rifuna og sá að einhver var þar á gægjum; bauð hún þá einni af þjónustukonum sínum að taka tvo járnteina glóandi, og reka úr honum bæði augun, svo hann hefði nokkuð fyrir forvitnina. Þjónustukonan gerði sem keisaradóttir bauð; Behesad hrein hástöfum upp yfir sig og hnje niður. Menn ætluðu að vísu til að hjálpa Behesad, en fengu eigi aðgert; það var ekki hægt að gefa honum sjónina aptur. Eigi var svo, sem hann gæti kvartað yfir hrakfalli sínu, því engum var um að kenna nema sjálfum honum; ólánið hafði af engu öðru hlotizt enn bráðræði hans og óþolinmæði. Keisarinn kvaðst, sem von var, ekki geta gefið blindum manni dóttur sína. Nú varð Behesad, þó honum þækti súrt í brotið, að halda heim aptur til Sýrlands og missa konu þeirrar, er hann unni hugástum.

Þegar faðir hans andaðist, vildu þegnar hans eigi hafa blindan konung. Varð Behesad þannig að lifa í sorg og sút það er eptir var æfinnar. Þetta hlauzt af bráðræði hans og óþolinmæði.

Af þessu sjáið þjer, konungur! hversu illt getur af hlotizt, þegar menn hrapa að hverju einu. Ef Behesad hefði haft þolinmæði til að bíða til næsta dags, hefði hann orðið einhver gæfumesti konungsson í öllum heimi. Þetta slys hefði heldur eigi viljað til, ef brúðurin hefði betur athugað, hvað hún bauð þjónustukonunni að gera; þá hefði brúðguminn eigi misst sjónina af hennar völdum."

Svo var að sjá, sem Asad-bacht kæmist við af sögu þessari; sagði hann, að fresta skyldi lífláti Bachtjars til næsta dags. Þegar

konungur daginn eptir var seztur í hásæti sitt, kom einn af vezírum hans og mælti: „Herra! glæpur Bachtjars er orðinn svo hljóðbær, að það má eigi lengur dragast, að honum sje hegnt. Menn undrar stórum, að þjer skulið fresta því að refsa manni, sem unnið hefur annað eins óbótaverk og þessi hefur unnið. Virðing yðar og velferð landsins liggur við, ef þjer eigi vindið bráðan bug að máli þessu."

Síðan ljet konungur sækja Bachtjar og sagði honum, að það væri ásetningur sinn, að láta drepa hann.

Bachtjar svaraði konungi og mælti: „Herra! hafið biðlund og rasið eigi um ráð fram. Menn þakka opt sínum sæla fyrir, að þeir hafa verið gætnir og varkárir. Þolinmæðin er opt mikilsverð. Það var aðeins með þolinmæðinni, að honum Abú-Szaber tókst að komast upp úr djúpum brunni og í konungshásætið."

„Hversu mátti það verða?" mælti konungur.

Bachtjar tók þá til frásagna.

## Frá Abú-Szaber *).

Maður hjet Abú-Szaber; hann var auðugur að fasteignum, og bjargvættur nágranna sinna; þurfti mikinn mannafla til að yrkja akra hans, og gátu því margir fengið atvinnu hjá honum; fórst honum vel við þá, og þókti þeim svo vænt um hann, að hann var sannkallað átrúnaðargoð þeirra.

Einn af smalamönnum hans kom eitt sinn til hans með öndina í hálsinum, og sagði honum, að það hefði orðið vart við ljón þar í grenndinni og hefði það rifið sundur nokkra sauði. Ljónið lagðist á fjeð, og fækkaði því óðum dag frá degi, svo eigi var annað sýnna, enn að Abú-Szaber mundi verða sauðlaus. Kona hans taldi um fyrir honum; hann skyldi reyna hvort hann gæti eigi lagt meinvætt þenna að velli, en Abú-Szaber hugsaði með sjer: „Það er bezt að hafa þolinmæði, því þolinmæðin þrautir vinnur allar. Ljón þetta, er leggst á fje mitt, er grimmt og illt viðureignar; rjettlæti guðs, sem er hirtingarvöndur syndarans, mun fyr eður síðar typta það. Það er bezt að bíða, og sjá hversu fer." Skömmu

*) Þ. e. föður þolinmæðinnar.

síðar drap konungur á dýraveiðum ljón þetta, og rættist þannig það sem Abú-Szaber hafði sagt.

Skömmu eptir þetta var maður einn veginn í þorpi því, er Abú-Szaber bjó í, og gat enginn af þorpsbúum sagt, hver valdur var að víginu; reiddist konungur þá og ljet ræna og rupla hvert hús í þorpinu. Abú-Szaber missti þannig hartnær aleigu sína.

Kona hans eggjaði hann á, að fara til konungs og bera upp vandkvæði sín; mundi hverjum manni við hirðina vera kunnugt sakleysi hans, og mundi hann því fá bættan skaða sinn, en hann svaraði: „það er bezt að hafa þolinmæði. Hafi konungur rangt gert, þá mun honum einhvern tíma hefnast fyrir það. Sá sem sviptir náunga sinn eigum hans, mun og eitt sinn sjálfur missa sínar.“

Einn af óvildarmönnum hans hafði heyrt þetta, og sagði konungi frá. Varð konungur þá svo reiður, að hann svipti Abú-Szaber öllu því, er hann átti eptir af eigum sínum, og rak hann burt af bújörð sinni með konu og börnum. Kona hans ámælti honum; sagðist hún ávallt hafa sagt, að tómlæti hans og undandráttur mundu koma þeim á kaldan klaka. „Við erum vel stödd núna, hitt þá heldur,“ mælti hún, „þar sem við erum húsnæðislaus og allslaus.“

„Vertu þolinmóð, kona góð!“ mælti Abú-Szaber. „þolinmæðin mun fyr eða síðar laun úr býtum bera.“ Í því hann mælti þetta, rjeðust stigamenn á þau og ræntu þau eigi aðeins því litla, sem þau höfðu meðferðis, heldur færðu þeir þau og úr fötunum og tóku af þeim tvö börn, sem þau höfðu með sjer. Kona hans bað hann nú grátandi, að hlaupa á eptir ræningjunum, ef svo mætti fara, að þeir aumkvuðust yfir hann; sjer þækti líklegt, að honum sárnaði að sjá ræningjana fara burt með báða syni sína. Abú-Szaber svaraði henni svofeldum orðum: „Vertu þolinmóð, elskan mín! Sá sem illa breytir fær ill gjöld; ódyggð hans mun honum eitt sinn í koll koma. Ef eg elti stigamenn þessa, kynni einhver þeirra að drepa mig, og hvað yrði þá um þig, einstæða konu? Nei, þolinmæðin, segi eg, er hin eina bót við öllu böli okkar.“

Nú hjeldu þau áfram ferðinni hrygg í huga, og komu að þorpi einu í Kerman. Stóð þorpið á fljótsbakka og beiddi Abú-Szaber

konu sína að bíða sín á meðan hann skryppi inn í þorpið; kvaðst hann ætla að vita, hvort hann gæti eigi komið þeim fyrir. Meðan Abú-Szaber var burtu, kom riddari að fljótinu og vatnaði hesti sínum; sá hann konuna og leizt vel á hana, og spurði hana, hvort hún vildi eigi koma með sjer. Hún bar það fyrir, að hún væri gipt, og mundi manni sínum bregða í brún, ef hann eigi fyndi sig, þegar hann kæmi aptur. Riddarinn ljet sem hann heyrði það eigi; brá hann sverði sínu og bauð henni að setjast á bak fyrir aptan sig. Það var aðeins með naumindum, að hún fjekk tíma til að rita þessi orð í sandinn: „Abú-Szaber, nú ertu búinn að missa allar eigur þínar, börn þín og konu þína. Nú skulum við sjá, hvað þolinmæðin þín hjálpar okkur.“

Þegar Abú-Szaber kom aptur, var kona hans öll á brottu; sá hann orðin í sandinum, og fjekk þá eigi tára bundizt. Samt harkaði hann af sjer og mælti: „Nú mun eigi veita af að vera þolinmóður, því verið getur að enn verra taki við.“ Allt fyrir það rann honum konumissirinn svo mjög til rifja, að hann ráfaði hingað og þangað í leiðslu og sinnuleysi.

Á flakki þessu hitti hann menn nokkra, sem þröngvað hafði verið til að reisa höll eina handa konungi; var hann þegar tekinn höndum, er hann kom til þeirra; gerðu þeir honum tvo kosti, að hjálpa til með hallarsmíðina eða sitja í ævarandi fangelsi. Varð Abú-Szaber þá að ganga að vinnu með öðrum verkmönnum; fjekk hann eigi önnur laun, enn eitt lítið byggbrauð á degi hverjum, sem aðeins nægði honum til viðurværis.

Þegar Abú-Szaber hafði gengið að vinnu með þeim í þrjá mánuði, fótbrotnaði einn af lagsmönnum hans. Hljóðaði hann þá aumkvunarlega, en Abú-Szaber mælti við hann: „Vertu þolinmóður, kunningi!“

„Eg vil ekki heyra þetta bull,“ svaraði hinn; „hvað lengi á eg að vera þolinmóður?“

„Ávallt,“ ansaði Ábú-Szaber, „því þolinmæðin getur komið manni upp úr brunni og í konungshásætið.“

Konungur stóð við einn gluggann í höll sinni og heyrði, hvað Abú-Szaber sagði; þókti konungi þessi orð tortryggileg, og bauð að

taka þann, er þau hefði mælt, og renna niður í geysi djúpan brunn. Úr brunninum láu löng og flókin göng undir jörð niðri.

Konungur gekk á degi hverjum fram á brunnbarminn og mælti til Abú-Szabers þessum skapraunar orðum: „Hvenær heldurðu að þú með allri þolinmæðinni komist upp úr brunninum og í konungssætið?“

Þó var þess eigi eins langt að bíða, og hann hugði. Konungur hafði fengið öfund á einum af bræðrum sínum, og hleypt honum niður í þetta sama jarðhús, og látið hann sitja þar í varðhaldi. Hafði hann látið þar líf sitt, bæði af illri meðferð og harmi.

Eigi vissi alþýða þó annað, enn að hann væri á lífi, og þókti mönnum það mjög ranglátt, að konungur ljet bróður sinn sitja í dýflissu. Loksins urðu menn svo óánægðir með stjórn konungs, að eigi þókti svo búið mega standa; gerðu þegnar konungs hverja uppreistina á fætur annari, og lauk svo, að þeir drápu konung. Ruddust menn síðan inn í jarðhúsið, til að frelsa bandingjann.

Þar var enginn annar, enn Abú-Szaber, og hugðu menn að hann væri bróðir konungs. Var það hvorttveggja, að þeir voru alllíkir, enda þókti mönnum líklegt, að konungs bróðirinn hefði breyzt í útliti eptir svo langa dvöl í dýflissunni. Einn af höfðingjum ríkisins laut honum og mælti: „Konungsson! bróðir yðar hefur fengið makleg málagjöld, og erum vjer nú komnir þess erindis, að bjóða yður konungdóm í hans stað.“

Abú-Szaber þóktist sjá, að þetta væru laun þolinmæði sinnar; fór hann þegjandi í konungsskrúðann, og settist á veldisstólinn. Hann var einkar rjettlátur í stjórn sinni, og varð hvers manns hugljúfi, sakir góðgirni, rjettsýni og samvizkusemi. Hann ljet sjer og mjög um það hugað, að hafa sem öflugastan her til landvarnar; nágranna konungum hans stóð því geigur af honum, og þókti ríki hans eigi árennilegt.

Nú víkur sögunni til konungs þess, er áður er umgetið, að gert hafði Abú-Szaber öreiga, og rekið hann burt úr þorpi því, er hann hafði búið í. Konungur einn hafði farið með óvígan her á hendur honum, unnið höfuðborgina, og rekið hann burt úr ríki sínu. Kom hann nú á landflótta til hirðar Abú-Szabers og beiddi hann fulltingis til að vinna aptur land sitt. Bauð konungur þá að taka hann höndum og flytja hann til landamæra ríkis síns

Enginn gat skilið, hvernig á því stóð, að konungi mót vanda fórst svo ódrengilega við konung þenna, er leitaði á náðir hans, en kynlegast þókti hirðmönnum, er Abú-Szaber mælti við hinn aðkomna konung þessum orðum: „Nú sjerðu hvað þolinmæðin orkar, því það er þolinmæðinni að þakka, að þú ert nú á mínu valdi.“

Einn dag er konungur var að mæla málum manna, var leiddur fram fyrir hann flokkur stigamanna, og þekkti konungur syni sína í hópnum: „Hvaða sveinar eru þetta?“ mælti konungur. Ræningjaforinginn kvaðst hafa rænt þeim eigi alls fyrir löngu, en þeir hefðu aldrei viljað láta leiðast til að taka þátt í ránum með sjer. „Yður er óhætt,“ mælti ræningjaforinginn enn fremur, „að taka þá í yðar þjónustu, og vjer dirfumst enda sjálfir, að bjóða yður þjónustu vora og auðæfi. Ef að þjer, konungur! viljið gefa oss grið, munum vjer berjast drengilega í liði yðar, og selja yður í hendur þá fólgnu fjársjóðu, er vjer höfum dregið saman.“

Konungur vildi engum boðum taka af stigamönnum; ljet hann fara með sonu sína í höllina, en bauð að varpa stigamönnum í dýflissu; þó ljet hann þá áður segja sjer. hvar þeir hefðu fólgið fje sitt.

Nú kom aptur illur kurr í menn, er konungur bauð að varpa ræningjunum í dýflissu; tóku menn að stinga saman nefjum, og sögðu, að konungur væri næsta hlutdrægur, er hann færi vel með tvo af þeim, en hegndi öllum hinum harðlega, og það þótt þeir segðu honum til fólgins fjár.

Það er frá Abú-Szaber að segja, að hann fór til hallarinnar og sagði sonum sínum hið sanna um, hver hann væri, og með hverjum atburðum hann hefði orðið konungur. Þó grjetu þeir beisklega, er þeir heyrðu að móðir þeirra hafði verið brott numin; móðurmissirinn var hið eina, sem gerði skarð í hamingju þeirra, og svipti þá þeirri gleði, sem þeir ella mundu hafa notið.

Skömmu síðar kom maður og kona til konungs. Maðurinn ásakaði konuna fyrir það, að hún vildi eigi hlýða sjer og eigi þýðast ástaratlot sín. Í stað þess að láta manninn ná rjetti sínum, bauð konungur að taka hann og hálshöggva. Með því svo leit út sem þetta væri himinhrópandi ranglæti, urðu þegnar hans, bæði háir og lágir, svo æfir, að til almennrar uppreistar horfði; gerði

Abú-Szaber þá heyrum kunnugt, hvernig á öllu stæði og mælti: „Nú er kominn tími til, að eg skýri yður frá nokkru, sem eg allt til þessa hef orðið að draga dulur á; nú neyðist eg til að gera það uppskátt, til þess þjer eigi ætlið, að dómur sá, sem eg hef upp kveðið, sje ranglátur. Eg er eigi bróðir konungs ykkar, sem fyr var, en eg varð, eins og hann, að kenna á harðýðgi hans. Eg sagði einusinni til að hughreysta einn af lagsmönnum mínum, að þolinmæðin gæti komið mönnum upp úr brunni og á veldisstólinn. Heyrði konungur orð mín og reiddist hann mjer þá svo, að hann ljet renna mjer niður í brunn einn, sem ganga má úr í jarðgöng þau, er þjer funduð mig í. Þessu næst mun eg gera grein fyrir gjörðum mínum. Konungurinn, sem beiddi mig liðveizlu, var fyrmeir lánardrottinn minn; svipti hann mig þá ranglega aleigu minni og gerði mig útlægan um allt ríki sitt, svo eg neyddist til að leita mjer hælis í öðrum löndum. Hann átti það því aldrei nema skilið, að eg hegndi honum fyrir grimmd sína, jafnskjótt og eg fjekk færi á því. Stigamennirnir, sem eg ljet setja í varðhald, höfðu rænt mig sonum mínum; eg hefi fundið þá í flokki ræningjanna, og gefið þeim grið. Nú sjer hver heilvitamaður, að eg gat eigi fyrirgefið svo stórt brot, og eigi heldur hegnt sonum mínum; fje það, sem eg hef þröngvað ræningjunum að segja til, var allt ránsfje; hef eg því eigi gert annað enn rjett var og viðurkvæmilegt. Þá virðist og svo, sem yður þyki ranglátt, að eg ljet drepa manninn, sem kvartaði um óhlýðni konu sinnar. En svo er mál með vexti, að þessi kona var eiginkona mín; hafði hann numið hana brott skammt frá borg þessari, er eg var eigi viðstaddur. Eg get því eigi betur sjeð, enn að eg hafi í öllu þessu gert það eitt, er rjett var.“

Allur þingheimur æpti í einu hljóði fagnaðar ópi, og gerði góðan róm að máli konungs; lýðurinn kepptist um, hver sem betur gat, að biðja fyrirgefningar á því, að hann hafði getið ills til svo rjettláts konungs. Lifði konungur eptir þetta bæði vel og lengi; var hann virtur og elskaður, eigi aðeins af vandamönnum, heldur og öllum þegnum sínum.

„Konungur!“ mælti Bachtjar, „af þessu megið þjer ráða, hve affaragóð þolinmæðin er, og hve illt getur hlotizt af bráðræði og flasfengni. Gætið þess, að það verður eigi aptur tekið ef þjer látið

drepa mig; kynni þá svo að fara, að þjer sæjuð eigi fyr enn um seinan, að yður hefði yfirsjezt og að þjer hefðuð gert mjer rangt til.“

Konungur sefaðist, er hann heyrði þetta; sagði hann, að fresta skyldi lífláti Bachtjars til næsta dags.

Daginn eptir gekk fimmti vezírinn fyrir konung og tók svo til máls: „Ef þjer, herra! frestið dauðdaga Bachtjars, þá mun illt af því leiða fyrir lönd og lýð. Stigamenn hafa látið sjer dæmi Bachtjars að góðri kenningu verða; þeir eru nú orðnir svo ósvífnir, að þeir segja: „Fyrst að honum helzt uppi, að laumast inn í svefnherbergi konungs, þá þurfum vjer eigi að kvíða því, að oss verði neitt gert fyrir athæfi vort. Sakadólgurinn segir konungi sögu korn á degi hverjum og fær þannig frestað dauða sínum. Vjer þurfum eigi annað, enn sletta í konung einhverri sögunni, ef í nauðirnar rekur.“

Konungi þókti sárt að heyra þetta, enda sá hann að ráðgjafinn hafði satt að mæla. Ljet hann þá þegar koma með Bachtjar, og mælti: „Þú skalt eigi ætla það, að eg láti þig aptra mjer með sögu þvættingi, og fresti dauðdaga þínum þangað til sakleysi þitt sannast. Í dag skaltu drepinn verða, svo að dæmi þitt sje öllum þeim til viðvörunar, sem leiðast kynnu til slíkrar óhæfu sem þú hefur í frammi haft.“

Bachtjar svaraði konungi svo feldum orðum: „Ef þjer, konungur! viljið lofa mjer að mæla nokkur orð, mun guð umbuna yður með eilífri sælu. Hvernig ættuð þjer, konungur! sem með návist yðvarri veitið hvervetna yndi og ánægju, að geta fengið það af yður, að beita hörku og harðýðgi, við mig einan, og þartil saklausan. — Því saklaus er eg; það sver eg við nafn allsvitanda guðs?“

Við þessi orð brá konungi svo, að það runnu á hann tvær grímur. Mælti Bachtjar þá enn fremur. „Eg skora á yður, konungur! að gefa mjer nokkurra daga frest; mun eg þá sanna sakleysi mitt með skýrum rökum. Látið þetta að orðum mínum; þá munuð þjer verða eins feginn og konungurinn í Arabíu, sem átti auðnu sína og upphefð því að þakka, að hann stillti sig, er hann var reiður þræl nokkrum, er hafði móðgað hann.“

„Hvaða konungur var það?“ mælti Asad-Bacht. Bachtjar sagði honum sögu þá, er nú skal greina.

## Sagan af konungssyninum frá Sangebar.

Einusinni var konungur í Arabíu; hann var grimmur og harður, og undu þegnar hans því illa stjórn hans. Konungur hafði rænt sveini nokkrum á Sangebar-ströndinni og gert að þræl sínum. Sveinninn hjet Abraham og var sonur konungsins í Sangebar. Hann fór dult með ætterni sitt, og vissi enginn við hirð Arabakonungs, að hann var konungsson. Abraham komst brátt í mjúkinn hjá konungi; fylgdi hann honum hvervetna og gætti vopna hans.

Einu sinni voru þeir konungur á dýraveiðum; voru þeir lengi að eltast við hjört einn; skaut konungur hvað eptir annað á hjörtinn, en hitti aldrei. Abraham skaut einnig, en þá tókst svo óheppilega til, að skotið kom í eyra konungs; nam skeytið nokkuð burt af eyranu, og blæddi mikið. Konungur var manna bráðastur, og varð því óður og uppvægur; bauð hann mönnum sínum að höggva þrælinn þegar í stað, en Abraham mælti: „þjer vitið. konungur! að þetta var óvilja verk; það er klaufaskap mínum og engu öðru að kenna, að þetta slys vildi til, sem nú ætlar að ríða mjer að fullu. Virðist að fyrirgefa mjer brot mitt. Góðverk verður aldrei ólaunað, og þeim, sem fyrirgefur, mun fyrirgefið verða.“ Konungur kenndi í brjóst um þræl sinn, stillti reiði sína og tók aptur boð sitt. Hjelt Abraham svo aptur heim til borgarinnar og var fegnari enn frá verði sagt; þakkaði hann konungi fögrum orðum fyrir lífgjöfina.

Konungurinn í Sangebar hafði lengi haldið spurnum fyrir son sinn, þann er rænt hafði verið, og varð þess loks vísari, hvar hann var niður kominn, að hann var sem þræll við hirð Araba konungs. Ekki þókti honum samt ráðlegt, að krefjast hans sem sonar síns, því hann sá að Araba konungur mundi þá heimta geysimikið fje í lausnargjald. Fól hann því einum af mönnum sínum, þeim er honum þókti bezt til þess fallinn, þann starfa á hendur, að fara og freista, ef hann mætti ná sveininum, svo ekki bæri á. Bjóst hann þegar á stað, og fjekk svo mikið skotsilfur til fararinnar, sem hann þurfti.

Hjelt hann síðan á stað og segir eigi af ferðum hans fyr enn hann kom til Araba konungs. Fjekk hann brátt færi á að sjá konungssoninn frá Sangebar og komst að máli við hann. Minnti hann kóngsson á átthaga sína og lýsti með fögrum orðum ást föður hans, og gat kóngsson þá eigi að sjer gert að gráta, og hrundu tárin títt af augum hans, einsog dögg á vordegi. Sendimaður sagði kóngssyni þá, hvers erindis hann væri kominn. Abraham var fús á að strjúka, og rjeðu þeir af að halda á stað samdægurs. Fóru þeir í dularklæði, og var búningur þeirra líkastur þeim, er kaupmenn tíðka. Hjeldu þeir á stað um kvöldið og komust klaklaust til höfuðborgarinnar í Sangebar. Þegar konungur fregnaði komu sonar síns, sendi hann sveit hermanna móti honum, og ljet efna til dýrðlegustu veizlu; var mesti gleðibragur á öllu, er kóngsson hjelt innreið sína í borgina.

Nú víkur sögunni til Araba konungs. Hann þóktist sakna vinar í stað, þar sem uppáhalds þræll hans var horfinn svo sviplega, og rjeði hann sjer ekki fyrir órósemi. Hugsaði hann eigi um annað, enn hvernig hann ætti að ná honum til sín aptur. Ljet hann í því skyni seglbúa herskip eitt, dró að sjer lið mikið og sigldi því næst á stað til að leita Abrahams; var þetta skömmu síðar enn hann hvarf. Fyrstu dagana gekk ferðin vel; mátti heita að konungi ljeki allt í lyndi, enda skorti ekkert á skipinu það er vera mátti konungi til skemmtunar á sjóferðinni. En því var eigi lengi að fagna, því kvöld eitt laust á ógurlegu þrumuveðri, með geysistormi; gerðist þá sjógangur mikill, svo flest varð undan að láta. Varðist skipið vel, en að lokum leysti það sundur í hafrótinu. Mundi konungur hafa týnzt þar, ef hann hefði eigi náð í fleka; hrakti vindur og alda hann í sjö daga, en á áttunda degi skolaði honum á land, og var hann þá nær dauða enn lífi. Fundu fiskimenn nokkrir hann þannig á sig kominn. Ætluðu þeir að spyrja hann, hver hann væri, en hann gat engu svarað, enda var hann svo þrekaður eptir sjóvolkið, að hann var nær sem örendur. Dreyptu fiskimenn þá á hann viðsmjöri og vaknaði hann við það úr rotinu, og varð þess vísari, að hann hafði beðið skipbrot við strendur Sangebars. Fiskimenn sögðu honum og, að eigi væri nema þingmannaleið til höfuðborgarinnar. Herti

konungur þá upp hugann og hjelt á stað til höfuðborgarinnar; komst hann þangað um kvöldið, þreyttur og lúinn. Vissi konungur eigi, hvar hann skyldi leita sjer hælis, er hann var öllum ókunnugur, og varð sú niðurstaðan, að hann gekk undir þakbrún á hlöðu einni og ljet þar fyrirberast um nóttina. Sömu nóttina brutust þjófar inn í hús kaupmanns þess, er hlöðuna átti; drápu þeir húsbóndann, konu hans og börn, og tóku allt fjemætt, er þeir fundu.

Araba konungur hafði sakir þreytu sofið svo fast, að hann vissi ekkert af því, sem gerzt hafði um nóttina. Morguninn eptir fóru menn að leita að þeim, sem valdir voru að verkinu; fannst konungur þá undir þakbrúninni, og var þegar tekinn höndum. Það var hvorttveggja, að konungur var blóðugur og ærið illa til reika, enda hugðu menn að hann væri vegandinn, og fóru með hann til konungs, og sögðu honum málavöxtu. Reiddist konungur þá og mælti: „Hjelztu, þorparinn þinn! að höfðingi sá, sem hjer ríkir, mundi vera svo skeytingarlaus, að þjer mundi haldast manndráp og þjófnaður uppi bótalaust? Hvað manna ertu? Segðu, hverjir hafa verið í vitorði og verki með þjer, og hvar þú hefur fólgið fje það, er þú hefur rænt.“

„Herra!“ svaraði Araba konungur, en þorði þó eigi að segja til sín, „eg er af konungum kominn. Mig langaði til að kanna ókunnuga stigu og sjá önnur lönd; stje eg því á skipsfjöl og ljet í haf. Hrakti stormur mig hjer að landi yðru, og brotnaði skip mitt, en sjálfum mjer köstuðu öldurnar á land upp. Eg kom hingað í gærkveldi; var mjög frammorðið, en eg öllum ókunnugur; var mjer því nauðugur einn kostur, að liggja úti. Sofnaði eg fast, en vaknaði við vondan draum; vissi eg eigi fyrri til, enn eg var tekinn höndum, og mjer borið á brýn, að eg væri valdur að stórglæp, sem eg er með öllu sýkn af. Var eg svo leiddur á fund yðvarn.“ Þá mælti konungurinn í Sangebar: „Þjer skal aldrei takast að villa sjónir fyrir mjer með ósannindum, hvað kænlega sem þú lýgur; böndin berast að þjer, staðurinn þar sem þú varst handsamaður, blóðsletturnar á líkama þínum, allt sýnir það berlega, að þú ert sekur. Eg get ekki lagt neinn trúnað á sögusögn þína, eða tekið afsakanir þínar til greina. Skal þjer nú grimmlega hegnt fyrir glæpi þína, svo að fjelögum þínum, sem gengið

hafa úr greipum mjer, skjóti skelk í bringu.“ „Herra!“ svaraði Araba konungur, „eg er af sama bergi brotinn og þjer; eg er konungborinn. Þjer megið ekki geta svo ills til mín; guð sjer sakleysi mitt, þó þjer, ef til vill, ekki sjáið það.“ Þóktist konungur nú sjá á svörum bandingjans, að hann mundi vera mikils háttar, og á hinn bóginn vakti fyrir honum, að eigi er allt sem sýnist; gaf konungur honum því grið, og ljet aðeins setja hann í varðhald. Bak við fangelsið var garður einn skógi vaxinn; rann eptir honum lækur, en skugga mikinn lagði af trjánum; þangað var bandingjunum lofað að koma til að viðra sig. Einusinni sá Araba konungur, að kráka settist á garðmúrinn. Hugsaði hann þá með sjálfum sjer: „það er bezt að vita, hvort eg get ekki hæft krákuna með hnútunni þarna; hæfi eg hana, þá veit það á bráða lausn úr fangelsi þessu. En missi eg krákunnar, þá mun eg lengi mega sitja í varðhaldinu. Að svo mæltu kastaði hann hnútunni af öllu afli til krákunnar, en hún flaug brott.

Hinumegin við múrinn var kóngsson að kanna herlið á grösugu sljettlendi. Tókst svo illa til, að kóngsson varð fyrir hnútunni; kom hún í eyrað og varð það allmikið sár. Hljóðaði kóngsson, er hann sá blóðið laga af sjer, og bauð að komast fyrir, hver hnútunni hefði sent. Komst þá brátt upp, að það var Araba konungur og var aptur farið með hann á fund konungs.

Araba konungur var svo illa út leikinn, að Abraham þekkti hann eigi. Konungurinn var nú orðinn þræll, og þrællinn konungsson. „Hvað hefurðu aðhafzt?“ mælti konungurinn í Sangebar, er hann sá Arabakonung frammi fyrir sjer og son sinn alblóðugan. „Nú hefur þú drýgt nýjan glæp og skaltu láta líf þitt. Það var rjett að mjer komið, að halda, að þú værir saklaus, en þetta níðingsverk sýnir það ljóslega, að þú ert fæddur til manndrápa. Dirfistu nú að segja það, að þú sjert saklaus?“

„Herra!“ svaraði Araba konungur, „rjettvísi yðar er kunn um allan heim; ætlið þjer þá að brjóta eitt hið helgasta af boðorðum guðs, sem lætur hegninguna dynja yfir þann sem sekur er? Eg hefi svipt son yðar eyranu; látið þá aptur sníða af mjer eyrað.“

„Það er bezt þú fáir vilja þinn,“ mælti konungur,. Sníðið af honum eyrað.“

þegar til kom, fann sá, sem til þess var kvaddur, ekkert eyra hægra megin á honum. „Þykistu nú ekki uppvís orðinn að glæpnum?“ mælti konungur. „Þjer hefur verið hegnt fyrir þjófnað; eyrað, sem þú hefur misst, er ljósastur vottur um líferni þitt; en þú hefur samt ekki kunnað að skammast þín, þú hefur ekki breytt upp teknum hætti.“

Þessi sáru brígslyrði þoldi Araba konungur eigi og svaraði konungi aptur svofeldum orðum: „Yður skjátlast, eg er ekki þjófur. Vita skuluð þjer og, að konungsríkið Arabía lýtur vilja mínum. Þarf eg eigi að vera fjölorður til að sanna sögusögn mína.“ Sagði hann síðan frá, að hann hefði siglt að heiman, og ætlað að veita þræl, sem frá sjer hefði strokið, eptirför; skýrði hann frá öllu, er gerzt hafði á leiðinni frá því hann fór að heiman, unz hann kom til höfuðborgarinnar í Sangebar. Þekkti Abraham þá fyrrverandi húsbónda sinn, fjell til fóta honum, og staðfesti sögusögn hans. Konungurinn í Sangebar afsakaði sig nú á allar lundir fyrir það, hvað hörðu Araba konungur hefði átt að mæta, þar sem hann hefði verið hafður í varðhaldi. Reyndi hann síðan með öllu móti að bæta úr böli því, er Araba konungur hafði í ratað; ljet hann búa honum laug, og fjekk honum fögur klæði, ágæta hesta og fjölda þræla. Dvaldi Araba konungur þar síðan nokkra daga í bezta yfirlæti; gekk eigi á öðru enn veizlum og allskonar glaum og gleði. Hjelt hann síðan heim aptur í ríki sitt með fríðu föruneyti. Varð það síðarmeir uppvíst, hverjir valdir voru að vígunum í Sangebar; var morðingjunum harðlega hegnt eins og þeir höfðu til unnið.

„Á þessari sögu sjáið þjer,“ mælti Bachtjar, „að hefði Araba konungur eigi verið vægur við Abraham, þá hefði hann aldrei vottað sakleysi hans, og á hinn bóginn sjáið þjer og, að ef konungurinn í Sangebar hefði látið drepa Araba konung, þá hefði hann orðið að iðrast ranglætis síns, þegar það komst upp, hverjir það voru, sem vegið höfðu kaupmanninn. Þjer skuluð því eigi hrapa að því, að fullnægja dauðadóm mínum, heldur gefa mjer nokkurra daga frest til að sanna sakleysi mitt. Miskunsemin er hin óbilugasta máttarstoð konungstignarinnar.“

Það varð og niðurstaðan, að konungur bauð, að fara skyldi með Bachtjar aptur í varðhaldið. En daginn eptir kom sjötti

vezírinn og mælti: „það er skylda konunganna, að tortýna fjandmönnum sínum, því fornt spakmæli segir, að enginn sje svo aumur, að ei fái illu valdið. Vjer verðum því, undireins og færi veitist, að fyrirkoma þeim, er vilja vinna oss mein.“ Bauð konungur þá, að sækja Bachtjar og mælti við hann: „þess verður víst langt að bíða, að þú sannir sakleysi þitt. En nú er eigi lengur undanfæri, í dag skaltu drepinn verða.“

„Herra!“ svaraði Bachtjar, „það var að vísu ásetningur minn, að þegja í dag; en eg get það eigi, af því það vakir fyrir mjer, hversu fjandmönnum yðar mun dyllað, ef þjer framkvæmið ranglæti það, sem þjer hafið í hyggju. En á hinn bóginn sjáið þjer, að eg get ekki sloppið, hversu lengi sem þjer frestið dauðdaga mínum, og eg er feigur hvort sem er, ef mjer ekki tekst að sanna sakleysi mitt. Í návist yðar skortir mig einurð til, að skýra frá ýmsum atvikum, sem eru mjer til málsbóta. En sá sem allt veit, mun einhvern tíma leiða það í ljós, að sakargiptir þær, sem eg nú verð að liggja undir, eru rangar. Ef eg dæji, munduð þjer og iðrast ranglætis yðar, einsog Dabdyn konungur, sem trúði ákærum Kardars og ljet drepa Kamkar.“

Konungur bauð Bachtjar nú að segja sögu þessa. Tók Bachtjar, þá svo til máls.

## Frá Dabdyn konungi og báðum ráðgjöfum hans.

„Herra! svo er sagt í fornum sagnaritum, að konungur hjet Dabdyn. Hann hafði tvo ráðgjafa; hjet annar Kamkar, en hinn Kardar. Kamkar átti eina dóttur forkunnar fagra. Eitt sinn fór Kamkar með konungi á dýraveiðar; fól hann þá Kardar á hendur að gegna stjórnarstörfum í sinn stað. Einusinni hafði borið svo undir, að Kardar hafði litið dóttur Kamkars í aldingarði einum; felldi hann þá þegar ástar hug til hennar, og það svo mjög, að upp frá því hafði hann ekkert viðþol. Hin fagra ímynd meyjarinnar stóð honum æ fyrir hugskots sjónum, nótt og nýtan dag; hann hugsaði eigi um annað, enn hvernig hann ætti að geta eignast hana og notið elsku hennar. Loksins kom honum eitt ráð til hugar, þó ljótt væri. „Eg sje það,“ sagði hann við sjálfan sig, „að

Kamkar mun aldrei gefa mjer dóttur sína; eg sje því ekki nema einn veg til þess að fá vilja mínum framgengt. Þegar konungur kemur heim aptur, mun eg hefja fegurð hennar til skýjanna; mun hann þá ganga að eiga hana. Því næst mun eg rægja hana við konung, og segja hún sje honum ekki trú. Konungur mun þá bjóða mjer að drepa hana, og sný eg þá öllu á þann veg, að eg auðveldlega mun geta fullnægt ósk minni.“

Þegar konungur kom heim aptur, ljet hann Kardar standa skil á stjórnarstörfum sínum, og skýra frá merkustu atburðum, er gerzt höfðu í fjærveru hans. „Herra!“ mælti ráðgjafinn, „þegnar yðar hafa allir hlýðnazt boðum yðar hátignar; eigi kann eg að segja yður nein merkis tíðindi önnur enn þau, að eg hef sjeð konu svo fagra, að hún er afbragð annara kvenna að vexti og vænleik; þókti mjer því hlýða að vekja athygli yðar á henni. Augu hennar ljóma sem máni í fyllingu; hún er eins beinvaxin og sýpresviður; hár hennar angar eins sætt og arabiskar ilmjurtir og des frá Tataralandi. Hún er mjúklynd sem hin stygga akurhæna; fegurðarprýði hennar er sem þjettskipaður rósareitur; í einu orði að segja: hún er gyðja í líki dauðlegrar konu, því hvorki guðir nje menn fá staðizt fegurð hennar.“

Með þessari lýsingu kveikti Kardar ást í brjósti konungs, svo að hann varð allur sem á lopti og spurði, hversu honum mætti auðið verða að eignast svo fagra konu. „Það er yður innan handar,“ svaraði Kardar; „þjer þurfið hvorki að gera út sendimenn, eða gefa dýrar gjafir; þjer þurfið ekki annað, enn að kveðja hann Kamkar á fund yðar, og segja honum, að yður sje hugur á dóttur hans, því það er dóttir hans, sem eg á við.“

„Kallaðu undir eins á hann,“ mælti konungur, en Kardar brá við og gerði sem konungur bauð. Kom Kamkar og kvaddi konung virðulega. Konungur bauð honum að setjast og mælti: „Heyrt hef eg, Kamkar! að þú eigir dóttur afbragðs fagra, er búin sje öllum þeim kostum, er konu prýða. Ef þú vilt gefa mjer hana, skal eg launa þjer svo, að þú sjert vel sæmdur af. Mun eg gefa þjer gull og gersemar, og hefja þig til hæztu tignar, svo að enginn höfðingi hjer í landi skal standa þjer jafnfætis, því eg ætla að leggja vald mitt og virðingu i hendur þínar.“

Kamkar svaraði konungi aptur svofeldum orðum: „Herra! fyrst mjer stendur slík virðing til boða, mun eg eigi drepa hendi við sóma mínum. Þó eg hefði átt hundrað dætur, þá hefði eg verið manna fúsastur á að gefa yður þær allar. Þó vil eg mælast til, að þjer gefið mjer nokkurn tíma til að flytja dóttur minni þessi fagnaðar tíðindi, og til þess að búa allt undir, svo að brúðkaupið megi fara fram með þeirri rausn og viðhöfn, sem hlýðir.“ „Það er hverju orði sannara,“ mælti konungur; „farðu þegar, og segðu dóttur þinni fyrirætlan mína, og vittu bráðan bug að málinu.“

Kamkar skundaði nú til dóttur sinnar, og sagði henni tíðindin, en hún tók dauflega undir og mælti: „Góði faðir! mjer þykir að vísu vænt um það, að konungur skuli láta svo lítið, að leggja ástarhug á mig, en eg finn það á mjer, að eg mun lítt hæf til þess, að lifa hirðlífi; eg mundi aldrei geta setið svo í þeim sessi, sem skyldi, og mundi flest fara í ólestri fyrir mjer, ef mjer veittist svo mikil virðing. Spekingar hafa líkt konungum við tvær höfuðskepnur: vatn og eld, og á sú samlíking vel við; konungarnir eru eins breytilegir, og eldur og vatn, og eyða öllu, sem nærri þeim kemur; yður þarf því eigi að koma það á óvart, þó eg hafni þessari upphefð, sem mjer stendur til boða.“

„Eg vil að vísu eigi sporna á móti vilja þínum,“ svaraði Kamkar, „en að því skaltu hyggja, hvað af því leiðir, ef þú hafnar boði konungs. Ef eg fer til hans og segi honum, hverju þú hefur svarað, mun hann reiðast svo, að mjer er dauðinn vís. Hvernig eigum við að komast úr þessum vanda?“

„Eg sje aðeins einn veg til þess,“ svaraði hún. „Þú skalt segja konungi, að eg sje þess fús, að verða drottning hans, en vilji fá tíu daga frest; það er nægur tími til þess, að flýja burt úr landinu.“

Kamkar fjellst á tillögur dóttur sinnar og fór aptur á fund konungs, og fjekk tíu daga frest sem hann beiddi; auk þess fjekk hann sjálfur orlof í tíu daga til þess að geta efnt til sem dýrðlegastrar brúðkaupsveizlu. Fjell hann síðan til fóta konungs og fór svo aptur til dóttur sinnar. Bjuggust þau bæði þegar til brottferðar, og tóku sig upp um nóttina; höfðu þau nokkra trúa þræla sjer til föruneytis.

Daginn eptir frjetti konungur það, að ráðgjafi hans væri strokinn með dóttur sína; varð hann þá óður og uppvægur, og bauð þegar að veita þeim eptirför. Kardar kvaðst engum trúa til þess, nema sjálfum sjer, og hjet konungi að hann skyldi hafa upp á þeim, hvar sem þau svo kynnu að vera niður komin; tók konungur því boði hans feginshendi. Kardar kom og með þau í fjötrum til höfuðborgarinnar að fám dögum liðnum. Þegar konungur leit Kamkar, varð hann æfarreiður og mælti: „Hvert ætlaðirðu að fara, þorparinn þinn?“ og í sömu andránni þreif konungur stól og kastaði til Kamkars; kom stóllinn í höfuð hans og klofnaði hauskúpan, og ljet hann þannig líf sitt. Að því búnu leit konungur á dóttur hins drepna, en varð þá svo frá sjer numinn af vexti hennar og vænleik, yfirbragði og augnaráði og hinni himnesku blíðu og hógværð, er skein af ásjónu hennar, að honum fjellust hendur. Ástin gagntók hann, svo hann hugsaði eigi um annað enn að eignast þessa forkunnar fögru konu. Kvaddi hann þá dómara og valdsmenn á fund sinn, og bauð þeim þegar að rita hjónabands sáttmálann, og ljet meyna síðan í kvennabúr sitt. Ljet konungur hana halda öllum þrælum, er áður höfðu þjónað henni, nema fífli einu, sem verið hafði hjá henni frá blautu barnsbeini; var því bannað að koma til hennar í kvennabúrið.

Fíflinu þókti sárt að skilja við drottningu, því það hafði lengi þjónað henni, og tekið tryggð við hana. Ritaði það drottningu mörg brjef, og beiddi hana að fara þess á leit við konung, að það mætti heimsækja hana, því ella kvaðst það mundu deyja af harmi. Bar drottning þetta undir konung, en hann gat eigi synjað henni þess, er hún beiddist. Sýndi konungur drottningu blíðu og gott atlæti, svo að hún gleymdi smátt og smátt föðurmissinum, og tók að semja sig að lífinu í kvennabúrinu.

Meðan þessu fór fram, er það af Kardar að segja, að honum var ávallt mjög í mun að eiga drottninguna, því ástin hafði heillað hann; sætti hann hverju færi sem gafst, til þess að gera drottningu tortryggilega í augum konungs, svo að konungur ræki hana frá sjer. Þess var heldur eigi langt að bíða, að svo bar undir, að Kardar fjekk færi á að framkvæma það, er hann bjó yfir. Konungur varð að halda í hernað, og fól Kardar á hendur að

gegna landsstjórn meðan hann væri að heiman; varð Kardar þá innanhandar að ná fundi drottningar. Einn dag var Kardar staddur á grashjalla nokkrum; mátti þaðan sjá yfir aldingarðana, er lágu kringum kvennabúrið; kom hann þá auga á drottningu og brá svo, er hann sá hana, að hann var nærri dottinn um koll. Drottning sat alein í garðinum, og var svo sem hún væri að hugsa um eitthvað. Kardar tók stein og kastaði til drottningar; leit hún þá upp, en leit þegar undan, er hún sá ráðgjafann. Drottning sat þegjandi, og mælti ekki orð; kastaði Kardar þá kveðju á hana, og tók hún kveðjunni. Hugði Kardar þá, að hann skyldi færa sig uppá skaptið, og kallaði til drottningar: „Elskan mín! yður er ást sú kunnug, sem þjer hafið mjer í brjóst blásið; eg get eigi á heilum mjer tekið, hvorki nótt nje dag, því án yðar er líf mitt ekki annað enn eymd og harmur. Sjáið aumar á mjer, og takið ástar atlotum mínum; eg skal ábyrgjast að það verður yður til hamingju. Eg hefi ógrynni fjár handa á milli; lízt mjer það ráð vænst, að við flýjum úr landi brott með öll auðæfin, ef þjer viljið taka blíðu minni. En ef þjer viljið heldur sitja á veldisstólnum, þá er eigi annað, enn að drepa þann mann með eitri, sem einn getur staðið mjer á sporði.“

Drottning reiddist þá mjög og svaraði Kardar aptur: „Ertu svo ósvífinn, Kardar! að fara slíks á leit við mig, gegn guðs og manna lögum? ætlar þú að svívirða kvennabúr konungs, en drepa sjálfan hann?“ „Hefur hann eigi,“ svaraði Kardar, „drepið föður yðar? situr það á yður, að taka málstað hans og elska hann? þeir munu koma dagarnir, að konungur mun eigi vilja hafa sambúð við yður, og þá mun um seinan að taka boði mínu.“

„Eg veit ekki,“ svaraði drottning, „hvað fyrir mjer kann að liggja. Maðurinn á að taka þolinmóðlega hverju því, sem guð í alvizku sinni lætur að höndum bera. Guð hefur viljað dauða föður míns, og mjer ber að vegsama vilja hans. Með sömu auðsveipni bíð eg hinna helgu boða hans. Gerið sem yður gott þykir, en guðs boðum mun eg hlýða og bera harm minn í hljóði, möglunarlaust.“ Að svo mæltu stóð drottning upp, og gekk aptur inn í kvennabúrið.

Af viðtali þessu sá Kardar glöggt, hvernig drottningu var til

hans, og bjóst nú ekki við öðru, enn að hún mundi ákæra sig fyrir konungi; hugsaði hann því, að bezt væri að verða fyrri til bragðs og ákæra drottningu aptur fyrir einhvern svívirðilegan glæp, enn þótt hún væri saklaus. Skömmu síðar kom konungur með frægum sigri heim aptur úr hernaði sínum; fóru þá allir æðstu embættismenn og allt stórmenni, margar dagleiðir móti konungi, til að fagna honum og óska honum til hamingju. Tók hann þeim tveim höndum, og hjelt dýrðlega innreið í borgina. Að því búnu spurði konungur Kardar, hvað gerzt hefði meðan hann var brottu, og hversu ástatt væri í ríkinu. Gerði Kardar konungi grein fyrir öllu, og líkaði konungi vel frammistaða hans; lauk Kardar máli sínu á þessa leið: „Þó er þess að geta, að eg hef því miður verið vottur að þeim glæp, sem eg hefði betur aldrei sjeð; en frá þeim glæp þori eg eigi að segja yður.“ Skoraði konungur þá fastlega á Kardar, að dylja sig einskis; hjet svikarinn þá til leiðast, og sagði, og þó eigi nema með vífilengjum, að hann hefði einu sinni verið á afskekktum stað í höllinni; hefði hann þá heyrt tvo menn talast við hljóðlega. Hefði hann gengið á hljóðið að fortjaldi einu, lypt upp tjaldskörinni og orðið þess vísari, að það var dóttir Kamkars og þræll hennar, sem töluðust við. Mælti hún við þrælinn þessum orðum: „Þú varst orðinn fulltíða maður, þegar eg var barn að aldri, en eg hef elskað þig í frá barnæsku. Eg feldi margt tárið þann tímann, sem við náðum eigi að finnast. Á nóttunni birtistu mjer í draumi, og á daginn dreymdi mig þig. Loksins lofaði konungur þjer að koma í kvenna búrið. En því tekur þú svo þurlega blíðu minni? Ætlarðu alltaf að vera þurr og kaldur við mig, sem elska þig heitara, enn lífið sjálft? Eg hef nokkuð í hyggju, skal eg segja þjer, og vil eg að þú hjálpir mjer til að framkvæma það. Svo er mál með vexti, að konungur hefur drepið föður minn, og skal þess að vísu eigi óhefnt, viljir þú mjer lið veita. Mun eg bana konungi á eitri, og svala svo hefndargirni minni; munum við þá eigi lengur þurfa að binda skóþvengi okkar í þessari borg, en njóta á einhverjum öðrum stað yndis, sem enginn getur raskað.“

„Þegar eg heyrði þetta,“ mælti Kardar enn fremur, „þá gekk með öllu fram af mjer; mig hryllti við þessum hryðjuverkum, er þau höfðu í hyggju, og laumaðist í burt án þess á bæri; velti eg

þessu lengi fyrir mjer og var þungt í skapi. Hef eg síðan beðið með óþreyju komu yðar, til þess að geta varað yður við ráðagjörðum þessum.“

það var hvorttveggja, að þetta voru ill tíðindi og komu konungi á óvart, enda varð hann æfarreiður, og bauð öllum, er við voru staddir, brott að ganga. Skömmu síðar kom hirðfíflið að vanda til konungs og ætlaði að stytta honum stundir, en konungur bauð að hafa hendur á honum; brá konungur síðan sverði sínu, og sneið hann sundur í miðju, áður hann gæti komið nokkru orði fyrir sig. Ljet konungur síðan kalla á drottningu og talaði til hennar hörðum orðum: „Hefur þú verið svo ósvífin, að sitja á svikráðum við mig og taka fífl þetta fram yfir mig, sem er allra konunga voldugastur?“

Dóttir Kamkars sá þegar, að þetta var af Kardars toga spunnið, og ætlaði að verja sig fyrir áburði þessum, en kom því eigi við, því konungur tók frammí og mælti: „Fyrst þú hefur svo miklar mætur á fífli þessu, þá er[ bezt þið farið bæði eina leiðina.“

þá fjell Kardar til fóta konungs, og mælti: „Ætlið þjer að drepa konu? Saurgið eigi konungshöllina með því að lífláta konu; slíkt þykir ávallt ills viti. Látið yður nægja, að fjötra hana á höndum og fótum, og flytja hana svo á úlfalda út í eyðimörku; mun hún þá örmagnast af hungri og þorsta og láta svo líf sitt.“

Konungur fór að ráðum Kardars. Hann ljet taka drottningu og binda á úlfalda einn; var úlfaldinn síðan rekinn út í eyðimörk. Fjekk drottning bráðum að kenna á sáru hungri og megnum þorsta, en hún treysti guði af öllu hjarta í harmkvælum sínum.

þegar hún var svo að segja að fram komin af hungri og þorsta, renndi hún augum til himins, og mælti: „Guð minn góður! eg tek því með þolinmæði, sem þú lætur að höndum bera, hvort sem það er blítt eða strítt. Ef eg fengi einn vatnsdropa, er lengdi líf mitt um nokkur augnablik, þá mundi eg verja þeim þjer til vegsemdar. þú þekkir sakleysi mitt, og rangsleitni þeirra, sem mig hafa dæmt, Eigi mjer ekki auðið að verða lengri lífdaga, þá bið eg þig umfram allt, að veita mjer það, að eg megi fyrir andlát

mitt láta ákærendur mína sjer til skammar verða. Miskunsami guð! þú máttarstoð lítilmagnans, þjer einum treysti eg.“

Óðar enn drottning hafði beðizt þessum bænarorðum, brustu böndin og fjötrarnir fjellu af henni. Fagurtær vatns lind spratt upp við fætur hennar, og svæðið umhverfis hana varð allt í einu þakið fögrum skógarrunnum og alvaxið grænu grasi. Sat drottning þar í skugga þeim, er bar af úlfaldanum og drakk úr svalalindinni, hresstist hún fljótt og þakkaði guði af hjarta fyrir frelsi sitt.

Um sama leyti var úlfaldahirðir einn að leita að úlföldum, er strokið höfðu, í eyðimörk þessari; átti konungur úlfaldana, og þorði maðurinn eigi að koma aptur til hallarinnar, fyr enn hann fyndi úlfaldana, því hann óttaðist reiði konungs. Kom hann nú auga á úlfalda drottningar langt í burtu, og hugði að þar mundi einn af sínum. Þó sá hann brátt, er hann kom nær, að ei var svo, sem hann hugði, en í þess stað sá hann mitt í eyðimörkinni, hvar fögur kona lá á iðgrænum grasreit og baðst fyrir, og kom sú sjón honum mjög á óvart. Gekk hann hljóðlega til hennar, og beið þess, að hún lyki við bænir sínar; heilsaði henni síðan virðulega og tók svo til máls: „Fagra kona! þjer eruð hjer einmana í eyðimörk; ef þjer viljið þiggja það lið, er eg má veita, þá skal eg duga yður með ráðum og vera yður í föður stað; mun eg með því ávinna mjer hylli almáttugs guðs.“

Drottning tók þessu boði feginsamlega, bauð úlfaldahirðirinn henni að borða af nesti sínu, og það þág hún. Síðan spurði hann drottningu, hvað til þess bæri, að hún væri þar alein í eyðimörk, en hún ljet því ósvarað. Sagði hann henni nú, að hann væri að leita að úlföldum, en fyndi eigi, og beiddi hana að biðja fyrir sjer, að hann mætti finna þá; hugði úlfaldahirðirinn, að drottning væri ein af konum þeim, er helga guði allt sitt líf. Lagðist drottning nú á knjebeð, en óðar enn hún var tekin til bæna, komu úlfaldarnir hlaupandi fram úr skóginum. Ulfaldahirðirinn undraðist þetta stórum og bauð drottningu að verða sjer samferða heim til borgarinnar, og komast svo burt úr eyðimörkinni, því þar var mannhætta að vera sakir óarga dýra; kvaðst hann skyldu búa henni bænastofu í húsi sínu, og gæti hún beðizt þar fyrir í ró og næði. Síðan hnýtti hann úlföldunum hverjum aptan í annan, og ljet drottningu á bak einum

þeirra, og hjelt heim á leið. Komu þau að borgarhliðinu laust fyrir háttatíma. Tók úlfaldahirðirinn drottningu í hús sitt, og ljet búa henni þar bænastofu eins og hann hafði lofað.

Skömmu síðar gerði konungur boð eptir úlfaldahirðinum og spurði hann, hvort hann hefði fundið úlfaldana. Hann játti því, og sagði konungi alla söguna og hversu kynlega það hefði atvikazt, að hann hefði fundið í eyðimörkinni fagra konu á grænum grasblett við tæra lind. „Undireins og eg sá þetta,“ mælti hann, „sagði mjer svo hugur um, að þessi fagri skógvaxni grashagi mundi vera framkominn við bænir hennar, enda sá eg brátt órækan vott þess, að svo var. Eg beiddi hana að biðja fyrir mjer, að eg fyndi úlfaldana. Hún lagðist á bæn, og óðara enn hún var byrjuð, komu úlfaldarnir hlaupandi. það er því auðsjeð, að náð drottins er með konu þessari. Hún er nú sezt að í húsi mínu; hef eg látið búa henni bænastofu, og þar er hún á bæn nótt og dag.“

Konungi var svo mikil forvitni á að sjá konu þessa, að hann ljet úlfaldahirðirinn þegar fylgja sjer til bænahúss hennar. Fól hann sig bakvið fortjald eitt, og virti hana svo fyrir sjer, þar sem hún lá á heitri bæn. Eitt sinn varð henni litið upp, svo konungur sá í andlit henni; hnykkti honum þá við, því hann sá, að þetta var dóttir Kamkars. Rjeði konungur sjer þá eigi fyrir gleði og hljóp fram undan fortjaldinu, faðmaði hana að sjer grátandi, og beiddi hana að fyrirgefa sjer, að hann hefði gert henni rangt til. Grátbændi hann hana að gefa sjer aptur forna ást og blíðu, og setjast aptur í sömu tign og hún hefði áður haft. Drottning kvaðst eigi gera það, nema með því skilyrði, að hann sæji með eigin augum órækan vott um svikráð Kardars, sem væri orsök í allri ógæfu sinni. Skyldi hann því nokkura stund láta sig vera þar á laun í húsinu.

Konungur kvað svo vera skyldu, sem hún mæltist til. Sendi hún þá úlfaldamanninn til Kardars með þá orðsending, að þar væri til húsa hjá honum kona ein, sem fýsti mjög að tala við hann einslega. Kardar brá við og fór þegar með úlfaldamanninum; brá honum þá vel við, er hann sá drottningu, og varð svo glaður, sem hefði hann himin höndum tekið. þókti honum nú vænlegar á horfast og sagði með miklum feginleik: „Elsku ljósið mitt! hvaða

hamingja hefur hrifið þig úr greipum dauðans, sem þjer var búinn? En ekki er mjer um að kenna; eg hef sent menn í allar áttir til að leita að þjer, en þú hefur hvergi fundizt. Rann mjer ólán þitt svo mjög til rifja, að mjer lá við sturlun, en nú lifnar yfir mjer, er eg sje þig aptur. Betur þú hefðir farið að mínum ráðum; við hefðum ekki ratað í raunir þessar, ef þú hefðir tekið boðum mínum, þegar eg kastaði til þín steininum í hallargarðinum. Fór ekki sem eg sagði, að konungurinn, banamaður föður þíns, mundi beita hörðu við þig, og það án ástæðu? Okkur var það innanhandar, að sálga þessum hvumleiða harðstjóra á eitri, og þá hefðum við ekki þurft neitt illt að óttast. Þú vildir þá ekki þýðast boð mín, sem unni þjer hugástum, og kvaðst tryggð þína órjúfandi, og þolinmæði þína og undirgefni undir guðs vilja óþrjótandi. En nú sjerðu, í hversu djúpa glötun þú hefur steypt þjer. En þó tjáir nú eigi að kveina og kvarta. Gleymum þrautum þeim, sem liðnar eru, hugsum um hamingju þá, sem fyrir höndum er, og þökkum guði, sem hefur svalað ástarlöngun minni og gefið mjer þig aptur.“ Ætlaði Kardar þá að faðma drottningu að sjer; en þá gat konungur ekki lengur setið á sjer, heldur stökk hann fram og lagði hann ígegn með sverði sínu.

Síðan leiddi konungur drottningu aptur til hallarinnar. Mundi nú ekkert hafa hnekkt sælu þeirra, hefði hún ekki daprazt af endurminningunni um það, að konungur hafði gert Kamkar rangt til.“

„Herra!“ mælti Bachtjar, „af þessu megið þjer ráða, hvað illt hlauzt af bráðræði Dabdyns konungs, er hann dæmdi Kamkar ráðgjafa sinn og dóttur hans. Hefði hann gætt nokkurrar skynsemi og ekki vegið ráðgjafa sinn með eigin hendi, þá hefði hann komizt hjá samvizkubitinu, sem angraði hann allajafna upp frá því. Eins mundi og fara fyrir yður, konungur! ef þjer ekki gæfuð mjer tóm til að sanna sakleysi mitt. Eg bið aðeins um fárra daga frest, til þess að sanna og sýna, að eins er ástatt fyrir mjer og drottningu þessari, sem eg nú hef frá sagt.“

Asad-bacht komst svo við af sögu þessari, að hann bauð að fara með Bachtjar aptur í dýflissuna. Daginn eptir gekk einn af vezírunum fyrir konung og mælti þessum orðum: „Herra! allir liggja yður á hálsi, og oss, ráðanautum yðar þykir óþolandi álas

það, er heyrist úr öllum áttum; það er nú ekki um annað talað, enn þessa kvennabúrs sögu; fregnin um þennan hneyxlanlega atburð gengur fjöllunum hærra, götu úr götu, torg af torgi. Ef vjer ætlum að þagga niðri í þeim, sem breiða út þenna óhróður, þá slá þeir okkur af laginu og segja: „Ykkur ferst það, að halda svörum uppi fyrir þræl þenna, þar sem konungur sjálfur þegir eins og steinn.“

Nú varð konungur aptur óður og uppvægur. Hann sendi þegar eptir drottningu sinni, og spurði hana, hvað gera skyldi. Drottning svaraði hiklaust, að Bachtjar hlyti að láta líf sitt; kvað hún allar hjákonur Asad-bachts ætlast til þess og telja það svo sem víst. Þó bætti drottning því við, að konungi einum væri ætlað að skera úr málum manna með vizku sinni, svo öllum væri fyrir beztu.

Konungur ljet sækja Bachtjar úr varðhaldinu. Tók Bachtjar þá svo til máls: „Herra! gætið vandlega að, hvað þjer gerið, áður enn þjer fastráðið nokkuð í máli þessu. Hjer er um manns líf að tefla, og lífið getið þjer ekki gefið aptur.“

„Þú þykist ávallt ætla að sanna sakleysi þitt, og þó ert þú sekur að almanna rómi; jafnvel hjákonur mínar krefjast þess, að þú sjert drepinn.“

„Herra! konur eru málugar,“ ansaði Bachtjar, „þær geta hugsað upp hverskyns vjelar, og aldrei verður þeim ráðfátt, þegar þær vilja fá einhverju framgengt. En þó þær sjeu ærið sjeðar og ráðkænar, þá tjáir samt ekki, að tillögum þeirra sje gaumur gefinn, eða ráða þeirra sje leitað í vandamálum.“

Konungur gat ekki að sjer gert að brosa ekki að Bachtjar, er hann ámælti kvennþjóðinni, en Bachtjar hjelt áfram og mælti: „Það er nóg að nefna eitt dæmi til að sanna mál mitt, eg á við konungsdótturina í Abyssiníu, sem með ráðum fóstru sinnar kom því til leiðar, er hún vildi. Eg skal segja yður söguna, ef þjer leyfið.“

Asad-bacht leyfði honum að segja söguna. Bachtjar tók þá til máls og sagði sögu þessa:

## Frá konunginum og drottningunni í Abyssiníu.

Einusinni rjeð konungur fyrir Abyssiníu, sem átti ógrynni fjár og fagrar hallir; hafði hann fjölmenna hirðsveit, og átti sæla

daga í næði og friðsemd. Vanrækti hann því herlið sitt og skorti það flesta hluti. Hermennirnir fengu engan mála, og opt og tíðum engar vistir. Loksins tók sulturinn að sverfa svo að þeim, að eigi var lengur viðvært; gerðust þeir þá ærið óánægðir og fóru á fund vezírsins og báru upp vandkvæði sín. Ráðgjafinn hjet þeim öllu fögru; kvað þeim bezt að bíða með þolinmæði, unz hann fengi talið konungi hughvarf. Þeir sem báru mál þetta upp við vezírinn í nafni hersins, ljetu sjer þessa úrlausn vel líka, þökkuðu honum fyrir góða undirtekt og gengu burt af fundi hans; sögðu þeir hernum. hverju vezírinn hefði heitið. En vezírinn fór nú að hugsa um, hverjum brögðum hann skyldi beita, til þess að leiða athygli konungs að þörfum herliðsins. Virtist vezírnum svo, sem konungur mundi ótilleiðanlegur til þess, nema því að eins hann hjeldi í hernað, en á hernaði hafði hann mestu óbeit. Að svo vöxnu máli þókti vezírnum þetta ráð vænlegast.

„Persakonungur,“ sagði hann við sjálfan sig, „á dóttur, sem, er allra kvenna fríðust. Ef eg segi konungi frá henni, og læt mikið yfir fegurð hennar, þá mun honum gangast hugur við; þekki eg konung illa, ef honum verður eigi hugleikið að fá hennar. Nú kvað Persakonungur hafa svo mikla ást á dóttur sinni, að hann lætur hana eigi frá sjer fara, hvað sem í boði er. Ef konungur minn biður konu þessarar, mun Persakonungur synja honum ráðahagsins; mun konungur þá reiðast, og verður sjálfsagt auðtalinn á, að sækja með her á hendur Persakonungi og leita hefndar fyrir skapraun þessa. Mun hann þá greiða hermönnum sínum mála og gefa þeim vistir, en þeir spekjast, er hagur þeirra batnar.“

Vezírnum þókti þetta óskaráð; sætti hann lagi á ráðstefnu daginn eptir að vekja máls á þessu. Lýsti hann dóttur Persakonungs með svo fögrum orðum, að brennandi elska kviknaði í brjósti konungs, svo hann hafði ekkert viðþol. Hugsaði konungur eigi um annað, enn hversu hann mætti fá þessarar fögru konu. Vezírinn sagði honum, að hann þyrfti eigi annað, enn gera menn á fund Persakonungs og láta þá bera upp bónorðið. „Mun Persakonungi þykja sjer bjóðast meiri sómi enn svo, að hann synji ráðahagsins. En skyldi svo ólíklega fara, að Persa konungur vildi eigi gefa

yður dóttur sína, þá er herinn til taks, og þá getið þjer tekið hana með valdi, þó betra væri ef hún fengist með góðu.“

Konungur fór að ráðum hans og valdi þá af hirðmönnum sínum, sem bezt voru þar til fallnir, og sendi til Persa konungs; voru það allt rosknir menn og ráðnir, sem sendir voru. Persa konungur veitti þeim áheyrn, en er hann vissi erindi þeirra, þá varð hann æfareiður og mælti: „Segið konungi yðar, að það skuli aldrei verða, að konungur Abyssiníu, sem þegnum mínum þykir leiðast allra landa, fái dóttur Persakonungs. Þjóð minni mundi gremjast, og það ekki um skör fram, ef eg gæfi honum dóttur mína, en sú skömm skal mig aldrei henda.“

Þegar konungur Abyssiníu heyrði, hvernig Persa konungur hafði tekið undir málið, varð hann svo reiður, að hann rjeði sjer eigi, og sór og sárt við lagði, að þess skyldi grimmilega hefnt verða; kvaðst hann mundu eyða Persaríki allt og höfuðborgina þar í landi. Dróg hann því saman allan her sinn og greiddi hermönnunum það sem ógoldið var af málanum, og bjó liðið vel að vopnum og vistum; hjelt hann svo á stað til Persalands. Konungur Persa frjetti til ferða hans, og sendi þegar her manns móti honum, en sá her beið hvern ósigurinn á fætur öðrum; komst Persa konungur nú í mikinn vanda, og spurði vezír sinn, hvað hann vildi til leggja. „Herra!“ mælti vezírinn, „þegnar yðar eru höggnir niður sem búfje. Mjer virðist engin ástæða til, að halda áfram þessari skaðvænu styrjöld, þar sem ekki er um meira að tefla; þjer þurfið ekki annað, enn að veita Abyssiníu konungi bæn sína og gefa honum dóttur yðra. Þjer skuluð því gera menn á fund hans með þá orðsending, að þjer unnið honum ráðsins, og viljið fegnir frið hafa. Mun þá aptur komast á sátt og samlyndi milli beggja ríkjanna. Skuluð þjer senda dóttur yðar með góðum gjöfum og fríðu föruneyti til Abyssiníu; mun gipting þessi gera friðinn langan og tryggan.“

Þó Persa konungur valla sæji sólina fyrir dóttur sinni, þá skildi hann samt, að ráðgjafinn hafði satt að mæla. Sendi hann því menn til Abyssiníu konungs og beiddist friðar. Eigi stóð heldur á því, að Persa konungur efndi friðar skilmálann, því hann

sendi þegar dóttur sína með fjölmennu föruneyti. Þegar konungur Abyssiníu frjetti til ferða hennar, varð hann næsta glaður og ljet efna til dýrðlegrar veizlu. Hjelt hann síðan aptur heim til sín og var hróðugur af sigri sínum. Fögnuðu menn konungi vel, er heim kom, hjeldu hátíðir og óskuðu honum til hamingju, bæði af því, að herför hans hafði orðið svo sigursæl, og eins af hinu, að hann hafði eignazt slíkan kvennkost.

Þau konungur og drottning lifðu nú sælu lífi, og mátti heita, að allt ljeki í lyndi. Þó var eitt sem drottning setti fyrir sig, og angraði það hana, þó eigi á bæri. Svo stóð á, að drottning hafði, án þess faðir hennar vissi, átt vingott við ungan mann á Persalandi; hafði hún orðið barnshafandi, og alið svein afbragðs fríðan. Hafði sveinninn fengið bezta uppeldi, svo hann var hvorttveggja, vel af guði gerður og vel að íþróttum búinn. Hafði honum ekki veitt örðugt að fá hirðvist hjá Persakonungi, og kom hann sjer svo í mjúkinn hjá honum, að hann gerði hann að skutilsveini sínum og fjekk svo miklar mætur á honum, að hann mátti eigi af honum sjá. Þegar drottning fór til Abyssiníu, hafði hún orðið að skilja við son sinn, en fjell skilnaðurinn svo sárt, að tárin hrundu án afláts af kinnum hennar einsog daggdropar á vordegi. Loksins varð henni söknuðurinn óþolandi og kom henni ráð í hug til þess að koma syni sínum nær sjer.

Einu sinni var konungur að tala við hana í kvennabúrinu, og hældi sjálfum sjer, en niðraði Persa konungi. „Faðir þinn,“ mælti konungur, „hjelt að ríki mitt væri veikt og vesælt, en hermenn mínir hafa látið aðra raun á verða; stóðst ekkert fyrir þeim, og mundum vjer hafa mulið sundur ríki hans og stungið molunum í vasa okkar, ef faðir þinn hefði eigi slakað til, og látið mig fá þín, sem eg beiddi.“

Drottning svaraði konungi og mælti: „Svo tíginn og voldugur sem þú ert, þá er samt í Persalandi einn gripur, og það eigi lítilsverður; faðir minn á gripinn og mun eigi ofhermt, að enginn annar höfðingi eigi slíka gersemi.“

Konungur spurði, hvaða kjörgripur þetta væri, og svaraði drottning þá: „Það er þræll einn ungur, sem eigi á sinn líka í víðri veröld; hann er afbragð annara manna að fegurð, fróðleik, íþróttum,

vitsmunum, látprýði og drenglyndi, í stuttu máli, hann er líkari himneskum engli, enn mennskum manni."

Konungur vildi nú fyrir hvern mun eignast þennan ungling, er drottning ljet svo mikið af; kvaðst hann vilja allt til vinna að eignast hann og kaupa hann af Persa konungi, hvað sem hann kostaði. Drottning sagði að faðir sinn hefði svo miklar mætur á þrælnum, að hann mætti eigi af honum sjá, og væri jafnan óglaður, þegar þrællinn ekki væri hjá honum. Kvað hún því engan annan veg til þess, að komast yfir þrælinn, enn að senda reyndan og ráðinn mann til Persalands; yrði sá, er sendur væri, að hafa ærið fje til ferðarinnar, og freista svo, ef hann gæti náð þrælnum og haft heim með sjer til Abyssiníu. Konungur fjellst á þetta ráð, og valdi til ferðarinnar sjeðan mann og reyndan, sem víða hafði ferðazt og var gagnkunnugur háttum annara þjóða. Hjet konungur honum að launum tíu þrælum og tíu þernum. Drottning sagði honum að þrællinn, er hann skyldi sækja, hjeti Fareksad, og lýsti útliti hans. Tók sendimaður síðan á sig kaupmannsgerfi, og hjelt á stað til Persalands.

Þegar hann kom til Persalands, tók hann sjer bústað í skrautlegu húsi. Beiddist hann leyfis, að mega koma að máli við konung um verzlunar málefni. Veitti konungur honum það. Fjell hann konungi vel í geð, og fjekk því opt að koma til hirðar konungs. Sætti hann þá lagi, að tala við Fareksað; spjölluðu þeir fyrst um hitt og þetta, en kaupmaður hagaði svo orðum sínum, að Abyssiníu bar í tal; lauk kaupmaður máli sínu á þá leið, að hann stakk upp á, að Fareksad slægist í för með sjer til Abyssiníu; kvað hann mundu fá fje og frama, er þangað kæmi og svo marga þræla sem hann vildi. Fareksad þóktist nú sjá, að þessi maður væri sendur frá móður sinni, og mundi hún vilja, að hann kæmi til hennar; brást hann því glaður við og mælti: „Mig hefur lengi langað til að koma til Abyssiníu, sem svo mikið orð fer af, en konungur hefur svo miklar mætur á mjer, að hann mun aldrei gefa mjer fararleyfi."

Kaupmaður sagði honum, að hann skyldi sjá svo um, að hann gæti komizt til Abyssiníu, án þess á bæri; sjer væri innan handar að haga ferðinni svo, að hann gæti strokið frá Persalandi,

án þess á bæri; sagði hann að ekki þyrfti að segja nokkrum manni frá ráðagerðum þessum, og bætti því við, að dóttir Persakonungs, sem nú var drottning í Abyssiníu, hefði í hyggju að veita honum beztu viðtökur.

Nú fastrjeð Fareksad að fara með honum til Abyssiníu. Hjet hann honum, að ef hann kæmi sjer klaklaust burt úr Persalandi, þá skyldi það eigi ólaunað; kvaðst hann mundu borga honum í fullum mæli hvern greiða, sem hann gerði sjer, og sagði að hann mætti búazt við sjer um kvöldið um bænatíma. Kom Fareksad á tilteknum tíma, og ljet kaupmaður hann í kistu eina, og hjelt síðan á stað til Abyssiníu. Daginn eptir saknaði konungur þræls síns, og sendi menn í allar áttir til að leita hans, en hann fannst hvergi. Varð konungur þá óhuggandi, því hann unni unglingi þessum, einsog væri hann sonur hans, og þókti sárgrætilegt að sjá honum á bak. Það er frá ferðum Fareksaðs að segja, að hann komst klaklaust til höfuðborgarinnar í Abyssiníu, og fylgdi sendimaðurinn honum til hallar konungs. Fannst konungi svo mjög um fegurð hans, kurteisi og látprýði, að hann fjell í stafi, og kom honum þó ekki á óvart, að mikið kvæði að kostum þræls þessa, er drottning hafði lofað svo mjög. Konungur ljet fá honum fögur klæði, hest og söðul, sverð og skjöld og dýrmætan túrban; gerði hann Fareksad að hestaverði sínum, og kvaðst skyldu reynast honum í öllu sem faðir. Síðan leiddi konungur hann í kvennabúrið til drottningar; fjekk drottning þá valla dulið móðurástina og haldið aptur tárunum, er hún leit Fareksad son sinn. Samt tókst henni að leyna því, er henni bjó í brjósti, á þann hátt, að hún mælti eigi orð við hann, því móðurhjartað mundi hafa lýst sjer í málrómnum. Skömmu síðar fór konungur á dýraveiðar og þá sá drottning sig ekki úr færi, og kvaddi Fareksad á fund sinn. Tók hún honum með mestu blíðu, klappaði honum og kyssti og ljet alldátt að honum. „Eg finn það, elskan mín!“ mælti drottning, „að eg get eigi lifað án þín. Eg hef kvalizt af hugarangri allan þann tíma, sem við höfum verið skilin, og aldrei litið glaðan dag.“

Þræll einn hafði heyrt, hvað drottning ljet sjer um munn fara, og sagði hann konungi óðar enn hann var heim kominn allt athæfi hennar, því honum þókti virðingu konungs misboðið með slíkum

ósóma. Konungur reiddist ákaflega, er hann heyrði þetta, og þóktist nú skilja, hvernig á því stæði, að drottning hefði lofað þrælinn svo mjög. Ljet hann þegar kalla á þau bæði, og mælti: „Fareksad! þú hefur verið svo ósvífinn, þorparinn þinn! að saurga höll mína og svala þannig girndum þínum.“

Fareksad sá að ef hann færi að rjettlæta sig, þá yrði það ekki til annars, enn steypa móður sinni í glötun. Svaraði hann því konungi ekki öðru, enn þessu: „Eg hef engan ósóma aðhafzt, og drottning getur, ef hún vill, sýnt það, að eg er saklaus.“

„Þú heyrir hvað hann segir,“ mælti konungur við drottningu; „ætlar þú líka að sýna mjer mótþróa eptir slíkt athæfi?“

Drottning flóði í tárum, en gat engu svarað, og þókti konungi það vottur um það, að svo væri, sem sig hefði grunað, að hún væri ekki saklaus.

Síðan bauð konungur í bræði sinni hermanni einum að taka Fareksad og fara með hann út fyrir borgina og hálshöggva hann. En þegar til kom, fannst hermanninum svo mjög um fegurð Fareksaðs, að hann gat ekki annað enn gefið honum líf, því honum virtist hann sem himneskur engill, en ekki mennskur maður. „Nei,“ sagði hann við sjálfan sig, svo fagran ungling get eg ekki drepið, og það sakir konu einnar. Það væri stórglæpur, sem einhvern tíma mundi mjer í koll koma. Eg ætla heldur að hafa hann heim með mjer og taka hann mjer í sonar stað; mun konungur þá ekki koma fram hefnd sinni á honum.“ Sagði hann síðan Fareksad fyrirætlun sína, en hann varð glaður við og mælti: „Fyrir þetta góðverk þitt, muntu umbun hljóta og það þótt síðar verði. Eg er ekki sekur í glæp þeim, sem mjer er að sök gefinn. Mun eg vafalaust aptur hljóta auðlegð þá og mannvirðingu, sem eg hafði, áður mig henti slys þetta.“

Síðan hjeldu þeir Fareksad heim til hermannsins. Veitti hermaðurinn honum allt sem hann þurfti, og gekk svo fyrir konung og sagði honum, að hann hefði gert sem fyrir sig hefði verið lagt.

Konungi var svo þungt í skapi til drottningar, að hann leit ekki við henni eða orti orði á hana, þótt hann kæmi nærri henni, og var drottning þá ærið hnuggin. Angraði hvorttveggja huga hennar, reiði konungs og sonarmissirinn, svo að henni lá við

örvilnun, en þá aumkvaðist kona ein gömul, sem var í kvennabúrinu, yfir hana, og hughreysti hana. Kona þessi kunni manna bezt að ráða rúnir og gátur, og hafði þannig komizt í mjúkinn hjá konungi; hafði konungur einkar miklar mætur á henni.

Þessi gamla kona kom til drottningar og spurði hana, hvað ylli ógleði hennar, en drottning svaraði engu. Mælti hin gamla kona þá ennfremur: „Þjer megið, drottning mín! treysta þagmælsku minni. Segið þjer mjer einsog er, hvað að yður gengur. Eg skal sýna yður óslítandi tryggð; það er ekki að vita nema eg geti bætt úr böli yðar. Eg sver við allt sem er heilagt, að ekkert mannsbarn skal fá vitneskju um það, sem þjer segið mjer í trúnaði.“

Drottning ljet þá til leiðast og sagði henni hvernig á öllu stæði, að Fareksad væri launsonur sinn; skýrði drottning henni ljóslega frá öllu, hversu farið hefði, frá fyrstu byrjun þangað til hann var dæmdur til dauða. Grjet drottning þá og bar sig aumlega, sagði hún sjer þækti sárast, að hún gæti ekki veitt syni sínum sæmilega útför, og grátið yfir moldum hans. Hin gamla kona kenndi mjög í brjóst um hana, og huggaði hana; kvaðst hún mundu sjá eitthvert ráð til þess, að hrinda harmi hennar. „Þjer hljótið,“ mælti kerling, „að eiga bágt með, að segja konungi upp alla söguna; en það verðið þjer þó að gera, til þess að sanna sakleysi yðar. Mjer kemur ráð í hug; þjer skuluð ganga til hvílu, áður konungur kemur til yðar í svefnherbergið. Mun hann þá leggja blað á brjóst yðar með þessum ummælum: „Eg særi þig fyrir töfrakrapt blaðs þessa, að þú segir mjer satt frá öllu.“ Skuluð þjer þá, einsog nauðbeygðar, segja konungi alla málavöxtu, og hversu standi á háttalagi yðar við Fareksad. Munuð þjer þá ná aptur hylli konungs, og sjá fyrir enda armæðu yðvarrar.“

Drottning lofaði kerlingu að fylgja ráðum hennar og hvergi af bregða. Fór kerling þá þegar til konungs til þess að framkvæma það, er hún hafði í hyggju. Hitti hún hann í aldingarði einum; sat hann þar aleinn og var dapur í bragði. „Herra!“ mælti kerling, „einveran hentar illa þeim, sem eiga yfir öðrum að segja, því hún er undirrót sorgarinnar, en sorgin gerir mönnum illt í skapi. Mjer sýnist liggja illa á yður. Hvað veldur ógleði yðar? Segið mjer, hvað að yður gengur, því verið getur, að eg megi ráða bót á því.“

„Einveran er ekki orsök ógleði minnar,“ mælti konungur. „Eg skal segja þjer satt frá öllu, því það er ekki svo, sem það sje neitt leyndarmál. Þú munt hafa heyrt getið konungsdótturinnar persnesku, sem eg hef lagt allt í sölurnar fyrir, og sem eg hugðist mundu elska allt til dauðans. Eg hef veitt henni virðing og auðlegð; eg gerði það fyrir orð hennar, að eg ljet sækja þræl einn ungan, sem hún hafði miklar mætur á; fórst mjer ekki síður við þrælinn enn hana. Hafa þau þó bæði svikið mig í tryggðum. Eg hefi dæmt hann til dauða, en eg má játa, að síðan hefur samvizkan bitið mig, því eg er hræddur um, að hann muni ekki hafa verið sekur. Þessi óvissa angrar mig nótt og dag.“

„Ekki þurfið þjer að setja þetta fyrir yður,“ mælti kerling, „því eg get gert enda á óvissu yðar. Eg á töfrablað eitt, sem Salómon konungur hefur átt; á blaðið eru rituð sýrnesk orð með grískum stöfum. Þarf ekki annað til þess að fá að vita huldustu hugsanir einhvers manns, enn að leggja blað þetta á brjóst honum með þessum ummælum: „Í nafni guðs lifanda, sem ritað er á blað þetta, býð eg þjer, að segja mjer öll þín leyndarmál.“ Sjerhver, sem svo er ávarpaður, segir þegar með hárri röddu öll sín leyndarmál, bæði gott og illt, en man svo ekki eptir neinu er hann vaknar. Ef þjer með þessu ráði viljið komast eptir leyndarmálum drottningar, þá er yður velkomið, að fá hjá mjer töfrablaðið.“

Konungur tók boði hennar allfeginsamlega, því hann vildi fyrir hvern mun fá enda á óvissu sinni. Hljóp kerling þá heim og rispaði á blað eitt einhverja vitleysu; braut síðan blaðið saman, vafði bandi um það og setti innsigli fyrir. Fór hún síðan til konungs með blaðið; ljet hún sem það væri mesti helgidómur og rjetti konungi það með þessum orðum: „Standið upp, konungur! svo þjer sýnið tilhlýðilega lotningu, er þjer takið við þeim grip, er átt hefur hinn mikli konungur Salómon.“

Konungur spratt þegar upp, og tók með lotningu við töfrablaði kerlingar, og geymdi það vandlega. Leiddist honum að bíða þess, er honum gæfist færi á að reyna náttúru blaðsins. Þegar náttsett var, læddist konungur hljóðlega inn í svefnherbergi drottningar. Ljet hún sem hún væri í fasta svefni, og lagði konungur blaðið á brjóst hennar með þeim orðum, sem áður er sagt. Óðar

enn blaðið kom á brjóst drottningar, sagði hún afdráttarlaust frá öllu, hversu stæði á högum sínum og Fareksaðs; sá konungur þá, að það hafði verið rangt að dæma hann. „Fyrst guð hefur viljað svo vera láta,“ mælti drottning enn fremur, „mun eg ekki mögla mót vilja hans. Þó sár sje sonarmissirinn, mun eg huggast, ef konungurinn, maðurinn minn, sýnir mjer aptur ástarhót, í stað háðungar og fyrirlitningar.“

Konungur komst svo við af orðum drottningar, að hann grjet hástöfum, vafði hana í fang sjer og kyssti hana. Ljezt drottning þá allt í einu vakna, hljóðaði upp yfir sig og mælti: „Guð minn góður! hvernig stendur á því, að þú sýnir mjer aptur sömu blíðu og áður?“ Sagði konungur henni þá, hvað hann hefði gert við hana, og ámælti henni fyrir, að hún hefði ekki fyrir löngu verið búin að segja sjer, hversu stæði á högum Fareksaðs; kvaðst hann mundu hafa tekið hann sjer í sonar stað, ef hann hefði vitað, hver hann væri. Tóku þau konungur nú aptur að gráta, en reyndu þó til að hugga hvert annað, sem bezt þau gátu.

Daginn eptir kvaddi konungur á fund sinn hermann þann, er hann hafði boðið að drepa Fareksad. „Þú verður,“ mælti konungur, „að segja mjer, hvar þú hefur jarðað lík Fareksaðs, hins ógæfusama unglings, svo eg geti beðizt fyrir á moldum hans, og heiðrað minningu hans, því hann var saklaus af dögum ráðinn. Á þann hátt afplána eg synd mína, að því leyti sem mjer er unnt, og reyni að bæta yfir brot mitt, er eg sleit þessa blómguðu rós úr gróðrarreit gæfunnar, og hjó toppskrúðið af þessum hinum tignarlega kedrosviði, sem sprottinn var af rótum konunglegrar ættar.“

Hermaðurinn svaraði konungi aptur svofelldum orðum: „Verði himnarnir sjálfir að fótskörum hásætis yðvars; fullsæla og fögnuður komi í stað angurs og örvæntingar. Fareksad er ekki dauður. Þrátt fyrir boð yðvart fannst mjer synd, að drepa hann saklausan; eg gaf honum því grið og faldi hann heima hjá mjer og þar er hann enn.“

Þetta þókti konungi góðar frjettir, og varð hann því fegnari, sem hann alls ekki hafði búizt við, að svo vel mundi fara. Fór því svo fjærri, að hann hegndi hermanninum, að hann í þakklætis skyni ljet færa hana í dýrindis skikkju. Sendi konungur hann síðan með mörgum öðrum eptir Fareksad, en sjálfur fór hann til drottn-

ingar að flytja henni þessi fagnaðartíðindi. Þegar Fareksad kom, hljóp konungur móti honum með útbreiddan faðminn, og lofaði honum að koma í kvennabúrið eins og áður. Þegar drottning sá hann, hljóðaði hún upp yfir sig af gleði og lofaði guð með innilegri þakkargjörð. Lifðu þau síðan öll þrjú í sátt og samlyndi, og nutu langra og góðra lífdaga. Lýkur svo þessari sögu."

„Kænskubragð drottningar og kerlingar sýnir það, hversu konur eru bragðvísar, ef þær vilja leggja ljettann á eitthvað. Þjer sjáið og, að ef hermaðurinn hefði hrapað að því, að drepa Fareksad eins og fyrir hann var lagt, þá hefði konungur iðrazt eptir á, og angrazt af samvizkubiti, og hefði það þá verið um seinan. Eins mundi og fara fyrir yður, ef þjer ynduð of bráðan bug að lífláti mínu. Undir eins og sannleikurinn kæmi í ljós, munduð þjer iðrast eptir að hafa gert mjer rangt til, en það yrði þá ekki aptur tekið.«

Asad-bacht ljet nú leiða Bachtjar aptur í varðhaldið. Daginn eptir gekk áttundi vezírinn fyrir konung og mælti: „Spekingar í fornöld hafa líkt konungsveldinu við trje, og sagt að rjettlætið væri rót þess. Þessi samlíking er næsta heppileg. Ef rótin skaddast, þá missa limarnar vöxt og viðgang; blómin fölna, blöðin falla af, og trjeð hrörnar. Rjettlætið heimtar að Bachtjar sje hegnt og spyrjist það ekki bráðum út um land, að hann hafi fengið makleg málagjöld fyrir ódæði sitt, þá segir mjer svo hugur um, að rætur ríkis yðar muni fá þau sár, er seint gróa."

Asad-bacht sá, að ráðgjafinn hafði satt að mæla og ljet sækja Bachtjar. Bauð hann þá böðlinum að reiða sverðið til höggs og sagði Bachtjar, að nú væri hvert augnablikið síðast fyrir honum. Þá mælti Bachtjar: „Herra! þjer, sem eruð athvarf hinna nauðstöddu, betur allir hlýddu boðum yðar. Eg vil ennþá einu sinni taka það fram, að þó þeir, sem ríkjum ráða hjer í heimi, eigi að vera rjettlátir og vandlætingasamir, þá eiga þeir samt ekki að vera flasfengnir, því flasfengni og fljótræði bakar þeim opt beiska iðrun. Þannig steypti og gimsteinasalinn sjer í hörmulega óhamingju, af því hann rasaði fyrir ráð fram."

„Hver var þessi gimsteinasali?" mælti konungur. „Hvaða flasfengni var það, sem kom honum á kaldan klaka?"

Asad-bacht sagði honum þá sögu þessa.

## Gimsteinasalinn.

Einusinni var gimsteinasali, manna auðugastur, og manna glöggskyggnastur að þekkja gimsteina og perlur. Kona hans var af góðum ættum, og afbragð annara kvenna fyrir vitsmuna sakir. Einusinni var hún óljett og bjóst við því á hverri stundinni, að hún yrði ljettari; þá bar svo við, að konungur gerði gimsteinasalanum orð, að hann kæmi þegar á sinn fund. Hafði konungur heyrt, að hann kynni manna bezt að meta gimsteina, og hugði því að leita ráða hans og spyrja hann um gimsteina nokkra, sem hann ætlaði að kaupa og hafa í gripasafni sínu. Gimsteinasalinn sá engan veg til þess, að skorast undan boði konungs, og bjóst því til ferða. Þegar hann kvaddi konu sína, mælti hann: „Eg verð að skilja við þig um stund, því dýrt er drottins orðið. Á meðan eg er burtu, skaltu gæta bús og barna. Verði það sveinbarn, er þú fæðir, þá skal sveinninn heita Behrus*), en sje það meybarn, skaltu sjálf ráða nafni þess. Vertu sæl! Gleymdu mjer ekki! minnstu mín ávallt í bænum þínum!“

Þegar gimsteinamaðurinn kom til höfuðborgarinnar, gekk hann fyrir konung og kvaddi hann virðulega; fjell hann fram fyrir hann sem siður er til, kyssti jörðina, og hjet honum hlýðni og hollustu. Kvaðst konungur hafa gert orð eptir honum til þess að láta hann velja úr perlum nokkrum, þær er fegurstar væru og samboðnastar tign sinni. Ljet hann síðan færa honum skrín með perlum í. Gimsteinamaðurinn leysti starfa sinn vandlega af hendi, svo konungi líkaði mæta vel. Gaf hann honum góðar gjafir og kvaðst eptirleiðis mundu eiga skipti við hann, ásamt hirðfólki sínu; fól hann honum á hendur að greypa gimsteina í korónu sína og belti og aðra skartgripi. Gimsteinamaðurinn var menntaður vel og gleðimaður mikill; fjekk konungur því brátt mestu mætur á honum, gerði stórvel til hans og ljet hann ávallt ganga sjer hið næsta.

Kona gimsteinamannsins hafði alið tvo fagra sveina skömmu eptir að hann var að heiman farinn. Nefndi hún annan sveininn Behrus, sem maður hennar hafði fyrir mælt, en hinn sveininn kallaði hún Rúsbeh. Sendi hún síðan í snatri mann til höfuð-

---

*) Þ. e. gæfudagur

borgarinnar til að flytja bónda sínum þessi fagnaðartíðindi. Fjekk hún sendimanni svolátandi brjef: „Guðleg forsjón hefur látið mig eignazt tvo sonu; eru þeir svo afbragðsfagrir, að eg get ekki með orðum lýst því, og enginn getur gert sjer hugmynd um fríðleik þeirra. Komdu því, elskan mín! svo við bæði í einu getum vegsamað drottinn fyrir gæzku hans. Þú mátt ekki vera lengur burtu frá mjer, því fjærvist þín fær mjer óbærilegrar sorgar.“

Þegar gimsteinamaðurinn fjekk brjef þetta, lofaði hann fyrst og fremst guð fyrir þenna gleðilega atburð, og gekk síðan fyrir konung, og beiddi hann fararleyfis. En konungur hafði svo miklar mætur á gimsteinasalanum, að hann synjaði honum orlofsins, en kvaðst þó mundu veita honum það að ári liðnu. Þegar ár var frá liðið, minnti gimsteinamaðurinn konung á heitorð sín, en það fór á sömu leið; konungur kvaðst skyldu gefa honum fararleyfið að ári liðnu, og fór svo í átta ár samfleytt. Gimsteinamaðurinn varð að sitja við hirðina allan þenna tíma, en kona hans annaðist uppeldi sona sinna; ljet hún kenna þeim ýmisleg tungumál, skript og allt, sem ungum mönnum sæmir að kunna.

Undireins og sveinarnir voru orðnir skrifandi, rituðu þeir föður sínum brjef til; voru brjefin svo vel rituð, að faðir þeirra dáðist að, og fór þess enn á leit við konung, að hann gæfi sjer fararleyfi. Að vísu synjaði konungur honum fararleyfis, en bætti því þó við, að ekkert væri því til fyrirstöðu, að áreiðanlegir menn sæktu konu hans og börn. Gimsteinamaðurinn varð að láta sjer það lynda, hvort sem honum líkaði vel eður illa. Ritaði hann konu sinni brjef til, cg sagði hún skyldi koma. Skömmu eptir að hún hafði fengið brjefið, lagði hún á stað með sonu sína. Að kveldi hins sjöunda dags eptir að þau voru að heiman farin, tóku þau sjer náttból á sjáfarströndu. En með morgunsárinu hlupu sveinarnir frá móður sinni ofan að sjáfarmálinu; gekk þeim nýjungagirni til þess, því þeir höfðu aldrei fyrri sjeð sjó. Varð þá maður á vegi þeirra og spurði þá, hvort þeir hefðu ekki fundið pyngju fulla af gullpeningum.

Þetta var gimsteinamaðurinn. Hafði honum leiðzt að bíða konu sinnar og sona, og fór að konungi fornspurðum til móts við þau. Hafði hann verið tvo daga á leiðinni áður hann kom í ná-

munda við ströndina, þar sem þau mæðgin höfðu látið fyrirberazt um nóttina. Um sólar uppkomu hafði hann kastað klæðum og lagt þau ásamt pyngju sinni á sjáfarbakkann. Hafði hann því næst fleygt sjer út í sjóinn, en er hann hafði laugazt, klæddist hann aptur, tók belti sitt og hjelt svo á fram leiðar sinnar. Þegar hann var kominn kippkorn burtu þaðan, saknaði hann pyngju sinnar. Sneri hann þá við og leitaði lengi pyngjunnar, en fann ekki. Sá hann þá sveina tvo, sem voru á gangi á sjáfarströndinni, og þókti honum ekki ólíklegt, að þeir mundu fundið hafa pyngju sína. Spurði hann sveinana um pyngjuna, en þeir þverneituðu og kváðust alls ekki hafa fundið hana. Reiddist gimsteinamaðurinn þá, og ámælti sveinunum harðlega. Þeir gátu ekki tekið því með þökkum, og sló þar í harða orðadeilu með þeim. Lauk svo, að gimsteinamaðurinn þreif sveinana í bræði sinni og fleygði þeim báðum út í sjóinn. Í sömu andránni heyrði hann kvennmanns rödd, sem kallaði hástöfum: „Behrus og Rúsbeh.“ Það var móðir sveinanna, sem var að kalla á þá. Hafði henni þókt þeir vera lengi burtu, og var farin að undrast um þá. Gimsteinamaðurinn kenndi rödd konu sinnar og hljóp til hennar. Urðu þar fagnaðar fundir. Kvaðst hann þá feginn vilja faðma að sjer sonu sína. því hann hefði heyrt, er hún kallaði á þá, og spurði hann, hvar þeir væru.

„Eg veit ekki, hvað af þeim er orðið,“ svaraði konan. „Það er ekki nema dálítil stund síðan þeir hlupu frá mjer til að horfa út á sjóinn. Mjer var farið að lengja eptir þeim og hljóp eg á stað að leita þeirra, og þá mætti eg þjer.“

Þegar gimsteinamaðurinn heyrði þetta, sá hann gjörla, hvert slys sig hafði hent; grjet hann þá og hljóðaði hástöfum upp yfir sig af örvæntingu; sagði hann konu sinni upp alla söguna, að hann hefði kastað börnum þeirra út í sjóinn, og grjet hún þá sáran og barst aumlega. Leituðu þau síðan sona sinna fram með ströndinni, en fundu ekki, og jók það harm þeirra, er leitin varð árangurslaus. Loksins varð það úr, að þau hjeldu brott hrygg í huga, því nú var þeim ekkert til yndis hjer í heimi. — Eptir nokkurra daga ferð komu þau að borg einni mikilli; lá borgin á fögrum stað og var hin skrautlegasta; rjeðu þau það af, að lifa þar það sem eptir

var æfinnar. Keyptu þau hús eitt lítið í borginni, og ólu þar aldur sinn; lágu þau opt á bæn til guðs og hörmuðu missi barna sinna.

Ekki höfðu sveinarnir beðið bana á sjónum. Öldurnar hröktu þá á ýmsa vegu og köstuðu þeim loksins upp á þurt land, sínum í hverju lagi. Þegar Behrus bar að landi, hittist svo á, að konungur sá, er þar rjeði ríki, var á dýraveiðum og sá til hans; sendi hann menn sína til hjálpar honum, enda var hann nauðulega staddur. Leiddu þeir sveininn fram fyrir konung. Undraðist hann stórlega fegurð sveinsins, og hafði hann þó látið á sjást af hrakningnum og sjóvolkinu. Spurði konungur hann, hvað hann hjeti, og með hverjum atburðum honum hefði skolað þar á land. Behrus sagði til nafns síns og innti konungi ófarir sínar. „Behrus er heillavænlegt nafn,“ mælti konungur. „Þig hefur borið að landi í ríki mínu, en mjer hefur ekki orðið sonar auðið; mun eg því taka þig í sonar stað, og skaltu erfa ríkið eptir minn dag. Stíg þú á hestbak, og kom þú með mjer heim í borgina.“

Síðan hjeldu þeir heim til borgarinnar. Konungur ljet sjer mjög annt um Behrus og reyndist honum í öllu sem faðir. Gaf konungur honum gjafir á degi hverjum, og sýndi honum mestu blíðu; mátti af því ráða, hversu mikils hann virti hann. Voru því allir þegnar konungs Behrusi auðsveipir og undirgefnir, er þeir sáu að konungur hafði slíkar mætur á honum. Fám árum síðar tók konungur sótt og andaðist, en hafði þó skömmu fyrir andlát sitt kjörið Behrus til konungserfða að sjer látnum. Vann því allur landslýðurinn Behrusi hollustu eið.

Allt hafði farið á annan veg fyrir Rúsbeh, bróður hans. Honum kastaði upp á strönd eina þar sem ræningjar voru fyrir. Tóku ræningjarnir hann höndum og fóru með hann til þeirrar borgar, er næst var; ætluðu þeir að selja Rúsbeh mansali. Þetta var sama borgin og gimsteinamaðurinn bjó í. Fór gimsteinamaðurinn sama daginn til torgs, og ætlaði að kaupa þræl. Sá hann þá Rúsbeh, og leizt svo vel á hann, að hann lagði fölur á hann; gengu kaupin saman og borgaði gimsteinamaður, einsog upp á var sett, og leiddi hann síðan heim til sín. Sýndi hann konu sinni þrælinn, en hún æpti hástöfum og leið í ómegin, er hún leit hann; brá gimsteinamanninum þá mjög í brún. En er hún raknaði við úr

öngvitinu faðmaði hún son sinn að sjer, og sagði við mann sinn: „Æ, elskan mín! guð er okkur miskunsamur, hann er búinn að gefa okkur aptur hann Rúsbeh. Það er ekki þræll, sem þú ert kominn með; það er sonur okkar.“

Gimsteinamaðurinn faðmaði nú líka Rúsbeh að sjer með blíðu og viðkvæmni og spurði hann, hversu það hefði mátt verða, að hann hefði umflúið bráðan bana. Rúsbeh sagði þá, hversu það hefði atvikazt, að hann hefði komizt lífs af. Þökkuðu þau öll í einu hljóði guði fyrir dásamlega handleiðslu; þókti þeim nú ekki örvænt um, að þeim yrði auðið að sjá Behrus aptur.

Gimsteinamaðurinn kenndi Rúsbeh handiðn sína, og tók hann slíkum framförum, að hann skjótt varð jafningi föður síns í þeirri grein. Gimsteinamaðurinn kenndi og syni sínum allt, sem laut að þeirri verzlunargrein, er hann stundaði, svo að Rúsbeh varð dugandis kaupmaður. Fór verzlun hans óðum vaxandi, og það svo mjög, að hann rjeði af, að fara til konunga þeirra, er næstir voru, til þess að selja smíðisgripi sína. Kom Rúsbeh því einn dag að máli við föður sinn og sagði: „Eg hef heyrt mikið látið af konungi einum, sem er eigi svo langt í burtu hjeðan; hann kvað vera afbragð annara manna að rjettvísi, gjafmildi og viturleik, og taka öllum utlendingum mæta vel. Er mjer hugur á, að halda til höfuðborgar hans, og selja þar dýrgripi mína, eða láta landsmenn fá þá fyrir varning, sem eg get selt hjer og ábatazt á.“

Gimsteinamaðurinn gaf honum fararleyfi, en þó aðeins með því skilyrði, að hann yrði eigi mjög lengi að heiman, því hann vissi, hvað sárt þeim foreldrum hans þækti að sjá af honum.

Fám dögum síðar tók Rúsbeh sig upp og hjelt á stað til konungs þess, er svo mikið orð fór af, en það var að vísu enginn annar, enn bróðir hans. Sendi hann konungi dýrmætar gjafir, undir eins og hann kom til höfuðborgarinnar, og beiddist leyfis að mega tala við hann. Veitti konungur honum það, og gekk Rúsbeh á fund hans; þekkti hvorugur þó annan, enda höfðu báðir breyzt frá því, er fundum þeirra sleit, en þó var einsog þeir fengju góðan þokka hver til annars. Konungur tók Rúsbeh tveim höndum, bauð honum að setjast hjá sjer, og spurði hann, hver vandi honum væri á höndum, er hann væri kominn til höfuðborgar sinnar. Kvaðst Rúsbeh

vera kominn til þess að verzla með gull og gimsteina; sýndi hann þá konungi nokkra dýrgripi, og leizt honum svo vel á þá, að hann keypti þá alla fyrir það verð, sem Rúsbeh setti upp á. Ætlaði Rúsbeh þá að halda heim aptur, en konungur hafði fengið svo góðan augastað á honum, að hann bað hann að dvelja hjá sjer, og sagði hann mætti ekki fara burt, nema með sínu leyfi. Rúsbeh gekk nú í þjónustu hans og þáði á degi hverjum nýjan og nýjan vott vináttu hans. Fór svo fram um hríð þar til konungur komst í ófrið. Þókti konungi eigi þörf gerast, að hann hjeldi sjálfur í hernað, og sat hann sjálfur heima, meðan hermenn hans voru að reka fjandmennina af höndum sjer; lifði hann með Rúsbeh við glaum og gleði og dýrlegar veizlur. Kvöld eitt sátu þeir báðir að víndrykkju út í aldingarði, og drakk konungur svo mikið, að hann varð ekki sjálffær. og gat ekki komizt heim aptur í höll sína; lá hann þar sem hann var kominn og sofnaði. Var enginn af varðmönnum konungs viðstaddur, er gæti staðið þar á verði, og rjeði Rúsbeh af, að gera það sjálfur; brá hann sverði sínu og stóð yfir konungi alla nóttina. Daginn eptir í býtið komu hermenn, og sáu hvar maður stóð yfir konungi með brugðnu sverði; rjeðust þeir þá á hann og sviptu hann vopnum. Vaknaði konungur þá við háreystið, og spurði, hvað um væri að vera. Hermennirnir sögðu, að hann ætti þeim fjör að launa, því ef þeir hefðu komið litlu síðar, mundi Rúsbeh hafa drepið hann. Varð konungur þá svo reiður, að hann mundi hafa dæmt bróður sinn þegar í stað til dauða, ef ekki hefði hittzt svo á, að í sama vetfangi var kallað til bæna frá musteristurnunum. Undireins og bænagjörðinni var lokið, komu sendimenn frá hernum með þá orðsendingu, að konungur yrði sem fljótast að koma til hersins, því bráða nauðsyn bæri til. Sögðu sendimenn, að fjandmennirnir hefðu fengið liðsauka, svo að eigi væru líkindi til, að bugur ynnist á þeim, nema því að eins, að konungur kæmi sjálfur, og menn sæju hann í broddi fylkingar, og berðust undir merkjum hans.

Sendimennirnir lögðu svo fast að konungi að fresta eigi að fara til herliðsins, að hann gat eigi annað, enn orðið við áskorun þeirra. Hafði hann að vísu allan hug á að hegna Rúsbeh, en varð nú svo naumt fyrir, að hann þóktist eigi hafa tíma til, að

leiða mál Rúsbehs til lykta; bauð konungur því mönnum sínum, að varpa Rúsbeh í dýflissu, og láta hann vera þar þangað til hann kæmi aptur. Hjelt konungur samdægurs á stað til hersins, og urðu menn ærið fegnir komu hans. Gerðust nú skjót umskipti. þröngvaði konungur svo að fjandmönnum sínum, að þeir beiddust friðar. Lauk þannig ófriði þessum. Hjelt konungur sigri hrósandi heim til höfuðborgar sinnar, og lifði síðan í glaumi og gleði sem áður, en Rúsbeh sat harmþrunginn í fangelsinu, og mundi konungur alls ekki eptir honum.

Nú er að segja af foreldrum Rúsbehs, að þeim þókti seinka komu hans, og urðu mjög hrædd um hann, er ekkert spurðist til hans. Loksins sendu þau skilvísan mann með brjef til eins af skiptavinum gimsteinamannsins, til þess að fá fregnir af Rúsbeh; átti þessi skiptavinur gimsteinamannsins heima í þeirri borg, sem Rúsbeh, að sögn manna, dvaldi í. Sendimaður kom aptur, og gat sagt með fullri vissu, hvað á daga Rúsbehs hefði drifið, að hann hefði fyrst átt mesta láni að fagna, en síðan ratað í hina mestu ógæfu. þeim foreldrum Rúsbehs brá heldur enn ekki í brún við þessi tíðindi, og ráðguðust um, hvernig þau gætu frelsað hann. Leizt þeim það ráð vænlegast, að fara á fund konungs, og falla til fóta honum, og biðja hann að gefa sjer aptur son sinn. Lögðu þau nú á stað í því skyni og komu að mánuði liðnum í höfuðborgina. Gengu þau þegar til hallar konungs og fengu ráðgjafa konungs bónarbrjef. Brjefið var svo látandi:

„Ljómandi veldisstjarna! athvarf hinna nauðstöddu! við komum til yðar, og væntum halds og trausts, þar sem þjer eruð. Við erum orðin ellihrum, en auk ellinnar amar að okkur annað mótlæti, er okkur svíður sárt. Við áttum tvo sonu, og misstum við þá báða vofeiflega, en forsjónin gaf okkur aptur annan þeirra, og þóktumst við hann úr helju heimt hafa. Við hugguðum okkur við það, að hann mundi verða ellistoðin okkar. Lifðum við þannig glöðu lífi, þar til er við fengum fregnir um veglyndi, vizku og rjettvísi konungs vors. Langaði son okkar þá til að fara og kyssa þröskuldinn á hallarhliði hins mikla konungs, og fór hann því til höfuðborgarinnar. En því er miður að nú verður hann að veslast upp í varðhaldi hjá þeim konungi, sem við erum komin til að

líknar og ásjár. Ef þjer af mildi yðvarri vilduð láta Rúsbeh lausan, mundum við biðja þess af heilum hug, að ríki yðar fái vöxt og viðgang, og auður yðar og orðstír fari jafnan vaxandi.“

Ráðgjafinn lagði bónarbrjef þetta fyrir fætur konungs; las hann brjefið og hnykkti svo við, að hann vissi ógjörla, hvort hann væri vakandi eða sig dreymdi, því honum kom þegar til hugar, að brjefið kynni að vera frá foreldrum sínum. Bauð konungur að leiða þau inn í höllina. Óðar enn kona gimsteinamannsins leit konung, sá hún að það var sonur hennar, og hljóðaði upp yfir sig og sagði: „Æ! þarna er hann Behrus!“ Spratt konungur þá upp úr hásæti sínu og fleygði sjer fyrir fætur foreldra sinna; reistu þau hann upp og sýndu honum ástar atlot. Ljet konungur síðan foreldra sína setjast hjá sjer í hásætið, og sækja Rúsbeh í varðhaldið. Bauð hann og að gefa öllum bandingjum frelsi, er sátu í sama varðhaldinu, og sýndi með því, hvílíkur gleðidagur þetta var. Það var eigi nóg með það, að konungur varð harðla glaður að sjá aptur bróður sinn, heldur bauð hann Rúsbeh helfing ríkisins. Varð þeim bræðrum langra lífdaga auðið, og gerðu þeir foreldrum sínum allt til yndis og ánægju á elliárum þeirra.“

„Af þessari sögu sjáið þjer,“ mælti Bachtjar, „hversu illt hlauzt af óþolinmæði gimsteinamannsins, en á hinn bóginn sjáið þjer og, að það var gæfa konungs, að hann hrapaði eigi ofmjög að því, að kveða upp dauðadóm yfir Rúsbeh, því þá hefði hann mátt hafa það á samvizku sinni, að hafa látið drepa bróður sinn. Á sama hátt munuð þjer einhverntíma telja það heppni, að þjer hafið frestað dauðdaga mínum, því það getur ekki hjá því farið, að sakleysi mitt sannist.“

Konungur frestaði nú dauða Bachtjars ennþá einusinni. Daginn eptir gekk níundi vezírinn fyrir konung og mælti: „Herra! konungar eiga umfram aðra menn að standa við orð sín, enda er það í frásögur fært í flestum sagnaritum, að allir konungar hafi kostað kapps um, að vera orðheldnir. Því ef konungur gengur á bak orða sinna, missa þegnar hans allt traust á honum, þar sem ekkert má á hann ætla. Enginn skeytir þá hið minnsta um heit hans nje hótanir, og sakir vantrausts þessa veitir honum erfitt að stjórna landi sínu. Þjer hafið heitið þegnum yðar því, að hegna

ræningja syni þessum, en þó tekst honum með skröksögum sínum hvern daginn af öðrum, að komast undan hegningu þeirri, er honum hefur lengi hótað verið. Þessi vægðarsemi kveikir illan kurr hjá þegnum yðar, æðri sem lægri. „Úr þessu," segja þeir, „þurfum vjer eigi að kvíða hegningu; þó vjer höfumst að allar vammir og skammir, þá er ekkert að óttast, ef vjer kunnum eitthvert sögukorn. Konungur vor hefur svo miklar mætur á sögum, að eigi þarf annað, enn segja honum eitthvert æfintýri til dægrastyttingar, og á þann hátt er hægt að komast undan dauða hegningu." Þó yður þyki það góð skemmtan, að hlýða á sögur Bachtjars, má eigi svo búið standa; það tjáir eigi annað, enn þjer eyðið óánægju þeirri, er nú hefur náð að festa rætur hjá þegnum yðar, af því þjer frestið dauða sakadólgsins dag frá degi."

Konungur ljet nú sækja Bachtjar, og var kominn á flugstig með að segja böðlinum til, en þá beiddi Bachtjar um tveggja daga frest. „Herra," mælti Bachtjar, „þó þetta sje eigi langur tíma, þá mun guð samt á honum leiða sakleysi mitt í ljós, og bregða af því blæju myrkranna. Óvildarmenn mínir ofsækja mig og vilja mig feigan, af því þeir sjá ofsjónum yfir upphefð minni, er eg naut hjá yðar hátign. Öfundin er lík eldinum, sem öllu eyðir, er nærri honum kemur. Að því varð ógæfumanninum Abútemam, því það var rógburður óvildarmanna hans, sem fjekk honum á knje komið."

Asad-bacht kvaðst vilja heyra sögu hans, og tók þá Bachtjar til frásagna.

## Sagan af Abútemam hinum lánlausa.

„Herra! Abútemam hjet maður, hann var vel viti borinn og mörgum góðum kostum búinn; ávann hann sjer því ást og virðingu sveitunga sinna. Hann var svo auðugur, að hann vissi eigi aura sinna tal. Fyrir borg þeirri, er hann bjó í, rjeð höfðingi einn; hann var ágjarn og mesti ójafnaðarmaður; var það vandi hans að svipta alla þá, er honum virtust vel við efni, mestum hluta eigna þeirra, og ljet það renna í konungs sjóð, er hann tók með ofríki frá öðrum. Sá Abútemam sjer því eigi annað fært, enn

að ganga í gömlum og slitnum fötum, og lifa við lítilfjörlegan kost, til þess eigi bæri á auðlegð hans. Loksins varð hann leiður á lífi þessu, er hann aldrei mátti um frjálst höfuð strjúka; tók hann sig einusinni til, faldi allt það, er hann átti fjemætt og fór leynilega burt úr borginni á náttarþeli. Hjelt hann áfram ferð sinni um hríð þar til er hann kom í land eitt fagurt; voru þar landkostir góðir, frjóir akrar, fagrir aldingarðar, og tærar lindir. Kom hann brátt í höfuðborgina. Það var fjölmenn borg og auðug, með fögrum húsum; þar sat konungur einn; hann var rjettvís og skaut skjóli yfir ókunnuga menn, og veitti þeim góðar viðtökur. Þókti Abútemam því ekki áhorfsmál að taka sjer bólfestu í borg þessari; keypti hann sjer þar hús eitt mikið og fagurt. Komst hann brátt í kunningsskap við þá, er mest kvað að í borginni, og sóktu þeir opt á hans fund. Hann var og einkar gestrisinn við ókunnuga menn og aumingja; hýsti hann þá og gaf þeim föt og fæði. Nokkrum hluta af eigum sínum varði hann í almennings þarfir til alþjóðlegra bygginga; ljet hann brúa margar ár, grafa brunna fyrir ferðamenn, byggja sæluhús og leggja þjóðbrautir. Fjekk Abútemam brátt átt á sig almennt orð fyrir auð og örlæti, svo að það enda barst til eyrna konungs. Þókti konungi vænt um að hafa slíkan ágætismann í ríki sínu. Sendi hann einn af hirðmönnum sínum til Abútemams og bauð honum að koma á sinn fund.

Þegar Abútemam fjekk þessa orðsending, kyssti hann jörðina til merkis um auðsveipni sína, og kvaðst skyldu hlýða boði konungs. Bjóst hann síðan til ferða, og tók með sjer ýmsa dýrgripi til að færa konungi. Lofaði konungur honum þegar að koma á sinn fund, og fagnaði honum með mestu virktum; var það auðsætt, að hann mat hann umfram aðra menn. Ljet hann Abútemam setjast hjá sjer í hásætið. Þegar þeir konungur höfðu talazt við um hríð, ætlaði Abútemam að halda heim aptur, en þá kvaðst konungur vilja, að hann heimsækti sig á degi hverjum, og sagði að hann yrði að lofa sjer því. Upp frá þessu var Abútemam trúnaðarmaður konungs og einkavinur. Sagði konungur honum öll sín leyndarmál og gerði ekkert svo, að hann leitaði eigi ráða hans. Konungur hafði tíu vezíra. Þeir fengu þegar ýmigust á Abútemam, því þeir öfunduðust yfir því, að konungur bar eigi lengur sama

traust til þeirra og áður, en fór í öllu að ráðum Abútemams. Sóru vezírarnir þess dýran eið, að þeir skyldu fyrirkoma Abútemam. Leizt þeim vænlegast að taka það til bragðs, er nú skal greina."

Konungur einn í Tataralandi átti dóttur eina, er var afbragð annara kvenna að vexti og vænleik, en faðir hennar vildi eigi gipta hana. Var það vandi hans að drepa alla, sem komu að biðja hennar, og ætluðust vezírarnir svo til, að það skyldi einnig verða Abútemam að fjörlesti. Gengu vezírarnir í einum hóp fyrir konung, og sagði einn þeirra honum frá dóttur konungsins í Túrkistan, sem er einn hluti Tataralands, og ljet hann mikið af fegurð hennar. Er þar skjótt frá að segja, að þeir hættu ekki fyr, enn konungur felldi ástarhug til konungsdótturinnar, og að þeirra ráði rjeð hann af, að senda Abútemam, til þess að bera upp bónorðið fyrir sína hönd. Abútemam skoraðist eigi undan ferðinni. Hjelt hann á stað og segir eigi af ferðum hans, fyr enn hann var kominn til höfuðborgarinnar, þangað sem ferðinni var heitið. Konungur lofaði honum þegar að koma á sinn fund, og bar Abútemam þá þegar upp erindi sitt. Tatara konungur svaraði, að hann gæti eigi annað enn talið það sóma sinn, að jafn ríkur höfðingi vildi mægjast við sig: en þó gæti verið, að dóttir sín væri eigi honum samboðin; væri því bezt að hann kæmi sjálfur í kvennabúrið, svo hann gæti sjeð hana með eigin augum og talað við hana; gæti hann þá borið um það, hvort hún væri konungi fullkosta.

„Guð forði mjer," mælti Abútemam, „frá því að renna augum til konu þeirrar, sem á að verða drottning konungs míns. Ef dóttir yðar væri honum ekki samboðin, þá hefði forsjónin eigi látið hann leggja ástarhug á hana."

Tatara konungur fjell um háls Abútemams, er hann heyrði þetta, faðmaði hann að sjer og mælti: „þú ert sá eini af öllum þeim sendiherrum, sem hingað hafa komið að biðja dóttur minnar, sem hefur forðað þjer fjörlesti með hyggni þinni. Eg hef stungið uppá hinu sama við þá alla og við þig, en enginn hefur haft vit á að færast undan því; hef eg gert það bæði til þess, að reyna trúmennsku þeirra, og vitsmuni konunga þeirra, sem hafa valið þá. Eg hef látið hálshöggva þá alla, sakir ósvífni og ótrúmennsku: mundi eg geta sýnt þjer höfuðin af fjögur hundruð sendiherrum,

sem hafa orðið að láta lífið fyrir fífldirfsku sína. Guði sje lof að eg hef nú hitt fyrir konung þann, sem hefur haft vit á að velja hygginn og vandaðan mann, og hika eg mjer ekki við að gefa honum dóttur mína.“

Abútemam þókti einkar vænt um, að honum heppnaðist svo vel að leysa af hendi erindi sitt. Bauð konungur honum, að ráða fyrir föruneyti því, er hann ljet fylgja dóttur sinni. Var fjöldi þræla og klyfjaðra úlfalda í för með konungsdóttur. Varð konungur svo feginn, er hann heyrði hversu vel Abútemam hafði heppnazt ferðin, að hann reið móti honum tvær dagleiðir með allan þorrann af íbúum höfuðborgarinnar. Hjelt konungur veglega innreið í borgina, og fór brúðkaupið síðan fram með miklum mannfagnaði, vegsemd og viðhöfn, og sat gjörvöll hirðin að veizlunni. Þau konungur og drottning voru Abútemam þakklátari enn frá verði sagt, fyrir gagn það, er hann hafði unnið þeim báðum, og var hann nú í meiri metum enn nokkurntíma áður; óx því öfund ráðgjafanna um allan helfing, og sáu þeir nú að illræði þeirra hafði ekki orðið honum til annars enn góðs. Bjuggu þeir honum nú annað vjelræði, og gáfu tveimur ungum þrælum ærið fje, til þess þeir skyldu rægja Abútemam við konung. Kvöld eitt voru þrælarnir að núa iljarnar á konungi til þess hann skyldi sofna; sagði þá annar þrællinn við hinn: „Það eru ósköp að vita, hvað Abútemam liggur illa orð til konungs. Skyldi það vera satt, sem hann segir, að dóttir Tatara konungs hafi aðeins af ást til hans farið úr löndum föður síns. Svo mikið er víst, að jafnskjótt sem konungur bregður sjer eitthvað í burtu, þá fer hann í kvennabúrið, til þess að eiga mök við drottningu einsog að undanförnu.“

Undireins og konungur heyrði þetta, ljet hann kalla á Abútemam og spurði hann, hvaða hegningu sá maður ætti skilið, sem hefði þegið af konungi sínum æðstu tign og ótal velgjörðir, en launaði honum eigi betur enn svo, að hann sæti á svikráðum við hann. „Hann á dauðann skilið,“ svaraði Abútemam. „Það er gott, að þú hefur kveðið upp yfir sjálfum þjer dauðadóm!“ mælti konungur og lagði hann að svo mæltu í gegn með sverði sínu. Var Abútemam þegar örendur. Tóku þrælarnir lík hans og köstuðu í fljót eitt. En óðar enn konungur hafði vegið hann, iðraðist hann

þess sárlega, að hafa drepið ástvin sinn. Kvað svo mikið að harmi hans, að hann tók sig út úr öllum hirðglaumnum og lifði einn sjer í herbergjum sínum. Þá var og atvik eitt er jók á samvizkubit hans. Svo bar við dag einn, að hann var að ráfa um höll sína í þungu skapi; heyrði hann þá, að tveir menn voru í orðadeilu* bakvið skjaldþil eitt. Nam hann þá staðar, og hleraði eptir, hvað þeir sögðu. Varð hann þess vísari, að þrælar þeir, er höfðu rægt Abútemam, voru að þrátta um verðlaunin, sem þeir höfðu fengið fyrir rógburðinn. Þókti yngra þrælnum eldri þrællinn heimta of mikið í sinn hlut. Fór konungur þá inn í herbergi sitt og ljet sækja þrælana, og neyddi þá til að segja sjer, hver hefði hvatt þá til þess að vinna slíkt níðingsverk. Varð hann mjög sorgbitinn af því, að hafa mót vilja sínum vegið Abútemam, og þókti því ekki minna mega vera, enn að hann hefndi hans; ljet hann því drepa ráðgjafana alla tíu og rífa niður hús þeirra, en Abútemam, sem hann hafði drepið saklausan, grjet hann alla æfi.

Þegar Bachtjar hafði lokið máli sínu, ætlaði konungur að láta aptur fara með hann í varðhaldið, en vezírarnir og allir höfðingjar ríkisins kröfðust þess fastlega, að hann væri líflátinn; gramdist þeim hverflyndi konungs, og kváðust mundu fara frá hirðinni, ef hann gerði þeim þá smán, að gefa Bachtjar grið. Enda drottningin tók í sama strenginn og ráðgjafarnir, en Asad-bacht gat þó eigi fengið það af sjer, að bjóða böðlinum að drepa Bachtjar, og vera sjónarvottur að dauða hans. Fól hann því ráðgjöfum sínum á hendur að gangast fyrir lífláti Bachtjars. Var Bachtjar þá leiddur brott frá konungi. Kallari einn gekk um allan bæjinn, og boðaði líflátið; þyrptist þá saman múgur og margmenni, og varð mannþröng mikil á torginu, því allir vildu horfa á. Hrærðist fólkið til meðaumkvunar, er það sá Bachtjar, því hann var á æsku skeiði og sakleysið lýsti sjer á svip hans. Nú vildi svo til, að ræningjaforinginn Farek-Servar, sem áður er um getið, kom til borgarinnar um sama leyti. Sá hann fósturson sinn leiddan til lífláts, og brá mjög við; varð hann þá sem hamstola og skeytti engu, brauzt hann fram með fjelögum sínum, og var sjálfur fremstur í flokki. Ætlaði hann að frelsa Bachtjar, en varðmannaflokkurinn

þar hann ofurliða, tók hann höndum ásamt fjelögum hans og leiddi hann fyrir konung. Spurði konungur hann, hvað honum hefði gengið til að greiða atlögu þessa. „þessi æskumaður er sonur minn,“ mælti Farek-Servar. „Við höfum lengi verið saman og eg veit af eigin reynslu, að hann er vammlaus maður og hinn mesti öðlingur, svo þjer verðið að láta drepa mig líka, ef hann verður af dögum ráðinn. Foreldrar hans munu víst vera konungbornir; eg vildi að þau vissu, hvar hann er nú staddur, þau mundu ekki þola það, að það væri svo mikið sem litið hornauga til hans.“

Nú fór konungur að hlægja að orðum hans og sagði: „það er ekki heil brú í því sem þú segir; fyrst kallar þú hann son þinn og í sömu andránni segir þú, að hann sje af konungum kominn.“ „Eg þarf ekki annað,“ svaraði Farek-Servar, „enn að segja sögu hans, og þá er allri mótsögninni lokið. Eg fann hann á bakka tjarnar einnar í Kermans öræfum; þá var hann nýfætt barn; var hann sveipaður gullofnum silkimöttli, og hafði á sjer dýrindis hálsmen úr tíu perlum . . .“ þá greip konungur fram í og mælti skjótt: „Áttu ennþá men þetta?“ „Menið get eg lagt fyrir fætur hátignar yðar,“ mælti Farek-Servar.

Konungur sá þegar, að þetta var hálsmen sonar síns, og hljóp með það til drottningar. þegar drottning sá menið, hljóðaði hún upp yfir sig og mælti: „Hvers ert þú orðinn vísari um son okkar?“

„Hann er hjerna,“ mælti konungur, og ljet nú koma með Bachtjar, og flýtti sjer að losa af honum fjötrana, og klæða hann í konunglegan skrúða. Bachtjar vissi ekki, hvaðan á sig stóð veðrið, enda voru þetta skjót umskipti. þó brá honum enn meira í brún, er konungur mælti við drottningu sína: „það er hann sonur okkar, sem við skildum eptir í Kermans öræfum.“ Grjet þá drottningin fögrum tárum og lagði hendur um háls honum, og hjelt honum lengi í faðmi sínum. Konungur ljet þegar í stað hálshöggva alla tíu vezírana, sem nálega höfðu búið Bachtjar líftjón með rógi sínum og vjelráðum. Ljet Asad-bacht Bachtjar þegar setjast að völdum; unnu stórmenni ríkisins honum hollustu eið, og fór það allt fram með mestu viðhöfn. Farek-Servar varð

stórvezír hans. Varð hann sem allur annar maður, og gegndi embætti sínu með slíkri hyggni og hamingju, að hann er lofaður mjög í sagnaritum fyrir ágætisverk þau, er hann vann, meðan hann sat að völdum.

# Frá 602. til 609. nætur.

## Sagan af Asem og andadrottningunni.

Einusinni bjó ungur litari í Balsora er Asem hjet. Hann hafði hið bezta skynbragð á að velja fagra liti; hann var fríður sýnum og vel viti borinn, en allt um það var hann þó enginn auðmaður, enda varð hann og að verja nokkru af því, sem honum áskotnaðist, til þess að standa straum af móður sinni, sem var hjá honum í elli sinni. Hændust að honum skiptavinir á degi hverjum, því hann var lipurmenni og bauð af sjer bezta þokka; hefði því eigi hjá því farið, að honum hefði blessazt atvinnuvegur hans, ef annað hefði eigi legið fyrir honum.

Svo bar til einn dag, að maður kom inn til hans í litunarbúðina. Komumaður var hníginn á efra aldur og skrautbúinn. Undireins og hann sá litarann, gall hann við og sagði: „Hvernig stendur á því, að þjer, ungur maðurinn, jafn fríður og greindur. skulið fást við slíka handiðn?“ Asem svaraði honum og sagði: „Eg skammast mín ekki fyrir sómasamlegan atvinnuveg, og eg kann að sníða mjer stakk eptir vexti.“

„En ef yður stæði til boða að verða lánsmaður allt í einu, munduð þjer þá hafna slíkum kosti?“

„Ef það kæmi ekki í bága við samvizku mína, mundi mjer vera það mesta yndi, að gleðja móður mína með ýmsu, og halda áfram bókiðnum mínum, sem eg hef orðið að hætta við sakir atvinnu minnar.“

Þá sagði karlinn með táldrægum blíðu svip: „Sonur sæll! ósk yðar mun rætast. Þjer hafið misst föður yðar, en eg skal vera yður í föður stað. Eg kann þá ómetanlegu list, að breyta ódýrustu málmum í gull, og get á svipstundu gert yður að gæfumanni. Bíðið mín í búð yðar snemma í fyrra málið.“

Að svo mæltu gekk komumaður á burt, en Asem sat sem agndofa af því, er hann hafði heyrt. Var hann óðlátur sakir óþreyju og eptirvæntingar, og lokaði búð sinni í mesta snatri; hljóp hann svo heim til móður sinnar með glöðu bragði og sagði henni frá öllu einsog var. Móðir hans hugsaði sig lítið eitt um, og rjeði honum til að vara sig á þessum ókunna manni, því verið gæti, að þar væri úlfur í sauðargæru, þó hann væri mjúkur á manninn. „Bú þú son minn," sagði hún, „við sömu kjör og hingað til, þó ekki sjeu þau sem glæsilegust. Ertu ekki fullauðugur, þar sem þú hefur nóg til nauðsynja okkar beggja?"

Asem hugfesti þessar skynsamlegu fortölur móður sinnar og lofaði henni, að vera var um sig. Snæddu þau síðan kvöldverð og gengu svo til rekkju. Asem kom eigi dúr á auga alla nóttina, og beið hann þess með óþreyju, að dagaði, því svo var ráð fyrir gert, að þeir fyndust þegar í býtið. Undireins og morgunroði sást á lopti, skundaði hann til búðar sinnar. Eigi þurfti hann lengi að bíða komumanns. Kvöddust þeir sem siður er til. Komumaður hjelt á deiglu í hendinni, og sagði Asem að kveikja eld, og spurði hann jafnframt, hvort hann hefði ekki við hendina mola af einhverjum ódýrum málmi, svo sem járni, blýji eða öðru slíku. Fann Asem þá gamlan eirketil; brutu þeir ketilinn í smámola og ljetu í deigluna. Tók gullgerðarmaðurinn þá túrbaninn af höfði sjer og rakti sundur; innan í honum var ofurlítið af gulleitu dupti; stráði hann því á eirinn og hafði yfir einhverja galdraþulu um leið. Skömmu síðar tók hann úr deiglunni mola af skíru gulli; fjell Asem þá hreint í stafi. Bauð gullgerðarmaðurinn honum að fara með gullið til víxlara, og sagði hróðugur: „Eruð þjer nú genginn úr skugga um kunnáttu mína?" Asem játti því, og fór þess þegar á leit við gullgerðarmanninn, að hann kenndi sjer þessa leyndardómsfullu list. Tók hann vel undir það og svaraði: „Eg ætla að borða hjá yður í kvöld, og þegar við verðum tveir einir, skal eg gera sem þjer mælist til."

Fóru þeir síðan til hýbýla Asems. Sýndi Asem móður sinni gullmolann, sem hann með eigin augum hafði sjeð tilbúinn, og beiddi hana að vera um kvöldið hjá einni af grannkonum hennar, svo hann gæti verið einn sjer með gestinn. Hún þóktist viss um

að svo mundi vera, sem sonur hennar sagði, er hún sá gullið með eigin augum og ljet því fúslega að orðum sonar síns. Asem gaf komumanni svo góðan kvöldverð, sem kostur var á. Tók Asem nú ríflega til sín af rjettunum og gladdi sig einsog snauðum mönnum er títt, þegar þeir verða fyrir einhverju happi, og þó hann væri átrúandi Mahómeðs og hjeldi að öðru leiti trú sína, þá neytti hann samt víns, og það freklega. Var hann óvanur víndrykkjum, og varð brátt dauðadrukkinn. Gullgerðarmanninum þókti nú vel í veiði bera, og laumaði svefndupti í bikar Asems. Asem átti sjer einskis ills von og slokaði í sig úr bikarnum; hnje hann síðan út af í legubekknum steinsofandi. Lagði töframaðurinn hann þá í langa kistu og lokaði henni. Kallaði hann síðan á daglaunamann, sem hann hafði látið vera til taks, og skipaði honum að bera Asem út á skip eitt, er lá seglbúið. Ljetti það þá atkerum og og ljet í haf.

Þegar móðir Asems kom heim um kvöldið, og sá að þeir voru allir á brott, Asem og komumaður, þá taldi hún það víst, að sonur sinn mundi í ógæfu hrapaður, og mundi maður sá hafa svikið Asem, er hún hafði varað hann við. Hún hárreitti sig í ofboði og örvæntingu, og átaldi son sinn fyrir grunnhyggnina, en hinn fyrir grimmd og mannvonzku. Nágrannar hennar heyrðu harmakvein hennar og þustu til hennar til þess að heyra, hvað um væri að vera. Sagði hún þeim alla söguna, en þeim hnykkti við, og reyndu að hugga hana, en það var til einskis. Hún ljet setja legstein í garð sinn, og þar sat hún grátandi nótt og dag, og neytti einskis.

Nú víkur sögunni til gullgerðamannsins. Hann ljet í haf og gaf vel byri. Hann var einn af eldsdýrkendum, og leikinn mjög í töfralist. Kom hann á ári hverju til Khórasan, til þess að krækja í einhvern ungan mann af átrúendum Mahómeðs; ginnti hann þá með fögrum loforðum, og hafði þá síðan til þess að útvega sjer það, er hann þurfti til gullgerðar sinnar, en drap þá svo, er hann var búinn að hafa not af þeim, því hann óttaðist, að þeir mundu ella ljósta upp leyndarmálum sínum. Tveimur dögum eptir brottför þeirra þókti Bahram, því svo hjet töframaðurinn, mál til komið, að gera Asem þess vísari, hversu aumlega hann var staddur; opnaði hann því kistuna og dreypti í nasir hans vökva nokkrum; hnerraði Asem

þá og neri augun; leit síðan upp og skimaði kringum sig, og vissi eigi hvaðan á sig stóð veðrið. Sá hann töframanninn og þekkti hann; rjeði hann af ruggi skipsins, í hvert óefni nú var komið, að hann hafði gengið í greipar þrælmennis þess, er móðir hans hafði varað hann við. Sem sanntrúaður Mahómeðs maður gaf hann sig undir guðs vilja og tók því með þolinmæði, er að höndum bar. Hafði hann yfir þessi orð úr kóraninum: „Guð einn getur hjálpað og enginn annar, sá guð, sem vjer erum frá komnir og munum aptur til hverfa. Mikli drottinn! virztu að leiða mig þann veg, er til lífsins liggur, — á feril þeirra, sem þú elskar, og hafa þig í engu styggðan.“

„Hvernig stendur á þessu?“ sagði hann því næst með mestu blíðu við karlinn; „þjer hjetuð mjer auðlegð og ánægju; er það hjerna sem þjer hafið heitið mjer?“

„Heyr á endemi, hundheiðni Mahómeðs maður!“ mælti töframaðurinn. „Enginn skal á þjer vinna nema eg einn, og það skal vera yndi mitt, að láta þig kveljast sem lengst. Þrátíu og níu hafa komist í klær mínar einsog þú, og þú ert hinn fertugasti. Það er ekki nema einn vegur til þess, að þjer verði grið gefin. Vinn mjer eið að því, að þú afneitir Mahómeðs trú og tignir eldinn einsog eg; þá skal eg vera við þig einsog faðir og kenna þjer leyndardóma mína.“

„Guð láti þig tortýnast ásamt allri trú þinni,“ svaraði Asem og stökk upp einsog æðisgenginn. „Það sver eg við Mahómeð, að eg skal aldrei gerast trúníðingur, til þess að sleppa úr lítilfjörlegum háska hjer í heimi, og fyrirgera þeirri sælu, er drottinn sanntrúaðra manna hefur heitið.“

„Mæl manna armastur!“ ansaði töframaðurinn, og rjeði sjer eigi fyrir reiði; „eg skal draga úr þjer drambið, og sjá hvort þú ert eins fastur fyrir, og þú þykist.“ Kallaði hann því næst á þræla sína, og bauð þeim að leggja Asem endilangan á gólfið í lyptingunni. Hýddi töframaðurinn Asem þá hæls og hnakka á milli með vendi, sem var settur hörðum göddum; varð Asem allur blóðrisa undan vendinum. Asem bar sig karlmannlega og skammaði töframanninn, sem hamaðist einsog hann væri trylltur. Loksins hætti hann, og var þá sem hann væri uppgefinn. Ljet töfra-

maðurinn þá færa Asem í harða fjötra, og bauð þrælum sínum að kasta honum niður í kjalsogið, og gefa honum vatn og brauð til viðurværis, svo hann eigi dæji úr sulti. Eigi ljet Asem að heldur hugfallast; hann treysti guði sínum, og var þess fullöruggur, að brátt mundi verða endi á píslum sínum. Töframaðurinn beitti nýjum og nýjum kvalræðum við hann á degi hverjum.

Einn dag brast á mesta ofsaveður; öldurnar slöngdu skipinu upp til skýja og lá við að það brotnaði í spón í hafrótinu. Skaut skipverjum þá skelk í bringu, og hugðu að veðrið stæði af því, að Asem væri svo grimmt leikinn; varð Asem það til gæfu, því skipverjar kröfðust þess, að hann væri látinn laus. En er töframaðurinn færðist undan, þá reiddust skipverjar, tóku þræla þá, er lagt höfðu fjötrana á Asem, og köstuðu þeim fyrir borð, sögðu þeir að töframaðurinn skyldi fara sömu förina, ef hann ljeti Asem eigi lausan þegar í stað. Varð Bahram þá að slaka til; kúguðu skipverjar hann enda til þess, að falla Asem til fóta og biðja hann fyrirgefningar. Hugsaði töframaðurinn Asem þá þegjandi þörfina. og var meir í mun að láta Asem gjalda þess grimmlega. Slotaði þá veðrinu og átti Asem við betri kjör að búa það er eptir var af leiðinni, og hresstist hann því lítið eitt. Loksins náðu þeir landi. Gengu þeir Asem og Bahram þá af skipsfjöl. Hafði Bahram allar klær í frammi til að laða Asem að sjer og lá við sjálft honum tækist það; kvaðst Bahram ætla að fara til gulllandsins. Bahram bauð stýrimanni að bíða sín tvo mánuði. Lagði hann því næst á stað upp í landið. þegar þeir voru orðnir tveir einir, tók Bahram litla trumbu og tvo sprota undan klæðum sjer og tók að slá hersöngslag á trumbuna. Skall þá rjúkandi stormbylur yfir eyðimörkina, og þyrlaði upp moldarstroku. Varð Asem þá hræddur, en glaðnaði aptur, er moldrykinu ljetti; sá hann þá þrjá úlfalda, en við því hafði hann sízt búizt. Einn af úlföldunum var klyfjaður öllu sem viðþarf á ferðum, en hinir tveir úlfaldarnir voru með söðli og beizli, og virtust bíða þess, að þeim væri stigið á bak.

Bahram stje á annan úlfaldan, en sagði Asem að stíga á hinn. Hjeldu þeir á stað, og bar þá svo skjótt yfir, að undrum sætti. Hjeldu þeir áfram ferðinni í átta daga og gerðist ekkert sögulegt. Á níunda degi sá Asem í fjarska, að glampaði á eitt-

hvað; þegar þeir komu nær, sá hann, að það var höll, sem ljómaði af gulli og gimsteinum; en fyrir framan hana var afarbreið flöt, alþakin blómlegum skógarrunnum. Töframaðurinn hafði ennþá eigi tekið eptir höllinni, en er honum varð litið á hana, sneri hann við og hleypti úlfalda sínum sem mest hann mátti. Asem var að vísu hugur á, að ríða heim til hallarinnar, en þess var enginn kostur, því úlfaldi hans vildi eigi fara þangað, heldur elti hann úlfalda Bahrams og stöðvaðist eigi fyr enn hann var kominn inn í þykkan skóg; þar nam Bahram staðar, því þá þóktist hann úr öllum háska sloppinn. Asem spurði Bahram, hvernig á þessu stæði, en hann svaraði því, að vondir andar byggju í höllinni, og væru það fjendur sínir; kvaðst hann skyldu segja honum meira um anda þessa síðar meir. Fóru þeir nú leiðar sinnar og að nokkrum tíma liðnum spurði töframaðurinn Asem, hvort hann sæji ekki neitt langt í burtu. „Eg sje svarta skýbólstra,“ mælti Asem, „og færast þeir frá austri til vesturs.“

„Það eru ekki ský,“ sagði Bahram, „það eru fjöll, sem kallast skýjafjöll. Er það áform mitt að komast uppá tindinn, og þá er ferðinni lokið. Með þínu fulltingi munum við svo halda aptur til skips okkar með meiri auðæfi enn allir konungar í heimi eiga. En þú verður þá að breyta eptir boðum mínum.“

Asem kvaðst skyldu gera það, en þó reis honum hugur við, er hann minntist þess, að töframaðurinn var búinn að sálga þrjátíu og níu mönnum; þá rak hann og minni til þess, hve illa töframaður hafði fyrir skemmstu farið með hann. Iðraðist hann þá eptir það, að hann hafði farið frá skipinu, en nú var um seinan að hverfa aptur. Fól hann sig því enn að nýju guði á vald, og reyndi til að láta eigi bera á því, sem honum bjó í brjósti. Bahram sýndi honum þá mestu blíðu og dálæti. Eptir fjóra daga voru þeir komnir að fjallsrótunum, en ekki samt að fjöllunum sjálfum, því þverhnípt hamrabelti og hyldjúp gjá voru í vegi þeirra. Stigu þeir nú af baki og hleyptu úlföldum sínum á gras. Tók töframaðurinn þá upp þrjú brauð og litla vatnskönnu; kveikti síðan eld og slátraði minnsta úlfaldanum, tók innan úr honum og hreinsaði skrokkinn vandlega innan; síðan mælti hann við Asem: „Nú vantar ekki annað enn herzlumuninn til að enda þrautir vorar,

en þeim er lokið, ef þú vilt skríða inn í úlfalda skrokkinn; mun og þá sauma hann saman og skilja að eins eptir lítið andrúm. Mun þá koma gammur einn mikill, er Rok heitir, læsa klónum í úlfaldann og fljúga með hann upp á fjallstindinn. Þegar þú finnur að gammurinn leggur þig niður, skaltu hið bráðasta rista sundur kvið úlfaldans með tygilknífi þínum og stökkva skyndilega út úr skrokknum, mun gammnum þá verða bilt við og fljúga burt. Þá skaltu fylla poka þann, er eg fæ þjer, með svörtu dupti, sem þú finnur á tindinum; bittu svo pokann á festi þessa, sem eg fæ þjer og láttu hann síga niður. Þú kemur svo sjálfur á eptir; skaltu binda festina um trje eitt þar uppi og renna þjer niður á henni. Að því búnu munum við halda þeim á leið.“

Asem var nauðugur einn kostur, að gera sem töframaðurinn bauð. Ljet Asem sauma sig í úlfaldann; var hann þar nokkrar stundir þangað til einn af hinum heljarstóru gömmum, sem hreiður áttu upp á fjallstindinum, steyptist niður og hremmdi úlfaldann með klónum, og flaug með hann upp á hæzta fjalltindinn. Gerði Asem nú einsog töframaðurinn hafði lagt undir við hann; varð fuglinn hræddur, er Asem kom út úr skrokknum, og flaug burt. Fyllti Asem þá pokann með svörtum sandi, og batt pokann við festina og renndi honum svo niður fyrir hamarinn. Óðar enn Bahram náði í neðri endann, togaði hann að sjer, sem mest hann mátti, svo Asem varð að sleppa festinni; var þá enginn vegur til þess, að hann kæmist burtu þaðan. Töframaðurinn kallaði til hans og mælti: „Nú skaltu, gjalda þess, þinn heiðni hundur! að þú komst því til leiðar, að eg varð að krjúpa á knje fyrir þjer. Skemmtu þjer vel og leitaðu að líkum fjelaga þinna, sem liggja á fjalli þessu; eg hef skilið þar við þá alla, einsog eg nú skil við þig.“

Asem beiddi töframanninn að sjá auman á sjer, en hann svaraði: „Guð láti mig aldrei vera það barn, að hafa með mjer nokkurn mann, því þá kynni hann að ljósta upp leyndardómum mínum.“

Að svo mæltu stje Bahram á bak og hjelt á stað, en ljet Asem kúra eptir, óðan og sinnulausan af örvæntingu. Hnje Asem loksins í ómegin, er níðingurinn Bahram hvarf úr augsýn, og vaknaði eigi úr rotinu fyr enn nokkrum stundum síðar, þegar sulturinn

tók að sverfa að honum, og lífsfýsnin að bærast í brjósti hans. Stóð hann þá upp og bað til guðs, og neytti síðan eins af brauðum þeim, er hann hafði hjá sjer. Hresstist hann við máltíð þessa, þótt lítil væri, og hljóp aptur á bak og áfram til að sjá, hvort hvergi yrði burtu komizt. Þó varð það til einskis, og datt nú nóttin yfir; óttaðist hann þá bæði villidýr, og kveið fyrir því, að hann kynni að hrapa niður af einhverjum hamrinum; neyddist hann nú til að taka sjer náttból, því hann var yfirkominn af þreytu. Dreymdi hann þá voðalegan draum, svo hann löðraði allur í svita og hrökk upp með andfælum. Sá hann rjett hjá sjer afarstóran naður, með gínandi gini og glóandi augum. Virtist svo, sem hann hlakkaði til að gleypa hann í sig. Varð Asem þá agndofa af hræðslu, en naðurinn vjek sjer við, líklega af því, að það fór eigi vel um hann; beygðist hausinn þá til hliðar. Þreif Asem þá í dauðans ofboði til tygilknífs síns, og keyrði í haus ókindarinnar, svo hún steyptist niður þegar í stað.

Asem vakti það er eptir var næturinnar. Þegar dagur ljómaði, gaf honum á að líta, hve löng ófreskjan var, sem hann hafði að velli lagt. Tygilknífurinn stóð enn í hausnum, og óvætturinn var enn lifandi, en augun voru lokuð, og var það hægðarleikur að vinna á honum til fulls. Naðurinn, sem hefði getað orðið honum að bana, varð honum nú til lífs. Því þegar hann sá, hvað hann var langur, kom honum í hug, að flá hann og rista skinnið í lengjur, og binda lengjurnar saman í taug í staðinn fyrir festina, sem töframaðurinn hafði rifið úr höndum hans. Tókst honum að búa til taugina, og renndi sjer niður fyrir flugabjörgin, og komst með illan leik, ofan að fjallsrótunum, og hafði hann þó eigi við öðru búizt, enn að hann mundi þar beinin bera. Fjell hann þá fram á ásjónu sína og þakkaði forsjóninni frelsi sitt, og beiddi spámanninn að varðveita sig í hættum þeim, sem líklegt væri að fyrir sjer lægi. Gekk hann síðan allan daginn til kvölds og neytti aldina af trjám í skógum þeim, sem hann fór gegnum. Þekkti hann sig brátt og fór sömu leiðina og hann hafði komið. Hjelt hann áfram í níu daga, unz hann sá við endann á fögrum forsælugangi sömu höllina, sem Bahram hafði staðið svo mikill geigur af; gekk hann þá nær og virti fyrir sjer höllina. Fyrir framan hana var

fordyri eitt furðu fagurt; var þakið úr dimmbláum eir og stóð á gullsúlum. En höllin sjálf gnæfði upp fyrir trjen og sýndist næsta fögur og stórkostleg; skógurinn úði og grúði af fuglum og kvað við af hljómsætum klið. Þó var Asem efablandinn, hvort hann ætti að halda til hallarinnar og vita, hvort sjer yrði nokkur beini veittur, því Bahram hafði sagt honum, að vondir andar byggju í höllinni. Hugsaði hann með sjer, að varla mundi taka verra við enn af væri staðið, og hætti því á það, að ganga inn í höllina. Gekk hann fyrst gegnum garð einn afbragðsfagran, er lagður var ljómandi marmarasteinum; síðan gekk hann inn í sal einn svo skrautlegan, að undrum gegndi. Þar sátu tvær ungar meyjar að tafli. Önnur þeirra mælti undireins og hún sá Asem: „Elsku systir! þetta mun vera ungi maðurinn, sem fór framhjá hjerna á dögunum með töframanninum Bahram.“

„Já, sá er maðurinn, sem þjer segið,“ mælti Asem, og fjell til fóta henni og beiddist ásjár.

„Þjer þurfið ekki að biðja mig um það,“ svaraði hún. „Ef þjer hefðuð ekki verið með eldsdýrkandanum gamla, þá værum við fyrir löngu búnar að fá yður til okkar. Faðir okkar hefur látið okkur hýrast í höll þessari frá því við vorum á unga aldri. Höllin er búin til handa öndum, og eigum við að gæta hennar. Okkur skyldi þykja vænt um, ef þjer vilduð hjálpa okkur til, og við skyldum þá breyta við yður einsog bróður.“

Asem tók þessu boði fegins hendi, en hafði annars hartnær ekkert að gera, og spurði á hverjum degi, til hvers höllin væri höfð. Fjell honum mæta vel við systurnar, og líkaði æ betur og betur við þær. Stundum sögðu þær honum að fara inn í herbergi eitt, sem eigi varð sjeð úr, hvað fram fór í höllinni. Einusinni braut hann á móti boði systranna og læddist út á milli trjánna í garðinum. Sá hann þá að margar yndisfagrar meyjar voru að lauga sig í vatnsdæld einni. Fjell Asem í stafi er hann sá þær; einkum fannst honum mikið um fegurð einnar þeirra. Beið hann þangað til þær voru búnar að lauga sig. Klæddust þær ljettum klæðum og liðu burt í loptinu.

Asem neytti nú sama bragðsins, svo hann gæti dáðst að fegurð hinnar ókunnu meyjar. Þær systur urðu þess ei áskynja. Asem

tók nú að verða veikur og vissu þær systur eigi, hvað valda mundi lasleik hans. Loksins tók honum að þyngja svo, að tvísýnt varð um líf hans; lögðu þær þá fast að honum, að segja, hvað að honum gengi. Sagði hann þá einsog var, að hann hefði breytt móti boðum þeirra, enda hefði sjer hefnzt fyrir, því það væri eigi annað enn ást, sem að sjer gengi. Reyndu þær að koma vitinu fyrir hann, og sögðu honum, að dóttir andakonungsins ætti höllina, og væri það einn af skemmtistöðum hennar, og kváðu það óvit, að dauðlegur maður skyldi fella ástarhug til konu, sem hann gæti aldrei fengið. En Asem kvað það mundu verða banamein sitt, ef hann fengi eigi hinnar fögru meyjar. Þær systur sáu þá, að honum varð ekki með þessu móti hjálpað, en tók þó sárt til hans; sögðu þær honum í huggunar skyni, að allur máttur hinna fögru meyja væri bundinn við belti þeirra. Ef honum tækist að ná belti þeirrar, er hann elskaði, þá yrði hún að vera kyr eptir í höllinni.

Þegar Asem heyrði þetta, færðist nýtt fjör í hann, og ásetti hann sjer að sæta lagi, þegar dóttir andakonungsins kæmi næst, og ná belti hennar. Þess var eigi heldur langt að bíða, að færi veittist. Meyjarnar komu skömmu síðar, og köstuðu klæðum, og var Asem þá fljótur til bragðs og greip belti hinnar fögru ástmeyjar sinnar og veifaði því til. Urðu meyjarnar þá skelkaðar, fóru sem fljótast í föt sín, og flugu burt með hljóðum allar saman, nema dóttir andakonungsins; hún sat eptir og grjet aumkvunarlega, af því hún komst eigi heim aptur til foreldra sinna. En Asem var glaðari af feng sínum enn svo, að hann ljeti til leiðast að sleppa henni þó hún grjeti sáran. Sýndi Asem henni ást og blíðu, eg beiddi hana að fyrirgefa sjer ofríki það, er hann hafði beitt við hana, en henni fjell svo þungt, að sjá á bak frelsi sínu, foreldrum og vinkonum, að hún tók eigi ástaratlotum Asems og sinnti eigi blíðu þeirra systra. Loksins ljet hún þó til leiðast, að koma með þeim inn í höllina. Fól Asem þeim systrum á hendur að sjá um hana, og tókst þeim seint og um síðir að hugga og blíðka hana. Asem var svo blíður og ástúðlegur við hana, að hún gat eigi annað, enn fengið góðan þokka á honum. Varð það niðurstaðan að húu fjekk ást á Asem, enda var hann fríður sýnum, og lagði ljettann á

að vinna blíðu hennar. Að nokkrum mánuðum liðnum hjelt Asem brúðkaup sitt með hinni fögru kóngsdóttur frá eyjunum fljúgandi, og fór það fram með mestu viðhöfn. Systurnar ljetu sjer mjög svo annt um þau hjón, og jók það enn meira á fullsælu þeirra. Þó var eitt sem angraði Asem, og það var, að hann langaði til að sjá móður sína; gat hann loks eigi annað, en látið í ljósi löngun sína til að heimsækja hana. Bað hann því þær systur um orlof til að ferðast með konu sinni heim til átthaga sinna, og þó þeim þækti sárt að sjá af honum, þá fannst þeim svo mikið um sonarelsku hans, að þær gáfu henum fararleyfið, og tiltóku sjálfar daginn, er hann skyldi fara. Þegar skilnaðarstundin var komin, slógu þær töfratrumbu eina; stóðu þá óðar enn Asem varði margir úlfaldar og fjöldi þræla við hallardyrnar; voru úlfaldarnir klyfjaðir ýmsum góðum gjöfum, og ætlaðir þeim hjónum. Setti Asem konu sína í mjúkan söðul, og stje sjálfur á bak veltygjuðum úlfalda.

Asem skildi grátandi við þær systur, sem hann átti svo gott upp að unna, en hjet þeim að skilnaði, að heimsækja þær síðar. Segir eigi af ferðum hans, fyr enn hann kom niður til strandar; stje hann á seglbúið skip, er lá þar fyrir landi og ljet í haf. Kom hann eptir skamma ferð til Balsora og fann móður sína. Varð hún fegnari komu sonar síns enn frá verði sagt; þóktist hún hafa heimt hann úr helju, er hann hafði svo lengi burtu verið. Faðmaði hún tengdadóttur sína að sjer, og undraðist stórum fegurð hennar; hún fórnaði höndum til himins og lofaði guð fyrir gleði þá, er sjer veittist í elli sinni. Ljek nú allt í lyndi fyrir Asem; kona hans unni honum hugástum, og þartil var hann einhver hinn mesti auðmaður í Balsora. Eignaðist hann tvo sonu, og þóktist hann þá hafa allt, sem á varð kosið.

Þegar hingað var komið sögunni, voru liðin þrjú ár frá því hann hafði skilið við þær systur, og hafði honum eigi þókt langt úr verða. Loksins kom honum til hugar, hverju hann hafði heitið þeim, og bjóst því til ferða. Kvaddi hann konu sína og fjekk móður sinni að skilnaði töfrahjúp konu sinnar, og fól henni til geymslu, bað hana sjá svo um, að hún gæti aldrei farið í hann. Hafði Asem orðið þess áskynja, að konu hans langaði til að finna vandamenn og vini, enn þótt hún yndi vel hag sínum. Var

hann því hræddur um, að hún mundi eigi geta stillt sig um, að svífa burt til ættjarðar sinnar. Móðir Asems hjet nú öllu fögru, og lagði Asem þá á stað. Undireins og hann stje af skipsfjöl, fann hann úlfalda, sem voru til taks handa honum. Höfðu þær systur með fjölkynngi sinni vitað allt til ferða hans og sent honum úlfaldana. Tóku þær Asem tveim höndum, og gekk eigi á öðru enn glaum og gleði, meðan hann dvaldi hjá þeim.

Skömmu eptir burtför Asems fór kona hans með tengdamóður sinni til baðhúss nokkurs; sóktu þangað hinar göfgustu konur úr borginni og þar á meðal hirðmeyjar kalífans Harún Alraschiðs. Sáu þá nokkrar af hirðmeyjum Sobeide drottningar konu Asems. Þókti þeim hún forkunnar fögur og varð svo starsýnt á hana, að þær litu eigi af henni, uns hún gekk burt úr lauginni. Þó fór því svo fjærri, að sumar af þeim þæktust búnar að sjá hana til fulls, að þær veittu henni eptirför, og fylgdu henni heim að húsi hennar; komu þær því mjög seint heim til hallarinnar. Þókti Sobeide þá fyrir, og gekk hún á þær að segja sjer, hvað aptrað hefði komu þeirra; sögðu þær henni þá frá konu Asems, og lýstu fríðleik hennar með svo fögrum orðum, að drottningu varð mikil forvitni á að sjá hana. — Daginn eptir gerði hún orð eptir móður Asems, að hún skyldi koma á sinn fund. Kom hún titrandi og skjálfandi, fleygði sjer fram fyrir fætur drottningu, og kyssti fætur hennar.

„Stattu upp, vertu óhrædd,“ mælti drottning blíðlega. „Eg hef heyrt svo mikið látið af fegurð tengdadóttur þinnar, að mjer er hugur á að sjá hana; býð eg þjer því, að sækja hana.“ Móðir Asems þorði, sem von var, ekki að skorast undan boði drottningar; hneigði hún sig fyrir henni með lotningu og kvaðst mundu hlýðnast boði hennar. Kyssti hún síðan hönd drottningar og skundaði heim, og sagði tengdadóttur sinni hvað drottning byði. Varð kona Asems þá glöð, og bjó sig sem bezt hún gat. Fór hún síðan með tengdamóður sinni og báðum sonum sínum til drottningar. Þegar drottning sá hana, fannst henni svo mjög um fegurð hennar, að hún varð sem agndofa af undrun og mælti: „Hvar er þessi hin himneska fegurð borin og barnfædd?“ Bauð hún henni síðan með blíðum orðum að setjast við hlið sjer, og skipaði þjónustukonum

sínum að koma með einhverja hressingu. Faðmaði hún hana að sjer með blíðlæti og lofaði hana í hverju orði, og bað hana að segja sjer sögu sína; jókst undrun drottningar enn meir er hún heyrði sögu hennar.

„Fyrst yður, drottning mín!“ mælti kona Asems, „þykir eg fögur í þessum búningi, hvað munduð þjer þá segja, ef þjer sæjuð mig í þeim búningi, er eg hafði heima hjá mjer? Ef yður langar til að sjá mig í honum, þá þurfið þjer eigi annað, enn segja tengdamóður minni að sækja heim lopthjúp minn, því hún mun eigi þora annað, enn gera það, er þjer bjóðið henni; þá munuð þjer og sjá þá sjón, sem yður ef til vill mun þykja nýstárleg.“

Sobeide sagði móður Asems að sækja hjúpinn. Þorði hún eigi annað enn gera sem drottning bauð, og sókti hjúpinn, þó með hálfum hug, því hún mundi, hverju hún hafði heitið Asem syni sínum. Skoðaði Sobeide hjúpinn vandlega og undraðist hversu hann var smáger; rjetti hún síðan konu Asems hjúpinn. Varð hún þá næsta ljettbrýn og var eigi lengi að kasta yfir sig hjúpnum, hljóp eins og sending út í hallargarðinn, þreif bæði börn sín í fang sjer, og hófst síðan upp úr garðinum og leið í lopt upp. Horfðu þær drottning og tengdamóðir hennar á eptir henni undrunar fullar. Þegar hún var komin svo hátt, að eigi varð í hana náð, þá kallaði hún þessum orðum til tengdamóður sinnar: „Vertu sæl, móðir góð! huggaðu mann minn, og segðu honum, að eg muni ávallt elska hann. Heimfýsin og löngunin til þess, að sjá aptur ættingja mína, knýr mig til að fara frá manni mínum, þó mjer þyki það sárt. Ef hann elskar mig svo heitt, að hann getur eigi án mín lifað, þá verður hann að leita mín á eyjunum Waak-al-Waak.“

Síðan sveif hún burt, og hvarf á bak við ský. Þó sáu þær hana aptur, er hún kom undan skýjinu, og störðu á eptir henni þangað til hún hvarf með öllu sjónum þeirra.

Móðir Asems rjeði sjer eigi fyrir örvæntingu, og kenndi drottningu um óhapp þetta, en drottning sjálf var svo sorgbitin, að hún gaf engan gaum að ámælum kerlingar. Gekk drottning hrygg í huga inn í höllina, og iðraðist sárlega forvitni sinnar.

Nú víkur sögunni til Asems; hann sat í bezta yfirlæti hjá þeim systrum, meðan þessu fór fram í Balsora, en svo ástúðugar

og huglátlegar sem þær voru honum, þá minntist hann samt konu sinnar, og iðraðist eptir, að hann hafði við hana skilið. Sneri hann því til heimferðar, og fór allt hvað af tók. Þegar hann kom heim, hitti hann móður sína aleina og hágrátandi. „Hefur nokkurt slys viljað til?“ kallaði Asem til hennar. „Móðir mín! hvar er kona mín? Hvar eru börn mín?“

Þetta þókti móður hans óþægilegar spurningar, svo að hún grjet enn ákafara enn áður. Þegar Asem heyrði, hversu komið var, brá honum svo, að hann um stund var einsog milli heims og helju. Þegar hann kom til sjálfs sín aptur, spurði hann, hvað kona sín hefði sagt að skilnaði. Sagði móðir hans honum það, og einsetti hann sjer þá, að leita konu sína upp, hvar sem hún svo væri niður komin. Var þá reynt að letja Asem fararinnar og sagt, að eigi yrði komizt á skemmri tíma enn hundrað og fimmtíu árum til eyjanna Waak-al-Waak, en hann tók engum fortölum. Beiddi hann guð að blessa fyrirtæki sitt, og vernda móður sína og hjelt svo á stað; ljetti hann eigi fyr enn hann kom til hallar þeirra systranna, og furðaði þær mjög á komu hans. Sagði hann þeim, að kona sín hefði horfið frá sjer, og að hann hefði í hyggju að ferðast til eyjanna Waak-al-Waak; sögðu þær þá báðar í einu hljóði, að það mundi aldrei takast, því engum manni entist aldur til að komast alla leið þangað. En Asem sagði við sjálfan sig: „Ef guð vill, að eg aptur hitti konu mína, þá mun hann hafa ráð í hendi, til þess eg aptur nái að hitta hana. En sje það vilji guðs, að mjer eigi auðnist, að sjá konu mína, þá er mjer það hugfró, að deyja með þeirri meðvitund, að hafa varið þeim tíma sem eptir er æfi minnar, til þess að leita að henni.“

Þær systur reyndu í marga daga að telja honum hughvarf, og sýndu honum fram á, hvílík háskaför þetta væri, en það kom allt fyrir ekki. Ráðguðust þær þá um, hversu þær gætu hjálpað Asem, því þær viknuðu af hinni innilegu ást, er hann hafði á konu sinni og börnum. Nú áttu þær tvo móðurbræður; hjet annar Abd-al-Kuddus *), en hinn Abd-al-Syllib **); voru það tveir voldugir andar. Rituðu þær meðmælingarbrjef til þeirra og fengu Asem.

*) Þ. e. þræll hins alhreina. **) Þ. e. þræll hins almáttka.

Brjefið var svolátandi: „Sá, sem með brjefið kemur, er aldavin okkar, Asem frá Balsora. Ef þið getið hjálpað honum að komast til eyjanna Waak-al-Waak, þá gerið það fyrir okkar orð, því við erum systurdætur ykkar og unnum ykkur hugástum. En ef þið getið eigi orðið við bón okkar, þá tálmið för hans, svo hann eigi fari sjer að voða. Nú sem stendur daufheyrist hann við öllum fortölum okkar, því hann sinnir engu af ást til konu sinnar og barna. En við vonum, að hann gefi orðum ykkar meiri gaum, eða þá að þið getið greitt götu hans, svo hann komist þangað, sem hann ætlar sjer.“

Síðan hjelt Asem á stað, og var leiðin ærið torsótt. Að nokkrum mánuðum liðnum kom hann í hjerað eitt, undra fagurt og frjófsamt, svo hann hugði í fyrstu að hann væri í jarðneskri paradís. Sá hann fagurt hús skammt frá sjer, og þangað sneri hann leið sinni. Við húsið sat aldraður maður og æruverður í fögrum stólpagangi, og undraðist hann komu Asems. Asem kastaði kveðju á hann, en hann tók vingjarnlega undir, og bauð honum að setjast hjá sjer; leizt honum vel á Asem og þókti hann fríður sýnum. Að lokinni máltíð spurði hann Asem, hverra erinda hann væri kominn. Var þetta Abd-al-Kuddus, sem Asem átti tal við. Undireins og hann heyrði systurdætur sínar nefndar á nafn, og hve annt þær ljetu sjer um Asem, varð hann hálfu alúðlegri enn áður. Las hann meðmælingarbrjefið aptur og aptur, hugsaði sig um stundarkorn og tók síðan þannig til orða: „Sonur minn! eg skora fastlega á þig, að hætta ekki lífi þínu út í þá ófæru, sem þú munt aldrei kljúfa fram úr. það er hin mesta glæfraför, sem þú hefur í hyggju. Leið þín liggur um eyðimerkur fullar af óarga dýrum, um öræfi, þar sem eigi er stingandi strá, og enginn vatnsdropi til að svala þorsta þínum. Og þó þú yfirstigir allar þessar hættur, þá er eigi þar með búið. þjer mun eigi endast aldur til að fara svo langa leið, því þangað verður eigi komizt á skemmri tíma enn hundrað og fimmtíu árum. Snúðu við og haltu heim aptur; láttu þjer eigi koma til hugar þá fásinnu, að ganga út í opinn dauðann.“

Asem var fastari fyrir enn svo, að hann ljeti telja sjer hughvarf. Hvíldi hann sig þangað til hann var orðinn aflúa, og bjóst síðan

til brottferðar á þriðja degi. Þegar Abd-al-Kuddus sá, að Asem ljet eigi letjast við fortölur hans, kveikti hann eld og brenndi reykelsi, og þuldi galdra yfir; kom þá allt í einu andi einn; var sá illilegur mjög. „Hvað viltu mjer?“ sagði andinn við Abd-al-Kuddus. „Á jeg að kippa upp hólnum, sem höllin þín stendur á, og kasta honum yfir fjallið Kaf?“ *)

„Nei,“ mælti Abd-al-Kuddus, „til þess þarf eg þín eigi, svo er guði fyrir þakkandi. Þú átt að flytja þenna unga mann til hans Abd-al-Syllibs.“

Þó löng væri leiðin til Abd-al-Syllibs, þá var andinn samt fús á að flytja Asem. Þreif hann Asem með hægri hendinni, snaraði honum upp á herðar sjer, og leið svo í lopt upp. Um sólarlag renndi andinn sjer með Asem niður fyrir framan hús Abd-al-Syllibs. Heilsaði andinn honum með lotningu, og bar honum kveðju frá Abd-al-Kuddus bróður hans. Síðan fjekk Asem honum brjefið frá systurdætrum hans, og sagði honum, hvert hann ætlaði og hvernig stæði á ferðum sínum, og gekk þá fram af Abd-al-Syllib, ekki síður enn bróður hans. Reyndi hann að koma vitinu fyrir hann, og rjeði honum til að snúa heim aptur, en við það var eigi komandi, og lá við sjálft, að Abd-al-Syllib reiddist af þrákelkni Asems, er hann vildi í engu fara að ráðum hans. Þó ljet Abd-al-Syllib blíðkast, því Asem grjet svo aumkvunarlega og bar sig svo illa; aumkvaðist hann þá yfir Asem, og hugsaði um það undir niðri, hversu hann gæti hjálpað honum úr hættum þeim, er fyrir honum lágu. Kallaði hann þá á tíu anda, og komu þeir þegar. Bauð Abd-al-Syllib þeim með blíðum orðum að setjast, og sagði þeim ítarlega alla málavöxtu Asems, og spurði þá, hvað þeir vildu til leggja. Þókti þeim öllum það ærin hættuför, er Asem hafði í hyggju, en buðu þó Abd-al-Syllib, því hann var yfirboðari þeirra, að flytja Asem á svipstundu, af einu fjallinu á annað og úr einni eyðimörkinni í aðra, allt að landamærum ríkis þeirra, en þar mundu þeir skilja við hann, því þeim væri ekki heimilt að fara lengra, og mundu þeir aldrei á það hætta, að stíga fæti í land anda, sem væru sjer miklu yfirsterkari.

*) Það er mælt, að fjallið Kaf umkringi þann hluta jarðarinnar, sem byggður er.

„þessu boði tek eg fegins hendi,“ mælti Asem, „og ef þjer eigið hægt með, þá vil eg helzt við höldum þegar á stað, því mjer er dýrmæt hver stundin.“

Kvaddi Asem að svo mæltu Abd-al-Syllib, og fluttu andarnir hann á minna enn sólarhring í land það, er Kaffar heitir; báðu þeir Asem þá vel að lifa og hurfu samstundis. Asem lagðist þá á bæn og baðst heitt fyrir; hjelt síðan áfram ferðinni í tíu daga, án þess hann sæji nokkurt mannsbarn, eða kæmi að nokkru byggðu bóli. Loksins sá hann þrjá menn, er virtust vera fokreiðir, og mundu rjúka saman þá og þegar. Ætlaði Asem að fara til þeirra og skilja þá, en þá komu þeir auga á hann og mæltu allir í einu: „það er bezt að ungi maðurinn þarna skeri úr deilu vorri.“

Gengu þeir þá allir til Asems og spurðu hann, hvort hann vildi eigi gera um mál þeirra, en hann kvað já við. Sýndu þeir honum þá húfu, trumbu og trjeknött, og sögðu honum, að þeir hefðu erft þessa þrjá gripi eptir foreldra sína, en þeir hefðu eigi fyrir andlát sitt tiltekið, hvern gripinn hver þeirra skyldi fá. Sögðust þeir því biðja hann að ákveða það, og sögðust mundu una úrskurði hans.

Asem þókti þetta kynlegt, því honum virtust gripirnir einskis virði, og mælti við þá bræður: „þjer verðið að segja mjer, hvað hver gripurinn um sig hefur til síns ágætis; að því er mjer virðist eru þeir einskis virði.“

þeir sögðu honum þá, að hver gripurinn um sig væri meira virði, enn öll auðæfi veraldarinnar, og því mundi hann og samsinna, þegar hann vissi kosti þeirra. „þessi húfa,“ mælti elzti bróðirinn, „gerir þann, er hefur hana, ósýnilegan, svo ekkert getur aptrað láni hans. þegar eigandinn setur hana á höfuð sjer, sjá hann hvorki menn nje andar, og hann getur tekið hvað sem hann vill, án þess á beri; hann getur farið inn í ráðstofu stjórnendanna, og ónýtt áform þeirra, hvað kænleg og djúpsett sem þau kunna að vera; hann getur farið í gullhús konunganna og svalað auragirnd sinni; hann getur drepið fjandmenn sína, þegar honum býr hefnd í hug, og þarf ekki að óttast neina hegningu.“

Asem hlustaði á orð hans með athygli, og hugsaði með sjer,

að enginn þyrfti fremur á slíkri húfu að halda enn hann, og gæti hún komið sjer að góðum notum til að finna konu sína.

Annar bróðirinn lýsti kostum trumbunnar, og sagði að sá, sem trumbuna hefði, væri aldrei í slíkum háska staddur, að hann gæti ekki sloppið heill á hófi, nær sem hann vildi; þyrfti eigi annað, enn að slá á stafi þá, er Salómon konungur hefði dregið á eirbotn trumbunnar. Kvað hann alla anda hlýða þeim, er trumbuna hefði, og væru þeir allir boðnir og búnir til að hlýða boðum hans, hvað örðug sem þau væru, undireins og trumban væri slegin; kæmi kraptur þessi af ristubragði hins mikla konungs Salómons, Davíðs sonar.

„Trumban er einsog búin til handa mjer,“ hugsaði Asem, „og þarf eg miklu fremur á henni að halda, heldur enn þessir þrír bræður. Trumban mundi hlífa mjer í öllum hættum á leið minni til eyjanna Waak-al-Waak og hjálpa mjer til að finna konu mína og börn.“

Þriðji bróðirinn lýsti trjeknettinum. Sagði hann að sá, er knöttinn hefði, gæti á svipstundu þotið úr einu heimshorni í annað, og gæti hann farið á tveim dögum það sem menn annars ekki kæmust á skemmri tíma enn tveimur öldum. „Þarf eigi annað,“ kvað hann, „enn stíga á nökkvann litla, sem festur er við knöttinn, og nefna staðinn, þangað sem menn vilja fara, og þá þýtur hann með vindhraða þangað, og ber með sjer þann er mælti fram óskina.“

Asem ásetti sjer nú, að ná öllum gripunum, og mælti: „Vel segið þið, en þó verð eg að sjá með eigin augum, að gripirnir hafi þá kosti, sem þjer segið, því ella get eg ekki skorið úr málinu.“

„Þjer hafið rjett að mæla,“ sögðu bræðurnir. „Það er bezt þjer reynið gripina. Guð varðveiti yður!“

Asem hengdi á sig trumbuna, stje á knattnökkvann og setti upp húfuna; nefndi síðan staðinn, sem hann vildi komast til, og þaut knötturinn þangað með vindhraða. Bræðurnir hlupu á eptir Asem, sem sendist eins og elding burt frá þeim með arf þeirra, og kölluðu eptir honum: „Nú eruð þjer búnir að reyna gripina! Eruð þjer nú ánægðir? Nú er nóg komið! Látið nú staðar numið!...“ Þeir

kölluðu, en Asem var þegar kominn tíu dagleiðir frá þeim, og nökkvi hans nam þá staðar við dyr á stóru húsi. Asem stje út úr nökkvanum og lagði fingurinn á stafi þá, er letraðir voru á trumbuna, en var þó í vafa um, hvort hann ætti að áræða það, en þá heyrði hann að rödd sagði: „Asem! þú hefur borið sigur úr býtum og ert búinn að vinna nokkurn hluta af þrautum þeim, er fyrir þjer liggja. En þó verður þú enn að rata í margar raunir og þola margar þrautir, áður enn þú kemst þangað, sem þú ætlar þjer. Feldu knött þinn vandlega, því þú ert nú í ríki hinna vondu anda.“

Asem faldi þá knöttinn undir skikkju sinni, eins og honum var ráðið, litaðist svo um áhyggjufullur og sagði: „Hver ert þú?“

„Einn af öndum þeim, sem eru þjer undirgefnir sakir töfratrumbunnar. Eg annast ávallt um það, að ekkert gangi að þjer, og hinir andarnir, fjelagar mínir, koma eigi nema þegar á liggur. Haltu áfram ferðinni, því þú átt þrjú ár eptir, þangað til þú kemur til eyjanna Waak-al-Waak.“

Asem baðst fyrir stutta stund, og hjelt síðan áfram ferðinni öruggur og óskelfdur. Kom hann loks í land eitt, fullt af nöðrum, drekum og óarga dýrum. Varð hann þá hræddur, er hann sá þessar hryllilegu ófreskjur; drap hann hendinni hægt á trumbuna, og spurði, hvaða land það væri.

„Það er drekalandið,“ svaraði röddin. „Vertu var um þig, og dveldu ekki lengi í landi þessu, þó þú sjert þreyttur. Andar þeir, sem hjer hafast við, eru grimmastir allra anda, og holur þeirra eru fullar af glepsandi villidýrum.“

Að svo mæltu þagnaði röddin. Asem þókti óráð að hætta sjer um skör fram; setti hann upp hulinshjálm sinn, húfuna, og hjelt svo áfram leiðar sinnar um þessar ógurlegu óbyggðir. Að vísu gerðu ófreskjurnar honum ekkert mein, en þær öskruðu svo ógurlega, að honum reis hugur við. Loksins náði hann niður til sjáfar, og sá eyjarnar Waak-al-Waak í fjarska. Voru fjöll eyjanna eldrauð, einsog skýbólstrar þeir, er sólin gyllir, þegar hún rennur í ægi. Varð Asem í fyrstu sem agndofa af ótta og undrun, er hann sá eyjarnar, en herti þó upp hugann og sagði við sjálfan sig: „Eg þarf ekki að óttast neitt. Einsog guð hefur leitt mig hingað til, mun hann vernda mig það sem eptir er, sje það vilji hans.“

Síðan las hann sjer ávexti nokkra og át. Varð hann þá hressari við það, og gerði síðan bæn sína. Að því búnu lagðist hann endilangur í grasið og svaf þangað til morguninn eptir.

Undireins og lýsti af degi, drap hann hendinni hægt á trumbuna og spurði andann, hversu hann mætti komazt yfir hafið út í eyjarnar.

„Það geturðu eigi," mælti andinn, „nema með aðstoð spekings eins; það er einsetumaður, sem býr við ræturnar á fjalli því, er þú sjer þarna í fjarska. Það er eina dagleið hjeðan, en knötturinn ber þig þangað á hálfri stund. Segðu honum satt frá öllum ferðum þínum, og leyndu hann engu, því enginn annar getur flutt þig út í eyjarnar."

Skömmu síðar drap Asem á dyr hjá einsetumanninum. Lauk hann þegar upp og veitti Asem beztu viðtökur, spurði Asem hann, hversu hann mætti komazt út í eyjarnar. Einsetumaðurinn spurði hann aptur, hvernig á því stæði, að hann hefði slíka hættuför í hyggju, en Asem svaraði: „Faðir sæll! látið yður að svo komnu nægja, að vita það, að mig fýsir ákaflega að komast út í eyjarnar og fyrir þá sök er eg afarlangt að kominn." Einsetumaðurinn gekk þá fram fyrir Asem, lauk upp stórri bók, og las í henni í hálfum hljóðum, en leit þó ávallt öðru hverju til Asems. Loksins hrópaði hann hátt og sagði: „Guð minn góður! mikla mæðu og þrautir hefur maður þessi ratað í."

„Því horfið þjer svo á mig?" mælti Asem.

„Sonur minn!" svaraði einsetumaðurinn, „eg skal hjálpa þjer til að komast út í eyjarnar, en þú mátt mig þá engu leyna, svo þú eptir allar þrautir þínar komizt þangað, sem þjer er mest í mun. Þú verður út í hörgul að segja mjer sögu þína."

Asem sagði honum sögu sína einsog hann mæltist til. Einsetumaðurinn sagði þá að guð mundi gefa, að honum auðnaðist að framkvæma áform sitt, og kvað hann morguninn eptir mundu komast yfir hið geysimikla haf. Fór einsetumaðurinn með Asem upp í fjallið, undireins og lýsti af degi. Var fjallið bratt og örðugt upp að ganga. Komu þeir að byggingu einni, sem var áþekk kastala. Í garðinum stóð heljarstór líkneskja ein úr eiri; úr líkneskjunni lágu margar pípur út í laugardæl eina mikla úr marmara.

Allt þetta höfðu andar byggt og smíðað. Einsetumaðurinn kveikti eld og brenndi reykelsi, og hafði yfir einhverja töfraþulu, sem Asem skildi ekkert í. Þegar hann var búinn að þylja galdra sína, sortnaði í lopti, og laust á fjarskalegu ofviðri. Ljóshvít leiptrin klufu skýjin og þrumurnar drundu ógurlega, svo undir tók í öllu fjallinu. Asem horfði þegjandi á ósköp þessi, og þókti nóg um. Þó stóð honum eigi eins mikil ógn af ofviðrinu, einsog af marmara tjörninni; hún umhverfðist öll með dunum og dynkjum og hvítfaxaði innan af öldurótinu. Loksins stillti til, drunurnar hættu, og einsetumaðurinn vjek sjer að Asem og mælti: „Farðu nú og líttu á hafið, sem þú gazt eigi komist yfir!“

Asem fór upp á fjallsbrúnina, og þótti þá heldur enn eigi orðin umskipti, er hafið var með öllu horfið, og hafði honum þó virzt það afarmikið. Einsetumaðurinn kom til hans upp á fjallsbrúnina og mælti: „Treystu guði eins og hingaðtil og haltu áfram þangað sem þú ætlar þjer.“ Óðar enn einsetumaðurinn hafði þetta mælt, var hann horfinn. Asem hjelt áfram ferðinni og komst um kvöldið út í eyjarnar, og undraðist mjög fegurð þeirra; þókti honum eyjarnar sem ódáinsakur. Þar voru grösug haglendi og fagrir skógar. Gekk Asem lengi í svölum skugga og var kyrt mjög í skóginum, heyrðist þar ekkert nema hljóðfagur fuglasöngur. Loksins mætti hann gamalli konu; þókti henni kynlegt, að sjá mann, og spurði Asem, hvaðan hann kæmi og hvert hann ætlaði. „Treyst þú mjer,“ mælti kerling, „eg skal vera þjer innan handar í öllu sem eg get.“

Asem hughreystist við þetta alúðlega ávarp og sagði kerlingu nokkuð af æfisögu sinni og í hverju skyni hann væri kominn. Var þá sem kerling kæmist við, og lofaði hún að hjálpa Asem til þess, að komast til konu sinnar, þó það væri allmikil áhætta. Þegar skuggsýnt var orðið, fór hún með Asem heim til borgarinnar og faldi hann í húsi sínu, en lagði ríkt á við hann, að ganga eigi út, því allt landið mundi komast í uppnám, ef karlmaður sæjist; byggi þar eigi annað, enn kvennfólk, og það mundi illa una því, að sjá karlmann borinn til byggða sinna. Síðan tók hún til matreiðslu og bjó honum kvöldverð. Geðjaðist Asem vel að því, sem fram var borið, og voru það þó allt rjettir, sem hann aldrei hafði bragðað að

undanförnu. Að því búnu tók hann á sig náðir og svaf langt fram eptir næsta morgun. Þegar hann vaknaði, sá hann, að kerling sat til fóta sjer. „Sonur sæll!“ sagði kerling, „eg verð að segja þjer það, að kona þín hefur mátt marga mæðu þola, síðan þið skilduð. Enginn getur sagt þjer betur af högum hennar, enn eg, því eg er fóstra drottningar og allra systra hennar. Opt hef eg sjeð með eigin augum, hve mjög hún hefur iðrazt þess, að hún skildi við þig, og opt hef eg reynt að hugga hana í raunum hennar.“

Asem grjet aumkvunarlega er hann heyrði þetta, og huggaðist eigi við neitt annað, enn það, að kerling hjet honum, að koma honum á fund konu sinnar. Sagði hún Asem frá öllu því, er kona hans hafði orðið að þola, frá því hún var aptur komin í eyjarnar. Gekk hún síðan til hallarinnar. Þar voru þær drottning og systur hennar að ráðgast um, hversu hegna skyldi konu Asems, því þær vóru enn eigi búnar að fyrirgefa henni það, að hún hafði giptzt mennskum manni. Rjeðu þær það af, að hún skyldi deyja kvalafullum dauða, og afmá með blóði sínu blett þann, er hún hafði sett á kyn þeirra. Þegar kerling kom inn, stóðu þær allar upp af lotningu fyrir henni og buðu henni að ganga til sætis. Spurði hún drottningu, hvern dóm þær hefðu kveðið upp yfir systur sinni.

„Með því hún,“ mælti drottning, „hefur tekið niður fyrir sig og giptzt veru, sem eigi er anda kyns, og með því það er oss til hneisu, og anda kynið hefur rjett til, að líta smáum augum á oss, höfum vjer ályktað að hún skuli deyja vægðarlaust.“

„Dauði hennar mun ykkur í koll koma,“ mælti kerling fóstra þeirra, „því eigi er leyfilegt að hegna svo harðlega fyrir litla yfirsjón. Eg vil aðeins mælast til, að eg megi sjá hana ennþá einusinni.“

Drottning gaf henni leyfi til þess, og ljet leiða hana inn til systur sinnar, konu Asems. Var hún náföl og flóði í tárum. Börn hennar voru að leika sjer kringum hana, og reyndu að hrinda harmi móður sinnar með saklausri glaðværð og blíðu atlæti. Fóstra hennar grjet í fyrstu með henni, og faðmaði hana að sjer ástúðlega; rjeði hún henni að treysta guði, og sagði að hún mundi innanskamms sjá fyrir enda harmkvæla sinna. „Elsku fóstra!“ mælti konungsdóttir, „mjer er ávallt hugsvölun að orðum þínum; þó veit eg eigi, hverju það sætir, að mjer finnast orð þín þetta skiptið miklu hugg-

unarríkari enn endrarnær. Það er í fyrsta skipti, að mjer finnst einsog einhver vonarstjarna renni upp fyrir mjer.“

„Þar mun meira á eptir fara,“ mælti kerling fóstra hennar; „það er fyrirboði hamingju þeirrar, sem þjer er af himni send. Vertu hughraust, dóttir! maður þinn hefur brotizt hingað, þrátt fyrir ótal hættur og torfærur. Hann er nú í húsi mínu, og mun innan skamms koma til þín.“

Konu Asems brá svo við, er hún heyrði þessa gleðifregn, að við sjálft lá, að það riði henni að fullu. Hún leið í ómegin, en kerlingunni, fóstru hennar tókst þó að lífga hana með ilmvatni. Varð henni það þá fyrst fyrir, er hún raknaði við, að hún þakkaði guði með fögrum orðum. Þegar fóstran sá, að hún var aptur orðin söm, faðmaði hún hana ástúðlega að sjer, og fór svo aptur til Asems. Sagði hún honum, hvers hún hefði orðið vísari, og rjeði honum, að flýja hið bráðasta burt með konu sína. Nóttina eptir fylgdi hún honum að turninum, þar sem kona hans sat í varðhaldi, lagði hún undir við Asem, hvernig hann skyldi fara að öllu; bað hann svo vel að lifa og skundaði brott. Asem baðst fyrir það, er eptir var næturinnar, en er dagaði, setti hann upp húfu sína. Skömmu síðar kom drottning með fjölda af þrælum og gekk í turninn, og var Asem með í hópnum; sá hann engi maður vegna húfunnar. Hann settist nú út í horn og átti bágt með að sitja á sjer, er hann sá hve sárt kona hans var leikin af drottningu. Sagði drottning henni með óumræðilega hörðum orðum og háðuglegum, að verða vel við dauða sínum, og bauð síðan þrælum sínum, að binda hana á hárinu við stólpa í fangelsinu. Þá var Asem orðinn svo reiður, að hann rjeði sjer eigi; kallaði hann hástöfum og sagði: „Hættið þið, grimmdar seggir! og óttist hefnd guðs!“

Drottning skelkaðist, er hún heyrði þessa ógurlegu rödd; skimaði hún í kringum sig, en vissi eigi hvaðan á sig stóð veðrið, því enginn sást. Flýði hún síðan ásamt förunautum sínum einsog fætur toguðu. Konungsdóttirin þekkti rödd manns síns og lagði báðar hendurnar á hjarta sjer, renndi augunum til himins og þakkaði guði með fögrum orðum fyrir það, að hann hafði frelsað hana, er hún sízt átti von á.

Undireins og drottning var farin, tók Asem af sjer húfuna,

og hljóp um hálsinn á konu sinni. „Hvernig gaztu verið svo harðbrjósta, að hlaupa frá mjer?“ mælti hann. „Er það þakklætið fyrir alla ást og lúð mína?“

„Æ! vertu ekki að minna mig á yfirsjón mína,“ mælti konungs dóttir. „Þess hef eg mest iðrazt, enda hefur mjer og hefnzt fyrir, og það mjög að maklegleikum. Fyrirgef mjer mótgjörð þá, sem mjer hefur aldrei úr minni liðið.“

Svo mælti hún og fjell til fóta Asems, en hann viknaði, lypti henni upp og faðmaði hana að sjer ásamt börnum sínum. Þegar mestu gleðilætin voru rjenuð, fóru þau að ráðgast um, hvernig þau ættu að geta komizt burt þaðan, því þar var eigi vænlegt til gistingar. Þegar dagur var mjög að 'kveldi kominn, var fangelsisdyrunum aptur lokið upp. Asem setti þá upp húfuna og varð ósýnilegur; sá hann að kona sú, er dyranna gætti, kom inn og færði konu hans mat. Var hún vön að vera hjá henni um nætur. Mataðist hún nú með konu Asems, tók síðan á sig náðir og sofnaði fast. Sætti Asem þá lagi og leysti lyklakippuna af belti hennar með gætni, lauk upp fangelsinu, fór út með konu sinni og börnum, en lokaði hina konuna inni. Síðan hjeldu þau hið hraðasta brott, og þó þau hefðu tvö börn meðferðis, miðaði þeim svo vel um nóttina, að þau voru komin langt burt frá borginni um sólaruppkomu.

Þegar drottning vissi, að systir hennar var strokin, varð hún reiðari, enn frá verði sagt. Kallaði hún á alla anda, er hún þekkti, sjer til hjálpar; komu þeir brátt og hlýddu boðum hennar. Brá drottning þá við og veitti þeim Asem eptirför með öllum hersveitum andanna, og hugði þeim Asem bráðan bana. Sá Asem að á baki þeirra þyrlaðist upp þykkur rykmökkur, og sá hann þegar, að þetta mundi vera herlið drottningar. Nú heyrir hann þegar herópið og þekkir fánana; sjer hann sverð og kesjur blika, og ekki að hugsa til að komast undan, nje heldur að veita viðnám, þar sem við slíkt ofurefli var að etja. Öll hreysti hans og hugprýði hefði ekki stoðað hið minnsta; hann þreif því í ósköpum trumbu sína og sló hana sem mest hann mátti. Þustu þá ótal þúsundir anda fram á völlinn, svo að hann varð alþakinn. Var það riddaralið, sem þeysti fram í fagurskipuðum fylkingum og geystist fram á móti liði drottningar. Sló þar í þann harðasta barðasta bardaga, sem nokkurntíma hefur

verið, því andar, en eigi mennskir menn áttust þar við. Lið Asems bar hærra hlut, og tók drottningu höndum og allt föruneyti hennar. Þegar kona Asems sá systur sína svo sárt leikna, fjell hún manni sínum til fóta og beiddi hann að gefa systur sinni grið. Asem fór og vel með drottningu og sagði sjer kæmi eigi til hugar að hefna sín á henni; kvaðst hann mundu gleyma öllum mótgjörðum hennar, ef hún vildi sýna systur sinni sömu blíðu og áður.

Drottning komst mjög við af drenglyndi Asems. Samvizkan vaknaði hjá henni og fleygði hún sjer í fang systur sinni og beiddi hana að rækja eigi við sig rangsleitni sína og harðýðgi. Var síðan friður saminn og ófriðnum slegið upp í veizlu, sem stóð í marga daga. Loksins kvaddi drottning systur sína og mág með ástsemd, og andarnir skildust sáttir og sammála, bæði þeir er sigrað höfðu og ósigur beðið. Asem hjelt nú með sinni sveit til Abd-al-Syllibs og komst hann þangað á fám dögum fyrir fulltingi andanna og knattarins. Tók Abd-al-Syllib þeim tveim höndum; sátu þau þar að dýrlegi veizlu marga daga. Þókti Abd-al-Syllib gaman að ferðasögu Asems, einkum þókti honum skrítið, hversu hann hafði eignazt húfuna, trumbuna og knöttinn. Asem þurfti nú eigi lengur á gripum þessum að halda, og beiddi Abd-al-Syllib að þiggja af sjer húfuna sem þakklætis vott. Abd-al-Syllib þáði húfuna og þókti vænt um; gaf hann að sínu leyti Asem góðar gjafir í endurgjalds skyni.

Síðan hjelt Asem með konu sinni áfram ferðinni. Segir eigi af ferðum þeirra, fyr enn þau komu til Abd-al-Kuddus, og fengu þau þar sömu viðtökurnar og hjá bróður hans. Gaf Asem honum töfratrumbuna. Fór Asem síðan leiðar sinnar og ljetti eigi fyr, enn hann kom í höllina til þeirra systra. Gengu þær báðar til móts við hann, er hann kom í grennd við höllina. Mátti svo heita að þær systur bæru Asem og konu hans á höndum sjer inn í höllina. Var hin dýrðlegasta veizla til búin, og var það með mestu naumindum, að Asem gat slitið sig burt frá svo ununarlegum samastað, þar sem systurnar voru honum svo ljúfar og ástúðlegar. Þar hafði Asem fyrst kynnzt konu sinni; þar hafði hann gengið að eiga hana og lifað svo margar gleðistundir, að það var engin furða þó honum þækti vænna um þenna stað, enn nokkurn annan. Samt

varð hann loks að skilja við þær systur. Gaf hann þeim knöttinn, og ætluðu þær sjer að nota hann öðruhverju til þess að heimsækja þau hjónin.

Asem hjelt nú áfram ferðinni, og ljetti eigi fyr, enn hann kom til Balsora, og varð móðir hans fegnari komu hans, enn frá verði sagt. Hún hafði orðið blind af gráti, meðan Asem var burtu, en nú brá svo við, er Asem kom heim aptur, að hún varð sjáandi, þar sem allar lækninga tilraunir höfðu verið árangurslausar.*) þetta þókti mönnum fádæmum gegna, og barst það til eyrna kalífans Harún Alraschiðs. Langaði hann til að sjá þau Asem og kóngsdótturina frá Waak-al-Waak, sem svo mikið orð fór af, og kynnast þeim. Ljet hann því bjóða þau velkomin, einsog allur bærinn hafði þegar gert; jafnframt gerði hann Asem orð, að hann kæmi á sinn fund, og ljeti fylgja konu sinni til Sobeide drottningar; fýsti drottningu mjög að sjá hana. Asem gerði sem soldán bauð; gekk hann fyrir kalífann og laut honum djúpt. Kallaði kalífinn þá á skrifara sinn, og ljet Asem segja sjer æfisögu sína. Varð konungur með öllu forviða og tók hvað eptir annað fram í, til þess að minna skrifarann á, að sleppa engu úr, og breyta eigi hinu minnsta af frásögu Asems um þá hina kynlegu atburði, er drifið höfðu á daga hans.

# 610. nótt.

## Frá soldáninum í Yemen og sonum hans þremur.

það er upphaf þessa máls, að soldán einn rjeð fyrir Yemen, í Araba landi; hann var auðmaður mikill og voldugur konungur; voru margir höfðingjar honum skattskyldir, og stóð þeim öllum geigur af honum, enda ljet hann mjög til sín taka. þegar hann hafði setið að völdum vel og lengi, og var hniginn mjög á efra aldur, gerðist hann ellihrumur og fann á sjer, að hann mundi eigi lengur fær um að gegna stjórnarstörfum. Kvaddi hann þá sonu sína þrjá

*) Á líkan hátt segir í Kóraninum, að Jakob, ættfaðir Gyðinga, hafi fengið sjónina aptur; hann hafði orðið blindur af að gráta hann son sinn, en varð alskygn, er hann sá hann aptur.

á fund sinn og mælti: „Eg mun eiga skammt eptir, en áður enn mín missir við, ætla eg að skipta öllum eigum mínum meðal ykkar, svo þið minnist mín með ánægju, og lifið einsog bræður í sátt og samlyndi. Viljið þið nú gera einsog eg bið ykkur í síðasta sinn?"

þeir kváðust fúsir að breyta eptir boðum hans, og soldán mælti þá enn fremur: „Eg ánafna hinum elzta af ykkur ríki mitt, sá sem er annar elztur, skal eiga auðæfi mín og hinn yngsti kjörgripi mína. Enginn skal ásælast annan, heldur skuluð þið styðja og styrkja hver annan."

Síðan ljet soldán syni sína rita nöfn sín undir skjal, sem ráðstöfun þessi var skráð á.

Skömmu síðar andaðist soldán og ljetu synir hans gera útför hans með allri þeirri rausn, er slíkum höfðingja sæmdi. Vildu þeir sjálfir lauga og smyrja lík föður síns. þegar greptruninni var lokið, gengu þeir aptur inn í höllina; sátu þar ráðgjafar og æðstu embættismenn og þaraðauki bæjarbúar, bæði æðri og lægri stjettar, og samhryggðust þeim bræðrum. Andlát konungs hafði og frjettzt í skattlönd hans, og komu sendimenn úr hverri borg í ríkinu til þeirra konungssona. þegar sorgarhátíðin var um garð gengin, eptir því sem konungur hafði mælt fyrir í lifanda lífi, vildi elzti konungssonurinn setjazt að völdum, og hugði enga meinbugi á því vera. Samt gekk það eigi eins greitt, og hann gerði sjer í hugarlund, því bræður hans voru eins metorðagjarnir og sjálfur hann, og vildu hver um sig setjast á veldisstólinn. Hófust þá ríkisdeilur milli þeirra bræðra; lauk svo, að elzti bróðirinn stakk upp á því, að þeir skyldu láta einn af konungum þeim, er þeim voru skattskyldir, skera úr deilu þeirra, og skyldu þeir una úrskurði hans, og láta þann í friði, sem yrði hlutskarpastur og hreppti konungdóm. Bræður hans fjellust á þessa uppástungu, enda voru ráðgjafarnir þess mjög hvetjandi, því þeir vildu firra ríkið vandræðum.

Bræðurnir tóku sig því til, og hjeldu á stað til borgar einnar, þar sem einn af hinum skattskyldu konungum hafði aðsetur. þegar þeir voru komnir hálfa leið, áðu þeir á inndælum stað, í fögru og blómvöxnu haglendi; svo var þar hljótt og kyrt, að ekkert heyrðist nema niðurinn af læk nokkrum, fögrum og tærum, sem fram hjá rann. þarna neyttu kóngssynirnir af nesti sínu, og töluðu svo

friðsamlega hver við annan, að engum hefði í hug komið, hvert deiluefni þeirra var. Einum af þeim varð litið á grasið og mælti: „Hjer hlýtur úlfaldi að hafa farið um með sætabrauð á annari hliðinni, en korn á hinni.“

„Já,“ sagði annar bróðirinn, „og eg er viss um, að úlfaldinn hefur verið blindur á öðru auganu.“ „Satt segir þú,“ mælti þriðji bróðirinn. „En eg þori að veðja, að úlfaldinn hefur líka verið stertlaus.“

Óðar enn þeir höfðu þetta mælt, kom eigandi úlfaldans. Hann hafði heyrt allt hvað þeir sögðu, og með því þeir höfðu lýst úlfaldanum með því, sem á honum var, nákvæmlega, þóktist hann viss um, að þeir mundu hafa tekið úlfaldann, og bar þeim því á brýn, að þeir hefðu stolið honum. Þeir sóru og sárt við lögðu, að þeir hefðu ekki sjeð úlfaldann, og því síður snert hann, en maðurinn þóktist litlu bættari fyrir það, og kvaðst mundu kæra þá fyrir konungi sínum, ef þeir skiluðu sjer eigi úlfaldanum þegar í stað.

„Gerðu það,“ svöruðu þeir bræður; „það er bezt við förum undireins til konungs.“

Þegar þeir komu til hallarinnar, sögðu menn soldáni komu konungssona, og ljet hann þá þegar koma á sinn fund. Eigandi úlfaldans gekk á eptir þeim með ópi og kalli; kvaðst hann vilja ná rjetti sínum á mönnum þessum, því þeir hefðu sjálfir játað, að þeir hefðu stolið grip frá sjer; hefðu þeir bæði þekkt úlfaldann og eins það sem á honum var. Sagði hann soldáni, hvað hann hefði heyrt þá segja. Soldán spurði þá bræður, hvort sögusögn hans væri sönn.

„Það er að vísu satt sem hann segir,“ svöruðu þeir, „en allt um það, höfum vjer eigi sjeð úlfaldann. Vjer sáum að grasið var ekki bitið nema öðrumegin, og af því rjeðum vjer, að úlfaldinn mundi eineygður. Vjer sáum og hrúgur af úlfaldataði, og af því rjeðum vjer, að úlfaldinn mundi tagllaus, því úlfaldar eru vanir að dingla taglinu þegar þeir teðja, og hrýtur þá taðið víðsvegar. Vjer sáum urmul af flugum öðrumegin við bæli úlfaldans, en hinu megin enga flugu, og af því var auðráðið, að öðrumegin hefur hlotið að hafa verið körf á úlfaldanum með hunangi eða sætabrauði, en hinumegin eigi annað enn korn.“

þegar þeir höfðu skýrt frá þessu, sagði soldán við ákærandann, að hann yrði að leita úlfaldans annarstaðar, því framburður hinna sakbornu sýndi eigi annað, enn vitsmuni þeirra og skarpskyggni. Síðan bauð soldán að taka til í herbergjum þeim, er konungssonunum voru ætluð, og veita þeim þann beina, er tign þeirra væri samboðinn. Var borinn fyrir þá mikill og góður kvöldverður. Gengu þeir til borða og tóku að snæða. Elzti bróðirinn tók brauðsneið og mælti: „Veikur kvennmaður hlýtur að hafa bakað brauð þetta."

Annar bróðirinn át geitakjöt og kvað það víst, að geitin hefði sogið tík. þriðji bróðirinn sagðist þora að veðja, að soldáninn væri rangfeðraður. Í því kom soldán inn óður og uppvægur; hafði hann heyrt til þeirra og sagði því í bræði sinni: „þjer ósvífnu menn! dirfist þjer að láta yður slíkt um munn fara?"

þá mæltu bræðurnir: „Grennslist þjer eptir því, sem þjer hafið heyrt oss segja; þjer munuð þá geta komizt fyrir sannleikann."

Soldán fór inn í kvennabúr sitt og var gramt í geði. Bauð hann að grennslast eptir, hvort svo væri, sem kóngssynirnir hefðu sagt. Reyndist það, að þeir höfðu getið rjett til. Veik kona hafði hnoðað brauðdeigið, en geitin hafði gengið undir tík, því móðir geitarinnar hafði drepizt. þegar soldán heyrði þetta, varð hann sem óður af heipt, og rauk inn til móður sinnar; óð hann að henni með brugðnu sverði, og kvaðst mundu drepa hana, ef hún segði sjer eigi hið sanna um faðerni sitt. Varð hún þá dauðhrædd, fleygði sjer fyrir fætur honum og sagði, að hann væri eigi sonur soldáns þess, er verið hefði á undan honum, heldur þræls eins. Hefði kona þrælsins orðið ljettari sama dag og hún, og fætt sveinbarn, en sjálf hefði hún alið meybarn. Soldáni hefði ákaft leikið hugur á að eignast ríkiserfingja, en hún kvaðst hafa óttazt, að soldán legði fæð á sig, af því hún hefði átt meybarn. Hefði hún fyrir þá sök haft barnaskipti og tekið hann sjer í sonar stað. „þú ert því umskiptingur," mælti hún, „og sonur þræls þessa. Nú átt þú ríki að ráða, og er bezt þú hugsir þig um, hvort þjer sæmir að drepa mig í hefndarskyni."

Soldán hugsaði sig um stundarkorn; rann honum þá reiðin og gekk hann frá drottingu inn í herbergi sín. því næst gerði hann boð eptir þeim konungssonum, og sagði þeim, að svo hefði verið.

sem þeir hefðu sagt, og kvaðst vilja vita, af hverju þeir hefðu ráðið það. Elzti bróðirinn sagði þá, að þegar hann hefði brotið brauðið, hefði það molnað, og af því hefði hann ráðið, að kraptalítil eða veik kona hefði unnið að brauðgerðinni, og hefði hún ekki haft krapta til að hnoða deigið til hlítar. Annar bróðirinn sagði, að fitan á geitakjötinu hefði verið inn við beinið, en það væri eigi á neinni skepnu nema hundinum, og hefði sjer því eigi þótt ólíklegt, að geitin hefði sogið tík.

„Þið segið satt," mælti soldán, „en hvernig stendur á því, að þjer vefengið faðerni mitt?"

„Sú er orsök til þess," mælti yngsti bróðirinn, „að þú settist eigi til borðs með oss, sem erum þjer jafngöfgir. Menn erfa lunderni feðra sinna, afa sinna eða mæðra. Menn sækja drenglyndi eða ágirnd til feðra sinna, hugprýði eða ragmennsku til afa sinna, blygðunarsemi eða ósvífni til mæðra sinna."

„Það er hverju orði sannara sem þú segir," mælti soldán. „En því eruð þið komnir til mín að leita ráða, þar sem þið eruð miklu færari um að skera úr vandamálum heldur enn eg? Fylgið mínum ráðum og haldið heim aptur og lifið í samlyndi."

Konungssynirnir sáu, að þetta var heillaráð, og sneru heim aptur; hjetu þeir því, að þeir skyldu vandlega breyta eptir því, sem faðir þeirra hafði fyrir mælt.

# Frá 611—620.

## Soldáninn og fullhugarnir þrír.

Það er upphaf þessarar sögu, að þrír fjelagar komust í basl og bágindi; þeir voru menn slægvitrir, og kom þeim til hugar, að fara á fund soldáns og segjast vera hinir mestu snillingar, og reyna þannig að fá embætti. En það var enginn hægðarleikur, að ná fundi soldáns, því hann var í hallargarðinum og hafði boðið varðmönnum sínum, að hleypa engum inn í garðinn. Það kom sjer að vísu eigi vel fyrir þá fjelaga, en þó varð þeim eigi ráðfátt; þeir komu sjer saman um, að láta sem þeir væru ósáttir, og kæmust í

hár saman, ef svo mætti fara, að soldán veitti þeim eptirtekt. Hófu þeir þá hark og háreysti, og fór svo sem þeir höfðu til ætlazt; soldán kvaddi þá á sinn fund, og spurði þá að nafni, og hvert væri deiluefni þeirra. „Vjer erum,“ svöruðu þeir, „að þrátta um það, hver af oss sje mestur listamaður, því vjer erum snillingar, hver í sinni list, og þykist hver um sig snjallari, enn hinir tveir.“

„Hvað er ykkur til lista lagt?“ mælti soldán.

„Herra!“ svaraði einn bragðarefurinn, „eg er manna glöggskygnastur að þekkja steina.“

„Eg er hræddur um, að þú sjert ekki annað enn fantur og fúlmenni,“ mælti soldán.

Annar þeirra kvaðst hverjum manni fróðari um ættir og kynferði hesta, og hinn þriðji þóktist svo ættfróður, að hann þekkti ætt hvers manns, og kvað þá list miklu meira verða enn listir fjelaga sinna, því þá list kynni enginn annar enn hann, og hefði eigi kunnað á undan sjer.

Soldán lagði að vísu eigi mikinn trúnað á orð þeirra, en hugsaði þó með sjer: „Sje það satt, sem þeir segja, þá eiga þeir skilið, að þeim sje gaumur gefinn; hversu sem fara kann, ætla eg að láta þá vera hjá mjer, þangað til mjer gefst færi á, að reyna listir þeirra. Sjeu þeir snillingar, þá skal þeim að vísu eigi ólaunað, en hafi þeir gabbað mig, þá skulu þeir missa kollinn.“

Soldán ljet nú fá þeim herbergi til íbúðar og bauð að færa þeim brauð og kjöt á degi hverjum, en ljet jafnframt hafa gætur á þeim, að þeir eigi slyppu.

Skömmu síðar voru soldáni gefnir ýmsir dýrgripir, og þar á meðal tveir gimsteinar; annar steinninn var afbragðsfagur, og svo bjartur og skær, sem í vatn sæji. Kom soldáni þá til hugar steinafræðingurinn, og ljet sækja hann. Sýndi soldán honum steininn fagra og spurði, hversu honum litist á hann. Skoðaði hann steininn í krók og kring og hugði vandlega að. „Það er,“ sagði hann, „einn galli á þessum steini í miðjunni, og sá galli rýrir verð steinsins afarmikið.“ Brást soldán þá reiður við, og bauð að hálshöggva steinafræðinginn þegar í stað. „Þessi steinn er lýtalaus,“ mælti soldán, „og þó kveður þú á annan veg. Þú átt dauða skilið fyrir svik og pretti við mig.“ Böðullinn tók þá steinafræðinginn

og færði í fjötra, og var kominn á flugstig með að reiða sverðið til höggs, en í því kom ráðgjafi soldáns að. Sá hann að soldán var reiður, en maður undir sverðseggjum, og spurði, hverju það sætti. Sögðu menn ráðgjafanum málavöxtu. Gekk hann þá til soldáns og mælti: „Herra! eg skora á yður, að vinda eigi svo bráðan bug að máli þessu. Rannsakið fyrst, hvort maður þessi er sekur; látið brjóta steininn sundur, og sje steinninn lýtalaus, þá er maðurinn dauða sekur.“

Soldán sá, að ráðgjafinn hafði satt að mæla, og að það lá við sjálft, að hann hefði gert manninum rangt til. Braut soldán steininn með öxi sinni, og sást þá galli í miðjum steininum, og undraði alla stórum.

„Hvernig gaztu sjeð það?“ mælti soldán forviða.

„Það sá eg af skarpskyggni minni,“ mælti steinafræðingurinn.

Voru honum síðan grið gefin og hálfu meira af brauði og kjöti, enn fjelögum hans.

Skömmu síðar fjekk soldán úr einu af skattlöndum sínum brúnan hest, afbragðs fagran; þókti soldáni svo vænt um hestinn, að hann var alltaf að virða hann fyrir sjer dag eptir dag. Allt í einu mundi hann eptir hestfræðingnum, og ljet þegar sækja hann. „Þykist þú hafa vit á hestum?“ mælti konungur.

„Já, herra!“ mælti hestfræðingurinn. „Eg skora þá á þig,“ mælti soldán, „að þú segir mjer einsog er; skýt eg því til þess, er mjer hefur vald í hendur fengið yfir þegnum mínum, til skapara heimsins, að þú skalt engu fyrirgera nema lífinu, ef þú segir nokkurt orð ósatt.“

„Eg skal hlýða og eigi bregða af boðum yðar,“ mælti hestfræðingurinn.

Konungur ljet þá leiða fram hestinn brúna. Hestfræðingurinn sagði að hann yrði að sjá hestinum riðið. Einn af reiðmönnum soldáns reið þá hestinum sprett, og virti hestfræðingurinn síðan hestinn vandlega fyrir sjer og mælti: „Hestur þessi er að vísu ljómandi fallegur, svo leitum er á öðrum slíkum; hann er og af bezta kyni, og vel vaxinn; hann mundi vera beztur hestur í öllum heimi, ef hann ekki hefði einn galla.“

„Hvaða galli er það?“ spurði soldán. „Herra!“ svaraði hest-

fræðingurinn, „faðirinn var af ágætu kyni, en móðirin var af allt annari dýrategund, sem eg get nefnt, ef yðar hátign svo þóknast.“

„Nefndu hana þá,“ mælti soldán, og var næsta ákafur. „Móðir hestsins var blauður vísundur,“ ansaði hestfræðingurinn. Varð soldán þá hamslaus og sendi þegar eptir böðlinum; bauð hann honum að hálshöggva hestfræðinginn. En hestfræðingnum tókst samt að sefa ofsann í soldáni, svo að hann ljet til leiðast að spyrja þann, er fyr hafði átt hestinn, hvort hestfræðingurinn hefði sagt satt. Kom nú fyrri eigandi hestsins og lagði soldán ríkt á við hann, að segja hreinan sannleik um það, hvort hann hefði sjálfur alið hestinn eða keypt hann af öðrum. Sagði maðurinn þá, að hesturinn væri í aðra ættina undan fallegum graðfola af nykrakyni, sem er bezt hestakyn í heimi, en í móðurætt væri hann undan blauðum vísundi. Undraðist soldán þá mjög og ljet sækja hestfræðinginn; sagði hann honum, að nú væru færðar sönnur fyrir því, að hann hefði haft rjett að mæla, og spurði hann, af hverju hann hefði ráðið móðerni hestsins brúna. „Hann ber á sjer augljóst merki þess,“ ansaði hestfræðingurinn, „því á hestum eru hófarnir því nær kringlóttir, en á vísundum þykkir og ílangir.“ — Var nú soldán ánægður og bauð að gefa honum stærri skamt af brauði og kjöti, enn hann áður hafði fengið.

Nú voru allir reyndir, nema ættfræðingurinn. Þegar soldán mundi eptir því, kallaði hann ættfræðinginn á sinn fund, og mælti: „Þóktist þú ekki þekkja ætterni allra manna?“ „Svo er víst,“ mælti ættfræðingurinn. Bauð soldán þá geldingi einum að fara með ættfræðinginn í kvennabúr sitt, og sýna honum konu þá, er hann hafði mestar mætur á; langaði soldán til að vita hverra manna hún væri. Leiddi geldingurinn ættfræðinginn þá til konunnar; virti ættfræðingurinn hana vandlega fyrir sjer í gegnum andlitsblæjuna, og fór síðan aptur á fund soldáns og mælti: „Hún hefur alla kosti, er konu prýða. Hún er fríð sýnum, látprúð, lítilát og kurteis, fjörug og fluggáfuð; það er eigi að orðlengja það, hún hefur alla kosti, er óska má, og allt sem glatt getur elskhuga hennar og til yndis verið. Þó sá eg að hún hefur einn galla, sem lýtir hana, svo vel sem hún er af guði gerð.“

Þegar soldán heyrði þetta, stökk hann uppá nef sjer, og varð

þálreiður. Brá hann sverði sínu úr slíðrum, og mundi hafa klofið ættfræðinginn í herðar niður, ef ráðgjafinn hefði eigi komið að í sama bili. „Herra!“ mælti hann við soldán óðan og uppvægan, „drepið eigi mann þennan, fyr enn þjer vitið með fullri vissu, að hann sje sekur.“ „Hana þá!“ mælti soldán með þjósti, „hvaða ókost hefur ástmey mín?“

„Herra,“ mælti ættfræðingurinn, „hún er líkari himneskum engli, enn mennskum manni, en móðir hennar var danskona.“

„Kallið á föður hennar,“ mælti soldán.

Undireins og hann var kominn, mælti soldán: „Seg mjer þegar í stað, hver var móðir dóttur þinnar? eg læt drepa þig, ef þú segir mjer eigi eins og er.“

„Voldugi konungur!“ mælti hann, og fjell soldáni til fóta. „Móðir hennar var danskona; hún var í flokki með leikurum, sem flökkuðu út um land, en eg tók hana að mjer, og ól hana upp. Varð hún afbragð annara kvenna að fegurð og öðrum kostum, og gekk eg að eiga hana. Átti eg með henni þá einu dóttur, sem þjer hafið kjörið yður til samlags.“ Ljet konungur þá sefast, og furðaði stórum á glöggskyggni ættfræðingsins, og kvaðst vilja vita, hvað hann hefði haft fyrir sjer.

„Allar slíkar konur eru svarteygar og loðbrýnar,“ mælti ættfræðingurinn; „á því sá eg, hverra manna hún var.“

Soldán þóktist nú vita með fullri vissu, að ættfræðingurinn var reyndur og ráðinn í að þekkja ætterni manna. Hann ljet hann því frá sjer fara í mestu vinsemd, og sýndi honum það virðingarmark, að hann ljet gefa honum stærri skammta af brauði og kjöti enn áður, og fórst soldáni þannig jafnvel við hann, og fjelaga hans.

Skömmu síðar fór soldán að hugsa um þá fjelaga, og minntist þess, að þeir höfðu hver um sig sýnt þess ljósan vott, að þeir voru atkvæðamenn. Kom honum þá til hugar, að grennslast eptir ætt sinni, og spyrja ættfræðinginn, hverra manna hann sjálfur væri. Ljet soldán þá þegar sækja ættfræðinginn, og spurði hann, hvort hann þæktist geta sagt með fullri vissu af hvaða bergi hann væri brotinn, en ættfræðingurinn kvað já við. „En þó segi eg það því að eins,“ mælti ættfræðingurinn, „að þjer heitið mjer griðum.“ „Varastu að láta reiði soldáns lenda á þjer, því ef hann býður að

láta drepa þig, þá er eigi á illu frestur,“ segir máltækið, og því verð eg að vera var um mig.“

„Svo skal vera,“ mælti soldán, „eg heiti þjer griðum; þú veizt, að eg má ekki ganga á bak orða minna.“

„Stórlyndi konungur!“ mælti ættfræðingurinn, „eigi eg að segja ætterni yðar, þá verðum við að vera tveir einir, en engir fleiri.“

„Því þá?“ mælti konungur.

„Það sem guðlega veru snertir, skal byrgjast undir hinni dimmu blæju þagnarinnar.“

Bauð soldán þá þeim, er við voru staddir, að ganga burt, en ættfræðingurinn, gekk að honum og sagði: „Voldugi drottinn! þjer eruð launsonur og óskilgetinn.“

Þegar soldán heyrði þetta, bliknaði hann og varð dapur og hnugginn. Allt í einu spratt hann upp og mælti: „Viti það sá, er mjer hefur þetta ríki í hendur fengið, að ef þú segir satt, þá skal eg leggja niður völdin, og láta þig setjast í sæti mitt, því uppfrá því álít eg mig þess ómaklegan, að vera konungur. En sje það hjegómi einn, er þú segir, þá vinn eg þess dýrstan eið, að þú skalt lífið láta fyrir sverði mínu.“

Hljóp soldán þá út, og inn í kvennabúrið til móður sinnar; óð hann að henni með brugðnu sverði og mælti: „Eg skora á þig í nafni þess, er hefur aðgreint himin og haf, að vinna mjer þess helgan eið, að þú skulir segja með sannindum það er eg spyr þig að. Að öðrum kosti skalt þú þegar búast við dauða þínum.“

Drottningin, móðir hans, fjell honum til fóta og spurði, hvað hann langaði til að vita.

„Segðu mjer,“ mælti soldán, „hver var faðir minn?“

„Fyrst eigi tjáir annað,“ svaraði hún, „enn að segja eins og er, þá er eigi því að leyna, að þú ert sonur matreiðslusveins. Soldáni manni mínum varð eigi barna auðið, en það fjell honum svo nærri, að hann gerðist þunglyndur; missti hann alla matarlyst og gat eigi á heilum sjer tekið. Eg átti fuglabúr, og voru í því margir fuglar. Einusinni langaði soldán í fuglakjöt, og vildi snæða nokkra af fuglum þessum; matreiðslusveinninn fór og ætlaði að sækja þá, en þá bar svo undir, að eg var alein í búrinu. Fjandinn freistaði mín í þetta skipti meir enn endrarnær; eg sá það, að

úti var um veg og virðingu mína, þegar soldán dæji, ef honum ekki yrði barna auðið með mjer; ginnti eg því matreiðslusveininn til samræðis við mig og þannig ert þú undir kominn. þegar soldán heyrði, að eg væri barnshafandi, varð hann aptur hress og kátur, ruddi stórgjöfum í vezíra sína og vildarmenn og veitti þeim sæmd á sæmd ofan. Var haldin veizla í fjörutíu daga, er þú fæddist, og voru það sannkallaðir dýrðardagar.“

þegar drottning hafði lokið máli sínu, var soldán hljóður nokkra stund, og stóð eins og agndofa. Fór hann síðan aptur til ættfræðingsins, og bauð honum að afklæðast, en hann gerði sem konungur bauð. Konungur fór og úr skrúða sínum, og tók af sjer öll tignarmerki. „Segðu mjer nú,“ mælti konungur, „á hverju þú hefur sjeð það, að eg var óskilgetinn?“

„Herra!“ mælti ættfræðingurinn, „þegar vjer fjelagar hver um sig sýndum snilli vora, launuðuð þjer oss á þann hátt, að þjer ljetuð gefa oss stærri skammta af brauði og kjöti, en ljetuð þar við lenda. Af þessum naumleik yðar rjeðum vjer, að þjer munduð vera matreiðslumanns son, en eigi konungbornir, því höfðingar eru vanir að launa ágæti manna og atgjörfi með auð og upphefð, en þjer hafið eigi gefið oss annað enn bita af borðum yðar.“

Soldáni brá við orð ættfræðingsins, og sá að hann hafði satt að mæla. Fór hann úr hverri spjör, og klæddi ættfræðinginn í konungsskrúðann, og afsalaði sjer tigninni. Eptir það bjóst hann munkaklæðum og ferðaðist burt úr landinu.

Óðar enn ættfræðingurinn var seztur að völdum, ljet hann sækja fjelaga sína, en þeir þekktu hann eigi; gaf hann þeim góðar gjafir, en bauð þeim að fara þegar brott úr ríki sínu. Gaf hann sig síðan allan við stjórnarstörfum, og kostaði kapps um, að leysa sem bezt af hendi skyldur sínar; sýndi hann slíka rausn og stórmennsku, rjettvísi og góðgirni, að hann varð hugljúfi þegna sinna; árnuðu þeir honum alls góðs, og óskuðu honum langra lífdaga. það er að segja af soldáninum, sem vikið hafði frá völdum, að hann hjelt til Kairó, og þar ætlaði hann að dvelja um hríð. Gekk hann um bæjinn sjer til dægrastyttingar, og nam staðar við höll konungs; fannst honum svo mjög um fegurð hennar, að hann fjell í stafi. Stóð hann og virti fyrir sjer höllina þangað til dagsett

var og soldán kom heim af dýraveiðum. Varð soldáni starsýnt á munkinn, því honum þókti hann furðu tígulegur og höfðinglegur. Ljet soldán þræla sína bjóða honum inn í höllina og kvaðst vilja tala við hann; tók hann þá boði soldáns með þökkum. Spurði soldán hann að ýmsu, og var svo blíður og viðmótsgóður, að komumaður fjekk fullkomið traust á honum, og sagði honum alla sögu sína. Fjekk það soldáni svo mikillar undrunar, er hann heyrði, hversu hann hafði vikið úr völdum og hve lítils hann virti jarðneska hagsmuni, að hann kallaði hátt og sagði: „Lofaður sje sá, sem niðurlægir og upphefur. Mjer hefur þókt saga þín fögur og merkileg, en þó er saga mín ennþá furðanlegri, og skal eg segja þjer hana.“

## Sagan af Mahmúð, soldáni í Kairó.

Eg var fátækra foreldra barn, og hafði eigi af unaðsemdum lífsins að segja, fyr enn eg eignaðist tíu silfurpeninga; var það fyrsta sinn, sem eg átti skotsilfur, og ásetti mjer því, að verja fje þessu mjer til skemmtunar. Fór eg þá á markað einn mikinn, og litaðist um á alla vegu, því eg hafði í hyggju að kaupa mjer eitthvert sælgæti. Heyrði eg þá hlátur og háreysti, og varð þess brátt vísari, að fjöldi manna þyrptist utanum mann nokkurn, sem hafði á boðstólum stóran apa, fyrir tíu silfurpeninga. Keypti eg apann, og veit eg eigi, hvað mjer gekk til að fleygja út aleigu minni fyrir hann. Fór eg síðan með apann heim að hreysi mínu. Þegar þangað var komið, fór eg að hugsa um, hversu eg skyldi sjá mjer og apanum fyrir vistum, og vissi nú engin sköpuð ráð. Þegar eg var að velta þessu fyrir mjer, stökk apinn nokkur kátleg stökk, og allt í einu varð hann, svo ljótur sem hann hafði verið, að fríðum manni og mælti: „Mahmúð! þú hefur keypt mig fyrir aleigu þína, og veizt þó ekki, hvernig þú átt að afla okkur fæðis.“

„Satt er það,“ svaraði eg. „En — í guðanna bænum! hvernig veiztu það? Hver ertu? Hvaðan kemurðu?“

„Vertu ekki að spyrja um það,“ mælti hann. „Taktu við þessum gullpeningi, og kauptu fyrir hann það sem þarf til góðrar máltíðar handa okkur.“

Eg gerði sem hann bauð. Skorti þá eigi krydd og kræsingar,

en maðurinn var hinn kátasti; undi eg mjer þá allvel og þókti eigi löng hver stundin. Morguninn eptir sagði hann við mig: „Heyrðu Mahmúð! þessi húsakynni eru okkur eigi samboðin; við verðum að leigja önnur.“

Eg fór þá út og leigði skrautlegan bústað í þeim hluta bæjarins sem var fegurstur, og fluttum við þangað. Fjekk hann mjer þá allmikið af peningum til að kaupa húsbúnað þann, er við þurftum. Síðan gaf hann mjer dýrindis klæðnað og bauð mjer að skrýðast honum þegar; fann eg þá að allir vasar voru fullir af gullpeningum og silfurpeningum. Að því búnu virti hann mig fyrir sjer stundarkorn, og var svo að sjá, sem honum líkaði, hversu eg var að yfirlitum. Ljet hann mig setjast hjá sjer, og fjekk mjer böggul, og sagði eg skyldi færa soldáni böggulinn, og biðja um leið dóttur hans. Kvað hann soldán mundu þiggja gjöfina, og eigi synja mjer ráðahagsins Síðan bauð hann þræl nokkrum, er hann hafði keypt, að fylgja mjer með böggulinn, og hjelt eg því næst á stað til hallar soldáns. Var þar allt fullt af varðmönnum og embættismönnum; spurðu þeir mig með lotningu, hvað eg vildi, því eg var næsta skrautbúinn. Eg sagði þeim, að eg vildi tala við soldán; leiddu þeir mig þá á fund hans. Kvaddi eg hann á þann hátt, sem títt er, en hann tók vel kveðju minni; rjetti eg honum þá böggulinn með þessum ummælum: „þiggið þjer, konungur! gjöf þessa, þó hún sje lítil og yður eigi boðleg, og heyrið náðarsamlega bæn mína.“

Soldán ljet opna böggulinn. Voru í honum klæði og dýrgripir, og voru það slíkar gersemar, að soldán fjell í stafi.

„Eg þigg gjöf þína,“ mælti hann. „En hvernig á eg að launa þjer slíka stórgjöf?“

„Voldugi konungur,“ mælti eg, „mjer leikur í mun að eignast dýrindisperluna, blómarósina, hirðdjásnið; mig langar til að eignast dóttur yðar, sem er afbragð allra kvenna; eg bið hennar mjer til handa.“

„Hvað á eg að gera?“ mælti soldán við ráðgjafa sinn.

„Herra!“ svaraði ráðgjafinn, „sýnið honum þann demant, sem þjer eigið dýrmætastan í eigu yðar, og segið honum, að þjer gefið honum eigi dóttur yðar, nema því að eins, að hann gefi dóttur yðar jafn dýrmætan demant í morgungjöf.“

Eg spurði soldán þá, hvort hann vildi gefa mjer dóttur sína, ef eg kæmi með tvo slíka demanta, en hann kvað já við. Að því búnu kvaddi eg soldán, en hafði demantinn heim með mjer, til þess að sýna hinum unga manni. Sagði eg honum frá öllu, hversu farið hefði, en hann kvaðst skyldu gefa mjer daginn eptir tíu aðra eins demanta. Snemma næsta dags gekk hann út, og kom að stundu liðinni aptur með tíu demanta einsog hann hafði heitið mjer; færði eg soldáni þá, þegar í stað. Varð hann hissa á fegurð steinanna, og spurði ráðgjafa sinn aptur, hvað gera skyldi.

„Herra!“ mælti ráðgjafinn, „þjer verðið að halda loforð yðar, og gefa manni þessum dóttur yðar. Þjer hafið eigi til meira mælzt, enn að fá einn demant, en hann hefur fært yður tíu.“

Síðan ljet soldán efna til brúðkaupsveizlu. Kvaddi hann dómara og valdsmenn á fund sinn. Rituðu þeir kaupmálann og fengu mjer. Hljóp eg þá heim til mín með hann og sýndi fjelaga mínum. Var hann vel ánægður, en ljet mig heita sjer því, að eg ekki skyldi eiga lag við konu mína að sjer fornspurðum. Fór eg síðan aptur til hallarinnar, og var mjer um kvöldið fylgt inn til konungsdóttur. Þó gaf eg mig lítt að henni, því eg mundi, hverju eg hafði heitið; forðaðist eg að tala við hana, þangað til eg kvaddi hana morguninn eptir. Var eg hjá henni þrjár nætur, hverja eptir aðra, og hjelt eg áfram uppteknum hætti, að eg hafði alls engin afskipti af henni. Þókti henni þetta mikil skapraun, og bar upp kveinstafi sína við drottninguna móður sína, en hún sagði soldáni frá háttalagi mínu. Kvaddi soldán mig þá á fund sinn og hótaði mjer ógurlegri hefnd, ef eg hjeldi slíku ráðlagi framvegis, og sýndi eigi dóttur sinni meiri blíðu enn hingað til. Nú fór mjer ekki að lítast á blikuna, og hljóp til vinar míns og sagði honum, að soldán væri orðinn mjer reiður. Ráðlagði hann mjer þá að biðja konu mína, þegar við værum orðin tvö ein, að ljá mjer armband, er hún hefði á hægra handlegg, en undireins og eg væri orðinn handhafi að því, skyldi eg færa sjer það. Þegar það væri búið, kvað hann ekkert því til fyrirstöðu, að eg nyti alls þess yndis af konu minni, sem eg vildi.

Þegar eg kom um kvöldið til konu minnar, sagði eg við hana: „Viljir þú gera mig fullsælan hjer í heimi og efla auðnu

okkar beggja, þá láttu mig fá band það, er þú ber á hægra handlegg."

Hún dróg bandið þegar af handlegg sjer og fjekk mjer; hljóp eg þá með armbandið til kunningja míns, en honum þókti svo vænt um að fá það, að hann rjeði sjer ekki fyrir gleði. Eg skundaði síðan aptur til hallarinnar, til að hughreysta konu mína, því eg þóktist ganga að því vísu, að hún mundi undrast um mig, en hvernig svo fór, veit eg ekki. Svo mikið er víst, að morguninn eptir sá eg, að eg var aptur kominn í mín fornu eymdar heimkynni og klæddur hinum herfilegu flíkum mínum í stað skrúðklæðanna. — En er ofboðið fór af mjer, og eg kom til sjálfs mín, þá klæddist eg og hafði mig á burt úr þessum hryggilega samastað; var eg þá svo aumur og sorgbitinn, að eg gat ekki á mjer tekið. Sæla sú, er eg átti á bak að sjá, stóð mjer sífelt fyrir hugskotssjónum, og vissi eg engin ráð til að komast úr volæði því, sem hin óskiljanlegu forlög aptur höfðu látið mig í rata.

Þannig ráfaði eg í þungu skapi umhverfis höllina, og sá eg gamlan töframann á strætinu; lágu kringum hann stórar blaðahrúgur, og var hann að stilla mönnum stjörnumát. Gekk eg að honum, en hann tók kveðju minni vingjarnlega, fór hann allt í einu að virða mig fyrir sjer næsta grandgæfilega og mælti: „Vesæll maður! hefur ekki þorpari nokkur, er þú trúðir, dregið þig svívirðilega á tálar og svipt þjer burt úr faðmi konu þinnar?" Kom þetta flatt upp á mig, og kvað eg já við spurningu hans; varð eg nú að setjast niður hjá honum, og jafnskjótt sem allir þeir, er af forvitni höfðu safnazt þangað, voru á brott gengnir, tók hann þannig til máls: „Vinur! apinn sem þú keyptir fyrir tíu silfurpeninga og sem breytti sjer í ungs manns líki, er í raun rjettri illur andi, sem fellt hefur ástarhug til kóngsdótturinnar, sem nú er kona þín. Hann hafði þig ekki til annars enn að ná frá henni hinu töfrafulla armbandi, sem var því til fyrirstöðu, að hann fengi nálgazt hana, og er hann nú hjá henni, þar er þú skyldir vera. En eg vona, að eg bráðum geti fyrirkomið honum, svo að bæði menn og góðir andar megi vera í friði fyrir honum." Að svo mæltu tók karlinn blað og ritaði á, braut það síðan saman og innsiglaði, og fjekk mjer með þessum ummælum: „Far nú þangað sem til-

greint er á brjefskveðjunni, og bíð þangað til þú sjer höfðingja einn koma með fjölmennu föruneyti. Fá þú honum brjefið og mun hann hjálpa þjer.“ Eg bað hann hafa þökk fyrir, og fór því næst á stað; gekk eg alla nóttina og nokkuð af næsta degi, uns eg náði þangað, sem mjer var til vísað. Leið nú kvöldið og langt fram á nótt, svo að eg eigi sá aðra enn minni háttar menn, og var mjer farið að gremjast í geði, er eg hugsaði til þess, að eg kynni að vera svikinn í annað sinn, en þá sá eg allt í einu mikinn ljósbjarma langt í burtu. Færðist bjarminn nær, og sá eg brátt, að þar kom sveit manna með ljós og kyndla, var það fjölmennt föruneyti, svo ráða mátti af því, að einhver voldugur konungur væri þar á ferð. Ótölulegur þræla grúi gekk fram hjá mjer, og voru tveir og tveir saman, og að endingu birtist konungur andanna með skrautlegri sveit; gekk eg að honum skjálfandi, fjell fram fyrir honum og rjetti honum brjefið. Tók hann við því og las síðan hátt: „Heill sje þjer anda konungur! Vita skalt þú, að sá er færir þjer línur þessar, hefur verið hörmulega leikinn af voldugum óvin og ber þjer að hefna þess. Ef þú ekki veitir honum skjóta og greiða hjálp, þá skal sjálfum þjer hætta búin. Vertu sæll!“

Þegar nú konungur andanna hafði heyrt sögu mína, þá bauð hann einum af þjónum sínum að leiða fram fyrir sig anda þann, er töfrað hafði dóttur soldánsins í Kairó. Að stundarkorni liðnu stóð sakadólgurinn frammi fyrir konunginum. „Þú hinn bölfaði!“ mælti konungur með þjósti, „því hefur þú gert manni þessum mein?“ „Voldugi konungur!“ mælti andinn, „ástin ein og annað ekki gekk mjer til að vinna glæp þenna. Armbandið fyrirmunaði mjer að nálgast dóttur soldáns, og neytti eg því manns þessa til þess að fá vilja mínum framgengt. Óðar enn eg var búinn að láta hann ná armbandinu, fjekk eg kóngsdóttur í vald mitt; en svo mikil er ást mín á henni, að eg hef henni ekkert mein gert.“ Konungur andanna skipaði honum því næst, að fá mjer armbandið aptur, svo eg gæti horfið aptur til konu minnar; hótaði hann honum dauða, ef hann færðist undan. En illvirkinn, sem var einn á meðal hinna þverbrotnustu anda, varð bálreiður og stóð á því steini fastara, að hann skyldi aldrei láta armbandið af hendi, og skyldi hann einn njóta kóngsdóttur og enginn annar. — Í sama

bili ætlaði hann að skjótast burt og hverfa í lopt upp, en var þess eigi megnugur, og var hann handtekinn að boði konungs. Var tekið af honum armbandið, og að því búnu ljet konungur vægðarlaust hálshöggva hann og fjekk mjer síðan töfragripinn. En er eg var handhafi orðinn að honum, vissi eg ekki fyrri til, enn allir andar voru horfnir, en sjálfur var eg aptur kominn í skrautklæði mín. Sneri eg þegar heimleiðis aptur til borgarinnar, og jafnskjótt sem hallarverðir mínir og hirðmenn sáu mig, gullu þeir við sem einn maður og hrópuðu: „Konungurinn okkar horfni er kominn heim aptur.“ Tók eg kveðju þeirra og gekk á fund kóngsdóttur, er sofið hafði fastasvefni frá því eg hvarf. En óðara enn eg var búinn að smeygja armbandinu á hægra handlegg hennar, vaknaði hún og hljóðaði upp yfir sig af fögnuði, er hún sá mig. Allt upp frá þeirri stund höfum við búið hvert með öðru í bezta gengi, og ekkert til rauna borið, nema andlát föður hennar. Hann andaðist barnlaus og arfleiddi mig því að ríki sínu, og hef eg síðan stýrt því í friði og vegsemd.

Konungurinn í munkabúningnum ljet nú í ljósi við soldáninn í Kairó, hve mjög sig furðaði á æfintýri þessu. Þá mælti soldán: „Furðaðu þig ekki á því, bróðir kær! þeim, sem alla hluti hefur skapað, er ekkert um megn fram. En með því þú hefur afsalað þjer ríki þínu, þá býð eg þjer að verða vezír hjá mjer. Mundi mjer vænt um þykja, ef þú gengir að embætti þessu, og gætum við þá lifað saman einsog bræður og vinir.“ Konungurinn, sem genginn var frá ríki sínu, tók kosti þessum, og ljet soldán fá honum öll þau tignarmerki, sem einkenna stórvezíra. Þaraðauki gaf hann honum glæsilega höll með fögrum aldingarði. Hjelt hinn nýji stórvezír tvær ráðsamkomur á degi hverjum, og rækti embættisskyldur sínar með slíkri samvizkusemi og rjettsýni, að menn leituðu hans úrskurðar úr öllum áttum fjær og nær, og undu þeir jafnvel hlut sínum, er dómar hans gengu í móti.

Þannig liðu nokkur ár í bezta gengi, en þá bar svo til eitt kvöld, að soldán var í þungu skapi og sendi boð eptir honum. „Það liggur illa á mjer,“ sagði hann, „eg hef ekki gaman af neinu, sem eg sje í kringum mig og svo er eg yfirkominn af þunglyndi, að eg hef óbeit á þeim hlutum, sem mest er yndi að. Kom þú

með mjer; við skulum ganga út í dularbúningi.“ Þá svaraði vezírinn: „Skyldan býður mjer að fylgja yður hvert sem vera skal;“ síðan bjuggust þeir báðir í munkabúning, fóru út úr höllinni á laun og gengu hingað og þangað, uns þá bar að vitfirringa húsi einu. Þar fóru þeir inn, og er þeir lituðust um, þá sáu þeir tvo menn; var annar þeirra að lesa eitthvað hátt, en hinn hlýddi á með mestu athygli. Furðaði soldán sig á þessu og spurði þann, sem var að lesa, hvort hann fyrir vitleysu sakir væri kominn á þenna stað, en hann kvað nei við. „En saga mín,“ mælti hann, „er svo undarleg, að hún væri þess fullverð, að hún væri grafin á eirspjald, svo að aðrir gætu dregið dæmi af henni.“ Nú langaði soldán til að heyra söguna og sagði hinn ungi maður honum hana á þessa leið.

## Sagan af fyrsta vitfirringnum.

Eg var kaupmaður og átti fullt forðabúr af allskonar indverskum varningi; keypti eg alltaf og seldi aptur jafnótt, og fór verzlun mín dagvaxandi. Það var einhvern dag, að gömul kona kom í búð mína; hjelt hún á bænabandi í hendinni, hneigði sig djúpt fyrir mjer, og spurði eptir ýmsum fatnaðarefnum. Þegar hún var búinn að velja sjer efni í klæðnað, spurði hún mig, hvað það kostaði, og setti eg upp fimm hundruð dínara; borgaði hún mjer þá þegar fjeð og tók eg hundrað og fimmtíu í hreinan ábata. Næsta dag keypti hún aptur af mjer fatnaðarefni og borgaði það, og svo gerði hún á degi hverjum í hálfan mánuð. Á hinum fimmtánda degi kom hún einnig til mín, valdi úr eitthvað, sem henni leizt, af varningi mínum, og myndaði sig til að borga, en þá varð hún þess allt í einu vör, að hún hafði gleymt peningapyngju sinni heima. Sagði hún mjer hvernig var og beiddi mig að fylgjast með sjer heim og taka þar við fje mínu. Reyndi eg kurteislega að færast undan, og sagði henni að eg skyldi feginn bíða borgunarinnar þangað til hún kæmi aptur, og skyldi svo fara, að hún ekki kæmi, þá væri henni guðvelkomið að eiga það sem hún hafði keypt. En hún tók undanfærslu mína svo óstinnt upp, að eg sá

mjer að endingu engin önnur úrræði enn að loka búðinni og fylgjast með henni.

þegar við vorum komin í stræti eitt, þá tók hún upp dúk og sagði, að eg yrði að lofa henni að binda fyrir augun á mjer. þókti mjer þetta kynlegt og beiddi eg hana að segja mjer, hvað henni gengi til, en hún bar það í vænginn, að okkur mundi verða gengið fram hjá mörgum gluggsvölum, er konur sætu á, og með því hæglega gæti svo farið, að mjer yrði litið á einhverja af blómarósum þessum, þá væri hún hrædd um, að hugarró mín kynni að raskast við það atvik, því svo væru sumar af konum þessum fríðar, að þær gætu glapið hina guðhræddustu munka. þetta leizt mjer ekki fjærri vonum, og ljet eg konuna binda fyrir augu mjer. — Gengum við síðan kippkorn, þangaðtil við komum að húsi einu; barði konan þar á dyr og jafnskjótt sem upp var lokið, leysti hún dúkinn frá augum mínum. Sá eg þá með undrun, að eg var kominn í hús eitt, sem var svo skrautlegt að innan sem konungshöll væri. Konan ljet mig nú bíða í herbergi einu, og sá eg úr því inn í annað herbergi; þar lágu í einni hrúgu öll þau fataefni, sem hjá mjer höfðu verið keypt. Að stundarkorni liðnu komu tvær fríðar yngismeyjar, sprettu þær dúk í sundur og neru með honum gólfið, uns það varð gljáandi og spegilfagurt; hafði áður verið stökkt á það rósavatni og öðrum ilmandi vökva. Síðan sóktu þær fimmtíu stóla og lögðu á þá glæsilegar sessur og ábreiður; loksins báru þær inn ljómandi legubekk, lögðu á hann hægindi og gullofnar silkiábreiður og gengu síðan á burt.

Skömmu síðar komu þær aptur með öðrum meyjum, er fylgdu þeim eptir í röð, tvær og tvær saman og voru þær fimmtíu að tölu. En á eptir þeim kom kona, sem var miklu fríðari og skrautlegar búin enn allar hinar; fylgdu henni tíu fagrar meyjar og settist hún niður í legubekkinn. þegar eg sá hana, herra! varð eg öldungis frá mjer numinn og gat valla á mjer setið, að kalla ekki upp yfir mig fyrir undrunar sakir, er eg sá hana; svo var hún óviðjafnanlega fögur ásýndum, en vaxtarlagið aðdáanlegt, og kurteisi hennar frábær í framgöngu og látbragði. Var hún nú að tala við lagskonur sínar og var næsta kát og gamansöm, en í því kemur inn konan gamla, og vjek hún sjer þá að henni og mælti:

„Er hann þá loksins kominn, móðir góð?“ „Já, dóttir mín!“ svaraði hún, „hann er hjerna og bíður boða þinna.“ „Látum hann koma hingað inn,“ sagði hin, og gekk þá konan gamla að mjer. og leiddi mig við hönd sjer inn að legubekknum. Hin tíguglega kona, er þar sat, brosti við, er hún sá mig og heilsaði mjer kurteislega; ljet hún setja stól hjá legubekknum og bauð mjer að setjast hjá sjer. Var eg þá sem höggdofa og utan við mig af öllu því. er eg hafði fyrir augum, en hún tók blíðlega til orða og mælti: „Hverju orði ljúkið þjer á fríðleika minn? hyggið þjer mig maklega ástar yðvarrar? viljið þjer verða maðurinn minn og hafa mig fyrir eiginkonu?“ Kom þá enn meira fát yfir mig og svaraði eg: „Drottning! hvernig ætti eg að þykjast vera slíkrar sælu maklegur. eg sem er hinn aumasti þræll yðar?“ „Ungi maður!“ sagði hún. „eg tala af hreinskilni og hispurslaust; svarið mjer þá eins, og kvíðið engu, því yður einum lýtur hugur minn og hjarta.“

Nú varð eg að vísu þeirrar trúar, að þessi fagra kona vildi giptast mjer, en hitt var mjer hulinn leyndardómur, hversvegna hún vildi það og hvaðan hún þekkti mig. En hún talaði til mín blítt og ástúðlega, svo eg herti loksins upp hugann og mælti: „Göfuga drottning! ef eg má trúa orðum yðar og treysta þeirri heillavon, er þjer blásið mjer í brjóst, þá látum oss nota tímann og frestum ekki slíkri sælu.“ „Verði svo!“ ansaði hún, „já, þessi hamingjudagur verði brúðkaupsdagur okkar. Eg skal þegar senda boð eptir valdsmanni og vottum, og skulum við drekka brullaup okkar að þessu kvöldi, en þó set eg einn skildaga.“ „Og hver er sá?“ spurði eg. „Þjer verðið að skylda yður til þess. að sýna aldrei annari konu blíðlæti eða mæla til hennar ástarorðum.“ Þessu var mjer hægt að lofa, enda mundi eg í það sinn hafa heitið hverju sem vera skyldi, því eg brann af löngun eptir að fá svo fríðrar konu. Gekkst eg því fúslega undir skuldbindingu þessa. og lofaði að móðga hana aldrei með neinu slíku, hvorki í orði nje verki, og ljet hún sjer það lynda. Fór nú hjónavígslan fram, og að henni aflokinni ljet hún bera fram kaffe og kælandi drykki; valdsmanninum ljet hún greiða fje af hendi og gaf þjónustumeyjum sínum gjafir. Meðan á þessu stóð, spurði eg sjálfan mig, hvað eptir annað, hvort mig ekki væri að dreyma. Nú skipaði hún

geldingum að fylgja mjer til lauga og leiddu þeir mig inn í herbergi eitt, sem var svo fagurt, að því verður valla með orðum lýst. — Voru þar glæsilegar ábreiður á gólfi, en af laugavatninu lagði sæta angan; eptir baðið var eg færður í skrautklæði og voru mjer veittir svaladrykkir og allskonar hressingar. Því næst fylgdu þrælarnir mjer í aðalstofu hallarinnar; sat kona mín þar hlaðbúin í dýrðarljóma fegurðar sinnar og beið mín. Settist hún hjá mjer og renndi til mín blíðum ástaraugum, varð eg þá svo unaðfanginn, að eg valla rjeði mjer. Liðu svo tíu dagar að við vorum einsog drukkin af munaðarsælu. En að þeim tíma liðnum minntist eg móður minnar og leiddi eg konu minni fyrir sjónir, hvílíks harms og kvíða fjærvera mín hlyti að hafa ollað henni. „Leyf mjer,“ sagði eg, „að finna hana og hugga, og verja ofurlitlum tíma til verzlunarmála minna.“

Hún mælti alls ekki á móti því og sagði, að eg gæti fundið móður mína á hverjum degi og gegnt störfum mínum, en eg yrði ávallt að láta hina gömlu konu fylgja mjer fram og aptur. — Ljet eg mjer það lynda, og þegar eg ætlaði að ganga að heiman batt hin gamla kona aptur fyrir augu mín og leiddi mig aptur á sama staðinn og í fyrra skiptið, og sagði við mig að skilnaði: „Komið hingað um kvöldbænatíma og skal eg þá vera hjer fyrir.“ — Eg flýtti mjer á fund móður minnar, sem var yfirkomin af harmi og óhuggandi og vafði hún mig grátfegin að brjósti sínu. „Gráttu ekki,“ sagði eg við hana, „því fyrir fjærveru mína varð mjer þeirrar hamingju auðið, er eg aldrei hafði vonazt eptir.“ Og er eg hafði sagt henni æfintýri mitt, kallaði hún upp með miklum fögnuði: „Guð varðveiti þig, son minn! en komdu nú til mín annanhvern dag, því svo mikið ástríki hef eg á þjer, að ekki má minna vera, enn að þú sýnir mjer elsku aptur í móti.“ Þeim tíma dags, sem eptir var, varði eg til að gegna störfum mínum, og á tilteknum tíma ljet eg hina gömlu konu binda fyrir augu mín og fylgja mjer heim til konu minnar; fagnaði hún mjer með óumræðilegri blíðu. —

Þannig bjuggum við saman í þrjá mánuði, og furðaði eg mig jafnt sem áður á dýrðargengi því, er kona mín lifði í, og hinni fjölmennu sveit, er hún hafði í kringum sig. Gat eg nú ekki

lengur ráðið við löngun mína til að vita, hver kona sú væri, er eg hafði gengið að eiga og hvað hún hjeti. Því var það einusinni, er eg var aleinn með einni af hinum svörtu ambáttum hennar, að eg spurði hana að þessu. „Herra!“ svaraði hún, „saga húsmóður minnar er undarleg mjög, en eg þori ekki að segja yður hana, því eg er hrædd um að hún komist að því og láti drepa mig.“ Eg sagði að hún mætti vera alls ókvíðin um það, og lofaði henni að þegja yfir öllu; tók hún þá þannig til máls: „Einusinni þegar húsmóðir mín kom heim frá laugum, varð henni gengið fram hjá sölubúð yðar; stóðuð þjer þá á tali við einhvern kunningja yðar. Þjer voruð þá svo skrautlega og snoturlega búinn, að hún fór að virða yður og allt látbragð yðar betur fyrir sjer, og allt frá þeirri stundu varð hjarta hennar gagntekið af brennandi elsku til yðar. Enginn varð í það sinn var við geðshræringu hennar, en jafnskjótt sem hún var heim komin, sókti að henni óyndi; vildi hún einskis neyta og lagðist rúmföst. Varð hún föl yfirlitum, gat eigi sofið um nætur og gerðist næsta máttfarin. Varð móðir hennar þá kvíðafull og gerði boð eptir konu einni gamalli, sem var sýnt um lækningar; þreifaði hún á lífæð meyjarinnar, sem var svo þungt haldin, og spurði hana að ymsu; varð hún þess skjótt áskynja, að sjúkleiki hennar var ekki af líkamlegum orsökum sprottinn. Grunaði hana þegar, að ástir mundu valda vanheilsu hennar, en vildi ekki kveða upp úr með það í viðurvist hennar. Sagði hún því sjúklingnum, að með guðs hjálp mundi bráður bati verða á meinsemd þessari og kvaðst næsta dag skyldu koma með óbrigðulan læknisdóm. Eptir það gekk hún á burt og kvaddi móður hinnar sjúku meyjar til viðtals undir fjögur augu. „Reiðist mjer ekki,“ sagði hún, „fyrir það, er eg hlýt að gera yður uppskátt. Dóttir yðar er sjúk af ást, en engu öðru, og er enginn annar vegur til að lækna hana annar enn sá, að gipta hana þeim, sem hún elskar.“

Hin gamla kona fór nú leiðar sinnar, en móðurinni fjellst mikið um, og gekk hún til dóttur sinnar; reyndi hún á allar lundir að knýja hana til þess að gangast við leyndarmáli sínu, en hún þagði við öllu fyrir blygðunar sakir. Loksins þegar liðnir voru tuttugu dagar, játaði hún fyrir móður sinni, að hún elskaði yður, nefndi strætið og húsið, sem hún hafði sjeð yður í, og lýsti hvoru

tveggja; fór þá hin gamla kona og leitaði yður upp. En hitt vitið þjer sjálfur, hvernig síðan fór og hvernig þjer komust hingað. Svona er nú saga húsmóður minnar; munið mig um það að láta hana ekki fara lengra.“ Eg lofaði ambáttinni ennþá einusinni að þegja yfir þessu, og lifði eg nú sælu lífi með þeirri konu, sem öllum var yndislegri, svo að ekkert raskaði gleði minni. Gekk eg á degi hverjum til móður minnar og gegndi störfum mínum, en tengdamóðir mín fylgdi mjer heim á hverju kvöldi eptir vanda.

þannig liðu nokkrir mánuðir, en einn dag er eg sat inni í búðinni önnum kafinn, varð mjer litið út á stræti og sá eg unga stúlku, sem bauð öðrum verzlunarmönnum kjörgrip einn til kaups; var gripurinn prýddur demöntum og dýrindis perlum. Leizt mjer sem enginn mundi ennþá hafa boðið eins mikið og hún vildi, og kom stúlkan þá loksins til mín og mælti: „Allir kaupmennirnir hafa nú boðið í dýrgrip þenna, nema þjer einir, og sýnist mjer sem þjer alls ekki virðið hann viðlits.“ Svaraði eg henni þá, að eg hefði enga þörf fyrir glingur hennar, en allt fyrir það sagði hún: „Hvað bjóðið þjer? viljið þjer ekki hækka boðið dálítið á móti hinum?“ Var eg næsta tregur til þessa kaupskapar, en hugsaði þó með sjálfum mjer, að kona mín kynni að hafa ánægju af gersemi þessari og svaraði því stúlkunni: „Hana þá! ef svo skal vera, þá vil eg gefa þjer fimmtíu dínörum meira og fylla svo þúsundina.“ „þjer skuluð fá gripinn fyrir þetta verð,“ sagði stúlkan, en er eg ætlaði að telja henni fjeð í búð minni, þá færðist hún undan að taka við því og mælti: „Herra! eg hef einnar bænar að biðja yður, og heimta eg enga aðra borgun, enn að mega kyssa yður á kinnina.“ þó mig nú furðaði á þessum kátlegu tilmælum, þá þókti mjer það annarsvegar gjafverð, að fá dýrgripinn fyrir einn koss, og með því stúlkan vildi með engu móti taka við fjenu, en stóð fast á bæn sinni, þá ljet eg loksins til leiðast. Kyssti stúlkan mig þá, en beit mig um leið svo tilfinnanlega, að eg hljóðaði upp yfir mig en hún hafði sig á burt í skyndi.

Um kvöldið leiddi tengdamóðir mín mig heim, einsog vant var; hitti eg þá svo á, að kona mín sat í legubekk með styggu yfirbragði og var búin skarlatsklæðum, en það er búningur syrgjandi manna. Eg færði mig að henni, tók í hönd henni, og fjekk henni dýrgripinn

og mælti: „Drottning hjarta míns! eigðu þetta; eg hef keypt það handa þjer.“ Hún tók við gripnum, skoðaði hann vandlega og spurði mig, hvort það væri svo í raun og veru, að eg hefði keypt hann handa sjer.“ „Já, það veit hamingjan,“ ansaði eg, „hann kostar þúsund dínara.“ Þá sortnaði yfir svip hennar og hrópaði hún í heiptaræði: „Hvernig stendur á sárinu, sem þú hefur á kinninni?“ Við þessa spurningu brá mjer ógurlega, og setti mig dreyrrauðan, en hún kallaði á þjónustukonur sínar og komu þær inn með lík stúlku nokkurrar, og lá höfuð hennar á miðjum kroppnum. Kannaðist eg samstundis við, að þar var komin sú, er selt hafði mjer gripinn. Ljet þá kona mín orð þessi dynja yfir mig: „Þesskonar barnaglingur er einskisvert fyrir mig, því eg á allsnægtir af slíku. En eg vildi freista þín, hvort þú gætir ent trúlega það sem þú hafðir heitið mjer, að hafa ekki ástfarir við nokkra aðra konu. Þessvegna sendi eg stúlku þessa til þín, en fyrst þú hefur rofið eið þinn, þá skaltu hjeðan fara og aldrei aptur koma“ Óðara enn kona mín hafði sagt þetta, tók móðir hennar mig við hönd sjer, batt fyrir augu mjer og leiddi mig þangað, sem við vorum vön að hittast. Þar leysti hún aptur frá augum mínum og mælti: „Farið nú!“ Flýtti hún sjer þá burt frá mjer, en eg varð örvæntingarfullur útaf þessum hryggilega atburði og missi konu minnar, er eg unni svo heitt; hljóp eg um strætin og æpti sem óður maður: „Æ! hversu fríða, hvertu ástfagra og yndislega konu hef eg misst!“ hjelt nú hver maður, að eg væri genginn af vitinu, og kom það loksins, að eg var tekinn fastur og fluttur hingað.“

Soldán hafði hlýtt með athygli á sögu þessa, og sat nokkra stund hljóður og hugsandi, uns hann allt í einu vjek sjer að vezír sínum og mælti: „Viti það himin! að þú skalt lífið láta, nema þú finnir konu þá, er gekk að eiga manninn þarna.“ Varð þá vezírinn felmtraður og beiddi um þriggja daga frest í minnsta lagi, og var honum það veitt, en eptir tvo daga var hann engu nær enn áður. Loksins leitaði hann til hins unga manns og ljet hann fylgja sjer þangað, sem hin gamla kona var vön að binda fyrir augu honum. Og er hann hafði vandlega gætt að öllum húsum í strætinu, þar sem sagan hafði gerzt, þá þóktist hann loksins þekkja dyrnar, sem hann hafði verið leiddur inn um. Börðu þeir nú á dyr og með

því ambáttirnar þekktu vezírinn og hinn unga mann, þá flýttu þær sjer til húsmóður sinnar og sögðu henni, að vezírinn væri kominn með manni hennar. Ljet hún þá spyrja vezírinn, hverja skipun hann hefði að færa, og ljet hann þá birta henni vilja soldáns, að hún skyldi sættast heilum sáttum við mann sinn. Ljet hún bera honum þau svör, að enn þótt hún væri dóttir manns, sem fyrrum hefði verið soldán, þá væri sjer samt skylt að hlýðnast vilja þess, er hún væri þegnskyld. Þannig hreppti hinn ungi maður aptur það er hann hafði misst, og rjeðist þetta heppilegar, enn hann nokkurntíma hafði búizt við.

Þegar soldán var búinn að heyra sögu fyrra vitfirringsins, þá hafði hann og viljað heyra sögu hins annars*), en hann kvaðst lítið kunna af sjer að segja, er nýlundu gegndi. En hann kvaðst kunna merkilega sögu af vitringi nokkrum og lærisveini hans, og með því soldán fýsti að heyra hana, þá tók annar vitfirringurinn þannig til frásagna.

## Sagan af vitringnum og lærisveini hans.

Einusinni var maður afbragðs fróður og stórvitur; hafði hann tekið sig útúr heiminum og kotrað sjer niður í einsetukofa nálægt musteri nokkru, til þess að geta sökkt sjer niður í ransóknir sínar og heimspekilegar hugleiðingar. Gekk hann aldrei frá einbýli sínu, nema brýnasta nauðsyn bæri til, og lifði hann þessu lífi í mörg ár. Það var einn dag, að til hans kom ungur drengur og sárbændi hann, að taka sig til samvistar einsog lærisvein, eða þá einsog þræl. Vitringnum gatst vel að yfirbragði sveinsins og veitti hann honum það er hann beiddist; spurði hann sveininn um foreldra hans og hvaðan hann væri upp runninn, og svaraði hann þá: „Spyrjið mig eigi, eg er foreldralaus og veit ekki, hvort eg er af himni eða jörð.“

Þó vitringnum þækti þetta kynlegt, þá gekk hann samt ekki frekar á drenginn og lofaði hann honum að vera hjá sjer. Allt frá þeirri stund var drengurinn frábærlega elskur að honum, sýndi

---

*) Saga annars vitfirringsins er ekki annað enn helber upptekning sögu einnar, sem fyr er sögð og „Kvennaslægð“ nefnist (3 B. 127.) og er hún því feld úr.

honum mestu lotningu og var hinn auðsveipasti. Liðu svo tólf ár af hendi, og var þá sveinninn orðinn að fullorðnum manni, og skorti hvorki djúpsetta þekkingu nje fagra menntun. Þá heyrði hann einusinni að tilrætt varð um fegurð konungsdótturinnar, og var hún lofuð umfram allar konungadætur, er þá voru uppi; vaknaði þá í brjósti hans áköf löngun til að sjá hana, þó ekki væri nema í svip. Sagði hann fóstra sínum frá þessu, en honum brá mjög við það, og svaraði honum hnugginn, að ekki væri það siður, að konur að jafnaði hefðu samneyti við karlmenn, en þó allrasízt konunga dætur; hefðu þeir fóstrarnir kastað á bak sjer hjegóma heimsins og ættu því heldur að varast allt, sem orðið gæti til þess, að þeim lenti saman við höfðingja þessa heims. Reyndi vitringurinn þannig á allar lundir, að telja lærisveini sínum hughvarf, en hann sókti sitt mál því fastara og varð hann loksins svo þunglyndur út úr þessu, að heilsu hans fór smáhnignandi. Þetta fjekk vitringnum mikillar áhyggju og spurði hann lærisvein sinn einusinni, hvort hann hjeldi að það gæti fullnægt löngun hans, ef hann aðeins fengi að sjá kóngsdóttur. Játti hann því, og gekk þá vitringurinn að honum andvarpandi, og reið einhverskonar smyrslum á aðra augabrún hans; brá þá svo við, að í sama bili hvarf annar helfingur líkama hans og sást hann aðeins einsog hálfur. Vitringurinn bauð honum nú að ganga undireins út á torg og gerði hann svo. Óðara enn hann var kominn út á stræti, flykktist mesti manngrúi í kringum hann og glápti á hann með undrun. Vildu allir sjá þessa fábreytilegu sjón og flaug fregnin skjótt um borgina og barst til hallar konungsins, bauð hann þá að náttúruafbrigði þetta væri leitt á sinn fund.

Nú var hinn ungi maður sóktur til hallarinnar og horfði öll hirðin á hann með undrun og viðbjóð. Eptir það var farið með hann inn í kvennabúrið, til þess að kvennfólkið gæti svalað forvitni sinni. Auðnaðist honum þar að sjá dóttur konungs og varð hann svo frá sjer numinn af fegurð hennar, að hann sór í hjarta sínu, að eiga hana eða deyja að öðrum kosti. Kom hann nú heim aptur til læriföður síns; spurði hann hvort hann hefði sjeð dóttur konungsins. Hann kvað svo vera; „en ekki nægir mjer,“ sagði hann, „að hafa sjeð hana einusinni, og aldrei mun eg hjeðanaf frið hafa, fyrr enn eg get sezt hjá henni, saðt sjón mína á yndisleik hennar og

snortið hennar ljómandi háls með hendi minni. Auðnist mjer það ekki, þá mun eg með öllu örvílnast og ekkert hóf verða á harmi mínum.“ Vitringurinn bar sig nú reyndar að andæfa móti, en með því hann var áhyggjufullur útaf hinni ofsafengnu ástríðu fóstra síns, þá ásetti hann sjer að duga honum svo sem hann gæti í hættu þeirri, er hann ætlaði að leggja útí, og vænti hann sjer guðlegs fulltingis til þess. Reið hann nú undrasmyrslunum á bæði augu lærisveins síns og varð hann þá samstundis hverjum manni ósýnilegur. „Farðu nú, son minn!“ mælti hann, „og fullnægðu ósk þinni, en komdu fljótt aptur og afræktu ekki skyldur þínar of lengi.“

Hann skundaði nú til hallarinnar, og með því hann var ósýnilegur, þá veitti honum hægt að komast inn í kvennabúrið og settist hann þar niður hjá kóngsdóttur. Lengi vel ljet hann sjer nægja að horfa á hana, en loksins varð hann sem utan við sig af ástarlöngun, rjetti út handlegginn og snerti hálsinn á kóngsdóttur með hendi sinni. Hljóðaði hún þá upp yfir sig af hræðslu og hljóp í fang móður sinnar; hún spurði hverju þetta sætti, og sagði þá kóngsdóttir að einhver illur andi hefði komið við hálsinn á sjer. Varð drottning þá óttaslegin, og sendi undireins eptir barnfóstru dóttur sinnar; fullyrti fóstran, að ekkert ráð væri betra til að fæla burt illa anda enn að brenna úfaldataði, og var því undireins svo gert. Lagði reykjarsvæluna um allt herbergið og sveið hinum unga manni í augum, svo að þau fylltust vatni, og varð hann að þerra þau með vasaklút sínum. En um leið strukust burt undrasmyrslin, sem kennari hans hafði riðið á augu honum, brá þá af honum huldunni, en drottningin, dóttir hennar og þjónustukonurnar hrinu upp yfir sig af hræðslu og undrun, er þær sáu karlmann allt í einu birtast mitt á meðal sín. Runnu geldingarnir á hljóðin, flugu á hinn aðkomna mann, lömdu hann og bundu og drógu hann fram fyrir konung. En er hann heyrði, hvar þeir höfðu komið að honum, sendi hann eptir böðlinum og skipaði honum, að færa illvirkjann í kolsvartan hiúp með eldlitum geirum; skyldi því næst setja hann upp á úlfalda, fara með hann víðsvegar um borgina og hálshöggva hann.

Böðullinn bjóst undireins til að hlýðnast boði þessu og fór með hinn unga mann á úlfalda um alla borgina, en kallari gekk á

undan og hrópaði: „Sjáið maklega refsingu þeirra manna, sem ekki svífast þess að saurga helgidóm kvennabúrsins!“ Fjöldi fólks hljóp á eptir og varð starsýnt á sakamanninn vegna fegurðar hans, en hafði ekki hátt með, þó því rynni ólán hans til rifja; bar nú alla mannþyrpinguna fram hjá musterinu, þar sem vitringurinn bjó í einsetu kofa sínum. Þegar hann heyrði ysinn og háreystið, gekk hann út að glugganum og skelfdist mjög, er hann sá fósturson sinn í slíkum háska staddan. Komst hann þá við og kvaddi andana til fulltingis sjer, því með djúpsettri þekkingu í hinum huldufullu vísindum hafði honum tekizt að gera sjer þá undirgefna. Skipaði hann þeim nú að setja alþekktan öldung upp á úlfaldann í stað hins unga manns, og gerðu þeir það samstundis. En er fólkið sá skipti þau, er á voru orðin, þá laust það upp miklu ópi, því allir könnuðust við öldunginn, að hann var spekingur einn heiðvirður, sem í mörg ár hafði selt heilnæm lyfjagrös í nánd við aðalmusterið, og hrærðust allir til meðaumkvunar, sem sáu hann dæmdan til slíkrar refsingar. En böðlinum hafði og brugðið í brún, er hann sá bandingjann breytast allt í einu, skildi hann ekkert í því og þorði ekki að gera meira að verkum til fullnægju dómsins, heldur sneri hann aptur til hallarinnar og hafði öldunginn með sjer á úlfaldanum, en ótölulegur manngrúi fylgdi þeim eptir. Þegar hann var kominn til konungs, sagði hann honum, að hinn ungi maður hefði horfið allt í einu, og hefði eptir orðið í hans stað þessi heiðvirði spekingur, sem alkunnur var um alla borgina. Varð konungur þá svo frá sjer af ótta og undran, að hann vissi ekki hvað til ráðs skyldi taka, og hugsaði með sjer: Sá sem slíks er umkominn, getur líka svipt mig lífi og löndum. Ljet hann því sækja vezírinn, og sagði hann eptir nokkra umhugsun: „Herra! við þenna atburð hlýtur einhver andi að vera riðinn, eða einhver sá máttur, sem vjer ekki skiljum, hefur hönd í bagga með, og er uggvænt að ekki verði skapraunir óhefndar, ef slíkir eiga hlut í máli, að minnsta kosti verður dóttur yðar ills von. Það er því mitt ráð, að þjer látið gera heyrumkunnugt um alla borgina, að þjer leggið við konunglegan drengskap yðvarn, að þjer skulið upp gefa hegningu þeim, er læðzt hafði í kvennabúrið, með því skilyrði, að hann komi á yðvarn fund. Geri hann það, þá bjóðið honum dóttur yðar til kvonfangs, og má vera

að ástríki hennar sefi bræði hans. Hefur hann og litið ásjónu hennar, og er því þetta hollast, þegar litið er til sæmdar hennar og sjálfs yðar". Konungur hlýddi ráði vezírsins og jafnskjótt sem hinn ungi maður heyrði auglýsingu þá, er kallararnir gerðu heyrumkunna, þá sagði hann læriföður sínum, að hann ætlaði að fara á fund soldáns. „Til hvers er það, son minn!" ansaði gamalmennið, „ertu ekki búinn að þola nóg illt?" En er ömögulegt reyndist að þoka hinum unga manni frá áformi sínu, þá varð vitringurinn að láta sjer það lynda. „Lát þá auðnu þína ráða, mælti hann, „eg skal biðja fyrir þjer." Hinn ungi maður tók sjer nú laugar, smurði sig frá hvirfli til ilja með angandi smyrslum og bjóst í hinn ríkmannlegasta klæðnað, sem hann átti til; fór hann síðan til konungs og hneigði sig með lotningu fyrir honum, heilsaði honum með liðlegu látbragði og beiddi honum langra lífdaga og farsællar ríkisstjórnar. Gazt konungi vel að honum, því hann var bæði fríður og karlmannlegur og drengilegur í framgöngu: þakkaði hann honum blíðlega og brosti við og spurði, hver hann væri. Svaraði hann þá: „Eg er sá hinn sami, sem þjer sáuð í líki hálfs manns; sá hinn sami, sem hafði hug til að brjótast inn í kvennabúr yðar." Konungur neyddi hann nú til að setjast í tignarsæti og gaf sig á tal við hann um margvíslega hluti; fórust honum þá svo snildarlega orð um hin mestu vandamál og svo var hann heima í hinum fjærskildustu vísindagreinum, að konungi þókti stórmikið til hans koma og hugði hann vera fullboðinn dóttur sinni. Tók hann þá þannig til máls: „Eg ætla að bjóða yður dóttur mína fyrir eiginkonu. Þjer hafið sjeð hana og mun yður hafa litizt vel á hana; enda getur hún ekki öðrum giptzt, úr því svo er komið." Hinn ungi maður þakkaði honum heillaboð þetta og kvaðst fús á að hlýða honum, en samt beiddist hann þess, að sjer leyfðist að bera þetta undir vandamenn sína. Tók konungur því vel og bað hann að koma sem fljótast aptur. Fór nú hinn ungi maður undireins til karlsins, fóstra síns, og sagði honum hvernig konungur hefði tekið sjer, og beiddi hann samþykkis til ráðahagsins. „Guð láti gjaforð þetta blessast!" mælti gamalmennið, „eg samþykki það af öllu hjarta. En segðu konungi, að einsetumaðurinn biðji hann að koma á sinn fund." „Herra!" ansaði hinn ungi maður, „alla þá tíð, sem eg hef hjá yður verið, hafið þjer búið í kofa þessum og aldrei

úr honum farið. Hvernig ætti eg að dirfast að bjóða konunginum hingað?“

Þá setti vitringurinn á sig svip og mælti: „Gerðu einsog eg býð þjer. Segðu að eg vonist eptir konungi, áður fimm dagar eru liðnir.“ Ungi maðurinn gerði nú einsog fyrir hann var lagt, og þáði konungur boðið; síðan fór hann heim og þókti honum langt að bíða fimmta dagsins. En er dagur þessi loksins rann á lopt, beiddi vitringurinn fósturson sinn að fylgjast nú burt með sjer úr hinum fornu hýbýlum þeirra, til þess að búast undir komu konungs. Nú munum við,“ sagði hann, „fara til húss nokkurs, er við sjálfir eigum.“ Fór hann síðan með hann till byggingar einnar, er lá í rústum, í miðri borginni. „Þetta er hús mitt,“ segir hann við hinn unga mann, sem ekki vissi hvaðan á sig stóð veðrið. „Þetta er ekki annað enn tóptarbrot,“ sagði hann, „hvernig á eg að bjóða konungi hingað, svo að hann ekki reiðist okkur?“ „Far þú og kvíð engu!“ mælti karlinn. Fór hinn þá og var áhyggjufullur á leiðinni, því hann gat ekki varizt þeirri grunsemd, að hinn gamli maður væri genginn af vitinu, eða hefði einhvern illan grikk í hyggju, sem mundi koma honum á kaldan klaka.

Konungi hafði verið farin að lengjazt biðin eptir hinum unga manni; kvöddust nú báðir kurteislega og stóð konungur upp með allri hirðsveitinni og fylgdist með honum til eyðihýbýla vitringsins. Þá brá unga manninum í brún, því í stað rústanna var komin glæsileg höll, og stóð fyrir framan hana fjöldi skrautklæddra þræla, er biðu þar, reiðubúnir til að fagna konungi með mestu lotningu; varð hann orðlaus af undrun og hugsaði með sjálfum sjer, að höll þessi væri glæsilegri enn nokkur konungshöll. Var honum það með öllu óskiljanlegt, hvernig hún væri orðin til. Fór nú konungur af baki ásamt hirðmönnum sínum og gekk inn í hina dýrðlegu höll; hittu þeir vitringinn í sal nokkrum og beið hann þar gesta sinna. Þegar konungur sá hann, þá hneigði hann sig fyrir honum með lotningu, og hneigði hinn þá höfuðið líka, en ekki stóð hann upp. Konungur settist nú hjá honum, og voru þeir langa stund að tala saman; fjell konungur öldungis í stafi, svo mikið fannst honum um húsráðandann, hversu hann var öllum göfuglegri og mikilmannlegri, og hversu allt var dýrðlegt og ljómandi í kringum hann. Þegar

tími var kominn til að taka morgunverð, var salardyrunum upplokið og gengu inn hundrað þrælar, sem báru borð eitt af skíru gulli á höfði sjer og gullföt hlaðin óteljandi skálum og diskum úr agati, karneol og smaragði, og öðrum dýrindis gimsteinum; voru diskarnir og skálarnar fullar af hinum völdustu og fjölbreyttustu krásum; settu þeir nú allt þetta fram fyrir konung. Hafði hann aldrei ímyndað sjer, að slík dýrð og viðhöfn ætti sjer stað, og undraðist því stórum, þó ekki ljeti hann á því bera. Vitringurinn bauð honum nú að setjast til borðs og gerði hann svo ásamt allri hirð sinni, og neytti hins ágæta matar, sem framreiddur var, en að afloknu borðhaldi hjeldu þeir konungur og vitringurinn áfram samtali sínu. Miðdegisverðurinn, er síðar var á borð borinn, var þó ennþá dýrðlegri enn morgunverðurinn, og jók það enn meira á undrun gestanna.

En er allir höfðu etið nægju sína, og vatnskönnur og mundlaugar af gulli og agati voru bornar meðal gestanna til handaþvottar, þá spurði vitringurinn konung, hvort hann hefði ákveðið, hverja brúðgjöf fóstri hans ætti að gefa dóttur hans. Konungur kvað sjer aldrei hafa til hugar komið, að heimta slíkt, en karlinn sagði, að án brúðgjafar væri giptingin ógild. Því næst benti hann þrælum sínum, og færðu þeir honum þegar ógrynni gullpeninga og fjölda demanta og annara gimsteina; bauð hann konungi þetta einsog brúðgjöf fyrir hönd fóstursonar síns. Sjálfur gaf hann konunginum dýrlegar gjafir og öllum þeim, er honum fylgdu, ljet hann fá í hendur skrautklæði, hverjum eptir sinni virðingu. Hafði konungur sig nú loksins til ferða og sneri heim aptur til hallar sinnar ásamt tengdasyni sínum tilvonanda.

En er sá tími kom að hendi, var brúðgumanum fylgt til herbergis kóngsdótturinnar; var það prýtt með hinni mestu viðhöfn; glæsilegar ábreiður voru lagðar á gólfið og dýrasta reykelsi brann í glóðarkerunum. Var þar sem unaðarlegast fyrir búið, en eins var þó ávant, því sjálf brúðurin var ókomin, og þókti brúðgumanum það næsta kynlegt. Þarna varð hann að bíða og bíða, og leið hver stundin af annari, svo að hún kom ekki, þangaðtil liðið var af miðnætti, og kom hún eigi að heldur. Kvaldist hann því af mörgum raunalegum hugleiðingum, og um morguninn lá svo hörmulega illa á honum, að hann gat ekki á sjer tekið.

Foreldrar brúðarinnar vissu ekki annað, enn að hún væri hjá brúðguma sínum og eiginmanni, og var þeim mikill hugur á að sjá hana aptur. Þegar lýsa tók af degi, reis drottning á fætur og gekk til svefnhúss brúðhjónanna, kom hinn ungi maður þar á móti henni með styggu bragði og spurði, því konuefni sínu hefði verið varnað að koma til sín. Drottning furðaði sig mjög á spurningu þessari og svaraði honum því, að dóttir sín hefði gengið til svefnhússins á undan honum og beðið hans þar. „En eg hef ekki litið hana augum, og hef eg til einskis beðið hennar liðlanga nóttina,“ sagði brúðguminn sárhnugginn. En er drottning heyrði þetta, þá hljóðaði hún upp yfir sig af hræðslu, svo að konungur heyrði og rann á ópið; verður því ekki með orðum lýst, hversu hann hryggðist og undraðist, er hann spurði hvarf dóttur sinnar. Var nú leitað grandgæfilega í allri höllinni, og voru þau með öllu óhuggandi, konungur, drottningin og brúðguminn.

En á hinu sviplega hvarfi kóngsdóttur stóð þannig, að andi nokkur, er vandi komur sínar í kvennabúr konungs, hafði svipt henni burt með sjer. Hafði svo hittzt á, að hann var fyrir í svefnhúsi brúðhjónanna, þegar brúðurinni var fylgt þangað inn, og hafði hann orðið svo heillaður af fegurð hennar, að hann ásetti sjer að nema hana burt. Undireins og hann var aleinn orðinn með henni, tók hann hana í fang sjer og flaug á burt með hana gegnum loptið. Þegar hann hafði flogið nokkrar stundir, sveif hann með hana ofan í dýrðlegan aldingarð og lagði hana niður í runni einum forsælis: ljet hann bera henni aldin og sæta svaladrykki, en gerði henni ekkert til meins og var ánægður með að hafa augnagaman af fegurð hennar, meðan brúðguminn örvílnaðist. En loksins hugsaði brúðguminn til fóstra síns og rjeði af að fara með konungi til hans og leita hans fulltingis. Komu þeir báðir sorgbitnir í höll karlsins, og tók hann þeim með virktum; kvað hann sjer vera mikinn harm að hvarfi kóngsdóttur. Reyndi hann í fyrstu að hugga þá; en er sú viðleitni hans varð árangurslaus, þá ljet hann bera inn reykelsisker, fullt af glóandi koleldi; stóð hann stundarkorn í þungum hugsunum, fleygði síðan ýmskonar reykelsi í eldinn og tautaði yfir því særingar þulur. Þegar hann var þagnaður, gerðist landskjálfti og þrumugangur, himininn sveipaðist svörtum skýbólstrum og sáust

hersveitir vængjaðra anda með geislandi fána og gullnar lensur. En miðt á meðal þeirra birtust þrír konungar andanna; hneigðu þeir sig með lotningu fyrir vitringnum gamla, og æptu allir einum munni: „Heill sje hinum volduga drottni vorum! vjer erum reiðubúnir að hlýða honum.“

Vitringurinn skipaði þeim að koma undireins með anda þann, sem rænt hafði konuefni fóstra hans. Sendu þá konungar andanna nokkra af föruneyti sínu þess erindis, að leita upp kóngsdóttur og koma henni heim aptur í herbergi sitt, en leiða hinn illa anda fyrir vitringinn. Var þetta eigi seinna gert enn það var sagt, og varð hvorttveggja jafnfljótt, að kóngsdóttir hvarf heim í herbergi sitt, og að sakadólgurinn stóð frammi fyrir vitringnum. Skipaði hann hinum þremur konungum andanna að brenna hann til ösku. Fór allt þetta fram í augsýn konungs, og stóð hann sem höggdofa af undrun og ótta, svo mikið fannst honum um það, hversu hinir þrír konungar andanna voru jötunslegir, og furðaði hann sig á auðsveipni þeirra við vitringinn. En er hinn illi andi, sem rænt hafði brúðinni, var brenndur til ösku, tók karlinn aptur að lesa særingaþulur, og hneigðu þá andakonungarnir sig fyrir honum ásamt föruneyti sínu, og hurfu á brott. Þeir konungur og tengdasonur hans þökkuðu því næst vitringnum, kvöddu hann og sneru aptur til hallarinnar, og varð þar mikill fögnuður útaf heimkomu kóngsdóttur. Nú var ekkert framar til fyrirstöðu brúðkaupinu, og var fagnaðarhátíð haldin í þrjá daga og þrjár nætur. Bauð konungur háum og lágum, ríkum og fátækum, í veizluna, og eina nóttina var það, að honum kom til hugar, að bezt væri að ganga úr skugga um það með eigin augum, hvort menn hefði rækilega hlýðnazt boðum hans í þessu efni, og enginn leitt hjá sjer að sækja mannfagnaðinn. Bjó hann sig ásamt vezírnum í munkaklæði og leyndust báðir út úr höllinni.

### Frá því er bar fyrir konung um nóttina.

Þeir konungur og vezírinn gengu nú um mörg stræti, og var ekki annað að sjá enn að húsunum væri vandlega lokað, en loksins komu þeir auga á ljós nokkurt. Hleruðu þeir við hús það, er ljósið var í, og heyrðu mannamál innifyrir, og sagði ein röddin: „Örlæti konungs er eigi vel farið, og hefði það verið vottur betra vilja, ef hann hefði sleppt

því að bjóða öllum þegnum sínum án manngreinarálits í veizluna, en látið útbýta velgjörðum sínum á meðal vesalinga þeirra, sem eru svo aumlega til fara, að þeir koma sjer ekki að því að ganga í höll hans.“ „Hjer skulum við fara inn,“ mælti konungur, og bauð vezírnum að drepa á dyr, og gerði hann svo. „Hver er þar?“ var spurt fyrir innan, en þeir sem úti voru, svöruðu: „Ókunnugir menn, er beiðast gistingar.“ Var þá sagt fyrir innan: „Ykkur er velkomið að vera, en fátt höfum við fyrir hendi, er ykkur sje boðlegt.“ þegar þeim konungi var hleypt inn, þá bar þegar fyrir hann sjón, er fjekk honum mikillar undrunar; hann sá þrjá karla, og var einn þeirra mjaðmavisinn, annar haltur, þriðji skakkmynntur og var alltaf að skæla og gretta sig í framan, en ekki var manninum það sjálfrátt. Gat konungur þá ekki á sjer setið að spyrja, hvernig á örkumlum þeirra stæði; svaraði þá einn þeirra: „það eru vanhyggju víti okkar, að við erum orðnir svona aumlega til reika.“ Konungur ásetti sjer að komast síðar fyrir, hvernig á þessu stæði, og segir í hljóði við vezírinn, að hann skuli setja vel á sig húsið, svo að hann gæti leitt fyrir sig menn þessa, þegar hátíðin væri um garð gengin. Neyttu þeir nú hins fátæklega beina, er þeim var veittur af góðum hug, og stóð konungur síðan upp ásamt vezírnum, og gaf körlunum þremur nokkra silfurpeninga; hjeldu þeir nú áfram næturgöngu sinni.

þegar skammt var eptir nætur, bar þá enn að húsi nokkru, sáu þeir þar innum rifu á gluggahleranum þrjár ungar meyjar, er sátu með móður sinni að ljelegum verði, og sungu þær nokkuð. Konungur skipaði vezírnum að berja á dyr og gerði hann svo; kallaði þá ein af systrunum og sagði: „Hver ber hjer á dyr svo síðla nætur?“ „Tveir ókunnugir förumunkar,“ var svarað fyrir utan. Var þeim þá sagt, að í húsi þessu væru konur einar, en karlmaður enginn, sem við þeim gæti tekið; yrðu þeir því að fara til hallar konungs og mundi þeim verða þar vel fagnað vegna hátíðarinnar, sem nú væri verið að halda. Fór nú vezírinn að vandræðast út af því, að þeir væru svo langt að komnir og rötuðu ekki heldur til hallarinnar; væru þeir því hræddir um, að þeir kynnu að rekast í fangið á varðmönnunum og verða handteknir. „Lofið oss því,“ sagði hann, „að njóta hjer húsaskjóls þangaðtil lýsir af degi; skulum vjer þá fara leiðar vorrar, og þið komast að raun um

að einskis ills von er af okkur.“ Nú sá móðir stúlknanna aum á þessum ókunnugu mönnum og ljet ljúka upp fyrir þeim. þeir konungur og vezírinn gengu inn, heilsuðu kurteislega og tóku sjer sæti; fannst konungi mikið um fegurð systranna, kurteisi þeirra og nettleik í látbragði öllu, svo að hann gat ekki á sjer setið að spyrja, hvernig á því stæði, að þær væru hvorki giptar nje faldar umsjá nokkurs karlmanns. þá svaraði yngsta systirin: „Vertu ekki að spyrja, ókurteisi förumunkur! saga okkar er einhver hin fáheyrðasta, en þú mættir þá vera konungur og samferðamaður þinn vezír, ef þið ættuð að vera þess maklegir, að heyra sögu okkar og vita hverjar við erum.“

Konungur var hræddur um að upp kynni að komast, hver hann væri, og fór því ekki lengra útí þetta. — Var nú allt viðurtal þeirra daginn og veginn, og er morgun ljómaði, kvöddu förumunkarnir, sem þóktust vera, hinar fjórar konur. En jafnskjótt sem konungur var orðinn einn með vezírnum, þá skipaði hann honum að setja vel á sig hús systranna, svo að þeir gætu aptur fundið það og fengið að heyra sögu þeirra. Setti vezírinn því merki á dyrnar til þess að sjer ekki skyldi skjátlast. Nú er brúðkaups hátíðin var á enda og allt komið í hið gamla horf, þá skipaði konungur vezírnum að sækja báða örkumluðu mennina; beiddi hann þá að segja sjer sögu sína og gerðu þeir það á þessa leið.

## Sagan af barnakennaranum mjaðmhalta.

Tignaði konungur! eg var fyrrum barnakennari og hafði sjötíu börn til kennslu, og ljet eg mjer jafnan annt um framfarir þeirra í siðferði og lærdómi. Hafði eg innrætt þeim slíka lotningu fyrir mjer, að í hvert skipti sem eg hnerraði, þá fleygðu þau öllu frá sjer, stóðu upp með auðmýktar svip, krosslögðu hendurnar á brjóstið og hneigðu sig svo mælandi: „Guð blessi spekinginn hann kennara okkar.“ Svaraði eg þeim þá og sagði: „Guð blessi ykkur og okkur öll saman.“ Ljeti nú eitthvert barnið hjá líða að taka undir óskir hinna, þá var eg vanur að refsa því með harðri hendi; var nú ekki annað að sjá enn að ástsemd mín og alúð mundi bera hina beztu ávexti.

Einusinni beiddu börnin mig að lofa sjer að fara til lystigarðs

nokkurs skammt frá borginni og leyfði eg þeim það. Var mjer mikil ánægja að horfa á skemmtun barnanna, og hafði eg vakandi auga á öllum leikum þeirra; hjeldum við síðan heim, en á leiðinni gerðust börnin þreytt, og kváðust þau vera dauðþyrst. Sáum við loksins álengdar brunn nokkurn, og varð þá mikill fögnuður, en er við vorum komin að honum, þá þókti okkur heldur enn ekki súrt í brotið, því hvorki var þar festi nje fata til að draga upp vatnið. Eg aumkvaðist því yfir börnin og ásetti mjer að hjálpa þeim, hvað sem kostaði, ljet eg þau því fá mjer lafdregla sína, rakti þá í sundur og knýtti úr þeim festi. En til allrar óhamingju gat eg ekki náð ofan til vatnsins með bandi þessu, og varð eg því að neyta annara ráða. Eg ljet sígast í festinni niður í brunninn, en börnin hjeldu í; hafði eg með mjer dálítinn bikar og fyllti eg hann vatni, hvað eptir annað. Drógu börnin hann upp, og er þau höfðu öll saman slökkt þorsta sinn, þá beiddi eg þau að draga mig aptur upp úr brunninum. Þau gerðu svo og kepptist hvert við annað að toga mig upp; var eg nú rjett að segja kominn upp að efsta brunnbarminum, en í því vetfangi vildi svo illa til, að eg fjekk hnerra. Krosslögðu þá börnin óðara hendurnar á brjóst sjer og kölluðu einum munni: „Guð blessi vorn æruverðuga kennara.“ En eg var þá ekki svo á vegi staddur, að eg gæti svarað þeim, því eg hrapaði í sama bili niður í brunninn og brotnaði í mjer mjaðmarbeinið. Hljóðaði eg þá upp yfir mig af sársauka, en börnin þutu í allar áttir til að leita mjer hjálpar. Loksins vildi það mjer til hamingju, að nokkrir hjartagóðir menn áttu þar leið framhjá og björguðu þeir mjer úr bágindum mínum, settu mig upp á asna og komu mjer heim til mín. Kramdist eg þar í langri legu og batnaði mjer aldrei svo vel, að eg aptur gæti annast störf mín; varð eg fyrir þá sök að hætta við skólann. Þannig reið hjegómagirnin mjer að fullu, því hefði eg ekki gengið svo ríkt eptir hjegómlegum kurteisisvana, þá hefði eg vel getað hnerrað mjer að skaðlausu, og ekki þurft að hrapa niður í brunninn og verða vanfær alla æfi.

## Sagan af barnakennaranum munnskakka.

Nú tók hinn munnskakki til frásagna og mælti: „Eg var líka barnakennari einusinni, og var eg svo harður við skólabörnin, að

eg krafðist þess af þeim, að þau skyldu ávallt vinna í tómstundum sínum. Gramdist þeim svo mjög þetta vandlæti mitt, að þau ásettu sjer að gera mjer grikk og herja þannig út frí handa sjer. Töluðu þau sig því saman og urðu á það sátt, að þegar eg kæmi inn í skólastofuna, þá skyldu þau öllsaman hrópa: „Æ! hvað þjer eruð bleikur, kennari góður! hvað gengur að yður?“

Í fyrsta skipti þegar börnin tóku mjer með hrópi þessu, þá brá mjer heldur enn ekki í brún, en með því eg kenndi mjer ekki neinnar vanheilsu, þá gaf eg því ekki frekara gaum. En nú liðu nokkrir dagar, og var alltaf sama viðkvæðið, þegar þau heilsuðu mjer, og horfðu þau á mig með miklum áhyggjusvip, svo þar kom loksins, að mig tók sjálfan að ugga, að eg hefði tekið meinsemd nokkra innvortis, þótt ekki fyndi eg til. Rjeði eg því af, að halda mjer inni í nokkra daga, til þess að sneiða hjá hættu þeirri, sem mjer ella kynni að vera búin. Börnin skutu nú saman og gáfu mjer gjöf í minningu þess, að eg var heilbrigður orðinn; þókti mjer svo vænt um gjöfina, að eg gaf þeim frídag í fyrsta sinni. Langaði mig til að fá fleiri slíkar gjafir og gerði eg mjer því aptur upp veiki skömmu síðar og gaf börnunum frídag. Eg lifði nú í þeirri sælu von, að þau mundu aptur gefa mjer peningagjöf, einsog þau höfðu gert í fyrra skiptið, en það fór nú öðruvísi. Hrekkjalimurinn, sem hafði verið pottur og panna í tiltæki barnanna, kom inn í stofu til mín, og hittist svo á, að eg ætlaði að eta egg, og með því eg ekki vildi láta hann sjá það, nje sjálfur verða uppvís að skrópum, þá tróð eg egginu sem allrafljótast upp í mig. En strákhnokkinn skildi undireins, hvað mjer bjó í skapi, setti á sig meðaumkvunarsvip og gekk að mjer svo mælandi: „Kennari góður! hvernig stendur á því að þjer eruð orðinn svo bólginn í framan? ósköp megið þjer taka út;“ um leið og hann mælti þetta, klappaði hann mjer á kinnarnar. En eggið var sjóðheitt og sárkenndi eg til í munninum, svo eg þoldi ekki við. Strákurinn kreisti nú allt í einu saman á mjer kinnarnar, og það svo fast, að eggið brotnaði í sundur, en rauðan vall sjóðandi út úr mjer, og brenndi mig hræðilega, en þorparinn kallaði upp og sagði: „Guði sje lof, kennari góður! nú er kýlið sprungið, sem kvaldi yður svo gífurlega. En hvað við nú munum verða glöð af því yður er batnað.“ —

þeim mun líka hafa orðið glatt, en eg varð veikur eptir brunann. Munnurinn á mjer varð eins skældur og hann er enn í dag, og varð eg svo mjög til athlægis af slysi þessu, að eg neyddist til að hætta við skólann og missti þannig atvinnu mínu.“

Konungur leyfði nú hinum örkumluðu mönnum að fara og sæmdi þá virðuglegum fjegjöfum; síðan skipaði hann vezírnum að leita upp húsið, sem hinar þrjár meyjar bjuggu í með móður sinni, því nú ætlaði hann að heimsækja þær í annað sinn. Vezírinn fór nú í skyndi og inn í strætið sem húsið var í, en honum brá heldur enn ekki í brún þegar þangað kom, því öll húsin voru nú með sama merkinu sem húsið systranna, svo honum varð ómögulegt að þekkja það úr. Það var yngsta systirin, sem þetta hafði gert, því hún hafði heyrt skipun konungs, og hafði hún neytt bragðs þessa. til að koma í veg fyrir að húsið fyndist aptur. Vezírinn sagði nú konungi frá brellu systranna, sem ónýtti með öllu ráð þeirra, og varð konungur því forvitnari og skipaði vezírnum með þjósti, að sjá svo til, að hann gæti komist inn í húsið að tveggja daga fresti, og ekki seinna. Rjeði vezírinn honum þá til þess að gera heyrumkunnugt, að hver sá er ljós hefði í húsum sínum eptir hina fyrstu umferð varðmannanna, skyldi hálshöggvinn verða og eigur hans gerðar upptækar, en hús hans rifið niður til grunna. Það þókti líklegt, að úr því systurnar ekki höfðu hlýðnazt boðum konungs. sem hann hafði látið út ganga þegar brúðkaupshátíðin var haldin, þá myndu þær ekki fúsari að hlýða í þetta skipti og yrði því hægðarleikur að finna húsið.

Konungi geðjaðist vel að ráði þessu og ljet nú kunngjöra lagaboð þetta, fjóra daga í rennu; en aðfaranótt hins fimmta dags gekk hann út með vezírnum í njósnar erindum, og voru báðir búnir einsog förumunkar. Nú var hvergi ljós í strætinu, sem þeir þekktu. nema í einu húsi; efuðu þeir ekki að það væri hús systranna og börðu á dyr. „Hver er þar?“ var sagt fyrir innan og þóktist konungur þekkja málróm yngstu systurinnar. Þá svöruðu þeir: „Við erum fátækir förumunkar og beiðumst húsaskjóls;“ en lengi urðu þeir að biðja áður enn upp var lokið. Vel og virðuglega var þeim fagnað, er þeir voru inn komnir. Var þeim fengið sæti og veittar ymsar góðgjörðir svo að konungi gazt vel að. Nú með því hann

vildi eiga tal við systurnar, þá tók hann þannig til máls: „þið munuð að líkindum vita af hinu síðasta lagaboði konungs; hvernig stendur þá á því, að þið einar dirfist að breyta á móti því, og hafið ennþá ljós í húsum ykkar, þarsem enginn maður annar í borginni áræðir slíkt?“ „Munkur minn!“ ansaði yngsta systirin, „þessi skipun konungs er af glappæði sprottin, og er af og frá að við förum eptir henni. því svo segir kóraninn: „það er synd í gegn drottni, að hlýðnast röngum skipunum.“ Konungur brýtur lög og lætur illan anda stýra ráðlagi sínu. Við erum vanar að sitja um nætur með henni móður okkar góðu, og spinnum vissan forða af baðmull, seljum síðan þráðinn á daginn og lifum á því, sem okkur áskotnast fyrir hann.“ þetta sagði stúlkan svo blátt á fram og borginmannlega, að konungur undraðist enn meira enn áður, og sagði við vezírinn í hljóði, að hann skyldi bera upp nýja spurningu fyrir stúlkuna, svo hún kæmist í bobba. Vezírinn færðist undan og kvað það ekki sæma þeim, þar sem þeir væru gestir í annara húsum, en konungur lagði því fastara að honum og tók hann þá svo til máls: „En það er skylda þegnanna, að hlýðnast konungi, hvernig sem á stendur.“ þá svaraði stúlkan: „Víst er það að konungurinn er herra okkar, en hvað veit hann, hvort við lifum í örbyrgð eða allsnægtum?“ „En ef hann nú,“ mælti vezírinn, „spyrst fyrir um óhlýðni ykkar og kallar ykkur á sinn fund, hvað ætlið þið þá að segja ykkur til afbötunar?“ „þá mun eg segja,“ ansaði stúlkan, „að skipun hans sje guðlegu lögmáli gagnstæð.“

Vezírinn hvíslaði nú að konungi þessum orðum: „Ef yðar hátign þóknast, þá munum vjer eigi frekar deila orðum við stúlku þessa, sem er svo gagnkunnug hinu guðlega lögmáli.“ Konungur spurði hana nú að nokkru, er þetta efni snerti, og svaraði hún honum þá: „Eg kann lítið eitt af öllu.“ því næst tók hún fiðlu sína í hönd sjer og söng vísur nokkrar þess efnis, að skylt væri að hlýða góðum konungi, sem þjóðhollur væri og hugljúfi þegna sinna; en það væri sá, er huggaði alla og engan móðgaði með hörðum orðum eða drembilegu augnaráði. Ranglætið æsti óvild og hatur í brjóstum allra drenglyndra manna, en allur þorri manna vissi ekki skyn á rjettu og röngu. Konungur hlýddi á söng stúlkunnar til enda og sat síðan nokkra stund hugsandi; því næst vjek hann sjer að vezírnum

og mælti: „þetta mun til mín vera kveðið, og er nú auðsætt, að upp er komið, hver eg er.“ En við yngstu systurina sagði hann: „Bæði er það að þú hefur fögur hljóð og fluttir kvæðið snildarlega, enda var mjer unun á að hlýða.“ Stúlkan hneigði sig fyrir lofi þessu og kvað vísu:

Það er einsætt
Að ýta gjörðir
Hníga að sæmd og seimi;
Eymd og áþján
Aldur langan
Þola þjóðir
Um þeirra sök;
Bíður þó bragna
Frá burðardegi
Skuggafull gröf,
Skapadægur,
Örlög frá eilífð
Órjúfandi.

Nú gekk konungur úr skugga um, að systurnar mundu hafa þekkt sig. Hjeldu þær söngnum og hljóðfæraslættinum áfram þangaðtil dagur ljómaði. Þá var þeim konungi og vezírnum borinn morgunverður. Síðan kvöddu þeir mæðgurnar og sagði þá yngsta systirin: „Lifðu vel, munkur sæll! eg vona þú komir til okkar og þiggir gistingu hjá okkur næstu nótt, eptir fyrstu umgöngu varðliðsins. Konungur lofaði því og gekk nú heim aptur til hallarinnar, frá sjer numinn af fegurð og gáfum systranna. „Aldrei á æfi minni,“ sagði hann við vezírinn, „hef eg sjeð eins geðslegar stúlkur. Eg er frá mjer numinn af yndisleik þeirra og hinum sælu tilfinningum, sem þær hafa vakið í hjarta mínu.“ Næstu nótt fór hann einnig til þeirra, borðaði og skemmti sjer með þeim allt til hins fyrsta bænahalds tíma; baðst hann fyrir ásamt með þeim, eptir að hann hafði þvegið sjer, einsog fyrirskipað er. Því næst rjetti hann yngstu systurinni pyngju, fulla af gullpeningum, svo hún gæti keypt sjer fyrir ýmislegt, er hún með þurfti. Mærin tók við gjöfinni og kyssti á hönd þess er gaf; ljek henni nú enginn efi á því, að maður þessi væri konungur, þó hann þæktist vera munkur, og fjell hún fram til fóta honum. Móðir hennar og systur gerðu eins og reyndu þannig að láta þakklátsemi sína í ljósi. Þeir konungur og vezírinn töluðust nú við með augnabendingum, og var sem eitthvað mikið byggi undir

því. Þá mælti konungur: „Við erum ekki nema munkar, því sýnið þið okkur þá þau lotningar merki, sem konungum einum sæma?“

Yngsta systirin svaraði honum þá með vísu:

Á þig gæfu
Gjafir hlaðist
Ótal til angurs
Öfundsjúkum;
Daga þína
Gylli dýrðar sól,
Daga dólgmaga
Byrgi dauðans ský.

Þykist eg nú vita að þjer eruð konungur og hinn maðurinn þarna vezír yðar. Kurteisi yðar og stórmennska hafa komið upp um yður, því merki hinnar sönnu tignar leynast ekki, enda þó auðvirðilegum ham sje yfir brugðið.“ „Fyrst þú,“ mælti konungur, „hefur verið svo heppin að geta í kollinn, þá fræð mig nú nokkuð um hagi ykkar og seg mjer hversvegna þið lifið svona, án þess að njóta nokkurrar verndar af karlmönnum.“ Þá svaraði hún: „Saga okkar er svo fáheyrð, að komandi alda menn munu falla í stafi, þegar þeir heyra hana; skal eg nú segja yður hana fyrst þjer viljið svo vera láta.“

# Frá 621 til 629 nætur.

## Sagan af móðurinni og hinum þremur dætrum hennar.

Herra! við erum fæddar í borg nokkurri í Irak, sem faðir okkar ríkir yfir. Drottningin móðir okkar var fegurst allra kvenna á sinni tíð, og barst orðrómur hennar um víða veröld. Meðan við vorum enn á bernsku skeiði, þá bar svo til einusinni, að faðir okkar, sem var veiðimaður hinn mesti, bjóst til að fara á dýraveiðar, og það svo langar leiðir, að hann hlaut fyrir hið sama að vera nokkra mánuði í brottu úr höfuðborg ríkisins; fól hann því vezír sínum landsstjórn á hendur í fjærveru sinni. Svo vildi til einhverju sinni um þenna tíma, að vezírinn stóð uppi á þaki hallar sinnar, sem var allskammt frá höll drottningarinnar, og sá hann hana þá upp á lystihjalla nokkrum, er hún hafði gengið út til að viðra sig. Varð

hann þá frá sjer numinn af fegurð hennar og tendraðist í brjósti honum syndsamlegur girndarbruni, og einsetti hann sjer að svífast einskis til þess að geta svalað fýsn sinni. Í þeim tilgangi sendi hann holla og dygga ambátt úr kvennabúri sínu til drottningar og skyldi hún færa henni böggul. Í bögglinum voru fegurstu skartklæði og dýrustu gimsteinar, og skyldi hún fá drottningu gjafir þessar með þeim tilmælum, að vezírnum mætti leyfast að koma heim til hennar, eða þá að hún vildi koma til hans; til þessa bauðst hið bezta tækifæri, því leynigangur var á milli beggja hallanna.

Móðir mín tók ambáttinni vel, því henni datt ekki annað í hug enn að hún mundi færa sjer boð frá manni sínum. Kvennsniptin leysti nú frá bögglinum og breiddi út fyrir móður okkar það sem í honum var, og undraðist hún mjög; hjelt óhræsið þá að sjer mundi óhætt, þó hún vekti máls á svívirðingu þeirri, er vezírinn hafði í hyggju. En móðir okkar varð þá utan við sig af reiði, er henni var slík óskammfeilni sýnd, þreif tygilkníf og rak flagðið í gegn; bauð hún síðan þrælum sínum að fleygja líkinu í forarræsi, er rann frá höllinni, undir jörð niðri. Vezírinn vonaðist nú eptir að ambáttin kæmi aptur, en er sú von brást, einsog nærri má geta, þá sendi hann aðra ambátt daginn eptir, til þess að komast fyrir, hvort drottning hefði látið svo lítið að þiggja gjafir hans. En í stað þess að svara henni, ljet móðir okkar kyrkja hana og fara með lík hennar einsog hinnar fyrri. Samt þagði hún yfir glæp þeim, er vezírinn hafði gert sig sekan í, því hún vonaði að hann mundi sjá að sjer, er hún hafði hefnzt á ósvífni hans. En því fór fjærri, því hann þóktist viss um, að hann mundi bænheyrður verða fyrr eða síðar, og sendi hann því eina af þjónustukonum sínum á degi hverjum, þó enginn þeirra ætti apturkvæmt, því allar fóru sömu förina og báðar hinar fyrstu. Þegar soldán kom heim aptur, gerðist vezírinn hugsjúkur, er hann vissi sig sekan, en móðir mín vægði honum, þótt hún hefði öruggan málstað, og kærði hann eigi, því hann var að öðru leyti trúr og margfróður ráðgjafi.

Næsta ár fór faðir okkar pílagrímsferð til Mekka og fól vezírnum ríkisstjórn á hendur í fjærveru sinni. Tók hann þá aptur að ónáða móður okkar með áleitni sinni, og kvað svo rammt að því, að hún bannaði að hleypa nokkrum manni á sinn fund, og gekk ekki

eitt fet frá höllinni. Allt fyrir það tókst konu einni, er vezírinn sendi, að komast að drottningu og ávarpaði hún hana þannig: „Miskunið yður fyrir guðs sakir yfir herra minn; hjarta hans sárkvelst af elsku; æ, vorkennið honum, drottning! og gefið honum líf sitt aptur með einu brosi yðar fagra munns.“ Þessi orð mælti hún fram í mesta flýti og ætlaði síðan að hlaupa sem fljótast í burt, en drottningin, sem varð bálreið, þreif í handlegginn á henni og hjelt henni aptur; kallaði hún um leið á geldingana, og er þeir þustu að samstundis, þá fjekk hún þeim ambáttina og bauð þeim að kyrkja hana og fleygja síðan líkinu út í ytra hallargarðinn, svo það gæti verið öllum til sýnis. Var svo gert og í engu af brugðið; en er varðmennirnir og embættismennirnir í hirðinni sáu líkið, þá sögðu þeir vezírnum frá því, og allt frá þeirri stundu sór hann að hann skyldi hata móður mína eins ákaft og hann áður hafði leitað eptir ástum hennar. Fyrst um sinn ljet hann samt ekki á neinu bera og hugði sjer að geyma hefndina, þangaðtil faðir okkar kæmi heim. En er hann frjetti að hann var í nánd, þá skrifaði hann honum svo látandi brjef: „Guði sje lof fyrir, að herra minn er heim kominn, heill á hófi! Virðist yðar hátign að fyrirgefa þeim manni að ósögðu, sem hefur djörfung til að segja hreinan sannleikann. Í fjærveru yðar hefur drottningin látið bugazt af syndsamlegri ást til mín, og margopt sent boð til mín og leitað þeirra mála. Eg var, sem vænta mátti, ekki sá maður, að eg sviki lánardrottinn minn, sem falið hefur mjer á hendur, að bera umhyggju fyrir ríki sínu og sóma. Meira gerist engin þörf að segja.“

Maðurinn, sem sendur var með brjef þetta hitti föður minn svo sem átta þingmannaleiðir frá höfuðborginni. Faðir okkar bliknaði upp er hann las brjefið, og brann heiptin úr augum honum, þó hann bældi hana niður að sinni. Skipaði hann þegar liðinu að taka sig upp og hraða ferðinni sem mest. En er hann aðeins átti tvær dagleiðir eptir til höfuðborgarinnar, þá stöðvaði hann liðið aptur og bauð tveimur hinum trúustu þjónum sínum að fara með drottninguna og hinar þrjár dætur hennar langt út fyrir borgina og líflá ta þær. Sendimönnunum brá mjög við skipun þessa, en dirfðust ekki í móti að mæla og hlýddu því. Fluttu þeir okkur úr kvennabúrinu á tiltekinn stað, en höfðu ekki skap til að deyða

okkur. Báðir þessir menn áttu móður okkar alla hamingju sína að þakka, og er þeir minntust þess, hvílíkar velgjörðir þeir höfðu af henni þegið, þá fjellst þeim allur hugur og gátu ekki fullnægt grimmdarboði soldáns. Sögðu þeir henni í hugarangist sinni, hvað vezírinn hafði skrifað soldáni, og kallaði hún þá hástöfum: „Mikli drottinn! þú veizt einn, hversu ranglega eg er ákærð.“ Því næst sagði hún þeim, hvernig í öllu lá og viknuðu þeir þá svo mjög af óhamingju drottningar sinnar, að þeir fengu ekki tára bundizt. Reyndu þeir nú að hughreysta hana með fortölum sínum; drápu þeir hirti nokkra og urðum við þá, hver um sig, að fá þeim nokkuð af klæðnaði okkar; síðan ruðu þeir klæðin í blóði dýranna. Því næst suðu þeir kjötið til þess að við gætum haft okkur það til viðurværis; og að svo búnu fólu þeir okkur guði á vald, og hjeldu heimleiðis frá öræfunum, er þeir höfðu flutt okkur á. Nú ráfuðum við í tíu daga um eyðimörkina og sáum hvergi til manna nje mannabyggða; lifðum við eingöngu á rótum og aldinum. Loksins bar okkur að helli nokkrum og rjeðum við af að hvíla okkur í honum. Tveimur dögum síðar áðu lestamenn spölkorn þaðan, því þar var nokkru grasgefnara enn annarstaðar. Við gerðum ekki vart við okkur, en hagnýttum samt hjálp þá, er drottinn sendi okkur, því við höfðum auga á lestinni langt á undan og fylgdum henni álengdar; komumst við svo til borgar þessarar eptir langa og erfiða göngu. Leigðum við okkur hjer húsakynni og lofuðum guð fyrir, að hann með svo undarlegum hætti frelsaði okkur úr auðsjáanlegum lífsháska.“

Konungur hafði hlýtt á söguna með undrun og athygli, og fannst honum mikið um hugprýði þá, er konur þessar höfðu sýnt í raunum sínum; kvaðst hann skyldu reynast þeim einsog bezti vinur og gera sitt til að sólargeislar hamingjunnar aptur mættu skína á lífsferil þeirra. Fjekk hann drottningu og dætrum hennar herbergi í höll sinni, er samboðin voru tign þeirra, og gerði menn á fund soldánsins í Irak; skyldu þeir segja honum hvar kona hans og börn, er hann hafði rekið frá sjer, væru niður komin. En það er af soldáni að segja, að hann var þess vísari orðinn fyrir löngu, að kona hans var saklaus. Þegar hann var kominn heim í höfuðborg ríkisins, hafði hann kallað vezírinn á eintal og skorað á hann að segja

sjer afdráttarlaust frá hinu svívirðilega athæfi drottningar sinnar, er hann áður hafði unnað hugástum. „Herra!“ svaraði vezírinn, „skömmu eptir að þjer voruð farinn, fjekk eg boð frá drottningu með ambátt nokkurri, að eg skyldi finna hana á laun. Reiddist eg þessum tilmælum hennar svo ákaflega, að eg ljet drepa ambáttina; gerði eg það til þess að gröfin skyldi geyma þetta ógurlega laun-ungarmál. Eg hugsaði með sjálfum mjer, að drottning mundi sjá sig um hönd og bæta ráð sitt. En ekki varð mjer að þeirri von, því í fimm daga samfleytt leitaði drottning á mig og freistaði mín. Sá eg þá ekki betur enn að sæmd og virðingu yðar hátignar væri hætta búin og rjeði það af, að segja yður frá öllu einsog var.“

Þegar soldán hafði heyrt þetta, sat hann lengi hugsandi og harmþrunginn. Því næst tók hann allt í einu viðbragð og bauð að leiða á fund sinn hina tvo menn, sem hann hafði falið á hendur að lífláta konu sína og börn. Komu þeir þegar og spurði hann þá, hvort þeir hefðu gert einsog hann hafði fyrir þá lagt. „Vilja yðar er fullnægt,“ svöruðu þeir og sýndu honum klæðin alblóðug til sannindamerkis. Við þá sjón fór hrollur um soldán; endur-minningin um fegurð konu hans, og hinar sælu samfarir þeirra, rifjaðist upp í hjarta hans með beiskum trega, og þegar hann hugsaði til þess, hvílíkan dauðdaga veslings börnin saklausu höfðu hreppt, þá tók samvizkan að kvelja hann svo sárt, að tárin flóðu af augum hans. Hann kallaði sárhryggur til vezírsins og sagði: „Gat það þá átt sjer stað, að hún væri eins sek og þú segir?“ Vezírinn sór og sárt við lagði, að svo væri. Þagði soldán þá stundarkorn og vjek sjer því næst að báðum hinum mönnunum og mælti: „Segið mjer nú einsog satt er, hafið þið drepið veslings börnin mín? hafið þið drepið móður þeirra fyrir glæp sinn?“ Menn-irnir svöruðu engu, og mælti soldán þá: „Talið þið, eg skipa ykkur það.“

Þá svöruðu þeir og sögðu: „Herra! ráðvandur maður getur ekki farið með ósannindi; svikarar einir geta fengið af sjer að fremja slíka svívirðu, og á því eru þeir auðþekktir.“

Við þessi orð setti vezírinn nábleikan, og tók hann að skjálfa í knjáliðunum; tók soldán eptir því og spurði: „Hvað eigið þið við? Segið mjer undireins sannleikann, eða eg læt drepa ykkur

með hinum ógurlegustu harmkvælum; það sver eg við sannan guð.“ Fjellu þá mennirnir til fóta soldáni og mæltu: „Voldugi konungur! vjer gerðum sem þjer buðuð og fluttum drottninguna ásamt dætrum hennar út á eyðimörk; sögðum við henni þar frá sakaráburði vezírsins, og birtum henni dóm þann, er þjer höfðuð upp kveðið yfir henni. Heyrði hún dóm sinn með frábærri hugarró og stillingu, fórnaði síðan höndum og leit til himins svo mælandi: „Guð einn er mitt athvarf, eg er reiðubúin að hverfa til hans aptur, fyrst hann vill svo vera láta, en eg finn mjer skylt, bæði sjálfrar mín og barna minna vegna, að rjettlæta mig í augum yðar áður enn eg dey. Vezírinn hefur af níðingskap sínum haft mig fyrir rangri sök, og hann einn er sekur. Hefur hann á degi hverjum sent mjer dýrar gjafir til að glepja mig, og hefur hann aldrei haft af öðrum svörum frá mjer að segja enn þeim, að eg ljet drepa konur þær, er ljetu hafa sig til að bera erindi hans.“

Þegar soldán heyrði þetta, varð hann utan við sig af örvæntingu og kallaði hátt: „Hafið þið þá drepið hana engu að síður?“ Svöruðu þá mennirnir: „Herra! við vorum svo sannfærðir um það, að drottning væri saklaus, að okkur gat ekki til hugar komið að vinna slíkt níðingsverk. Við skutum hirti nokkra og ruðum við klæði drottningar og dætra hennar í blóði dýranna; fólum við þær síðan guði á vald og óskuðum þess, að hann ljeti sakleysi þeirra í ljós koma, þó síðar yrði. Skildum við þær síðan eptir í eyðimörkinni.“ Nú varð soldán svo ofsareiður, að því verður ekki með orðum lýst; kallaði hann í bræði til vezírsins og mælti: „Bannsettur drottinssvikarinn! þjer hefur þá með þessu móti tekizt að skilja mig frá konu og börnum, sem eg unni hugástum, og er nú óvíst, hvort eg sje þau nokkurn tíma framar. Mikið mein er það, að eg ekki í hefndarskyni skuli geta hugsað upp neina hegningu, er samsvari illvirki þínu!“ Bauð hann þegar að hlaða skyldi háan viðarköst. Og er eldi var slegið í viðuna og loga tók, var vezírnum fjötruðum fleygt út í bálið. Var hús hans síðan rifið niður til grunna, en eigur hans gerðar upptækar, og var þeim útbýtt meðal fátæklinga; kona hans og börn voru seld mansali.

Sendiboðar konungsins í Kairó komu nú til soldánsins í Irak; var þá skammt liðið frá því að sorgin fyrst fór að rætast af honum.

Las hann brjef þau, er sendimenn færðu honum, og varð þá svo frá sjer numinn af fögnuði, að honum fjellust orð og hnje hann í ómegin. Hirðmennirnir hlupu þá að og voru hræddir mjög um soldán; komu þeir honum fljótt til sjálfs sín. Sagði soldán þeim þegar, er hann rjetti við úr öngvitinu, að konu sinni og börnum væri borgið; bauð hann jafnframt að búa skyldi skip til að sækja þau. Undu menn bráðan bug að því, og var skipið vandað mjög að öllum búnaði og valdar dýrar gjafir, er það skyldi færa konunginum í Kairó, í þakklætis skyni fyrir það, að hann hafði veitt drottningu og börnum hennar ásjá; ljet nú skipið úr höfnum og náði til Kairó eptir góða ferð. Tók konungur skipstjórnarmanni tveim höndum og veitti bæði honum og allri skipshöfninni stórmannlega. Liðu svo þrír dagar; en þá beiddu þær drottning og dætur hennar konunginn í Kairó að veita sjer orlof til heimferðar; vildi hann feginn hafa þær hjá sjer lengur, en veitti þeim þó bæn sína. Leysti hann þær út með stórmannlegum gjöfum og fylgdi þeim sjálfur til skips. Lagði nú skipið á stað og gaf vel byri framan af, en á þriðja degi þegar minnst vonum varði, brast á stórviðri; gátu skipverjar þá engu við ráðið, þó þeir hefðu sig alla við. Brotnuðu siglutrjen í tvennt og skullu niður, en skipið hrakti til og frá, og um miðnætti skelldist það í sundur á hamri nokkrum; týndust þar flestallir skipverjar. Voru það aðeins fáeinir á stangli, sem náðu í borð eða fleka, er skipið brotnaði, og fengu þannig umflúið illan dauðdaga. Þreif drottning dauðahaldi í skipfleka einn; hafði skipstjórnarmaður hlaupið í eptirbátinn með þremur mönnum og bjargaði hann drottningu af flekanum. Slotaði storminum undir morgun og tóku þeir þá róðrarleiði; þó náðu þeir eigi landi fyr enn þeir höfðu róið í þrjá daga. Gengu þeir þá upp á land og að nokkrum stundum liðnum sáu þeir jóreyki; fór þar að þeim fjöldi vopnaðra manna og kannaðist skipstjórnarmaður skjótt við, að þetta var sveit soldánsins í Irak. Hafði hann enga eirð haft á sjer og reið því ofan að sjó til hafnar þeirrar, er kona hans skyldi á land stíga; verður því eigi með orðum lýst, hversu fegin þau hjón urðu, er þau fundust. En sá fögnuður varð beiskum harmi blandinn, því þeim þókti ekkert líkara enn að þau hefðu misst dætur sínar. Voru þau hnuggin í bragði, er þau hjeldu innreið sína í borgina, og þorði

lýðurinn því eigi að láta fögnuð sinn í ljósi með ópi og gleðilátum. Voru því engar veizlur haldnar og sátu þau soldán og drottning kyr í höll sinni og mæddu hjarta sitt á sárum trega.

Yngsta dóttir þeirra hafði lengi volkazt í sjóarganginum, en loksins hafði henni kastað upp á land; var þar frjófsamt mjög og nægð af ágætum aldinum. Neytti hún nokkurra af þeim og hresstist nokkuð við eptir hrakninginn. Gekk hún síðan lengra upp á land og var skammt farin, er hún sá yngismann nokkurn ríðandi; var hann fríður sýnum og hinn háttprúðasti; fylgdu honum hundar nokkrir. En er hann sá hana, leizt honum hún afbragðs fögur og flýtti sjer á fund hennar, varð hann þess þá vísari, hversu hún var einstæð og ógæfusöm. Bauð hann henni skjól og athvarf í húsi móður sinnar, og fylgdi hún honum þangað; var henni fagnað þar með mestu blíðu og ástsemd, og mátti svo kalla að móðir þessa ókunna manns bæri hana á höndum sjer. En það er af honum að segja, að hann var rjettborinn til ríkis þar í landi, en ribbaldi nokkur hafði gert uppreisn og bolað hann frá völdum. Vildi nú svo vel til, að uppreisnarmaður þessi deyði skömmu eptir að kóngsdóttir kom þangað, og tók þá lífgjafi hennar aptur við ríkjum svo sem lög stóðu til. En nú hafði hugur hans skipazt svo, að hann var farinn að elska hina fögru kóngsdóttur, sem hann hafði aumkvað í fyrstu og kom þar um síðir að hann bað hennar. Kvaðst hún eigi geta tekið bónorði hans fyr enn hún frjetti af móður sinni og systrum; en ást hins unga soldáns var ríkari enn svo, að hann vildi lengi vonbiðill vera. Höfðingjar landsins lögðu og fast að honum, að hann skyldi kvongast, svo ríkið yrði ekki erfingjalaust; varð þá drottningin, móðir soldáns, hrædd um, að úr þessu yrði upphlaup, og sárbændi kóngsdóttur að ganga að ráðahag þeim er henni var boðinn. Ljet hún þá til leiðast, er svo óvænlega á horfðist; fór brúðkaupið fram með mestu dýrð og viðhöfn. Þremur árum síðar eignuðust þau hjónin tvo sonu, og urðu samfarir þeirra þá enn sælli og ástúðugri enn verið hafði.

Önnur systirin hafði og náð í fleka og hraktist hún lengi til og frá um sjóinn; rak hana loksins að landi skammt frá borg einni stórri. Sneri hún á leið til borgarinnar og mætti konu nokkurri roskinni; þókti henni undrum gegna, hversu hún var fríð og

tignarleg í framgöngu. Yrti hún á hana, og er konan varð þess vísari, að hún hafði beðið skipbrot, þá bauð hún henni heim í hús sitt; tók kóngsdóttir boði hennar með þökkum. Konan hjúkraði henni með slíkri alúð og nákvæmni, sem hefði hún verið dóttir hennar. Náði kóngsdóttir sjer fljótt eptir hrakninginn, en konunni fannst stórmikið um fegurð hennar, vizku og kunnáttu, og þókti sjer sæmdarauki að hafa slíka stúlku í húsum sínum. Nú bar svo til, að konungurinn þar í landi tók þunga sótt, og fjekk það þjóðinni allri mikillar hryggðar, því hann stýrði ágæta vel ríki sínu. Fengu hinir beztu læknar eigi að gert og þyngdi konungi dag frá degi. Varð konunni einusinni tilrædt um veikindi konungs, og er kóngsdóttir heyrði það, þá mælti hún þessum orðum: „Móðir góð! ef þjer leyfið, skal eg byrla konungi drykk; og neyti hann þess drykkjar, þá mun honum batna.“ — „það má vera,“ svaraði konan gamla, „að eg geti komizt inn í höllina, en á hinu munu meiri vandkvæði, að eg fái hitt konung sjálfan.“ — „Ekki er spillt þó reynt sje,“ mælti kóngsdóttir, „hinn helgi spámaður drottins tekur viljann fyrir verkið.“ Konan rjeði þá af að freista til, hvað sjer yrði ágengt; fór hún til hallarinnar með drykkinn; hafði kóngsdóttir byrlað hann af allskonar grösum og blandið þar við ýmsu öðru. Spurðu varðmenn og geldingar konuna, hvað henni væri á höndum, en hún kvaðst færa konungi sínum lyfjadrykk; mundi hann með guðs hjálp verða albata ef hann neytti drykkjarins.

þegar læknarnir heyrðu það, þá ætluðu þeir að reka konuna burt, en geldingarnir skeyttu því ekki og leiddu hana inn í herbergið þar sem konungurinn lá. Opnaði hún flösku þá er drykkurinn var í og lagði þegar af honum sætan ilminn fyrir vit konungi; var þá sem hann hresstist við. Var honum sagt, hvað konan hefði að færa og neytti hann drykkjarins með góðri lyst, en því var ekki vant; þókti honum sjer samstundis ljetta og bauð hann að gefa skyldi konunni pyngju fulla af gulli. Fór hún síðan heim og sagði kóngsdóttur, hvernig farið hafði. þá er hún var farin, rann sætur svefnhöfgi á konunginn, og vaknaði hann að nokkrum stundum liðnum; var honum þá miklu hægara og tóku menn að gerast vongóðir um bata hans. Um kvöldið kom konan með nýjan drykk, er kóngsdóttir hafði byrlað; varð konungi svo gott af honum, að

hann rjeði af að fara á fætur. Spurði hann konuna, hvort hún sjálf hefði byrlað drykkinn, en hún kvað nei við, og sagði, að það hefði dóttir sín gert, og hefði hún beðið sig að færa honum heilsumeðalið. „það þori eg að sverja við guðs nafn,“ mælti konungur, „að þú segir ekki satt. Slík list er engri konu lagin, nema hún sje af hinum tignustu ættum.“ þóktist konan þá eigi lengur geta leynt hinu sanna og sagði konungi sögu kóngsdóttur, en honum fannst mikið um. Gaf hann henni góðar gjafir og bauð henni að færa sjer samkyns drykk á degi hverjum; lofaði konan því og gekk á burt. Nú neytti konungur heilsudrykkjarins í sjö daga samfleytt; gaf hann konunni gullsjóð í hvert skipti, sem hún færði honum drykkinn. Batnaði honum svo fljótt, að hann úr þessu tók að ríða út og gefa sig við stjórnarstörfum. Konan hafði lofað kóngsdóttur svo mjög fyrir fríðleika, siðgæði og gáfur, að honum varð hugur á að sjá hana; bjó hann sig því eittsinn munkaklæðum til að torkenna sig, gekk heim til konunnar og drap á dyr. Beiddist hann þar gistingar og var honum tekið með mestu gestrisni; gekk kóngsdóttir fyrir beina og færði honum mat og drykk. Bar hún konungi handlaug og þakkaði hann því næst konunni og kóngsdótturinni fyrir góðar viðtökur, og gekk á burt. Var hann þá svo frá sjer numinn af fegurð kóngsdóttur, að hann ásetti sjer að ganga að eiga hana. þegar hann var kominn heim til hallar sinnar, sendi hann boð eptir konunni gömlu; gaf hann henni skrautlegan búning og dýrindis gimsteina handa fósturdóttur sinni, og mæltist til að hún byggist skarti þessu. En hún var þess ófús og mælti: „Hvernig á eg að geta fengið af mjer að búast svo veglegum búningi, þar sem hjarta mitt er harmþrungið útaf óförum móður minnar og systra?“ þó kom þar að lokum, að hún ljet til leiðast fyrir tilmæli konunnar, sem hún átti svo mikið gott upp að unna; fór konan þá til konungs og ljet hann vita, því þess hafði hann beðið hana. þókti honum vænt um og sagði henni, að sjer væri hugur á fósturdóttur hennar og vildi hann eiga hana. Færðist kóngsdóttir undan í fyrstu, en veitti skömmu síðar jáyrði sitt. Sókti konungur hana samdægris með veglegu föruneyti og fór með hana heim í höll sína. Var þá saminn hjónabands samningur og haldið brúðkaup, er stóð í marga daga, með mestu dýrð og viðhöfn. Að

fimm árum liðnum áttu þau hjónin þrjú börn, einn son og tvær dætur.

Elzta systirin hafði einnig náð í skipsfleka og volkazt lengi í sjóganginum uns hana bar að landi; vildi svo til að hún fann karlmannsföt á ströndinni. Fór hún þegar í þau og hugði að atvik þetta mundi verða sjer til bjargar, er hún var í slíkum bágindum stödd. Sá hún borg eina álengdar og gekk þangað beina leið. þegar hún var komin inn í borgina, mætti hún kaupmanni nokkrum; hjelt hann að hún væri yngispiltur og yrti á hana. Kvaðst hún vera útlend, og bauð hann henni þá að vera sjer til aðstoðar í sölubúð sinni. Tók hún boði hans með þökkum, enda mátti hún verða því fegin, er hún átti hvergi höfði að að halla. Leiddi kaupmaður hana þegar í búð sína; fór henni allt svo lipurt og hönduglega, að skammt leið um, að allir vildu kaupa þar í búðinni. Búð þessi lá gagnvart höll soldáns og vildi svo til einn dag, að dóttur hans varð litið út um glugga; sá hún þá yngispiltinn í búðinni. Var hann að vinnu sinni og hafði brett ermunum upp á olboga; voru handleggir hans mjallahvítir og mjög þriflegir, og var hann í alla staði hinn fríðasti og bauð af sjer bezta þokka, svo að dóttir soldáns renndi þegar ástaraugum til hans. Sat hún mörgum stundum saman og horfði á hann. Sókti loks á hana óyndi og tók roðinn að fölna á kinnum hennar. Fóstra hennar tók eptir því og reyndi með öllu móti að komast fyrir, hvernig á því stæði. Tók hún loksins til orða við hana og mælti: „Dóttir sæl! eg er sannfærð um, að ást er það sem að þjer gengur, og elur þú hana á laun.“ — „Móðir góð!“ svaraði kóngsdóttir, „þú hefur getið rjett til um leyndarmál mitt. En þess vænti eg af þjer, að bæði þegir þú vandlega yfir því og gerir það sem í þínu valdi stendur, til þess að fullnægja ósk minni. Eg hef litið ástaraugum til unglingsins í búðinni þarna gagnvart, og sje eg hann þar á degi hverjum; er mjer slík ofurást á honum, að mjer mun draga það til dauða, ef eg eigi næ fundi hans.“ — „Dóttir sæl!“ ansaði fóstran, „ekki verður því neitað, að unglingurinn er afbragðsfríður, enda geta konur hjer í borginni hvergi unað augum sínum, nema þar sem hann er. En svo er hann uppburðalaus, að þó þær gefi honum undir fótinn, þá færist hann ávallt undan, einsog

feiminn skóladrengur. Reyna skal eg samt, hvort eg get fundið hann að máli og komið ykkur saman.“ Gekk nú fóstran til búðarinnar og valdi þar ýmskonar varning; beiddi hún kaupmann því næst að láta búðarsveininn bera það heim til hennar. Fór búðarsveinninn með henni, og kom hún honum á leynivegum til herbergja kóngsdóttur, svo að ekki blekktist á. Varð kóngsdóttir svo fegin fundi þeirra, er hún hugðist hafa unnusta sinn hjá sjer, að hún var stundum rjett að segja búin að koma upp um sig. Var hún nú lengi að skoða vörurnar í krók og kring og spyrja að sínu sinni hverju, en þar kom að lokum, að hún sagði, að ekkert af vörunum væri sjer að skapi; gaf hún honum tuttugu gullpeninga og skipaði honum að koma með annan varning næsta morgun.

Kóngsdóttirin í dularbúningnum fjekk kaupmanni gullpeningana alla, þegar heim kom; brá honum í brún, er hann sá fjeð og spurði, hvernig hún væri að því komin, en hún sagði honum upp alla söguna hreinskilnislega. þókti kaupmanni þá uggvænt, hvað af þessu mætti leiða, og beiddi búðarsveininn að fara engar slíkar ferðir framvegis; svaraði hann þá, að hann hefði lofað að koma aptur, og vildi hann ekki fyrir nokkurn mun svíkjast um það. Fór hann og til dóttur soldáns hvern daginn af öðrum, og varð henni aldrei ráðfátt að bera nýtt og nýtt í vænginn til þess að láta sveininn koma aptur, svo að hún mætti hafa ánægju af viðtali hans. En eitt kvöld kom soldán inn og hafði ekki gert boð á undan sjer, varð hann fokreiður, er hann sá sveininn, og ljet geldinga taka hann fastan; bauð hann því næst að böðullinn væri sóktur og skyldi hann lífláta sveininn. Dóttir soldáns varð utan við sig af skelfingu, en sveinninn brá sjer hvergi við dauða sinn. Nú kom böðullinn og tók túrbaninn af höfði hinnar aðkomnu kóngsdóttur, en við það atvik sáust hinir fögru lokkar hennar, og þegar hann færði hana úr vestinu, þá tók af allan efa fyrir þeim, er viðstaddir voru, að hjer var mey en ekki maðr. Sendi soldán böðulinn burt við svo búið, en kóngsdóttur ljet hann flytja í kvennabúr sitt, því þar vildi hann heyra sögu hennar. Honum rann til rifja að heyra ólánssögu hennar, og tók hann svo alúðlega hlutdeild í harmi hennar, að hann bauð dóttur sinni að veita henni vist hjá sjer, og sýna henni alla þá ástsemd og virðingu, sem tilhlýðilegt væri, þar sem hún

var svo mikilla manna og hafði ratað í slíkar raunir. Ástarhugur sá, er dóttir soldáns hafði lagt á hana, snerist upp í einlæga og viðkvæma vináttu, og hjúkraði hún og hlynnti svo vel að vinkonu sinni, að hún á stuttum tíma varð heil heilsu og náði fullum blóma fegurðar sinnar. Í hvert skipti er soldán vitjaði dóttur sinnar, þá hitti hann vinkonu hennar þar hjá henni, og kom þar skjótt, að honum gerðist hlýtt í huga til hennar, er hann sá hvílíkum afbragðs kostum hún var búin, bæði andlegum og líkamlegum. Samt leyndi hann grandvarlega elsku sinni, svo að hann bryti eigi á móti lögmáli gestavináttunnar. En fyrir hið sama fór heilsu hans hnignandi og tók hann loksins þunga sótt. En dóttir hans fór nærri um sóttarfar hans, og sagði hún vinkonu sinni, að faðir sinn hefði fellt ástarhug til hennar, og beiddi hana að játa honum eiginorði. En kóngsdóttirin veitti í fyrstu þau svör, að meðan hún ekkert vissi um afdrif móður sinnar nje systra, þá mætti sjer ekki til hugar koma, að njóta glaðværða lífsins, en loksins ljet hún þó til leiðast fyrir þrábeiðni vinkonu sinnar og rjetti soldán við, er hann spurði þau gleðitíðindi. Var síðan drukkið brullaup og haldin fagnaðarhátíð með mikilli dýrð og vegsemd.

Meðan þetta gerðist, höfðu foreldrar systranna harmað missi þeirra sáran og kveinað án afláts. Tók soldán loksins það ráð, að hann fór á stað með vezír sínum til að leita að þeim systrum; voru þeir báðir í munkaklæðum. Fól soldán drottningu sinni ríkisstjórn á hendur meðan hann væri í burtu. Nú ferðuðust þeir í nokkra mánuði, og bar þá loks að borg einni mikilli er stóð við sjó fram. Soldán sá er þar ríkti, átti dýrðlega lystihöll á ströndinni, og hittist svo á að hann var þar fyrir, er munkarnir komu; sáu þeir hann í glæsilegum lystiskála og tvö börn hjá honum, á að geta sex eða sjö vetra. Gengu munkarnir fyrir hann og hneigðu sig ofan að jörðu; báðu þeir fyrir honum langa bæn, einsog siður er til, og óskuðu ríki hans allrar hamingju. Soldán tók vel kveðjum þeirra og bauð þeim sæti; sat hann á tali við þá nokkurn tíma kvöldsins. Að endingu gaf hann þeim gjafir og bað þá vel fara; hjeldu þeir síðan til borgarinnar og fengu sjer náttból í gestgjafahúsi nokkru. Daginn eptir reikuðu þeir hingað og þangað um borgina, og varð þeim aptur gengið ofan að sjáfarströndinni þegar

kvölda tók; sáu þeir enn sem fyrr að soldán sat í lystiskálanum með báðum sonum sínum. Horfðu þeir á lystiskálann og dáðust að fegurð hans, og gekk yngri sveinninn til munkanna, einsog í leiðslu, og fylgdist seinna með þeim, er þeir gengu til gestgjafahússins; þar tók soldán fyrst eptir því, að sveinninn hafði orðið þeim samferða og þókti honum það furðu gegna. Tók hann sveininn í fang sjer og sýndi honum ástar atlæti, en beiddi hann samt fyrir hvern mun að fara aptur til föður síns, og kvaðst skyldu fylgja honum til hans. En sveinninn mótmælti því einhvernveginn svo ástúðlega, að soldán ljet loksins eptir honum, og rjeði af að láta sveininn vera kyrran hjá sjer til næsta morguns, enda var og mjög áliðið og komið af dagsetri.

Faðir sveinsins hjelt nú að hann hefði hlaupið til móður sinnar, en drottning saknaði hans eigi, fyrr enn hún ljet spyrja eptir honum hjá manni sínum. Var nú sveinsins leitað um liðlanga nóttina í öllum áttum, og um morguninn var skipað að hefja skyldi rannsókn í öllum húsum borgarinnar; enda fannst þá sveinninn í gestgjafahúsinu hjá munkunum, og höfðu þeir ekki getað komið því við, að fylgja honum til föðurhúsanna; voru nú munkarnir dregnir fram fyrir soldán. Varð soldán frá sjer numinn af fögnuði, er sonur hans var aptur fundinn, en bauð þó að lífláta munkana, því hann taldi víst, að þeir mundu hafa ætlað að ræna sveininum. Bjuggust nú þrælar og varðmenn jafnskjótt til að framkvæma það, er fyrir þá var lagt, en sveinninn ungi hljóp þá hljóðandi til eldra munksins og hjelt sjer svo fast í klæði hans, að hann mundi ekki hafa orðið slitinn frá honum nema með valdi. Varð soldán forviða á þessu og sleppti aftökunni að svo komnu; fór hann til drottningar og sagði henni, hversu undarlega sonur þeirra hefði farið að ráði sínu. Furðaði hún sig engu minna á þessu enn soldán, og langaði hana ákaft til að sjá munkinn gamla og verða nokkurs vísari um það, hvernig á honum stæði. Ljet soldán því leiða hann til herbergis síns, bauð þrælunum að fara út og tók síðan þannig til máls: „Komst þú, hinn argi munkur! í ríki mitt, og hafðir ekki annað erindi enn að ræna syni mínum?“ Munkurinn kallaði guð til vitnis, að slíkt hefði sjer aldrei til hugar komið, og hefði konungssonurinn fylgzt með sjer til gestgjafahússins án

þess hann yrði þess var; hefðu menn soldáns fundið hann þar, áður hann hefði getað fært honum hann aptur. Sefaðist nú nokkuð reiði soldáns og gerðist hann blíðari í viðmóti; beiddi hann munkinn að segja sjer sögu sína. „Það er nú bæði undarleg og raunaleg saga,“ ansaði munkurinn. Drottning hafði falið sig á bak við fortjald og heyrði gjörla hvað hann mælti. „Hjer mátt þú,“ sagði munkurinn, „sjá ógæfusaman föður, er ginntur var með svikum af þjón sínum, til þess að reka frá sjer konu sína og þrjár dætur. Komst hann síðar að sakleysi þeirra og fann þær aptur, en missti dætur sínar í annað sinn við skipskaða, og ráfar hann nú um víða veröld til þess að spyrjast fyrir um þær.“ Þegar drottning heyrði þetta, stökk hún fram undan fortjaldinu og hljóp um háls munkinum. Varð soldán þá uppvægur, þreif til sverðs síns og æpti: „Hvað skal slík ósvífni?“ En drottning feldi feginstár af augum og mælti: „Herra! þessi gamli maður er faðir minn.“ Fleygði soldán sjer fram fyrir fætur honum og hjelt hann enn sem fyrri, að hann væri munkur, en hann reisti soldán á fætur sem skjótast, og faðmaði að sjer dóttur sína og dótturmann með ómræðilegum fögnuði. Ljet nú soldán leysa hinn munkinn, eða vezírinn, úr fjötrum, en soldáninn gamli skrýddist búnaði, er sæmdi tign hans, og dvaldi hann nú um stund hjá yngstu dóttur sinni, er hann svo farsællega hafði aptur fundið. En með því báðar hinar dæturnar liðu honum aldrei úr minni, þá bjóst hann skjótt til að halda áfram ferð sinni; sagði hann tengdasyni sínum frá áformi þessu og rjeðist hann þá einnig til fararinnar með fjölmennu föruneyti. Lögðu þeir nú báðir ljettann á og spurðust vandlega fyrir, enda varð og árangur ferðarinnar í alla staði æskilegur. Nú er soldán hafði fundið aptur dætur sínar allar þrjár, og sjeð auðnu þeirra með eigin augum, þá færði hann drottni margfaldar þakkir og flýtti sjer heim í ríki sitt, til þess að drottning hans ekki lengur skyldi kveljast af hugsýki um afdrif dætra þeirra.

## Dómarinn ágjarni.

Á ríkisárum kalífans Harúns Alraschíðs var dómari nokkur í Trípolis, sem var vandlætingasamur mjög í embætti sínu. Hafði

hann aðeins eina ambátt svarta á heimili sínu og skyldi hún annast allt er þurfti; var hörund ambáttar þessarar þykkt og skorpið eins- og nautsleður. Dómarinn var hinn mesti svíðingur, og aldrei var fátæklingum ölmusa gefin í húsi hans, og enda hinir nauðsynlegustu hlutir voru aldrei keyptir fyr enn ómögulega varð hjá komizt. Eigi sázt þar annar matur á borði enn vont brauð og hnapplaukur, en ávallt var þó dúkur með kögri breiddur á borðið, og bæri svo undir, að einhverjir væru á tali við dómarann um matmálstímann, þá kallaði hann til þeirrar svörtu og sagði henni að breiða gull-kögraða dúkinn á borðið; gerði hann það til þess að komumenn skyldu halda, að borð hans væri hlaðið hinum dýrustu krásum. En aldrei ljet hann nokkurn lifandi mann sjá til sín, þegar hann mataðist.

Það var einhverju sinni að menn nokkrir rjeðu honum til að kvongast og leiddu honum fyrir sjónir, að ambáttin svarta væri enganveginn við hans hæfi, svo tíginn maður sem hann var. Spurði þá dómarinn, hvort nokkur þeirra þekkti konu, þá er sjer væri fullkosta; gall þá einn við af þeim, er nærstaddir voru, og kvaðst eiga fríða dóttur; væri sín æran en dómarans lítillætið, ef hann vildi ganga að eiga hana. Dómarinn tók boði þessu hiklaust, og var nú drukkið brullaup og farið með brúðurina heim í hús hans með mikilli heimanfylgju. Var faðir konunnar heldur enn ekki drjúgur, er honum hafði auðnazt að fá slíkan mann fyrir tengdason; en hitt kom honum ekki til hugar, að dóttir hans, sem uppalin var í eptirlæti og allsnægtum, skyldi eigi böl og armæðu í væntum, sakir svíðingsskapar bónda síns. Höfðu fjármunir konunnar fengið dómaranum miklu meiri gleði enn fegurð hennar. Morguninn eptir brúðkaupið gekk hann burt frá henni til að gegna embættis störfum sínum; sat nú konan unga eptir og vonaðist með óelju eptir morgun-verðinum, en von þessi brást henni. Hún fjekk alls engan morgun-verð, og gat hún ekki komið sjer að því, að beiðast hans, fyrir hæversku sakir.

En meðan þetta var, komu til dómarans embættisbræður hans og ýmsir höfðingjar í borginni; fluttu þeir honum heillaóskir sínar, sem nýkvonguðum manni, og vonuðust þeir eptir að hann mundi bjóða sjer til einhvers fagnaðar, er svo stóð á. En svo urðu þeir

heim að fara, að þeim var til einskis boðið og bölfuðu þeir nápínuskap dómarans. Nú gengur dómarinn heim og inn í kvennastofu sína; ræður þá að líkindum, að kona hans gat ekki fagnað honum með mikilli blíðu, þar sem hún var hálfdauð af hungri. En er hún heyrði að hann bauð ambáttinni svörtu, að breiða kögurdúkinn á borðið, þá hugsaði hún sjer til hreifings, að nú skyldi hún taka bætur þess, er hún hafði svo stranglega fastað. En viti menn, að henni brá í brún, þegar hún sá hana bera einn disk á borð með þremur vondum brauðum og þremur hnapplaukum. Dómarinn rjetti nú ambáttinni sinn part, þreif síðan með áfergju brauð eitt með hnapplauk og beiddi konu sína að gera slíkt hið sama. En svo sársvöng sem konan var, þá gat hún samt ekki neyðt einum bita ofan í sig, því hún hafði átt betri vistum að venjast; stóð hún því upp frá borðum, og var skapþungt mjög útaf svíðingskap bónda síns og vanhyggju föður síns, sem hafði stofnað henni í þetta ólán, af því hann fyrir hjegóma sakir vildi hafa slíkan mann fyrir tengdason. Fór nú hinu sama fram í þrjá daga, að aldrei sázt annað enn brauð og hnapplaukur á borði. En þá var og lokið þolinmæði konunnar, og tók hún að kveina hástöfum og sendi eptir föður sínum. Heyrði dómarinn kveinstafi hennar og sagði ambáttin honum, hvað henni gengi til. Æddi hann þá inn í herbergi konu sinnar, og jós yfir hana óbóta skömmum; skar af henni hárið, sagði skilið við hana og rak hana frá sjer; bar hann það fyrir að hegðun hennar hefði verið ósiðsamleg, og skilaði hann eigi aptur heimanfylgju hennar. Rjett á eptir gekk hann að eiga aðra konu, og vildi hún ekki heldur láta sjer nægja þurt brauð og hnapplauka, enda skildi hann við hana sem hina fyrri. Á sama hátt fór hann með fleiri konur og skilaði hann aldrei aptur mundi þeirra; gerðist hann nú hvervetna illræmdur fyrir nirfilskapinn og fúlmennsku þá, er hann hafði í frammi haft við konur sínar.

Svo bar til að óhróður dómarans kom fyrir eyru meyjar nokkurrar í Mússúl, sem bæði var auðug, vitur og ættgöfug; ásetti hún sjer að hefnast á dómaranum fyrir það, er hann hafði misgert við kvennfólkið Tók hún sjer því ferð á hendur til Trípolis og hittist svo á er hún kom þangað, að hún mætti dómaranum fyrir utan borgina, á skemmtireið. Varð honum starsýnt á hana, bæði sakir

búnings hennar og látprýði allrar. Strauk hann þá um kamp sjer og reið til móts við hana; kvaddi hann hana vel og kurteislega og spurði, hvaðan hún kæmi. „Frá veginum að baki mjer,“ ansaði mærin. „Veit eg það,“ segir dómarinn, „en frá hvaða stað.“ — „Frá Mússúl,“ svaraði mærin. — „Eruð þjer giptar?“ spyr dómarinn; hún kvaðst ógipt vera. „Eg þykist vita,“ segir dómarinn, „að þessi spurning mín hafi komið flatt upp á yður, en jafnskjótt og eg sá yður, varð eg gagntekinn af brennandi elsku, sem aldrei mun uppnæm verða. Viljið þjer eiga mig?“ þar með afmálaði hann fyrir henni tign sína og mannvirðingu, og svaraði mærin honum, að hún skyldi segja honum ályktarorð sín næsta dag. því næst kvaddi hann hana kurteislega og reið múlasna sínum heim til borgarinnar.

Morguninn eptir ljet hún segja dómaranum, að hún vildi eiga hann, og áskildi sjer fimmtíu gullpeninga í morgungjöf. Sendi dómarinn henni fje þetta, þó hann tæki nærri sjer, og ljet hann nú sækja hana; fór hún þá heim í hús hans og var þar saminn kaupmáli. þegar kominn var tími til kvöldverðar, ljet dómarinn breiða kögurdúkinn á borð og setja fram brauð og hnapplauk, sem vandi var til. Nýja konan snæddi sinn part af verðinum með góðri lyst, og að því búnu óskaði hún með blíðum og broshýrum svip, að guð á himnum vildi umbuna dómaranum fyrir þessa ágætu máltíð. Varð dómarinn þá utan við sig af fögnuði og mælti: „Lof og dýrð sje spámanninum fyrir það, að hann hefur gefið mjer svo yndislega og algjörva konu.“ En það kom honum sízt til hugar, vesælum manni, til hvers guð hafði sent honum konu þessa. Fór hann nú til dómhússins morguninn eptir. Meðan hann var í burtu, rannsakaði kona hans húsið vandlega og gægðist í hvern krók og kima; bar hana loksins að hurð einni læstri, með járnslám fyrir. Fór hún þá að verða heldur enn ekki forvitin og virti hurðina vandlega fyrir sjer; sá hún að rifa var á henni, svo sem fingurs breið. Skygndist hún inn um hana og gladdist nú mjög, því hún sá að þar innar af var fjárgeymslu hús dómarans, og stóðu þar á gólfi eirker full af gull- og silfurpeningum. Sókti hún þá í skyndi stöng eina langa, klíndi blautu deigi á enda hennar og stakk henni síðan inn í gegnum rifuna; leitaðist hún við að þrýsta

endanum niður á gullpeningana, og þannig tókst henni að ná tveimur, sem tollað höfðu við stangarendann og dregizt með henni út um rifuna. Eptir það gekk hún til stofu sinnar og kallaði á ambáttina svörtu; skipaði hún henni að kaupa glænýtt brauð, soðin hrísgrjón, bezta kjöt sem fengist og hin dýrustu aldin. Vissi ambáttin ekki, hvaðan á sig stóð veðrið, en gerði þó einsog fyrir hana var lagt. Þegar hún var komin heim aptur, varð hún að bera allt á borðið, er hún hafði keypt og var enginn annar vegur enn að hún neytti með húsmóður sinni af krásum þessum. Eptir borðhaldið rjetti ambáttin húsmóður sinni handlaug, og varð henni þá þetta að orði: „Hinn helgi spámaður blessi yður, hágöfuga frú! Þjer hafið gefið mjer vel að jeta, en af því hef eg aldrei haft að segja í allan þann tíma, sem eg hefi þjónað þessum nízka dómara.“ Konan skipaði henni að þegja yfir þessu og vera sjer hlýðin, skyldi hún að launum fá slíkan málsverð á degi hverjum; það má nú nærri geta, hvort ambáttin hefur hikað sjer við að taka þvílíku kostaboði.

Þegar dómarinn kom heim, ljet kona hans bera eptirleifarnar af máltíð sinni á borð fyrir hann; át hann af þeim með góðri lyst, en spurði þó, hvaðan matur þessi væri. En konan brá á yfirdrepskap og kvaðst eiga mörg ættmenni í borginni og hefði eitt þeirra sent sjer mat þenna gefins; sagði hún að því aðeins þækti sjer nokkuð í hann varið, að hún mætti miðla manni sínum af honum. Daginn eptir náði hún með stöng sinni þremur gullpeningum úr fjárgeymslu húsi dómarans, og ljet þún þá ambáttina fara í annað sinn og kaupa dýrindis málsverð. Bauð hún tveimur nábúakonum til borðs með sjer, og sátu þær nú allar saman með mestu ánægju þangað til komið var að þeim tíma dags, að dómarinn kæmi heim; þá skildu þær og hjetu hver annari að þær skyldu bráðum aptur sjást. Nú voru dómaranum veittar ennþá dýrlegri krásir enn daginn áður, og spurði hann með einhverskonar áhyggju, hver það væri, sem hefði hleypt sjer í þvílíkan kostnað. Svaraði kona hans, að ein af föðursystrum sínum hefði sent sjer þessa gómtömu rjetti. Hjelt nú konan áfram uppteknum hætti; hún rænti úr fjehirzlu manns síns og veitti honum hina ágætustu rjetti á degi hverjum. Þegar nú á þessu hafði gengið svo sem ár, þá var dómarinn orðinn svo fjarska gildur, að það varð að máltæki í

Trípolis; áður höfðu menn sagt: „Digur einsog naut,“ en nú sögðu menn: „Digur einsog dómarinn.“

En því fór fjærri, að kona hans ljeti sjer nægja það sem komið var; hún segir einhverju sinni við eina af vinkonum sínum, sem var óljett og því nær komin á steypirinn: „Ekki er því að leyna, að eg verð enn að gera dómara þenna að athlægi með einhverju, svo að hann fái rækilega refsingu fyrir nirfilskapinn og meðferðina á konum sínum. Enn sem komið er, get eg ekki sagt þjer neitt greinilegar af áformi mínu, en því verður þú að lofa mjer, að koma til mín á laun, þegar þú finnur að komið er að fæðingu þinni. Þig skal aldrei iðra þess.“ Vinkona hennar hjet því og enti hún síðar heit sitt. Kom hún fáum dögum síðar, þegar dómarinn var ekki heima og ól sveinbarn harla fagurt. Kona dómarans sá svo um, að hann yrði einskis áskynja, og tók sig nú til og sauð saltkjöt með baunum, hnapplauki og hvítlauki; kom hún þar í allskonar kryddtegundum og ymsu öðru. Át dómarinn óvenju mikið af mat þessum, er hann kom heim, því hann var glorhungraður. En áður langt um liði, tók hann að þrútna um kviðinn með uppþembingi og fjarskalegum skruðningum, kvaldist hann jafnframt af megnum kveisuflogum og hljóðaði hástöfum, svo ekki var annað að heyra enn maðurinn væri aðfram kominn. Í þessum dauðans nauðum leitaðist nú kona hans við að hjúkra og hagræða honum á allar lundir og fór að núa á honum kviðinn, en þá rak hana allt í einu í rogastanz. Fór hún þá höndum um hann þar sem sárindin voru mest og hugði betur að, æpti upp yfir sig og mælti: „Heyr undur mikið! enginn hlutur er drottni ómáttugur; verði hans vilji! Minn ástkæri herra og eiginmaður ætlar að eiga barn og er nú komið á fremsta hlunn.“ Svo sárþjáður sem dómarinn var, þá heyrði hann þó og skildi hvað kona hans mælti. „Ertu vitlaus, kona?“ segir hann. „Hvenær hefur það heyrzt, að karlmaður yrði óljettur?“ Sleppum því nú,“ ansaði konan, „hvort eg er vitlaus eða ekki, en víst er hitt, að fæðingarhríðirnar eru byrjaðar og muntu ljettari verða, því eg finn glöggt, þegar barnið kvikar.“ Ágerðust nú iðrateygjur dómarans og kallaði hann stynjandi: „Miskuna mjer, þú heilagi spámaður!“ Hann neri saman höndunum, bylti sjer á ýmsar hliðar og gat valla náð andanum

fyrir þeim ódæmis umbrotum og gauragangi í maganum. Skauzt nú kona hans út úr herberginu sem allra snöggvast og ljet sem hún ætlaði að sækja nokkuð er þurfti, en í raun rjettri fór hún að sækja barnið, sem vinkona hennar hafði alið fyrir skemmstu; tók hún það og faldi vandlega undir höfuðdúki sínum. Kemur hún nú inn aptur til dómarans og líður honum engu betur enn fyr; hjúkrar hún honum og hlynnir á allar lundir. Nú kom þá loksins kollhríð lífsýkinnar, sem tæmdi til þurðar, og lá sjúklingurinn í roti stundarkorn á eptir. Tók konan eptir því og sá sig ekki úr færi; fór hún fimlega að öllu og ljet nú barnið í ljós koma, kleip í það ofurlítið, svo það varð að hljóða, og lofaði drottinn hárri röddu fyrir það, að maður hennar var ljettari orðinn. Í sama bili raknaði dómarinn úr rotinu og vitkaðist; þykir honum sem nokkuð hafi um hægzt og sjer konu sína vera að kjassa nýfætt barn. „Heillin mín!“ segir konan, „líttu hjerna á hann son þinn. Eg held við verðum að kalla hann: „Kynjabrunn.“ Dómarinn var einsog milli heima og vissi valla, hvort þetta bæri fyrir sig í vöku eða svefni. En barnið sá hann og kenndi nú rjett að kalla engra sárinda, svo hann fór sjálfur að trúa því, að hann hefði barn alið; beiddi hann konu sína að útvega því fóstru. Fór hún þá burt með barnið og fjekk það móðurinni, því hún hafði haft það á brjósti. En er hún kom aptur til manns síns, þá ljet hún hann leggjast ofan í rúm og gaf honum verkeyðandi inntöku; kvað hún hollast vera, að hann lægi nokkra daga á sæng. Dómarinn var svo magnþrota eptir harmkvæli sín, að þegar rann á hann svefnhöfgi og svaf hann vært og lengi. Kenndi hann sig miklu styrkari, er hann vaknaði, en kvaldist þó af hugsýki, því hann var hræddur um, að fádæmi þessi kynnu að verða hljóðbær. Sárbændi hann því konu sína, að þegja yfir þessu einsog steinn, en hún svaraði honum af slægvizku sinni, svo að honum varð enn skapþyngra; hún sagði að allir vissu það, að barnfóstrur væru málugar og mundi því torvelt að koma í veg fyrir, að tíðindi þessi bærust út í almenning. Rjeði því dómarinn af að fara burt úr Tripolis, svo að hann yrði ekki guðlausum mönnum að athlægi.

Dómarinn ljet nú verða af þessum ásetningi sínum og jafnskjótt sem hann hugði sig ferðafærann, þá lagði hann á stað frá

heimili sínu snemma dags, og fól hann það umsjá konu sinnar. Nú vildi hann ekki fyrir nokkurn mun að eptir sjer yrði tekið, og sneiddi því hjá öllum stöðum og strætum, þar sem mannkvæmt var. Með þessu móti slapp hann slysalaust út úr borginni og kom eptir sex daga ferð til Damaskus. Nú þótt hann engann þekkti þar í borginni, þá heyrði hann samt hvar sem hann kom, að menn voru að segja frá barnburði hans, og datt honum þá allur ketill í eld. Kom hann nú aldrei að kalla út fyrir dyr og hjelt sig jafn sparlega og hann átti vanda til. Hafði hann lítið skotsilfur haft með sjer að heiman, og er það var til þurðar gengið, þá seldi hann af sjer spjarirnar, hverja á fætur annari. Gekk honum það til, að hann vildi eigi fyrir nokkurn mun að kona sín sendi sjer fje, því þá hefði hann orðið að segja henni hvar auðæfi hans voru fólgin, og heldur enn að eiga það á hættu, þá gerðist hann undirtylla hjá múrsmið nokkrum, svo hann aðeins gæti haldið í sjer lífinu. Honum datt ekki í hug nje hjarta, að kona sín kynni á meðan að hafa lokið upp fjehirzlum hans og varið auðæfunum til að lifa góðu lífi, hugga nauðstadda, hjálpa fátækum og auðga konur þær, sem hann fyrrum hafði rekið frá sjer af nirfilskap og ágirnd.

Nú flaug fregnin um þenna kynlega barnburð dómarans úr einni borginni í aðra, og kom hún einnig fyrir eyru kalífans Harúns Alraschíðs í Bagdad. „Það veit Mahómet!“ segir kalífinn, „að þetta er hin undarlegasta saga; en mikið má það vera, ef ekki býr undir þessu einhver grikkur af konu hans; þykir mjer alllíklegt að hún hafi viljað hefna á honum fyrir nízku hans og guðleysi. Nú býð eg, að hún sje leidd fyrir mig og vil eg sjálfur heyra hana segja frá málavöxtum.“ Þegar hingað var komið sögunni, voru tvö ár um liðin; dómarinn var orðinn grindhoraður og hjelt hann að nú væri sjer óhætt að fara heim aptur til Tripolis, og gæti ekki hjá því farið, að menn eptir svo langan tíma væru búnir að gleyma ósköpum þeim, er hann höfðu hent. Hjelt hann því heimleiðis og hittist svo á, er hann gekk inn í borgina, að drengir nokkrir voru að leika sjer; heyrir hann að einn þeirra segir við annan: „Þið megið vita, að það var rjett um sama leytið og dómarinn okkar varð ljettari og fæddi sveinbarnið.“ Nú þókti manntetrinu nóg um og vildi ekki heyra meira; sneri hann þegar um

hæl aptur til Damaskus. Var hann sjer þar úti um munkabúning, klæddist honum og lagði á stað til Bagdad; slóst hann þar í flokk með ýmsum öðrum munkum. Urðu þeir skjótt áskynja um, að hann var afbragðsmaður að lærdómi; rjeðu þeir honum til að ganga á fund kalífans, sögðu að hann mundi vafalaust kunna að meta verðleika hans og launa honum sem vert væri. Dómarinn rjeði það af, að hlýðnast ráði þessu og gekk hann því einn dag til hallar kalífans.

Nú vildi svo til, að kona dómarans kom sama daginn frá Tripolis, og var hún leidd fyrir kalífann. Bauð hann henni að segja sjer upp alla söguna um barnburð bónda hennar; kvaðst hann vilja vita, hvort hann í raun og veru hefði barn alið. Varð nú konan angistarfull og þókti uggvænt, hvernig fara kynni, því ekki þorði hún að bera kalífanum ósanna sögu; setti því að henni grát mikinn. En kalífinn hughreysti hana og kvaðst fyrirgefa henni að ósögðu, hvernig svo sem tilverknaður hennar væri. Konan herti þá upp hugann og sagði svo kýmilega frá harmkvælum og barnburði dómarans, að kalífinn varð að biðja hana að hætta, svo hann gæti náð sjer eptir hláturinn. En er kalífinn var búinn að jafna sig, þá var honum sagt, að munkur væri kominn og vildi finna hann að máli; býður hann þá að hann sje leiddur fyrir sig, og gengur nú inn sjálfur dómarinn frá Tripolis. Konan þekkti undir eins bónda sinn, þótt hann væri torkennilegur vegna dularbúningsins og umbreyttur í yfirbragði, en hins vegar gat hann ekki borið kennsl á konuna, því hún hafði skýlu fyrir andliti. Hvíslaði hún að kalífanum og sagði honum, hver kominn væri. Þá setti kalífinn á sig svip og mælti: „Kom þú heill til húsa minna, æruverðugi munkur! Hvað er orðið af syni þínum, sem þú fæddir í Tripolis?“ Kom þá fát á dómarann, svo að hann varð til athlægis, en hann áttaði sig samt og svaraði: „Drottinn rjetttrúaðra manna! þjer vitið að karlmaður getur ekki barn alið.“ — „Svo hefur oss þó verið sagt,“ mælti kalífinn, „að dómarinn í Tripolis hafi á heimili sínu annast verk þau, er konum einum sæmir að vinna, hafi hann svo út úr öllu saman orðið að konu og alið dálítinn króa. Þú ert einmitt sá hinn sami dómari, þó þú sjert munkaklæðum búinn, og þarna stendur konan þín, sem frelsaði þig úr barnsnauð

til þess hún gæti frelsast frá þjer.“ Þá kom ofboð á dómarann og drap hann höfðinu niður í bringu, skelkaður og skömmustulegur. Allt fyrir það reyndi hann að stama upp einhverju sjer til málsbóta, en kona hans tók fram í og mælti: „Vesæll maður! þrættu nú ekki lengur, því það væri blygðunarleysi fyrir guði og óskammfeilni fyrir kalífanum, vorum æzta yfirboðara; meðkenndu sannleikann.“ Óðara en dómarinn þekkti aptur málróm konu sinnar, fjell hann fram á ásjónu sína og mælti: „Eg kannast við rangsleitni mína; eg játa syndir mínar. En fyrst við stöndum hjer bæði frammi fyrir þjer, drottinn rjetttrúaðra manna! þá fyrirgef mjer af miskun þinni og legg mjer liðsyrði við konu mína, að hún taki mig aptur í sátt. Sver eg það við guðs nafn, að eg skal aldrei framar hnegjast að hinum forna lesti mínum og sel eg nú hússtjórn alla og búsýslu í vald konu minnar.“ Kalífinn vjek sjer að konunni og sagði, að hún hefði nú heyrt skýlaust heitorð dómarans; spurði hann, hvort hún vildi búa saman við hann eptirleiðis. „Drottinn rjetttrúaðra manna!“ ansaði konan, „það er mælt að rás tímanna og skaplyndi mannanna, verði jafnan sjálfu sjer líkt; og hætti menn ekki ósiðunum fyrr enn æfinni lýkur. Eg er hrædd um að hjer muni að sama brunni bera. En vilji hann veita mjer skriflegt skírteini, sem geri mig alveg óhulta fyrir rangsleitni hans, þá skal eg að vísu taka saman við hann aptur.“ Kalífinn ljet þegar semja skjalið og skrifaði sjálfur undir einsog vitni. Þókti honum þetta vera nægileg refsing fyrir dómarann, og gerði hann að yfirdómara í borg einni á Araba landi.

# Frá 630 til 647 nætur.

## Svefnlyfja*) fíflið og dómarinn.

Einusinni var fiskimaður í borg nokkurri; hann var fremur fátækur og var það tæpast, að hann gæti haft ofanaf fyrir sjer með handafla sínum.

*) Svefnlyf (Opium) eru tilreidd af kvoðukenndum safa úr valmeyjar blómi (papaver); þau eru áfeng mjög og er það ýmist að menn reykja þau einsog tóbak eða tyggja; verða menn drukknir af þeim og bera fyrir þá margskonar sjónir. Það er einkum í Austurálfu heims að svefnlyfja er neytt til muna.

Hann hafði vanið sig á að neyta svefnlyfja. þegar hann var búinn að vinna og sveitazt allan daginn og fjekk verkalaun sín, þá keypti hann sjer fyrir nokkurn hlutann matföng þau, er hann nauðsynlegast með þurfti, en afganginum varði hann ávallt til svefnlyfja; gerði hann sig drukkinn með þeim og gleymdi svo bágindum lífsins. það var eitt kvöld að hann hafði tekið freklegar til sín af þeim enn hann átti að sjer, svo hann vissi ei sitt rjúkandi ráð og hafði álpazt út á stræti. Tunglið var í fyllingu og veður heiðskírt: lagði ljómandi birtu yfir steinlagt strætið og hugði fiskimaðurinn í draumórum sínum, að það mundi vatn vera. Staulaðist hann því heim aptur og sókti veiðarfærin; fleygði hann út öngli sínum, því hann vissi ekki betur enn að hann væri á fljótsbakka staddur. Færið var allsterkt og hafði fiskimaðurinn beitt kjöti á öngulinn; nú rann stóreflis hundur á kjötið og gleypti það í sig með önglinum, svo að agnhaldið festi í kokinu. Kenndi rakkinn sársauka og streittist við af alefli að rífa sig lausan, en fiskimaðurinn togaði svo fast í móti sem hann gat, því hann hjelt það væri einhver fyrirtaks fiskur, sem hann var að draga. Hann vildi nú með engu móti sleppa veiðinni, en var þó hinsvegar hræddur um, að hann kynni að togast niður í vatnið; tók hann því að kalla eptir hjálp og æpti svo gríðarlega, að fjöldi manna þyrptist að honum og þar á meðal varðliðið. Varðmennirnir sáu skjótt að maðurinn var dauðadrukkinn og fóru þegar með hann til dómarans. En það vildi fiskimanninum til hamingju, að dómarinn var eins sólginn í svefnlyf og sjálfur hann. Undireins og dómarinn sá hvernig ástatt var fyrir manninum, sem ákærður var fyrir nætur óspektir, þá sárkenndi hann í brjóst um hann og ljet leggja hann í rúm. Bauð hann að menn skyldu sýna honum virðingu og fara vel með hann; hugsaði hann sjer, að hafa hann hjá sjer næsta kvöld og gleðja sig ásamt honum.

Fiskimaðurinn svaf nú af sjer rykið og var honum gefið vel að borða um daginn. Um kvöldið ljet dómarinn hann ganga til borðs með sjer, og þegar þeir voru búnir að snæða tóku þeir sjer skamt af kraptmiklum svefnlyfjum. Hrifu þau skjótt og tóku þeir nú að syngja og dansa og ljetu öllum illum látum. Háreysti þeirra vakti athygli konungs, sem var á leið um borgar-

strætin með vezír sínum; voru þeir báðir í kaupmanna búningi. Húsdyrnar voru eigi apturlæstar og gátu þeir því komizt inn til dómarans og lagsbróður hans. Buðu þeir komumenn velkomna og þrýstu þeim í sæti; var sem þeir alls ekki trufluðust af tilkomu þeirra. Nú ljet fiskimaður allskonar skrípalátum, barði sjer á brjóst og mælti: „Eg er konungur.“ — „Og eg er jarl,“ segir dómarinn. „Veiztu það, jarl!“ mælti fiskimaðurinn, „að eg get látið höggva af þjer höfuðið, þegar mjer gott þykir?“ „Veit eg það, alvaldur!“ ansaði dómarinn, „en eg hef ekkert misgert; gef mjer eitthvert arðsamt skattland, svo eg fyrst geti unnið til reiði þinnar.“ „Þú hefur rjett að mæla,“ sagði fiskimaðurinn, „það verður að ala þig áður enn þjer verði slátrað.“

Konungur hló að fíflsku þessari og sagði vezírnum, að sjer væri í hug, að henda meira gaman að kumpánum þessum; kvaðst hann vilja fara og finna þá að kvöldi næsta dags. Stóðu þeir nú báðir upp og gengu á brott, og var sem svefnlyfja fíflin yrðu þess eigi áskynja. Næsta kvöld komu þeir konungur og vezírinn og voru nú í öðrum dularbúningi; sóktu þeir eins að og fyrri að dómarinn var að gera sjer til góða með fiskimanninum. Vezírinn hafði með sjer einn skamt af svefnlyfjum og gaf þeim fjelögum; þáðu þeir hugnun þessa með þökkum og rjeðu sjer nú ekki fyrir gleði. En svo lauk, að þeir urðu miklu glensmeiri og óstýrilátari enn nokkurntíma áður. „Það er ekki orðamál,“ segir fiskimaðurinn, „eg steypi konungi frá völdum og sezt sjálfur í hásætið.“ — „Og heldur þú,“ mælti konungur, „að hann taki því alsendis með þögn og þolinmæði?“ Þá mælti fiskimaðurinn: „Ef hann reynir nokkuð að standa upp í hárinu á mjer, þá læt eg jarlinn minn hálshöggva hann. En þú ert furðu djarfur að mæla svo á móti vilja mínum, enda skaltu nú hitta sjálfan þig fyrir.“ Að svo mæltu þreif fiskimaðurinn í nef konungs, en dómarinn flaug á vezírinn; var það með naumindum, að komumenn gætu losað sig úr krumlum vitfirringa þessara. Allt fyrir það kom konungur næsta kvöld með vezírnum og var í nýjum dularbúningi; hittu þeir nú báða vinina fullt eins öra og í fyrri skiptin. Dönsuðu þeir allt hvað aftók þangað til þeir ultu út af dauðuppgefnir; þá, en fyrri ekki, varð þeim litið á hina ókunnugu menn, sem inn voru komnir. Spurði

fiskimaðurinn, hvað manna þeir væru. Konungur var fyrir svörum og mælti: „Við erum rjett nýkomnir í borg þessa, og vorum við að leita okkur náttstaðar; heyrðum við að hjer var glatt á hjalla og gengum því inn til ykkar. En meðal annara orða, óttist þið ekki reiði konungsins, þar sem þið brjótið svona á móti lögunum? hafið þið ekki heyrt að konungurinn gengur optsinnis út á næturþeli?“ — „Ólíklegt þykir mjer það,“ ansaði fiskimaðurinn, „að hann sje að hugsa um okkur núna. Hann er heima og við erum heima, en sá er munurinn, að hann líklega er hvergi nærri eins ánægður og við erum.“ — „Hann hefur annars það orð á sjer,“ mælti konungur, „að hann hafi mestu mætur á gleðimönnum; hvað kemur til þess, að þið hafið aldrei farið að finna hann? Ef þið viljið komast í kunningskap við hann, þá get eg verið ykkur betri enn enginn. Við konungur erum æskuvinir og mun hann einskis synja mjer.“ Dómarinn og fiskimaðurinn urðu stórfegnir boði þessu og beiddu hann að halda orð sín. Ritaði konungur þá fáein orð á pappírs blað og skrifaði utan á til konungs, fjekk þeim síðan og gekk á burt. Daginn eptir fóru þeir dómarinn og fiskimaðurinn til hallarinnar með blaðið, og fengu það varðmanni nokkrum, er stóð við hliðið. Varðmaðurinn leit á blaðið, lagði það á höfuð sjer og laut að jörðu til merkis um hlýðni sína; því næst leiddi hann þá inn í höllina. Var nú konungur látinn vita, að þeir væru komnir og bauð hann þegar, að menn skyldu fylgja þeim til herbergja útaf fyrir sig og sýna þeim virðingu í alla staði. Eigi skorti þá mat um daginn og um kvöldið voru ljúffengir rjettir á borð bornir fyrir þá; en er þeir höfðu matazt, ljet konungur kalla þá til máls við sig, og spurði, hvernig brjef það, er hann hafði fengið, hefði borizt í hendur þeirra. Fiskimaðurinn sagði honum, hvernig þeir væru að því komnir; hefðu þeir ekki betur vitað, en að báðir mennirnir, sem fengu þeim það, væru útlendingar. Konungur krafðist nú, að þeir kæmu til sín með menn þessa; kvaðst dómarinn skyldu gera það, þegar þeir vitjuðu sín í næsta skipti. „En hvernig ætlið þjer að fara að því?“ mælti konungur, „munið þjer ekki að yður mistókst að halda í gestinn yðar í gærkvöldi, og það enda þó þjer væruð búnir að ná fastatökum á neti hans?“ Þegar dómarinn og fiskimaðurinn heyrðu þetta, var sem augu þeirra

upplykjust, og urðu þeir sem höggdofa of hræðslu, því þeir sáu að þeir höfðu misboðið konungi og hafði hann sjálfur verið sjónarvottur að ærslum þeirra og ólátum. Fjellu þeir óðara fram fyrir fætur honum og beiddu hann fyrirgefningar á glæp sínum. Konungur ljet þá nú skjálfa og titra stundarkorn, en bauð þeim því næst að standa upp og mælti: „Verið óhræddir; það er sjálfum mjer að kenna að þið misbuðuð mjer, því eg tróð mjer óboðinn inn í hús ykkar. Setjist nú niður, og krefst eg einskis annars af ykkur enn að þið segið mjer æfintýri ykkar eða einhverja aðra skemmtilega sögu.“ Þegar nú þeir fjelagar voru búnir að ná sjer aptur eptir hræðsluna, tók fiskimaðurinn til frásagna.

## Svefnlyfjafíflið og kona þess.

Einusinni bjó fiskimaður nokkur skammt frá Bagdad. Hann hafði, einsog menn segja, aldrei stigið í vitið, og hafði þar á ofan skemmt sig á því að neyta svefnlyfja, bæði opt og óhóflega. Var nú svo komið fyrir honum að hann gat ekki lengur unnið fyrir sjer og varð að selja eigur sínar hvað af hverju, til þess að geta haldið í sjer lífinu. Einn dag fór hann út á torgið með kúna sína og ætlaði að selja hana, en fjekk engan kaupanda, því hún var skinhoruð og illa til reika. Sneri hann því heim aptur með kúna og var í illu skapi; þegar hann var kominn nokkuð áleiðis, þá settist hann niður undir trje nokkru og batt við það kúna, fór síðan að borða sjer brauðsneið og tuggði við svefnlyf. Fann hann fljótt á sjer, svo að hann varð glaður í anda, og bar fyrir hann kynlegar sjónhverfingar. Kráka sat í trjenu uppi yfir honum og brýndi röddina, en veslings fíflið, sem alltaf var að hugsa um kúna, hjelt þegar að einhver væri að fala hana af sjer. Gall hann því við og mælti: „Viljið þjer eiga kaup við mig, móðir góð?“ Krákan skeytti ekki um fíflið þar sem hún sat hæzt uppi í trjenu, og ljet hún dæluna ganga. „Hana nú þá!“ segir maðurinn, „þjer skuluð fá hana fyrir tíu gullpeninga.“ Um leið og hann mælti þetta, ljet fuglinn aptur til sín heyra. „Og minnist þjer ekki á það“, sagði fíflið undir trjenu, „þjer eruð móðir hans Sólimans og sómakona. Þjer hafið gleymt pyngjunni yðar, en slíkt er aldrei látið standa í vegi, þegar ráð-

vandir eiga kaup saman. þjer skuluð fá kúna. þjer getið borgað mjer hana á Föstudaginn kemur. Verið þjer sælar, móðir góð! og guð veri með yður.“ Að svo mæltu hjelt fíflið heimleiðis og skildi kúna eptir undir trjenu. En er heim kom, spurði kona hans eptir peningum þeim, er hann hefði fengið fyrir kúna. „Eg seldi hana dándiskonunni, henni móður hans Sólimans,“ ansaði maðurinn, „en eg fæ ekki andvirðið fyr enn á Föstudaginn.“ Konan ljet það gott heita. þegar Föstudagurinn kom að hendi, tók maðurinn sjer einn skamt af svefnlyfjum og gekk nú aptur til trjesins svo sem til stóð. Krákan sat uppi í trjenu og gargaði. „Hjer er eg kominn, móðir góð!“ segir maðurinn, „látið þjer mig nú fá peningana.“ Krákan gargaði þá aptur, og hjelt maðurinn að konan vildi ekki borga; varð hann þá svo reiður, að hann þeytti pálreku, er hann bar á öxl sjer, yfir í trjeð. Fældist þá krákan frá hreiðri sínu og var að flökta hingað og þangað þar til hún settist á taðhaug nokkurn spottakorn í burtu. Fíflinu kom nú til hugar, að móðir Sólímans með þessu mundi vilja benda sjer til að sækja peningana í hauginn; tók hann því aptur rekuna og fór að grafa með henni og róta í taðinu, en við það atvik kom hann ofan á eirker, fullt af gullpeningum. Tók hann ekki úr því nema tíu gullpeninga, því hann var ráðvandur og samvizkusamur, þó hann væri einfaldur. Eptir það hylur hann kerið með öllum hinum peningunum og hælir móður Sólímans fyrir skilvísi sína. því næst gekk hann heim og fjekk konu sinni peningana; sagði hann henni um leið hvað rík hún væri, dándiskonan hún móðir hans Sólímans, og hvar hún hefði fólgið fjársjóðu sína. Konunni var ekki vits vant, en fjærri fór því, að hún væri eins ráðvönd og bóndi hennar; fór hún út um nóttina og sókti kerið með gullpeningunum. En ekki gat hún gert þetta á bak við mann sinn. Vildi hann með engu móti líða henni, að stela fje frá móður Sólimans, sem hafði borgað honum svo skilvíslega. Hann hótaði henni því, að hann skyldi þegar ákæra hana fyrir lögreglustjóranum ef hún ekki færi undireins og ljeti peningana á sama stað aptur Konan gerði nú raunar ekki annað enn að hlægja að honum upp í opið geðið, en var þó hálfsmeik, að hann kynni að koma sjer í klandur, og hugsaði hún sjer ráð til að koma í veg fyrir það. Hún keypti sjer soðna fiska og steikt kjöt og bar það heim með

sjer svo enginn vissi. Um kvöldið bergði bóndi hennar svefnlyfja skamti sínum, einsog hann átti vanda til, og lagðist síðan til hvíldar; en nokkru seinna vekur konan hann með háreysti miklu og lætur sem hún sje öldungis frá sjer af undrun; biður hún hann koma og líta á, og segir, að meðan hann svaf, hafi komið stormbylur, og hafi þá kjöt og fiskur fallið úr lopti niður. Maðurinn rís nú á fætur og gengur út fyrir húsdyr; verður hann fegnari enn frá verði sagt og tínir upp steikar stykkin og fiskana, sem kona hans hafði dreift þar víðsvegar. Nú settust þau hjónin að ágætri máltíð og blessuðu skúrina, sem hafði fært þeim svo góða matbjörg. En þrátt fyrir þetta fór maðurinn næsta morgun og ákærði konu sína fyrir það, að hún hefði stolið gullinu frá móður Sólimans. Lögreglustjórinn hjelt nú málspróf og spurði konuna, en hún þrætti harðlega fyrir, og sagði, að þó þeir dræpu sig, þá gæti hún ekki játað því á hendur sjer, sem hún aldrei hefði gert. „Eg er sýkn saka,“ mælti hún, „og er skylt að menn vorkenni mjer ólánsamri konu; þjer þurfið ekki annað enn að spyrja manninn minn dálítið, þá munuð þjer fljótt komast að raun um, að hann er ekki með öllum mjalla. Spyrjið þjer hann t. a. m. hvenær eg hafi framið þjófnaðinn og mun kann ekki geta sagt yður það.“ Lögreglustjórinn bar nú upp spurningu þessa fyrir manninn og svaraði hann þá: „það var hjerna um nóttina, þegar steikinni og fiskinum rigndi.“ Reiddist þá dómarinn og mælti: „Ertu svo ósvífinn, þorparinn þinn! að þú reynir að telja mjer trú um slíka vitleysu. Eða eru þess nokkur dæmi, að öðru hafi rignt enn vatni?“ Maðurinn sór og sárt við lagði, að hann færi með hreinan sannleika; kvaðst hann hafa glatt sig með konu sinni á matnum, sem rignt hefði niður úr skýjunum. Lögreglustjóranum þókti nú nóg um og sendi manninn í vitfirringa hús, en dæmdi konuna sýkna. En að nokkrum dögum liðnum fór konan að kenna í brjóst um mann sinn, er hann varð svo hörðu að sæta fyrir alls engar sakir. Vitjaði hún á fund hans, og vildi nú feginn koma því til leiðar, að hann yrði látinn laus; sagði hún honum, að ef hann yrði spurður, hvort kjöti og fiski hefði rignt, þá skyldi hann svara: „Eru þess nokkur dæmi að öðru hafi rignt enn vatni?“ Konan gekk nú á burt og leiddi hún umsjónarmanninum fyrir sjónir, að maður sinn væri orðinn heilvita, og mundi hann fljótt komast

að raun um það, ef hann spyrði hann um steikar- og fiskiregnið. Umsjónarmaðurinn gerði svo og með því maðurinn svaraði svo skynsamlega. þá var honum aptur sleppt úr varðhaldinu.

Konungurinn hafði gaman af sögu þessari og leyfði nú dómaranum að fara heim til sín, en fiskimanninn bað hann að vera kyrran hjá sjer. þegar hann hafði verið í þjónustu konungs nokkurn tíma, þá bar svo til einn dag, að honum varð gengið fram hjá húsi auðugs kaupmanns. Dóttir kaupmanns sat við glugga og horfði út á stræti. Nú varð mannskepnan öldungis frá sjer numin af fegurð hennar og gekk því á degi hverjum fram hjá húsinu, í þeirri von, að hann mundi sjá hana í glugganum. En von þessi brást honum alltaf. Varð ástríða þessi að lokum svo megn, að hann gerðist sjúkur og lagðist í rekkju með æði og óráði. Æpti hann þá og sagði: „En hvað unnustan mín er fagureyg, en hvað hún er hörundsfríð og falleg í vextinum!“ Kerling nokkur, er þjónaði honum, komst við af meðaumkvun, er hún heyrði hann mæla þetta, og beiddi hann fyrir alla muni, að segja sjer nafn konu þeirrar, er svo mjög hefði heillað hjarta hans. „Móðir góð!“ sagði maðurinn, „guð launi þjer hjartagæzkuna, en getir þú ekki hjálpað, þá er mjer enginn annar kostur enn að deyja.“ Sagði hann henni þá, hvað hann hafði sjeð og lýsti fyrir henni húsi kaupmannsins. „Son minn!“ ansaði kerling, „vertu hughraustur; enginn getur fúsari verið til að veita þjer fulltingi í þessu máli enn eg er. Vertu bara þolinmóður, þá skal eg bráðum færa þjer fregnir frá ástmey þinni.“ Að svo mæltu gekk kerling til hússins, sem kaupmaðurinn bjó í og kallaði hátt með guðrækilegum málrómi: „Enginn er guð nema guð; lofað sje hans heilaga nafn; guð blessi yður.“ Dóttir kaupmanns heyrir nú þetta andheita ávarp og gengur til dyra; heilsar hún kerlingu vel og virðuglega og segir: „Minnstu mín í bænum þínum, móðir góð!“ „Elsku barnið mitt!“ ansaði kerling, „guð á himnum varðveiti þig frá öllu grandi.“ Mærin leiddi nú kerlingu inn í hús og vísaði henni í heiðurs sæti; settist hún því næst hjá henni ásamt móður sinni. Voru þær að ræða um guðrækileg efni allt fram að hádegi; þá beiddi kerling um vatn. Þvoði hún sjer síðan og las bænir sínar, sem voru óvenju langar; sögðu þær mæðgurnar sín í milli, að þetta hlyti víst að vera ein-

staklega guðhrædd kona. Þegar hún hafði lokið bænagjörð sinni, þá báru þær henni hressingar, en hún vildi einskis af þeim neyta; kvaðst hún eiga að fasta þenna dag. Fannst nú mæðgunum enn meira um guðhræðslu hennar og litu hana lotningarfullum augum; lögðu þær fast að henni að vera hjá sjer til sólarlags, gæti hún þá endað föstuhaldið og borðað þeim til samlætis. Þegar sól var runnin, gerði hún bæn sína að nýju og gaf mæðgunum ýmisleg guðrækileg heilræði. Varð hún þeim svo vel að skapi, að þær beiddu hana að vera nú hjá sjer alla nóttina. Næsta morgun reis hún árdegis úr rekkju, þvoði sjer og baðst fyrir langa stund; lauk hún bæn sinni með því að óska mæðgunum blessunar á útlendu tungumáli, sem ekki skildist. En er hún var staðin upp af knjebeði, tóku þær með lotningu undir hendur henni og báðu hana að vera enn hjá sjer nokkuð lengur; en hún færðist undan og hjet að finna þær bráðum aptur; skildu þær nú að svo fyrir mæltu.

Að þremur dögum liðnum fór kerling aptur til húsa kaupmannsins; fögnuðu þær mæðgur henni með mestu virktum, kysstu á hendur hennar og fætur og buðu hana velkomna. Fór kerling að öllu sem í fyrra skiptið og skein af henni guðhræðslan, svo hún varð enn lotningarverðari í augum þeirra mæðganna. Úr þessu fór hún að koma optar og var hún ávallt kær gestur á heimili kaupmannsins. Það var eitt kvöld að hún kom þangað og mælti: „Svo er mál með vexti, að eg á eina dóttur barna, og á brúðkaup hennar að standa í dag; nú þækti mjer vænt, ef blessuð jungfrúin, vinkona mín, vildi koma í veizluna, skyldi eg þá biðja henni allra heilla og blessunar.“ Móðirin vildi ekki lofa dóttur sinni að fara, því hún var hrædd um að hana kynni eitthvað illt að henda. „Hvað þarft þú að hræðast,“ mælti kerling, „þegar hún er hjá mjer og hinum guðhræddu konunum?“ Stúlkuna sjálfa langaði ákaft í brúðkaupið og hafði móðirin því ekki skap til að synja henni.

Kaupmannsdóttirin bjóst nú hinum fegursta klæðnaði sem til var og fór með kerlingunni. Teygði kerling hana með sjer í gegnum mörg stræti, og komu þær nú heim í hús fiskimannsins, sem var orðinn vildarmaður konungs, einsog fyrr er frá sagt; var hann þar fyrir og þráði ástmey sína með miklu óþoli. Varð kaupmannsdóttirin hissa, er hún hitti þar karlmann fyrir, fríðan

sýnum, og tók hún þegar eptir því, að hann varð einsog utan við sig af fögnuði, er hann sá hana. En hún varð bæði felmtruð og forviða, er hún sá í hendi sjer, að kerling hafði búið henni gildru þessa með hræsni sinni og yfirdrepskap, en það var bótin, að hún var huguð og snarráð; ljet hún alls ekki á hræðslu sinni bera og tók að hyggja á ráð til að komast úr vanda þessum. Settist hún niður einsog ekkert væri, og sást um í herberginu hlægjandi og mælti: „það er gamall siður, að þegar unnusti býður unnustu sinni, þá skal hann hafa veizlu fyrirbúna. því hvað er ástin, ef ekkert er gert til hátíðabrigðis? Nú ef þjer viljið að eg verði hjerna hjá yður í kvöld, þá skuluð þjer fara og sækja okkur einhverja hressingu, svo ekkert skorti sem til yndis má vera. Skal eg bíða hjer hjá dándiskonu þessari þangað til þjer komið aptur.“ Nú þóktist fiskimaðurinn hafa himin höndum tekið og mælti: „Vilji þinn er mjer í lögmáls stað;“ gekk hann síðan út á torgið og ætlaði að efna til dýrlegrar matveizlu. En er hann var farinn, lokaði mærin dyrunum á eptir honum og þakkaði kerlingu fyrir, að hún hafði útvegað sjer svo fríðan mann til samlags. Gekk hún um gólf í herberginu og var að hugsa um, hvernig hún ætti að koma sjer undan. þá kom hún allt í einu auga á sverð eitt nakið, er stóð út í horni, var það biturlegt mjög; bretti hún þá ermum sínum upp á olboga, tók sverðið og keyrði það af öllu afli í höfuð kerlingar, þar sem hún sat í legubekk einum, og klauf hana í herðar niður, veltist hún þar í blóði sínu og var þegar örend. Lauk svo æfi vændiskonu þessarar.

Kaupmannsdóttirin leitaði nú hvervetna í herberginu og fann skrautklæði nokkur, er fiskimaðurinn var vanur að bera, þegar hann gekk á fund konungs; vafði hún þau saman í böggul og faldi undir höfuðdúki sínum, læsti síðan dyrunum og flýtti sjer heim. Komst hún klaklaust heim í hús foreldra sinna. Varð móðir hennar fegin er hún kom, og fagnaði henni með blíðu; sá hún að hún hjelt á böggli og mælti: „Elsku barn! hvað kemurðu þarna með úr boði vinkonu okkar, sem er svo fátæk og guðhrædd?“ En svo mikils hafði þetta fengið stúlkunni, að hún gat engu svarað, og hryllti hana svo við að hugsa til þess, að hún datt í öngvit. Hljóðaði þá móðir hennar upp yfir sig

og rann kaupmaðurinn á hljóðin ásamt heimafólki sínu; var þá allra ráða í neytt til að koma stúlkunni til sjálfrar sín og tókst það um síðir. Sagði hún þá frá öllu einsog var. Kaupmaðurinn bölfaði kerlingunni og huggaði dóttur sína, og þókti vænt um. er hún hafði kynnt sig að skírlífi. Bar hann kennsl á klæðin og vissi hver átti; gekk hann því samstundis með þau á fund konungs En er konungur heyrði ákæru kaupmanns, þá varð hann æfareiður vildarmanni sínum og skipaði mönnum sínum að sækja hann þegar í stað. En hann var allur á brottu. þegar hann kom heim, hafði hann sjeð að kerling var drepin, en gólfið flaut í blóði hennar; skildi hann þá hver efni í voru. Bjó hann sig þá í fátæklegar flíkur og flýði hið bráðasta út úr borginni. Vildi honum til hamingju, að lest nokkur mikil var að taka sig upp og varð hann samferða henni í fimm daga. Bar nú lestina útyfir landamærin og slapp fiskimaðurinn svo úr umdæmi síns fyrra lánardrottins; settu lestamenn tjöld sín fyrir utan stórborg eina, en fiskimaðurinn gekk inn í borgina og hvíldi sig í gestgjafahúsi nokkru: hafði hann nú fastráðið, með sjálfum sjer, að leggja stund á eitthvað sem háskaminna væri enn ástabrögð og konungs hylli. þegar fiskimaðurinn var búinn að hvíla sig í nokkra daga eptir ferðina, þá gekk hann útá torg nokkurt þar er verkmenn stóðu og biðu þess, að þeir yrðu leigðir til vinnu. þegar hann hafði beðið þar stundarkorn. kom kona nokkur til hans og spurði, hvort hann væri að leita sjer vinnu; hann kvað svo vera. þá mælti konan: „Múrveggurinn, sem er utanum húsgarðinn minn, er orðinn svo hrörlegur, að eg verð að láta rífa hann niður og hlaða hann upp að nýju; vil eg trúa þjer fyrir verki þessu, ef þú vilt takast það á hendur.“ Fiskimaðurinn þekktist boð hennar og fylgdist heim með henni; sýndi hún honum múrvegginn og fjekk honum járnreku, sagði að hann skyldi leggja steinana í eina hrúgu, en mylsnuna í aðra. Kvaðst fiskimaður í öllu skyldu breyta eptir boðum hennar. Síðan færði hún honum mat og vatn að drekka, og hressti hann sig á því; lofaði hann guð fyrir, að hann var úr allri hættu sloppinn og átti kost á að vinna fyrir sjer. Tók hann nú til verka og vann til sólarlags. þá greiddi konan honum dagskaup sitt og fór hann ánægður heim. Næsta morgun fór hann aptur til vinnu sinnar og var honum sýnt

gott atlæti einsog fyrra daginn. þegar hann var að pjakka upp undirstöðuna undir múrveggnum, fann hann eirker fullt af gullpeningum. þetta var um hádegi. Fór hann þá heim til sín og taldi peningana, eitthvað hundrað dínara, og gekk síðan aptur til vinnu sinnar. En á heimleiðinni um kvöldið sá hann hvar margt fólk fylgdi manni nokkrum, er bar kistu á höfði sjer; hrópaði maðurinn og bauð kistuna til sölu, en eigi vildi hann segja, hvað í henni væri. Kom þá einhver undarleg kaupgirni í fiskimanninn, svo að hann vildi fyrir hvern mun hafa kistuna, þó hann yrði að gjalda aleigu sína fyrir og hjeldi ekki eptir nema einum skildingi. Hann hugsaði með sjálfum sjer: Eg ætla að reyna gæfu mína; hver veit nema eitthvað fjemætt sje í kistunni, en þó það ekki sje, þá skal eg ekki setja það fyrir mig. Nú borgar hann það sem upp var sett og lætur bera kistuna heim í herbergi sitt. Lokar hann að sjer og lýkur upp kistunni, sjer hann þá að í henni liggur kona fögur og skrautbúin og lízt honum fyrst sem hún sje örend. En er hann lagði lófa sinn við varir hennar, þá fann hann að hún andaði og lá í fastasvefni; reyndi hann að vekja hana en gat ekki. þá tók hann hana upp úr kistunni og lagði hana gætilega niður á ábreiðu eina, sat hann þar og leit ekki af henni augum, svo var hann frá sjer numinn af fegurð hennar og skapnaði. En er líða tók að miðnætti, þá hrökk hún upp með andfælum og æpti: „Guð hjálpi mjer! hvar er eg?“ þegar mesta ofboðið var af henni, spurði hún fiskimanninn, hvernig hann hefði flutt sig heim í hús sitt. Fiskimaðurinn sagði henni það allt með atvikum og tók hún þá að spekjast, enda sýndi hann henni mikla lotningu og kurteisi. Allt fyrir það sagði hún honum eigi að svo komnu, hverra manna hún væri eða hvernig hún hefði ratað í æfintýri þetta. „þessi húsakynni eru of lítil,“ mælti hún, „þú verður að útvega önnur á morgun sem stærri eru. þjónaðu mjer með trúmennsku og gerðu það sem eg bið þig; þá munt þú mikla umbun fyrir hljóta.“ Fiskimaðurinn var nú orðinn forsjáll eptir fyrri skyssuna, og þorði hann ekki að vera of nærgöngull við konuna; enda leizt honum svo á hana, sem bezt mundi að halda sjer í skefjum; hneigði hann sig fyrir henni með auðmýkt og kvaðst skyldu vera henni í þræls stað. Bar hann á borð fyrir hana allt hið bezta, er hann gat fengið, og mötuðust

þau saman um kvöldið; gekk hann síðan til annars herbergis og lagðist til hvíldar. Morguninn eptir fór hann út og leigði hús, er vel mátti við sæma; ljet hann bera konuna þangað í burðarstól. Þjónaði hann henni svo í tuttugu daga, en hún fjekk honum peninga til að kaupa allt sem þörf gerðist.

Kona þessi er fiskimaðurinn hafði keypt í kistunni, var vildarmær konungsins; hafði hann svo mikla ást á henni, að hann hætti að eiga mök við hinar aðrar konur sínar og urðu þær þá öfundsjúkar. Vildarmærin hjet Kútalkúlúb. Allt þangað til hún kom, hafði drottningin sjálf verið mest virt í kvennabúrinu, og var því engin furða, þótt hún væri enn reiðari enn hinar. Rjeði hún það af að hafa hana burt með einhverju móti. Bauðst henni gott tækifæri til þess, því konungur fór á dýraveiðar og ætlaði að vera tuttugu daga í burtu. Þegar hann var farinn, bauð drottningin Kútalkúlúb í veizlu og gaf henni svaladrykk, er blandinn var svefnlyfjum. Sofnaði vildarmærin þegar og lagði drottning hana niður í kistu, fjekk hana síðan kaupmiðli nokkrum og bauð honum að selja hana fyrir hundrað dínara; vænti hún þess að sá, er vildarmeyna keypti, mundi verða svo heillaður af fegurð hennar, að hann ljeti enganm af vita, en nyti hennar á laun; þóktist hún góðu bætt að geta losast svo við elju sína án þess að svipta hana lífi. Kemur konungur nú heim af veiðunum og gengur inn í höll sína; spyr hann fyrst hvar vildarmærin sje. Þá gerði drottning sjer upp hryggðarsvip og mælti: „Herra! þú veizt hversu Kútalkúlúb hin fagra var ástrík og viðkvæm, enda fjell henni svo nær að skilja við þig, að hún vanmegnaðist af harmi. Þremur dögum eptir að þú varst farinn, varð hún veik og veslaðist upp í sjö daga, þangað til drottinn tók hana til sín.“ Konungur örvílnaðist er hann heyrði tíðindi þessi og kallaði hástöfum: „Hvergi er líkn nema hjá guði, frá honum erum vjer komnir og til hans munum vjer aptur hverfa.“ Var hann þá harmþrunginn mjög og gat ekki á sjer tekið alla nóttina fyrir ekka og harmi. Um morguninn sendi hann eptir vezírnum og bauð honum að velja hentugt hússtæði á fljótsbakkanum; skyldi byggja þar stórt hús og kvaðst hann ætla að dvelja þar fjærri glaumi heimsins og lifa í minningunni um vildarmey sína. „Vilji þinn er mjer í lögmáls stað,“ svaraði vezírinn. Fór hann þegar og

valdi hússtæðið, bauð síðan húsasmið að marka grundvöllinn og skyldi húsið vera hundrað fet á lengd en sjötíu á breidd. Var nú aðflutt í flýti það er til húsasmíðarinnar heyrði, bæði marmari og aðrar steintegundir; var síðan tekið til verka og hafði ráðgjafinn sjálfur verkstjórn á hendi í tvo daga. Á hinum þriðja degi kom konungur sjálfur til að sjá hvað húsasmíðinni liði. Geðjaðist honum vel að og leizt sem húsið mundi verða frábærlega fagurt, eptir því sem á horfðist; kvað hann engann vera þess verðan að búa í slíku húsi, nema Kútalkúlúb. Kom þá upp fyrir honum grátur. „Vitur maður,“ mælti vezírinn, „hefur sagt, að menn eigi að vera hógværir í meðlætinu og þolinmóðir í þrautunum; bið eg þig herra! að minnast þeirra orða.“ „Satt er það að vísu,“ svaraði konungur, „að þolgæðið er lofsvert og óþolinmæðin ámælisverð, en tilfinningarlaus getur mannleg náttúra ekki verið. Eg unni Kútalkúlúb svo heitt og hafði svo mikið yndi af henni, að mjer þykir örvænt að eg fái nokkra aðra lagskonu, er við hana jafnist að fegurð og öðrum ágætum kostum.“ Huggaði vezírinn konung, og kom þar um síðir, að hann undi óláni sínu með stillingu og þolinmæði. Fóru þeir konungur og vezírinn á degi hverjum og horfðu á húsasmíðina. Urðu nú tíðindi þessi hljóðbær um alla borgina og jafnskjótt sem Kútalkúlúb spurði þau, þá tók hún þannig til orða við fiskimanninn: „Við eyðum fje voru á degi hverjum, en fáum aldrei neitt í staðinn; hvernig lízt þjer nú á að fara og beiðast atvinnu við stórbyggingu þá sem konungur er að láta reisa. Það er mælt, að hann sje ör af fje, og má vera að þú hljótir eitthvað gott af stórmennsku hans.“ Þá mælti fiskimaðurinn: „Hugur minn og hjarta lýtur þjer einni, hvernig á eg að geta skilið við þig, þó ekki sje nema um stundar sakir?“ en því fórust honum þannig orð að hann var farinn að leggja á hana ástarhug. Hafði hún sjeð það á honum og var optsinnis hrædd um, að hann kynni að leita þeirra mála með frekju, en við því var eigi hætt, því fiskimanninum fjellst aldrei úr fötum, hvernig kaupmannsdóttirin hafði farið með hann, og var hann því jafnan varkár. „Seg mjer einsog satt er,“ ansaði konan, „elskar þú mig?“ „Hversu máttu efa það,“ mælti fiskimaðurinn, „þú ert líf mitt og ljós augna minna.“ „Ef svo er,“ mælti konan, „þá tak við hálsmeni þessu og þegar þú hugsar til mín við vinnu þína, þá skaltu

virða það fyrir þjer, og mun það vera þjer til hugljettis, þangað til þú kemur heim aptur.“ Fiskimaðurinn fór nú þangað sem verið var að byggja húsið og sá þar konunginn og vezírinn; voru þeir þar til að líta eptir verkmönnum. Konungur spurði fiskimanninn, hvort hann væri að leita sjer vinnu; kvað hann já við því og var þá samstundis tekinn í verkmanna tölu. Gekk hann nú til vinnu sinnar, en hann gat ekki að því gert, að hann var alltaf að hugsa um konuna fögru og sinnti engu öðru. Hann lagði frá sjer verkfærin og tók upp hálsmenið; horfði hann á það stynjandi og sókti langt neðan andvörpin. Tók konungur eptir þessu og mælti við vezírinn: „Hver veit nema maður þessi sje ennþá ógæfusamari enn eg; látum okkur kalla á hann og spyrja hann.“ Gekk þá vezírinn til fiskimannsins, og bauð honum að segja hreinskilnislega, hversvegna hann hefði andvarpað svo mæðilega. „Æ“, sagði fiskimaðurinn, „mjer leiðist svo mikið að hafa ekki hjá mjer konu þá, er eg elska; hún hefur gefið mjer hálsmen þetta og sagt að eg skyldi horfa á það, þegar eg hugsaði til hennar. Eg sinni engu nema að hugsa um hana, og verð eg því að leggja frá mjer verktólin til þess að geta horft á menið.“ Konungur bar þegar kennsl á menið er hann sá það; hafði hann keypt það handa Kútalkútúb og gefið fyrir hundrað dínara. Fannst honum mikið um, en ljet þó á engu bera. „Hver á hálsmen þetta?“ segir hann. „Það á ambátt mín.“ ansaði fiskimaðurinn, „eg hef keypt það handa henni fyrir hundrað dínara.“ „Geturðu lofað okkur að koma heim með þjer,“ mælti konungur, „okkur þækti gaman að sjá ambáttina?“ „Hún er svo skírlíf,“ svaraði fiskimaðurinn, „að eg er hræddur um að henni kunni að þykja sjer misboðið; en eg skal nefna það við hana, og sje hún því ekki mótfallin, þá skal eg bjóða ykkur heim í hús mitt.“ „Svo er rjett,“ mælti konungur, „og svo byrjar að vera.“

Þegar sól var af lopti, fór fiskimaðurinn heim og sagði Kútalkútúb allt sem farið hafði. Bað hún hann þá að fara út að næsta morgni og kaupa svo sem nægði til sæmilegrar máltíðar, fjekk hún honum fimm dínara til þeirra útgjalda. Fiskimaðurinn keypti nú til dagverðar og gekk því næst til vinnu sinnar; sagði hann þá konung og vezírinn velkomna, ef þeir vildu láta svo lítið að þiggja ljelegar veitingar hjá ambátt sinni; „en það er reyndar rangnefni,“

sagði hann, „að kalla hana ambátt, og mætti eg miklu fremur kalla hana gyðju, því eg hef tignað hana með auðmýkt og eigi dirfzt að nálgast hana fyrir lotningar sakir.“ Konungurinn og vezírinn fóru nú með fiskimanninum heim í hús hans og fannst þeim mikið um, því þar var hin dýrlegasta máltíð á borði. Nú borðuðu þeir og drukku á eptir kaffi og sæta svaladrykki. Konungur sagði að sjer væri hugur á að sjá ambáttina og kom hún þá fram, en hvarf þegar í skyndi. þekkti konungur hana undireins og sagði við fiskimanninn: „Viltu selja mjer konu þessa?“ „það get eg eigi, herra!“ ansaði fiskimaðurinn, „því eg ann henni hugástum, þó ekki vilji hún þýðast elsku mína.“ „þá óska eg,“ mælti konungur, „að þjer verði ást við ást goldin, en komdu í höll mína eptir sólsetur, og hafðu ambáttina með þjer.“ „Vilji þinn er mjer í lögmáls stað,“ ansaði fiskimaðurinn. Og er sól var runnin, fór hann til konungshallarinnar með ambáttina; voru þar geldingar fyrir og ætluðu að leiða hana inn í kvennabúrið, en fiskimaðurinn þreif um hana dauðahaldi og kallaði hástöfum: „Hún er unnusta mín og skal eg aldrei sleppa höndum af henni.“ Sagði konungur honum þá, hvernig hann hefði misst hana og bað hann að verða henni afhuga. Sá þá fiskimaðurinn að ekki tjáði að deila við dómarann og ljet þegar að orðum konungs. Konungurinn gaf honum hundrað dínara, skrautlegan klæðnað og fríða ambátt, og gerði hann að þjónustumanni sínum. Stóð fiskimaðurinn svo vel í þessari nýju stöðu sinni, að hann varð æðsti ráðgjafi konungs; gegndi hann embætti sínu með frábærri ráðvendni og dugnaði og var hann jafnan að auknefni kallaður: „hinn rjettláti ráðgjafi.“

# Fra 648 til 656 nætur.

## Konungurinn og Mahmúd Alhýamen hinn víðförli.

Einusinni var konungur nokkur í þungu skapi og sendi hann þá eptir vezír sínum. „Eg veit ekki,“ mælti hann, „hvað svo mjög getur sturlað geð mitt; eg vildi óska að eg hefði mjer eitthvað til skemmtunar.“ þá sagði vezírinn: „Eg á vin sem víða hefur farið og í margt ratað, kann hann frá mörgum kátlegum hlutum að segja.

Á eg að fara og sækja hann?" „Já, og það sem fljótast," ansaði konungur. Þessi vinur vezírsins hjet Mahmúd Alhýamen; fór vezírinn að vörmu spori til hans og sagði honum að konungur vildi að hann kæmi á fund sinn. — „Vilji þinn er mjer í lögmáls stað," ansaði Mahmúd og skunduðu þeir nú báðir til hallarinnar. Mahmúd sýndi konunginum lotningu einsog siður er til og flutti honum fagnaðar óskir í ljóðum. Konungur tók vel kveðju hans og vísaði honum til sætis. „Mahmúd Alhýamen!" sagði konungur, „eg get ekki á mjer tekið fyrir ógleði, en mjer var sagt, að þú ættir margar skrítnar sögur í vitum þínum; bið eg þig nú að segja mjer einhverja þeirra til skemmtunar og skapljettis."

## Sagan af kóngssonunum þremur og töfrafuglinum.

Einusinni var soldán og átti þrjá sonu. Einhver ferðamaður hafði sagt hinum elzta frá kynjalandi nokkru; kvað hann þar vera fugl einn, er Bulbul-al-Syak hjeti og gæti hann breytt öllum í steina, er nærri honum kæmu. Kóngsson ásetti sjer nú að leita upp undrafugl þenna og beiddi föður sinn orlofs, að mega fara; veitti hann honum það og var þó alltregur. Að skilnaði dró kóngsson hring af hendi sjer, skreyttan töfrasteini, og fjekk öðrum bróðurnum með þessum orðum: „Þegar hringurinn kreppir fast að þjer, þá máttu af því marka, að eg muni í slíkum voða staddur, að mjer sje engin hjálpar von." Eptir það fór hann leiðar sinnar og stóð hvergi við, þangað til hann kom þar að er búr töfrafuglsins stóð; hvíldi fuglinn í því um nætur, en á daginn flaug hann út til að skemmta sjer og afla sjer fæðu. Var hann vanur að leita heim í búrið með sólarlaginu, og bæri þá svo til að hann sæji einhvern, þá sagði hann með raunalegri rödd: „Hver mun segja: „Hvíldu þig!" við veslings flóttafuglinn, hinn ógæfusama Búlbúl?" Ef nú maðurinn svaraði: „Hvíldu þig, veslings fugl!" þá flaug hann í sama vetfangi yfir höfuð mannsins og fleygði á hann dálitlu af moldarryki úr nefi sínu; breyttist þá maðurinn samstundis í stein. Á sömu leið fór nú einnig fyrir kóngssyninum.

---

*) þ. e. grátkvakandi næturgali.

Óðar enn hann var að steini orðinn, fann hinn kóngssonurinn að hringurinn kreppti að honum. „Nú er bróðir minn týndur!“ sagði hann við sjálfan sig. „En eg skal fara á eptir honum og ekki hætta fyr enn eg er búinn að finna hann. „Soldáninn, faðir hans og drottningin móðir hans reyndu að telja hann af áformi sínu, en honum varð með engu móti aptrað. Fjekk hann yngsta bróðurnum töfrahringinn og hjelt á stað lengra og lengra, unz hann kom að búri fuglsins. Ginnti fuglinn hann til að segja: „hvíldu þig!“ stráði síðan mold á höfuð hans og breytti honum í stein.

Í það mund er þetta gerðist, var yngsti kóngssonurinn að veizlu með föður sínum, og tók hringurinn að kreppa fast að honum, svo hann kenndi sársauka. Spratt hann þá upp og mælti: „Engin líkn er til, nema hjá guði einum; frá honum erum vjer komnir, og til hans munum vjer aptur hverfa.“ Spurði soldán hvað ylli harmi hans og svaraði hann þá: „Bróðir minn hefur látið líf sitt!“ Grjet þá soldán hástöfum sonu sína, en hinn yngsti sagði: „Eg bý mig nú til ferða og fer að grennslast eptir afdrifum bræðra minna.“ „Hvað skal það?“ mælti faðirinn. „Er ekki nóg að hafa misst þá báða? Vilt þú líka stofna þjer í voða? Eg sárbæni þig, yfirgefðu mig ekki!“ Þá mælti kóngsson: „Forlögin knýja mig til að leita upp bræður mína. Hver veit nema eg geti bjargað lífi þeirra ennþá. Þó það verði mjer að fjörlesti, þá hef eg samt gert skyldu mína.“ Skeytti hann alls ekki um grát og kveinstafi foreldra sinna, heldur fór hann á stað og ljetti eigi fyr enn hann kom þangað er fuglinn hafðist við, og fann aptur bræður sína, steingjörfingana. Spurði fuglinn þá sem honum var títt, en kóngsson svaraði engu; flaug fuglinn loksins inn í búr sitt og sofnaði; gekk kóngsson þá hljóðlega að því og læsti því aptur. Vaknaði fuglinn við hljóðið og mælti: „Þú hefur sigrað, lofsæli konungs sonur!“ „Ef að svo er,“ mælti kóngsson, „þá seg mjer, hvernig þú hefur töfrað svo marga menn, er standa hjer í steins líki, og hvernig eg get leyst þá úr þessum illu álögum.“ Þá svaraði fuglinn: „Líttu á báðar þessar moldarhrúgur; með hinni bláu verður mönnum komið í álögurnar og með hinni hvítu verða þeir leystir úr þeim aptur.“

Þá tók kóngsson mold úr hvítu hrúgunni og kastaði henni á steinmyndirnar; lifnuðu þær þá aptur samstundis. Faðmaði hann

bræður sína að sjer, og þökkuðu þeir honum fjörlausnina; sömu þakkir þáði hann og af sonum ýmsra konunga, jarla og höfðingja. Frjetti hann nú að borg ein væri þar í nánd við, og hefðu allir innbúarnir breytzt í steina; fór hann því þangað og leysti þá úr álögum, en þeir gáfu honum stórgjafir í þakklætis skyni og ætluðu að kjósa hann til konungs, en hann þakkaði þeim fyrir sæmdarboð þetta, og kvaðst heldur vilja fylgja bræðrum sínum heim til föður þeirra svo að þeir mættu óskaddir þangað komast. Nú þó að báðir eldri kóngssynirnir ættu bróður sínum lífið að þakka, þá gátu þeir samt hvorki unnt honum gjafanna, er hann hafði fengið, nje heldur frægðar þeirrar, er hann átti í vændum, þegar heim kæmi. Fórust þeim þannig orð í milli: „þegar við komum til höfuðborgarinnar, þá mun lýðurinn fagna honum með gleðiópi og segja: Sjáið! yngsti bróðirinn hefur bjargað lífi beggja hinna eldri!“

Yngsti bróðirinn hafði búið sig vel út með hesta og kerrur, bæði sjálfs sín vegna og bræðra sinna; sneri hann því til heimferðar og bar þá brátt í nánd við höfuðborgina, er faðir þeirra bjó í. Eina dagleið þaðan var tjörn nokkur fögur, og var hún með marmara umgjörð allt í kring. Ljet kóngsson tjalda á bökkum hennar og hugði að halda þar veizlu með bræðrum sínum um nóttina. Var því búið til gildis og skemmti hann sjer með þeim allt til háttatíma; gekk síðan hver í sitt tjald. Yngsti kóngssonurinn lagðist til hvíldar, og hafði hann á hendi sjer hringinn, er hann hafði fundið í búri töfrafuglsins.

Nú bauðst báðum öfundsjúku bræðrunum æskilegt tækifæri til að fyrirkoma lífgjafa sínum, og var þeim fjærri skapi, að sitja það af sjer. Stóðu þeir upp um lágnættið, lögðu hendur á bróður sinn og fleygðu honum útí tjörnina; læddust þeir síðan heim í tjald sitt. Morguninn eptir buðu þeir öllum að taka sig upp; en er liðið spurði eptir yngsta kóngssyninum, þá sögðu þeir að hann svæfi enn og skyldu menn eigi ónáða hann. þetta ljetu menn svo vera og kom nú lestin heim til höfuðborgarinnar. Varð soldán stórglaður, er hann sá sonu sína heim komna, og fannst mikið um töfrafuglinn; en er hann sá hvergi yngsta son sinn, þá spurði hann þá eptir honum með miklum áhuga. „Við vitum ekkert til hans,“ sögðu bræðurnir, „og höfum við ekki heyrt það fyr enn nú, að hann hafi haldið á stað til að leita upp

töfrafuglinn, sem við komum með.“ En soldán sem unni yngsta syni sínum heitast, skelldi höndum saman yfir höfði sjer, er hann heyrði þetta, og kallaði hástöfum: „Æ! nú er hvergi framar hjálpráð nema hjá allsvaldanda drottni; frá honum erum vjer komnir og til hans munum vjer aptur hverfa.“

Nú víkur sögunni til yngsta bróðurins; þegar hann var fallinn niður í tjörnina vaknaði hann og kallaði: „Eg leita hjálpar hjá guði, sem frelsar þjóna sína úr tálsnörum vondra manna.“ Og guð bænheyrði hann, því hann komst heill á hófi niður á tjarnarbotninn; settist hann á einn stað, þar sem var einsog hvolfstúka og heyrði að sagt var: „Hjer er maður í nánd!“ „Já!“ sagði önnur rödd, „það er yngsti sonur hins góða konungs vors; honum var með svikum kastað niður í tjörnina eptir að hann hafði leyst bræður sína úr álögum.“ „Hvað um gildir,“ sagði fyrri röddin, „honum mun hæglega verða undankomu auðið, því ef hann nýr töfrahringinn, sem hann ber á fingri sínum, þá boðar hann með því anda til sín, sem hlýtur að gera allt það er hann skipar honum.“

Kóngsson var ekki seinn á sjer er hann heyrði þetta, og neri hann hringinn; birtist þá í sömu svipun góður andi og mælti: „Kóngsson! hvað býður þú að gera skuli?“

Þá mælti kóngsson: „Þú skalt undireins útvega mjer tjöld, úlfalda, þjóna, varðmenn og allt sem minni tign og virðingu er samboðið.“ „Það er til reiðu,“ svaraði andinn, og fylgdi honum samstundis til glæsilegra herbúða, voru þar hermenn fyrir og fögnuðu þeir honum með gleðiópi. Ljet hann nú blása til brottfarar og hjelt til höfuðborgarinnar; setti hann herbúðir sínar fyrir utan hana. Voru tjöldin þar upp sett, og var tjald sjálfs hans harla dýrmætt; var vatni stökkt í kring til að kæfa rykið, matsveinar kveiktu eld og lagði reyk mikinn upp af sljettlendinu. Furðuðu borgarmenn sig á liðskomu þessari og gerðust óttaslegnir, er þeir sáu herbúðirnar; hugðu þeir að hjer væri óvinaher fyrir borghliðum og uggðu sjer umsáturs og snarprar atlögu. En er soldáni var borin hersagan, þá varð hann allshugar glaður, en vissi þó eigi sjálfur hvernig á þeirri gleði stóð. „Guð minn!“ sagði hann, „eg er svo feginn og veit þó eigi hvað veldur.“ Bauð hann föruneyti sínu að fara með sjer til herbúðanna og var honum fylgt á fund sonar síns. En með

því kóngsson var skrautbúinn og allt öðru vísi í hátt enn endrarnær, þá bar soldán ekki kennsl á hann. Fagnaði hann föður sínum vel, einsog tign hans var samboðið og spurði, hvað orðið væri af yngsta syni hans. Við þá spurningu brá soldáni svo að hann fjekk óvit og fjell til jarðar. En er hann var raknaður við, þá tók hann til orða og mælti: „Æ! honum varð sú vanhyggja, að hann ferðaðist burt, og munu óarga dýr hafa rifið hann í sundur.“ „Huggastu!“ mælti kóngsson, „sonur þinn lifir og er heill á hófi.“ „Getur það verið?“ kallaði soldán hátt, „seg mjer fljótt, hvar get eg fundið hann?“ „Hann er sá sem nú á tal við þig,“ ansaði kóngsson. Virti soldán hann þá betur fyrir sjer og kannaðist við hann; hljóp hann um háls honum og varð svo frá sjer numinn af fögnuðinum, að hann hnje í ómegin.

þegar hann var kominn til sjálfs sín aptur, ljet hann son sinn segja sjer æfintýri sitt frá upphafi til enda. En þegar hann hafði lokið sögu sinni, komu báðir eldri bræðurnir, og er þeir sáu hann í dýrð og vegsemd, þá drap hljóð úr þeim, og hengdu höfuðin með kinnroða, en þó hafði öfundin aldrei verið eitraðri í hjörtum þeirra enn hún var þá. Ætlaði soldán að láta taka þá af lífi fyrir svikin. en yngsti bróðirinn sagði: „Felum þá guði hinum hæzta á vald; þeir munu í sjálfum sjer finna refsingu synda sinna.“

þegar Mahmúd hafði lokið sögu þessari, var konungur orðinn glaðari í bragði og þókti honum skemmtun að sögunni; gaf hann Mahmúd mikið fje og fríða ambátt; spurði hann um leið, hvort hann ekki gæti sagt sjer aðra sögu. Mahmúd kvað já við því og sagði sögu þá, er nú skal greina.

## Frá soldáninum í Yemen og sonum hans þremur.

það er upphaf þessarar frásagnar, að soldán nokkur rjeði ríki því, er Yemen heitir; hann átti þrjá sonu og voru tveir sammæðra, en hinn þriðja hafði hann átt við annari konu; var hann orðinn leiður á henni og óvirti hana svo mjög, að hann ljet hana þokast niður í þernustjett; lifði hún þar við hirðina með syni sínum, innanum aðrar þernur og þjóna, og var þeim mæðginum enginn gaumur gefinn. Einusinni beiddu báðir eldri bræðurnir föður sinn að lofa sjer á dýraveiðar; voru þeim þá óðara fengnir tveir veltygjaðir

hestar og margir þrælar til föruneytis. Þá er þeir voru á stað riðnir, fór yngsti bróðirinn til móður sinnar og sagðist illa kunna því, að bræður sínir hefðu nóga skemmtun, en hann alls enga; hann yrði líka að njóta glaðværða lífsins meðan hann væri ungur. „Elsku sonur minn!“ svaraði móðirin, „hvernig á eg í þessum bágindum að geta útvegað þjer hest og annað fleira, sem þú þarft með og þjer leikur hugur á?“ Tók þá sveinninn að gráta og gaf hún honum eitthvað af silfurgripum sínum, seldi hann það og keypti sjer meri draghalta, tók hann síðan brauð til nestis, fór á bak og reið eptir ferli bræðra sinna í tvo daga, en á þriðja degi missti hann sjónar á sporunum. Nú ríður hann ennþá tvo daga og sjer hann hvar liggur snúra á sljettlendinu; voru dregnar á hana perlur og gimsteinar og stóð af þeim skínandi birta. Tók hann upp snúruna og vafði henni um höfuðbúnað sinn, sneri því næst heimleiðis og þókti þetta mesti happafundur. En skammt frá borginni rakst hann fram á bræður sína; fleygðu þeir honum af baki, lömdu hann og slitu af honum snúruna. Ljet hann þá eiga alls kosti við sig, þótt hann væri sterkari og hraustari enn þeir báðir til samans; gekk honum það til, að hann óttaðist reiði konungs og þóktist ganga að því vísu, að það mundi bytna á móður sinni, ef hann misþyrmdi óvinum sínum. Bar þann því skömm sína og skaða með jafnaðargeði og fór leiðar sinnar. En mannskræfurnar báðar gengu inn í höllina og fengu soldáni snúruna. Dáðist hann að henni og mælti: „Nú mun eg engan frið hafa fyr enn eg eignast fuglinn, sem borið hefur snúru þessa.“ Þá svöruðu bræðurnir og sögðu: „Við förum þá tafarlaust á stað til að leita fuglsins og skulum við færa þjer hann.“ Bjuggust nú báðir eldri bræðurnir til ferða og lögðu á stað, en yngsti bróðirinn fór í humótt á eptir þeim og reið merinni höltu. Liðu nú þrír dagar og var hann kominn í eyðimörk stóra; eptir langa mæðu komst hann út úr henni og var hann þá dauðuppgefinn. Bar hann að borg einni, sem kvað við af gráti og kveinstöfum. Hitti hann þar karl einn, göfuglegan ásýndum og heilsaði honum með lotningu; spurði hann hvernig á þessum allsherjar harmi stæði. „Son minn!“ ansaði karlinn, „fyrir fjörutíu og þremur árum kom hræðilegt skrímsl í borg vora og krafðist þess, að vjer á ári hverju skyldum framselja eina fagra yngismey, að öðrum kosti

kvaðst það skyldu drepa hvert manns barn. Sáum vjer oss eigi fært að verjast móti skrímslinu og hefur í hvert sinn verið hlutazt um, hver framseld skyldi verða, en í dag kom upp hlutur kóngsdótturinnar sjálfrar, sem er allra kvenna fríðust; í dag er von á skrímslinu og grátum vjer því allir yfir forlögum hennar.“ Kóngsson ljet nú karlinn fylgja sjer þangað er skrímslið hafðist við, og var það öruggur ásetningur hans, að drepa það eða láta lífið að öðrum kosti. Í sama bili kemur kóngsdóttir í skínandi skrúðklæðum; var hún niðurlút mjög og flóðu augu hennar í tárum. Heilsaði kóngsson henni með lotningu, en hún tók vel kveðju hans og mælti: „Flý þú hjeðan, ungi maður! ógæfa mín hefur ofurselt mig skrímslinu og nú mun það bráðum koma. Verði það vart við þig, þá rífur það þig óðara í sundur.“ „Veit eg það, kóngsdóttir!“ mælti hann, „hver ógæfa yfir þjer vofir, en eg hef fastráðið að greiða fyrir þig lausnargjaldið.“ Í því hann mælti þetta, þyrlaðist upp þykkur rykmökkur, og geystist skrímslið fram úr honum með ofboðslegu öskri, og ólmaðist svo skelfing var á að horfa; var það hið tröllslegasta ásýndum og lamdi um sig halanum svo buldi í síðunum. Þá varð kóngsdóttirin yfirkomin af dauðans angist og hljóðaði upp yfir sig; en kóngsson brá sverði sínu og stóð óskelfdur fyrir skrímslinu; hvæsti það eldi brennanda úr nösum sjer og stökk á hann í sama vetfangi. Kóngsson var hinn vígfimasti og snerist hann liðlega úr klóm skrímslisins; sætti hann nú lagi og veitti því snarpa atgöngu. Keyrði hann sverðið í haus skrímslisins og klauf niður í gegn á milli augnanna, og steyptist það þá til jarðar grenjandi og ljet líf sitt. Þegar kóngsdóttirin sá það, hljóp hún til lífgjafa síns, þerrði sveitann og rikið af ásjónu hans með skýlu sinni og þakkaði honum af hjarta. Kvaðst hann nú ætla að fylgja henni á fund foreldra hennar, en hún tók því fjærri og mælti: „Drottinn minn og herra; ljós mitt og líf mitt! þjer vil eg veita ást mína og þinnar ástar má eg eigi án vera.“ „Eigi má svo vera“, ansaði kóngsson og flýtti hann sjer inn í borgina og fjekk sjer þar húsnæði á afskekktum stað. Fór nú kóngsdóttir til hallarinnar. Undruðust foreldrar hennar stórum, er þau sáu hana apturkomna, því þau voru hrædd um að hún hefði aðeins flúið undan skrímslinu í bráð, og mundi það gjöreyða alla borgina í hefndar skyni. Kóngsdóttir sagði einsog var,

að ungur maður, fríður sýnum, hefði frelsað sig; brá þá konungur við og fór með föruneyti sínu og meströllum borgarlýðnum þangað sem skrímslið hafði verið, og sáu allir að það var steindautt. Kvað konungur sjer vera mikinn hug á því að þakka hinum unga afreksmanni, sem unnið hafði óvættinn; spurði hann dóttur sína, hvort hún mundi kannast við lífgjafa sinn, ef hún sæji hann aptur. Það sagðist kóngsdóttir geta fullyrt, því hún hefði fellt ástarhug til hans og væri mynd hans svo ljós og lifandi í hugskoti sínu, að hún mundi sjer aldrei fyrnast. Nú ljet konungur gera heyrum kunnugt, að allir yngismenn skyldu ganga framhjá herbergjum dóttur sinnar; var þá svo gert og gekk á því í þrjá daga, en eigi sá kóngsdóttir lífgjafa sinn. Ljet konungur þá grennslast eptir, hvort allir í borginni hefðu hlýðnazt boðum sínum, og var honum þá sagt, að unglingur nokkur hefði eigi komið, af því hann væri útlendingur, og var tilgreint húsið, er hann bjó í. Bauð konungur honum þá að koma, og óðara enn hann gekk fyrir gluggann, þá fleygði kóngsdóttirin til hans vasaklút sínum og kallaði hástöfum: „Þarna er hann, þessi er sá sem frelsaði mig úr grimmdarklóm skrímslisins.“ Ljet þá konungurinn kalla á hann og mælti: „Ert þú sá sem vannst á skrímslinu?“ Kóngsson kvað svo vera. „Hversu á eg að launa þjer?“ spurði konungur. Þá mælti kóngsson: „Sú er bæn mín til guðs og til þín, konungur! að þú giptir mjer dóttur þína.“ „Bið mig heldur um nokkuð af auðæfum mínum,“ sagði konungur. En gæðingarnir í hirðinni kváðu þeim manni vera fullræði með dóttur konungs er bjargað hefði lífi hennar; galt þá konungur jáyrði sitt og voru þau gefin saman kóngsson og kóngsdóttir og haldin brúðkaupsveizla. En um nóttina reis kóngsson á fætur og dró hringinn af konu sinni; smeygði hann sínum hring í staðinn á hönd hennar og ritaði þessi orð í lófa hennar: „Nafn mitt er Aladín, og er eg sonur hins volduga soldáns í Yemen; fylgdu mjer þangað ef þú getur, en að öðrum kosti skaltu vera kyr hjá föður þínum.“ Skildi kóngsson svo við brúðurina sofandi, skundaði burt frá höllinni og fór út úr borginni. Fór hann nú víða og kvongaðist í annað sinn; varð það með þeim atvikum, að hann drap fíl til fjörlausnar kóngsdóttur nokkurri og gekk síðan að eiga hana; skildi hann við hana á sama hátt og hina fyrri, því alltaf varð hann að halda áfram ferðinni

til að leita upp fuglinn. Kom hann loksins til borgar þeirrar, þar er fuglinn var. Þar bjó voldugur konungur og átti dóttir hans fuglinn. Ráfaði kóngsson lengi vel um borgarstrætin þangað til hann sá karl einn fjörgamlan, er sat einn sjer; leizt honum karl þessi eigi geta verið yngri enn tíræður. Gengur hann að honum og heilsar honum með lotningu og spyr, hvort hann viti nokkur deili á fugli einum, sem hafi það til einkennis, að snúra hans sje dregin perlum og smarögðum. Karlinn þagði um hríð og tók svo til orða: „Sonur sæll! margir konungar og konunga synir hafa viljað eignast fugl þenna og kóngsdótturina, sem á hann; en ósk þeirra hefur eigi orðið framgengt. Þú skalt fá þjer sjö lömb og slátra þeim, skaltu flá þau og skera hvert um sig í tvo hluti. Átta garðar eru í höllinni og fyrir hverju garðshliði standa tvö soltin ljón, nema hinu áttunda; í þeim garði býr kóngsdóttir og eru þar fjörutíu þrælar. Far nú og reyn hamingju þína.“ Kóngsson þakkaði honum ráðlegginguna, og fjekk sjer lömbin; fór hann að öllu einsog karlinn hafði fyrir lagt, og í það mund er komið var að miðnætti, þá gekk hann að fremsta hliðinu, voru þar tvö ljón og stóð eldur brennandi af augum þeirra. Fleygði kóngsson hálfum lambskropp fyrir hvert þeirra og gekk fram hjá þeim, meðan þau hvomuðu í sig kjötið. Komst hann svo klaklaust allt inn í áttunda garðinn; lágu hinir fjörutíu þrælar við hliðið og sváfu fast. Kóngsson gengur nú inn sem hljóðlegast og sjer hvar kóngsdóttir liggur í fögru rúmi í skrautlegum sal; hjekk þar hjá henni fagurt búr af gullvír, alskreytt gimsteinum, og í því var fuglinn. Læðist nú kóngsson að henni og ritar í lófa henni: „Nafn mitt er Aladín og er eg sonur soldánsins í Yemen. Eg sá þig sofandi og tók með mjer fugl þinn. Ef þú skyldir unna mjer og ef þú vilt finna ástmann þinn aptur, þá komdu í aðsetursborg föður míns.“ Að svo búnu gekk hann burt úr höllinni og kom út á sljettlendið; hvíldi hann sig eigi fyr enn að næsta morgni. Bað hann til guðs, að enginn mætti verða var við ferð sína og reið síðan allt til sólseturs; bar hann þar að, er Arabar nokkrir lágu í tjöldum og beiddist náttbóls. Veitti fyrirliði þeirra það fúslega, því hann sá að hann hafði með sjer töfrafuglinn, og hugsaði með sjálfum sjer: Mikill gæfumaður má unglingur þessi vera, annars hefði hann eigi náð því hnossi, sem

svo margir konungar, konungasynir og vezírar hafa eptir sókt og hætt til lífi sínu. Veitti hann honum bezta beina og spurði alls ekki um ferðir hans; um morguninn gaf hann honum ágætan reiðhest að skilnaði. Þakkaði Aladín honum stórmennsku sína og reið hann nú í einni stryklotu þangað til hann eygði aðsetursborg föður síns. Hittist þá svo á að þar komu bræður hans og höfðu þeir farið ónýtisför; sáu þeir að hann reiddi búrið alskínandi með fuglinum í, og rjeðust þegar á hann, drógu hann ofan af hestinum og lömdu hann til óbóta. Ljetu þeir hann liggja þar eptir og hjeldu til borgarinnar, færðu þeir föður sínum búrið og fóru mörgum orðum um hættur þær, er þeir hefðu í ratað og undan stýrt; trúði konungur lýgi þeirra og lofaði þá í hverju orði. En Aladín staulaðist heim til móður sinnar, eymstraður og armæddur, og sagði sínar farir eigi sljettar; bar hann sig illa útaf skaða sínum og hafði í orði að hefna sín á öfundarseggjunum, bræðrum sínum. Móðir hans leitaðist við að hugga hann og bað hann vera þolinmóðan og taka ekki fram fyrir hendur drottins, því hann mundi í hæfilegan tíma sýna almætti sitt og rjettlæti.

Nú er þar til máls að taka, að kóngsdóttir vaknar og sjer að fuglinn er horfinn; bregður henni illa við og hálfu verr, er hún les letrið í lófa sínum. Hún hljóðaði hástöfum upp yfir sig og þustu þjónustumeyjar hennar inn í herbergið; var hún þá hnígin í ómegin; fóru þær og sóktu konung, og jafnskjótt sem dóttir hans raknaði við, þá sagði hún honum af hvarfi fuglsins og sýndi honum í lófa sinn; kvaðst hún aldrei skyldu öðrum manni giptast enn þeim, er sjeð hefði hana sofandi. Konungur fjellst á mál hennar og hjet að fylgjast með henni til að leita upp kóngssoninn; bauð hann herliði sínu að vera til taks, því nú ætlaði hann að fara leiðangur til Yemens. Fór konungur með dóttur sína til herbúðanna og tók sig upp að næsta morgni. Kóngsdóttir og þjónustumeyjar hennar voru bornar í burðarstólum. Var nú hvergi við staðið allt þar til herinn bar í námunda við borg þá, þar er Aladín hafði unnið fílinn og forðað dóttur konungs frá vísum bana. Var sendimaður gerður til borgarinnar og skyldi hann biðja leyfis til að slá landtjöldum og kaupa vistir; var honum vel fagnað og fór konungurinn í borginni á fund hins er kominn var. Hinn aðkomni

konungur sagði honum hverra erinda hann færi för þessa, og þóktist hinn þá ganga að því vísu, að það væri sami maðurinn, sem rænt hefði fuglinum og frelsað dóttur sína; rjeði hann því af að slást með í ferðina. Var nú haldin veizla í þrjá daga með allskonar skemmtunum og hjeldu báðir konungarnir til Yemen með dætrum sínum og stýrði hver um sig sínu herliði. Lá leið þeirra um höfuðborgina þar sem Aladín hafði frelsað dóttur konungs frá skrímslinu. Þegar konungarnir komu að borginni, þá fór enn á sömu leið og rjeðist konungurinn, sem fyrir var, til ferðar með hinum og dóttir hans með dætrum þeirra. Var nú haldið áfram og kom svo tali þeirra kóngsdætra, að sú, er misst hafði fuglinn, varð þess vísari af frásögn hinna beggja, hvílíkur afbragðsmaður Aladín var fyrir hreysti sakir og fríðleika; varð henni því meiri hugur á að finna hann. Eigi ljettu konungarnir för sinni fyr enn þeir voru komnir í Yemens ríki. Þegar sól var að renna til viðar, settu þeir herbúðir sínar skammt frá höfuðborginni, á grænum velli; var þar graslendi hið bezta og gott til vatns. Skaut Yemens konungi skelk í bringu, er hann sá svo mikinn her í nánd við borg sína, samt ljet hann ekki bera á hræðslu sinni og gerði allt það er honum hugkvæmdist til varnar borginni, ef svo mætti fara, að ráðið yrði til áhlaups á náttarþeli. En um morguninn komu sendimenn frá hinum aðkomnu konungum og færðu honum dýrlegar gjafir með þeim boðum, að þeir kæmu með engan ófrið, og beiddu þeir hann að koma til sín og hjálpa sjer með það, er þeir með þyrftu. Þáði konungur boð þeirra og jafnskjótt sem föruneyti hans var tilbúið þá fór hann til herbúðanna. Var honum fagnað þar með mestu virktum. Gengu konungarnir þrír til móts við hann allt að útvörðunum; leiddu þeir hann með sjer inní skrautlegt landtjald úr hárauðu flossilki með gullkögri og gullstögum; tjaldsúlurnar voru af silfri og var tjaldið fóðrað silfurglituðum dúki og ofnar í silkirósir allavega litar. Á tjaldgólfið voru lagðar glitábreiður og var þverpallur fyrir enda, þakinn gullskotnu pelli, en uppi á pallinum stóðu fjórir legubekkir, og lagðar yfir ábreiður og svæflar af persnesku flossilki, alsettir dýrindis perlum. Nú er þeir konungar voru seztir í sæti og höfðu tekið tal með sjer, þá varð Yemens konungur þess fljótt vísari, hversvegna hinir konungarnir voru komnir í ríki hans. Var þá

sett fram gullborð og hlaðið á það dýrlegum krásum; voru borðker öll af agati og kristalli. Undraðist Yemens konungur stórum alla þá dýrð, er þar bar fyrir augu hans, og þókti honum sem hann aldrei hefði sjeð neitt svo skrautlegt og ríkmannlegt. Þegar konungarnir höfðu matazt, var þeim borið kaffi og sætir svaladrykkir. Sátu þeir nú og ræddu saman sjer til skemmtunar; spurðu hinir aðkomnu konungar Yemens konung, hvort hann ætti nokkur börn, og kvaðst hann eiga tvo sonu. Beiddu þeir hann að láta sækja þá og sendi hann eptir þeim að vörmu spori. Komu báðir kóngssynirnir ríðandi á fagurbitluðum hestum, og voru þeir harla skrautlega búnir. Gengu þeir nú inn í tjaldið og varð dætrum konunganna starsýnt á þá; voru gullinblæjur þeirra gagnsæjar og sáu þær allt hvað fram fór í tjaldinu. Sú er misst hafði fuglinn spurði báðar hinar, hvort annarhvor konungssonurinn væri eiginmaður þeirra. En þær kváðu nei við hver um sig og gátu þess um leið, að eiginmaður sinn væri miklu fríðari og höfðinglegri ásýndum. Á sömu leið spurðu konungarnir dætur sínar og veittu þær sömu andsvör. Spurðu þeir því næst Yemens konung, hvort hann ætti fleiri sonu. Svaraði hann þá, að reyndar ætti hann einn son enn, en langt væri síðan hann hefði hætt að skeyta um hann og móður hans, og væru þau mæðgin þar með öðru undirfólki við hirðina. Konungarnir sögðust samt vilja sjá hann og var hann þá leiddur fram í ljelegum flíkum. Samt könnuðust þær við hann, kóngsdæturnar, sem hann hafði frelsað undan meinvættunum og síðan gengið að eiga; kölluðu þær hátt og sögðu: „Þarna er maðurinn okkar blessaður.“ Konungarnir föðmuðu hann þá að sjer og leiddu hann til kvenna sinna, en þær hlupu um háls honum með feginlátum, kysstu hann og kjössuðu. Kóngsdóttirin sem misst hafði fuglinn, fleygði sjer fram fyrir fætur honum með skýldri ásjónu og kyssti á hönd honum. Því næst gekk kóngssonurinn aptur til föður síns og hinna konunganna; ljetu þeir hann setjast við hlið sjer. Þetta þókti föður hans kynlegt, en verr varð honum við það, er hann spurði bræður sína og mælti: „Hver ykkar var það sem banaði skrímslinu, og vann á fílnum, sem gekk óskelfdur inn í konungshöllina og hafði búrið með fuglinum á brott með sjer? Þið hafið ráðizt á mig sem hinir örgustu níðingar, rænt mig og barið; mjer hefði verið hægðarleikur að stíga yfir ykkur báða, en eg vissi

að sá tími mundi koma eptir ráðstöfun drottins, að rjettlát refsing bytnaði á ykkur og föður mínum sakir illgirni hans, er hann útskúfaði mjer og móður minni og svipti okkur rjettindum þeim, er við áttum tilkall til.“ Að svo mæltu brá hann sverði sínu og óð fram að bræðrum sínum og hjó sínu höggi hvern þeirra, svo báðir höfðu bana. Var hann þá svo óður, að hann mundi ráðizt hafa á föður sinn, ef eigi hefðu hinir konungarnir aptrað honum. Sættust nú þeir feðgarnir og hjet Yemens konungur að arfleiða son sinn að ríkinu og veita móður hans sæmdir þær, er hún hafði haft fyr meir. Drakk kóngsson brullaup til kóngsdótturinnar, sem átt hafði fuglinn, og sátu feður beggja hinna í veizlunni; stóð hún í fjörutíu daga og sneru þeir þá heim aptur til ríkja sinna. Yemens konungur var þá hniginn á efra aldur og seldi hann ríkisstjórn í hendur syni sínum; var það mjög að vilja þjóðarinnar, því hann þókti afbragð annara fyrir hreysti sakir og vizku.

Skömmu eptir að hann var seztur að völdum, fór hann einusinni burt úr höfuðborginni á dýraveiðar og fylgdu honum hirðmenn nokkrir. Kom hann á sljettlendi nokkurt víðáttumikið og bar að jarðhúsi einu. Fór hann þar inn og sá að þar voru búsgögn og annað, er sýndist votta, að jarðhúsið mundi vera manna bústaður, en enginn var þar fyrir. — Gerðist þá konungur forvitinn og rjeði af að bíða þangað til húsráðendur kæmu og bauð hann fylgdarmönnum sínum varnað á því, að segja hver hann væri. Nú leið eigi langt um að maður kom og bar vistabagga mikinn. Þá mælti konungur: „Hvaðan kemur þú? hvert ert þú að fara? hvað er það, sem þú ber?“ „Við erum þrír fjelagar,“ svaraði maðurinn, „og búum saman í jarðhúsi þessu. Við höfðum unnið glæpskuverk nokkur og urðum að flýja burt úr borginni, svo við yrðum eigi handteknir; fer einhver okkar ávallt tíunda hvern dag til að kaupa vistir. — Í dag varð eg að fara og afla vista; munu fjelagar mínir bráðum koma heim. Verið hjá oss hjer í nótt, og munuð þjer komast að raun um, að við lifum skemmtilegu lífi.“ Konungur þekktist boð hans og sendi þegar fylgdarmenn sína, nema fáeina, til borgarinnar; skyldu þeir sækja ýmsa hluti er hafa þurfti til næturinnar. En sjálfur varð hann eptir í jarðhúsinu. Komu nú að stundarkorni liðnu báðir hinir mennirnir, sem höfðust við í

fylgsninu; sendimenn konungs komu úr borginni með allt það er þurfti til góðrar máltíðar og settust nú allir til snæðings í mesta bróðerni.

Morguninn eptir bauð konungur þeim fjelögum að fylgjast með sjer heim í borgina, svo vel hafði honum geðjazt að þeim sakir vitsmuna þeirra og glaðlyndis. „Hverju gegnir það?“ sögðu þeir. „Ætlið þjer að fara með okkur í þann stað, sem við áður urðum að flýja? Hvað er yður í huga?“ „Verið óhræddir,“ mælti konungurinn; „eg er konungur ykkar. — Eg vildi heyra orð og ræður ykkar að gamni mínu, og skal eg nú fyrirgefa ykkur fyrir skemmtun þá, er þið hafið veitt mjer.“ Þá hneigðu þeir sig fyrir konunginum og sóru honum hlýðni, gengu síðan frá jarðhúsinu og fylgdu honum heim til hallarinnar. Hafði konungur mikla ánægju af tali þeirra og ljet þá optsinnis koma á fund sinn til að segja sögur, bæði alvarlegs og kýmilegs efnis. Það var eitt kvöld að einn þeirra sagði sögu þá er næst greinir.

## Sagan af Abú Nýút og Abú Nýútýn.

Maður hjet Abú Nýút; hann var ráðvandur mjög, en það var einsog ógæfan leggði hann í einelti, og ásetti hann sjer fyrir þá sök að fara erlendis og reyna, hvort hagur sinn gæti ekki snúizt til batnaðar. Lagði hann á stað með aleigu sína, en hún var ekki stór, því hann átti ekki nema einn gullpening. En áður hann væri langt farinn, þá slóst ókunnugur maður í för með honum og gaf sig á tal við hann; kvaðst maður þessi heita Abú Nýútýn*). Urðu þeir ásáttir um, að þeir skyldu í sameiningu leita fjár og frama og skyldi Abú Nýút vera fjehirðir þeirra. Abú Nýútýn átti tíu gullpeninga. Nú er þeir höfðu ferðazt nokkra daga, þá komu þeir í borg eina. Þar varð förumaður á vegi þeirra og kallaði til þeirra: „Komið heilir, þjer heiðvirðu og rjetttrúuðu bræður! gefið mjer í guðs nafni ölmusu; eg skal ábyrgjast að það verður ykkur til blessunar og heilla.“ Abú Nýút gaf honum þá einn gullpening, en það þókti samlagsbróður hans óþarfa eyðsla og heimtaði fje sitt aptur; og

---

*) Þ. e. ótryggur.

sem hann hafði tekið við því, þá bað hann Abú Nýut vel að lifa og skildi við hann alls lausan. Abú Nýút treysti samt forsjá drottins og gekk inn í musteri eitt til að biðjast fyrir; var hann vongóður um, að hann kynni að hitta þar einhvern fyrir, sem vildi hjálpa honum í bágindunum; en svo fór að enginn vildi gera honum úrlausn. Sat hann heilan sólarhring í musterinu, og varð enginn til að gefa honum ölmusu. Tók þá sulturinn að sverfa svo fast að honum, að hann hafði ekki lengur viðþol; læddist hann því burt þegar skuggsýnt var orðið og ráfaði hingað og þangað um strætin. Þá sá hann þræl nokkurn koma með matleifar í borðdúk og fleygja þeim út á stræti. hljóp hann þegar til og tíndi þær saman, skreið síðan út í horn eitt og nagaði beinin með áfergju; síðan upplypti hann augum sínum til himins og þakkaði guði fyrir máltíð þessa, þótt ekki væri kerleg. Þrællinn tók eptir öllu athæfi hans og hrærðist til meðaumkvunar, er hann sá að hann var svo guðrækinn og átti í slíkum bágindum; sagði hann húsbónda sínum frá þessu, en hann var guðhræddur maður og sendi Abú Nýút þegar tíu gullpeninga. Þrællinn var ágjarn og fjekk hann Abú Nýút ekki meira enn níu peninga. Abú Nýút taldi fjeð og sagði að eptir orðum ritningarinnar, þá ætti hann að fá tíu peninga í staðinn fyrir hinn eina, er hann hafði gefið förumanninum. Þetta heyrði húsbóndi þrælsins og ljet hann undireins sækja Abú Nýút og bauð honum að setjast niður hjá sjer. Maður þessi var kaupmaður vellríkur og bað hann Abú Nýút að segja sjer sögu sína, en hann gerði svo, og fannst kaupmanni svo mikið um hreinlyndi hans og hispursleysi, að hann bauð honum herbergi í húsi sínu. Nú er Abú Nýút hafði dvalið nokkra daga í húsum kaupmannsins, þá bar tíma þann að hendi, er hann reiknaði saman fjármuni sína, gaf hann þá Abú Nýút tíunda part þeirra og rjeði honum til að fá sjer sölubúð og byrja á verzlun, ef það mætti verða honum til hamingju. Abú Nýút gerði svo og varð hann á fáum árum einhver hinn ríkasti kaupmaður í borginni. Svo bar til einusinni er hann sat í búð sinni, að hann sá fjelaga sinn fyrveranda, Abú Nýútýn, og var hann rifinn og tættur og skinhoraður; bað hann þá er framhjá gengu um ölmusu og var aumingjalegur í málrómi. Abú Nýút var allra manna hjartabeztur og skipaði hann þræl nokkrum að kalla á húsganginn. Fjekk hann honum

sæti hjá sjer og ljet færa honum hressingu; síðan bauð hann honum að vera hjá sjer um nóttina, og er hann hafði lokað sölubúð sinni um kvöldið, þá ljet hann gera honum laug, en eptir að hann hafði laugazt, gaf hann honum skrautlegan klæðnað. En er þeir höfðu tekið kvöldverð, þá ræddu þeir um hitt og þetta, og kom þar loks, að Abú Nýút sagði við gest sinn: „Kannastu nú ekki við mig, fjelagi!“ „Fjærri fer því, herra góður!“ mælti hinn, „seg mjer nafn þitt.“ Þá mælti Abú Nýút: „Eg var fyrrum samferðamaður þinn, og er skap mitt óbreytt frá því sem var; eg hef ekki gleymt fjelagskap okkar, og bið eg þig nú að þiggja helming alls þess er eg á.“ Nú virti Abú Nýút eigur sínar og gaf Abú Nýútýn helming þeirra; leigði hann sjer þá sölubúð, og bjó hana að öllu; fór honum verzlunin vel úr hendi. Fjell nú vel á með þeim vinunum um hríð, en um síðir fór að sækja óyndi á Abú Nýútýn; lagði hann fast að Abú Nýút, að hann skyldi taka sig upp og ferðast með sjer, kvað það mundu verða þeim til gagns og gamans. „Til hvers eigum við að ferðast, vinur minn bezti!“ mælti Abú Nýút. „Líður okkur ekki æskilega þar sem við erum? Getur okkur vegnað betur annarstaðar?“ Abú Nýútýn skeytti alls ekki um mótbárur vinar síns og ljet hann engan frið hafa fyr enn hann varð við tilmælum hans. Þá stóð svo á að lestamenn nokkrir voru að búast til ferða og klyfjuðu þeir því múla sína og úlfalda með geysimiklum varningi; fóru þeir síðan með lestinni til Mússúl. — Nú er þeir höfðu verið á ferð í tíu daga, þá tóku þeir sjer náttból hjá brunni nokkrum djúpum. Morguninn eptir ljet Abú Nýút sígast niður í brunninn til að fylla vatnsbelgi lestamanna, gerði hann það ótilkvaddur og vissi sjer einskis ills von. Abú Nýútýn var maður illur og óþakklátur og öfundaðist yfir auðnu hans, og vildi fyrir hvern mun svæla undir sig auðæfi hans; hjó hann því brunnfestina í sundur og bauð mönnum þegar að láta upp klyfjarnar. Fór nú Abú Nýútýn leiðar sinnar og ætlaði fjelaga sínum vísan bana. Sat Abú Nýút allan daginn í brunninum og hafði ekkert til viðurværis, en eigi örvænti hann þess, að guð mundi hjálpa sjer. Þegar komið var miðnætti, heyrði hann að tveir illir andar voru að tala saman og mælti annar: „Nú á eg fullsælu að hrósa, því eg er kominn í kóngsdótturina í Mússúl og fær enginn mig útrekið, nema því að eins hann sæti lagi á

Föstudag við guðsþjónustugjörð í aðalmusterinu, og stökkvi malurtar seyði undir fætur henni; en það mun engum hugkvæmast. Þá mælti hinn andinn: „Eg á fjársjóðu mikla af gulli og gimsteinum í fjallinu hjá Mússúl og verður eigi tölu á komið. Þeim auðæfum verður eigi náð með öðru móti enn að hvítum hana sje slátrað á fjallinu og jörðin vökvuð blóði hans; en það ráð mun trauðlega nokkrum til hugar koma.“

Að svo mæltu flugu báðir andarnir. Abú Nýút setti vel á sig orð þeirra. Að næsta morgni komu lestamenn að sækja vatn; hófu þeir hann uppúr brunninum og gáfu honum mat. Spurðu þeir, hvernig á því stæði, að hann hefði verið niðri í brunninum. en hann vildi ekki að svikræði samlagsbróður síns skyldu verða kunnug, svo níðingslega sem honum hafði farizt; kvaðst hann hafa sofnað á brunnþreminum og oltið niður, og mundu samferðamenn sínir eigi hafa orðið þess áskynja. Bað hann þá lífgjafa sína að lofa sjer að fylgjast með þeim til Mússúl; gerðu þeir það fúslega og veittu honum allt er hann við þurfti. Þegar Abú Nýút var kominn inn í borgina, sá hann að allur lýðurinn var í uppnámi og að aftaka ætti lækni nokkurn og væri dauðasök hans sú, að hann hefði reynt að útreka illan anda úr konungsdóttur, en eigi getað; var þess og getið að sama ólán hefði hent ymsa aðra lækna. Gekk Abú Nýút þá til konungshallar og fleygði sjer flötum fyrir fætur konungi, bauðst hann til að reka út hinn illa anda, og áskildi sjer ekki annað að launum enn að hinum lækninum yrði líf gefið. Konungur tók þeim kosti, en sagði jafnframt að ef Abú Nýút gæti ekki rekið út andann þá skyldu þeir báðir, Abú Nýút og læknirinn verða líflátnir, því þá væri auðsjeð. að þeir væru klaufar til lækninga. Næsta Föstudag kvaðst Abú Nýút skyldu sýna hvað hann kynni til læknisverka og ljet konungur sjer það vel líka; var nú farið með læknirinn seka heim í höllina og voru þeir Abú Nýút lokaðir inn í sama herbergi. Var þá lögboðið að næsti Föstudagur væri haldinn sem helgur dagur.

Nú kom Föstudagurinn að hendi og safnaðist allur borgarlýðurinn til bænagjörðar, en Abú Nýút tilreiddi malurtar seyði, einsog andinn hafði á minnzt. Var honum nú fylgt inn í herbergi köngsdóttur og lá hún þar örvita; en jafnskjótt sem Abú Nýút hafði

stökkt malurtarseyðinu fyrir fætur henni, þá heyrðist öskur mikið rjett hjá henni. Reis hún upp einsog hún vaknaði af svefni, kallaði á ambáttir sínar og ljet þær hjálpa sjer í fötin. Konungi var þegar sagt, að dóttir hans væri heil orðin; kom hann þá með miklum fögnuði til þess að ganga úr skugga um heilsubata hennar. Bauð hann að halda skyldi opinbera gleðihátíð og útbýtti ölmusum meðal fátæklinga; bað hann Abú Nýút að kjósa sjer verðlaun, en gaf hinn lækninn lausan og sæmdi hann með gjöfum. Abú Nýút hafði orðið frá sjer numinn af fegurð kóngsdóttur og kaus hann hana sjer til handa fyrir eiginkonu. Ráðgaðist konungur um mál þetta við ráðherra sína, og rjeðu þeir honum til að svara engu fyr enn næsta dag, því málefni þetta væri næsta athugavert. En er Abú Nýút var farinn, sögðu ráðherrarnir, að ekki mætti minna vera enn að sá sem kóngsdóttur fengi, væri stórríkur, og þó að Abú Nýút hefði rekið út andann, þá væri hann samt ekki maður til að halda hana svo ríkmannlega sem henni hæfði. Rjeðu þeir konungi til að velja úr þá gimsteina, er hann ætti dýrasta, og sýna Abú Nýút, skyldi hann heimta jafngildi þeirra í morgungjöf handa dóttur sinni, en ef skildagi þessi væri honum ofvaxinn, þá skyldi hann verða af ráðinu og kjósa sjer önnur verðlaun. Daginn eptir kom Abú Nýút til hirðfundar og sýndi konungur honum gimsteinana. Voru þeir hinir skærustu, en Abú Nýút ljet sjer fátt um finnast og kvaðst að næsta morgni skyldu færa konungi tífalt fleiri gimsteina, sem bæði væru dýrmætari og litskærari. Furðuðu hirðmenn sig mjög á þessum orðum hans, því það var alkunnugt, að enginn höfðingi ætti dýrari gimsteina enn Mússúls konungur. Abú Nýút kvaddi konung og gekk út á torg eitt þar er hænsn voru seld; keypti hann sjer þar hana alhvítan, svo hvergi var drafna nje flekkur á. Geymdi hann hanann þangað til tungl var komið á hvarf; þá gekk hann með hann til fjalls þess, er andinn hafði nefnt. Skar hann þar hanann á háls og jafnskjótt sem blóðið tók að renna, þá drundi jörðin og skalf, en fjallið laukst í sundur og varð op á; sá hann innum það gimsteina hrúgur miklar; var það slíkt ógrynni og svo afar dýrmætt, að því verður ekki með orðum lýst. Fór Abú Nýút þá heim aptur í borgina og sókti tíu úlfalda, og voru tvær karfir á hverjum; fór hann með þá til fjallsins og klyfjaði þá með auð-

æfum sínum; því næst fyllti hann upp opið á fjallinu og flutti þau heim til hýbýla sinna. Fór hann morguninn eptir með úlfalda sína til hallarinnar og teymdi þá inní ráðhússgarðinn, því þar var konungur fyrir og beið hans. Kallaði Abú Nýút til hans og mælti: „Komið ofan allrasnöggvast og lítið á morgungjöf dóttur yðvarrar.“ Gekk þá konungur að úlföldunum og lágu þeir á knjánum; skoðaði hann í karfirnar og fannst mikið um auðæfi þau, er í þeim voru. „Það veit hamingjan,“ sagði hann, „að þó allir konungar í heimi bæru saman gripi sína, þá kæmist það ekki í hálfkvisti við þetta.“ Var það lengi að hann var einsog höggdofa af undrun, en um síðir spurði hann vezíra sína, hvað gera skyldi; rjeðu þeir honum allir í einu hljóði, að hann skyldi gefa Abú Nýút dóttur sína. Fór brullaup þeirra fram með miklum veg og viðhöfn og hagaði Abú Nýút sjer svo prýðilega í þessari nýju stöðu sinni, að konungur fól honum á hendur að veita mönnum áheyrn opinberlega þrem sinnum í viku, til að setja málum, en þeim starfa hafði hann sjálfur gegnt að undanförnu. Nú var það einusinni að Abú Nýút var staddur á lystigarði sínum og veitti mönnum áheyrn; sá hann þar stafkarl nokkurn í mannþrönginni, hryggan í yfirbragði og herfilega búinn; æpti hann hástöfum og sagði: „Hjálpið mjer góðir menn og guðhræddir, miskunið yður yfir mig, eg er hinn mesti raunamaður.“ Abú Nýút ljet þegar leiða förumanninn fyrir sig og kannaðist við, að þar var fjelagi hans kominn, sem hafði skilið hann eptir í brunninum. Eigi sagði hann förumanninum til nafns síns, en ljet tafarlaust fylgja honum til lauga; þegar hann hafði laugazt, var hann færður í skrautklæði og leiddur inn í ráðstofu. Tók Abú Nýút hann með sjer inn í afhús og sagði þar við hann: „Kannast þú ekki við mig, fornkunningi!“ „Nei! fjærri fer því,“ ansaði hinn. „Þá skaltu vita,“ mælti Abú Nýút, „að eg er Abú Nýút, velgjörðamaður þinn og fjelagi, sá hinn sami sem þú sveikst og skildir eptir í brunninum.“ Því næst sagði hann honum, hvernig sjer hefði reiðt af, og lauk ræðu sinni með þeim ummælum, að ekkert væri sjer fjær skapi enn að erfa þetta við hann eður ala hefndarhug til hans; þækti sjer líkast að forlögin hefðu ráðið tilverknaði hans við sig og notað hann sem meðal til þess að koma sjer í upphefð þá og auðsæld, er hann nú ætti að fagna. Og enn kvaðst hann skyldu

skipta með honum auðæfum sínum. En ekkert beit á öfundsýki Abú Nýútýns. Hann þakkaði ekki einusinni Abú Nýút fyrir veglyndi sitt, heldur tók hann svo til orða: „Hafi brunnurinn orðið þjer svo heilladrjúgur, því skyldi hann þá ekki geta orðið mjer það líka?“ Stóð hann þá upp snúðugt og skildi við Abú Nýút án þess að kveðja hann. Hafði Abú Nýút aldrei til hugar komið að slík fúlmennska gæti átt sjer stað.

Abú Nýútýn flýtti sjer nú til brunnsins og ljet sígast niður í hann í festi; settist hann þar niður og beið þess með óþoli að hinir illu andar kæmu. Um miðnætti komu þeir fljúgandi og settust á brunnbarminn; spurði hver annan hvað tíðinda væri. „Það er af mjer að segja,“ mælti annar, „að illa hefur til tekizt síðan við sáumst seinast, því einn af átrúendum Mahómets hefur komizt eptir leyndarmáli mínu, rekið mig út og gengið að eiga kóngsdótturina mína; og ekki er svo vel að eg getið hefnt mín á honum, því hann á fyrir bjargvætt anda nokkurn, er snúizt hefur til rjettrar trúar.“ „Ekki er eg betur farinn,“ sagði hinn, „því sami maðurinn sem tók frá þjer kóngsdótturina, hefir snuðrað upp fjársjóðu mína, er eg hafði falið; er nú auður minn allur í hans valdi og fæ eg eigi náð honum aptur þó eg hafi mig allan við. En látum okkur nú stífla bannsettan brunninn, því hann er orsök til allrar ógæfu okkar.“ — Og í sama vetfangi hrundi brunnurinn saman, en Abú Nýútýn hefndist fyrir vanþakklætið og öfundsýkina, því hann varð undir grjóthrúgunni og molaðist í honum hvert bein.

Abú Nýút tók nú að lengjast biðin eptir Abú Nýútýn og fór hann því til brunnsins; og er hann sá hann apturbyrgðan, ljet hann grafa hann upp á ný og fannst þá líkið; þóktist hann þá skilja að illska fúlmennisins hefði valdið umturnun þessari. Varð honum þá þetta að orði: „Hvergi er hjálpar að vænta nema hjá drottni; hann varðveiti oss frá öfundinni, því hún er þeim einum til tjóns, sem gefur henni rúm í hjarta sínu.

# Fra 657 til 658 nætur.

## Æfintýri hirðmanns nokkurs.

Einusinni var á Egyptalandi emír nokkur auðugur, og bar svo til eina nótt, að hann lá andvaka og stríddu á hann raunalegar hugleiðingar; gat hann með engu móti hrundið þeim af sjer. En loksins kom honum til hugar, að maður nokkur var í hirð hans, ör og glaðlyndur; sendi hann því eptir honum og sagði við hann: ‚Eg veit ekki hvernig á því stendur, að sorg og óyndi sækir að mjer í nótt. Segðu mjer nú eitthvað sem mjer geti verið skemmtun að.“ „Skylt er mjer að gera vilja þinn,“ ansaði hirðmaðurinn, „og skal eg segja þjer eitt af æsku æfintýrum mínum.“

„Þegar eg var á fyrsta æskuskeiði, felldi eg ástarhug til stúlku nokkurrar arabiskrar; var hún hin fríðasta sýnum og fylgdist með ættfólki sínu, en það var í lögum með einni af kynkvíslum þeim, er hafast við á eyðimörkinni. Það var einusinni að eg varð órór næsta og kvíðablandinn hennar vegna, og rjeði eg það af að vitja hennar mjer til hugfróar. En er eg kom þangað er hún hafði verið fyrrum, þá hitti eg hvorki sjálfa hana nje nokkurn ættingja hennar. Spurði eg þá ferðamenn og varð þess vísari, að ættkvíslin öll hafði tekið sig upp og haldið á brott, af því hagalaust var fyrir fjenaðinn. Nú dvaldi eg um hríð á sama staðnum, en er eg sá engin merki til að kynkvíslin mundi koma aptur, þá var ástarlöngun mín svo rík, að eg rjeði af að leita upp unnustu mína. Þá var orðið skuggsýnt, en samt söðlaði eg úlfalda minn, girtist sverði mínu og reið á stað. Náttmyrkrið varð svartara og svartara, úlfaldinn hnaut í hverju spori, og allt umhverfis drundi öskur villudýranna. Hjartað barðist í brjósti mínu og bað eg án afláts til guðs, sem er hjálpráð vort í bágindunum. Að endingu varð eg úrvinda af svefni, en úlfaldinn villtist útaf veginum, sem eg hafði ætlað að fara. Þá vaknaði eg allt í einu við það að trjágrein skall niður í höfuð mjer. Þegar eg var kominn til sjálfs mín eptir höggið, sá eg eikur og blómvaxna velli; þar rann fagurtær lækur og hljómaði sætur fuglakliður fyrir eyrum mjer. Fór eg þá af baki og með því skógarrunnarnir voru þjettvaxnir saman, þá brá eg taumunum

um handlegg mjer og teymdi úlfaldann út úr skóginum; síðan fór eg á bak honum aptur og vissi þá ekkert, hvert fara skyldi, nje heldur hvert forsjónin mundi leiða mig. Nú kom eg út á eyðimörkina og sá yfir víðáttu mikla; miðsvegar sá eg reyk stíga í lopt upp. Þangað reið eg úlfalda mínum og kom að eldi nokkrum; stóð tjald hjá eldinum skrautlegt mjög og herfáni reistur fyrir framan, en spjót allt í kringum, hestar bundnir við staura og úlfaldar á beit. Þá hugsaði eg með mjer, hvernig á því gæti staðið, að þetta fagra tjald væri í þessum öræfum. Eg gekk að tjalddyrunum og kallaði: „Hjer sje guð og náð hans með öllum sem í þessu tjaldi búa.“ Þá kom ungur maður út úr tjaldinu, á að geta nítján vetra; hann var fagur ásýndum einsog máninn í uppgöngu sinni; hreystin og drenglyndið lýstu úr ásjónu hans. Hann tók vel kveðju minni og mælti: „Kom heill, fjelagi! þú munt hafa villzt útaf veginum.“ „Svo er,“ ansaði eg, „og bið eg þig að segja mjer til vegar; guð mun umbuna þjer það.“ Þá sagði unglingurinn: „Eg dvel hjer í eyðimörkinni sem stendur; hjer er ógurlegt á náttarþeli, og gæti svo farið að óarga dýr rifu þig í sundur ef þú hjeldir lengra. Vertu heldur kyr hjá mjer og hvíldu þig; jafnskjótt sem dagur er á lopti skal eg fylgja þjer á leið.“ Fór eg þá af baki og batt úlfalda minn, gaf eg honum bæði vatn og fóður. Ungi maðurinn gekk nú burt og kom bráðlega aptur með sauðkind; slátraði hann henni, fláði og limaði í sundur. Því næst kveikti hann eld og steikti við nokkuð af kjötinu, bar það fyrir mig og bauð mjer að eta. Meðan hann sýslaði með þetta, sá eg að hann tárfeldi stundum og barði sjer á brjóst; grunaði mig þá að hann mundi líka búa yfir ástum og vera á reiki einsog eg. Forvitni mín fór nú vaxandi, en eg hugsaði með sjálfum mjer: Eg er gestur hans og sæmir mjer því ekki að angra hann með spurningum; þess vegna sat eg á mjer. Þegar eg var mettur, stóð ungi maðurinn upp og gekk inní tjald sitt; kom hann þaðan með vatnskönnu og mundlaug, dýrindis handklæði og rósavatns flösku. Furðaði mig stórum á kurteisi hans og gat ekki skilið í því, hvernig á því stæði, að þessi ágæti unglingur skyldi vera í eyðimörk þessari. Nú þvoðum við okkur og ræddum um hitt og þetta; fór gestgjafi minn síðan inní tjaldið og kom aptur með hárauðan silki-

ofinn damastdúk, skar hann í sundur og mælti: „Far nú inn í tjald mitt, fjelagi! og leita þjer hvílurúms; þú ert sárþreyttur og er það að vonum, því þú munt hafa átt í miklu vosi og þrautum.“ Eg fór inn í tjaldið og fann eg í einu tjaldrúminu græna damast dýnu; lagðist eg niður á hana, er eg hafði afklæzt, og man eg ekki að mjer nokkurntíma hafi sofnazt betur enn í það skipti. En er langt var liðið fram á nótt, þá vaknaði eg og fór að hugsa um hinn unga mann, en í sama bili heyrði eg að einhverjir voru að skrafa í í hljóði. Þá lypti eg tjaldskörinni og sá konu eina forkunnar fríða, sat hún hjá eiganda tjaldsins og vóru bæði að rekja raunatölur sínar útaf kvölum ástarinnar og hindrunum þeim, er vörnuðu þeim að finnast svo opt sem þau vildu. Hugsaði eg þá með sjálfum mjer: Það getur enginn efi á því verið, að unglingurinn dvelur hjer einn síns liðs, því ekki hef eg sjeð hjer nema þetta eina tjald; mjer þykir líkast, að þessi hin fagra kona sje dóttir einhvers góðs anda, hefur hún fellt ástarhug til hans, og hann flúið í einveru þessa hennar vegna. Feldi eg nú tjaldskörina niður, dró ábreiðuna yfir höfuð mjer og sofnaði aptur.

Eg vaknaði í lýsingu og klæddist; var hinn ungi maður þá einnig kominn í föt sín og mælti eg við hann: „Landi minn og lagsbróðir! ef þú nú vildir fylgja mjer á leið, þá mundi eg kunna þjer mikla þökk fyrir.“ Þá svaraði hann mjer blíðlega: „Ef þjer ekki er óskapfellt, þá þækti mjer vænt um, ef þú vildir dvelja hjá mjer í þrjá daga enn einsog gestur minn.“

Eg gat ekki fengið af mjer að synja honum. Á hinum þriðja degi rjeðist eg í að spyrja hann að nafni og ætterni; kvaðst hann vera af kynkvíslinni Assra og varð eg þess þá vísari, að hann var bræðrungur minn. „Seg mjer nú, frændi!“ mælti eg, „hvað veldur því, að þú hefur flúið í einveru og eyðimörk, fjærri vinum þínum og nauðleitamönnum?“ En við spurningu þessa brá honum svo, að tárin flóðu af augum hans og svaraði hann mjer andvarpandi: „Á því stendur þannig, bezti frændi minn! að eg feldi ofurást til einnar frændstúlku minnar, og bað eg föður hennar að gefa mjer hana, en hann synjaði ráðahagsins og gipti hana öðrum manni í sömu kynkvísl, fyrir þá sök að hann var ríkari enn eg. Tók hann hana heim í hús sitt, en eg örvílnaðist, skildi við vini og vanda-

menn og flýði út á eyðimörk.“ Spurði eg hann þá, hvar kona þessi byggi og maður hennar, sem var orðinn honum hlutskarpari. „Þau búa þarna skamt frá fjallshnúkinum; og nær sem hún fær við komið, kemur hún ofan eptir til mín í tjaldið á náttarþeli, þegar kyrt er orðið, njótum við þá yndis hvert af öðru, en því máttu trúa, vinur! að ástir okkar eru hreinar og saklausar. Fyrir þá sök dvel eg hjer einsog þú sjer, og ávallt er hún vitjar mín, þá líður tíminn fljótt og ræð eg mjer þá ekki fyrir gleði, mun svo verða þangaðtil guð lætur ráðsályktun sinni framgengt verða og umbunar staðfestu vora hjer í heimi eða sameinar okkur bæði í gröfinni.“ Mjer rann til rifja að heyra sögu þessa, og var eg þess áfýsandi, að þau skyldu hafa af sjer mótgangsmenn sína. „Eg held eg geti kennt þjer ráð,“ sagði eg, „og ef þú hlýðir því, þá vona eg að lokið sje andstreymi ykkar elskendanna.“ „Seg mjer þá ráð þitt, frændi!“ mælti hann. „Þegar náttsett er og unnusta þín komin hingað, þá skulum við láta hana á bak úlfalda mínum; hann er fótviss og fljótur á sjer. Þú skalt stíga á bak hesti þínum, en eg mun ríða einum af úlföldum þínum og fylgja þjer eptir. Höldum við svo áfram alla nóttina og áður enn morgun roðar yfir skóga, muntu geta hrósað happi með unnustu þinni. Guð skortir eigi landrými til þess að veita ykkur skjól, og það sver eg þjer við allt sem heilagt er, að eg skal vera vinur þinn alla æfi.“ — Þá sagði hinn ungi maður: „Nú vil eg bera ráð þetta undir unnustu mína, því hún er vitur kona.“ Þegar náttað var og liðið að þeirri stund er konan unga var vön að koma, þá beið frændi minn hennar með mikilli óelju, en hún kom eigi. Gekk hann þá fram í tjalddyrnar og skimaði í allar áttir, kom síðan inn aptur hugsandi; því næst sagði hann grátandi: „Hún kemur ekki, henni hlýtur að hafa viljað eitthvert slys til. Bíddu mín meðan eg fer og leita að henni.“ Að svo mæltu tók hann sverð og lensu og skundaði á burt. Þegar góð stund var liðin, sá eg hann koma aptur og bar hann eitthvað þungt í fanginu; þá hljóp eg til móts við hann og æpti hann hástöfum: „Æ! hún frændstúlka mín er dauð, og hjer er allt sem eptir er af henni. Hún var á leiðinni til tjalds míns og flýtti sjer, en þá hljóp ljón nokkurt snögglega í veg fyrir hana og reif hana í sundur. Þessir

blóðstokknu limir eru allt og sumt sem eptir er af henni.“ Lagði hann þá slitrin niður og grjet beisklega. „Bíddu þangaðtil eg kem aptur,“ sagði hann, og hljóp í burt sem kólfi væri skotið. Kom hann aptur að vörmu spori og hjelt á höfði ljónsins í hendinni, fleygði hann því til jarðar og bað um vatn. Sókti eg það handa honum og þvoði hann þá hendur sínar og hreinsaði ljónsskoltinn innan, kyssti hann í ákafa og grjet síðan stundarkorn. Eptir það tók hann þannig til orða: „Eg særi þig frændi minn! fyrir allsvaldanda guð og ætthelgi vora, að þú verðir við andlátsbæn minni, því nú ætla eg samstundis að verða samferða unnustu minni; greptraðu okkur bæði í sömu gröf.“ Að því mæltu gekk hann inn í þann tjaldklefa, er hann var vanur að sofa í, og var þar stundarkorn til að gera bæn sína; eptir það kom hann út, barði sjer á brjóst með þungum andvörpum og mælti: „Eg kem unnusta mín! eg kem;“ þar með leið hið síðasta andvarp yfir varir honum og hans flekklausa, elskuríka sál flaug burt til paradísar.

Eg var svo yfirkominn af harmi, að eg megnaði ekki að efna heit mitt fyrst í stað; en loksins reis eg þó á fætur, harkaði af mjer og jarðaði hina trygglunduðu elskendur í sömu gröf. Í þrjá daga baðst eg fyrir við gröf þeirra með harmatölum og sneri síðan heimleiðis. Vitjaði eg um gröf þeirra á ári hverju og bað drottinn að vera sálum þeirra miskunsaman.

# Frá 659 til 663 nætur.

## Sagan af kóngssyninum frá Sindlandi og Fatime.

Einusinni fyrir aldaöðli var konungur í Sindlandi; hann átti son við einni af frillum sínum, sem var svo ódæll við drottningu, að við sjálft lá, að hún týndi heilsu sinni af skapraun. Tók vildarambátt hennar eptir því og einsetti sjer að hafa kóngsson burt með kænsku. Rjeði hún drottningu að segja kóngssyni, þegar hann skapraunaði henni í næsta skipti, að hann gæti eigi komið svo fram sem tign hans sæmdi, fyr enn hann hefði ástir Fatime, dóttur Emír-Ben-Naómens konungs. Drottning gerði svo og rjeði kóngsson af að ferðast til

lands þess, þar er kóngsdóttir var, og biðja hennar. Veitti konungur honum samþykki sitt til þess og fór hann á stað með föruneyti, er vel mátti sæma. Eptir stuttan tíma kom hann í eyðimörk, og vofði þar yfir ógurlegur sægur af engisprettum, sem skýmökkur væri, duttu þær niður á jörðina, því þær voru magnþrota af hungri. Kóngsson var hjartagóður og ljet kasta fyrir þær vistum; átu þær með græðgi og flugu síðan á burt. Nokkrum dögum síðar kom hann í þjettan skóg, er fullur var af fílum og öðrum villudýrum; voru dýr þessi glorhungruð, en samt rjeðust þau eigi á hann, og ljet hann því slátra nokkrum af eykjum sínum og snara í þau kjötinu. þegar dýrin höfðu saðt sig, fóru þau leiðar sinnar og tjáðu þakklæti sitt einsog þau bezt gátu. Skammt frá skóginum hitti kóngsson karl nokkurn gamlan og spurði hann vegar til landa Emir-Ben-Naómens; sagði karlinn honum að nú ætti hann ekki langt eptir þangað, en samt yrði hann fyrst að fara yfir járngrýtis fjallgarð, háan og brattan, og væri þó tvísýnt, hvort hann fengi kóngsdóttur, þótt honum tækist að vinna þessa þraut. Kóngsson spurði, hvernig á því stæði, og svaraði þá karlinn: „Emir-Ben-Naómen vill eigi gipta dóttur sína öðrum enn þeim, sem vinnur þrjár þrautir, er hann leggur fyrir; en svo eru þrauti, þessar erfiðar, að þær verða eigi með mannlegum kröptum unnar. Hafa margir konunga synir reynt sig á þeim og beðið bana, því lífinu varðar ef mistekst og ræð eg þjer því að hætta við fyrirætlun þína.“ En kóngsson hafnaði ráðleggingu hans og fór leiðar sinnar, en beiddi þó karlinn fyrst að blessa sig og árna sjer guðlegs fulltingis. Nú kemur hann að fjallskörðunum og sjer þar víða hellra; voru þar andar fyrir og brutu geysistórar járngrýtis hellur úr klettunum. Veitti kóngsson þeim vel og sögðu þeir honum til vegar, þar er bezt var að komast yfir fjöllin. Kom hann loksins að ríkissetri Emir-Ben-Naómens og gerði sendiboða á fund hans til þess að spyrja, hvort sjer væri heimilt að reisa tjöld sín á sljettlendinu fyrir utan borgina, og hefja bónorð til dóttur hans. Varð konungur vel við tilmælum kóngssonar og bauð honum heim í höll sína. Var hann þar um daginn, en um kvöldið var honum fylgt inn í garð nokkurn; þar stóð ker eitt mikið, og var fullt af margskonar korntegundum, sem blandað var hvað innan um annað; átti kóngsson

að skilja sundur korntegundirnar, svo hver yrði í hrúgu fyrir sig, og vera búinn að því fyrir sólaruppkomu, en að öðrum kosti láta líf sitt; var þetta fyrsta þrautin. Kóngsson hafði óbilugt traust á forsjón drottins, og er garðsdyrnar skullu á hælum honum, þá gerði hann bæn sína til guðs og tók til verka. Sá hann þegar í hendi sjer, að ógjörningur var að verða búinn innan þess tíma, sem ákveðinn var; ljet hann þá hugfallast, hætti við og fór að búast við dauða sínum. Bað hann guð að veita sjer styrk til að ganga í dauðann með öruggu hugarfari, en í sama bili heyrði hann rödd, er sagði: „Huggastu, því hjartagæzka þín við hungruð skorkvikindi skal ekki ólaunuð verða.“ Í sama vetfangi sortnaði yfir garðinum og moraði allt í kringum kerið af engisprettum, skildu þær kornið í sundur á svipstundu og flugu síðan burt. Varð þá kóngsson utan við sig af fögnuði og lofaði drottinn; því næst lagðist hann til hvíldar og var vongóður um að einhverjir æðri kraptar mundu fulltingja sjer við hinar þrautirnar, sem eptir voru. Um morguninn kom Emir-Ben-Naómen ofan í garðinn og fjell í stafi er hann sá kóngsson sofanda og kornið sundurskilið í snotrar hrúgur. Nú vaknar kóngsson og kveður hann kurteislega, biður hann að segja sjer, hvaða þraut hann eigi að vinna næst. Sagði konungur að það skyldi hann fá að vita um kvöldið, og ljet hann sitja að dýrðlegri veizlu með sjer um daginn; fannst konungi svo mikið um kurteisi hans og látprýði, að hann óskaði, að hann mætti vinna báðar hinar þrautirnar og verða svo tengdasonur sinn. Dóttir konungs hafði og sjeð hann útum gluggagrind sína og bað hún fyrir honum. Um nóttina var kóngsson leiddur út á flöt nokkra fyrir framan höllina; á henni miðri var vatnsdæld, og skipaði konungur honum að þurka hana upp innan sólaruppkomu, ella skyldi hann drepinn. Kóngsson beið nú við dældarbarminn og var nokkru vonbetri um að hann fengi unnið ætlunarverk sitt, enn nóttina áður. Enda brást honum ekki vonin, því um miðnætti heyrði hann rödd, er sagði: „Góður vilji verður aldrei ólaunaður;“ og í sama vetfangi fylltist flötin af fílum, nashyrningum, úlföldum, ljónum, tígrum og öðrum villidýrum; gengu þau smásaman að vatnsdældinni og drukku þangað til hún var þurtæmd, einsog aldrei hefði komið í hana deigur dropi. En dýrin gengu á burt og grenjuðu hátt af fögnuði.

þóktist nú kóngsson ganga að því vísu, að hann væri undir sjerlegri handleiðslu guðs og spámannsins, og sem hann hafði lokið bæn sinni og þakkargjörð, þá sofnaði hann í húsi nokkru litlu skammt frá dældinni. Svaf hann rótt um nóttina og vaknaði um sólaruppkomu, er konungur kallaði til hans; fannst honum enn meira til er hann hafði unnið þessa þrautina, og leiddi kóngsson heim með sjer í höllina. Leið svo dagurinn í miklum fögnuði. En er nátta tók, var kóngsson kvaddur til þriðju þrautarinnar og hún var sú, að hann skyldi smíða hurðir, glugga og þak til hallar, sem jafnstór væri þeirri er konungur bjó í; var honum fenginn til þess mikill efniviður. Var kóngsson ekki með öllu kvíðalaus, en hughreystist þó, er hann hugsaði til hjálpar þeirrar, er honum hafði hlotnazt í fyrri skiptin. Gerði hann bæn sína og lagðist niður með vongóðum huga. En um miðnætti vaknar hann við það, að hann heyrir að sagir og heflar ganga í ósköpum, og allt dynur við, er hamrarnir skullu á nöglunum, en smiðir og verkmenn sungu og voru glaðir. Lítur hann þá upp og sjer að. þar eru komnir kunningjar hans frá járngrýtisfjallinu, kölluðu þeir til hans og mæltu: „Kvíð þú engu, kóngsson! við erum komnir til að launa þjer veitingarnar.“ Og áður enn dagsbrún sázt á lopti var höllin albúin; var gulli og silfri greypt í allar hurðirnar, gluggana og loptsvalirnar. þakkaði kóngsson vinum sínum liðsemdina með hjartnæmum orðum og kvaddi þá, en Emir-Ben-Naómen hafði litið út um glugga þegar lýsa tók af degi og sjeð höllina; kom hann nú hlaupandi til að skoða snildarverk þetta og samfagna tengdasyni sínum. Fór hann með kóngsson heim í höll sína; var nú efnt til veizlu og drukkið brullaup þeirra kóngssonar og kóngsdóttur. Voru þau brúðhjónin þar í þrjá mánuði, en að þeim tíma liðnum fór kóngsson heim aptur til föður síns, og hitti svo á að konungur nokkur sat um höfuðborgina með óvígan her; stökkti hann þá óvinahernum á burt og frelsaði föður sinn. Varð nú fagnaðarfundur með þeim feðgum, og beiddi kóngsson drottningu fyrirgefningar á skapraunum þeim er hann hafði gert henni fyrmeir, en hún gaf honum upp allar sakir og tók hann sjer í sonar stað; var ávallt síðan hið bezta samlyndi á heimili konungs.

# Elskendurnir sýrlenzku.

Einusinni voru tveir bræður í Damaskusborg, annar ríkur, en hinn fátækur; átti fátæki bróðirinn son, en hinn dóttur. Nú dó fátæki bróðirinn og fól son sinn frumvaxta umsjá hins, er eptir lifði; reyndist hann sveininum í föður stað og ljet sjer mjög annt um hann, allt þangað til hann mælti til ráðahags við dóttur hans, því þá þversynjaði hann honum og rak hann burt úr húsum sínum. Stúlkan ljet til leiðast að strjúka burt með honum; leyndist hún burt úr föðurgarði á náttarþeli og fór á fund unnusta síns. Hafði hann tvo hesta til taks og einn múlasna til að flytja faranguririnn. Fóru þau liðlanga nóttina og komu þegar morgna tók að höfn einni; lá þar skip seglbúið fyrir landi. Stúlkan fór undireins út á skipið, en unnusti hennar varð eptir á landi til að selja hestana og múlasnann. En meðan hann var í þeim önnum, rann á byr hagstæður, bauð þá skipstjórnarmaður að ljetta skyldi akkerum og vinda upp segl. ljet síðan í haf og daufheyrðist við grátbeiðni stúlkunnar, er hún særði hann, að bíða þangaðtil unnusti sinn kæmi aptur, eða þá að öðrum kosti flytja sig aptur á land. En skipstjórnarmanni hafði runnið ástarhugur til stúlkunnar, því hún var hin fríðasta sýnum. Sá hún nú að hún var í illa snöru fallin, en með því hún var kjarkmikil af náttúru, þá fór hún ekki að gráta og kveina til ónýtis, heldur setti hún upp gleðisvip og ljet sem hún tæki ástaratlotum skipstjórnarmanns með blíðu; galt hún jáyrði sitt til að þau hjeldu brúðkaup í þeirri sæborg, er þau fyrst bæri að, varð skipstjórnamaður þá ánægður og sýndi henni kurteisi og lotningu í alla staði. Nú bar skipið loksins að borg einni og var varpað akkeri, en skipstjórnarmaður fór til lands, til að búa undir brúðkaupið. En meðan hann var á landi, leiddi stúlkan skipverjum fyrir sjónir, hvílíkum brögðum skipstjórnarmaður hefði beitt sig; var það bæði að hún talaði áheyrilega og hjet miklu fje, ef þeir vildu flytja hana aptur til unnusta hennar, þangað er þeir höfðu látið úr höfnum, enda skipuðust þeir líka við fortölur hennar, undu upp segl og hjeldu undan landi. En er liðnir voru nokkrir dagar, tóku þeir andviðri mikið og hrakti skipið afleiðis; urðu þeir þá að hleypa inn í næstu höfn. Þar var höfuðborg ein og bjó þar voldugur

konungur, komu embættismenn hans til að ransaka áhöfn skipsins og komast fyrir, hvert það ætlaði. Þókti þeim furðu gegna, að kona forkunnar fögur skyldi stýra skipinu, og sögðu þeir konungi af fegurð hennar og ljetu mikið yfir; varð honum þá hugur á henni og ljet biðja hennar sjer til handa. Tók hún þeim málum vel, að því er skilja mátti, og ljet konungur efna til hinnar dýrðlegustu brúðkaupsveizlu. En er allt var til reiðu, þá sendi hann dóttur vezírs síns með þrjátíu og níu yngismeyjum öðrum, og skyldu þær vera föruneyti brúðarinnar, er hún færi til lands. En stúlkan á skipinu tók þeim með mestu ástsemd og blíðu og bauð þeim að fá sjer hressingu í káetunni; var hún mikil um sig og tjölduð dýrindis dúkum, borðin hlaðin sælgætis rjettum, og settust nú meyjarnar til að njóta fagnaðar þess, er fram var reiddur. En á meðan sendi stúlkan burt með bátana, sem þær voru komnar á, og ljet skila til konungs að meyjarnar mundu verða úti á skipi hjá sjer þangaðtil að næsta morgni, en þá mundi hún fara með þeim til lands. Svo var drottningarefnið ljúft í viðmóti við gesti sína og yndislegt í látbragði, að öllum fannst stórmikið til koma og var hin mesta unun að borðhaldinu. En hitt kom þeim heldur óvart, er stúlkan skipaði mönnum að ljetta akkeri og hótaði hverjum þeim með lífláti sem ekki þegði, eða gerði nokkurt háreysti á höfninni. Þetta var um miðnætti og komst skipið klaklaust út á haf. Urðu meyjarnar dauðhræddar, en hún sem skipinu stýrði brá sjer hvergi; sagði hún þeim frá æfintýri sínu og bjet þeim að þær skyldu komast heilu og höldnu til átthaga sinna, ef hún aðeins næði að finna unnusta sinn. Var hún næsta vingjarnleg við þær, og fengu þær smámsaman svo góðan þokka á henni, að þær gleymdu öllum áhyggjum og urðu henni svo vinhollar, að þær mundu aldrei hafa skilið við hana, ef þær hefðu sjálfar mátt ráða. Nú er þær höfðu siglt í nokkrar vikur, þá mátti til að snúa þar að landi, er fyrst kom í augsýn, til að afla vatns og vista. Lagðist skipið við akkeri og fór stúlkan til lands með fylgikonum sínum. Þá komu ræningjar, slóu hring um þær og hótuðu að leggja þær í bönd. En stúlkan sýndi sömu hugprýði og fyrrum; bað hún hinar að leyna hræðslunni, en sagði við ræningjaforingjann hlægjandi, að óþarfi væri að beita ofbeldi, því bæði hún og stallsystur hennar væru vaxnar upp

úr öllum skírlífis kreddum, og væri ekki um hvítt að velkja, því þær hefðu fyrir skemmstu helgað sig glaðværðum lífsins; sigldu þær frá einu landinu til annars sjer og öðrum til skemmtunar, og væri þeim ræningjunum guðvelkomið að hafa þær svo lengi hjá sjer sem þeir vildu. Ræningjunum þókti nú ekki margt að þessu; þeir lögðu óðar af sjer herklæðin og sóktu allskonar vistir til að gæða kvennfólkinu. Var nú sezt að dýrðlegri máltíð og ljet stúlkan sækja þangað óspart af víni úr skipi sínu. Nú varð gleði og glaumur mikill og tóku ræningjarnir að heimta ýmsar aðrar unaðsemdir enn krásirnar og vínið. En stúlkan hafði verið svo slóttug að hún kom svefnlyfjum í vínið; við það sefaðist losti ræningjanna og rann á þá ómegins höfgi. Nú brugðu þær stallsystur sverðum ræningjanna og drápu þá alla nema fyrirliðann; á honum bundu þær hendur og fætur með sterkum reipum. Síðan skáru þær af honum skeggið og hengdu sverðið um háls honum, til þess honum yrði enn skapsárara, er hann vaknaði og liti lík fjelaga sinna. Konurnar gengu nú í bæli ræningjanna og báru þaðan auðæfi þau er þeir höfðu rakað saman; því næst öfluðu þær sjer vatns og vista, fóru út á skip sitt, og ljettu akkerum, ljetu síðan ganga á haf og hugðu sjer til hreifings. Voru þær nokkrar vikur í hafi unz þær aptur bar í landssýn, sigldu þær þá inn á höfn eina mikla; lá umhverfis hana borg ein geysistór og glæsileg. Þar lögðust þær við akkeri og fór stúlkan í karlmannsföt og ljet fylgikonur sínar gera eins. Síðan reru þær að landi og hittu svo á, að allir staðarbúar voru sorgarbúnir, og var sú orsök til þess, að konungur þeirra var dáinn fyrir fám dögum. Nú hugðu allir að það væri einhver kóngsson er kominn var, og fannst mikið um hve föruneyti hans var glæsilegt; sögðu menn vezírnum nýmæli þessi, en hann hafði þá ríkisstjórn á hendi þangað til kosinn yrði nýr konungur. Þykir vezírnum einsog þetta sje guðleg bending, fer á fund konungssonar þess, er hann hyggur vera, og kveður hann virðuglega, biður hann að vera viðstaddan þegar konungs kosning fari fram og segir honum um leið, að það sje landsvenja, að þegar konungur deyji erfingjalaus, þá flykkist fólkið saman fyrir framan höllina; „þá er fugl nokkur látinn fljúga; mun hann setjast á öxl einhverjum, og skal sá við ríki taka, sem fyrir því happi verður.“ Kóngsson tók boði vezírsins og var honum

fylgt með sveinum sínum inní tjaldsal nokkurn, er opinn var til allra hliða. Var nú fuglinum sleppt lausum og renndi hann sjer fyrst hátt í lopt upp, en fleygðist síðan niður og flögraði stundarkorn uppi yfir hallarplássinu, en að lokum flaug hann inn í tjaldsalinn, þarsem kóngsson sat, settist á öxl honum og blakaði vængjunum. Þá laut vezírinn og allur mannfjöldinn ofan að jörðu, fleygðu sjer flötum og æptu: „Lengi lifi konungur sá, er forlögin hafa oss í hendur fengið!“ Stúlkan í karlmannsfötunum var leidd inn í konungshöllina og sett í hásæti; var síðan hátíðlega kunngjört, að hún væri sezt að völdum og æpti þá allur lýðurinn fagnaðarópi. Enda sá það fljótt á, að hana skorti ekkert sem til þeirrar tignar heyrir. Fám dögum síðar bauð vezírinn hinum nýja konungi, að gipta honum dóttur sína, tók hann því vel og var drukkið brullaup þeirra með mikilli vegsemd. En er konungur var kominn inn í svefnherbergið með brúðurinni, þá var hann fremur enn ekki fálátur við hana og afundinn; vjek hann sjer jafnan burt frá henni og lá liðlanga nóttina á bæn. Þegar móðir drottningar frjetti þetta kátlega atferli brúðgumans, þá þóktist hún ganga að því vísu, að það væri eingöngu sprottið af feimni og uppburðaleysi. Nú liðu fleiri nætur og skipaðist eigi að heldur; en þá gat brúðurin ekki þolað skapraun þessa lengur og sagði: „því genguð þjer að eiga mig, herra! fyrst þjer höfðuð óþokka á mjer?“ Komst þá stúlkan við og mælti: „Eg vildi eg væri það sem þjer haldið mig vera, en það er eg eigi, heldur er eg kona, sem ratað hefur í ólán sakir ásta sinna.“ Því næst sagði hún henni alla sögu sína frá því hún flýði úr föðurhúsum. Dóttur vezírsins rann saga hennar svo mjög til rifja, að hún hjet henni eilífri vináttu og þagmælsku, þangaðtil forlögin ljetu henni auðnast að finna unnusta sinn. En stúlkan hjet henni af sinni hálfu, að ef unnusti hennar kæmi, þá skyldi eitt verða brúðkaup þeirra, og hann verða eiginmaður þeirra beggja. Nú binda þær þetta fastmælum og bráir aptur af dóttur vezírsins. Og uppfrá þeirri stund lifðu þær glaðar hver með annari; önnur stýrði löndum svo öllum þókti snild á, hin gerði sig sem ánægðasta og auðsveipnasta og var ekki annað að sjá enn hún væri prýðilega gipt, en báðar þráðu þær mannsefni sitt með miklum áhuga. Nú með því að þar í höfuðborginni var

markaðsstaður flestra þjóða í heimi, þá hugkvæmdist stúlkunni ráð eitt til að finna aptur unnusta sinn, því hún þóktist ganga að því vísu, að hann mundi ferðast hvervetna til að leita hana upp. Hún ljet gera skrautlegt gesthús og hafa þar til reiðu bæði heit og köld böð handa ferðamönnum, auk alls annars, sem til hagræðis mátti vera. Þegar húsið var fullbúið, ljet hún gera heyrumkunnugt, að útlendir menn skyldu vera þar velkomnir hvaðan sem þá bæri að, og fá allt sem þeir þyrftu, þangaðtil þeir annaðhvort væru búnir að velja sjer bústað í borginni eða hjeldu áfram ferð sinni. Yfir hliði hússins ljet hún setja líkneski, myndað eptir sjálfri sjer og harla líkt; bauð hún varðmönnum að taka hvern þann útlending fastan, sem kannaðist við myndina, og fara með hann til hallarinnar. Að fám vikum liðnum kom faðir stúlkunnar og hafði hann farið margar þúsundir mílna um víða veröld til að leita hana upp, nam hann staðar við hliðið og varð litið á líkneskið; kallaði hann þá hátt: „Æ! hvað mynd þessi er lík veslings barninu mínu sem eg missti!“ Var honum þegar fylgt inn í höllina, og fengin skrautleg herbergi til íbúðar og margir þjónustumenn; en ekkert var honum sagt um það, hversvegna hann væri hafður í varðhaldi, eða hvers hann mætti vænta sjer. Skömmu síðar kom bróðursonur hans, og hafði hann verið óhuggandi frá því skipstjórnarmaðurinn ljek á hann; hafði hann flakkað úr einum staðnum í annan til að leita upp unnustu sína. Brá honum mjög við er hann sá líkneskjuna, stundi þungan og hnje í ómegin; báru varðmenn hann þá til hallarinnar. Þegar hann kom til sjálfs sín, þá furðaði hann stórum á því hvað þjónarnir voru kurteisir og viðgjörningurinn dýrlegur; spurði hann, því hann hefði verið tekinn fastur og var honum svarað: „Verið þolinmóður, herra! og hafið biðlund þangað til forsjónin lætur yður verða lausnar auðið.“ Rjett á eptir kom skipstjórnarmaðurinn til borgar þessarar og hafði hann ferðazt úr einni höfninni í aðra til að leita að skipi sínu; fer hann nú til gesthússins og æpir hástöfum er hann sjer líkneskjuna: „Mikil ósköp er það hvað þetta er líkt konunni fláráðu, sem stal frá mjer skipinu og svipti mig þannig aleigu minni.“ Fóru varðmennirnir með hann til hallarinnar og átti hann þar góðri vist að fagna. — Fáum dögum síðar komu þeir konungurinn og vezírinn sem stúlkan

sýrlenzka hafði gert svo illan grikk, þar sem hún strauk burt með dóttur vezírsins ásamt hinum þrjátíu og níu meyjum, er henni fylgdu; þegar þeir sáu myndina yfir gesthússhliðinu, fengu þeir ekki orða bundizt og sögðu: „En hvað mynd þessi er lík stúlkunni, sem rænti börnum okkar. Betur við gætum fundið hana sjálfa og hefnt okkar á henni.“ Að svo mæltu voru þeir handteknir og farið með þá til hallarinnar; var þeim vísað til herbergja, er samboðin voru tign þeirra. Skömmu seinna kom ræningjaforinginn og var honum meira í mun að hefna fjelaga sinna. Þegar hann kom að hliðinu og sá líkneskjuna, varð honum þetta að orði: „Hjer er þá mynduð meinvætturin, sem kvaldi mig verst! Eg vildi eg gæti fundið hana og látið hana snýta rauðu fyrir það að hún drap fjelaga mína.“ Og óðar hann fengi úttalað, tóku varðmennirnir hann fastan, bundu á honum hendur og fætur, og byrgðu hann í myrkvastofu einni í höllinni; hafði hann þar illa vist og aðbúnað. Þegar nú stúlkan sýrlenzka, er allir hugðu konung vera, hafði náð tangarhaldi á mönnum þessum, þá stefndi hún einn morgun fjölmenna samkomu, settist í hásæti og ljet leiða þá fram fyrir sig. En er þeir allir höfðu vottað henni lotningu sína, þá bauð hún þeim að segja, hvernig af stæðist um komu þeirra þangað til höfuðborgarinnar. Miklaðist þeim návist konungsins svo mjög, að enginn mátti orði upp koma. Þá mælti stúlkan: „Fyrst að þið þegið, þá skal eg tala,“ og sagði hún því næst æfintýri hvers eins, svo sem var; ljet síðan uppskátt, hver hún væri og faðmaði að sjer föður sinn og unnusta. Fór hún með þeim inn í önnur herbergi, sem innar voru í höllinni. Vezírinn varð stórfeginn, er hann hitti aptur dóttur sína, og konungur hans eigi síður, og jók það á gleði þeirra, að hinar konurnar voru þar líka. Skipstjórnarmaðurinn fjekk aptur skip sitt, en ræningja foringinn var brenndur á bálkesti. Nú var efnað til veizlu og að fárra daga fresti var drukkið tvígilt brullaup, er þær sýrlenzka stúlkan og vezírsdóttirin, vinkona hennar, giptust sameginlegum unnusta sínum; settist hann þá í konungssæti og undu konurnar báðar hag sínum sem bezt mátti verða. Konungurinn og vezírinn dvöldu þar um hríð við hirðina, og sneru síðan heimleiðis; en dóttir vezírsins og fylgikonurnar allar þrjátíu og níu, höfðu fest svo mikla ást við drottningu sína, að þær urðu kyrrar hjá henni, og giptust þær hinum

göfgustu hirðmönnum. En sú er sagan er um gerð, lifði vel og lengi þangað til dauðinn leiddi hana til grafarinnar, sem einhverntíma mun verða hvíldarbeður vor allra, þangaðtil upprisu eingillinn þeytir básúnu sína.

# Frá 664 til 670 nætur.

## Sagan af Ins-al-Wudschud og Wird-al-Ikmam.

Fyrir aldaöðli var soldán nokkur voldugur, Schamich að nafni; hjet vezír hans Ibrahim og átti dóttur, sem var allra kvenna fríðust, þeirra er þá voru uppi; var hún því kölluð Wird-al-Ikmam. Á ári hverju var Schamich soldán vanur að stefna til sín höfðingjum ríkisins og þeim mönnum, sem þóktu vera afbragð annara í hverskonar vísindum og listum; hjelt konungur þá á sinn kostnað og veitti stórmannlega. Höfðingjarnir sýndu konungi hugprýði sína í hernaðar íþróttum, er þeir ljeku fyrir honum, en hinir sýndu honum verk sín og voru menn, sem vit höfðu á, settir til að dæma þeim verðlaun, er þeirra voru maklegir. Það var einhvern dag, er hátíð þessi stóð yfir, að dóttir vezírsins sat uppi á svölum nokkrum á höllinni, er luktar voru gullgrindum; sá hún þaðan á leikana og fannst svo mikið um vænleik og vígfimi yngismanns nokkurs eðalborins, að ástin altók samstundis hjarta hennar. Hjet maður þessi Ins-al-Wudschud*). Sýndi hún hann einni vinstúlku sinni og fjekk henni brjef, er hún skyldi færa honum. Þóktist hann hafa himin höndum tekið, er hann átti slíkri ást að fagna; gekk hann daginn eptir framhjá loptsvölunum og sá svo mikið af fegurð hennar, sem sjeð varð fyrir gullgrindinni, fór hann svo burt þaðan, að hjartað brann í brjósti honum af elsku. Nú skiptust þau brjefum á degi hverjum og nær því á hverri stundinni; loksins mæltu þau sjer mót, því hvorugt rjeði sjer fyrir óþolinmæði. En nú tókst svo illa til, að vinkona vezírsdótturinnar týndi brjefi því, er tilgreindi bæði stundina og staðinn, og barst það í hendur vezírsins. Þókti honum virðingu sinni vansi búinn og ljet því samnættis flytja dóttur

*) þ. e. fullkomnun mannlegrar náttúru.

sína langt burt í höll nokkra, er hann átti; stóð höllin á ey í stóru vatni, er horfið var fjöllum og firnindum á alla vega. Var nú ekki annað sýnna fyrir stúlkuna enn taka því sem að hendi bar; en áður hún færi, ritaði hún orð þessi utan á svalirnar:

Særi eg þig, hús!
Að þú sagðan látir
Ungum unnusta
Minn ástartrega;
Herm þú hjartsára
Honum kveðju,
því á veg skal vinda,
þó ei viti hvert.

Skunda þeir með mig
Í myrkri nætur,
Felur för vora
Fagurlimi,
Skugga vængjum;
En skógarfuglar
Hefja grátklið
Á greinum úti.

Herma þeir skilnað
Heitsveini og mey;
Fylltan bölsbikar
Brátt skal tæma;
Byrla eg beiskan drykk
Blíðu vonar,
En án þín, ástvinur!
Er hún engu nýt.

Morguninn eptir gekk Ins-al-Wudschud fram hjá loptsvölunum í þeirri von, að hann mundi sjá unnustu sína; las hann það sem skrifað var á þær, og var svo um stund, að hann vissi ekki til sín fyrir harmi. En jafnskjótt sem hann rankaði við sjer aptur, þá rjeði hann af að fara burt frá hirðinni og leita unnustu sinnar.

Hann varp yfir sig munkakápu og gekk út úr borginni; fól hann sig handleiðslu drottins og gekk áfram í blindni, því ekki vissi hann, hvert halda skyldi. Var hann á flakki þessu í margar vikur, svo að hann sá hvergi neitt til unnustu sinnar. Þá bar svo til að hann var staddur í þykkum skógi, og mætti heljarmiklu ljóni; þókti honum örvænt, að hann fengi flúið undan því. Biður hann nú fyrir unnustu sinni og felur önd sína guði á vald; bíður svo þess að ljónið stökkvi á sig. En nú gafst honum fremur enn ekki undrunarefni, því ljónið gekk að honum með vinsemd og bjó konunglegt veglyndi í yfirbragði þess; sleikti það hendur hans og var sem það horfði á hann miskunar augum. Fyrst gekk það í kringum hann, en því næst lötraði það hægt og hægt áfram og bandaði höfðinu til Ins-al-Wudschuðs að hann skyldi fylgja því eptir. Hann gerði svo og vísaði ljónið honum veg í gegnum skóginn. Nú er ljónið klifraðist upp eptir klettum nokkrum, þá staðnæmdist það allt í einu við hellismunna, er læstur var járnhliði; þá bandaði það aptur höfðinu, sleikti á hönd Ins-al-Wudscuds og hvarf inn í skóginn En hann gekk að hellinum og drap á dyr; kom þar út einbúi virðulegur ásýndum og bauð hann velkominn, færði honum heitt vatn til fótlaugar og ýmsar hressingar. Sagði Ins-al-Wudschud honum upp alla sögu sína. Þá mælti einbúinn: „Þú ert eitt af óskabörnum hamingjunnar, því ella mundi ljónið hafa gleypt þig; skal þig að vísu eigi skorta mitt fulltingi og máttu treysta því, að áform þitt mun heppnast.“ Þakkaði Ins-al-Wudschud einbúanum góðvilja sinn. Sagði einbúinn honum, að nú væru tuttugu ár síðan hann hefði litið menska menn, nema hvað hann fyrir fáum dögum hefði verið á gangi um fjallið og sjeð landtjöld mörg hjá vatninu, hefði þar verið fjöldi mikill af skrautbúnu fólki, bæði konum og körlum. „Fór nokkuð af fólki þessu á skútu eina glæsilega, og mun það hafa flutt unnustu þína í höll þá, er stendur á ey nokkurri í miðju vatninu. Ef að svo er, þá muntu koma öllu þínu fram; en gætilega verður þú að fara. Skal eg nú hugsa um það í nótt, hvað eg get unnið þjer til liðsemdar.“ Að svo mæltu leiddi einbúinn gest sinn inn í afhús eitt, svo að hann mætti njóta þar hvíldar.

Nú er að segja af Wird-al-Ikmam hinni fögru, að hún tók ógleði mikla í varðhaldinu, og fengu fylgikonur hennar eigi með

neinu móti haft af fyrir henni. Hún reikaði harmþrungin í aldingörðunum kringum höllina og var þar að vísu fagurt og kröggt af fuglum í hverjum runni, svo að skógurinn ómaði af inndælasta söng; en enginn söngur fjekk henni yndis, nema blíðukvak dúfunnar og sorgarkliður næturgalans, og opt var það að hún sat stundunum saman á grasbekk einum og hlýddi á hvorttveggja, því henni þókti sem hún heyrði rödd elskhuga síns í hljómi þeirra. Reis hún ekki fyr upp af grasbekknum, enn hún varð að leita inn í höllina vegna náttfallsins. Víkur nú aptur sögunni til unnusta hennar. Hann hafði tekið á sig náðir, því hann var þreyttur eptir ferðina, enda var honum líka orðið hughægra við huggunarorð einbúans. Svaf hann fastasvefni langt fram á dag og vaknaði eigi fyr enn sól var hátt á lopti. Gerði hann bæn sína ásamt einbúanum, því næst mötuðust þeir báðir saman, og var ekki annað til vista enn mjólk, brauð og aldin. Síðan bað karlinn hann að fara inn í skóginn og sækja nokkra vöndla af pálmaviðar berki: bjó hann til úr þeim dálítinn bát, fjekk Ins-al-Wudschud og mælti: „Far nú ofan til vatnsins og set bát þenna á flot, mun hann fljótt verða svo stór að hann tekur þig. Skalt þú stíga í bátinn og fela allt annað forsjá drottins. Far nú vel og heill!“ Ins-al-Wudschud þakkaði einbúanum og kvaddi hann; gerði hann síðan svo sem fyrir hann var lagt. Og jafnskjótt sem hann hafði ýtt bátnum á flot, þá varð hann að hafskipi þrísigldu með uppdregnum seglum. Stje hann út á skipið og leið skammt áður það bæri úr landssýn. Var svo nokkra daga, að hann sá ekkert nema vatnið og himininn, en að lokum sá hann strönd eyjar nokkurrar; lenti hann þar og batt skipið við stóran trjestofn. Gekk hann síðan lengra upp á land; var þar fagurt um að litast, blómleg engi, tærir lækir og skuggasælir lundar; trjágreinarnar svignuðu af allskonar aldinum og fuglar sungu á limunum. Bergði Ins-al-Wudschud aldinum nokkrum til að svala þorsta sínum og fór svo leiðar sinnar, þangað til hann kom að húsi einu miklu með læstu hliði. Beið hann þar í þrjá daga svo að hann engan mann sá, en á hinum fjórða degi lauk maður upp hliðinu. Gekk hann þegar að Ins-al-Wudschud, og spurði, hver hann væri, hvaðan hann kæmi og hverra erinda hann færi. „Eg er frá Ispahan,“ ansaði komumaður. „Eg var á kaup-

ferð og rak mig hingað upp á ströndina. Týndust allir fjelagar mínir og komst eg einsamall lífs af.“ Hrundu manninum tár af augum er hann heyrði þetta og mælti: „Guð varðveiti þig frá öllu óláni eptirleiðis. Eg er líka frá Ispahan. Meðan eg var á æskuskeiði sókti voldug þjóð á hendur oss með her manns; var eg ásamt öðrum herleiddur frá ættjörðu minni og seinna seldur mansali; komst eg svo í þess manns hendur, sem nú er lánardrottinn minn. Bið eg þig nú einsog landa minn, að koma inn í höllina og njóta hvíldar, skulum við reyna að hafa af fyrir þjer þangað til forsjónin lætur okkur auðnast að komast heim í átthaga okkar.“ Ins-al-Wudschud tók boði þessu feginshendi og gekk inn í borgargarðinn; þar var apaldur hár og víðgreinóttur og hjengu í honum gullbúr allmörg með fríðum fuglum; þreyttu þeir kappleik sín í milli með hljóðfögrum söng, og þókti Ins-al-Wudschud sem þeir byðu sig velkominn. Spurði hann manninn, hver borgina ætti, og sagði hann, að Ibrahim vezír væri eigandi hennar; hefði hann látið flytja dóttur sína þangað, og vitjaði hann hennar einusinni á ári, til þess að sjá hvernig henni liði, og jafnframt til að byrgja hana og fylgdarlið hennar að því er þyrfti. Þegar Ins-al-Wudschud heyrði þetta, þá lá vid sjálft að hann æpti upp yfir sig af fögnuði, en samt stillti hann sig og blakkaði yfir því í hjarta sínu, að hann hafði fundið samastað unnustu sinnar. En henni kom að sínu leyti ekki til hugar að unnusti hennar væri svo nærstaddur; var hún þá fyrir löngu orðin dauðleið á einverunni og hafði ásett sjer að flýja þetta sama kvöldið úr varðhaldi sínu. Þegar myrkt var orðið af nóttu renndi hún sjer niður úr svefnhúss glugganum eptir silkifesti einni, er hún hafði fljettað úr sundurskornum klæðum; komst hún svo ósködduð ofan til jarðar. Flýði hún því næst í skyndi ofan til vatnsins og sá hún þar fiskiskútu eina; hjelt sá er skútuna átti, er hann sá hana ljómandi af fegurð, að hún væri andi, en er hún margsór að hún væri mennsk kona, þá trúði hann henni og leyfði henni að stíga út á skútuna. Gaf hún honum dýrindis gimsteina í launa skyni og beiddi hann að flytja sig yfir vatnið. Vatt þá fiskimaður upp segl og var vindurinn í fyrstu hagstæður, en er minnst vonum varði, brast á stórviðri og hröktust þau í þrjá daga fram og aptur í mesta háska, og rak skipið langt afleiðis. En að lokum

slotaði ofviðrinu og gerðist kyrt á vatninu; sá þá til lands. Og er skipið nálgaðist ströndina, sáu þau borg eina mikla og glæsilega. Lögðust þau við akkeri undir lystihjalla einum, er var fyrir framan höll konungsins. Nú bar svo til að Dara konungur sat uppi á hallarsvölunum með dóttur sinni til að viðra sig og skemmta sjer við víðsýnið út yfir höfnina, því hún var geysistór og alþakin skipum úr ymsum löndum. Sjer hann nú fiskiskútuna og býður mönnum að leiða fyrir sig skipherrann og skipshöfnina. Og er hann sá Wird-al-Ikmam hina fögru, þá undraðist hann stórum. Gat hann fljótt í vonirnar, að hún mundi mikilsháttar vera, er hún var svo skrautbúin og tígugleg í látbragði sínu; fjekk hann henni sæti á aðra hönd við dóttur sína og spurði hana um uppruna hennar og erindi; sagði hún honum æfintýri sitt skýrt og gagnort. Hjet konungur að veita henni ásjá og neyta allrar orku til þess að hún og unnusti hennar mættu ná saman; sendi hann og vezír sinn til Schamichs konungs með hinar dýrustu gjafir og bað hann senda Ins-al-Wudschud til hirðar sinnar. Og er vezírinn var kominn í ríkisborg Schamichs konungs, þá flutti hann þegar orðsending herra síns; svaraði konungur honum á þá leið, að Ins-al-Wudschud hefði fyrir ári síðan horfið frá hirð sinni og vissi hann ekkert hvar hann væri niður kominn; væri sjer það mikill harmur; kvaðst hann skyldu skipa vezír sínum að fara með sendiboðanum til að leita hann upp. Að nokkrum dögum liðnum lögðu vezírarnir báðir á stað, og vissu þeir ekkert, hvert fara skyldi. Loksins bar þá ofan að hafi því, er Kúnnus heitir; leigðu þeir skip eitt þar á ströndinni og sigldu til Túkkalla-eyjar og greindi vezír Schamichs samferðmanni sínum frá henni á þessa leið: „Fyrir mörgum öldum var ey þessi byggð af öndum. Svo bar til að dóttir eins af andakonungunum flaug ósýnileg yfir aldingörðum emírs nokkurs í Kairó; sá hún son emírsins liggja þar sofandi, því þetta var um heitasta tíma dags. Var hann bæði ungur og fríður og felldi hún þegar ástarhug til hans. Settist hún niður hjá honum og vakti hann; undraðist hann stórum er hann sá svo fagra konu hjá sjer og tók ástar atlotum hennar; skorti þar ekki blíðmæli og tryggðaheit af beggja hálfu. Að nokkrum stundum liðnum kvaddi kóngsdóttir unnusta sinn með þeim ummælum, að hún skyldi finna hann bráðum aptur; eptir það

hvarf hún úr augsýn honum. En emírssonurinn sat kyr og var alltaf að hugsa um æfintýri þetta, þangað til dögg tók að hníga á gras; þá sendu foreldrar hans þræla eptir honum, því þau voru hrædd um að hann kynni að verða sjúkur. Enn hann vildi ekki fara með þrælunum og talaði svo sundurlaust um unnustu sína, að þrælarnir hugðu hann vera orðinn brjálaðan og neyddu hann með valdi til að fara heim með sjer. Voru foreldrar hans hugsjúkir um hann og beiddu hann að neyta einhvers, en hann setti þvert nei fyrir; var hann dapur í bragði og gekk til herbergis síns, sat hann þar angistarfullur alla nóttina og þráði morgunstundina með óelju, því hann vildi fyrir hvern mun fara þangað, er unnusta hans hafði heitið að koma. Og er birta tók af degi gekk emírssonurinn ofan í lystigarðinn, og var þess skammt að bíða að unnusta hans kæmi; en rjett sem þau voru að sverja hvert öðru tryggðir, þá stóð móðir hennar allt í einu frammi fyrir þeim. Hafði hana grunað af háttalagi dóttur sinnar, að hún mundi vera í einhverju leynilegu ástabralli. Rauk hún þar í þau bæði, þreif í hár dóttur sinnar, barði hana, og jós yfir hana dynjandi skömmum, að hún, sem væri af öndum komin, skyldi festa ást við dauðlegan mann og gera ætt sinni slíka svívirðingu. En kóngsdóttir svaraði því einu, að agg og æði hennar væri til einskis, því elska sín væri óslítandi, og fyr vildi hún láta tæta sig sundur í þúsund parta, enn skiljast við elskhuga sinn. Emírssonurinn fjell fram fyrir fætur andadrottningarinnar og beiddi unnustu sinni miskunnar, fannst henni þá svo mikið um fegurð hans, að henni gekkst hugur við, og veitti samþykki sitt til þess að ráðahag þessum yrði framgengt. Var brullaup þeirra drukkið með mikilli vegsemd og dvöldu þau síðan á ey þessari; var eyjan kölluð Túkkalla, því það var nafn kóngsdóttur. Nú þó margar aldir sjeu liðnar síðan þetta gerðist, þá stendur þó höll þeirra enn í dag, og er eg eigandi hennar. Í þeirri höll mun eg finna einkadóttur mína, því eg ljet fyrir ári síðan flytja hana þangað, til að firra hana ásókn yngismanns nokkurs, sem hún var farin að leggjast á hugi við, þó mjer væri það móti skapi.“ Nú stigu báðir vezírarnir á land og gengu til hallarinnar. Frjetti Ibrahim þar, að dóttir hans væri strokin burt og hefði hvergi fundizt, þó leitað hefði verið í hverjum krók og kima

á eynni; kom honum fregn þessi bæði illa og óvænt. Á meðal þjónanna sá hann ungan mann útlendan, raunalegan í yfirbragði; spurði hann, hver hann væri, og var honum sagt, að hann væri ungur kaupmaður frá Ispahan, sem hefði verið tekinn af skipbroti. og hefðu menn sjeð aumir á honum og veitt honum aðhjúkrun. Beiddi nú Ibrahim hinn vezírinn að fara heim aptur til Dara konungs og segja honum, að leit þeirra hefði orðið árangurslaus; skyldi hann og láta kaupmanninn fylgjast með sveit sinni til Ispahan. Kvöddust nú vezírarnir báðir og fór sína leiðina hver. Geðjaðist vezír Dara konungs prýðilega að háttsemi kaupmanns, og sat opt á tali við hann einslega. Jókst þá kaupmanni djörfung og spurði, hverra erinda vezírinn hefði tekizt langferð þessa á hendur. Sagði vezírinn honum þá frá því, er Wird-al-Ikmam hin fagra kom til Dara konungs; hefði hún orðið honum vel að skapi og væri það einlæg ósk hans að snúa ástarharmi hennar í fögnuð. Þá gat Ins-al-Wudschud eigi lengur stillt sig, og sagði vezírnum, hver hann var. Þókti vezírnum stórvænt um, að fundum þeirra hafði borið saman og sýndi honum virðingu í alla staði. Gaf hann Ins-al-Wudschud skrautleg klæði og hjarnaði hann nú við og gerðist blómlegur í yfirbragði, og hafði fullkomlega náð sjer aptur. bæði að fríðleik og karlmennsku, þá er hann kom í aðsetursborg Dara konungs. Sagði nú vezírinn drottni sínum, hversu æskilega ferðin hefði tekizt; kvaðst konungur þegar vilja sjá Ins-al-Wudschud og gekk hann þá fram fyrir hásæti hans; var hann eins kurteis í látbragði og hinir leiknustu hirðmenn. Bauð konungur honum sæti og hafði yndi af að heyra hann segja frá æfintýrum sínum, því hann tilfærði opt vísur ýmsra skálda og ljet sjálfur fjúka í kveðlingum; kom það ávallt vel við efni sögunnar. Þókti konungi vænt um, að hann nú gat látið ráðahag elskendanna framgengt verða, og var drukkið brullaup þeirra Ins-al-Wudschuðs og Wird-al-Ikmam hinnar fögru. Gerði Dara mann á fund Schamichs konungs og Ibrahims vezírs, því báðir voru í villu og harmaði annar vildarmann sinn, en annar dóttur sína. Hjelt Dara konungur brúðhjónunum nokkra stund við hirð sína, en gaf þeim síðan orlof til ættjarðar sinnar og sæmdi þau stórgjöfum. Komust þau farsællega heim og tók konungurinn og vezírinn þeim með miklum fögnuði;

sýndi vezírinn slíka blíðu, að harðýðgi háns gleymdist með öllu. En hjónin ungu uunust vel og nutu þessa heims fagnaðar, allt þangað til eingill dauðans burtkallaði þau.

## Æfintýri Harúns Alraschiðs.

Einusinni var kalífinn Harún Alraschid í illu skapi og spurði Mesrúr þræl sinn, hvernig hann ætti að hafa úr sjer ólundina; rjeði Mesrúr honum til að ganga sjer til skemmtunar í aldingarði sínum, en hann tók því fjærri. Þá mælti Mesrúr: „Eigið þjer ekki konur í kvennabúri yðru, hverja annari fegurri?“ „Vera má að svo sje,“ ansaði kalífinn, „en mjer leiðast þær allar.“ „Skoðið þjer þá gersemarnar í fjehirzlum yðrum, hver veit nema þjer hafið gaman af því!“ — „Eg er nú orðinn öllu þessu svo alvanur, að mjer þykir ekkert til þess koma.“ — Stefnið þá ráðgjöfum yðrum og fræðimönnum á fund, og munuð þjer hafa ánægju af tali þeirra.“ — „Nei!“ sagði kalífinn, „guð varðveiti mig frá því fíflaþingi.“ — „Nú, fyrst þjer ekki hafið gaman af neinu, þá bregðið sverðinu og höggið af mjer höfuðið; hver veit nema yður verði skemmt, þegar þjer sjáið úr mjer blóðið.“ Þetta þókti kalífanum hnittilega sagt og hafði gaman af. „Já! ef satt skal segja,“ mælti hann, „þá er enginn hlutur sem mig langar til núna, nema að heyra sögu; farðu og vittu hvort nokkur sá er á meðal manna minna, sem getur sagt mjer sögu.“ Fór Mesrúr þá og kom aptur með Alý-Ebn-Mansúr frá Damaskus; sagði hann kalífanum sögu tveggja elskenda frá Bagdad, og hafði hann ekki meira gaman af henni enn svo, að hann tók að dotta, og beiddi sögumann að hætta. Var nú kalífanum horfin öll löngun til að heyra sögur og rjeði þann það af, að ganga um borgina í dularbúningi, ásamt Gíafar vezír sínum og þrælnum Mesrúr. Reyndi vezírinn til að telja hann af tiltæki þessu og leiddi honum fyrir sjónir, að vel mætti svo fara, að einhver sem ekki þekkti hann, kynni að slást upp á hann og reita hann til reiði. „Fari það sem má,“ mælti kalífinn, „það skal ekki verða mjer þykkjuefni.“ Gengu þeir nú út úr höllinni um leynidyr nokkrar; og sem þeir höfðu ráfað um stræti nokkur, þá bar þá að byggingu einni glæsilegri. Var hliðið skrautlegt mjög og festur yfir gulllampi;

silkitjald hjekk fyrir dyrum og voru ofin í það orð þessi með gullnu letri: „Sá sem spyr um það, er hann eigi um varðar, hann mun fljótt verða þess vísari, sem ógeðfelt er.“ Varð nú kalífinn forvitinn og settist hjá hliðinu; bauð hann Mesrúr að hrópa og biðja um einn bikar af köldu vatni handa ferðamönnum nokkrum, sem fátækir væru og dauðþyrstir. Kom þá þræll nokkur til dyra og virti fyrir sjer komumenn, skilaði hann til húsbónda síns, að komnir væru þrír menn virðuglegir ásýndum, og beiddust hressingar. Var þeim þá boðið inn; það þekktist kalífinn og var þeim fjelögum fylgt inn í skrautlegt herbergi. Þar var fyrir ungur maður, kurteis og alltilegur, fagnaði hann þeim vel og ljet þá engan frið hafa fyr enn þeir settust í sæti. Sjer kalífinn að silkitjöld hanga á öllum veggjunum, og voru ofin í þau sömu orðin, sem á hliðinu stóðu. Voru nú hinir dýrlegustu rjettir á borð bornir og settust allir til matar; en er borð voru upp tekin leiddi ungi maðurinn gesti sína inn í annað skrautlegra herbergi; var þar mesta gnægð af hverskyns aldinum og vínum. Tuttugu fríðar dansmeyjar frömdu ýmsa dansleika með listilegu fótataki og jók það mikið á skemmtunina. Og er fyrsti flokkurinn söng og dansaði, varð kalífinn svo frá sjer numinn, að hann reif í sundur klæði sín. Næstu flokkarnir höfðu sömu áhrifin á þá Gíafar og Mesrúr, en þegar síðustu flokkarnir sýndu snild sína, þá reif húsbóndinn sjálfur klæði sín í sundur og leið í öngvit. En meðan þjónar hans voru að koma honum til sjálfs sín aptur og færa hann í ný föt, þá sá kalífinn rákir á síðu hans og brjósti, og var þesslegast, sem þær væru komnar af keyrishöggum. Varð hann þá ákaflega forvitinn og tjáði ekkert þó Gíafar andæfði í móti; spurði hann húsráðandann, hvernig á því stæði, að hann hefði orðið fyrir slíkri refsingu. Sárnaði manninum að gesturinn skyldi geta verið svo óskammfeilinn, eptir að hann hafði veitt honum af slíkri alúð. Tók hann svo til máls: „Hafið þið ekki lesið varnaðarorðin á hliði mínu og á veggjunum? Þið báðuð mig um einn bikar vatns, og eg hjelt ykkur hátíð. En nú skuluð þið ekki sleppa hjá hegningunni.“ Fleygði Gíafar sjer fram fyrir fætur hinum unga manni og sagði að þeir væru ekki nema fáfróðir almúgamenn frá Balsora. „Ef að svo er,“ ansaði maðurinn, „þá skal eg fyrirgefa ykkur fruntaskapinn. Farið hjeðan

í friði, en reynið ekki í annað sinn að seðja forvitni ykkar með ósvífni, svo þið ekki takið refsingu fyrir, því ekki er sagt þið hittið alltjend eins vorkunlátan húsdrottinn og eg er.“ Fór nú kalífinn með fylgdarmönnum sínum. En óðara enn hann var kominn heim í höll sína, bauð hann Gíafar að senda varðmenn; skyldu þeir leiða hinn unga mann á fund hans og rífa hús hans niður að grunni. Þá mælti vezírinn: „Herra! þetta ráð er yður til ósæmdar, og er það gagnstætt ráðagerð yðar, þegar vjer bjuggumst dularbúningnum og hófum göngu vora. Maðurinn þekkti oss ekki, og vjer gættum ekki heldur varnaðarorða þeirra, er letruð voru á húsi hans. Bytnar sú sök á oss, en ekki honum.“ Sefaðist reiði kalífans við þetta og fann hann að Gíafar hafði rjett að mæla. „En hvað sem því líður,“ mælti kalífinn, „þá vil eg samt sjá hinn unga mann og heyra sögu hans.“ „Svo skal vera,“ ansaði Gíafar, og næsta morgun ljet hann boða manninn á fund kalífans. Kom hann samstundis og varð þess vísari, að hann hafði veitt kalífanum beina í húsum sínum og smánað hann í orði. Sagði hann kalífanum sögu sína og komst brátt í kærleika mikla við hann; þurfti hann eigi annað enn að segja honum einhverja skemmtilega sögu til að fá óskum sínum framgengt. Sagði hann kalífanum einhverju sinni sögu þá, er nú skal greina.

# Frá 671 til 682 nætur.

## Sagan af Alífu, dóttur Myr-Dschyhans, konungs í Hindlandi og Jússúf, Sóhúls syni, þess er konungur var í Sindlandi.

Myr-dschyhan hefur konungur heitið í Hindlandi; hann var barnlaus maður og hniginn mjög á efra aldur þegar saga þessi gerðist. Þókti honum illt til þess að hyggja, að ríki sitt skyldi síðar falla undir annan ættlegg. Það var eitthvert kvöld að hann var í öngum sínum út af þessu; þá heyrði hann rödd, er sagði: „Rís upp, konungur! og vitja konu þinnar í nótt; mun hún þá geta barn við þjer. Verði það sonur, þá mun hann auka orðstír ættar þinnar, en verði það dóttir, þá mun hún baka þjer mikla hryggð og ógæfu.“ Hlýðnaðist konungur röddinni og í rjettan tíma varð drottning ljett-

ari og ól meybarn; fjekk það foreldrunum mikillar hryggðar og ætluðu þau að lífláta barnið, en það brosti þá svo blítt og fagurt, að þeim fjellust hendur. Var mærin uppfædd á laun, og er hún var tólf vetra gömul, var hún flutt í höll eina ramgjörva, er stóð miðt út í stöðuvatni nokkru; ætluðu foreldrarnir svo að koma í veg fyrir, að spádómurinn rættist. Var höllin hin glæsilegasta, en eigi máttu þar vera hjá kóngsdóttur, nema konur einar; enginn karlmaður mátti svo mikið sem koma fram á vatnsbakkann, nema þegar vistir voru fluttar til kvenna þeirra, er í höllinni voru. Skyldu þó konurnar sitja kyrrar í herbergjum sínum, meðan verið var að ferma og afferma og bera á land. Konu nokkurri gamalli, sem fóstrað hafði kóngsdóttur, var falið á hendur að gæta hallarhliðsins. Liðu svo þrjú ár, að Alífa hin fagra var í þessu glæsilega fangelsi, en fyrirskipun forlaganna var óraskanleg og varð því varhygð Myr-dschyhans til ónýtis.

Nú skal nefna til sögunnar konungsson einn, er Jússúf hjet. Hann var ungur og hvers mann hugljúfi, en þókti í meira lagi kvennhollur. Hafði hann reitt föður sinn til reiði og flúið úr hirð hans; kom hann ofan að vatnsbakkanum við fáa menn. Nú varð honum forvitni á, hver búa mundi í höllinni, sem stóð í miðju vatninu; svam hann þá yfrum og kom að hliðinu harðlæstu; kallaði hann hástöfum og bað að sjer yrði hleypt inn, en enginn svaraði. Þá skrifaði hann á brjefmiða, að hann væri útlendingur og beiddist líknar, því hann ætti engann að; festi síðan miðann við ör og skaut yfir múrinn. Nú bar svo til að kóngsdóttir var á gangi í einum af hallargörðunum og fjell miðinn niður við fætur hennar. Talaði hún svo um fyrir fóstru sinni, að hún ljet til leiðast og lauk upp hallarhliðinu; og óðara en Alífa sá Jússúf, þá rann henni ástarhugur til hans og honum til hennar. Var honum nú boðið inn í höllina og sýnd hin mesta virðing; kom þar skjótt að kóngsdóttir og kóngsson áttu með sjer fundi og urðu þeir með mikilli blíðu. Var nú gleði og fögnuður í höllinni, en förunautar kóngssonar biðu á vatnsbakkanum í þeirri von, að hann mundi koma til þeirra aptur.

Nú er að segja af Sóhúl konungi, að hann þráir mjög að sættast aptur við son sinn; var hann orðinn þess vísari, hverja

leið hann hafði farið, og sendi bróðurson sinn, er Viah hjet, á fund hans; skyldi hann biðja hann að hverfa heim aptur til Sindlands. Kemur nú Viah á vatnsbakkann og segja þeir honum fjelagar Júsúfs, að hann hafi komizt inn í höllina, en upp frá því hafi þeir ekki haft neina spurn af honum. Skrifaði þá Viah á miða til kóngssonar, það sem brýnust var þörf til, og kvað sjer vera hug á að finna hann; festi síðan miðann við ör og skaut henni yfir hallarmúrinn; kom hún niður í lystigarði þar sem þau Júsúf og Alífa voru að ganga sjer til skemmtunar. Las kóngsson miðann og þókti svo vænt um, að faðir hans hafði fyrirgefið honum, að hann fastrjeði þegar, að fara heim aptur og sýna honum hlýðni upp frá því. Sagði hann kóngsdóttur fyrirætlun sína, en hún ljet sjer fátt um finnast; en kóngsson huggaði hana og sagði að það væri ekkert nema sonarleg elska, sem drægi sig frá henni og þó eigi nema um stundarsakir. Lagði hún fast að honum, að lofa sjer með, en Júsúf leiddi henni fyrir sjónir, að þesskonar tiltæki gæti bæði spillt mannorði hennar og reitt föður hennar til reiði. En ef hún vildi bíða með þolinmæði, þá mundi Myr-Dschyhan auðtalinn á að samþykkja ráðahag þeirra; en þangaðtil það kæmist í kring skyldi hann jafnaðarlega finna hana og skyldu fundir þeirra eigi verða á annara vitorði. Varð þá Alífa að láta undan og ljet Júsúf ráða; en er hann lagði á stað, þá sárbændi hún hann með kossum og tárum, að vera ekki lengi í burtu. Hjet hann henni því með einlægu hugarþeli, því hann unni henni fölskvalaust, en nauðsyn dró til þess, að hann hlýddi boðum skyldunnar. Nú syndir Júsúf í annað sinn yfir vatnið og heldur boganum og örfamælinum yfir höfði sjer; kemur hann til fjelaga sinna, og var þeim þá farin að lengjast biðin. Fagnaði Viah honum með mestu ástsemd og sagði honum allt sem gerzt hafði við hirðina meðan hann var í burtu. Kóngsson sagði honum aptur frá æfintýri sínu, er hann hitti Alífu hina fögru, en beiddi hann launungar á því; hótaði hann og fylgdarmönnum sínum hörðu, ef þeir ekki gættu óbrigðilegrar þagmælsku um veru sína í höllinni.

Þeir kóngsson og Viah komust nú heilu og höldnu heim í Sindland; fagnaði konungur Júsúf syni sínum með mikilli elsku og viðkvæmni; voru haldnar dýrlegar veizlur í minningu þess, að

hann var heim kominn. Var það líkast sem sigurför, er Jússúf hjelt innreið sína í borgina; vafði konungur hann í fang sjer og fjekk þá enginn tára bundizt, því Jússúf iðraðist þess af hjarta, er hann hafði brotið í móti föður sínum. Þó varð enn hjartnæmilegri fundur Jússúfs og móður hans, og lá við sjálft að hún dæji af fögnuði. Þá urðu líka konur hans stórfegnar, er þær sáu hann heim kominn, og var hvervetna gleði og glaumur í konungs höllinni. En allt fyrir það þó Jússúf þækti vænt um að vera kominn heim í hús foreldra sinna, þá var hann samt angurvær undir niðri. því hann þráði Alífu sína, er hann unni svo mjög. Gerði hann því ekki orð fyrir neinar af konum sínum, heldur fór hann aleinn til svefnherbergis síns um kvöldið og hugsaði um ekkert nema Alífu eina. Liðu svo nokkrir dagar, en þá eirði Jússúf sjer eigi lengur; stje hann á bak hesti þeim, er hann átti beztan í eigu sinni, og ljet þræl nokkurn tryggan setjast fyrir aptan sig; sá hjet Hallel. Reið hann svo á náttarþeli frá höll föður síns og þeysti hart sem vindur bljesi unz hann kom á vatnsbakkann. Tók hann þar reiðtygin af hestinum og faldi í skógarrunni; reið síðan á sund út í vatnið með þrælnum og komst klaklaust yfrum. Varð kóngsdóttir óumræðilega glöð, er hún hitti aptur unnusta sinn, og var hann að sínu leyti eins feginn fundi þeirra. Voru þau nú saman um mánaðar tíma og kom Jússúf eigi til hugar að skilja við unnustu sína. En á þrítugasta deginum bar svo til, að Jússúf og Alífa sátu á lystihjallanum við höllina; sáu þau þá bát einn koma á vatninu. Kannaðist kóngsdóttir undireins við, að þar var einn af bátum föður hennar og bað kóngsson að fara burt á meðan hún fagnaði mönnum þeim, er á bátnum væru. Gekk Jússúf inn í herbergi eitt, er vissi út að vatninu; gat hann sjeð þaðan út um glugga, hvað á bakkanum gerðist. En nú brá honum heldur enn ekki í brún, því ungur maður stje út úr bátnum og hljóp í fang kóngsdóttur. Þókti honum sem hún tæki ástar atlotum hans, og gengu þau nú bæði til hallarinnar með kjassi og blíðlæti. Hjelt Jússúf að maður þessi væri sambiðill sinn og kom eigi til hugar að hann kynni að vera náfrændi Alífu; afbrýðisemin blindadi svo mjög hug hans og hjarta að hann ásetti sjer að skilja við unnustu sína fyrir fullt og allt. Skrifaði hann henni brjef og ámælti henni í því fyrir fals og

ótryggð; síðan bað hann eina af ambáttunum fyrir brjefið, stje á bak hesti sínum ásamt Hallel, og tvímenntu þeir aptur yfir vatnið. Varð honum litið aptur til hallarinnar, þar sem hann fyrir skemmstu hafði verið svo sæll og ánægður, og hugsaði hann til þess með trega. Eptir það sneri hann sem hraðast heim í átthaga sína og var honum þar ágætlega fagnað af föður sínum og frændliði. Tók hann nú það ráð, til að uppræta endurminninguna um fegurð Alífu, sem hafði reynzt honum ótrú, að hann sökkti sjer niður í munaðarlífi með konum sínum, er hann áður hafði forsmáð. En það er af Alífu að segja, að hún átti sjer einskis ills von; það var Sóhúl frændi hennar, sem kominn var og þókti henni stórvænt um það. Spurði hún hann úr spjörunum og ljet hann segja sjer öll nýmæli þau er orðið höfðu við hirð föður hennar. En meðan sem hæzt stóð á því, þá fær hún brjefið frá Jússúf. Gekk hún inn í herbergi sitt og las það; fjekk það henni að vísu hryggðar, en með því hún vissi sjálfa sig saklausa, þá huggaðist hún fljótt aptur, því hún fulltreysti því, að Jússúf mundi sjá villu sína og koma til hennar aptur. Ljet hún því á engu bera við frænda sinn, og sýndi honum sömu vinsemd og áður einsog ekkert væri til ama. Kvaddi hann hana nokkrum dögum síðar og sneri heim aptur í ríki Myr-dschyhans, skildi hann eptir hjá henni þræl sinn. Hann hjet Alí-ben-Ibrahim og var hinn trúlyndasti. Þegar Sóhúl var farinn, lagði Alífa alla stund á að ávinna sjer hylli þrælsins, því hún hafði sjeð á honum, að hann var ljúfmenni. Enda bauðst hann af sjálfsdáðum til að vera milligöngumaður milli hennar og Jússúfs, og lagði hann nú á stað með brjef til hans. Svam hann yfir vatnið og flýtti sjer allt hvað af tók til höfuðborgarinnar í Sindlandi. Þegar hann var þangað kominn, beiddist hann að mega tala við Jússúf kóngsson einslega, og var honum það veitt; fjekk hann kóngssyni brjef Alífu. Nú með því reiði Jússúfs hafði sefazt nokkuð, þá varð hann frá sjer numinn af gleði, er hann las brjefið og hlýddi sárfeginn á allt það er Ali-ben-Ibrahim sagði honum. Kvaðst hann nú vera sannfærður um, að Alífa hefði verið sjer trú, og iðraði sig þess af hjarta, að hann hefði tortryggt hana og farið svo skyndilega frá henni; skyldi hann nú þegar leggja á stað til hennar næstu nóttina. Þegar náttsett var orðið ljet Jússúf Hallel útvega

allt það er til ferðarinnar þurfti og fór síðan á stað með honum og Ali-ben-Ibrahim. Að fáum dögum liðnum komu þeir að vatninu og syntu yfir til hallarinnar; fagnaði Alífa komu þeirra meira enn frá verði sagt og var hún nú ánægð eins og fyrrum. Minningin um það er síðast hafði til borið, varð enda til þess, að Jússúf og Alífa undu nú betur æfi sinni enn nokkurn tíma áður. Gáfu þau Ali-ben-Ibrahim skrautfagra og dýrmæta gimsteina og sneri hann síðan heim aptur til hirðar Myr-Dschyhans. Þegar hann var þangað kominn, ljet konungur boða hann á fund sinn, því honum var mikill hugur á að vita, hvernig dóttur sinni liði. En meðan hann var að spyrja Ali-ben-Ibrahim tíðinda, þá vildi svo til, að túrbaninn fjell af höfði hans, og ultu þá gimsteinarnir niður og með þeim kver eitt lítið, en á það hafði hann ritað sjer til gamans um ástfarir Jússúfs og Alífu. Þekkti konungur undireins suma af gimsteinunum og tók kverið upp af gólfinu og las það; varð hann hamslaus, er hann sá að öll varhygð hans hafði orðið árangurslaus þar sem forlögin voru annarsvegar, og að ætt hans var orðin fyrir svívirðingu. Spurði hann Ali með þjósti, hvort Jússúf væri hjá dóttur sinni ennþá, og svaraði hann skjálfandi, að svo væri. Skipar þá konungur her sínum að taka sig upp, segir að nú skuli halda að vatninu og setja þar herbúðir. Ali var laminn nær því til bana, settur í fjötra og hnepptur í myrkvastofu. En svo var hann tryggur elskendunum, að hann mútaði dýflissuverðinum til að koma brjefi til kóngsdóttur með áreiðanlegum manni; sagði hann henni í brjefi þessu, hvernig farið hafði og ætlaðist svo til að hún skyldi flýja með Jússúf til átthaga hans. Fengu elskendurnir vitneskju þessa degi síðar. Báru þau saman ráð sín og varð sú niðurstaðan, að Jússúf og Hallel skyldu hverfa aptur til Sindlands en kóngsdóttir verða eptir í höllinni. Samt skyldu ambáttirnar segja konungi þá er hann kæmi, að hún væri strokin burt með unnusta sínum; mundi þá konungur ráða úr eitt af tvennu, annaðhvort að fara heim aptur við svo búið, eða elta Jússúf með herliði sínu, en hann hefði svo fljótan hest, að hann mundi hæglega draga undan. En þegar Jússúf væri heim kominn, skyldi hann gera menn á fund Myr-Dschyhans og láta hann vita, að hann hefði tekið sjer dóttur hans til eiginkonu, biðja hann að virða sjer til vorkunar

og leyfa sjer að heita honum hollustu einsog tengdaföður sínum. Þar með skildu þau Jússúf og Alífa, en þessu áformi þeirra átti ekki framgengt að verða.

Nokkrum stundum eptir að Jússúf var farinn, kom Myr-dschyhan til hallarinnar, og sögðu ambáttir Alífu honum, að hún væri flúin burt með kóngssyninum. Grennzlaðist konungur ekki frekara eptir því, en sneri sem hraðast aptur til liðs síns og elti Jússúf, en svo fór, að hann komst heilu og höldnu inn í höfuðborgina á Sindlandi. Segir hann föður sínum frá æfintýri sínu, en hann lætur sjer vel líka að hann eigi Alífu og gerir menn á fund Myr-dschyhans konungs. En það er af honum að segja, að hann lætur eld og eggjar geysa um Sindland og tekur sendimönnum með hroka og ofdrambi; skipar þeim að fara aptur til herra síns og segja honum, að hann muni aldrei láta sjer fyrnast, að dóttir hans var glapin. því skuli hann fara herskildi um Sindland, rífa höfuðborgina niður að grunni og hafa sjer líflát hans og sonar hans að augnagamni. En er Myr-dschyhan konungur svaraði svo illa og ófriðvænlega. þá var þeim feðgum nauðugur einn kostur að búast til varnar; drógu þeir að sjer lið sitt og hjeldu til móts við óvinaherinn. Varð þá orrusta mikil og fjell Myr-dschyhan. En eptir orrustuna sýndi Jússúf mildi og mannúð við þá sem ósigurinn höfðu beðið. Ljet hann smyrja lík konungs og flytja það á skrautlegum börum til aðsetursborgar hans með fjölmennu föruneyti; var það greptrað þar í legstað forfeðra hans. Sendi hann og brjef til móður Alífu; kvað hann sjer hafa runnið mjög til rifja, hversu fór fyrir manni hennar, en sjer hefði verið nauðugur einn kostur að berjast við hann. Lýsti hann og fyrir henni elsku þeirri, er hann hefði á dóttur hennar og óskaði þess, að hann mætti búa saman við hana alla æfi. Veitti drottning fúslega samþykki sitt til þess og sókti þá Jússúf Alífu til hallarinnar og flutti hana til höfuðborginnar á Sindlandi; var brúðkaup þeirra haldið þar með miklum veg þegar sorgartíminn var á enda. Var þá kóngssyni næst fyrir hendi að skýra kalífanum Mamún í Bagdad frá því er gerzt hafði. Skrifaði hann honum brjef og sendi stórgjafir um leið; þar á meðal voru tíu ambáttir, sem voru mesta afbragð til kveðskapar, söngs og dansleika. Mæltu þær ljóð af munni fram við kalífann til þess að tjá honum, hversu

þær væru heimfúsar til átthaga sinna, og fengu þau honum svo mikils, að hann ljet munaðarfýsn sjálfs sín lúta í lægra haldi fyrir vilja þeirra, og sendi þær aptur til Jússúfs með embættismanni nokkrum, og þar með opið brjef þess efnis, að Jússúf skyldi taka við ríki því, er Myr-dschyhan konungur hafði ráðið yfir. Lifðu þau Jússúf og Alífa lengi og vel og áttu margt barna, en þegnar þeirra unnu þeim hugástum.

## Vezírinn ráðvandi, sem ranglega var settur í dýflissu.

Einusinni var vezír, sem var margreyndur að rjettlæti. Hafði óvinum hans tekizt að rægja hann, svo að honum var varpað í myrkvastofu rannsóknarlaust; fjekk hann þar eigi annað til viðurværis enn vatn og brauð. Þá er saga þessi gerðist, var hann búinn að sitja þar í sjö ár við illan kost. Vildi þá svo til að soldáni varð gengið fram hjá húsi ráðgjafa síns fyrveranda, sem ratað hafði í slíka ógæfu. Var soldán í munkabúningi, því það var vandi hans að ganga um borgina í dularklæðum. Sjer hann að húsið er opið og þjónarnir í óða önn að sópa herbergin og hafa allan viðbúnað til að fagna húsbónda sínum; sögðu þeir, að hann hefði látið skila til þeirra úr fangelsinu, að þenna dag mundi hann aptur ná sáttum við lánardrottinn sinn og flytja heim aptur í hýbýli sín. Þetta þókti soldáni kynlegt, því ekki kom honum til hugar að gefa vezírnum frelsi; hjelt hann að vezírinn mundi vera orðinn ærður, er hann hafði svo lengi setið í fangelsinu. Rjeði hann það af að fara þangað einsog hann var, í dularbúningnum. Kom hann til fangelsisins og hafði með sjer nóg af brauði og kryddkökum; sagði hann dýflissuverðinum, að hann yrði að binda enda á loforð nokkurt og bað hann leyfis til að útbýta brauðinu á meðal bandingjanna. Var honum leyft það og gefinn kostur á að koma í hvern klefa. Nú kemur hann að klefa vezírsins og liggur hann á bæn. Spyr hann munkinn aðkomna, hvað honum sje á höndum. „Eg er kominn til að samfagna þjer,“ segir hann. „Þó þú ekki kannist við mig í fyrsta bragði, þá hef eg samt opt beðið til guðs, að þú mættir verða frjáls maður aptur, og það hafa þjónustumenn þínir sagt mjer, að þú byggist við að fá frelsi þitt í dag. En ekki

held eg soldán hafi sagt, að svo skuli vera.“ „Vel fer þjer, munkur!“ mælti vezírinn, „og má vel vera að svo sje, en trúa máttu því, að áður enn dimmir af nóttu, mun eg vera frjáls maður og taka við embætti mínu aptur.“ þá mælti munkurinn: „Eg óska að svo verði, en á hverju byggir þú von þína?“ „Seztu niður, kæri munkur!“ ansaði vezírinn, „og skal eg þá segja þjer, hvernig í öllu liggur. Reynslan hefur frætt mig um það, að á hæzta tindi hamingjunnar, má ætíð búast við einhverju hrakfallinu, og annað það, að í hyldýpi eymdarinnar má ávallt vænta hjálpar. þeir voru tímarnir áður, að eg var vezír, eg var hugljúfi alþýðunnar vegna blíðskapar míns og soldán unni mjer hugástum; þá bar einusinni svo til að eg var á lystiskútu einni ásamt vinum mínum nokkrum, og ljetum við róa henni hingað og þangað; þókti mjer unun að viðra mig úti í aptankælunni. Við vorum að drekka kaffi, og hjelt eg á bolla í hendinni; var hann af heilum smaragði gjör og ómetanlega dýrmætur, og þókti mjer vænt um bollann. En þá tókst illa til, því eg missti hann út í fljótið. Ljet eg þá stöðva róðurinn og sendi eptir kafhlaupara; hjet eg honum miklum verðlaunum, ef hann gæti náð aptur bollanum. Fór hann að vörmu spori úr fötunum og beiddi mig að sýna sjer, hvar bollinn hefði dottið niður í vatnið. Var eg þá svo utan við mig, að eg fleygði demantshring,, sem eg bar á hendinni, út í fljótið. Og rjett sem eg var að ámæla sjálfum mjer fyrir glappæðið, þá steypti kafhlauparinn sjer, sem kólfi væri skotið, út í fljótið, og eptir drykklanga stund kom hann upp aptur með bollann og hringinn. Launaði eg kafhlauparanum stórmannlega og þókti vænt um að eg hafði fengið aptur gripi mína, en þá sló allt í einu á mig hræðslu, því mjer kom til hugar, að eptir slíka heppni mundi eitthvert slysið bera að höndum. Af þessu varð eg hryggur í skapi, enda óraði mig ekki fyrir öðru enn því sem fram átti að koma, því óvinir mínir ákærðu mig sama kvöldið hjá soldáni, þótt eg væri með öllu saklaus, en hann trúði áburði þeirra og ljet hneppa mig í myrkvastofu þegar að næsta morgni; er eg nú búinn að sitja hjer í sjö ár. En guð hefur gefið mjer auðmjúkt hugarfar, svo eg tek því með þolinmæði, sem hann vill vera láta, og nú í dag hefur nokkuð það að borið, sem tekur af allan efa fyrir mjer, að eg muni aptur hljóta frelsi

og hylli drottins míns, og það enda áður enn kvöld er komið. Skal eg segja þjer einsog er, munkur kær; í dag kom að mjer einhver óstjórnleg löngun eptir kjötmat. Gaf eg dýflissuverðinum nokkuð til þess, að eg fengi að seðja þessa löngun mína og ljet hann til leiðast, en sagði þó um leið, að það skyldi vera í fyrsta og síðasta sinni að hann brygði út af því, sem fyrir hann hefði verið lagt. Eg hlakkaði nú heldur enn ekki til að neyta kjötsins, er eg svo lengi hafði án verið, en meðan eg var að þvo mjer fyrir borðhaldið einsog lög gera ráð fyrir, þá kemur allt í einu stóreflis valska út úr holu sinni og rænir öllum matnum, sem stóð á gólfinu. Var þá nærri liðið yfir mig af hræðslu og fjekk eg ekki tára bundizt, en vonin lifnaði þó aptur í hjarta mínu og kom mjer til hugar, að einsog mjer var útskúfað og varpað í dýflissu rjett á eptir að eg hafði fengið aptur bollann og hringinn, eins gæti eg aptur hreppt eitthvert happ ofaná stærsta slysið, sem eg hafði orðið fyrir í fangelsinu. Að þessu gekk eg vakandi og því fjekk eg dýflissuvörðinn til að láta þjóna mína vita, að þeir skyldu hafa allt til reiðu í húsi mínu þegar eg kæmi heim aptur.“

Soldán fann á hverju orði er vezírinn mælti, að hann hafði gert honum rangt til, og veitti honum örðugt að dyljast fyrir vezírnum og halda á sjer munkasniðinu; en með því hann ekki vildi að þessi fangelsisferð sín kæmist í hámæli, þá sat hann á sjer; kvaddi hann vezírinn með þeim ummælum, að hann vonaði sjálfur að spádómur hans mundi rætast. Þegar hann var kominn til hallarinnar, hafði hann fataskipti og sendi vezírnum tignarklæði með sveit manna, mikilli og glæsilegri, sem átti að fylgja honum til hirðarinnar. Sakaráberar vezírsins voru settir í varðhald, en vezírnum fagnaði soldán með mestu viðhöfn og virktum, og bætti á hann nýjum heiðri og virðing, tók hann aptur í ráðaneyti sitt og bað hann að minnast eigi framar rangsleitni þeirrar, er hann hafði fyrir orðið; sagði hann honum frá því er hann fann hann í fangelsinu og leifði honum síðan, glöðum og ánægðum, að snúa heim aptur til húsa sinna.

# Frúin í Kairó og friðlarnir fjórir.

Einusinni var í borginni Kairó yngiskona nokkur, sem unni manni sínum hugástum og fjekkst aldrei til að fara út fyrir dyr, nema brýn nauðsyn bæri til. það var einhvern dag að hún kom frá laugum og varð gengið fram hjá dómhúsi nokkru. Sá dómarinn hana þaðan og fannst mikið um látbragð hennar og gangprýði; skauzt hann því að henni og hvíslaði að henni, að sjer væri hugur á að eiga mót við hana í laumi. Frúin hugsaði sjer, að hún skyldi klekkja á honum fyrir dælskuna og tók vel undir beiðni hans, sagði hann gæti komið til sín um kvöldið; varð þá dómarinn ljettbrýnn við og kvaðst mundu koma. Hjelt nú frúin áfram heim til sín, en á þeirri leið urðu þrír aðrir karlmenn til að leita á hana með samkyns tilmælum; lofaði hún þeim öllum að hún skyldi veita þeim viðtöku um kvöldið. Sá sem fyrstur ávarpaði hana af þessum þremur var æztur tollheimtumanna þeirra, er kröfðu hafnartolls, hinn annar var forstjóri slátrarafjelagsins, og hinn fjórði var auðugur verzlunarmaður.

þegar frúin var komin heim, þá sagði hún manni sínum upp alla söguna og beiddi hann að lofa sjer að refsa þessum fjórum mönnum fyrir ósvífni þeirra; kvaðst hún hafa hugsað sjer ráð til þess, og mundi það ekki aðeins verða honum til gamans, heldur jafnframt til gagns, því vafalaust mundi hann fá gjöf hjá hverjum þeirra um sig. Fjellst maðurinn á þetta, því hann var sannfærður um trúleika konu sinnar. Ljet hún nú tilreiða ágæta máltíð, settist í legubekk og beið gesta sinna. Um kvöldbænatímann kom dómarinn og barði á dyr; lauk þá frúin upp og hleypti honum inn. Bauð hann henni að þiggja af sjer bænaband með fögrum perlum, og tók hún við því. Bað hún hann þá að fara í önnur föt, sem notalegri væru, og færði hann í sítt vesti úr gulum nettludúk, og setti upp á hann gula kollhúfu. Maðurinn hafði falið sig bak við fortjald, er hjekk í stofunni og gat valla setið á sjer að hlægja ekki upp úr, þegar hann sá brettur þær er komu í andlit dómarans af frygðinni og blíðlætinu. En ánægja dómarans snerist fljótt í hræðslu og ofboð, því rjett sem hann er seztur til borðs og farinn að neyta af krásunum, þá er allt í einu barið á dyrnar. Ljet þá

frúin einsog hún yrði dauðhrædd og kallaði hátt: „Æ! hjálpi nú spámaðurinn*) okkur; þetta er maðurinn minn, og ef hann sjer yður hjerna, þá mun hann drepa okkur bæði.“ Brá dómaranum svo mjög við orð þessi, að hann sýndist vera dauða nær enn lífi. Hratt frúin honum inn í svefnherbergi sitt og bað hann að bæra ekki á sjer, mundi hún þá finna ráð til að koma honum undan. Skreið dómarinn þá útí horn og hneppti sig saman í kút; strengdi hann þess heit, að hætta við allar ástfarir framvegis, ef hann slyppi í þetta skipti. Þegar frúin var búin að fela dómarann, gekk hún til dyra; var tollheimtumaðurinn þar fyrir; fjekk hann henni fullt skrín af gimsteinum og gaf henni. Fagnaði hún honum með mestu vinsemd og bað hann að fara úr fötum sínum; ljet hún hann fara í rauða lafatreyju og setja upp svartdröfnótta húfu. En þegar hann aðeins var búinn að tylla sjer niður, þá heyrðist aptur barsmíð og fór frúin að öllu deili eins með hann og dómarann. Þókti dómaranum einsog sjer yrði dálítið hughægra, þegar hann sá annað heiðarlegt yfirvald í jafn afkáralegum búningi og sjálfan sig. Aumkvuðu þeir friðlarnir hver annan með bendingum, en þorðu hvorki að mjæmta nje skræmta. Nú lauk frúin upp fyrir forstjóra slátrara fjelagsins, og þáði hún gjöf þá, er hann færði henni; hann varð að fara í bláa lafatreyju og setja upp skarlatsrauða húfu, sem öll var skreytt með skeljum og gullnæfra doppum. En rjett sem hann var búinn að því, þá er aptur barið á dyr, og varð aptur hræðsla á ferðum einsog fyrri; flýði slátrarinn í ofboði inn í svefnherbergið og gat nú verið þar hinum friðlunum til samlætis. Kom nú kaupmaðurinn og gaf hann frúnni dýrindis höfuðdúk, silkivefnað ýmsann, og nettludúk með glitsaumi; því næst var hann beðinn að hafa fataskipti og fór hann þá í himinbláa lafatreyju og setti upp rauðröndótta húfu. En í sömu svifum reið dynjandi högg að dyrunum og var þá sæludraumur kaupmannsins á enda, var hann einnig rekinn inn í svefnherbergið, og þókti honum kynlega við bregða, er hann hitti þar þrjá góðkunningja sína. Var það eiginmaður frúarinnar sem barið hafði á dyrnar og hafði honum ekki þókt þörf á að fela sig lengur. Gengur hann nú inn, heilsar

*) Mahómet.

konu sinni og sezt niður. Neytti hann af hressingum þeim, er á borðinu voru, og þarna sátu hjónin, glöð og ánægð, og töluðu svo hátt saman, að friðlarnir heyrðu til þeirra, þar sem þeir sátu fyrir innan, nötrandi af hræðslu. „Heillin mín góð!“ sagði maðurinn, „bar nú ekkert skrítið eða skemmtilegt fyrir þig á heimleiðinni í dag? Hafi svo verið, þá verðurðu endilega að segja mjer frá því.“ Þá mælti konan: „Eg hitti fjóra karlhjarsa á leið minni, og langaði mig mikillega til að hafa þá heim með mjer; en eg var hrædd um að þú kynnir að vera því mótfallinn. Viljir þú hafa gaman af þeim, þá getum við sent eptir þeim á morgun.“ Svo hræddir sem friðlarnir voru, þá fóru þeir nú að gerast vonarbetri, að þeir kynnu að geta sloppið burtu, þar sem konan var svo bragðvís; en þessi von þeirra varð fljótt að engu. „Það er leitt,“ segir maðurinn. „að þú hafðir þá ekki heim með þjer í dag, því á morgun á eg annríkt og get ekki verið heima.“ Þá hló frúin og mælti: „Það er þá satt bezt að segja, að eg hafði þá heim með mjer, og var eg að henda gaman að þeim þegar þú komst. En af því eg óttaðist, að þú kynnir að fá einhverja illa grunsemd, þá rak eg þá inn í svefnherbergið, svo þeir gætu leynzt þar, þangaðtil eg vissi, hvort það lægi vel á þjer; því að öðrum kosti mundi eg hafa reynt að koma þeim burt úr húsinu, svo enginn vissi.“ Því verður ekki með orðum lýst, hversu veslings friðlarnir urðu angistarfullir, einkum þegar maðurinn skipaði konu sinni að sækja þá úr herberginu, hvern af öðrum. „Hver þeirra um sig,“ sagði maðurinn, „skal skemmta okkur með dansi og segja okkur sögu, en hafi eg ekkert gaman af því, þá högg eg af þeim höfuðið.“ Þá andvarpaði dómarinn og mælti: „Æ! guð komi til! hvernig á eg að geta dansað, svo feitlaginn og þunglamalegur sem eg er? Æ, hver getur undan stýrt forlögunum? En til þess að komast undan þessari bragðvísu norn og þessum voðalega manni, þá sje eg ekkert annað ráð enn að gera vilja þeirra.“ Voru hinir samdóma honum og biðu þess þegjandi, er þeim yrði dæmt á hendur. — Gekk nú frúin inn í herbergið og fjekk dómaranum bjöllubumbu í hendur, leiddi hann síðan fram fyrir mann sinn og fór að leika fjörugt sönglag á fiðlu sína; dansaði dómarinn eptir því og gerði það með slíkum skælum og brettum, að hann varð öldungis einsog api í framan. Þá sagði

húsbóndinn: „það er sannast að segja, að ef eg ekki vissi, að maðurinn sá arna er loddari, þá mundi eg halda að hann væri dómarinn okkar. En guð varðveiti mig! Eg veit að dómarinn okkar, sem er svo heiðvirður maður, muni vera að lesa bænir sínar og kynna sjer málin, sem hann á að dæma í á morgun.“ Þegar dómarinn heyrði þetta, þá herti hann sig hálfu meira við dansinn, og hjelt að hann með því móti gæti komið í veg fyrir, að menn þekktu sig. Gerðist hann að lokum dauðuppgefinn, en þá var honum hótað með iljabarning, ef hann ekki dansaði aptur, og varð hann að þreyta dansleikinn þangað til hann valt löðursveittur ofan á gólfið. Var hann þá reistur á fætur og gefið vín að drekka svo hann hresstist aptur; eptir það var hann látinn segja sögu og þar með var honum sleppt lausum.

Þegar dómarinn var farinn, sókti frúin tollheimtumanninn; nefndi húsbóndinn hann með nafni og mælti: „Þjer verðið, háttvirti herra! að sýna mjer þá náð að dansa fyrir mig.“ Tollheimtumaðurinn fyrirvarð sig, svo að hann kom ekki upp einu orði, en dansaði samt, þó óhönduglega tækist; var honum ekki leyft að hætta fyr enn hann var orðinn af sjer kominn af þreytu. Þá var honum lofað að setjast niður og gefið dálítið til hressingar; síðan var honum sleppt með þeirri áminningu, að hann skyldi framvegis bera niður á rjettum stað með ástar bænir sínar. Með líkum hætti var hinum friðlunum sleppt og hjetu þeir hver um sig, að þeir skyldu fara varlegar eptirleiðis.

## Æfintýri dómara nokkurs og konu hans.

Einusinni var dómari í Bagdad, sem var hvorttveggja, óaðfinnanlegur í embættisgjörðum og lýtalaus í framferði sínu. Þegar hann var búinn að hafa embætti sitt á hendi í nokkur ár, þá varð honum hugur á að fara pílagrímsferð til Mekka; var honum veitt leyfi til þess og beiddi hann þá bróður sinn að gæta konu sinnar, meðan hann væri í burtu, en hún var hin fríðasta. En sem dómarinn var farinn, þá gleymdi bróðir hans loforði sínu, og reyndi að ginna mágkonu sína til legorðs, en hún rak hann frá sjer með óvirðingu. En með því hún ekki vildi að bóndi sinn leggði hatur

á svo vandabundinn mann, þá reyndi hún að leiða mági sínum fyrir sjónir, hvílík svívirða það væri, sem hann færi fram á; en fúlmennið daufheyrðist við öllum fortölum, og hjelt áfram að kvelja hana með áleitni sinni jafnt sem fyrri. Hótaði hann seinast að ákæra hana fyrir hórbrot, ef hún ekki ljeti að orðum sínum. En er hótun þessi varð árangurslaus, þá mútaði hann falsvottum og ljet þá sverja, að þeir hefðu staðið hana að ótrúleika við mann sinn; var þá sá dómur uppkveðinn, að hún skyldi lamin hundrað svipuhöggum og vera útlæg úr borginni. Þegar veslings konan var búin að taka út hegningu sína, þá flutti böðullinn hana út fyrir borgina, og skyldi auðna ráða, hvað um hana yrði. En konan gaf allt ráð sitt í guðs hönd, möglunarlaust, og rjeði hún það af, að halda til Mekka, því hún vonaði að maður sinn yrði þar fyrir og mundi hún geta rjettlætt sig í hans augum. Nú er hún hafði gengið í nokkra daga, þá kom hún í borg eina; þar sá hún böðul draga eptir sjer ungan mann með snöru um háls, og fylgdi þeim ótölulegur fólksgrúi. Spurði hún, hvað sakamaðurinn hefði misbrotið, og var henni sagt, að hann væri skuldugur um hundrað dínara, og ætti því að hengjast. Hrærðist þá kona dómarans til meðaumkvunar og greiddi fjeð af hendi, þó ekki gerði betur enn svo að aleiga hennar hrykkji fyrir skuldinni. Var hinum unga manni gefið frelsi, og fjell hann fram fyrir henni og hjet að þjóna henni alla æfi. Og er hann heyrði að hún væri á pílagrímsferð til Mekka, þá bauðst hann til að vera verndarmaður hennar á þeirri leið, og tók hún því með þökkum. Urðu þau nú samferða og hjeldu áfram, en er nokkrir dagar voru liðnir, þá fór hann að slá upp á ósóma við hana, og móðgaði svo konu þá, er hann átti líf sitt að launa. Leiddi konan honum fyrir sjónir, hvílíkt vanþakklæti hann sýndi með þessu, og var þá einsog hann sæji að sjer, en undir niðri brann hann af hefndargirni. Að nokkrum dögum liðnum komu þau ofan til sjáfar og sá maðurinn skip; gerði hann bendingu eptir því og var þegar sendur bátur til lands. Fór hann með bátnum út í skip og sagði skipstjórnarmanni, að hann hefði fallega konu til sölu, og ætti hún að kosta þúsund dínara. Skipstjórnarmaður hafði optsinnis áður keypt ambáttir þar á ströndinni, og fór hann þegar til lands og borgaði það sem upp var sett. Því næst

fór hinn ungi maður leiðar sinnar, en konan var flutt út á skip. Hjelt hún í fyrstu, að samferðamaður sinn hefði ætlað að gera ferð sína hægri með þessu móti, en sá skjótt villu sína, því nú var hún hrjáð og hrakin á allar lundir; sagði skipstjórnarmaður henni að hann hefði keypt hana fyrir þúsund dínara, og hvernig sem hún reyndi að telja honum trú um, að hún væri frjáls kona, þá stoðaði það ekkert. Var skipstjórnarmaður slíkt hroðamenni, að hann lamdi hana og barði, þegar ekki dugði annað, og ætlaði með því móti að koma fram vilja sínum. En rjett sem konan ætlaði að gefast upp af þreytunni, þá rakst skipið á klett og brotnaði í spón. Fjekk konan náð í fjöl eina og köstuðu öldurnar henni upp að landi. Þegar hún fór að hressast við aptur, gekk hún upp á land; var þar blítt og fagurt um að litast, aldintrje nóg og vatnslindir, svo bæði hafði hún til saðnings og svölunar. Daginn eptir kom hún í borg eina glæsilega. Var hún leidd fyrir soldán, eins og siður var með útlenda menn, og spurð að nafni. En hún nafngreindi sig og sagði einsog var, að hún hefði verið á pílagrímsferð til Mekka, og bjargazt á land af skipbroti, en eigi væri sjer kunnugt, hvort nokkur annar hefði komizt af. Beiddi hún konung að veita sjer húsnæði, og kvaðst mundu verja því, er eptir væri æfi sinnar til að árna honum og þegnum hans hamingju. Kenndi soldán í brjóst um konuna, og fjekk henni til íbúðar hús eitt harla fagurt, er stóð í aldingarði skammt frá höllinni; kom hann opt þangað að finna hana og ræddi við hana um guðrækileg efni. Nú bar svo til skömmu síðar, að uppreistarmenn nokkrir komu á fund soldáns og beiddu hann fyrirgefningar; en þeir höfðu þverskallazt í mörg ár og eigi goldið skatta. Þenna gleðilega atburð þakkaði soldán árnaðarorðum konunnar og sagði það berum orðum í ríkisráði sínu; brá þá svo við, að menn af öllum stjettum fóru að sækja þessa guðhræddu konu bæði til árnaðar og ráða fulltingis. Fjölguðu áhangendur hennar dag frá degi og ekki vantaði að henni væri sýnt þakklæti í verkinu, og safnaðist henni bráðum talsverður auður, en orðrómur hennar breiddist enda út fyrir landamæri ríkisins. Fjekk hún sjer nú stærri húsakynni, tók til sín munaðarleysingja og gaf fátækum mönnum fæðu, þeim er til hennar leituðu.

Nú er að segja af dómaranum, hinum guðhrædda manni konu

þessarar, að hann sat um kyrt í Mekka, og var búinn að dvelja þar árlangt; hafði hann eigi haft hugann á öðru enn guðsþjónustugjörð og bænahaldi, og hafði vitjað flestra helgistaða, sem þar voru í grennd við. Eptir það sneri hann heim aptur til Bagdað. Varð hann sárhnugginn, er hann spurði ótrúleika konu sinnar og það jafnframt, að bróðir hans væri farinn, af því hann hefði ekki haft skap til að þola slíka vansæmd á ætt sinni. Fjekk það svo mjög á hann, að hann hafnaði öllum veraldlegum störfum, og einsetti sjer að lifa einsog guðhræddur munkur það sem eptir væri æfinnar og ráfa svo án afláts um víða veröld. Leitaði hann einkum til þeirra manna, sem höfðu orð á sjer fyrir guðhræðslu, og jafnskjótt sem orðrómur konu hans kom honum til eyrna, þá hóf hann göngu sína til aðseturstaðar soldáns, þar er hún dvaldi. Grunaði hann sízt að þessi lofsæla kona væri sú hin sama, sem allir nefndu með háðung og fyrirlitningu. Á ferð þessari mætti dómarinn bróður sínum og var hann einnig í munkafötum; ætlaði hann til hinnar helgu konu að biðja hana árnaðar, því hann var farinn að iðrast synda sinna. Eigi þekktust bræðurnir strax, en er þeir höfðu talazt við, og hver vissi um annars áform, þá urðu þeir samferða. Nokkrum dögum síðar slóst úlfaldamaður einn í för með þeim; kvaðst hann hafa drýgt stórglæp, sem hann yrði að afplána, og því ætlaði hann að ganga til skripta við konuna helgu og láta hana ákveða, hvað hann ætti að gera til yfirbóta. Var það morðsök er þyngdi á samvizku vesælmennis þessa. En það hafði atvikazt þannig, að kona dómarans hafði leitað hælis í koti úlfaldamanns nokkurs; hafði kona úlfaldamannsins tekið henni með vinsemd, og veitt henni bæði huggun og aðhjúkrun, þangað til hún var búin að ná sjer eptir meiðslin af húðstrokunni. Þau hjónin áttu einn son kornungan. Nú er kona dómarans á stuttum tíma var orðin alheil og jafnfríð yfirlitum, sem áður hafði verið, þá byrjuðu ný vandræði, því hinn úlfaldamaðurinn, sem fyr var nefndur, kom jafnaðarlega að finna húsbóndann og tók að leggja hana í einelti, en hún varðist áleitni hans staðfastlega; rjeði hann þá af að drepa hana. Þegar komið var miðnætti, læddist hann með hníf í hendi inn í klefann, sem hún svaf í; lá barn húsbændanna þar hjá henni. Og með því kolniðamyrkur var þar inni, þá lagði vegandinn í brjóst

barnsins, en það veinaði upp yfir sig og flýði hann þá sem fætur toguðu. Kona dómarans vakti þau hjónin, sem nú voru orðin fyrir svo miklu mótlæti; en barnunginn, sem þau elskuðu bæði svo innilega, var kaldur nár, og öll lífs von horfin. Nokkrum dögum eptir viðburð þenna hóf hún aptur göngu sína og fór sem fyr er frá sagt.

það er að segja af dómaranum og förunautum hans, að þeir höfðu eigi langt farið, er þeir mættu yngismanni nokkrum. Spurði hann þá, hvert þeir væru að fara, en þeir sögðu einsog var. Biður hann þá, lofa sjer að verða samferða, því svo sje mál með vexti, að hann hafi unnið hið versta óræktarverk, og voni hann að guð muni fyrirgefa sjer það fyrir árnað hinnar helgu konu. Skömmu síðar slóst skipstjórnarmaður nokkur í för með þessum fjórum pílagrímum; hann hafði eigi alls fyrir löngu brotið skip sitt og beðið svo hvert brakfallið á fætur öðru. Hjeldu þeir nú samleið og komu til hirðar soldáns þess, er skotið hafði skjólshúsi yfir konu dómarans. Gengu þeir samstundis til hýbýla hennar og voru húsgarðar hennar fullir af fólki, sem komið var úr öllum áttum til að biðja hana árnaðar. Varð þjónum nokkrum litið á komumenn og sáu að þeir voru dauðlúnir; leiddu þeir þá inn í herbergi, að þeir fengju hvílt sig þangað til þeir segðu húsmóður sinni komu þeirra. Var þeim borinn matur og drykkur til hressingar og fundust þeim orð um, hvað þessi hin guðhrædda kona væri gestrisin. En það er af henni að segja, að hún stóð við grind eina og horfði í gegnum hana á gesti sína. Barðist hjartað í brjósti hennar, er hún sá mann sinn, og þókti þó kynlegt, að hún skyldi líta hann í flokki þeirra manna, er svo mjög höfðu nízt á henni með hrekkvísi sinni. Var það með naumindum, að hún fjekk sefað geðshræringu sína. En með því hún vildi ekki segja til sín fyr enn hún heyrði æfintýri komumanna, þá gekk hún aptur inn í herbergi sitt, fjell fram og lofaði hinn rjettláta föður himnanna fyrir það, að hann hefði gefið sjer aptur mann sinn, er hún elskaði af hjarta. En er hún hafði lokið bæn sinni, þá ljet hún skila til soldáns að hann sendi til sín skilríkan embættismann; skyldi hann ásamt henni heyra sögur fimm ókunnugra manna, er nýkomnir væru. Nú kemur embættismaður þessi frá soldáni; velur konan honum fylgsni þar er hann

gat heyrt allt, en enginn sjeð hann. Því næst kallar hún fyrir sig pílagrímana, sezt í legubekk með skýlu fyrir andliti og tekur svo til orða: „Komið heilir til húsa minna. Heilræði mín og árnaðarorð hafa á stundum orðið syndugum mönnum til huggunar, en þeir sem leita fulltingis míns, verða að trúa mjer fyrir öllu; eigi árnaðarorð mín að orka nokkurs, þá verð eg að vita, hvað þeim hefur á orðið. Skuluð þið því segja mjer sögu ykkar satt og hreinskilnislega og gæta þess, að þær bænir verða að óbænum, sem beðnar eru fyrir lygara.“ Biður hún nú dómarann að bíða hjá sjer, en hina að fara út, kveðst hún vilja heyra játning hvers eins fyrir sig. Dómarinn hafði engar sakir að játa á hendur sjer, því hann var vandaður maður; sagði hann frá því, er hann fór pílagrímsferðina til Mekka, og kona hans reyndist honum ótrú; væri nú áform sitt að gera ekki annað, það sem eptir væri æfinnar, enn að vitja helgra manna og helgra staða, og í þeirri veru væri hann hingað kominn. Þegar hann hafði lokið máli sínu, ljet konan hann fara inn í annað herbergi; síðan kallaði hún á samferðamenn hans, hvern af öðrum, að þeir segðu æfi sína. Þorðu þeir engu að leyna og grunaði þá sízt af öllu, að þeir játuðu syndir sínar fyrir þeirri konu, er sárast hafði kennt á fúlmennsku þeirra. Eptir það lætur konan embættismanninn fara með þessa fimm aðkomnu menn á fund soldáns, svo að hann dæmdi sakir þeirra. Dæmdi soldán hina fjóra sakamenn til lífláts, og mundi dómnum hafa fullnægt orðið, hefði ekki konan helga beðið þeim miskunnar og sagt til sín um leið. Ljet þá soldán glæpamennina lausa, en dómarann bað hann vera kyrran í hirð sinni; hafði hann þar yfirdómara embætti það sem eptir var æfinnar og var ávallt mikils virður. Lifðu þau hjónin svo vel, að þau voru fyrirmynd annara fyrir mannkosta sakir. Sat soldán opt hjá þeim á kvöldin fram á nætur, og hneigðust ræður þeirra mest að því, hversu gæzka forsjónarinnar stýrði forlögum manna. Einusinni tók soldán til orða og mælti: „Enda af sjálfum mjer má draga hið ljósasta dæmi upp á guðlega handleiðslu, og svo mun ykkur virðast, þegar eg segi ykkur æfintýri mín.“ Sagði hann þá sögu þessa.

# Saga soldáns.

Þó eg nú sitji á konungsstóli, þá er eg samt ekki af því bergi brotinn, að nokkrum mundi hafa til hugar komið, að eg væri ætlaður til slíkrar tignar, því eg er kaupmannsson úr afar fjarlægu landi. Faðir minn uppfæddi mig til kaupskapar, því það var hans atvinnuvegur, en iðni og ráðvendni kenndi hann mjer með eptirdæmi sínu. Þegar eg var orðinn fullveðja, andaðist faðir minn og kenndi hann mjer heilræði allt fram í andlátið, en einkum lagði hann ríkt á við mig, að eg skyldi aldrei eið sverja. Hjet eg honum því og gaf hann þá þegar upp öndina; en eg lifði eptir hann með móður minni og syrgðum við hann með sárum hugartrega. Þegar búið var að greptra hann, tók eg við öllum eigum hans, en þær voru talsverðar; hætti eg þá við kaupskap og varði öllu í peninga, gaf eg móður minni og systur tvo þriðjunga þess fjár og keyptu þær sjer góða jörð. Nokkrum vikum síðar kom kaupmaður og krafðist fjár, er hann kvaðst átt hafa hjá föður mínum, en það var svo mikið að upphæð, að föðurarfur minn gerði ekki meira enn svo að hrökkva fyrir skuldinni. Bað eg hann að leggja fram skuldarbrjefið, en hann kvaðst ekkert skuldarbrjef hafa, vann hann þess eið fyrir dómaranum, að krafa sín væri lögmæt. Eg þóktist viss um, að hann hefði unnið rangan eið, en mátti eigi sverja í móti, svo mjer var nauðugur einn kostur að borga skuldina. Greiddi eg fjeð úr sjálfs mín sjóði, en leitaði hvorki til móður minnar nje systur. Nú bárust mjer fleiri ranglátar kröfur að höndum, og með því eg vildi ekki rjúfa heitorð það, er eg hafði gefið föður mínum, þá komst eg á vonarvöl, og sá ekki annað sýnna enn að fara úr landi og leita mjer þar atvinnu sem verkast vildi. Lagði eg þá á stað, og er nokkrir dagar voru liðnir, bar mig á öræfissanda og mætti eg þar virðuglegum öldungi í hvítum klæðum; heilsaði hann mjer vingjarnlega og spurði, hvert för minni væri heitið. Sagði eg honum allt hvernig farið hafði. Lofaði öldungurinn staðfesti mína, er eg svo trúlega hafði efnt það sem eg lofaði föður mínum. „Vertu nú ekki hnugginn, son minn!“ sagði hann. „Hinum helga spámanni vorum hefur geðjazt að breytni þinni, og því hefur hann árnað þjer líknar hjá hinum eilífa drottni. Kom nú og tak við launum

þeim, sem þjer eru fyrir búin eptir þrautirnar.“ Eg fylgdi honum eptir og komum við í borg þessa, en hún var þá í eyði. Og er við vorum þangað komnir, tók öldungurinn til orða og mælti: „Það er guðs vilji, að þú setjist hjer að ríkjum og verðir voldugur konungur.“ Að svo mæltu leiddi hann mig niður í neðstu hvelfingarnar í höll þessari, er þá lá í rústum; fannst mjer þá mikið um, því þar voru stórir pokar, fullir af gullpeningum og silfurpeningum, gimsteina kistur og gullstanga hrúgur. Sagði leiðtogi minn að þetta skyldi hjeðan af vera mín eign. Þókti mjer þetta undrum sæta og mælti: „Hvaða gagn hef eg af öllum þessum auðæfum í mannauðri borg? Hvernig á eg að vera konungur þegar þegnana vantar?“ Þá brosti öldungurinn og mælti: „Vertu þolinmóður, son minn! Í kvöld mun hingað koma fjöldi ferðamanna með mikla lest. Það eru flóttamenn, er leita sjer hælis, skaltu fagna þeim með blíðu og munu þeir kjósa þig til soldáns yfir sig.“ Þetta rættist og kom lestin; rjeði öldungurinn lestafólkinu til að setjast að í eyðiborginni, en það gerði svo og kaus mig til soldáns eptir ráðleggingu hans. Var hann hjá mjer í heilt ár og kenndi mjer landsstjórn. Guð blessaði viðleitni mína í öllu góðu, og varð eg víðfrægur fyrir örlæti mitt, rjettlæti og ljúfmennsku. Borgin varð fullskipuð atorkusömum innbúum og endurreistu þeir hús þau, er hrunin voru, eða byggðu ný. Landið var yrkt í kringum borgina og höfnin fylltist skipum, er sóktu að úr öllum áttum. Skömmu seinna sendi eg eptir hyski mínu, því eg hafði skilið eptir konu mína og tvo sonu þegar eg fór að heiman. Urðu þá fagnaðarfundir er við sáumst aptur. En er árið var liðið af hendi, sagði bjargvættur minn: „Son minn! nú er erindi mitt á enda kljáð og verð eg að skilja við þig. Haltu áfram einsog þú hefur byrjað, og munum við þá aptur sjást. Skaltu vita, að eg er spámaðurinn Elias, og var eg af himnum sendur þjer til fulltingis.“ Að svo mæltu faðmaði hann mig að sjer og hvarf mjer úr augsýn. En eg fleygði mjer til jarðar með klökku geði og þakkaði drottni af öllu hjarta. Hef eg ávallt síðan kostað kapps, að breyta eptir heilræðum míns helga læriföður og sjáið þið nú hver gæfumaður eg er.“

# Frá 683 til 716 nætur.

## Sagan af Taj-el Mólúk og Dúnýu kóngsdóttur.

Grænborg hefur heitið borg ein í fyrri daga; hún stóð á baki Ispahans fjalla og var ríkisetur konungs nokkurs, er Sólíman hjet. Hann var kallaður rjettvís konungur og sanngjarn, örlyndur og góðgjörðasamur, og barst orðstír hans hvervetna um lönd. Hafði hann lengi ríkt með frægð og friðsemd, og lifað svo alla æfi sína, að hann hvorki átti konur nje börn. — Vezír hafði hann sjer næsta líkan að háttum og skaplyndi. Einusinni varð konungi skapþungt og sendi eptir vezírnum og mælti við hann: „Nú er mjer þungt um hjarta, vezír! og má eg hvergi friðar njóta, fyrir þá sök, að eg er maður konulaus og barnlaus. Slíkt er eigi konunga venja, þeirra er ráða yfir ríku fólki og snauðu, heldur þykir þeim sjer sæmdarauki, að börn og niðjar lifi þá látna, til þess að auka komandi kynslóðir; því svo segir spámaðurinn: „Gangið saman til hjúskapar, aukist og margfaldist, því á dómsdegi hlýt eg að vega fyrir sigri yðrum á öðrum þjóðum. Bið eg þig nú, vezír! að segja mjer hvað gera skal.“ Þá hrundu vezírnum tár af augum og tók hann til orða: „Fjærri fer því, konungur veraldarinnar, að eg megi um þá hluti dæma, sem bera undir miskunn guðs. Vilt þú ad heiptarreiði allsvaldanda drottins steypi mjer niður í helvítis loga?“ Þá mælti konungur: „Sjá nú, vezír! ef eg kaupi ambátt, ókunna að ætterni, þá mætti vel fara svo, að eg gæti við henni son, sem yrði hræsnari og blóðfíkinn harðstjóri. Hún mætti verða áþekk veituakri, sem aldrei getur góðan ávöxt borið; börn hennar mundu eigi hlýðnast boðum guðs með ótta og auðsveipni. Skalt þú því taka þig til ferða og biðja mjer dóttur einhvers þess konungs, er á Mahómet trúir, og kominn er af frægum forfeðrum; mun eg þá kvongast í vitna viðurvist og vonast þess að guð veiti mjer fulltingi sitt.“ „Svo er þá í sannleika,“ mælti vezírinn, „guð hefur kannazt við þarfir þínar og látið óskum þínum framgengt verða.“ „Hvernig þá? segir konungur. Vezírinn mælti: „Eg hef heyrt að Sahr Schah konungur á Hvítlandi (El-Ard-el-Beyda) eigi dóttur eina, afbragðs fríða; á hún engan sinn jafningja og verður fegurð

hennar eigi með orðum lýst. Hún er svo álitsvæn og vel á sig komin, að hún má heita ímynd kvennlegrar fegurðar; hún er svarteyg og síðhærð, beinvaxin og mittisgrönn, en mikil um mjaðmir; hún hyllir sjerhvern þann er hún nálgast og deyðir þann er hún fjarlægist. Það er því mitt ráð, konungur! að þú gerir sendiherra flokk á fund föður hennar, svo sem tilhlýðilegt er, og látir biðja hennar þjer til handa, því hennar jafningi mun hvergi finnast, hvorki fjær nje nær.“ Þegar konungur heyrði þetta, varð hann allshugar glaður og ljetti öllum harmi. „Þetta starf ætla eg þjer vezír!“ mælti hann, „og engum öðrum, því eg þekki hyggni þína og forsjá. Far nú heim og ráðstafa húsi þínu, en á morgun skaltu hefja bónorðsförina til konungsdóttur þeirrar, er þú lýstir fyrir mjer; er nú hugur minn allur þar sem hún er, og máttu eigi svo aptur koma, að hún ei sje með þjer.“ Vezírinn svaraði: „Eg heyri og hlýði,“ gekk síðan heim og ljet bera á einn stað gjafir þær, er konungur hafði tiltekið; var það mestmegnis gimsteinar og aðrar dýrindis gersemar, sem ljettar voru til flutnings, arabiskir hestar, ágætar hringabrynjur og margskonar menjagripir, er ei má verði virða. Var þetta nú bundið í klyfjar og látið upp á úlfalda og önnur áburðar dýr, eptir það tók vezírinn sig til ferða og fylgdu honum hundrað riddarar alvopnaðir, hundrað svartar ambáttir og hundrað þrælar; blöktu ljómandi fánar og skrautblæjur yfir höfði honum. Þegar hann var farinn, hugsaði Sólíman konungur um ekkert annað enn drottningarefnið, sem vezírinn átti að sækja. En vezírinn fór dagfari og náttfari, þangaðtil hann átti svo sem eina dagleið ófarna. Þá ljet hann staðar numið á fljóts bakka og sendi einn af fylgdarmönnum sínum til Sahr Schah konungs til að segja honum komu sína. Flýtti sendimaður sjer til borgarinnar og hitti svo á, að Sahr Schah konungur sat á skemmtistað nokkrum við borgarhliðið; ljet hann ganga í veg fyrir komumann og kalla hann fyrir sig. En sem hann heyrði að vezír Sólímans konungs væri á leiðinni, þá bauð hann sendimann velkominn og spurði, hvar hann hefði skilið við vezírinn. Og er hann var þess vísari orðinn, þá bauð hann einum af vezírum sínum að fara til móts við sendiherra Sólímans með meginhluta hirðarinnar, því honum þókti mikils vert um Sólíman og fór að vilja hans í öllu. En vezír Sólímans konungs

dvaldi á fljótsbakkanum þangaðtil um miðnætti; þá tók hann sig upp aptur og hjelt áfram til borgarinnar, mætti hann þá vezír og vildarmönnum Sahr Schah konungs og taldi þá víst að sendiför sín mundi hafa góðan árangur. Heilsaði hann mönnum Sahr Schah, en þeir riðu nú á undan honum að konungshöllinni og inn til hliðanna, allt inn í sjöunda garð. En þangað fór enginn ríðandi, er svo nærri kom konunginum, enda stje vezírinn þá af baki og fór fótgangandi, þangaðtil hann kom að sal nokkrum háreistum. Þar var legubekkur í öndvegi af alabastri, skreyttur gimsteinum og perlum og fætur undir úr fílabeini; í honum var grænn silkisvæfill, gullsaumaður. Yfir legubekknum var tjaldhimin, ljómandi af perlum og gimsteinum. Þar undir sat Sahr Schah konungur, og stóðu hirðmennirnir og gæðingar ríkisins í kringum hann. Gengur nú vezírinn fram fyrir hann og tekur á allri mælsku sinni og orðsnild, flytur fagrar kveðjur og þylur fjölda af kvæðum til lofs konungi. Þegar hann hafði lokið máli sínu, bað konungur hann að setjast til annarar handar sjer og svaraði honum mildilega; því næst báru þrælar borð inn í salinn og snæddu þeir nú saman unz þeir urðu mettir. Var síðan borðið borið út aptur og gengu allir út úr salnum, nema hinir æztu gæðingar í hirðinni. En er vezírinn tók eptir því, þá stóð hann upp, gekk fyrir konung, kyssti á gólfið og mælti: „Voldugi drottinn! tignarlegi konungur! það mál hef eg að flytja, er til friðar horfir, hamingju og blessunar, því eg er hingað kominn að biðja dóttur þinnar Sólíman konungi til handa; er hún hin ágætasta fyrir tignar sakir og ættgöfgis, en hann er öllum þeim kostum búinn, sem konung mega prýða og drottnar yfir El-Ard-el-Khadra og Ispahans fjöllum. Sendir hann þjer marga gripi og gersemar og mælir til mægða við þig. Eru þau ráð að þínu skapi?“ Þagnaði þá vezírinn og beið svara. En Sahr Schah konungur stóð upp, og kyssti með auðmýkt á gólfið, svo öllum, sem nærstaddir voru, þókti furðu gegna, að konungur skyldi sýna sendiboða þvílíkt lítilæti. Því næst lofaði hann allsvaldanda drottinn og tók þannig til orða, er hann var upp staðinn: „Virðulegi herra! göfugi vezír! heyr nú hvað oss býr í skapi. Vjer erum lýðskyldir Sólíman konungi og hans þegnar, mun oss því tignarauki að mægjast við hann, og fýsir oss ákaft til þeirrar sæmdar. Dóttir mín skal honum

þjóna, og er það mín æzta ósk, að hún verði máttarstytta mín og ættar minnar.“ Því næst kallaði hann á dómara og kvaddi votta að því, að Sólíman konungur hefði sent vezír sinn til að semja um kvonfang; staðfesti Sahr Schah hjúskapar sáttmálann fyrir hönd dóttur sinnar og var honum það ljúft verk. En er dómararnir höfðu fullgert sáttmálann, þá báðu þeir til guðs, að hjónaefnunum mætti allrar hamingju auðið verða. Stóð þá vezírinn upp og afhenti Sahr Schah alla gripi þá, er hann hafði meðferðis. Þessu næst ljet konungur sjer mest um hugað, að gera dóttur sína úr garði og veita vezírnum sem stórmannlegast. Voru opinberar hátíðir haldnar og ekkert sparað, er kæta mátti sjón manna og hjörtu. Þegar allt var af hendi reiðt, sem brúðurin þarfnaðist, þá ljet konungur slá landtjöldum fyrir utan borgina. Var vefnaður látinn niður í kistur, og ambáttir, grískar og tyrkneskar, búnar til ferðarinnar. Brúðurinni var fengið dýrindis skart og burðarstóll til ferðarinnar með tíu múlum; var hann gulli roðinn og skreyttur með perlum. Þegar búið var að láta upp á eykina, sneru menn til ferða, og fylgdi konungur dóttur sinni þrjár mílur á leið. Síðan kvaddi hann hana og vezírinn og sneri heim aptur í góðum friði og fögnuði.

Vezírinn tafði nú hvergi við og fór leiðar sinnar með drottningarefnið um eyðimerkur og öræfi. En er hann var svo langt kominn, að ekki voru eptir nema þrjár dagleiðir, þá gerði hann mann á undan sjer til Sólímans konungs, til að segja honum komu sína. Flýtti sendimaður sjer á fund konungs og þókti honum svo vænt um tíðindi, að hann gaf honum tignarklæði í sögulaun. Og samstundis ljet konungur herlið sitt fara til móts við brúðurina og föruneyti hennar; var liðið búið í skínanda skraut og þusti fram með blaktandi fánum. Fóru kallarar um borgina og gerðu heyrum kunnugt, að engin mær, er skýlu bæri fyrir andliti, engin húsfreyja nje ellihrum kona, mætti nú undan færast að fara til móts við brúðurina. Enda fóru þá allar og báðu hinar tignustu konur, að þær mættu þjóna henni. Hafði þeim komið saman um, að fylgja brúðurinni um kvöldið til konungshallarinnar, og ljetu embættismennirnir við konungshirðina sjer annt um, að prýdd væru borgarstræti, þar sem brúðurin átti leið um með föruneyti sínu. Nú kom brúð-

urin og var hermanna fylking umhverfis hana; var þá enginn sá, er eigi færi út að sjá hana. Ómaði borgin öll af drynjandi bumbum og gjallandi lúðrum, spjótin blikuðu, hestarnir fnæstu; reykelsis ilmurinn barst um loptið og hermerkin lögðust í bylgjur fyrir vindblænum. Þegar burðarstóllinn var kominn að hallarhliðinu, tóku hirðsveinar við og báru hann til kvennabúrsins. Þar kom Sóliman konungur á fund köngsdóttur og varð svo sigraður af elsku til hennar, að allur harmur og ógeð hvarf úr huga honum. Og er níu mánuðir voru liðnir, þá bar svo til einn dag, er konungur sat í hásæti og setti málum manna, að honum voru borin þau tíðindi, að kona hans væri ljettari orðin og hefði alið sveinbarn. Varð konungur þá allshugar glaður og gaf þeim er tíðindin sagði, stórmikið fje. Því næst flýtti hann sjer inn til barnsins og kyssti það á milli augnanna; leizt honum það svo fagurt, að hann varð frá sjer numinn af fögnuði. Tóku þá þjónustukonurnar við sveininum og svertu á honum hvarmana; var honum nafn gefið og kallaður Taj-el-Mólúk Kharan*). Þegar sveinninn var kominn á sjöunda árið, kvaddi Sóliman konungur fræðimenn og vitringa á fund sinn, og bauð þeim að kenna syni sínum að skrifa og veita honum tilsögn í bókmenntum og vísindum. Gerðu þeir sem konungur bauð og hjeldu því áfram í nokkur ár, þangað til sveinninn kunni svo mikið sem hann þurfti og konungur óskaði. Eptir það ljet konungur kenna honum riddaralegar íþróttir og vígfimi, allt þangað til hann var fullra fjórtán vetra. Sá enginn maður köngsson svo, að eigi dáðist hann að honum, og voru margar vísur kveðnar honum til lofs; enda heiðvirðar konur gátu eigi að sjer gert, að þær elskuðu hann, svo langt bar hann af öðrum fyrir fegurðar sakir.

Þegar Taj-el-Mólúk var kominn á fullorðins aldur, varð hann enn fríðari og þokkasælli, og óskaði hver maður honum, að hann mætti verða soldán að föður sínum látnum, en sjálfum sjer þess að komast í vildarlið hans. Taj-el-Mólúk hafði svo mikið gaman af dýraveiðum, að hann varði til þeirra, að kalla mátti, öllum tíma sínum, enda þótt faðir hans gerði sitt til að aptra honum, því hann var hræddur um að hann kynni að fara sjer að voða á eyðimörk-

---

*) þ. e. kóróna konunganna.

inni þegar hann ætti við óarga dýr. En Taj-el-Mólúk ljet sjer ekki segjast. Einusinni bauð hann mönnum sínum að búa sig út með nesti svo sem nægði til tíu daga. Fór hann síðan með þeim á veiðar, fjórar dagleiðir út á eyðimörk, unz þeir komu á völlu græna, og hittu fyrir fjölda dýra; trje voru þar með alþroskuðum aldinum og svalar uppsprettulindir. Bauð hann þá af stundu mönnum sínum að leggja netin annarsvegar, en standa hinsvegar í víðum hálfhring. þeir gerðu svo og ráku nú saman ógrynni veiðidýra, sló felmtri á dýrin, svo að hvert fældist annað, og rákust þau í flasið á riddurunum af angistinni, er þau vildu undan flýja. Var nú hundum, ljebörðum*) og haukum sleppt á dýrin; voru þau drepin með örvum og ýmsu öðru móti, og er veiðimennirnir voru aptur samankomnir, var veiðiaflinn geysimikill. þá fór Taj-el-Mólúk af baki hjá lind einni og ljet bera þangað alla veiðina. Bezta dýrið valdi hann úr handa Sólíman konungi föður sínum og sendi honum, en hinu skipti hann á milli manna sinna. Höfðu þeir náttból við lindina og sáu lest eina fjölmenna þegar morgnaði; fóru þar kaupmenn með þjónum sínum og svörtum þrælum. Ljetu þeir lestina nema staðar og sendi þá Taj-el-Mólúk einn af þjónum sínum til að komast fyrir, hverjir þeir væru og því þeir næmu þar staðar. Var honum sagt að þeir væru kaupmenn og ætluðu að æja þar, fyrir þá sök, að fjarska langt væri til næsta áfangastaðar, enda væru þeir hjer í skjóli Sólímans konungs og sonar hans. Kváðust þeir vita með vissu, að í þeirra löndum gæti hver maður óhultur og í friði haldið hvíldardag, og þar á ofan hefðu þeir ýmsan dýran vefnað meðferðis, sem þeir ætluðu Taj-el-Mólúk, konungs syni. Og er Taj-el-Mólúk voru borin þessi svör þeirra, þá kvaðst hann ekki mundu úr þeim stað fara fyr enn hann hefði sjeð það, sem þeir höfðu meðferðis handa honum. Stje hann því á hest sinn og reið þangað er lestamenn höfðu sett tjöld sín. Fögnuðu kaupmenn honum vel og báðu guð að veita honum náð sína og fulltingi og láta hann jafnan halda tign sinni og vegsemd. Settu þeir upp rautt silkitjald handa honum, alglitað perlum og gimsteinum, og breiddu fyrir hann silkiábreiðu og þar yfir aðra, er konungi hæfði;

*) Ljebarðar eru stundum tamdir til dýraveiða.

var efri bryddingin á henni skreytt með smarögðum. Taj-el-Mólúk settist nú niður og bauð kaupmönnum að sýna sjer hvað þeir hefðu. Röðuðu þeir vörunum niður fyrir framan hann, en hann valdi það úr, sem honum leizt og greiddi verð fyrir. Því næst stje hann aptur á hest sinn og ætlaði að ríða á brott, en þá sá hann meðal lestamanna ungling nokkurn gjörfulegan og fagran á velli, bjartan yfirlitum og vel á sig kominn. En æskurósirnar á vöngum hans voru bliknaðar af hryggð og sturlan, því hann var skilinn frá unnustu sinni; barmaði hann sjer sáran og mælti tárfellandi vísur þessar:

Oss var til funda
Frestur lengdur,
Kvöl jókst með kvíða,
Kveini og tárum.
Kvaddi eg hjarta mitt
Er eg hinnig fór;
Nú em eg viljalaus
Vonlaus og einn.

Ver hjá mjer, vinur!
Er eg víf það kveð,
Sem að sætum hljóm
Mundi sorgir lyfja.

Að svo mæltu grjet hann um stund og hnje svo meðvitundarlaus til jarðar; þókti Taj-el-Mólúk þetta undrum sæta. En er hinn ungi maður raknaði úr óvitinu, þá leit hann fyrst í kringum sig og hafði yfir vísur nokkrar, var þetta upphafið:

Gæt þín við ítrar
Augnaráði,
Flýr það engi
Sá er fyrir verður.

Stundi hann síðan hátt við og fjell aptur í óvit, og sem hann raknaði við aptur, þá sá hann konungssoninn standa yfir höfði sjer. Spratt hann þá á fætur og kyssti jörðina fyrir fótum hans. „Því hefur þú ekki sýnt oss vörur þínar?“ spurði Taj-el-Mólúk. „Herra!“ svaraði yngismaðurinn, „ekkert af varningi mínum er yður samboðið.“

En kóngsson linnti ekki látum og sagði hann yrði fyrir hvern mun að sýna sjer það sem hann hefði, og segja sjer, hvernig á högum hans stæði, því hann sæji hversu hann harmaði og táraðist; ef hann ætti kúgun að sæta, þá skyldi það ekki lengur verða og væri hann í skuldum, þá skyldi hann borga þær, því sjer hefði runnið hugur til hans, þegar í fyrsta svip er hann leit hann. Bauð þá Taj-el-Mólúk að sóktur væri stóll, og var þá komið með stól af ebenviði, er allur ljómaði af gulli og silki. Settist hann á stólinn og ljet breiða hjá sjer silkiábreiðu, bauð hann yngismanninum að setjast á hana og sýna sjer varning sinn. Færðist yngismaðurinn undan því einsog fyrri, en Taj-el-Mólúk ljet þá menn sína sækja vörurnar og ítrekaði skipun sína. Þá tárfelldi yngismaðurinn, andvarpaði og kveinaði; hafði hann yfir spakmæli nokkur og fór að taka upp vörur sínar og sýndi Taj-el-Mólúk hvað eina. Meðal annara muna var þar silkihjúpur gullofinn, tvö þúsund gullpeninga virði. En er hann rakti hjúpinn sundur, þá datt úr honum líndúkur; greip hann dúkinn sem skjótast, faldi hann og sagði um leið, einsog hann væri að dreyma: „Nær muntu lækna þetta marghrelldа hjarta? Sjöstirnið er mjer nær enn þú ert?“ Varð nú Taj-el-Mólúk öldungis hlessa á orðum og atferli yngismannsins, og spurði, hvernig af stæðist um dúk þenna. „Það er ófróðlegt að vita fyrir yður,“ svaraði yngismaðurinn. Krafðist kóngsson þess, að hann sýndi sjer dúkinn, en ekki gerði yngismaðurinn það fyr enn hann var búinn að skipa honum það, hvað eptir annað; enda var þá farið að síga í kóngsson. Tók þá yngismaðurinn upp dúkinn með gráti og andvörpum og spurði Taj-el-Mólúk, hvernig á því stæði, að hann andvarpaði svo mjög og táraðist yfir dúknum. „Saga mín, herra! er undarleg næsta,“ svaraði yngismaðurinn, „og margt er kynlegt af dúk þessum að segja og kvennmanninum sem átti hann og saumað hefur á hann myndir þessar.“ Um leið og hann mælti þetta, rakti hann dúkinn í sundur, og sázt þá hind er glituð var á hann með gulli og silki, og önnur andspænis henni silfurglituð með gullhelsi og hjengu við þrjár tölur af gullsteini. Var svo ljómandi handbragð á þessu, að Taj-el-Mólúk fjekk eigi orða bundizt og sagði: „Lofaður sje algjörleiki guðs, sem kennt hefur mönnunum það, sem þeir kunnu

eigi fyr.“*) Bauð hann þá yngismanninum að segja sjer sögu sína og konu þeirrar, er glitsaumurinn væri eptir, en hann gerði svo og sagði sögu þá, er næst greinir.

## Sagan af Asús og Asúseh.

Faðir minn var velmetinn kaupmaður og var eg einbirni hans. Var eg uppfæddur í foreldra húsum ásamt bræðrungu minni; var faðir hennar dáinn, en hafði fyrir andlátið gert þann máldaga við föður minn, að við, börn þeirra beggja, skyldum eigast; enda var okkur ekki heldur stíað sundur í uppvextinum og þegar við bæði máttum eigast fyrir aldurs sakir, þá sagði faðir minn við móður mína, að á þessu ári skyldi kaupmáli verða saminn fyrir Asús og Asúseh. Fjellst móðir mín á það mótmælalaust og var nú efnað til brullaups og hafður allur viðbúnaður, en eg lifði og ljek með frændstúlku minni í bernsku og vissi ekki neitt af neinu; var hún raunar miklu hyggnari og framsýnni enn eg. En er svo langt var komið þessu máli, að ekki vantaði annað enn að staðfesta hjúskapar sáttmálann og gefa okkur saman, þá kvað faðir minn á, að það skyldi verða á Föstudag eptir bænatíma. Bauð hann kaupmönnum og vinum sínum, en móðir mín frændfólki sínu og vinkonum. Nú er Föstudagur kom að hendi, þá var hreinsað til sem bezt í salnum, er fagna skyldi gestunum; voru ábreiður lagðar á gólf og tjaldað gullofnum dúkum um veggi; skorti engin tilföng er til veizlunnar þurfti. Faðir minn útvegaði sætabrauð og kryddmeti og var nú ekkert að vanbúnaði, að hjúskapar samningnum yrði framgengt á tíðkanlegan hátt.

Eg var farinn til lauga, því svo hafði móðir mín fyrir mig lagt, og hafði hún sent þangað eptir mjer ný og skrautleg klæði; fór eg í þau er eg hafði laugazt, og lagði af þeim ilminn þar er eg gekk. Ætlaði eg nú að ganga til musteris, en í því datt mjer kunningi nokkur í hug, sem eg vildi bjóða í veizluna, og það varð eg að gera, áður enn bænir byrjuðu. Sneri eg þá af leið minni inn í hliðstræti eitt, og hafði eg þar aldrei fyr komið; var mjer

*) Þessi orð eru úr kóraninum, 96. k.

heitt eptir laugina og svo af nýju fötunum og rann svitinn niður af enni mínu; breiddi eg þá útsaumaðan vasaklút á bekk nokkurn við efra enda strætisins, fyrir framan hús eitt. Hefði eg þá feginn viljað þerra svitann sem rann niður yfir andlit mjer, en nú sat eg á klútnum; ætlaði eg því að nota til þess faldinn á nærkyrtli mínum, en þá í sama svip datt ofan á mig hvítur dúkur. Hann var mýkri viðkomu enn vestanblærinn, og svo varð eg glaður, er eg sá hann, að sjúkur maður getur ekki fagnað heilsubata sínum meira enn eg fagnaði þá. Tók eg dúkinn og leit upp fyrir mig til að sjá, hvaðan hann væri kominn, og sá eg þá hana, sem átti dúkinn með hindunum. Hún horfði út um glugga, sem byrgður var eirgrindum, og hafa augu mín aldrei fegra sjeð enn hana; því verður eigi með orðum lýst, hversu hún var yndisleg. En er hún sá að eg leit upp, þá stakk hún einum fingri upp í sig, og lagði vísifingur og löngutöng saman á brjóst sjer; eptir það læsti hún glugganum og hafði sig á burt. Var hjarta mitt þá sem eldur brennandi, og brutust andvörpin upp frá brjósti mínu, stóð eg þar nær því örvita af undrun, því eg hafði ekki heyrt mærina segja neitt, og vissi ekki hvað bendingar hennar áttu að þýða. En svo beið eg undir glugganum til sólarlags, að eg hvorki sá nje heyrði frekara; stóð eg þá loksins upp og gekk burt með dúkinn.

Þegar eg fletti sundur dúknum, þá lagði sætan desilminn fyrir vit mjer, og varð eg svo himinglaður, sem eg væri í paradís. Síðan breiddi eg hann alveg í sundur og fjell þá úr honum brjef seðill, snoturlega samanbrotinn; opnaði eg seðilinn og angaði hann af hinum dýrustu ilmföngum; voru orð þessi rituð á hann: „Eg sendi honum brjef, til að lýsa ástríðu þeirri, sem mig kvelur; skriptin á því, er smágjör, en skript getur verið með ýmsu móti. Og elskhugi minn segir: Hví eru stafir þínir svo smáir og daufir, að augu mín fá valla lesið úr þeim? En eg svaraði honum: „Það kemur af því, að eg er beygð og kreppt undir byrði sorganna; eins hlýtur því rithönd elskendanna að vera.“ Eg virti nú dúkinn betur fyrir mjer, og sá eg að ástmæli voru letruð fram með jöðrunum með fögrum saumi; varð það til að glæða ástareldinn í hjarta mínu enn meira. Kom eg ekki heim fyr enn seint um nóttina og hitti eg frændstúlku mína grátandi. En er hún sá mig, þá þerrði

hún tárin af augunum, kom til mín og hjálpaði mjer úr yfirhöfninni. Spurði hún, hvernig á því stæði, að eg ekki hefði komið og sagði mjer um leið, að emírar og fleira stórmenni, kaupmenn, dómari og vitni hefðu komið, etið upp það sem á borðunum var og beðið mín lengi til að fullkomna hjúskapar sáttmálann; en að lokum hefðu þeir allir farið og faðir minn svarið í reiði, að nú skyldi ekkert af þessu verða fyr enn næsta ár, því veizlan hefði orðið til ónýtis; hefði hún þó kostað ærna peninga. „En hvað hefur hent þig,“ sagði hún ennfremur, „fyrst þú ekki kemur heim fyr enn þetta og hefur ónýtt allt með fjærveru þinni.“ Sagði eg henni þá allt sem farið hafði og sýndi henni brjefið og dúkinn. Las hún það er á hvoru tveggja stóð og flóðu tárin á meðan eptir kinnum hennar. Því næst spurði hún mig, hvort mærin hefði sagt nokkuð við mig eða látið mig skilja nokkuð á bendingum sínum. Svaraði eg þá, að hún hefði ekki mælt orð við mig, og hefði hún aðeins stungið einum fingri í munn sjer, þarnæst lagt vísifingur saman með löngutöng á brjóst sjer og bent til jarðar, lokað svo glugganum og ekki komið í augsýn framar; hefði eg þó beðið allt til sólarlags og vonazt þess að hún liti aptur útum gluggann. „Svona er nú komið fyrir mjer,“ sagði eg, „og bið eg þig að hjálpa mjer í þessum vandræðum mínum.“ Leit hún þá framan í mig og mælti: „Þó þú, frændi! beiddir um auga mitt, þá mundi eg slíta það úr höfði mjer, þín vegna. Verð eg nú að leggja þjer lið, að óskum þínum megi framgengt verða, og jafnframt hjálpa henni; því hún brennur af ást til þín og þú af ást til hennar.“ „En hvað átti látbragð hennar og bendingar að þýða?“ spurði eg. Þá svaraði hún: „Þar sem hún stakk fingrinum í munn sjer, þá var það til merkis um, að hún unni þjer sem önd sinni eða hjarta sínu, og að hún hafi þrár miklar til að finna þig. Dúkurinn er kveðja unnustu til unnusta, og játning hennar er í brjefinu, að hún elski þig. En er hún lagði tvo fingur á brjóst sjer, þá vildi hún þar með láta í ljósi, að þú yrðir að koma aptur að tveim dögum liðnum, og fæla sorgir hennar burt með návist þinni. Svo mikið skil eg af bendingum hennar, frændi minn! að hún elskar þig og ber traust til þín, og væri mjer ekki útgöngu varnað, þá skyldi eg sem fljótast hjálpa ykkur til að njótast og skýla ykkur undir möttli mínum.“ Eg

þakkaði henni fyrir skýringu þessa og góðvilja þann, er hún sýndi mjer; kom eg ekki út fyrir dyr í tvo daga, og bragðaði eg hvorki mat nje drykk, en frændstúlka mín hughreysti mig og veitti mjer hjúkrun. þegar tími var til kominn, þá hjálpaði hún mjer til að klæðast og fór um mig reykelsi, svo eg varð allur ilmandi; skoraði hún á mig að taka nú til óspilltra málanna aptur með æfintýri mitt. Eg herti þá upp hugann og gekk aptur inn í strætið og settist niður undir glugganum. Leið þá ekki á löngu að glugginn opnaðist, og sem eg leit upp og sá mærina, þá sveif á mig ómegin. Eg raknaði við og leit upp aptur, en þá fjell eg aptur í óvit. Og er augu mín lukust upp aptur, þá sá eg hana með skuggsjá og rauðan dúk. Bretti hún erminni upp á olboga, lagði lófann flatan á brjóst sjer og hjelt svo skuggsjánni og dúknum fram í glugga. því næst gekk hún frá glugganum, en kom þegar aptur með dúkinn, drap honum niður þrisvar og dró hann upp aptur, einsog hún hefði dýft honum niður í vatn. Síðan kreisti hún hann milli handanna einsog hún ætlaði að vinda úr honum, laut svo einusinni enn fram í gluggann, og lokaði honum aptur, án þess að mæla orð. Vissi eg ekkert, hvernig eg ætti að þýða þetta atferli hennar, og sat eg einsog agndofa á sama staðnum fram á nótt og kom ekki heim fyr enn um miðnætti. Var frændstúlka mín grátin mjög og studdi hendinni undir kinn; jók það enn meira á angur mitt og hugarkvíða. Eg örmagnaðist og hnje niður útí horni, en hún hljóp þá til, reisti mig á fætur, hjálpaði mjer úr skikkjunni og spurði, hvað mig hefði hent. En eg sagði henni allt einsog var og hjelt hún að mærin fagra hefði viljað láta mig skilja á breytni sinni, að eg ætti að koma að fimm daga fresti og setjast í búð litarans þangaðtil eg fengi boð frá henni; þetta síðara rjeði hún af því, er hún hjelt fram skuggsjánni og vatt úr dúknum. þá var sem skýji væri brugðið frá augum mínum og tók eg svo til orða: „Viti það guð á himnum, að þar hefur þú rjett til getið, því eg hef sjeð litara í hliðstræti nokkru, og er hann Gyðingur.“ þá tárfelldi eg, en frændstúlka mín hughreysti mig og sagði, að ekki ætti mjer að verða mikið fyrir að hafa þolinmæði í eina viku, þar sem aðrir yrðu að lifa við ástar kvalir árum saman. Hún færði mjer og mat að eta, en eg mátti einskis neyta; eigi gat eg heldur sofið og gerðist eg lotlegur og

fölur yfirlitum. Eg hafði aldrei áður kennt á elskunni og hennar brennandi ástríðu, og því varð eg sjúkur og frændkona mín um leið. Allt fyrir það sagði hún mjer svo lengi af þrautum og kvölum ýmsra elskenda, að eg sofnaði loksins útaf. En er eg vaknaði aptur, sá eg að hún sat ennþá vakandi hjá rúmi mínu og flóði í tárum. Liðu svo fimm dagar. Þá kom hún með heitt vatn og gerði mjer laug, færði mig í föt mín og bað mig að fara; óskaði hún þá að guð ljeti óskum mínum framgengt verða. Gekk eg svo til búðar Gyðingsins, en hún var lokuð sem von var, því þetta var um Þvottdag. Settist eg þá niður fyrir framan búðina og beið, þangað til kallað var til bænahalds eptir hádegið, og svo þangað til sól tók að roðna og komið var að kvöldbæna tíma. Eigi sá eg heldur neitt til hennar eptir að náttsett var orðið, eða neinn vott þess, að hún mundi koma; stóð eg loksins upp og ráfaði heim einsog drukkinn maður. Hitti eg þar frændstúlku mína og beið hún mín grátandi, en jafnskjótt sem hún sá mig, þá kom hún til mín brosandi og spurði mig, hvernig farið hefði. Eg bar mig aumlega og útjós tárum, en hún bað mig vera glaðan, og kvað óskir mínar bráðum mundu uppfyllast, fyrst unnustan ekki hefði komið; hún mundi hafa ætlað að reyna þolinmæði mína og stöðuglyndi og skyldi eg því að næsta morgni ganga inn undir glugga hennar og taka vel eptir merkjum hennar og bendingum. En allar fortölur hennar og huggunarorð fengu eigi sefað ástarkvalir mínar, og er hún færði mjer mat, þá spyrndi eg fæti við fatinu og mælti: „Hverjum þeim manni sem elskar er óglatt, og hvorki má hann neyta svefns nje matar.“ „Það veit hamingjan,“ sagði frændstúlka mín, „að þetta eru hin sönnu merki ástarinnar.“ Tók hún matinn, sem eg hafði forsmáð og frá mjer kastað og bar hann burt, en eg bað og óskaði þess eins, að bráðum mætti ljóma af degi. Og þegar í lýsingu fór eg á stað og settist undir glugga mærinnar; var honum brátt lokið upp og leit hún út um hann brosandi. Því næst sókti hún skuggsjá, stakk henni niður í poka og fleygði aptur fyrir sig. Síðan tók hún krukku með grænum jurtum, hleypti hárinu niður fyrir ásjónu sína og hjelt lampanum stundarkorn yfir jurtatoppunum. Fór hún svo burt með alla þessa muni og lokaði glugganum, en mjer varð þungt um hjarta útaf þessu leyndardómsfulla bendingamáli og af því, að hún hafði ekki

mælt svo mikið sem eitt orð við mig. Gekk eg þá heim með tárug augu og hryggan huga, og brann hjarta mitt af eptirþrá og ástríðu. En er heim kom, þá sat frændstúlka mín þar og hallaði andliti sínu upp að múrveggnum, því hún kvaldist af angri, hugsýki og afbrýði, en ekki hafði hún skap til að segja mjer, hversu mjög henni rann til rifja, að eg feldi ofurást til annarar konu. Augu hennar voru veik og þrútin af sífeldum gráti og var hún þunglega þjáð; varð hún fyrst að hressast nokkuð við, áður hún fengi spurt mig, hvernig farið hefði þann dag. Sagði eg henni það, en hún taldi þá fullvíst, að eg mundi bráðum fá vilja mínum framgengt; það sem mærin fagra hafði gert við skuggsjána, kvað hún ekki merkja annað enn að eg ætti að hafa þolinmæði til sólarlags. En þar sem hún ljet hárið síga niður fyrir andlit sjer, þá var það sem hún hefði sagt: „Komdu þegar nóttin breiðir skuggablæju sína yfir hina björtu ásjónu dagsins.“ Með jurtakrukkunni benti hún þjer til þess, að þú skyldir koma í aldingarðinn sem er að húsabaki, og með lampanum, að þú setjist þar niður sem þú sjer loga á lampa; þar áttu að bíða unnustu þinnar.“ Eg átaldi frændstúlku mína fyrir, að hún væri nú að tæla mig aptur með þessum fögru vonum, en hún hló við og bað mig aðeins vera þolinmóðan til kvöldsins; eg mundi þá reyna, hvort orð hennar ekki rættust. Leitaðist hún við að hafa af fyrir mjer, en eg bað til guðs, að sem allra fyrst mætti nátta. Og er svo langt var álíðið, þá fjekk frændstúlka mín mjer dálítið korn af hreinu desi og sagði mjer grátandi, að eg skyldi láta það upp í mig, kyssti hún mig um leið og mælti: „Þegar þú finnur unnustu þína, þá mæl fram vísu þessa:

Innið mjer, elskendur!
Eg yður særi
Viður vísi himna,
Hvað er hal ungum
Helzt til ráða,
Ef af ást hann brennur?

Ljet hún mig vinna þess eið, að fara ekki með vísuna fyr enn eg kveddi mærina. Því næst gekk eg til garðsins og stóð hliðið opið; sá eg ljós álengdar. Eg gekk á ljósið og kom að sal nokkrum í

aldingarðinum. Var hjálmþak yfir salnum úr fílabeini og ebenviði. Niður úr miðju þakinu hjekk lampi og allt umhverfis silkitjöld með gullsaumi og silfursaumi, en undir lampanum logaði stórt kerti í gullstiku. I miðjum salnum var fagurskreyttur gosbrunnur og stóð hjá honum borð með silkidúk; var á því nógur matur, postulínsflaska full af víni og gullbúinn kristallsbikar. Þar var og stór silfurkörf og breiddur dúkur yfir, sá eg, þegar eg skyggndist betur eptir, að í henni voru fegurstu aldin, með hinum fágætustu og ilmríkustu blómum. Nú með því eg engan mann sá, þá settist eg niður og hugði mjer til hreifings með það er eptir mundi fara. En svo leið fyrsta, önnur og þriðja stundin af nótt þessari, að eg sá ekkert til mærinnar, og hennar vegna var eg þó kominn á stað þenna. Fór eg nú að gerast fremur enn ekki hungraður, því svo hafði ástin altekið mig, að eg í langan tíma hafði engu bergt, en nú var eg hressari, er eg átti í vændum, að geta svalað löngun minni. Þar á ofan lagði ilminn af matnum, svo eg færði mig loksins að borðinu, tók lokin af skálunum og gladdi mig á fuglasteikinni, kryddmetinu og öðrum fögnuði sem fyrir hendi var. Tók eg svo freklega til matar og drykkjar, að mjer gerði svefnhöfugt, og sofnaði eg út af í legubekknum, er eg hafði nýþvegið hendur mínar. Og af því mjer hafði ekki komið svefn á augu í margar nætur, þá vaknaði eg eigi fyr enn sólargeislarnir skinu í andlit mjer; fann eg þá að allur kviðurinn á mjer var stráður salti og kolum. Spratt eg þá upp í skyndi og dustaði úr fötum mínum. Eg litaðist um og sá með undrun, að eg hafði legið á bláberu strætinu. Varð eg þá utan við mig af hugsýki og fór grátandi heim; hitti eg þar frændstúlku mína tregandi og tárfellandi. En jafnskjótt og hún sá mig, þá þerrði hún tárin af augunum og mælti með stillingu og hógværð, einsog henni var títt: „Guð hefur verið þjer miskunsamur í ást þinni, því sú, sem þú elskar, elskar þig aptur á móti, en eg sit hjer grátandi og harmandi út af fjærveru þinni, og hjarta þitt brennur eigi af elsku til mín. En þess vil eg óska, að guð refsi þjer aldrei mín vegna. Tók hún því næst af mjer skikkjuna hlægjandi, með tárin í augunum, breiddi hana út og mælti: „Eigi er þess kyns ilmur af skikkjunni sem þú hafir verið hjá unnustu þinni; seg mjer hvað þig hefur hent!“ En er eg hafði sagt henni æfin-

týri mitt, þá mælti hún og var heldur skapþungt: „Hjartað svellur og svíður í brjósti mínu. Mikið er hvað mær þessi kvelur þig, og það veit hamingjan, frændi minn! að mjer rís hugur við því, er hún framvegis mun beita við þig. Saltið á að merkja, að þú hafir verið dauðsyfjaður, og sjert því síður enn ekki drenglyndur unnusti, því ástfangnir menn megi ekki sofa, og sje því elska þín ekki sem tryggust. En hennar ást til þín er eigi heldur langt á leið komin, fyrst hún gat sjeð þig sofanda og vakti þig ekki, því það mundi hún gert hafa, ef hún elskaði þig að marki. Kolið merkir þetta: „Guð láti ásjónu þína svertast, því ást þín er hræsni, og þó ertu ekki nema barn, sem eingöngu hugsar um mat og drykk og svefn. „þetta er meining hennar, og væri betur að guð ljeti þig frelsast frá henni.“ þá barði eg mjer á brjóst og mælti: „það veit guð, að þetta er hverju orði sannara; eg hef sofið, en það gera elskendur eigi. Eg hef þá óvirt sjálfan mig. Gat eg tekið upp á nokkru svívirðilegra enn að eta og sofa? En hvað er nú til ráða?“ Svo mælti eg grátandi og sárbændi frændstúlku mína að leggja mjer heilræði og miskuna mjer, því þá mundi guð miskuna henni, að öðrum kosti væri mjer dauðinn vís. Og með því henni þókti svo vænt um mig, þá lofaði hún fyrir fullt og fast, að hún skyldi gera allt sem í hennar valdi stæði til þess eg næði fundi unnustu minnar, og fengi ósk minni framgengt. Rjeði hún mjer til að fara á sama staðinn um kvöldið, en varast að eta nokkuð, því slíkt gerði menn syfjaða, og mundi unnusta mín eigi koma fyr enn með annari eykt nætur. „Guð varðveiti þig frá vonzku hennar,“ sagði frændstúlka mín, en eg bað drottinn að láta nóttina detta á sem fljótast; og er eg gekk á stað, þá minnti hún mig á vísuna, sem eg ætti að hafa yfir við unnustu mína, þegar eg skildi við hana; ítrekaði eg loforð mitt, að eg skyldi svo gera. þegar eg kom í aldingarðinn, þá var þar allt að einu og fyrri nóttina. Settist eg niður í salnum og fór eg nú aptur að finna til svengdar, er sætan ilminn lagði af matnum; stóð eg af mjer lengi vel framan af, en þar kom þó um síðir að eg gat ekki haldið mjer frá að neyta af krásunum. Át eg nú og drakk heldur ríflega og settist svo í legubekkinn, hallaði höfðinu upp við kodda og hugsaði með mjer, að eg mundi fá varizt svefninum. En þó fór svo að eg sofnaði og

vaknaði ekki fyr enn um hábjartan dag; fann eg á kvið mjer tening, taflsprota og pálmhnotarkjarna. Var allt horfið er eg fyr hafði sjeð hjá mjer og í kringum mig. Stóð eg þá upp með hryggum huga og gekk heim. Frændstúlka mín heilsaði mjer, en eg fyrirvarð mig fyrir henni, og ljet eg hana þeim mun fremur kenna á ólund minni. En hún var ótrauð að ganga á mig, að eg skyldi segja henni, hvað mig hefði hent um nóttina; sagði hún mjer merkingu hluta þeirra, er eg fann þegar eg vaknaði, og hefði mærin fagra viljað gera mjer skiljanlegt með teningnum, að fánýt dægrastytting ætti betur við mig enn ástir, en með pálmhnotarkjarnanum *) segir hún að hjarta þitt hafi verið langt í burtu enn þótt þú kæmir þangað, og megi slíkt ekki eiga sjer stað á milli elskenda; sje því betra að þú sitjir heima heldur enn að þjer verði það aptur, að þú sofnir.“ Fór eg þá að barma mjer og sárbændi frændstúlku mína, að kenna mjer ráð til að ná fundi unnustu minnar. Þá mælti hún: „Frændi minn! hjartað ætlar að bresta í brjósti mínu og má eg eigi mæla. En farðu aptur í kvöld og sofðu ekki, þá muntu fá óskina þína.“ Að svo mæltu færði hún mjer mat og hjelt svo ákaft að mjer að borða, að eg ljet til leiðast; var hún mjer og hjálpleg, er eg bjó mig skrautklæðum mínum, er eg bezt hafði. Fór eg svo aptur um kvöldið inn í aldingarðinn og tók mjer sæti í salnum.

Eg horfði nú útí náttmyrkrið og neytti allrar orku til að verjast svefninum. En loksins sigraðist eg af sulti og ílöngun, er eg sá matinn og drykkinn hjá mjer einsog í fyrri skiptin; át eg þá, og drakk með matnum eina skál af víni og svo hverja af annari, þangaðtil eg var búinn að tæma tíu. Og með því eg var áður farinn að örmagnast af ástinni, þá gerði mjer nú enn höfugra og fjell eg til jarðar einsog dauður maður. Vaknaði eg um morguninn og lá þá fyrir utan garðinn; sá eg að hjá mjer lá beittur hnífur og dálítill peningur. Tók eg hvorttveggja skjálfandi og skjögraði heim. Var frændstúlka mín þar fyrir og ávarpaði mig þessum orðum: „Hjer sit eg í eymd og volæði, og hef ekkert mjer til huggunar nema tár mín.“ Óðara enn eg var inn kominn, fjell eg í óvit og datt hnífurinn með peningnum úr hendi minni. Stumr-

*) Pálmhnotarkjarni heitir Nawah, en það orð merkir líka fjarlægð og fjærveru.

aði hún yfir mjer þangaðtil eg raknaði við; bað eg hana segja mjer, hvað peningurinn og hnífurinn ætti að tákna. þá mælti hún: „þetta skil eg svo, sem hún segi: „Eg sver við hægra auga mitt, að finni eg þig aptur sofanda, þá skal það verða þinn bani.“ Nú bað eg hana ákaft að leggja mjer góð ráð og hjálpa mjer; sagði hún eg skyldi leggjast fyrir og sofna. Settist hún hjá rúmi mínu og hjelt á veifu til að verja mig flugum. Vakti hún mig þegar farið var að kvölda, færði mjer mat og drykk og hjálpaði mjer í fötin; tók hún mjer rækilega vara fyrir að sofna og fór eg svo ennþá einusinni til að reyna, hvort ástaræfintýri mitt mætti heppnast. Beið eg í salnum og var nú vel hress og styrkur, er eg hafði matazt áður. Nú líður fyrsta nætureykt; báðar næstu eyktirnar þóktu mjer sem eilífð væri, en loksins voru þær á þrotum og hanar teknir að gala. þá fór eg aptur að svengjast og neytti eg bæði af matnum og drykknum. En af því gerðist eg syfjaður og lá við að dotta, en í sama bili heyrði eg hávaða nokkurn langt í burtu. Spratt eg þá upp í skyndi og þvoði mjer í framan og um hendurnar. Kom nú loksins sú er eg svo lengi hafði til þráð. Fylgdu henni tíu ambáttir og brunaði hún á undan þeim, björt og fögur, sem máninn í fyllingu sinni. Var hún í grænum silkikyrtli gullsaumuðum. Hún leit til mín brosandi og mælti: „Hverju sætir það, að þú sefur ekki einsog í fyrri skiptin? Nú trúi eg ást þinni, því ást veldur andvökum.“ Að svo mæltu bauð hún ambáttunum að fara og nutumst við með ást og vingan allt til morguns. En er eg ætlaði að fara, þá bað hún mig að bíða ofurlítið. Breiddi hún þá sundur vasaklút sinn, tók upp úr honum líndúk þenna og rakti hann út fyrir mjer, sá eg þá báðar hindirnar og dáðist að. Sagði hún að á þeim væri handbragð Núr-el-húdu systur sinnar og skyldi eg geyma dúkinn einsog menjagrip. Sleppti hún mjer svo frá sjer, en þó eigi fyr enn eg hafði heitið að finna hana á hverri nóttu. þegar eg kom heim aptur, var frændstúlka mín föl í andliti og spurði mig, hvort eg hefði mælt fram við unnustu mína vísuna, svo sem hún hafði fyrir mig lagt. En mjer hafði gleymzt það þegar eg sá dúkinn með hindunum; sýndi eg frændstúlku minni dúkinn og bað hún mig að gefa sjer hann. Eg gerði svo, en næstu nóttina þegar eg kvaddi unnustu mína, þá mundi eg að mæla fram vísuna:

Innið mjer, elskendur!
Eg yður særi
Viður vísi himna,
Hvað er hal ungum
Helzt til ráða,
Ef af ást hann brennur?

Við orð þessi fylltust augu hennar tárum og svaraði hún mjer þannig:

Leyna skal hann elsku
Og launmál geyma,
Föld í fylgsnum hugar,
Og með hóglyndi
Í hvívetna
þolinmóður þreyja.

þegar heim kom, sagði eg frændstúlku minni orð þessi, en hún lá þá veik og var næsta máttfarin; sat móðir mín grátandi við höfðalag hennar, og atyrti mig fyrir, að eg skyldi geta gengið frá bræðrungu minni, þegar svona á stæði. þá hafði eg yfir vísuna en frændstúlka mín svaraði mjer með annari:

þreyta nam hann sig
Á þolinmæði,
Eitt hann bar úr býtum,
það var hjarta
Harmi þrungið
Margsært munarstríði.

Bað hún mig að flytja unnustu minni vísu þessa, og það gerði eg, kom upp fyrir henni grátur, er hún heyrði hana, og svaraði hún mjer þannig:

En ef hann þrýtur
þol að dylja
Ástar einkamál,
Vildra honum
Veit eg eigi
Enn hinn dapra dauða.

Nú kom eg heim aptur og fann þar frændstúlku mína rænulausa, en sem hún heyrði rödd mína, þá lauk hún upp augunum og mælti: „Asús! hefurðu sagt henni vísuna?“ Eg játti því og sagði henni svarið. þá stundi hún þungan og fjell í óvit, en raknaði jafnskjótt við aptur og mælti: „Eg heyri og hlýði; nú mun eg deyja; farðu og heilsaðu henni, sem hefur komizt upp á milli okkar“. Fór eg um kvöldið inn í garðinn að finna unnustu mína, og er eg skildi við hana morguninn eptir, hafði eg aptur yfir vísuna, sem frændstúlka mín fór með seinast. þá hljóðaði hún upp yfir sig og kallaði hástöfum grátandi: „Sannlega er sú kona dauð, sem þetta hefur mælt. Æ, var hún ekki skyld þjer?“ Sagði eg henni, að hún hefði verið bræðrunga mín og mælti hún þá ennfremur: „Guð veri þess vitni, að nú lýgur þú, því hefði svo verið, sem þú segir, þá mundir þú hafa elskað hana einsog hún elskaði þig, og hefðir þú nokkurntíma sagt mjer frá henni, þá skyldir þú aldrei hafa orðið ástar minnar njótandi. Vissi hún þá, að þú áttir vingott við mig?“ Eg sagði að svo hefði verið. þá mælti hún: „Guð láti þig þá tortýnast einsog þú hefur tortýnt henni. Far nú til hennar þegar í stað.“ Hlýddi eg orðum hennar með döprum huga og sem eg nálgaðist hús foreldra minna, þá bar mjer að eyrum grát og kveinstafi. Spurði eg, hverju það gegndi, og var mjer sagt að Asúseh lægi dauð fyrir innan dyrnar. En er eg kom inn og móðir mín sá mig, þá kallaði hún hástöfum: „Dauði hennar komi í koll þjer og aldrei þrífist svo ófrændrækinn maður sem þú ert.“ Kom nú faðir minn og höfðum við allan viðbúnað til greptrunarinnar; gættum við vandlega alls þess, sem siður er við slík tækifæri. Var kóraninn lesinn hjá gröf hennar spjalda á milli, og stóð á því í þrjá daga. Fór eg síðan heim í hryggu skapi, og vildi móðir mín þá fyrir hvern mun vita, hvað eg hefði gert Asúseh til meins og hversu eg hefði skapraunað henni til dauða; kvaðst hún hafa margspurt hana að því og ávallt farið jafnnær. Svaraði eg henni, að mjer væri með öllu ókunnugt, hvað eg hefði átt að gera henni til miska. þá tók móðir mín svo til orða: „Hún bar til þín óslítandi elsku allt fram í andlátið, og skömmu áður hún andaðist, mælti hún við mig þessum orðum: „þess bið eg, að guð láti eigi syni þínum hefnast fyrir dauða minn, eða refsi honum

fyrir það, er hann misbraut við mig. Nú mun eg verða burtkölluð frá þessum fallvalta heimi til eilífs lífs.“ Og svo ríkt sem eg gekk á hana að hún segði mjer, hvernig á meinum hennar stæði, þá gat eg þó einskis orðið vísari, en því bað hún mig að skila til þín, að í hvert skipti sem þú gengir frá staðnum, sem þú sæktir svo opt til, þá skyldirðu segja þessi orð: „Trúlyndi er gott, en svik eru svívirðileg.“ Að endingu bað hún mig fyrir nokkuð til þín, og ljet mig vinna þess dýran eið, að eg eigi skyldi fá þjer það í hendur, fyr enn eg sæji að þú harmaðir hana með gráti og kveinstöfum.“ Bað eg móður mína að sýna mjer hlut þenna, en hún synjaði mjer; hafði eg nú ekki hugann á öðru enn að vera hjá unnustu minni sí og æ. Var eg næstu nótt hjá henni í garðinum; hafði hún þráð mig með mikilli óelju og spurði eptir frændstúlku minni. „Hún er dáin“, sagði eg, „og höfum við þulið harmaljóð og látið lesa kóraninn hennar vegna; eru nú fjórar nætur liðnar frá því er hún andaðist.“ þegar hún heyrði þetta, hljóðaði hún upp yfir sig og mælti grátandi: „þú hefur drepið hana, og er eg hrædd um að þjer muni hefnast fyrir.“ Svaraði eg þá, að hún hefði fyrirgefið mjer fyrir andlátið, og innti henni allt sem móðir mín hafði sagt mjer frá og þarmeð líka orðin: „Trúlyndi er gott, en svik eru svívirðileg.“ En er hún heyrði það, þá kallaði hún hástöfum: „Guð miskuni henni, hún hefur borgið þjer, því eg hafði illt í hyggju við þig. En nú skal þjer ekki meint verða.“ „Hvað ætlaðirðu þá að gera mjer?“ spurði eg, „við höfum þó fest elsku hvert við annað.“ Hún mælti: „þú ert unnusti minn, en þú ert ungur og óreyndur, og þekkir ekki lævísi og kaldlyndi kvennfólksins. Nú hefur þú ekki frændstúlku þína framar til ráðaneytis og fulltingis; hún er dáin, sem þýddi fyrir þig merkin, sem við vitum, og nú krefst eg þess af þjer, að þú við enga konu talir og engri svarir, hvort sem hún er ung eða gömul. Eg vildi eg hefði þekkt frændstúlku þína, svo eg hefði getað þakkað henni fyrir það sem hún hefur gert fyrir mig. En eitt er sem eg heimta af þjer, og það er, að þú fylgir mjer þangað, sem hún er greptruð, svo eg geti höggið grafletur á legstein hennar.“ þegar nóttin var á enda, tók hún sjóð með nokkrum peningum í, og sagði mjer að fylgja sjer til grafarinnar. Á leiðinni þangað útbýtti hún ölmusum og

sagði í hvert skipti sem hún gaf: „þetta er gefið fyrir sálu Asúseh, sem geymdi leyndarmál sitt og duldi elsku sína, allt þangað til hún bergði bikar dauðans.“ Hjelt hún þessu áfram þangaðtil við komum að gröfinni og sjóðurinn var orðinn tómur. Hnje hún grátandi niður við gröfina, og er hún loksins reis á fætur, þá tók hún upp oddhvassan meitil og hamar; fór hún því næst að höggva letrið á steininn. Grjet hún sáran meðan hún var að því verki. þegar við vorum komin aptur í garðinn sagði hún: „Eg sárbæni þig í guðs nafni, að þú aldrei slítir við mig elsku þinni.“ „Eg heyri og hlýði,“ mælti eg.

Tíminn leið nú fljótt og vissi eg valla fyr enn eitt ár var á enda liðið. Eg var glaður og ánægður og var eg með öllu búinn að gleyma frændstúlku minni. það var einhverju sinni í byrjun annars ársins, að eg hafði farið til lauga og búizt nýjum og ilmandi fötum; hafði eg í tilbót drukkið mjer staup af víni og ætlaði eg um kvöldið í garðinn til unnustu minnar eptir vanda. En eg var dálítið kenndur af víninu og varð mjer reikað inn í hliðarstræti eitt; þar mætti eg kerlingu nokkurri. Hjelt hún á brjefi og loganda ljósi í hendinni, spurði hún mig hvort eg væri læs. Eg kvað svo vera og bað hún mig þá að lesa brjefið. Gerði eg það fyrir hana og sagði henni, að brjefið væri frá fjærveranda manni og væru í því kveðjur til unnustu hans. Var sem henni þækti vænt um þetta og ætlaði hún að fara leiðar sinnar, en í sama bili sneri hún sjer við, og kyssti á hönd mína, óskaði mjer allrar hamingju og blessunar og beiddi mig að ganga með sjer að dyrum á húsi nokkru ekki allfjærri og lesa þar upp brjefið ennþá einusinni, því menn mundu valla trúa því, er hún segði af brjefsefninu. Fór eg þá með henni og sagði hún mjer ennfremur, að brjefið væri frá syni hennar, sem búinn væri að vera tíu ár í burtu, enda hefði hann líka verið talinn af; sagði hún að systir hans hefði alltaf grátið nótt og dag síðan hann lagði á stað. Komum við nú að hurð nokkurri eirsleginni; hrópaði kerling þar og mælti nú á persneska tungu. Í sama bili heyrðist ljettlegt fótatak og lauk yngisstúlka upp fyrir okkur. Svo var að sjá sem hún kæmi frá einhverri vinnu, því hún hafði brett brókum sínum upp að knjám, svo að sá á fætur hennar, en þeir voru yndislega fagrir og hvítir sem

alabastur, öklarnir voru hinir snotrustu og læst um þá skínandi gullspennum; hún hafði og stytt upp um sig nærkyrtli sínum. Í eyrnahringum hennar voru fagrar perlur. Og er hún sá mig, þá spurði hún mig með óumræðilega sætum málrómi, hvort eg væri sá sem ætti að lesa brjefið. Tók hún brjefið af kerlingunni og rjetti mjer. Eg stóð enn í dyrunum opnum og laut nokkuð inn, þegar eg ætlaði að taka við brjefinu, en í sama bili hratt kerlingin mjer inn, svo eg rauk inn úr dyrunum og vissi ekki fyrri til enn eg var í miðju anddyrinu. En kerling snaraðist inn á eptir og skelldi dyrunum í lás. En stúlkan fallega vafði um mig örmum sínum og tók mig svo við hönd sjer, en kerling gekk á undan okkur með ljós. Leiddi stúlkan mig í gegnum sjö forsali, þangaðtil við komum í sal nokkurn geysimikinn; mundi ríðandi maður hafa haft þar fullrúman skeiðvöll og getað þanið undir sjer hestinn til ýmsra hliða. Var þar allt bjart og skínandi af fegursta alabastri; hægindi og ábreiður voru úr gullofnu silki. Þar voru og tveir koparbekkir og legubekkur einn, sem var svo fjölskreyttur með gimsteinum og perlum, að konungi hæfði, en ekki ótignara manni.

Þegar við vorum sezt niður, spurði hún, hvert mjer þækti betra, lífið eða dauðinn. „Mjer þykir lífið betra," svaraði eg. „Þá skaltu eiga mig," mælti hún, „og muntu óhultur verða fyrir Delileh hinni lævísu." Svaraði eg að mjer væri enginn hugur á að eiga þesskonar kvendi, og spurði, hver Delileh þessi væri. Þá hló hún við og kvaðst halda, að þá mundi ekki öðrum kunnugra enn mjer, sem hefði haft hana fyrir lagskonu í heilt ár. „Guð láti hana aldrei þrífast," mælti hún, „hún er hið argasta flagð, og hefur orðið mörgum manni að bana áður enn hún kynntist þjer. Hvernig hefur þú farið að komast af, svo að þú hvorki hefur beðið af henni bana eða tjón, þar sem þú þó hefur haft mök við hana í svo langan tíma." Eg varð frá mjer af undrun er eg heyrði þetta, og varð eg að segja stúlkunni ítarlega frá allri viðkynningu minni við Delileh. Harmaði hún forlög frændstúlku minnar; kvað hún Delileh aðeins hafa þyrmt mjer hennar vegna. Síðan klappaði hún saman lófunum og skipaði kerlingu að láta þá inn koma, er viðstaddir væru, en fyrst brá hún þó skýlunni fyrir andlit sjer. Komu nú inn fjögur vitni og kveykti kerling fjögur ljós, var kaupmáli

saminn og í honum kannaðist brúðurin við, að hún hefði tekið við morgungjöf sinni, og væri hún mjer skuldug um tíu þúsundir silfurpeninga. Síðan fengu vitnin borgun og gengu á burt. Með svo undarlegum hætti fjekk eg konu þessa.

Daginn eptir ætlaði eg að ganga út, en kona mín hló að mjer og spurði, hvort eg hjeldi, að eins hægt væri að komast úr baðinu og að komast í það; hún átti við það, að menn verða að greiða baðtoll þegar menn fara frá laugum. „Þú mátt ekki halda," sagði hún, „að eg sje af sama tægi og hún Delileh. Þú ert nú bóndi minn samkvæmt því sem boðið er í kóraninum og Sunnu*), og hafirðu verið ölvaður í gær, þá ertu þó með öllu ráði í dag. Húsi voru er ekki lokið upp optar enn einusinni á ári; þú getur bezt sjeð það á dyrunum." Gekk eg þá að dyrunum og sá að hurðin var rígnegld aptur. Sagði kona mín, að því mætti eg treysta, að við hefðum nægar byrgðir til margra ára, bæði af mjöli, sykri, víni og aldinum; mundi dyrunum eigi verða upp lokið fyr enn ár væri liðið frá yfirstandanda degi, og fyr mætti eg eigi stíga yfir þröskuld hússins. Þá kallaði eg hárri röddu: „Hvergi er vald nje máttur nema hjá guði." En hún hló að mjer og eg hló líka; bjuggum við svo saman og fæddi hún mjer son fyrir árslokin. Fyrsta daginn í nýja árinu heyrði eg að dyrunum var lokið upp; voru þar menn komnir og báru þeir mjöl og sykur og annað fleira inn í húsið. Fór eg þá til konu minnar og sagði að mig langaði til að koma út. En hún bað mig að bíða þangað til um kvöldið, því bezt væri að eg færi einsog eg hafði komið. Eg gerði svo, en áður eg færi, varð eg að sverja, að eg skyldi koma aptur sömu nóttina, áður enn dyrunum yrði lokað aptur. Þenna eið varð eg að vinna við kóraninn og sverðið og skilnað okkarn.**) Gekk eg svo burt frá húsinu og sneri á leið til aldingarðsins. En nú brá mjer illa við, því garðurinn stóð opinn, og hafði eg þó eigi vitjað hans í heilt ár; eigi var heldur von á mjer á þessum tíma. Vildi eg sjá,

*) Sunna er safn af munnmælasögum þeim er ganga af Mahómet, og er sú bók hjá Tyrkjum og Aröbum nær því í sama gildi, sem kóraninn, en Persar hafna henni með öllu.

**) Svo hún gæti gipzt á ný þegar hinn lögboðni frestur væri á enda.

hvort vinkona mín væri þar fyrir og gekk þegar inn í garðinn, en að því búnu ætlaði eg að finna móður mína. Sat Delileh í garðinum þar sem eg hafði skilið við hana, og studdi höfðinu fram á hendur sínar. Hafði hún látið stórum ásjást og var orðin tekin til augnanna. Og er hún sá mig, kallaði hún hástöfum: „Guði sje lof, að þú ert enn á lífi!“ Hún ætlaði að standa upp, en hnje niður aptur, því hún vanmegnaðist af fögnuðinum. Stóð eg þar með kinnroða frammi fyrir henni, en eg herti fljótt upp hugann og fór að sýna henni blíðlæti; spurði eg hana, hvort hún hefði vonazt eptir mjer þá nótt. „Eg vissi ekki,“ sagði hún, „að þú mundir koma, en svona hef eg beðið þín á hverri nóttu frá því þú hættir að koma. En þú sveikst um að finna mig fyrstu nóttina, svo aðra og svo þriðju og svo hverja af annari, og aldrei komstu. Samt beið eg þín jafnt samt áður. En seg mjer nú, hvað aptraði þjer?“ Eg sagði henni þá upp alla söguna, hvernig kvonfang mitt hefði atvikazt; duldist eg þess eigi, að eg yrði að skilja við hana fyrir dögun. Þá varð hún náföl í framan, og smánaði bæði mig og konu mína með bríxlyrðum; gerðist hún að endingu svo hamslaus og ofboðsleg, að mjer tók að rísa hugur við. Kallaði hún á ambáttir sínar og vissi eg eigi fyr enn tíu kvennmenn flugu á mig og vörpuðu mjer til jarðar. Þá stökk hún sjálf upp, skók hníf í hendi sjer og mælti: „Eg skal slátra þjer einsog kiði og skaltu hafa það fyrir ræktarleysið við frændstúlku þína.“ Taldi eg mjer nú dauðann vísan og hugsaði ekki til að bera hönd fyrir höfuð mjer. Ambáttirnar bundu mig og börðu, því svo skipaði Delileh þeim, og var nú svo langt komið, að þær voru farnar að leysa af mjer hálsklútinn, en þá bljes guð því snjallræði í brjóst mjer, að eg hafði upp orðin sem Asúseh hafði kennt mjer: „Trúlyndi er gott, en svik eru svívirðileg.“ Í því hún heyrði orð þessi, þá hrópaði hún: „Guð miskuni þjer, Asúseh; ó, að þú hefðir eigi dáið svo ung.“ Síðan vjek hún sjer að mjer og mælti: „Með þessum fáu orðum hefur þú leyst líf þitt. En allt fyrir það skaltu bera nokkrar menjar reiði minnar.“ Veitti hún mjer þá mikinn áverka, svo eg fjell í óvit. En er eg raknaði við aptur, var blóðrásin stöðvuð, og gaf Delileh mjer vín að drekka. Tróð hún mig síðan undir fótum svo eg skyldi fara. Var það með naumindum, að eg fjekk

staulazt heim í hús konu minnar; stóð það ennþá opið. Og er eg var inn kominn, þá hnje eg til jarðar og seig á mig þungur svefnhöfgi. En er eg vaknaði, þá sá eg að eg lá fyrir utan garðshliðið. Spratt eg þá upp með hræðslu og fór heim til móður minnar; hafði hún lengi grátið mig, því hún þóktist ganga að því vísu, að eg væri dáinn. Fagnaði hún mjer tárfellandi og sagði mjer, að faðir minn væri við skilinn fyrir viku síðan. Harmafregn þessi og endurminningin um frændstúlku mína fjekk mjer nú svo mikils, að tárin streymdu óðum af augum mínum. Eg grjet og kveinaði þangaðtil eg valla vissi af mjer lengur, og var ekkert lát á fyr enn um miðnætti. Þá tók móðir mín aptur til máls og sagði: „Hann faðir þinn er dáinn fyrir viku síðan.“ Þá mælti eg: „Eg hugsa ekki nema um frændstúlku mína. Það er aldrei nema maklegt, sem fram við mig hefur komið, því eg afrækti þá sem elskaði mig.“ Því næst sagði eg móður minni frá því, er mig hafði hent; þakkaði hún sínum sæla, að eg aðeins var særður, úr því við sjálft lá, að eg hefði látið líf mitt. Veitti hún mjer hina beztu aðhjúkrun, og er eg var albata, þá afhenti hún mjer það sem Asúseh hafði beðið hana fyrir á deyjanda degi. Það var líndúkurinn með hindunum, sem eg hafði gefið henni. Hafði hún ritað á hann raunatölur í ljóðum, og lýstu þær harmkvælum árangurslausrar elsku; en huggunar orð hafði hún ritað á lausan miða, sem vafinn var innan í dúkinn. Þegar eg var búinn að lesa og ráða vísurnar, kom aptur upp fyrir mjer grátur, og grjet eg þangað til nóttin datt yfir. Og með þessum hætti leið heilt ár, en að því liðnu ljet eg til leiðast fyrir fortölur móður minnar og slóst í ferð með kaupmönnum nokkrum til að hafa af fyrir mjer. Samt er eigi ennþá tekið fyrir lindir tára minna, því í hvert sinn er við æjum úlföldum vorum, þá rek eg sundur fyrir mjer dúkinn með hindunum, horfi á hann um stund og hugsa til frændstúlku minnar; þá græt eg hana fögrum tárum, því hún elskaði mig svo einlæglega, en eg launaði henni með illu einu, þó hún aldrei sýndi mjer annað enn góðvilja og ástríki. Fyrir því hefur harmurinn og sorgin eigi getað ræzt af mjer; hryggur fór eg á stað og hryggur mun eg heim koma. En það eitt ber til þess, að eg kom á ferð minni til Kamfórueyja og Kristallsborgar. Kamfórueyjar eru sjö að tölu og ræður Schahseman konungur

yfir þeim. Hann á dóttur, er Dúnýa heitir, og er hún fegurst mær í heimi. Vildi eg fyrir hvern mun sjá hana, og bar eg því fje á varðmanninn, er settur var til að sjá um lystigarð hennar. Lofaði hann mjer að fela mig í garðinum og sá eg þar Dúnýu kóngsdóttur; þókti mjer sem eg sæji mánann, er hann ljómar fegurst í fyllingu sinni. Einsog þyrstur maður þráir svalandi lindir, eins varð hugur minn gagntekinn af löngun og þrá til hennar. En hún hvarf mjer í sama svip og svo fór eg burt úr garðinum, að hjarta mitt var altekið af yndisleik hennar. Varð eg samstundis að snúa til ferða, því fjelagar mínir voru að taka sig upp úr áfangastaðnum. Fórum vjer svo leiðar vorrar, unz vjer komum hingað og hittum yður. Og er nú saga mín á enda. Náð og friður veri með yður!"

---

Taj-el-Mólúk varð öldungis frá sjer numinn af því, sem Asús sagði honum af fegurð Dúnýu, og var hann einsog sinnulaus, er hann kom heim í borg föður síns. Ljet hann Asús fylgjast með sjer og fjekk honum húsakynni og hvað annað er hann þarfnaðist; fór hann svo til hallar föður síns. Sá konungur, hver breyting orðin var á syni hans og gekk fast á hann að segja sjer, hvernig á henni stæði. Sagði Taj-el-Mólúk honum frá því, er hann hitti Asús og hvað þeirra hafði í milli farið, kvað hann hafa lýst Dúnýu kóngsdóttur svo, að hann allt í einu hefði orðið frá sjer af ástarlöngun til hennar. Leiddi konungur honum þá fyrir sjónir, að hún byggji í fjarlægu landi, væri honum því hollast að verða henni afhuga og kjósa sjer einhverja af hinum fögru ambáttum í höll móður sinnar, en þær voru ekki færri enn fimm hundruð. Væri honum það óskapfelt, þá kvaðst hann fús á að biðja honum til handa einhverrar kóngsdóttur í þeim ríkjum, er næst væru; mundu víst sumar þeirra vera fegri enn Dúnýa. En Taj-el-Mólúk sagði að líf sitt lægi við, að hann fengi Dúnýu, og rjeði þá faðir hans úr, að gera sendiherraflokk til konungsins á Kamfórueyjum. Sendi hann vezírinn og Asús þangað og sór þess dýran eið, að yrði boðum sínum hafnað og ráðsins synjað fyrir hönd Dúnýu, þá skyldi hann leggja ríki föður hennar í eyði, og senda svo ógurlegan her á

hendur honum, að halaflokkurinn skyldi enn vera í höfuðborg sinni, þegar fylkingarbroddurinn kæmi á orrustustaðinn.

Þeir vezírinn og Asús voru lengi á leiðinni, en náðu þó farsællega á fund konungsins á Kamfórueyjum. Fengu þeir honum gjafir þær, er þeir höfðu meðferðis, og var þeim fagnað með mestu virktum. En er þeir höfðu setið fjóra daga að veizlu í konungshöllinni, þá bar vezírinn upp erindi sitt á hinum fimmta degi og vakti bónorð til Dúnýu kóngsdóttur fyrir hönd Taj-el-Mólúks kóngssonar. Varð konungur kynlegur við, því Dúnýa var svarinn óvinur allra giptinga. Bauð hann höfuðsmanni geldinganna að flytja mál þetta fyrir henni. En hann kom óðara aptur og kvaðst hafa orðið að flýja undan reiði kóngsdóttur, hefði hún haft þau orð um, að hún skyldi verða þess manns bani, er hún yrði að eiga móti vilja sínum, og þar á eptir mundi hún fyrirfara sjálfri sjer. Nú fóru þeir vezírinn og Asús heim aptur við svo búið, en það er af Taj-el-Mólúk að segja, að hann mátti með engu móti verða Dúnýu afhuga, er hann hafði fellt svo heita ást til hennar. Tók hann því það ráð, að fara sjálfur og freista, ef hann mætti fá vilja sínum framgengt. Tók hann á sig dulargerfi ásamt með Asús og vezírnum og bjuggust þeir kaupmanna klæðum; slóust þeir í för með öðrum kaupmönnum, sem ætluðu til höfuðborgarinnar á Kamfórueyjum, og höfðu þeir með sjer úlfalda klyfjaða dýrmætum varningi. Og er þangað var komið, þá leigði vezírinn sölubúð eina á kauptorginu, til að verzla með dýran og smágjörvan vefnað; skyldu þeir Taj-el-Mólúk og Asús vera í búðinni til að sýna varninginn og standa fyrir útsölunni. Allt heldra fólk sókti til kauptorgs þessa, og Dúnýa kóngsdóttir kom þangað líka stundum; ljetu þeir nú auðnu ráða um það, hversu fyrirtæki þeirra framvegis reiddi af. Varð nábúunum heldur enn ekki starsýnt á kaupmenn þessa, er þeir luku upp búð sinni; sátu þeir þar á dýrindis hægindum og stóðu þjónustusveinar fyrir framan þá, en vezírinn sat í miðið. Flykktist að þeim fjöldi fólks og komu sumir til að kaupa, en sumir af forvitni. Og er menn litu fegurð Taj-el-Mólúks, þá spurði hver annan, hvort Ridvan*) mundi hafa látið hliðið standa opið, og hefði svo þetta ástfagra ungmenni sætt lagi og liðið niður á jarðríki.

*) Eingill sá sem settur er til að gæta paradísar.

Það var einhvern dag að kona nokkur fjörgömul gekk til búðarinnar; henni fylgdu tvær ambáttir, og er hún sá Taj-el-Mólúk, þá varð hún svo frá sjer numin af undrun, að hún nam staðar fyrir búðardyrunum og hrópaði: „Lofaður sje algjörleiki þess, sem skóp þig til freistingar fyrir alla veröld!“ Sparði hún eigi að slá Taj-el-Mólúk gullhamra, en hann svaraði henni með mestu kurteisi, spurði hún, hvort hann væri útlendingur og kvað hann já við því. Því næst bað hún hann að sýna sjer vefnaðar tegundir þær, er hann hefði til sölu. „Það hef eg nægst til,“ ansaði Taj-el-Mólúk, „og sumt svo dýrmætt, að konungum einum hæfir eða konunga börnum. Segið mjer handa hverjum þjer eigið að kaupa, svo eg velji það eitt er við á.“ Þá mælti konan: „Eg á að kaupa fatnaðarefni handa Dúnýu kóngsdóttur. Rjeði Taj-el-Mólúk sjer þá ekki fyrir fögnuði og ljet bera fram hinn dýrasta vefnað. Valdi konan sjer eitt klæðisstykki, sem var þúsund gullpeninga virði. Spurði hún Taj-el-Mólúk, hvað hann setti upp fyrir það. Eg ætla ekki að fara að verðleggja það,“ ansaði hann, „og er óþarfi að annað eins lítilræði komi til reiknings okkar í milli. Guði sje lof fyrir að hann ljet yður finna leið til mín.“ Konan gamla árnaði honum þá allrar guðs blessunar og hamingju og lofaði hann í hverju orði fyrir fegurð hans og kurteisi, taldi hún konu þá margsæla, er fengi slíkan afbragðs mann. Því næst spurði hún hann að nafni, en hann sagði rjett til þess. „Það er konungs nafn,“ sagði hún, „en samt heldur þú þig að öllu sem þú væri kaupmaður.“ Gall þá Asús við og sagði að foreldrar hans og ættmenn hefðu gefið honum nafn þetta fyrir ástar sakir og eptirlætis. Konan gamla fór nú leiðar sinnar og fjellst henni ekki úr fötum, hversu Taj-el-Mólúk var fríður og kurteis. Kemur hún heim til Dúnýu og sýnir henni fatnaðarefnið og varð henni það vel að skapi. Lofar hún seljandann í hverju orði og lætur stórmikið af fegurð hans, segir að hann sje fríðastur og ágætastur unglingur í heimi. Fær lof þetta kóngsdóttur svo mikils, að hún biður konuna að fara til hans og bera honum kveðju sína og orðsending, að ef hann æski eða þarfnist nokkurs þar í borginni, þá sje honum óhætt að leita til sín. Fór konan af stundu til Taj-el-Mólúks og varð hann harla feginn boðskap hennar. Beiddi hann hana að færa Dúnýu

brjef frá sjer og var hún þess allfús. Ritaði hann þá svolátandi brjef: „Til þín, sem ert mark og mið bæna minna, en uppspretta harmkvæla minna, til þín rita eg orð þessi. Fyrst tjái eg þjer ástarhita hjarta míns, í annan stað þrá mína og brennandi eptirlangan, í þriðja lagi bliknun æskublóma míns, í fjórða lagi óbrigðula staðfesti elsku minnar. Og í fimmta lagi spyr eg: Nær munu augu mín njóta fullsælu? og í sjötta lagi: Nær mun feginsdagur ástarinnar upp renna?“

Taj-el-Mólúk fjekk nú konunni brjefið og gaf henni þúsund gullpeninga í burðarkaup, en hún fór óðar með það til köngsdóttur. Sagði Dúnýa er hún sá hana koma: „Nú, nú, fóstra! hvers beiddist hann?“ „Ekki veit eg það, kæra kóngsdóttir! hann bað mig fyrir brjef til þín. Hjerna er það, en ókunnugt er mjer hvað í því stendur.“ Kóngsdóttir tók við brjefinu, las það og mælti: „Hvaðan kemur kaupmanni þessum slík ofdirfska, að hann skrifar mjer til? ef ekki aptraði mjer ótti drottins, — hins almáttuga, sem eilíflega vegsamist — þá skyldi eg láta krossfesta þorpara þenna á búðardyrum sjálfs hans.“ Konan ljet sem sig furðaði mjög á þessu og spurði hver ódæmi væru í brjefinu, en kóngsdóttir atyrti hana og sagði að hún mundi fara nærri um það. Sagði fóstran þá, að kóngsdóttir byggi í svo hárri höll, að enda fuglar himinsins gætu ekki orðið henni of nærgöngulir, en sízt þyrfti hún að láta á sjer festa geltið í hundunum, sem væru svo endalaust fyrir neðan hana. En allt fyrir það sagðist hún vilja ráða henni til að svara þessum ofdirfskufulla manni með fám orðum, og hóta honum lífláti, hann mundi þá vara sig eptirleiðis. Ljet Dúnýa loks að orðum fóstru sinnar og ritaði sem nú skal greina: „Þú, sem talar um elsku og hugarangur, andvökur og brennandi ástríðu, hyggur þú, fáráður maður! að eiga mót við mánann, er skín á himninum yfir þjer? hefur máninn orðið við nokkurs manns ósk eða beiðni? Eg ræð þjer til að láta af fýsn þinni, bældu hana niður, því ella mun hættan koma þjer í opna skjöldu. Og ef þú dirfist optar að mæla slíkum orðum, þá skal eg vitja þín með hörku og vandlæti. Eg sver það við þann, er skóp manninn af blóðlifrum og gæddi sólina og tunglið ljóma sínum — að eg skal láta krossfesta þig, svo framarlega sem þú byrjar á nýjan leik og

leitar slíkra mála.“ Morguninn eptir fór fóstran með brjef þetta til Taj-el-Mólúks; tók hann henni með mestu vinsemd og kurteisi. Sagði hún honum af reiði Dúnýu; en samt kvaðst hún hafa ráðið henni til að svara honum. Bauð hann þá Asús samstundis að gefa henni þúsund gullpeninga, og las því næst brjefið; fjekk það honum svo mikils, að hann tárfeldi og kveinaði með miklum ekka. Spurði konan gamla, því þann bærist svo illa af. Þá mælti hann: „Hún hótar mjer bráðum bana, ef eg dirfist að skrifa henni aptur, og þó á eg ekki nema tvo kosti fyrir höndum, að skrifa henni eða deyja. Takið því nú við brjefi til hennar og látum hana svo gera sem henni líkar.“ „Eg sver það við æsku þína,“ ansaði konan, „að eg skal hætta lífi mínu þín vegna og reyna að hjálpa þjer, svo þú fáir ósk þína.“ Hjet Taj-el-Mólúk að launa henni alla þá liðsemd, er hún veitti sjer. Því næst ritaði hann orð þessi: „Hún hótaði mjer dauða, en mjer mundi dauðinn verða raunaljettir, og öllum ber þó eitt sinn að deyja. Fyrir þann sem kvelst af elsku er dauðinn betri enn langt og gleðisnautt líf. Eg særi þig í guðs nafni, renn þú miskunaraugum til hins athvarfslausa, ástfangna manns. Eg er bandingi þinn og bandingjar eru ánauðugir. Vorkenn mjer, drottning! ákefð ástar minnar, því afsökunarverður er sá maður, sem festir ást sína við ágæti og algjörleika.“ Konan gamla færði nú Dúnýu kóngsdóttur línur þessar; reiddist hún þá enn ákafar og mælti: „Sjerðu nú ef þú sást það ekki fyr, að hundur þessi gerir oss enn meiri svívirðingu? Far og seg honum, að það verði hans bani, ef hann vogar að skrifa mjer í þriðja sinn.“ Konan rjeði henni nú að skrifa honum þetta, mundi hann þá heldur leggja trúnað á hótunaryrði hennar og sjá að sjer; gerði kóngsdóttir svo og ritaði honum brjef með afsvörum og ógnunarorðum. Þegar Taj-el-Mólúk hafði lesið brjef þetta, þá óskaði hann sjer dauða og ritaði svar til Dúnýu í þann veginn; bað hann konuna fyrir það og gaf henni þúsund gullpeninga um leið. Bað hún hann vera vongóðan og trúa sjer fyrir öllu; kvaðst hún nú vera níræð að aldri og hafa margt brallað til samgangs karla og kvenna, en ávallt hefði hún komið sínu fram. Fer hún nú samstundis til Dúnýu, en áður hún gengur fyrir hana, þá felur hún brjefið í höfuðhári sínu. En er hún var komin til kóngsdóttur, þá tók hún að eiga

við hár sitt og mælti: „Kæra kóngsdóttir! það er langt síðan eg hef laugazt, og er hár mitt orðið flækt og úfið, hjálpaðu mjer til að færa það í lag.“ Dúnýa gerði það fúslega, en fann þá seðilinn um leið. „Hvað er þetta?“ mælti hún. „það veit eg ekki,“ mælti fóstran, „því hefur verið laumað á mig í kaupmannsbúðinni; það er bezt eg fari og fái honum það aptur.“ En kóngsdóttir tók brjefið og mælti: „þetta er eitt af brögðum þínum, og nýtur þú þess, að þú ert fóstra mín, því ella mundi eg leggja á þig ómildar hendur. Drottinn heimsækir mig með kaupmanni þessum einsog annari plágu og þú gerir hvað í þínu valdi stendur. Eg er hrædd um að þetta komist í hámæli og verði mjer til hneisu, því ekki er það til málsbóta, að hann sje mjer jafntiginn eða í ætt við mig.“ En fóstran hughreysti hana og sagði að hún væri svo voldug, að enginn mundi þora að tala illt um hana; rjeði hún henni til að skrifa kaupmanni ennþá einusinni og hóta honum hörðu. Ritaði kóngsdóttir brjefseðil þess efnis og fór fóstra hennar með hann til Taj-el- Mólúks. Las hann seðilinn og þóktist nú fullviss um, að ekkert mundi vinna á hjarta Dúnýu, og væri til einskis að leita þeirra mála framar. Spurði hann þá vezírinn ráða, en hann sagði, að nú væri það eina úrræðið, að hann skrifaði kóngsdóttur aptur og óskaði henni allra þeirra harmkvæla, sem hann sjálfur yrði að þola. Bað þá Taj-el-Mólúk Asús að rita fyrir sig á þá leið sem vezírinn hafði ráðið honum. Skrifaði þá Asús orð þessi: „Eg bið þig guð minn! í nafni hinna fjögra helgu vitringa, að þú ljettir af mjer hinu þunga oki. Legg þú byrði harmkvæla minna á herðar meynni, sem þjáir mig. því þú þekkir hinn eyðandi eld, sem kvelur mig; þú veizt að sú sem eg elska, getur eigi hrærzt til meðaumkvunar. Hversu lengi á eg að bera ofurást til hennar? hversu lengi á hún að hrósa sigri yfir veikleika mínum? Eg ráfa einmana og sje ekki út úr volæði mínu, en enginn vill veita mjer fulltingi.“ Asús ljet Taj-el-Mólúk lesa það, er hann hafði skrifað, þvínæst braut hann seðilinn saman og fór konan gamla með hann og færði Dúnýu. Og er hún sá, hvað hann hafði inni að halda, þá varð hún hamslaus af reiði. Kallaði hún á ambáttir sínar og skipaði þeim að lemja konuna gömlu með skóm hennar; en þær lömdu hana þangað til hún fjell í óvit. þegar hún var röknuð

við aptur, mælti Dúnýa: „Hefði eg eigi óttazt reiði drottins, þá skyldi eg hafa drepið þig.“ Bauð hún síðan þrælunum að lemja hana enn meira. Datt þá kerling í óvit og ljet Dúnýa draga hana eptir gólfinu með andlitið á grúfu, og slengja henni út fyrir dyr.

Nú vitkast kerling aptur og staulast heim til sín með veikum mætti; fór hún morguninn eptir til Taj-el-Mólúks og barmaði sjer sáran. Kenndi hann í brjósti um hana og huggaði hana með því, að allt þetta hefði komið fram við hana til þess að forlögin rættust. Sagði konan gamla, að hún skyldi víst koma því til vegar, að hann mætti ná fundi Dúnýu, svo viðfangsill sem hún væri. Spurði kóngsson hana, hvernig á því stæði, að Dúnýa hefði fengið þvílíkt hatur á karlmönnum; sagði hún honum að draumur nokkur ylli því. Hefði Dúnýu dreymt að hún þóktist sjá veiðimann leggja snörur sínar og lokka fuglana að þeim með hveitikornum. Þá komu tvær dúfur, karldúfa og kvenndúfa, og varð karldúfan föst með annan fótinn, og barði vængjunum af angist. Þá urðu allir hinir fuglarnir felmtraðir og flugu burt, og kvenndúfan líka. En hún kom fljótt aptur og kroppaði með nefi sínu í snöruna þangað til karldúfan losnaði og gat flogið burt með henni. Þá lagði veiðimaðurinn aptur snörur sínar og þókti Dúnýu sem báðar dúfurnar kæmu og varð kvenndúfan föst; baðaði hún þá vængjunum og brauzt um í dauðans angist, svo bæði flýði karldúfan og allir hinir fuglarnir. En karldúfan kom ekki aptur til að frelsa kvenndúfuna. Tók þá veiðimaðurinn dúfuna og drap hana. En Dúnýa vaknaði af draumnum með andfælum og mælti: „Svona eru allir karlmenn; ekkert er þeim vel gefið og allir eru þeir vondir við kvennfólkið.“ Þegar konan gamla hafði lokið sögu þessari, þá sárbændi Taj-el-Mólúk hana að sjá svo til, að hann gæti fengið að sjá Dúnýu, enda þó það yrði sjer að líftjóni. Sagði konan honum, að Dúnýa ætti lystigarð einn við höllina; væri hún vön að fara þangað einusinni í mánuði, og dvelja þar vikutíma. Kvaðst hún skyldu láta hann vita þegar hún færi þangað í næsta skipti; gæti hann þá farið og freistað hamingju sinnar, þækti sjer eigi ólíklegt, að kóngsdóttur kynni að snúast hugur, er hún sæji hann, svo yfirtaksfríðan. Taj-el-Mólúk ljet eigi segja sjer þetta optar enn einusinni og ráðgaðist nú við vezírinn; fóru þeir báðir til manns þess, sem settur

var til að gæta garðsins. Voru þeir prúðbúnir og höfðu með sjer þrjá þjóna. Hittu þeir umsjónarmanninn við garðshliðið og heilsuðu honum, en hann tók vel kveðju þeirra; fjekk vezírinn honum hundrað gullpeninga og bað hann að útvega þeim nokkuð til matar fyrir fje þetta; sagði hann að þeir væru útlendingar, og langaði sig til að gleðja hinn unga mann, sem með sjer væri. Tók umsjónarmaðurinn við fjenu og bauð þeim að koma inn í garðinn og tylla sjer niður þangað til hann færði þeim mat og drykk; gekk hann því næst út á torgið, en vezírinn og Taj-el-Mólúk fóru inn í garðinn. Nú kom umsjónarmaðurinn aptur og sátu þeir til borðs með honum, en er þeir höfðu matazt, spurði vezírinn, hver lystigarðinn ætti. Sagði umsjónarmaðurinn að Dúnýa kóngsdóttir ætti hann; kvaðst hann fá einn gullpening í kaup á mánuði hverjum. Þar í garðinum var lystiskáli mikill og fagur, og þó að sumu fornfálegur; gaf vezírinn umsjónarmanni stórmikið fje til þess, að hann leyfði sjer að skreyta lystiskálann, svo hann yrði einsog nýr. Sókti hann því næst málara, gyllara, og kalkara, og ljet mynda á öðrum veggnum draumvitrun kóngsdóttur, er kvenndúfan leysti karldúfuna, en á hinum veggnum var það sýnt, er veiðimaðurinn náði kvenndúfunni og slátraði henni, en hræfugl nokkur át karldúfuna, svo hún gat ekki hjálpað hinni, þótt hún vildi. En er þetta var fullgert, þá komu þeir eigi á fund umsjónarmannsins, fyr enn konan gamla ljet þá vita, að Dúnýa ætlaði til lystigarðsins. Dúnýa var því vönust að fylgjast með fóstru sinni, og hafði hún aldrei farið til lystigarðsins svo, að ekki væri hún með henni. Nú sendir hún því boð eptir henni og friðmælist við hana; býður henni svo að koma með sjer í garðinn. Og jafnskjótt sem hún hafði gert Taj-el-Mólúk vísbending um þetta, þá bjóst hann hinum beztu skrautklæðum, er hann hafði, og fór með vezírnum til umsjónarmannsins; hittu þeir hann sitjanda við garðshliðið. Þegar hann sá þá koma, stóð hann upp og fagnaði þeim með virktum, lauk upp hliðinu og bauð þeim að fara inn í garðinn. En það er vitaskuld, að hann hafði ekkert veður af, að kóngsdóttir mundi koma. Hafði Taj-el-Mólúk skamma stund verið í garðinum, er Dúnýa kom; fylgdu henni bæði ambáttir og geldingar. Skauzt þá umsjónarmaðurinn að Taj-el-Mólúk og mælti: „Hvað er nú til ráða? kóngsdóttir er

komin.“ „Verið öldungis óhræddur,“ ansaði Taj-el-Mólúk, „við getum falið okkur.“ Bað umsjónarmaðurinn hann að fara sem varlegast og gekk síðan á brott. En meðan þeir töluðust við, hafði fóstran fundið ráð til að hafa burt geldingana. Leiddi hún Dúnýu fyrir sjónir, að hún missti allan helming ánægjunnar af skemmtigöngu sinni, ef geldingar þessir væru alstaðar í hælum henni, væri þess eigi heldur nein þörf, að þeir gættu hennar þar í garðinum. Fjellst Dúnýa á mál hennar og bauð geldingunum undireins að fara burt.

Taj-el-Mólúk sat nú í fylgsni sínu og sá kóngsdóttur nokkrum sinnum, er hún gekk fram hjá honum; lá við sjálft að hann hnigi í ómegin, í hvert sinn er hann leit hana. Leiddi fóstran hana og bar þær einsog af tilviljun að lystiskálanum þar sem draumur hennar var myndadur. Varð kóngsdóttir frá sjer numin af undrun, er hún sá myndina og sagði við fóstru sína: „Æ, eg hef hatað og hrakyrt karlmennina vegna draums þessa, en þarna sje eg að gammur ber í klóm sjer karldúfuna, sem eg bríxlaði fyrir ótryggð og svik.“ Ljet fóstran einsog hún gæfi orðum hennar engan gaum, en næst er þær gengu um lystigarðinn, þá gerði hún Taj-el-Mólúk bendingu, að hann skyldi láta sjá sig undir gluggunum á lystiskálanum. Sá kóngsdóttir hann þaðan og felldi þegar ástarhug til hans. Spurði hún fóstru sína, hver þessi hinn fagri yngismaður væri, en hún svaraði: „Eg þekki hann ekki, en svo er hann fríður og tíguglegur ásýndum, að eigi má annað ætla enn að hann sje konungs sonur.“ Fríðleikur Taj-el-Mólúks hafði þannig allt í einu slitið töfrabönd þau, er fjötruðu hjarta kóngsdóttur. Gat hún eigi þreytzt á því að hæla þessum fagra yngismanni við fóstru sína. En fóstran gerði honum bendingu, að hann skyldi fara heim. Fór hann þá samstundis og kvaddi umsjónarmanninn; bar hann þó brennandi ástarlöngun í hjarta sínu, og mundi hvergi hafa farið, hefði hann eigi verið sannfærður um, að nauðsyn bæri til. En Dúnýa rjeði sjer eigi heldur og að lokum sárbændi hún fóstru sína, að hjálpa sjer til að komast í kynni við þenna fagra yngismann; hjet hún að gefa henni í launa skyni þúsund gullpeninga og skikkju, sem væri jafnmikils virði. Ljet fóstran hana lengi ganga eptir sjer, en lofaði þó seinast að gera hvað hún gæti. Eptir það fór hún til

Taj-el-Mólúks, og sagði honum, hversu heppilega allt hefði farið; kvaðst hún skyldu fylgja honum til Dúnýu daginn eptir. Gaf hann henni þá þúsund gullpeninga og skikkju, sem var jafnmikils virði. Fór hún svo til Dúnýu aptur og sagði henni að sjer hefði tekizt að finna hinn unga mann, og skyldi hún koma með hann til hennar næsta dag. Varð þá kóngsdóttir allshugar fegin og gaf henni þúsund gullpeninga og skikkju, sem var jafnmikils virði.

Daginn eptir fór fóstran til Taj-el-Mólúks og bjó hann í kvennmannsföt, sagði hún honum til um allt, hvers hann ætti að gæta og hversu hann skyldi haga sjer; bauð hún honum síðan að fylgjast með sjer til hallarinnar. Gengu þau þar um sjö hlið og sjö fordyri. Þegar þau komu að sjöunda hliðinu, stappaði hún í hann stálinu og bað hann hvergi hræðast, og þegar hún segði: „Áfram, ambáttin þín!“ þá mætti hann endilega ekki hika sjer. Mundi hann þá koma í sal einn með sjö hurðum, á vinstri hönd; væru sjöttu dyrnar að herbergi Dúnýu. Nú hjeldu þau áfram og gekk höfuðsmaður geldinganna í veg fyrir þau og spurði, hverra erinda ambáttin kæmi, sem fylgdist með henni. Sagði fóstran að Dúnýa kóngsdóttir hefði gert boð eptir henni, en geldingurinn sagðist engum manni hleypa inn, fyr enn hann hefði virt hann fyrir sjer vandlega, því svo hefði konungur fyrir sig lagt. En fóstran svaraði illu einu og hótaði honum reiði kóngsdóttur; kallaði hún með þjósti til Taj-el-Mólúks: „Áfram með þig, ambáttin þín! við eigum að fara til Dúnýu kóngsdóttur.“ Gekk Taj-el-Mólúk snúðugt fram hjá höfuðsmanni geldinganna og var svo heppinn að rata á sjöttu hurðina; fór hann þar inn og tók Dúnýa við honum báðum höndum. Rjett á eptir kom fóstran og fann hún fljótt ráð til þess að koma burt ambáttunum, sem voru þar nærstaddar. Þau Taj-el-Mólúk og Dúnýa voru nú ein og truflaði þau enginn; voru þau alla nóttina í sama herberginu, svo nálægt hvert öðru sem verða mátti, en þó í sakleysi. Morguninn eptir lokaði Dúnýa Taj-el-Mólúk og fóstru sína inni, en sjálf fór hún inn í annað herbergi og sat þar á tali við ambáttir sínar, einsog hún var vön. En um kvöldið ljet hún þær fara og flýtti sjer á fund unnusta síns og var hjá honum um nóttina. Með þessum hætti leið nú einn mánuður og hafði þeim elskendunum ekki þókt sá tími langur.

En meðan þetta gerðist, urðu þeir vezírinn og Asús alltaf hræddari og hræddari um Taj-el-Mólúk, eptir því sem stundir liðu fram, og með því þeir gátu einskis orðið vísari um hann, þá leizt þeim ráðlegast að fara sem fljótast heim aptur til Sólímans konungs og segja honum, hvernig komið var. En Sólíman sat eigi lengi kyr, er svo var komið; dró hann þegar að sjer allan her sinn til að heimta aptur Taj-el-Mólúk son sinn. Setti hann herbúðir sínar fyrir utan höfuðborgina og hjelt loks á stað með her sinn; var það slíkt ógrynni hermanna, að jörðin var alþakin svo langt sem augað eygði. Meðan á því stóð lifðu þau Taj-el-Mólúk og Dúnýa í mestu fullsælu. En þar kom loks, að Taj-el-Mólúk sagði unnustu sinni, að enn vantaði mikið á, að óskum sínum væri fullnægt. Gerði hann henni uppskátt, hverra manna hann væri, og urðu þau bæði á eitt sátt, að hann færi til föður síns. Skyldi hann þá í annað sinn láta biðja Dúnýu fyrir hönd Taj-el-Mólúks sonar síns. En nú átti svo að fara, að nóttina áður enn þau fengju áformi sínu framgengt, þá sofnuðu þau svo fast, að þau sváfu langt fram á dag. Í sama mund sendir Schahseman konungur höfuðsmann geldinganna til Dúnýu dóttur sinnar; átti hann að færa henni skartgrip nokkurn. Sjer hann að dyrnar á herberginu eru harðlæstar og þykir það furðu gegna. Vaknaði fóstran við háreystið er hann barði á dyrnar, æpti hún þá hástöfum og kvaðst skyldu sækja lyklana, en flýði þó undan þegar til kom, því hún var hrædd um að allt mundi komast upp um Taj-el-Mólúk. Þegar höfuðsmaður geldinganna sá hana flýja, þá grunaði hann að þetta mundi ekki vera með feldi og mölvaði þegar upp dyrnar; sá hann þá Taj-el-Mólúk í herbergi kóngsdóttur. Í sama bili vaknar hún og sjer hverskyns er, biður hún höfuðsmann fyrir alla muni að þegja yfir þessu. En hann gaf orðum hennar engan gaum, heldur lokaði hann þau bæði inni og fór til konungs. Varð konungur æfareiður er hann heyrði sögu höfuðsmannsins. Ljet hann leiða þau bæði fram fyrir sig og smánaði dóttur sína; mundi hann sjálfur hafa rekið Taj-el-Mólúk í gegn, ef Dúnýa ekki hefði aptrað honum. Ljet hann fylgja henni til herbergja hennar, og hjelt málspróf yfir Taj-el-Mólúk. En er Taj-el-Mólúk sagði til nafns síns og ættar, þá leizt honum ráðlegazt að hafa hann í varðhaldi, þangaðtil hann

sæji, hvort framburður hans sannaðist, að hann væri sonur Sólímans konungs. En vezírarnir lögðu fast að honum, að hann skyldi láta drepa sakadólginn sem fyrst; sagði Taj-el-Mólúk að hermenn föður síns mundu hefna þess greypilega, en vezírarnir virtu hótyrði hans að vettugi. Varð sú niðurstaðan að Taj-el-Mólúk var fenginn í hendur böðlinum. Böðullinn hjelt á sverðinu uppreiddu og ætlaði að láta höggið ríða á háls honum, en í sama bili heyrðist óp mikið og vopnagnýr; tóku kaupmenn þá í ofboði að loka búðum sínum. Bauð konungur að fresta skyldi aftökunni þangaðtil menn vissu hvað um væri að vera. Þá kom sendimaður og sagði að óvígur her væri í nánd. Rjett á eptir voru leiddir inn sendimenn frá Sólíman konungi; einn á meðal þeirra var vezírinn, sem fylgt hafði Taj-el-Mólúk. Heilsaði hann Schahseman og sagði honum í hvers nafni hann kæmi; kvaðst hann eiga að heimta aptur son Sólímans konungs; skyldi landið verða gjörsamlega lagt í eyði, ef honum yrði nokkurt mein gert. Þá varð Schahseman hræddur og kallaði til vezíra sinna: „Vei ykkur, vesalmenni! farið og sækið undireins hinn unga mann.“ En er vezírinn og förunautar hans sáu hann í höndum böðulsins, þá hlupu þeir óðara til hans, leystu af honum fjötrana og kysstu á hendur honum og fætur. Þá lauk Taj-el-Mólúk upp augum sínum og kannaðist við vini sína, fjekk fögnuðurinn honum svo mikils, að hann hnje í ómegin. Í þeim svifum kom og Schahseman konungur og bað Taj-el-Mólúk fyrirgefningar; lofaði hann vezírnum afarmiklu fje, ef hann þegði yfir því, hversu Taj-el-Mólúk hefði verið aumlega staddur, þegar hann fann hann aptur. En Taj-el-Mólúk spurði fyrst, hvort Dúnýa hefði ekki orðið fyrir neinu illu; bað hann konung vera með öllu óhræddan, því hann virti hann engu síður enn föður sinn. Eptir það ljet Schahseman gæðinga sína fylgja honum til lauga og sendi honum þangað dýrleg skrautklæði. En meðan Taj-el-Mólúk laugaðist, fór konungur til Dúnýu dóttur sinnar; sókti hann svo að henni, að hún var rjett komin að því að veita sjer bana, af því hún vildi eigi lifa Taj-el-Mólúk. Veitti honum hægt að telja henni hughvarf og fylgdi hann henni sjálfur á fund Taj-el-Mólúks. Því næst fór hann til sendimanna Sólímans konungs og bað þá segja honum, að sonur hans væri heill á hófi og í bezta gengi. Ljet hann og boð útganga

að flytja skyldi vistir nógar og peninga til herbúðanna. Sendi hann Sólíman konungi stórgjafir, hundrað hvíta þræla og hundrað svarta og jafnmargar ambáttir, hundrað hesta og hundrað úlfalda. Fór hann seinast sjálfur út fyrir borgina að finna hann, og fylgdu honum þá hinir helztu gæðingar í hirðinni. Og er Sólíman konungur heyrði að hann væri á leiðinni til sín, þá gekk hann spölkorn til móts við hann. Þeir vezírinn og Asús höfðu fært honum þá gleðifregn, að sonur hans væri heill á hófi; lofaði hann guð fyrir, að hann hafði látið hann komast lífs af. Faðmaði hann að sjer Schahseman konung og bauð honum að setjast hjá sjer; borðaði hann og með honum og sat á tali við hann. Skömmu síðar kom Taj-el-Mólúk í skrautklæðum sínum, og jafnskjótt sem Sólíman sá hann, þá stóð hann upp úr sæti sínu, kyssti hann og faðmaði hann að sjer. Og er þeir höfðu ræðzt við um stund, þá tók Sólíman konungur svo til máls: „Nú vil eg, Schahseman konungur! fullgera hjónabandssamning sonar míns og dóttur þinnar í votta viðurvist.“ „Eg heyri og hlýði,“ mælti Schahseman. Var nú sent eptir dómara og vitnum og var samningurinn skráður svo sem fyrir skilur í lögum; varð þá fögnuður mikill um allan herinn. Þá minnttist Taj-el-Mólúk, hversu mikið hann átti valmenninu Asús að þakka, og gaf honum klyfjar uppá hundrað úlfalda af dýrasta varningi. Sneri Asús þá heim aptur til móður sinnar. Hafði hún talið hann af og grátið hann einsog dauðan; varð fögnuður hennar því meiri, er hún sá hann aptur heilan á hófi. Og er brullaup Taj-el-Mólúks og Dúnýu var um garð gengið, þá veitti Schahseman konungur þeim allt sem þau með þurftu, er þau bjuggust til heimferðar með Sólíman konungi; fylgdi hann þeim þrjár dagleiðir, og gerði hann það aðeins fyrir bænastað Sólímans að snúa við. Þegar þau ungu hjónin komu til höfuðborgarinnar, þá var hún prýdd með hinni mestu viðhöfn og mikil gleði á ferðum. Fór sú gleði vaxandi, er Sólíman konungur settist í hásæti og ljet Taj-el-Mólúk setjast til annarar handar sjer. Ljet konungur útbýta gjöfum og veitti bandingjum frelsi. Var nú brullaup sonar hans haldið í annað sinn og stóð veizlan í heilan mánuð. Lifðu þau hjónin ávallt í friði og fullsælu, sátt og samlyndi, allt til æfiloka.

# Fra 717 til 721 nætur.

## Sagan af Amený kóngsdóttur.

Dscholachan hefur konungur einn heitið á Indlandi; stýrði hann ríki feðra sinna, þegnum sínum til heilla og hamingju og hafði svo mikinn áhuga á landsstjórninni, að honum kom aldrei til hugar að brjóta undir sig önnur lönd með herskildi; óskaði hann sjer nú þess eins, að hann mætti vita þegna sína jafnsæla að sjer látnum. En hann var sonlaus og því þókti honum uggvænt, að þeir mundu verða ýmsum ágjörnum og öfundsjúkum smákonungum að hernámi. Þeir fóru eigi heldur í launkofa með ríkis kröfur sínar, þótt vegur Dscholachans stæði þá með miklum blóma. Lá því opt illa á konungi og hjó það mikið skarð í ánægju þá, er hann ella mundi hafa af þjóðhylli sinni og vinsæld. Hann undi aldrei því, sem var, af því hann kveið því, er verða mundi. Hafði hann gengið að eiga margar indverskar konunga dætur og allt komið fyrir ekki, rjeði hann það nú af, að taka sjer hjákonur úr ýmsum löndum. Var stórvezírnum skipað að fara til allra, sem við mansal fengjust, og kaupa þær ambáttir, sem hann hjeldi að konungi mundi bezt falla í geð. Gekk stórvezírinn þá um öll kauptorgin í borginni og sá marga þræla og ambáttir, en helzt varð honum starsýnt á eina; hún var ungleg, og hafði skýlu fyrir andliti. Ætlaði hann að bregða upp skýlunni, en kaupmaðurinn, sem átti ambáttina, varnaði honum þess, og sagði að hún vildi ekki sýna sig öðrum enn þeim, sem verðir væru þess að skoða hana. Þá mælti vezírinn: „Vitið þjer nokkurn, sem verðugri sje að líta fegurð ambáttar þessarar, heldur enn konung Indíalands. Hefur hann falið mjer á hendur að færa sjer þær ambáttir, sem eg finni fegurstar. Lyptið því upp skýlunni, svo eg fái sjeð, hvort ambáttin er þess verð, að hún sje leidd fyrir konung, og segið mjer, hvað hún á að kosta.“ „Það tek eg ekki í mál,“ ansaði kaupmaðurinn, „eg lypti ekki skýlunni frá andliti ambáttarinnar nema í viðurvist konungs yðvars, og þegar hann er búinn að sjá hana, þá skal eg segja honum, hvað eg set upp.“ Sá vezírinn þá ekki annað sýnna enn að fara með kaupmanninn og ambáttina til hallarinnar; leiddi hann þau bæði fyrir konung og

mælti: „Herra! eigandi ambáttar þessarar vill ekki fylgja rjettum kaupsið, og meinar hann kaupendanum að lypta upp skýlu hennar.“ Bauð konungur þá höfuðsmanni geldinganna að gera það. Og jafnskjótt sem skýlunni var brugðið frá ásjónu ambáttarinnar, þá var sem menn sæju fullvaxinn mána í öllum ljóma sínum. Augu hennar lýstu einsog sólir og augabrýr hennar voru sem regnbogar. Nefið var fagurmyndað einsog sýrlenzk fíkja, og tennur hennar voru einsog fegurstu perlurnar í Rauðahafi eða Persaflóa. Brjóstin voru hveld og fagurlega ávöl einsog kjarnepli frá Damaskus. Kinnar hennar voru rjóðar og blómlegar einsog rósirnar í Fajum. Prýðilega var hún vaxin, mittisgrönn og beinvaxin einsog sýpresviðarstofn. Hendur hennar voru hvítar og nettar einsog fílabeinssproti Salómons konungs; hárið mikið og sítt og dökkt, einsog kolsvört vetrarnótt. Og er konungur sá svo yfirgnæfandi fegurð og yndisleik, þá stundi hann þungan og mælti: „Lof og dýrð sje þjer, mikli drottinn! sem ert höfundur svo algjörðrar fegurðar.“ Að svo mæltu spurði hann kaupmann, hvað hann setti upp fyrir ambáttina. „Herra!“ svaraði hann, „hún hefur kostað mig tvö þúsund og fimmhundruð gullpeninga, en ekki sæmir mjer að verðleggja hana, þar sem við yðar hátign er að skipta.“ „Mæl þú manna armastur,“ hrópaði vezírinn, „ertu svo ósvífinn að halda, að þú fáir nokkurntíma svo geipilega borgun?“

Þá mælti kaupmaðurinn: „Herra! þetta veit eg þjer segið að gamni yðar; menn mundu víst borga fyrir ambátt þessa tvöfalt við það, sem eg hef upp sett. Skýt eg því máli undir dóm hans hátignar, konungsins.“ Þá hló konungur og sagði: „Það er mín ætlun, að kaupmaður sje glöggþekkinn á þesskonar varning; gjaldið honum kostnað hans og gefið honum fimmhundruð gullpeninga að auki.“ Tók þá kaupmaður svo til orða: „Eigi skuluð þjer ætla það, herra! að þjer hafið borgað mjer of stórmannlega, því ekki er einusinni svo vel, að mjer sje fullgoldið ómakið og kostnaðurinn, sem eg hef haft af ambátt þessari. Í stað þess að láta hana þjóna mjer, þá hef eg þjónað henni. Ekki ljet eg hana borða sætabrauð, nema það væri frá Kairó. Aldrei hafði eg handa henni hænsn, sem út klakin voru í ofni, heldur ljet eg ávallt klekja upp kjúklingum handa henni sjerstaklega. Og með því henni þókti óbragð

að vatninu úr Nílfljótinu, þótt það væri hreinsað með möndlum, þá varð eg að hreinsa það með indverskum geitkúlum*). Mjer þókti líka heldur hnauksamt fyrir hana að ríða úlfalda, og ljet hana ferðast alla leiðina í burðarstól með glergluggum.“ Hló konungur dátt að þessari ítarlegu fráskýringu, og gaf hann kaupmanni ennþá fimmhundruð gullpeninga í viðbót. Hneigði kaupmaður sig djúpt fyrir honum, lagði hægri höndina á hjarta sjer og mælti um leið og hann gekk út: „Herra! mjer gekk ekki eigingirni til þess að flytja ambátt þessa hingað, en hitt heldur, að eg vildi færa yður það, sem yður var samboðið.“ Nú kom höfuðsmaðr geldinganna með þjónum sínum og tók við ambáttinni; fylgdi hann henni til lauga og voru þar fyrir þjónustukonur þær, er bezt kunnu til að skrýða í skartbúnað og leiknar voru í þeirri list; voru þær eigi seinhendar til að færa hana úr fötunum. Var hún fyrst núin svo sem nægði, og hellt yfir hana rósavatni og öðrum ilmvökva, því næst komu tuttugu og fjórar ambáttir af ymsum þjóðum, og þerrðu þær hana með dúkum. Því næst gekk hún inn í sal nokkurn; voru þar þrír gosbrunnar og hrundu vatnsstafirnir niður í skrautmiklar skálar. Ambáttin fagra lagðist nú í legubekk, sem alhjúpaður var með indverskum rósavefnaði og dúkum, er ofnir voru í Kaschmir: tók gullkögrið af honum niður á gólf. Nú komu fjórar yngismeyjar, ljettar einsog nettludúksblæjurnar, sem hjúpuðu fegurð þeirra, og áttu þær að kemba ambáttinni. Þegar þær höfðu leyst gjörðina, sem bundin var um hár hennar, þá hrundi það óðara í þykkum lokkum niður um brjóstin, herðarnar og mjaðmirnar. Þrjár af yngismeyjunum höfðu skrín í höndum, full af ymskonar ilmvökva og hársmyrslum, en hin fjórða hjelt á demantskreyttum kambi. En er hún bar kambinn að hárinu, þá fjellust henni hendur, svo mikið fannst henni um, hvað hárið var þykkt og sítt og hrafnsvart. Bað hún þá stallsystur sínar að hjálpa sjer, og er þær höfðu fullkembt þetta mikla og fagra hár, þá smurðu þær það ýmskonar hársmyrslum, brugðu því í fljettur með gullvír á milli, og skreyttu það með perlum og demöntum. Síðan ljetu þær á höfuð henni litla kórónu, alsetta dýrum steinum, og þar til gullkinguhlað með gullofinni

*) Þesskonar kúlur nefnast bezóarsteinar, og finnast einkum í geitavömbum, myndast þær úr hárum, jurtatægjum og ymsum öðrum ómeltanlegum hlutum.

nettludúksblæju skósíðri og gagnsærri, svo ekki leyndi sjer limalagið og vaxtarprýðin. En framan á blæjuna, fyrir enninu og augunum, var útsaumað nafn Indíasoldáns með gullvír og demöntum, og var saumurinn harla smágjör. Komu nú enn aðrar ambáttir og færðu hana í serk úr silfurofnu pelli; og var hann svo haglega gjör, að glöggt mátti sjá sköpun mjaðmanna innanundir og eins brjóstin, sem bæði voru mikil og sælleg. Að endingu voru látnir skór á fætur henni, og hafði það ekki verið hvað minnst fyrirhöfnin, að finna skó, sem mátulegir væru á svo litla fætur. Því næst var henni færður sætur svaladrykkur og sætabrauð í gullskálum. Hún tók sjer og tóbakspípu og reykti með henni nokkra reyki af fyrirtaks tóbaki, sem líkast var rósblöðum að ilm og sætleik. Eptir það stóð hún upp og fylgdu allar ambáttirnar henni inn í herbergi það, er henni var ætlað. Fleygði hún sjer þar niður í skrautlegan legubekk, með tómlætis svip, og fór að tyggja betel*).

Í sama vetfangi kom höfuðsmaður geldinganna og boðaði komu konungs. Stóð ambáttin þegar upp úr sæti sínu, er konungurinn kom, og fleygði sjer á knje fyrir honum, lá hún svo kyr með niðurlútum augum og auðmýktarfullum svip. En konungur settist niður og bauð henni að setjast hjá sjer. Talaði hann fyrst við hana fáein orð, svona daginn og veginn, og ætlaði síðan að neyta rjettar síns; en ambáttin reyndi að hafa sig undan blíðubrögðum konungs, og kom upp fyrir henni grátur, er hún sá sitt óvænna. Hafði honum aldrei viljað það til áður, að nokkur kvennmaður sýndi mótþróa, þegar hann fór slíks á leit, hafði ástum hans ávallt verið tekið með fögnuði en aldrei með hryggð. Fjekk hann eigi skilið í þessu kynlega háttalagi ambáttarinnar og hætti ástaratlotum sínum; en þar kom fljótt, að hann gerðist ennþá nærgöngulli enn fyrri. Þá fjell ambáttin á knje, fórnaði til hans höndum og mælti með miklum ekka: „Herra! leggist ekki á eitt með forlögunum til að beygja mig ógæfusama niður í saurinn, því eg hef verið hrjáð og hrakin af þeim allt til þessa. Fær yðar drenglynda hjarta eigi viknað af tárum mínum, þótt eg sje í eymd og niðurlægingu? viljið þjer vinna það til að brennimerkja mig um eilífð fyrir örskamma stundarsælu?“

---

*) Svo nefnist pipartegund nokkur.

það var einsog konungur viknaði í fyrstu, en við síðustu orð hennar ljet hann brýrnar síga. „Nær var það fyrst,“ mælti hann, „að ambáttunum yrði vanvirða að náðarmerkjum konunganna?“ „það var þá fyrst,“ svaraði hún, „þegar þeir keyptu þær ambáttir, sem áttu skilið að vera eiginkonur þeirra.“ þetta sagði hún með þótta, og runnu þó társtraumarnir niður af augum hennar og vættu lokkana, sem liðuðust eptir kinnunum. Rjetti þá konungur henni hönd sína og mælti: „Stattu upp og talaðu ljósara; seg mjer hispurslaust hver þú ert. Má eg vita, hverra manna þú ert og hvaðan af löndum?“ „Herra!“ svaraði hún, „eg er borin og barnfædd á Tattaralandi og komin af Egyptalandskonungum þeim, er ofsóktu Gyðinga.“ „Svo þú ert komin af hinum elztu konungum jarðarinnar,“ mælti konungur,“ og ert þó ambátt.“ — „þá mun yður furða enn meira á því, að allmargir af Asiukonungum eru frændur mínir; en hlýðið nú á sögu mína með athygli og skal eg skýra yður frá tildrögunum til þess, að eg rataði í eymdarástand þetta.“

„þegar Egyptalandskonungar voru flæmdir úr landi, þá flýðu þeir til Abyssiniu og stofnuðu þar nýtt ríki; var það minna ummáls enn það, sem þeir fyr áttu að stýra, enda átti það sjer líka lengri aldur, og hafa ættmenn mínir setið þar að völdum í margar aldir. Afi minn átti dóttur eina, sem fríðust var allra kvenna, og unni hann henni hugástum; varð sú kóngsdóttir síðar móðir mín. Beiddu hennar ótalmargir konungar, en konungurinn yfir Tattaralandi hinu mikla varð hlutskarpastur, því hann var vinur afa míns og ættir þeirra venzlum bundnar til forna. Grjet móðir mín sáran, er hún hlaut að kveðja hinar fögru uppsprettur Nílfljótsins og höllina þar sem hún var borin og barnfædd, enda var lítið gleðiefni að flytja úr þeim stað í öræfin á Tattaralandi. En hvað sem því leið. þá varð Tattarakonungur henni hugþekkari enn hún hafði ímyndað sjer í fyrstu, og festi hún við hann viðkvæma ást; leit hún því öðrum augum á siðu manns síns enn hún annars mundi gert hafa. Áttu þau fjölda barna, og er eg þeirra yngst og ógæfusamast, hef eg einsömul þolað meira andstreymi enn öll hin til samans tekin. Harma þau nú fjærveru mína, og skyldi svo fara síðar, að þau bölfuðu heimkomu degi mínum, þá bytnar sú sök á yður.“ „Guð varðveiti mig frá því,“ mælti konungur, „að eg noti mjer bágindi yðar

til að gera yður vanvirðu. Veit eg gjörla, hversu mjer byrjar að breyta við yður, bæði sakir tignar yðvarrar og mótlætis þess, er þjer hafið í ratað. Skuluð þjer þá vita, að eg krefst ekki annars lausnargjalds af yður enn þess, að þjer segið mjer sögu yðar frá upphafi til enda.“ „Þungt mun mjer falla að hlýðnast því boði,“ ansaði kóngsdóttir, „en reyna skal eg að gera vilja yðvarn, hvað sem öðru líður.

Það er þá fyrst að segja, að eg hefi grimmlega goldið tignar minnar og ættgöfgis. Jafnskjótt og eg var borin í heim þenna, var eg fengin barnfóstru í hendur, og átti hún líka að annast uppfræðslu mína þar við konungshirðina; dáðust menn að konu þessari fyrir lærdóms sakir, einsog öðru heims undri, enda mundi ekki heldur sá maður hafa verið auðfundinn á Tattaralandi, sem henni stæði jafnfætis í þeirri grein. Var hún prýðilega að sjer í sagnafræði, landafræði, læknisvísindum, efnafræði, stjörnufræði og fjölkynngi, og jafn vel heima í öllu. Hún var Mahómetstrúar og kunni allar kenningar hans út í hörgul, því hún hafði komizt yfir ritgjörðir hinna fjögra Ímana (skriptlærðu) og þeirra þýðara, sem merkastir eru. Margt kenndi hún mjer annað, sem þarflegt var og gaman að; sagði hún optsinnis við mig: „Taktu eptir því dóttir sæl! hvað landsbúarnir hjerna eru siðlausir og fáfróðir; það er ekki svo mikið sem þeir sjeu læsir. Þá er munur á löndum mínum, Aröbönum, sem kallaðir eru lærðastir menn í heimi.“ Með þessu móti uppörfaði hún mig til náms, og sagði eg engum manni frá því, hvað við tókum okkur fyrir hendur. En að þesskonar iðju var mjer hið mesta yndi.

Það er kunnugt að á Tattaralandi eru systkin látin ganga saman til hjúskapar og er það landsvenja. Þegar eg var fimmtán vetra gömul, þá völdu foreldrar mínir einn af sonum sínum til eiginmanns handa mjer, og sögðu þau mjer í viðurvist fóstru minnar, að það væri vilji sinn, að hann ætti mig. Fjekk þá fóstra mín eigi tára bundizt, því henni var mesta raun að óhæfu þessari. Þegar við vorum orðnar einar, faðmaði hún mig að sjer og mælti: „Miklir villimenn eru það, sem við búum hjer saman við. Þjóð þín er líkust fjenaði, sem engin lög þekkir, því hún aðhefst það er náttúruna sjálfa hryllir við.“ Eg var henni með öllu samdóma í þessu, og er bróðir minn ætlaði að faðma mig að sjer, þá fann eg í

hjarta mínu hina mestu óbeit og andstyggð, en enga ást. Hefði eg ekki verið hrædd við foreldra mína, mundi eg hafa hrundið honum langt burt frá mjer. Eg bölfaði í hjarta mínu þessum svívirðilega landssið; en hvað átti eg að gera? hvernig átti eg að koma honum heim við hið órjúfandi lögmál spámannsins, sem mjer bar að hlýða í lífi og dauða?

Foreldrar mínir og bróðir minn hjeldu fast við ásetning sinn; stundin, sem eg kveið svo mikið, var alltaf að nálægjast, og grjet eg mig opt þreytta hjá fóstru minni, því hún tók innilega hlutdeild í harmi mínum. „Móðir kær!“ sagði eg við hana, „því kenndirðu mjer lögmál það, sem gagnstætt er landsvenju vorri? Hefði eg aldrei þekkt það, þá mundi eg eigi hafa til hegningar unnið.“ þá mælti hún: „Berðu nú engar frekari áhyggjur um þetta, eg skal kenna þjer gott ráð til að komast undan ásóknum þeim, er þú verður að þola. þegar konungur býður þjer að eiga bróður þinn, þá skalt þú svara þessum orðum: „Eg get ekki hlýðnast boði yðar hátignar, fyr enn eg er búin að læra að sitja á hesti og ríða. Allt kvennfólk hjer í landi leggur sig eptir þeirri íþrótt, en það er ofseint fyrir mig að fara að læra hana þegar eg er gipt.“ Faðir þinn mun ekki furða sig á þessari bæn þinni, því hjer gerir kvennfólk ekkert annað enn að ríða. En þegar hann er búinn að veita þjer þetta, þá skaltu óhrædd láta mig sjá um allt annað.“ Nokkrum dögum síðar hjelt konungur stórveizlu og bauð til hennar öllum gæðingum í hirð sinni og enda útlendum höfðingjum. Bróðir minn sat á hægri hönd honum, en eg, sem nú er ambátt yðar, sat á vinstri hönd. En er vínið var tekið að svífa á gestina og hinn hljómfagri hljóðfærasláttur var farinn að gera þeim hlýtt um hjartaræturnar, þá mælti bróðir minn þessum orðum til föður míns: „Þjer hafið boðið systur minni að taka mig fyrir eiginmann, en allt fyrir það bægir hún mjer frá sjer hvað eptir annað. Skipið henni því, að hún unni mjer rjettinda minna þegar í kvöld, og það ummælalaust.“ þá leit konungur reiðuglega til mín og sagði að þessi undanfærsla kæmi af því, að eg væri í einhverju leynilegu ástarbralli; skyldi það varða lífi mínu ef eg eigi gætti skírlífis míns. þá mælti eg: „Kæri faðir! guð varðveiti mig frá því að sýna mótþróa gegn vilja þínum, en áður enn eg giptist bróður mínum

vildi eg fegin læra að ríða og bera vopn, því, einsog þjer vitið, getur engin kona eptir giptinguna lagt þesskonar líkamaæfingar á sig án mikillar hættu.“ Konungur veitti mjer fúslega þessa bæn mína, og varð nú bróðir minn að hafa þolinmæði. Enda hafði hann sjer það til huggunar, að hann kenndi mjer sjálfur. Ljet hann sjer næsta annt um, að eg tæki góðum framförum. Eg dáðist að honum, hvað hann gat verið þolinmóður, og kenndi í brjóst um hann sakir ofurástar þeirrar, er hann hafði á mjer; hann var svo ljúfur og þýður og eptirlátur. En hvað hann var fimlegur og fagur á að líta, þegar hann skaut af boga sínum! En hvað hann var lipur að snúa undir sjer hestinum! Hann hafði líka eitthvert frábært lag á að gera mig leikna í því, sem eg var ólagin á af náttúrunni. Hefði lögmál spámannsins ekki staðið í vegi, þá mundi eg ef til vill hafa tekið elsku hans. Honum þókti allt af að eg væri fullnuma í reiðlistinni, en eg varð aldrei ánægð með sjálfa mig. Það var einn fagran sumardag, er hann lengi hafði látið mig þeysa á hesti mínum, þá svipti hann mjer ljettilega úr söðlinum og vissi eg ekki fyr enn eg lá í grasinu og var mjúkt undir. Rásuðu þá hestar okkar út á sljettlendið, er ekki voru teknir fram af þeim taumarnir, en í stað þess að hlaupa eptir þeim, þá vafði bróðir minn um mig örmum sínum með blíðu og ætlaði að sálga mjer með ástaratlotum sínum. Augu hans voru upptendruð af elsku, en eg mundi, hvað fóstra mín hafði kennt mjer, auk þess að mig hryllti við að fremja slíka óhæfu. Kom mjer nú snarræði mitt að haldi, og hugkvæmdist mjer sennilegt yfirvarp til að hafa hann af mjer.

Eg var nú fyrst í stað í uppnámi útaf þessu, en þegar eg var komin til sjálfrar mín, þá fór eg á fund fóstru minnar til að segja henni atburð þenna, og fullyrti eg við hana, að nú gæti eg ekki framar staðizt áleitni bróður míns. „Vertu ókvíðin,“ svaraði hún, „og sjertu föst í trú þinni, þá muntu ekki víla fyrir þjer að neyta þeirra ráða, sem eg mun kenna þjer.“ „Seg mjer þau óttalaust og afdráttarlaust,“ ansaði eg, „eg er til í hvað sem vera skal og vil allt til vinna, að eg ekki þurfi að afneita trú minni.“ Þá mælti fóstra mín: „Flýðu úr þessu bölfaða landi, þar sem menn belgja glæpina í löngum teigum einsog þyrstur maður svolgrar vatn. Hjer eru karlmannsföt, er þú skalt hafa að dulargerfi, og bæti

eg þarvið gimsteinum nokkrum, sem vera skulu til farareyris þangaðtil eg kem á eptir þjer, því eg verð að vera hjer nokkra daga, fyrst eptir að þú ert farin, svo eg geti villt sjónir fyrir ofsóknarmönnum þínum og tálmað för þeirra. Þú skalt halda til Bagdad og máttu fulltreysta því, að eg mun ná þjer þar eða á leiðinni.“ Hún hjálpaði mjer nú í fötin og var mjer heldur þröngt og óhægt í þeim. En svo mikinn hug hafði eg á að flýja, að eg gaf því lítinn sem engan gaum og hugsaði eigi heldur um háska þann, er eg lagði út í. Eg ætlaði í langferð, svo ung og óreynd sem eg var, og rataði þó ekki veginn, eða vissi hversu eg ætti að haga ferðinni. En eg var samt fegin að geta sloppið undan kúgun vandamanna minna, og þráði eg með óþolinmæði þá stund, er eg skyldi á stað leggja. Þegar farið var að halla degi, þá fylgdi fóstra mín mjer um göng, sem eg ekki þekkti, út að leynihliði nokkru á höllinni; beið mín þar burðalegur reiðskjóti með reiðtygjum. Eg varp mjer fimlega í söðulinn, fóstra mín tók blíðlega í hönd mína og kvað skammt mundu til samfunda okkar, en eg keyrði hestinn sporum og þeysti á stað. En þótt fóstra mín hefði lýst greinilega fyrir mjer veginum til Bagdad og enda bent mjer í þá áttina, er eg hleypti hestinum á stað, þá bar mig samt fljótt út af rjettri leið; lagði eg þá taumana fram á makka hestsins og rjeði það af að láta hann ráða rás sinni. Þegar eg var búin að villast alla nóttina og næsta dag í mörk einni stórri, þá fór eg af baki, því eg þarfnaðist bæði hvíldar og fæðu, og hesturinn ekki síður enn eg. Eg var kominn í dalverpi eitt, sem var alvaxið viðarrunnum, og las eg af þeim aldin nokkur. En er dagsett var orðið, þá þorði eg ekki annað enn að leita mjer að einhverju skjóli, þar sem eg gæti verið óhult fyrir villidýrum, því háski hefði verið að láta fyrirberast á enginu, þar sem eg sat. Sá eg álengdar helli nokkurn, og var gróið fyrir munnann með þyrnum og klungrum, svo eg þóktist ganga að því vísu, að þar inni mundu engin villudýr vera. Eg lofaði guð og spámanninn fyrir happ þetta og stefndi á hellirinn. Inní honum logaði á lampa og sá eg inn að gafli. Eitthvað tvennt var þar inni og hjelt eg það væri ferðafólk, er villzt hefði. En jafnframt þókti mjer uggvænt, að þetta kynni að vera fylgsni einhvers ódáðamanns, og fann eg að hjer tjáði ekki annað enn að fara varlega. Batt eg hest minn

við eik nokkra, tók boga minn og örvar og gekk á ljósið. Allskammt frá mjer voru tveir hestar bundnir saman á taumunum, og stóðu þeir í vegi fyrir mjer; en sjá mátti undir kvið þeirra hvað um var að vera í hellinum, og þurfti eg ekki að óttast, að eg sæjist þaðan. Og er eg laut niður, þá leit eg hryllilega sjón við týru þá, er í hellinum brann, og varð eg sem höggdofa af ótta og undrun. Eg sá yngismey, sem streittist við af alefli að slíta sig úr fangi þræls nokkurs, sem var kolsvartur einsog myrkrið í kringum mig, tröll að vexti og ógurlega svipillur. Lostinn og girndarbruninn gerði hann ennþá afskræmislegri, og hefði mátt ætla, að hann væri launsonur einhvers ills anda. Hann nísti meyna með sínum óárennilegu krumlum og grenjaði hástöfum: „Ef þú ekki gerir vilja minn þegar, þá skal eg brytja þig í sundur.“ En yngismærin brauzt um af öllu afli og tók svo til orða: „Heldur þú, hinn guðlausi níðingur! að mjer sje lífið mætara enn skírlífi mitt? Vændistu þess, að þjer yrði auðsóktara að koma fram á mjer vilja þínum, þegar þú værir búinn að strjúka burt með mig úr löndum mínum? Gleymdirðu því, að þú ert þræll minn? Hvern rjett hefur þú til að leggja þínar ósvífnu hendur á dóttur drottins þíns?“ „Bústu þá við dauða þínum,“ sagði þrællinn, „hver mundi vera konungur hjer nema eg, sem mestan hefi máttinn? Vald mitt yfir þjer er skýlausara enn þó eg hefði keypt þig á kauptorgi, og nú skaltu hlýða.“ En er svertinginn sá að kóngsdóttir sýndi óbifanlega staðfestu einsog fyrri, þá þreif hann með vinstri hönd í hár hennar, og reiddi sverðið með hinni hægri; brunnu þá augu hans af heiptaræði. Og rjett þegar eg sá að hann ætlaði að fremja níðingsverkið, þá rak eg upp hljóð og hirti lítt um, þó mjer sjálfri væri hætta búin. Þrælnum varð hverft við, og sleppti mærinni; skimaði hann hvervetna í kringum sig, en eg stje á meðan af baki og skaut ör í brjóst honum. Fjell þá illvirkinn til jarðar og brauzt um, reyndi hann að rísa á fætur aptur, en gat ekki. Sverðið datt úr hendi honum, og var það síðast, að hann reyndi að kippa út örinni, en blóðið fossaði úr undinni, augun stirðnuðu og lukust aptur. Hljóp eg þá sem fljótast til yngismeyjarinnar og leysti hana úr böndum þeim, er á henni voru. Ætlaði hún að falla fram fyrir mjer, en eg varnaði henni þess; margkyssti hún þá á hönd mína og vætti hana með tárum sínum.

þakkaði hún mjer lífgjöfina með hinum fegurstu og hjartnæmustu orðum, síðan hóf hún augu sín til himins og mælti: „þúsundfaldar þakkir sjeu þjer alvaldi drottinn! fyrir það, að þú sendir mjer eingil þenna.“ Að svo mæltu vjek hún sjer aptur að mjer og sagði: „Eg treysti drenglyndi yðru, herra! að þjer sjáið aumur á mjer; eg er konungsdóttir og hefi ratað í hina mestu ógæfu.“ Var eg þá svo blíð og vingjarnleg í máli við hana, sem mjer var unnt, og reyndi að hughreysta hana, en ekki gerði og henni það uppskátt, að eg væri kvennmaður í dularbúningi. þrátt fyrir það, er síðast hafði komið fram við hana, þá fann eg ekki að hún hefði neina óbeit á mjer, enda var eg öðruvísi lit enn þrællinn. þegar hún var farin að hressast við, þá tók eg blíðlega í hönd hennar og spurði hana, hvaða ríki það væri, er faðir hennar rjeði yfir, og hversu þetta æfintýri hennar hefði atvikazt. „það vil eg fegin segja yður,“ ansaði hún. Tók hún þá til frásagna, en eigi kippti hún að sjer hendinni, sem hún hafði rjett mjer.

# Frá 722 til 740 nætur.

## Sagan af kóngsdótturinni frá Tattaralandi.

Faðir minn heitir Kara Oglú og er hann konungur yfir Balchs ríki. þrællinn, sem þjer drápuð áðan, var í höll hans; hafði faðir minn keypt hann ungan og þókti vænt um hann fyrir hreysti sakir, því enginn var sá í öllum hernum, er við hann mætti jafnast. En nú er annað nær enn að segja af hreystiverkum hans. þrællinn upphrokaðist svo mjög af frægð sinni og lofræðum föður míns, að hann taldi sjer víst, að hann mundi geta náð ráðahag við mig. Felldi hann ákafan ástarhug til mín, en honum var synjað ráðsins, og varð hann þá hamslaus af reiði; samt ljet hann á engu bera og ásetti sjer að strjúka burt með mig, því með öðru móti sá hann engan veg til að svala ástríðu sinni. Hafði eg áður verið föstnuð frænda mínum og var dagur ákveðinn til brullaupsstefnu. Á þeim degi reið unnusti minn um borgina; gengu næst honum snillingar, er á hljóðfæri ljeku, og borgarmenn þar á eptir með blys í höndum. Samsíðis honum gengu menn með sverð í höndum og studdu oln-

bogum á lendar hestsins, er hann reið. Bæði í höllinni og borginni mátti svo kalla, að enginn hugsaði um annað enn hátíð þessa, og voru ekki fleiri til að gæta mín enn þrír svartir geldingar og konur nokkrar. Þá heyrði eg allt í einu voðalegt öskur í næsta herbergi, og fyr enn eg vissi hvernig á því stæði, þá kemur óvætturinn, svarti þrællinn, þrífur mig upp með annari hendi og hleypur burt með mig í einni svipan, rjett einsog tígrisdýr, þegar það hefur hremmt lamb í klær sínar. Drap hann geldingana þrjá og lokaði þjónustukonur mínar inni í herbergi þeirra; síðan brá hann höfuðdúk ambáttar nokkurrar yfir mig, fleygði sjer á bak hesti, sem var til taks við hallarhliðið og setti mig fyrir framan sig. Sáu riddarar margir, er hann þeysti burt, og veittu þeir honum samstundis eptirför; gat eg sjeð frænda minn í flokki þeirra, því eg missti niður höfuðdúkinn af ferðinni, sem var á hestinum. Frændi minn þekkti mig líka undireins og herti sig þá sem mest hann gat, að hann fengi mjer borgið. En er þrællinn sá að hann eigi mundi fá dregið undan, þá reyrði hann mig aptan við söðulinn og sneri hestinum við, því hann ætlaði að láta til skarar skríða. Mun eg aldrei á æfi minni gleyma hinum hræðilega bardaga, er nú varð. Svertinginn hjó á háls unnusta mínum svo af tók höfuðið, valt það niður á jörð, og varð grasið blóði drifið, en líkaminn höfuðlaus hjekk fastur í ístöðunum og dróst með hestinum. Sumir af liðsmönnum voru svo hugprúðir, að þeir vildu hefna dóttur konungs síns, og ljetu þeir lífið fyrir trúmennsku sína. Hinir lögðu á flótta og fór þá þrællinn óskelfdur leiðar sinnar, en hirti eigi um að reka flóttann. Þegar við vorum komin nokkrar mílur áleiðis, þá riðum við fram á hjarðmenn nokkra; höfðu þeir tekið sjer náttból og voru að kveikja eld. Drap þrællinn nokkra af þeim, og tók undir sjálfan sig náttstað þeirra, og það litla, er þeir höfðu meðferðis af brauði og víni. Og með því hjörðin var þar rjett hjá, þá tók hann einhvern feitasta sauðinn til slátrurs og steikti hann á glæðum. Hann tók og einn af hestum þeim, er hjarðmennirnir höfðu átt, og flutti á honum herfang sitt í helli þenna. Þókti honum hellirinn tilvalið fylgsni bæði til að njóta hvíldar og koma fram ódæði því, er hann hafði í hyggju. En með því eg mátti einskis neyta, þá kúgaði þrjóturinn mig til að sitja hjá sjer meðan hann mataðist

einsamall. Ofan á átið reyndi hann á allar lundir að vinna bilbug á mjer, með ósvífnum ástaratlotum, kjassmælum og blygðunarlausu orðlagi. Var þess skammt að bíða, að hann fór að gerast djarftækari, en eg hratt honum af mjer; ætlaði hann þá að neyta aflsmunar, en fór jafnnær. Keyrði nú æðisgangur hans og ofsi fram úr öllu hófi, og var eg komin á heljarþröminn, en þá sendi verndareingill minn yður, til þess að þjer yrðuð frelsari minn og lífgjafi.“

Þá mælti eg: „Æfintýri yðar rennur mjer til rifja, og tel eg það hamingju mikla, að mjer auðnaðist að forða lífi yðar. Mjer er ekki minni hagur að því enn sjálfri yður, því meðan þessi argvítugi svertingi hafðist hjer við, þá var ekki til þess að hugsa, að eg mætti hvílast í hellinum. Nú hefur hann sjeð fyrir vistum, og er það happ fyrir mig, einsog nú á stendur. Þreyta og hungur banna mönnum að skeyta um hindurvitni og hleypidóma, og mun eg kinnroðalaust neyta af afgangsleifum þrælsins. Eg trúi reyndar á Mahómet, og hann segir, að ekki megi neyta af ræntum vistum eða drekka vín, en kóraninn var saminn í Mekka og Medína, en ekki í helliskúta í öræfum og óbyggðum.“ Bráði nú heldur af kóngsdóttur og settist hún hjá mjer; borðuðum við þangað til við urðum mettar, eða rjettara sagt, við borðuðum mikið og lengi. Sátum við á jörðinni meðan við snæddum, og var hún okkur þannig í borðs og bekkjar stað, og síðan er við lögðumst til hvíldar, var hún sængur ígildi. Við sváfum vært og lengi og vaknaði eg fyrst; bjó eg um vistir okkar, kallaði á lagssystur mína og spurði, hvað hún ætlaði fyrir sjer, hvort hún rataði veginn og hvert hún ætlaði að fara. „Þangað sem yður gott þykir,“ svaraði hún, „því eg ætla ekki að skilja við yður hjeðan af.“ Þessi ásetningur hennar hentaði mjer nú ekki allskostar, því eg vildi dyljast fyrir henni, en þókti uggvænt, að hún fyr eða síðar kæmist á snoðir um, að eg var kona, en ekki karlmaður. Varð eg því að gæta allrar varhygðar, sem unnt var. Þegar við höfðum tekið okkur morgunverð, fór lagssystir mín í fötin af þrælnum og reyndi að komast á bak hesti hans. En henni hafði aldrei verið kennt að ríða, og gat hún því eigi haldið sjer á hestinum, svo eg varð að reiða hana fyrir aptan mig. Hjelt hún höndunum um mjaðmir mínar, og bannaði eg

henni að halda þeim hærra, því þá kynni eg að detta af baki; en þjer, voldugi konungur! munuð fara nærri um það, að mjer gekk nokkuð annað til enn það sem eg sagði.

Af því við nú vorum alveg ókunnugar veginum, þá var ekki annað fyrir enn að láta hestana hlaupa þangað, sem verkast vildi. Liðu svo nokkrir dagar, að við riðum um endalaus öræfi; gerðist okkur erfitt og þraut vistirnar. Skaut eg þá dýr eigi allfá, og lá við sjálft að við hefðum orðið að eta þau hrá. En hjer kom að því sem margreynt er, að menn gerast hugkvæmir, þegar í nauðirnar rekur. Lagssystir mín tíndi saman skrælnaðar rætur og laufblöð, en eg telgdi oddhvassan tein og hringsneri honum í holum trjekubb, þangað til kviknaði; kveiktum við svo með baðmullar klút í eldsneytinu, sem við höfðum hlaðið upp á hvítleitan stein. Þegar steinninn var alheitur orðinn, þá lögðum við á hann dýrakjötið, og þöktum yfir það með steinum. En ofan á steinlaginu brenndum við þurrum rótum, og sem við rifum niður steinana, þá gaf okkur á að líta, því kjötið var fullsteikt og meyrt, sem í bakstursofni hefði verið; settumst við nú báðar að ágætri máltíð. En ekki er þess að dyljast, að við hugsuðum með kvíða til ókomnu tímanna og örvílnuðumst, er við sáum ekkert nema endalaus öræfi til allra hliða; gátum við ekki komið okkur að því, að gera hver annari uppskátt, hvað okkur bjó í skapi. Lagssystir mín leitaðist við að halda niðri í sjer andvörpunum og leyna tárunum. Mjer var nú engu hughægra enn henni, en varð þó að berast betur af, því fyrst eg var í karlmanns líki, þá varð eg líka að sýna karlmanns hug. „Látum okkur treysta handleiðslu forlaganna,“ sagði eg; „gætið þess, að þó við værum í miðju musteri drottins, þá værum við þar ekki framar í hans hendi, enn við erum hjerna í óbyggðunum.“ Stigum við nú báðar á bak hestum okkar og riðum langar leiðir, þangaðtil eg kom auga á hrísgrjónaekrur langt í burtu; bar okkur síðan að velyrktum sáðlöndum og var þá auðráðið, að skammt mundi til mannabyggða. Um kvöldið komum við að þorpi einu velbyggðu, og hafði eg nú fyrst og fremst hugann á því, að spyrjast fyrir, hvar við mundum geta fengið gistingu. Öldungur nokkur virðuglegur ásýndum kom til móts við okkur, og orti orðum á mig. Tók hann þannig til máls:

„Ungi ókunnugi maður! því viljið þjer taka yður náttstað í gesthúsinu? yður er velkomið að vera hjá mjer í nótt, ef yður svo þóknast.“ Þetta sagði öldungurinn með slíkri alúð og einlægni, að eg fjekk þegar hið bezta traust á honum, en engu að síður spurði eg konungsdótturina, hvað henni litist. Sagði hún að eg skyldi gera hvað mjer gott þækti, ef hún aðeins mætti fylgjast með mjer. Svaraði eg þá öldungnum og sagði: „Það skyldi mjer sízt verða, að eg hafnaði svo drengilegu boði.“ Hneigði hann sig þá djúpt og bað okkur að fylgjast með sjer. Gengum við um þorpið og spurði eg hann, hvaða land þetta væri, er okkur hefði að borið. Þá svaraði hann: „Ykkur hefur borið að landamærunum á ríki því, er Balch heitir.“ „Ræður Kara Oglú konungur ríkjum enn þá?“ spurði lagssystir mín. „Svo er guði þakkandi,“ ansaði öldungurinn, „að faðir okkar er enn á lífi, en við erum hræddir um, að eigi njótum við hans lengi. Svertingi nokkur, sem er hinn mesti endemismaður, strauk burt með dóttur hans; unni konungur henni hugástum, og fjell honum þetta svo nærri, að það mun draga honum til dauða, áður langt um líður.“ Gengum við nú inn í húsið og leizt oss þar fýsilegt að vera og híbýlabragur hinn fegursti. Skammt frá garðinum voru hjarðir stórar, því þessi aldraði höfðingi var einhver hinn ríkasti jarðeigandi í því byggðarlagi. Fylgdi hann okkur inn í fagurt herbergi, og þjónaði okkur sjálfur með þrælum sínum. Nú var kveiktur upp eldur og sókt vatn; var okkur svo búin fótlaug. Bauð hinn gamli maður okkur hreint lín og annan klæðnað, því hann kvaðst ganga að því vísu, að við værum þreyttari enn svo, að við gætum farið að leysa frá pjönkum okkar. En með því eg var hrædd um, að hann kynni að komast eptir, hvers kyns við værum, þá þakkaði eg honum fyrir, og bar það í vænginn, að við hefðum búizt hreinum línfötum daginn áður. Voru okkur færðar hressingar, og var okkur ekki minni þörf á þeim enn hvíldinni. Síðan bauð húsbóndinn þrælum sínum að fara og sjá til, að kvöldverðurinn yrði tilreiddur. Hafði hann í virðingar skyni við okkur látið slátra fríðum sauð og feitum. Þegar hann var farinn frá okkur, lagði eg ríkt á við lagssystur mína, að koma nú ekki upp um sig með orðum nje athöfnum, því mjer riði lífið á, að leyna því, hvers kyns og hverrar stjettar hún væri. Kom okkur báðum

saman um, að hún skyldi nefnast Aladín, en eg sagði henni, að nafn mitt væri Mahmud. Lofaði hún mjer að gæta allrar varhygðar, en því megið þjer geta nærri, herra! hversu mjer var órótt og óhægt á margan veg, þar sem eg varð að hafa yfirdrepskap í frammi bæði við samlagssystur mína og húsbóndann. Við vorum nú að leggja niður ráðin, hvernig við ættum að komast til hirðar konungsins Kara Oglú, en í því komu þrælarnir inn og lögðu stóra ábreiðu fyrir fætur okkur; settu þeir niður á hana stórt fat með hrísgrjóna graut, helfing sauðarfallsins steiktan, og hænsn, er soðin voru saman við hnapplauk. Ekki þurfti húsbóndinn að halda að okkur að borða, og var mest ómakið fyrir hann að ganga um beina. Lagssystir mín ætlaði aldrei að geta borðað sig sadda og sagði hún hvað eptir annað: „Aldrei á æfi minni hef eg smakkað eins góðan hrísgrjónagraut, og aldrei hef eg verið eins matlystug einsog eg er nú, ekki einusinni, þegar eg var við"... þá beit hún á vörina og sagði ekki meira. Gamli maðurinn leit til hennar, en sagði ekkert. Að lokinni máltíðinni var framborið vín og sætir svaladrykkir, og þótt eg trýði á Mahómet, þá gat eg samt ekki haldið mjer frá að bergja á þessum dýrindis veigum.

þegar liðið var fram á nóttina, báðum við leyfis, að við mættum fara að hátta. Fylgdu oss þá fjórir þrælar með blys í höndum inn í herbergi eitt; voru þar tvær rekkjur uppbúnar, hver hjá annari, með dýnum og ábreiðum, er ofnar voru úr úlfalda hárum. Lagssystir mín þorði ekki að leggjast niður fyr enn eg var búin að margsverja henni, að eg skyldi virða hana einsog hún væri systir mín, þá gerði hún það loksins, en þorði samt ekki að fara úr fötunum. Sofnaðist okkur mæta vel þó kalt væri, en það var til hlýinda, að í næsta húsi voru skepnur margar og ylnaði loptið af hitagufunni, sem af þeim stóð. Morguninn eptir spurði húsbóndinn, hvernig okkur liði, og færði okkur vatn og þurrku, svo við gætum þvegið okkur í framan. Við drukkum nú kaffi og var okkur síðan fylgt til morgunverðar í sömu stofuna, sem við höfðum matazt í kvöldinu áður. Liðu svo átta dagar, og veitti ekki af skemmri tíma til þess að við gætum náð okkur eptir ferðavosið. En nú var bæði, að við vildum sem fljótast komast til konungshirðarinnar, og ekki liggja lengur uppá gestgjafa okkar, var okkur því hugur

á að komast sem fyrst á stað. En hinn gamli maður vildi með engu móti sleppa okkur. Hafði hann verið svo kurteis, að hann aldrei spurði okkur: „Hverjir eruð þið? Hvaðan komið þið og hvert ætlið þið? Hvað lengi ætlið þið að vera hjá mjer?“ þar í landi spyrja menn aldrei ókunnuga menn að slíku, og mundi sagt, að sá breytti á móti hinu fyrsta boðorði gestavináttunnar, sem það gerði. En er hann sá að við höfðum fastráðið að fara, þá dapraðist hann í yfirbragði og sagði með klökkum málrómi: „Fyrst þið, góðir herrar! endilega viljið fara, þá byrjar mjer ekki að aptra ykkur; en verið nú hjá mjer einn dag enn, það er sú eina bón, sem eg hef ykkur að biðja.“ þar með sýndi hann okkur ýmsan viðbúnað til veitinga og gestbeina, gerði hann það í von um, að við yrðum þá lengur í húsum hans. Hafði hann látið slátra fríðasta sauðnum, sem hann átti í eigu sinni, og þókti okkur það mikið mein, að hann kostaði svo miklu til og slátraði þvílíkri metfjeskepnu, sem við helzt mundum kjósa að hefði verið látin lifa. Rófan á sauðnum var svo feit, að fjöl á tveimur hjólum hafði verið bundin aptan við hann og lá rófan á henni. Hefði það verið stakasta vanþakklæti að hafna slíku kostaboði. Maturinn varð tilbúinn í tækan tíma og var lögð fyrir okkur ábreiðan góða, og í þetta skipti lá hún lengi; stóðu á henni drykkjarker af kristalli og gulli og var ótæpt skenkt á þau af hinum ljúffengustu víntegundum. Höfðum við áður sjeð á öllum veitingunum, að húsbóndinn hlaut að vera vellauðugur, en nú urðum við öldungis hissa á þessari hóflausu rausn og viðhöfn. Kóngsdóttir horfði á allt með athygli og vissi ekki hvað hún ætti að hugsa eða segja. Húsbóndinn hafði gaman af þessari undrun okkar, og að lokinni máltíðinni tók hann okkur við hönd sjer og mælti: „Synir sælir! áður enn þið farið hjeðan, verð eg að sýna ykkur það sem fegurst er af eignum mínum, svo litlar sem þær eru.“ þá var lokið upp hliði einu, miklu og glæsilegu, og gengum við inn um það í lystigarð einn, sem var geysimikill að víðáttu; í honum var mikið af aldintrjám og blómum og vökvaðist það allt af gosbrunnum. þar stóðu þjettir skógarrunnar með jöfnu millibili, og uppi á hæðunum voru dýrlegir lystiskálar til hlífðar við sólarbrunanum, var svalt í þeim sem í hellisskálunum á Egyptalandi og hin fegursta útsjón. Í einum lystikálanum höfðu

verið settar fram handa okkur kræsingar til munnbragðs, og ýmislegt til hressingar. Nú er þrælarnir voru að halda að okkur sykurbakstri og sætum svaladrykkjum, þá sagði eg við gestgjafa okkar: „Einn hlutur er, sem eg mundi spyrja yður að, ef eg ekki væri hræddur um, að eg sýndi með því ókurteisi.“ „Talið sem yður býr í brjósti,“ svaraði hann, „en látið mjer heimilt að þegja við spurningu yðar, ef eg skyldi hafa einhverjar sjerlegar ástæður til að synja svarsins.“ Þá mælti eg: „Að þeim skildaga geng eg, en að því vildi eg spyrja yður, hvort þjer ekki undir niðrí kennduð einhverrar auðnar og tómleika innan um alla auðlegðina; því hamingju yðar er eins ávant. Ætti hún að vera fullkomin, þá yrðuð þjer að eiga ástríka konu, sem tæki jafna hlutdeild í velgengni yðar.“ Þá greip hinn gamli maður hönd mína, varpaði öndinni mæðilega og felldi tár af augum. Hann mælti: „Helzt til óvarfærnir eruð þið ungu mennirnir; því fórstu að rifja upp fyrir mjer svo raunalega endurminningu? Já, eg átti konu, sem eg mun trega allt til dauðans, eg átti barn, sem var eins fagurt og blíðlynt og móðirin, og í því lifði eg upp aptur æsku mína. En þá varð eg brýnna erinda vegna að fara í langferð frá föðurlandi mínu; var sonur minn tólf vetra, er eg fór að heiman, og sá eg hann aldrei þaðan í frá, því þegar eg kom heim aptur, var mjer sagður dauði hans og konu minnar. Þá vann eg þess styrkan eið, að eg aldrei skyldi kvongast framar, og þann eið mun eg víst halda; mundi eg aldrei hafa skap til að ganga á þetta heit mitt.“ Meiru kom hann ekki upp fyrir gráti og andvörpum. En er hann tók að sefast aptur, þá bað eg hann að sýna mjer aðrar eigur sínar, og gerði eg það til þess að sorgin skyldi rætast af honum. Hafði hann eigi sleppt hendi minni, en hjelt fast um hana og leiddi mig nú með lagssystur minni inn í garð einn mikinn, sem á alla vega var umkringdur af úlfaldahúsum; voru í þeim húsum fimm hundruð úlfalda. Og er við gengum inn í eitt af húsunum, þá kom úlfaldamóðir ein á móti oss með kálfi sínum. Var sem þau bæði yrðu fegin, og ljetu vel að eigandanum, vildu þau ei frá honum víkja fyr enn hann myndaði sig til að fara. „Þessi dýr eru furðanlega elsk að yður,“ mælti eg. — „Þau þekkja mig betur enn eg þekki þau. Eg hitti þau fyrir, er eg kom heim úr langferðinni, og vissi eg ekki, hvaðan þau voru komin, því ekki

hafði eg keypt þau. En að öðru leyti eru þau mjer til ærins kostnaðar, svo vandlega sem þau verður að stunda; hafa hjarðmenn mínir aldrei getað komið þeim út í hagann og nú eru þau alin á hálmi og baðmullar fræi.“ Þá sagði lagssystir mín: „Eg get því nærri, að þjer munið hafa látið reisa konu yðar fagurt minnismerki.“ „Svo sem efni mín leyfðu,“ ansaði hinn gamli maður; „eg ljet byggja kapellu með hjálmþaki, og hef eg sett menn til að lesa í henni upp úr kóraninum frá morgni til kvölds; borga eg þeim gullpening á degi hverjum. Er þar haldin guðsþjónustugjörð á Föstudögum, og koma þangað klerkar og ölmusumunkar til að syngja helgar tíðir.“ „Er yður nokkuð móti skapi,“ mælti lagssystir mín, „að við vottum lotningu okkar fyrir hinum dýru leifum, sem geymdar eru í kapellunni?“ „Ungi maður!“ ansaði hann, „þú fer nú þess á leit, sem eg satt að segja engum leyfi nema klerkum vorum og kennimönnum. En hvernig ætti eg að synja ykkur nokkurs? Komið nú og fylgist með mjer eptir forsæluganginum hjerna milli platanstrjánna.“ Sá vegur lá til kapellunnar og var alllangur; gekk hinn gamli maður á undan okkur, hugsandi, og fór heldur seint. Og er hann loksins lauk kapellunni upp fyrir okkur, þá sáum við þar tvö grafarmörk af marmara, hvert hjá öðru. Á hið stærra var högginn höfuðdúkur, sem konum er títt að bera, og letruð á hann spakmæli úr kóraninum með upphleyptum stöfum, logagylltum; á minna grafarmarkið var höggin túrbans mynd. Sagði eg þá í hljóði við lagssystur mína: „Nú munuð þjer bráðum sjá undur mikið.“ Vjek eg mjer síðan að hinum gamla manni og mælti: „Gerið nú eina bæn mína, yður ríður sjálfum mest á að þjer veitið mjer hana, en hún er sú, að þjer látið opna grafir þessar, og særi eg yður nú, að þjer verðið við áskorun minni.“ Hinn gamli maður hjelt áfram að biðjast fyrir án þess að ansa mjer, en leit til mín einsog með fyrirlitningu allrasnöggvast, og sneri svo aptur frá mjer augum sínum. Ljet eg það ekki á mjer festa og tók aptur til máls: „Þjer synjið þá þess, er eg beiðist, og virðið mig ekki einusinni svars.“ — „Mundi lögmál gestavináttunnar þröngva mjer til þess að láta í öllu eptir hugþótta fíflslegra unglinga? Til hvers er að raska friði dauðra manna?“ — „Til þess að vekja þá til lífsins aptur,“ mælti eg. „Vinur kær!“ sagði hann, „eg er nú

kominn á þann aldur, að eg get ekki trúað á markleysuhjal þitt, eða annara á þínum aldri.“ „Yður er vorkunn,“ mælti eg, „þó þjer þjótið upp við orð mín, því þjer hafið mikinn harm að bera. En verðið nú við bæn minni, og fái eg ekki efnt heit mitt, þá ofurseljið mig dómaranum einsog guðlausan glæpamann.“ Hinn gamli maður leit nú til mín, og var einsog hann vissi ekki hverju trúa skyldi. „Hversu má svo vera, vinur!“ sagði hann; „skyldi mjer nokkurntíma auðnast að faðma aptur konu mína og son minn?“ Ljet hann samstundis tvo þræla sækja hamra og járnkarla; var marmarahellunum lypt af gröfunum og sprett upp umbúðum hinna dauðu; en þar fundust engin lík, en í þeirra stað höfðu verið látnir tveir trjebútar. „Hvar er nú kona yðar og sonur yðar?“ sagði eg við hinn gamla mann. Kom þá upp fyrir honum grátur mikill, svo að hann mátti eigi mæla. „Þjer munuð finna þau aptur,“ mælti eg, „og það áður enn þessum degi lýkur; verið aðeins þolinmóður og setjið allt yðar traust til drottins.“ „Æ!“ hrópaði hann, „drottinn hefur reiðzt þjóni sínum. Hann hefur látið konu mína og son minn breytast í trjedrumba.“ Að svo mæltu sneri hann grátandi heim aptur til híbýla sinna og fylgdum við honum eptir. Þegar við vorum komnar í stofu hans og seztar niður, þá spurði eg, hvort hann ekki ætti neina Ismaels peninga með úlfalda móti. „Þá peninga hef eg aldrei sjeð,“ svaraði hann „og eru þeir mjer með öllu ókunnir.“ Mjer kom þá til hugar, að fóstra mín hafði gefið mjer tvo þesskyns peninga áður enn eg fór á stað; hafði hún þá fullyrt, að þeir væru svo sjaldgæfir að enda kalífinn sjálfur ætti enga slíka í fjehirzlu sinni. Fór eg þá og sókti peningana og lagði þá í eld. Þegar þeir voru orðnir glóandi, þá ljet eg þræl einn sækja úlfaldamóðurina með kálfinum sem við höfðum sjeð í úlfaldahúsunum bakvið lystigarðinn. Þegar hann var kominn með þau, tók eg gullpeningana úr eldinum og drap þeim í vatn. Þá hvarf af þeim úlfaldamótið og kom manns mynd í staðinn. Stökkti eg nú vatninu á höfuð úlfaldamóðurinnar og kálfsins og sagði á hinu forna tungumáli Abrahams: Kirtuuna suret ol barak eloha (tak aptur á þig þá mynd, sem guð skóp þig í). Og sem eg mælti fram þenna kröptuga formála, þá reis úlfaldamóðirin og kálfurinn upp á apturfæturna; skinnið fjell niður af

þeim einsog klæði, bakið sljettist og hinir tvíklofnu hófar urðu að fingrum, en snoppan varð að mannlegri ásjónu. Jafnskjótt sem hambrigði þessi voru orðin, hlupu þau mæðgin í fang gamla manninum, en honum miklaðist þessi óvænti fögnuður svo mjög, að hann hnje í ómegin. Var dreypt á hann víni og kom hann fljótt aptur til sjálfs síns. Kona hans sá nú að hún var nakin, og roðnaði við, því hún fyrirvarð sig að standa svo á sig komin í návist tveggja ungra manna ókunnugra, flýði hún því sem fljótast og maður hennar á eptir. En þess var eigi langt að bíða, að hann leiddi hana inn til okkar aptur, og var hún þá komin í föt sín; hafði hann geymt þau til endurminningar um hana, sem hann syrgði svo sáran, og engu lógað af munum hennar.

Nú er þau komu inn í stofuna, þá sáu þau að sveinninn sat í knjám mjer, sagði þá móðir hans: „En hvað honum þykir vænt um, að hann getur látið þakklátsemi sína í ljósi við yður! En hvernig á eg að geta þakkað yður? Hinn voldugasti konungur á jarðríki mundi ekki geta endurgoldið slíka velgjörð.“ Þá mælti eg: „Hinn voldugasti konungur á jarðríki hefði ekki getað auðsýnt okkur meiri gestrisni eða drengskap enn maður yðar, og höfum við svo tekið laun okkar fyrir fram. En ef þjer haldið að eg eigi ennþá til skuldar að telja hjá yður, þá get eg sagt yður, hvernig hún bezt verður fullgoldin. Gerið mjer það til vilja, að segja frá því, hversu þjer rötuðuð í eymdarástand þetta, því vísindi mín greina reyndar frá meinsemdunum og kenna ráðin við þeim, en þau láta mig með öllu ófræddan um orsakir þeirra.“ „Eg ætlaði reyndar,“ ansaði konan, „að segja manni mínum frá þessu sjerstaklega, en fyrst að yður einnig er hugur á að heyra sögu mína, þá skal eg greina nokkru ítarlegar frá tildrögunum enn eg mundi gera ella.“

## Sagan, er kona gamla mannsins sagði.

„Það er upphaf þessa máls, að við vorum tvær systur, og misstum foreldra okkar meðan við enn vorum á æskuskeiði. Voru eigur okkar allálitlegar og vörðum við þeim hver eptir sínu skaplyndi. Eg keypti kvikfjenað, hús og akra, því eg ætlaði eingöngu að leggja stund á landbúnað. En systir mín var áköf í skapi og

stórhuga, og mælti hún þessum orðum til mín. „Úr því mjer er heimilt að njóta frelsisins, þá skal mjer aldrei það verða, að eg grafi mig niður í húsum inni einsog þú gerir. Eg ætla að verja öllum fjárhlut mínum til varningskaupa og fara svo um víða veröld; kann þá svo að fara að eg hitti mann á leið minni, er mjer sje jafnkosta. En hvernig sem það fer, þá veit eg samt með vissu, að mjer mun aukast auður og reynsla.“ Reyndi eg þá að leiða henni fyrir sjónir, hversu fyrirætlun þessi væri vitlaus, hættuleg og ósæmileg, en allar fortölur mínar urðu árangurslausar. Hún svaraði mjer í reiði og mælti: „Mundi þeirri konu ofætlun að ferðast sem hefur karlmannshug í brjósti? Eigum við að veslast upp í fáfræði, þegar okkur eru ljentar gáfur til þess að afla þekkingar og fróðleiks?“ Tilfærði hún ýmisleg spakmæli til að styrkja mál sitt, og þar á meðal þessi: „Vatnið fúlnar ef það stendur kyrt. Færi ljónið aldrei úr bæli sínu, þá mundi það svelta í hel. Stæði sólin ávallt yfir höfði voru, þá mundum vjer deyja af hita. Alóe virða menn að vettugi þar sem það vex, það kemst fyrst í verð, þegar það er flutt úr landi. Nær mundi örin lenda í skotmarkinu, ef hún aldrei flygi af strengnum? Kom þú með mjer; það er gaman að sjá ókunnuga menn á degi hverjum, og vinir eru skjótfengnir.“ Það var nú öðru nær enn að hún með hjegóma þessum fengi talað mig upp til að verða sjer samferða, því eg gerði allt mitt til þess að telja henni hughvarf. Eg sagði við hana: „Íhugaðu hættur þær, sem ferðinni hljóta að vera samfara, og jafnaðu þeim saman við hinar rósömu unaðsemdir, sem þú getur notið með okkur. Gipztu honum frænda okkar, þú getur krafist þess að lögum að hann taki þig fyrir konu.“ „Eiga máttu hann frænda minn fyrir mjer,“ ansaði hún; „helldurðu að eg fari að giptast bónda? Mjer nægir ekki minna enn konungborinn maður; að öðrum kosti giptist eg aldrei. Taktu nú eptir, hann verður ekki lítill fyrir sjer, maðurinn, sem eg fæ.“ „Fyrst þú ert svo stórhuga,“ mælti eg, „þá skal mig ekki undra, þó þjer þyki dauflegt í þorpinu, því ekki er til þess að hugsa, að slíku stórræði verði hjer til vegar komið. En ertu nú viss um, að þjer takist það, þó þú farir út í víða veröld? Og ætli þú yrðir nokkru sælli, þó það tækist? Eg ætla fyrir mitt leyti að una hlutskipti mínu og vera hjer kyr, svo eg við heimkomu þína

geti samfagnað þjer, ef vel hefur tekizt, og huggað þig ef illa skyldi hafa farið.“ Sá hún nú að eg var með öllu ófáanleg til að verða henni samferða; fór hún þá í karlmannsföt og tók sig upp með ferðafólki allmörgu. Hafði hún úlfalda með sjer undir varningsklyfjum. þegar hún var komin í næstu sæborg, þá tók hún sjer fari til Alexandríu og seldi þar nokkurn hluta varningsins; hinu sem eptir var, kom hún út í Kairó og hafði á því geysi mikinn ábata. Höfðu nú eigur hennar aukizt nær því um helfing, og vildi hún ekki svo fara úr Kairó, að ekki nyti hún fyrst skemmtana þeirra, er borgin mátti veita. Hús hennar varð rjettnefndur skemmtistaður; gekk þar ekki á öðru enn veizlum og vikivökum, söng og hljóðfæraslætti. það var opt að hún fór sjer til skemmtunar eptir Nílfljótinu á lystiskútu, fylgdu henni þá margir ungir menn af heldri stjettum, og kvað við fagur hljóðfærasláttur á þiljum uppi. Var systur minni heimilt að koma í samkvæmi hinna tignustu manna, og var hún aldrei kölluð annað enn: „útlendingurinn fagri.“ Hún var svo gáfuð, fyndin og glaðlynd, að hún ávann sjer vináttu allra þeirra, er hún kynntist við. Hjeldu menn að hún væri einhver konungssonur, sem vildi skoðast um í heiminum, en þó fara huldu höfði. Nú þótt systir mín sökkti sjer niður í glaum og skemmtanir, þá varð hún samt ekki afhuga vegsauka þeim, er hugur hennar stóð til. þar í borginni var höfðingjasonur einn, sem henni leizt prýðilega á, sakir vaxtar og vænleika, og felldi hún allan hug sinn til hans. Var hann prýðilega menntaður og hafði fengið hið bezta uppeldi, einsog tign hans sæmdi; er það og alkunnugt, að Egyptar hafa miklar mætur á vísindum og eru lærðastir menn í heimi. Hann fjekk hinn bezta þokka á systur minni, „útlendingnum fagra,“ og kom optsinnis á fund hennar, svo þau urðu alúðarvinir. Ætlaði systir mín að ávinna sjer ást hans og segja þá fyrst, hver hún væri, þegar saman væri gengið með þeim. Taldi hún víst, að það mundi takast, og nú hugkvæmdist henni kátlegt uppátæki. Hinn ungi maður tefldi optsinnis við hana, og einn dag var það að hann bauð henni að tefla við sig eina skák. þá mælti hún: „Til er eg í það, og skal eg hætta móts við yður aleigu minni, með svo felldu móti að, ef þjer vinnið taflið, þá fullnægið þjer skilyrði því, sem eg hef tiltekið í þessu innsiglaða brjefi. Skildaginn er ekki

þungur, og er mjer nær að halda, að hann sje yður ekki mjög fjærri skapi.“ „Eg slæ þá til,“ svaraði hann, „því eg treysti drengskap yðrum.“ Meðan þau voru að tefla, kom faðir yngismannsins og heyrði hver efni í voru; þókti honum þá engin furða þó báðir sætu íhugafullir yfir taflinu. Varð honum það fyrst fyrir, að hann laumaði burt brjefinu, sem lá á borðinu hjá þeim. Hann losaði um innsiglið með gætni og las síðan það sem í brjefinu stóð, en það var svo látandi: „Þjer hafið unnið aleigu mína og afhendi eg yður hana gjarnsamlega með þeim skildaga, að þjer þiggið ást mína og takið mig fyrir konu.“ Karlinn hafði áður haft eitthvert veður af því, að systir mín var annars kyns enn hún þóktist, og hugði hann nú engann vafa á því, að hún mundi vera óráðskona og flakka lausu við; þókti honum lítil sæmd að slíku kvonfangi fyrir son sinn, en svo var seðillinn orðaður, að enginn efi gat á því verið, hvernig taflið mundi fara. Karlinn var maður ágjarn og hugkvæmdist honum bragð til að ónýta ráðahag þenna; hann tók sköfujárn og skóf út fimm seinustu orðin, sem allt var undir komið, því næst innsiglaði hann seðilinn og ljet hann aptur á sama stað. Var nú lengi vel tvísýnt, hver vinna mundi, en svo var leiknum varið, sem til lykta rjeð, að systir mín hafði búið hann í hendur hinum unga manni, enda vildi hún sýna honum, að hún tapaði viljandi. Tók þá maðurinn seðilinn, las hann og mælti: „Nú á eg alla fjármuni yðar. En þar sem þjer biðjið mig að þiggja ást yðar, þá var þarflaust að gera það að skildaga, því eg hafði gefið yður ást mína fyrir löngu.“ Þá mælti hún: „Lesið til enda það sem á miðanum stendur.“ „Mjer er ómögulegt að lesa meira enn skrifað er,“ svaraði hann. Varð nú systir mín óþolinmóð og tók af honum blaðið; datt henni þá allur ketill í eld, því hún sá að þau orðin voru horfin, sem mest reið á. Hún reyndi nú samt að leyna geðshræringu sinni og mælti: „það er bótin, að þó mjer hafi farið hirðulauslega, þá hef eg gott minni. Hjer er hönd mín, eg sel yður hana og sjálfa mig til æfinlegrar eignar.“ „Nei, nei, heilla vinur!“ ansaði yngismaðurinn, „eg hef svikalaust unnið eigur yður og það er mjer nóg; eg vil ekki gera yður að þræl nje skerða frelsi yðar á nokkurn hátt, það er dýrmætara enn svo, að menn eigi að tefla um það. Leitið til annara enn vina yðar, ef þjer viljið selja yður

í ánauð.“ þá sagði systir mín: „Eg þykist ekki selja mig undir ánauðarok, þó eg kjósi yður til eiginmanns.“ þetta tók hinn ungi maður einsog ódæmis háðung, og brá sverði sínu fokreiður. „Dirfist þú,“ sagði hann, „útlendur þorparinn, að misbjóða svo tignum manni, sem eg er, með svívirðilegri keskni?“ Vildi systur minni það til lífs, að faðirinn greip um handlegg sonar síns og hjelt honum aptur. Var það tæpast að hún fengi forðað sjer undan og varð hún nú að lifa á bónbjörgum, þó dauflegt væri, eptir að hún hafði drambað með svo dýru borðhaldi, að ekki var annað slíkt í Kairó.

það var einn dag, að eg sá konu koma í ræflum og tötrum, það var systir mín og bar eg eigi kennsl á hana fyr enn hún sagði til nafns síns. Hljóp eg grátandi um háls henni og gaf henni föt þau, er eg átti bezt í eigu minni. En svo var hún vanþakklát, að hún ljet sjer ekkert finnast til gjafa minna og góðs atlætis, og nötraði hún af vonzku, er hún heyrði að eg væri gipt frænda okkrum. En hann sýndi henni hina mestu vinsemd og leyndi hún því heiptarhuga sínum. Sagði eg við hana: „Þú veizt nú hvað ferðalagið er hættulegt, vertu því kyr hjá okkur; eg skal bæta þjer skaða þinn og sjá út manns efni handa þjer, svo þú megir hjá honum njóta hvíldar, og búum við þá öll saman í sátt og samlyndi, sem einn maður væri.“ En það var hið mesta kvalræði fyrir hana að sjá auðnu mína og velgengni. Nokkru síðar sáum við að hún var farin að búa sig út í nýtt ferðalag og kom okkur það heldur enn ekki óvart. Krafðist hún af oss fjár þess, sem henni var ætlað til heimanfylgju, og lofaði að borga okkur það aptur, þegar hún kæmi heim úr ferð sinni. „Og þú heldur,“ sagði maðurinn minn, „að þú eigir apturkvæmt? Í fyrri ferðinni misstirðu aleigu þína, en í þessari máttu óttast að þú glatir bæði frelsi þínu og lífi.“ Gaf hún orðum okkar engan gaum, og ljet það eitt um mælt, að hún mundi fara, hvort sem hún hefði fje eða ekki, kvað hún sjer vera svo margt til lista lagt, að hún gæti með hægu móti aflað sjer þess, er hún þyrfti. Sáum við nú, að ómögulegt var að koma fyrir hana vitinu, og gáfum henni talsvert fje til fararinnar. Var hún tvö ár í ferð þessari og höfðum við á þeim tíma hina beztu uppskeru af ökrum okkar, en hjarðirnar tímguðust vel og jukust stórum. En það var

öðru nær enn að systir mín ætti slíkri hamingju að fagna. Fyrst fór hún um Persaland og hafði lítinn ábata, en því næst ætlaði hún að reyna, hvernig sjer gengi á Tattaralandi, og tók því það ráð að leita til Bokkara, sem er kaupforðastaður beggja landanna og stefnustaður hinna voldugustu verzlunarmanna í Austurheimi. En til þeirrar borgar kom hún farangurslaus, því þegar hún var á leiðinni yfir Kandaharsfjöll, þá rjeðust á hana Indverjar nokkrir og rændu hana, en með því hún hafði góðan hest, þá gat hún dregið undan þeim og forðað lífi sínu; hafði hún þá ekkert nema gullpeninga nokkra og gimsteina, er hún bar á sjer. Fyrstu dagana eptir að hún kom í borgina, var hún að kynna sjer kauptorgin og gesthúsin; varð kerling nokkur á vegi hennar og ávarpaði hana þessum orðum: „Ekki ert þú bragðlegur, sonur sæll! þó þú sjert ungur að aldri og fagur álitum. Lízt mjer svo á þig, sem þú munir yfir mikilli hugsýki búa; má eg vera svo djörf og spyrja, hvað að þjer gengur?“ „Er það ekki von,“ svaraði systir mín, „að illa liggi á útlendum manni, sem ræntur hefur verið aleigu sinni, og enginn þekkir? hvað á af mjer að verða, sem er frændlaus, vinlaus og fjelaus?“ Kom þá upp fyrir henni grátur mikill. „Þjer er vorkunn,“ mælti kerling, „kom nú með mjer og skal eg veita þjer öruggt athvarf.“ Þegar nokkrir dagar voru liðnir, ætlaði systir mín að fara, en kerling sárbændi hana að vera hjá sjer; það vildi systir mín ekki og tók þá kerling svo til orða: „Þú óttast víst að leyndarmál þitt komizt upp, en vita skaltu að það lá mjer í augum uppi fyrst þegar eg sá þig, og hef eg þó aldrei látið á því bera, hvorki við sjálfa þig nje aðra. Þeim hentar þagmælskan bezt, sem mína fræði stunda. Mundi það hafa verið hyggilegt af mjer, að veita þjer vist í húsum mínum, ef eg hefði haldið að þú værir þess kyns, sem þú vilt telja mönnum trú um með klæðnaði þínum?“ En þessi orð kerlingar lutu að því, að hún hafði dótturdóttur sína til fósturs, tólf vetra gamla. Sá nú systir mín ekki annað sýnna enn að gangast við sannleikanum, og sagði hún kerlingu frá ferðalagi sínu og æfintýrum. Fannst kerlingu mikið til gáfna hennar og áræðis. „Nú hefur þú sagt mjer sögu þína,“ mælti hún, „og er hún næsta fróðleg, er því bezt eg gjaldi þjer sögulaunin með öðrum fróðleik, sem ekki er minna í varið. Skaltu

nú vita að eg er fjölkynngiskona, og vil eg kenna þjer alla leyndardóma fræði minnar, ef þjer leikur hugur á að nema.“ Tók systir mín boði þessu fegins hendi, og með því hana skorti hvorki gáfur nje lægni, þá urðu framfarir hennar bæði miklar og skjótar. Leið skammt um að hún jafnaðist við lærimóður sína og gerði henni ymsar brellur, svo að báðar þessar flagðkonur áttu lengi í brösum saman, þangað til skildi með þeim; sóru þær þá hver annari eilífan fjandskap og hjetu því, að þær á síðan skyldu kynda hatur sitt í eldsvælu helvítis. Hafði galdranám þetta kostað systur mína ærna peninga, og var nú upp gengið það sem hún hafði átt eptir af eigum sínum; en hún huggaði sig við það, að hún mundi fá miklu illu til vegar komið. Hafðist hún lengi við á því að kynda í ofnum, en varð fyrir harðri og illri meðferð, og rjeði því af að taka sjer eitthvað annað fyrir hendur. Hafði hún komizt að því með fjölkynngi sinni, að maður minn var stundum á ferðum út um land, og leizt henni ráðlegast að koma til mín þegar hann væri ekki heima. Neytti hún þá töfra sinna og hvarf til mín á svipstundu. Nú þótt hún væri ennþá herfilegar til reika eptir þessa ferðina enn hina fyrri, þá bar eg samt kennsl á hana, því eg hafði aldrei búizt við, að sjá hana betur á sig komna. Gekk hún inn í hús mitt með fýlusvip og tók eigi ástarhótum mínum, heldur hratt hún mjer frá sjer með vonzku, þegar eg ætlaði að faðma hana að mjer. Eg hugsaði með mjer, að henni væri vorkunn þótt hún væri stygg í viðmóti, er hún hafði í slíka ógæfu ratað. Nú er hún þagði og mælti ekki orð, þá dirfðist eg að ávarpa hana og tók eg þannig til orða: „Systir mín góða! það mundi víst vera ótilhlýðilegt að spyrja um æfintýri þau, sem þú hefur í ratað á ferð þinni; en hvað sem því líður, þá mundi eg taka óláni þínu með jafnaðargeði, ef það gæti komið þjer til að staðfestast hjerna hjá okkur. Veit eg það, að ef þú vildir fara að ráðum mannsins míns, þá mundirðu verða þeirrar hamingju njótandi, sem við óskum þjer af alhuga.“ Varð hún þá uppvæg af heipt, en stillti sig þó og mælti: „Því viltu vera að bæta ofan á eymd mína með bríxlyrðum? eg skil þig, þú hefur engan frið fyr enn þú getur flæmt mig af heimili þínu, og af þeim toga eru fortölur þínar spunnar; það situr þó illa á yngri systur að vilja segja hinni eldri til siðanna. En

En svo þú hættir að þrástagast á því, hvað illt leiði af ferðalaginu, þá læt eg þig nú vita, að eg hef aflað mjer fróðleiks, sem er miklu meira virði enn eigurnar, sem eg hef misst, og skal eg bráðum sýna þjer raun á því.“ En þrátt fyrir allan fróðleik sinn, þá gat hún ekki aflað sjer peninga og varð eg að gera henni úrlausn. Nú var það einhvern dag að hún krafðist fjár af mjer og tiltók upphæðina, sagði eg henni þá, að hún yrði að hafa biðlund, þangaðtil maðurinn minn kæmi heim aptur, því eg hefði ekki meira enn gengi til daglegra útgjalda. „Systir mín góða!“ sagði eg, „heldurðu ekki eg viti hvað þú fer? Nei, slepptu fyrir alla muni ásetningi þínum, það er sjálfri þjer fyrir beztu. Fræði þín hefur ekki gert þig hyggnari enn þú varst, og ættirðu nú að kosta kapps um að bæta bresti þá, sem orðnir eru á mannorði þínu.“ Við þessi orð mín varð hún hamslaus og brann eldur úr augum hennar af heiptinni, jós hún yfir mig dynjandi skömmum, þreif vatnsskál og dýfði í hana sýpresviðar grein, stökkti síðan nokkrum dropum í höfuð mjer og syni mínum og tautaði jafnframt einhver útlend orð fyrir munni sjer. Komumst við þá samstundis í þær hryggilegu álögur, sem þjer leystuð oss úr fyrir skemmstu. Megið þjer nú, kæri gestur! geta því nærri, að hjer muni ljúka sögu minni, því við vorum strax rekin inn í næsta úlfaldahús og var okkar þar sjaldan vitjað.“

„Nú skal eg,“ mælti hinn gamli maður, „segja ykkur hvað til bar eptir þessi grátlegu tíðindi, sem nú var frá sagt. Mjer brá heldur enn ekki í brún, er eg hvorki fann konu mína nje barn mitt. Spurði eg mágkonu mína, hvað af þeim væri orðið, en hún svaraði grátandi: „Meðan þjer voruð í burtu kom hjer upp mannskæð drepsótt; höfum við bæði orðið að sjá því á bak, sem okkur var kærast. Land þetta er nú orðið mjer að viðurstyggð, og get eg ekki fengið af mjer að vera hjer lengur. Eg verð að hrista af mjer sorgina í glaumi heimsins, en hjer mundi hún draga mjer til dauða.“ Reyndi eg á allar lundir að telja henni hughvarf, en það kom fyrir ekki; gaf eg henni nokkuð af eigum systur hennar, og lagði hún þá á stað. Hef eg eigi spurt til hennar síðan, og er mjer ókunnugt um, hvað orðið er af henni.“ Þá gall eg við og mælti: „Eg get með fullri vissu sagt yður, að hún er í námunda, en skyldi hún koma aptur, þá er hjer einn peningur úr sláttu Ismaels,

og getið þjer með honum breytt henni í hvaða dýr sem vera skal.“ þakkaði konan mjer, en fjekk mjer aptur peninginn og mælti: „það gæti eg aldrei fengið af mjer að fara svo illa með systur mína; hefndin er í guðs höndum en ekki mínum.“

Nú var farið að kvölda og sögðum við húsbóndanum, að nú mættum við ekki fresta ferðinni lengur. „Vinir góðir!“ mælti hann, „eg ljet það reyndar að orðum ykkar, að þið mættuð fara í dag, en það er aðgætandi, að mjer kom þá ekki til hugar, að eg mundi verða ykkur svo skuldbundinn, sem eg er orðinn. Og nú efna eg til hátíðar í minningu þess, að kona mín og barn mitt leystust svo heppilega úr álögunum, haldið þið þá að við getum haft nokkra ánægju af því, þegar þið eruð komnir burt frá okkur?“ Konan rjetti hendur til okkar með tárin í augunum og sagði við mættum ekki fara, sveinninn litli vafði sig fast að knjám okkar og sleppti ekki tökum. þókti þá lagssystur minni mikið fyrir að fara, en hinsvegar vissi hún að foreldrar hennar kvöldust af hugsýki hennar vegna, og langaði hana því til að komast heim sem fyrst. Rjeðum við nú af að vera einn dag ennþá hjá þeim hjónum; höfðum við þann dag hina beztu skemmtun. Morguninn eptir fórum við á stað áður enn húsfreyjan var komin á fætur; fylgdi maður hennar okkur á leið og fengum við eigi tára bundizt, er við skildum við hann. Fórum við síðan leiðar okkar til Hamah, og hýrnaði alltaf yfir konungsdótturinni, að sama hæfi og við nálguðumst borgina. En eg var hlutlaus af þeirri gleði, sem von var, þar sem eg var ókunnug þar í landi og hafði einsett mjer að dylja kyn mitt. Lagssystir mín furðaði sig á ógleði minni og spurði mig optsinnis, hvaðan eg væri og hvort foreldrar mínir væru á lífi; sagði hún mjer til hughreystingar, að konungurinn, faðir hennar mundi þegar láta sækja okkur til hirðarinnar. „Munuð þjer þá,“ sagði hún, „ekki framar fara þaðan, því afhvarf yðar mundi draga mjer til dauða. Megið þjer nærri geta, hvílíkt eptirlæti konungurinn og drottningin munu hafa á yður, þegar þau verða þess vísari, að þjer hafið leyst mig undan líftjóni og vansa.“ „Kóngsdóttir!“ mælti eg, „eigi má eg ganga að kosti þessum, er þjer bjóðið mjer af svo mikilli elsku, og eigi má eg heldur hafna honum; eg fel öll mín forlög á guðs vald.“ Fórst okkur nú seint og erfitt þangað til við

komum að fljótinu Hassý, er fellur skammt frá Hamah; sáum við þar mikinn grúa tjalda og ýmisleg veiðargögn, og mættum fimm mönnum vel ríðandi. Riðu þeir á leið fyrir okkur og spurðu, hvaðan við kæmum og hvert við færum, en við sögðum þeim það og spurðum aptur, hvernig stæði á þessum mörgu tjöldum. Urðum við þá þess vísari, að þettá voru tjöld konungsins frá Hamah, kváðu þeir hann hafa farið á dýraveiðar sjer til afþreyingar í raunum sínum, því þræll nokkur, sem var hið versta illmenni, hefði strokið burt með dóttur hans. „Ef þið,“ mælti einn þeirra, „skylduð vera orðnir nokkurs vísari um hana, þá mundi konungur kunna ykkur mikla þökk fyrir.“ Varð þá lagssystir mín fyrri til svars, og sagði að við gætum ekki sagt konungi neinar frjettir af henni. Bað hún riddarana að veita okkur einhvern gestbeina, því við værum næsta vanmegna eptir ferðina. Leizt fyrirliðanum vel á okkur og lofaði hann að auðsýna okkur greiða og gestrisni, svo sem skylt væri jafnan við alla aðkomumenn, kvaðst hann í tilbót mundu fylgja okkur á fund konungs, því vera mætti að sorgin rættist nokkuð af honum, þegar við segðum honum æfintýri okkar. Bauð hann okkur þá að fylgjast með sjer og reið rakleiðis að konungstjaldinu. Gekk hann þegar inn í tjaldið, því hann var reyndar einn með hinum æðstu hirðmönnum; sagði hann konungi að hann væri kominn með tvo menn ókunnuga, og væru báðir ásjálegir, en dæstir fremur og ferðlúnir, væri þó ei ólíkt að konungur mætti hafa af þeim nokkra skemmtun. „Látið þá koma inn til mín,“ mælti konungur, „hver veit nema þeir beri einhverja fregn af dóttur minni.“ Var okkur þá fylgt inn í tjaldið; stóðum við síðan frammi fyrir konungi, einsog siður er, og bauð hann okkur þá að setjast í legubekk einn. Horfði konungur á okkur sorgbitinn og íhugafullur og virti okkur vandlega fyrir sjer. Tárin stóðu í augum hans, hann varpaði öndinni mæðilega og mælti: „Ef ekki væri gestur þessi á karlmannsfötum, þá mundi eg halda að hjer væri komin dóttir mín, óskabarn mitt, sem rænt var frá mjer. Ekki munuð þið hafa spurt neitt til hennar á ferð ykkar?“ Svöruðum við, að því væri nú verr, að við gætum ekki fært honum neina vitneskju um hana, en hjetum þó um leið að spyrjast vandlega fyrir um hana á ferðum okkar. Og sem hann heyrði að við værum á ferðalagi þessu okkur

til skemmtunar, þá sagði hann: „því viljið þið fara lengra? Verið hjer kyrrir og þjónið mjer. Þið hafið fullkominn verðleik til að vera embættismenn í konungshirð.“ Við hneigðum okkur djúpt til merkis um, hvað mikils okkur þækti vert um boð hans og sveigðist nú viðurtal okkar að öðrum efnum. Var svo að sjá sem sorgin rættist nokkuð af konungi, og var geðfró þessi sprottin af einhverjum huldum náttúrlegum rökum, því alltaf meðan hann var að spyrja mig um vísindi, listir og háttsemi þeirra þjóða, sem eg hafði kynnzt við á ferðum mínum, þá hafði hann aldrei augun af lagssystur minni. Var nú gengið til borðs og urðum við að setjast á vinstri hönd konungi; skenkti hann sjálfur á bikara okkar og ræddi við okkur látlaust og vingjarnlega, var það auðsjeð, að hann hafði af því mikla skemmtun. „Mjer liggur við að halda,“ sagði hann, „að þið sjeuð dularbúnir konunga synir, því flestum mönnum eruð þið framar að menntun og kurteisi.“ Svöruðum við þá með lotningu: „Minnist ekki á það, herra! við erum ekki nema óverðugir þjónar yðar hátignar.“ Þegar kominn var háttatími, þá var hirðmaður nokkur látinn fylgja okkur inn í skrautlegt tjald, fundum við þar föt og nýþvegið lín, sem okkur var ætlað. Spurði eg lagssystur mína áður enn eg lagðist niður, því hún hefði ekki gert föður sínum uppskátt, hver hún var. „Eg var hrædd um,“ svaraði hún, „að svo óvæntur og óumræðilegur fögnuður mundi fá honum ofmikillar geðshræringar“. Snemma daginn eptir kom sami hirðmaðurinn, sem hafði fylgt okkur í tjaldið, og fór með okkur á fund konungs. Ljet konungurinn okkur drekka kaffi með sjer og bauð okkur að koma á dýraveiðar. Drap eg fjölda dýra í veiðiför þessari, og gaf eg lagssystur minni nokkuð af veiðinni, því ekki kunni hún neitt til veiðiskapar; samt tóku menn eigi eptir vankunnáttu hennar í því efni, og var öllum grunlaust um að við værum í dularbúningi. Borðuðum við enn sem fyrri með konungi og bauð hann oss daginn eptir að koma með sjer til borgarinnar. Sá drottning að konungur var hýrari í bragði, er hann kom heim, og spurði hún þá, hvort hann hefði frjett nokkuð til dóttur þeirra. — Þá vöknaði honum um augu og svaraði hann henni, að menn sínir hefðu komið með tvo menn unga og ókunnuga, og væri sjer unaðsbót nokkur að ástúðleika þeirra, vænleik og vistmunum. „En

einkum,“ mælti hann, „geðjast mjer að öðrum þeirra, af því hann er svo líkur dóttur minni, og væri hann ekki í karlmannsbúningi, þá mundi eg ætla, að hún væri þar sjálf komin. En allt um það þá hef eg gaman af blekkingu þessari, og sjer þú því minni ógleði á mjer enn endrarnær.“ Nú langaði drottningu til að sjá okkur, en með því sá var siður þar í landi, að eigi máttu vera saman konur og karlar, þá var farið með okkur undir glugga hennar og sagt að við skyldum viðra okkur þar úti; tefldum við þar eina skák og gat drottning horft á okkur á meðan, einsog henni ljek lyst til. Næsta dag var dýrðleg veizla og var hún bæði gerð til að fagna okkur og skemmta konungi. Var okkur aptur skipað til sætis hjá honum, og sem allir borðgestirnir voru seztir, þá tók hann um hönd Aladíns og mælti: „því hef eg nú ekki dóttur mína mjer hið næsta, einsog eg hef yður? Hvenær mun mjer berast fegins-frjettin um heimkomu dóttur minnar, sem eg unni svo mjög og ávallt mun syrgja?“ Varð nú konungur svo klökkur, að hann fjekk eigi meira talað að sinni, en lagssystir mín sætti þá lagi og spurði, hvað hann mundi gefa þeim, er færði honum gleðifrjett þessa. „Helfing ríkis míns,“ ansaði konungur, „og mundi honum þó eigi fulllaunað; meira að segja, hann mætti eiga dóttur mína, ef hún vildi taka honum.“ þá mælti kóngsdóttir: „Ef þjer nú sæjuð þessa kæru dóttur, mynduð þjer þá þekkja hana aptur?“ þar með svipti hún túrbaninum af höfði sjer og hrundi þá hárið hrafnsvart niður á herðar. Vafði konungur hana með ástríkri viðkvæmni að hjarta sínu og kallaði með klökkri raust: „Dóttir mín! elskulega dóttir! nú ertu þá aptur komin í faðm minn.“ Hafði drottning sjeð allt hvað gerðist, því hún stóð í afklefa einum og horfði þaðan út um glerglugga; gat hún þá ekki ráðið sjer lengur og hljóp innanum alla karlmennina til manns síns og dóttur sinnar. Voru þau hjónin og dóttir þeirra agndofa af kætinni fyrst í stað og höfðu ekki sinnu á að fagna hvert öðru og láta elsku sína í ljósi fyr en þau rönk-uðu við sjer aptur. „þú kannast þá við dóttur þína,“ mælti kóngs-dóttir. „Eg hef borið hana í níu mánuði undir belti mínu,“ ansaði drottning, „eg hef haft hana á brjósti. Hvað mun eg þá þurfa augnanna við? móðurhjartað segir til, og það villist aldrei, þegar því rennur blóðið til skyldunnar?“ þá sagði kóngsdóttir: „Nú höfum

við goldið elskunni það sem hennar er, en við megum eigi heldur gleyma ræktarboði þakklátseminnar; þessi maður er lífgjafi minn.“ Sagði hún síðan frá öllum æfintýrum sínum og barst sú saga frá einum til annars. Var nú haldin fagnaðarhátíð í höllinni og hvervetna í borginni. Stakk konungur upp á því við dóttur sína, að hún skyldi eiga mig, því ekki mætti bjóða mjer minna að launum; varð kóngsdóttir ráði þessu allshugar fegin, því hún hafði fellt til mín hina heitustu ást. En þjer getið því nærri, hvílíkur vandi þetta var fyrir mig. Hvað átti eg að gera? Átti eg að fara burtu strax í stað eða segja einsog var, að eg væri kvennmaður? Hið fyrra var hættulegt og hið síðara hentaði mjer ekki, því þá hefði menn líklega farið að gruna margt um siðferði mitt. Varð það nú úr, að eg bað konung að veita mjer nokkurra daga frest til að íhuga mál þetta; veitti hann mjer þá níu daga frest. En daginn eptir kom dómari til mín með hjónabandssamninginn, og lagði kóngsdóttir svo fast að mjer, að eg varð að fylgjast með henni í musterið og framfór þar vígsla okkar með mikilli viðhöfn. Kóngsdóttir þóktist hafa himin höndum tekið, en eg vissi ekki hvað af mjer ætti að verða, og mátti eg enga hlutdeild taka í þessum almenna fögnuði. Hugðu allir að eg mundi vera þunglynd af náttúru og væri ógleði mín ekki af öðru sprottin. Þar í landi var siður, að brúðhjón skyldu sitja til borðs saman að kvöldi brúðkaupsdagsins, svo þau gætu kynnzt hvert öðru, en með því við hjónin höfðum þekkzt svo lengi, þá vildu þau konungur og drottning borða með okkur. Þegar við höfðum lokið máltíðinni, var okkur fylgt inní brúðarhúsið og urðum við nú tvö ein. Kona mín afklæddist og lagðist niður, en eg var ekki farin að hugsa til þess; varð eg þó svo að gera fyrir þrábeiðni hennar. Slökkti eg öll ljósin áður enn eg háttaði; fór svo úr fötunum, nema rjett því allra innsta, til að hylja sköpun mína. En er eg var komin í rúmið, þá lá eg grafkyr og bærði ekki á mjer. Kóngsdóttir greip um hendur mínar og ámælti mjer fyrir ógleði mína. „Elsku vinur!“ mælti hún, „hvað veldur því, að þú ert svo stúrinn? Sjerðu ekki að opt leiðir illt af góðu? hefði ekki þrællinn vondi strokið með mig, þá hefði eg aldrei orðið svo lánssöm að kynnast þjer.“ Þar með þrýsti hún mjer fast að brjósti sínu, og barðist það ótt og títt, því hold og

hjarta hennar var gagntekið af elsku. Tók hún loksins um hægri hönd mína og mælti: „Lát þjer nú farast drengilega og veit mjer eigi bana eptir að þú hefur borgið lífi mínu.“ Eg viknaði af öllu hjarta við kveinstafi hennar og flóðu augu mín í tárum. „Æ!“ sagði eg, „því bannar sómatilfinningin mjer, að trúa yður fyrir leyndarmáli mínu, sem er mjer til hinnar mestu hugraunar. En vita skuluð þjer, að eg er hið sama fyrir yður sem þjer eruð fyrir mig, og verðið þjer að taka þessu með þolinmæði.“ „Fjærri sje mjer það,“ ansaði kóngsdóttir, „að eg geri nokkuð til skapraunar þeim sem eg elska.“ Snerum við því næst bökum saman, til þess að okkur gæti sofnast betur, en eg var svo sárkvalinn af áhyggjum, að mjer kom ekki dúr á auga. Kóngsdóttirin var engu betur farin enn eg, hún lá andvaka með augun apturlokuð og með brennandi kvalir í hjarta sínu. Morguninn eptir kom drottningin og faðmaði okkur með blíðu, og sem við vorum komnar á fætur, og hún varð ein með dóttur sinni, þá fór hún að spyrja hana, hvernig henni liði; brá henni illa við sögu þá, er dóttir hennar bar af háttalagi mínu. Hún roðnaði af óvirðingu og fór til konungsins hágrátandi. En með því karlmenn allajafna eru stilltari enn konur, þá sáust engin skapbrigði á konungi; hughreysti hann konu sína og kvað leyndarmál þetta mundu skýrast með tímanum. Nú komum við hjónin, og var kóngsdóttir hnuggin í bragði. „Hvað gengur að þjer, dóttir mín!“ ansaði konungur, „þú verður að láta brúðkaupsdaginn vera þjer gleðidag.“ Bað hann hana að eta með sjer dagverð og fór með hana inn í næsta herbergi; sagði hann þar við hana: „Eg sje að þú ert sorgbitin, dóttir mín! og mun það ekki vera af annara völdum enn manns þíns. Seg mjer nú allt hreinskilnislega, því vera má að eg geti veitt þjer huggun og sefað harma þína.“ En hún þagði við og grjet án afláts; hafði hann þá ekki skap til að ganga fastar á hana í það skipti. Leið nú þessi dagur í glaum og gleði og ljet kóngsdóttir ekkert óreynt til að örfa mig og gleðja, en eg var hryggari enn svo að það gæti haft nokkurn árangur. Sagði eg henni loksins um kvöldið, þegar við gengum til hvíldar, að eg hefði svarið að gæta hreinlífis. „Um hvað langan tíma?“ spurði hún. „Það er óráðið að sinni,“ svaraði eg. Faðmaði hún mig þá grátandi og mælti: „Ætlarðu þá ekki að launa elsku mína

með öðru enn fyrirlitningu? Veiztu ekki, að það er enda vanvirða fyrir ótigins manns ætt og heimili, þegar konan getur ekki sýnt meydóms merki sín eptir fyrstu nóttina? Mundi það þá ekki vera því meiri minnkun, þegar kóngsdóttir á hlut að máli? Ó! mig auma; eg mun aldrei geta glætt hinn minnsta ástarneista í hjarta þínu, og hef eg nú aðeins einnar bænar að biðja þig, og hún er sú, að þú farir til drottningar og gangist hreinskilnislega við ástleysi þínu mjer til handa. Þá munu menn gipta þjer einhverja aðra kóngsdóttur, sem betur getur orðið þjer að skapi, en eg mun telja mig sæla, ef eg má komast í tölu ambátta þinna. Má þá vera, að þú, lífgjafi minn! sjáir aumur á mjer sakir elsku minnar og óslítandi tryggðar. Verður mjer þá ekki heldur alveg útskúfað, er mjer leyfist að líta þig á degi hverjum, og það sver eg þjer, að eg aldrei skal veita neinum öðrum ást mína.“ Sakaði eg mig nú sjálfa um þetta og sárkvaldist, svo eg hætti að skeyta um háska þann, er búinn var frelsi mínu og virðingu, fleygði eg mjer í faðm kóngsdóttur, og mælti: „Nú get eg ekki dulið þig þess lengur, ljúfa mín! að eg er sama kyns og þú; hvernig gaztu villzt á mjer svo lengi?“ Við þessi orð mín varð hún einsog þrumulostin, og hugði eg að hún mundi andast þar í faðmi mínum. En er hún vitkaðist aptur, þá sagði hún með klökkri raust: „Þú veldur dauða mínum; elska sú, er þú hefur blásið mjer í brjóst, mun verða mjer að bana. Því komstu ekki fyrir mig vitinu, áður enn þessi skaðvæna ástríða kviknaði í hjarta mínu? Ást mín mun aldrei við annað festast, því hún mun aldrei finna neitt það er við þig megi jafnast.“ Þá mælti eg: „Ógæfusama kóngsdóttir! mjer gat ekki til hugar komið, að þú felldir hug til mín, sem var úr öðru landi, og aldrei gat orðið hjer til langframa.“ „Æ! vina mín bezta!“ ansaði hún, „þú ætlar nú að yfirgefa mig, en ertu ekki hrædd um að hörmungar mínar verði mjer að bana. Nei, eg vil fylgja þjer hvervetna, það sver eg við nafn guðs hins alvalda.“ Leiddi eg henni þá fyrir sjónir, að eg yrði að fara hennar vegna; „því verði eg kyrr, þá er óvirðing þín svo mikil, að engu verður á bætt; hvað heldurðu menn segi, þegar hjónaband okkar verður árangurslaust?“ „Eg er nú svo utan við mig,“ svaraði hún, „og hef enga rænu á að hugsa um slíka hluti. Förum að öllu sem í nótt eð var og

getur verið að okkur hugkvæmist eitthvað á morgun, sem verða má til bóta við hörmungum þessum.“ Að svo mæltu vafði hún um mig örmum sínum og sofnaði útaf.

Morguninn eptir gengum við á fund konungs og drottningar, og voru þau bæði sárhrygg í bragði. Hafdi vezírinn sagt þeim af óorði því, er komið var á dóttur þeirra um alla borgina. „Eg játa það, herra!“ mælti hann, „að útlendingur þessi hefur bjargað lífi dóttur yðar; en miklu heldur hefði hann átt að láta hana týna lífi sínu, enn gera henni svo gífurlega smán. Hefði hann strax látið óbeit sína í ljósi, þá hefðum við beðið honum annarar konungsdóttur, sem honum hefði fallið betur í geð; munduð þjer þá og ætt yðar hafa komizt hjá vanvirðu þessari“. Konungur stundi þungan, en svaraði engu; rjett á eptir kom dóttir hans, og spurði hann, hvernig henni hefði liðið um nóttina. „Einsog í nótt eð var“, sagði hún tárfellandi. Því næst ljet konungur hana vita, hvað vezírinn hafði sagt, og bauð henni að skila til manns hennar, að ef hann sýndi henni framvegis þvílíkt tómlæti, þá mundi honum verða leitað annars kvonfangs, og henni annars gjaforðs. Og er svo langt var komið, þá sagði kóngsdóttir frá launungarmáli okkar og rak þá hirðmennina í rogastanz, og voru þeir tregir að trúa framburði hennar. Ljet þá konungur kalla á mig og gekkst eg hreinskilnislega við sannleikanum; sagði eg honum frá öllum æfintýrum mínum og var svo að sjá sem honum þækti mikils um vert. Hann mælti: „Fyrst þjer trúið á Mahómet og eruð í trúarfjelagi voru, þá verið kyrrar hjá okkur; og skal eg fá yður gott gjaforð, sem yður er samboðið og í alla staði heillavænlegt“. Svaraði eg honum þá: „Eg veit ekki hvernig eg á að geta þakkað góðsemi yðar, en samt verð eg að biðja yður að misvirða ekki, þó eg verði að hafna kostaboði þessu; eg verð að fara til Bagdad að finna fóstru mína og ætla eg þaðan með henni til Eþiópakonungs, sem er náfrændi minn og trúir á Mahómet, einsog við.“ Konungi þókti þetta mikið mein, en hinsvegar vissi hann ekki, hvernig hann ætti að kæfa niður lygikvittu þá, er bárust um borgina. Bjó hann því ferð mína í kyrþey og bað mig að láta ekki á því bera við dóttur sína. Nú þótt eg gætti allrar forsjálni, þá fjekk hún samt eitthvert veður af fyrirætlun minni.

þóktist hún skilja, að eg mundi hafa fastráðið, að fara frá hirð föður hennar, og mundi henni með engu móti verða leyft að fylgjast með mjer; gerðist hún því dauðveik og ljet stórum ásjást, holdið hjaðnaði í kinnunum og rósblær æskunnar leið burt af yfirbragði hennar, svo að öll hirðin stóð á öndinni af hræðslu og kvíða. Var eg fengin til að hjúkra henni og sýndist þá sem henni batnaði. þókti konungi svo vænt um það, að hann hjelt allri hirðinni veizlu; komu þar söngmeistarar og dansleikarar, sem voru ljettir á sjer einsog morgunblærinn, og ljeku þeir hjartnæm og eldfjörug dansljóð; var það hið mesta yndi og fjekk svo mjög á mig, að eg mátti eigi leyna geðshræringu minni. Spurði kóngsdóttir mig, hvort eg ætlaði nú að skilja við sig. þá mælti eg: „Nú sem stendur hef eg alveg útrýmt þeirri fyrirætlun úr huga mínum; því skyldum við spilla hátíðagleði þessari? Tölum heldur um eitthvað annað; skenkið á bikarana, sveinar!“ Konungur og drottning tóku í sama strenginn, og voru bikarar, fleytifullir af dýrustu veigum, bornir á meðal gestanna og leikið fjörugt lag, en eg reyndi á allar lundir að hafa af fyrir konungsdótturinni. Sagði hún þá allt í einu: „Fyrst þú fyrir hvern mun vilt fara, þá farðu nú vel!“ Og sem hún mælti þetta, þá hneig hún aptur á bak að brjósti mínu. þreifaði til hjarta míns með vinstri hendinni, en með hinni hægri keyrði hún kníf í brjóst sjer undir möttlinum. Eigi heyrðust til hennar hljóð nje stunur, en blóðboginn úr sárinu og náliturinn á kinnum hennar sögðu samstundis til hinna hryggilegu tíðinda, sem hjer voru orðin. Varð þetta í einni svipun svo engri hjálp varð við komið, og andaðist kóngsdóttir í knjám mínum, meðan menn voru að leita að sári hennar. Drottning vafði sig að líki dóttur sinnar og varð með naumindum slitin frá því. Báru þjónustumeyjarnar hana rænulausa til herbergis síns, en konungur skipaði varðmanna foringjanum að höggva af mjer höfuðið. Bjóst hann til að hlýða boði konungs og beið eg ókvíðin dauða míns, en þá bandaði vezírinn til foringjans, að hann skyldi bíða við, fleygði sjer fram fyrir fætur konungi og mælti: „Gætið þess, herra! að þessi útlenda kona gat eigi að því gert, þótt ólán þetta hlytist af henni og er hún sýkn saka. Ætlið þjer að brjóta hið helga boðorð gestavináttunnar?“ „Hafi hún þá líf og frelsi,“ ansaði konungur, „en

aldrei komi hún í mína augsýn framar.“ Ljet vezírinn þá fá mjer þrjá hesta, tvo þræla og hvað annað, sem menn verða að hafa til langferða; lagði eg því næst á stað til Bagdad. Hóf eg ferð mína harmþrungin í huga og hjelt áfram til sólarlags; tók eg mjer kvöldverð og lagðist síðan niður í grasið, ætlaði eg að sofa þar af um nóttina. Lá eg með tauma hestsins í höndum mínum, og sváfu þrælarnir í nánd við mig.

Í það mund er lýsa tók af degi, hrökk eg upp við skarkala mikinn og hristing, og sem eg lauk upp augum mínum, þá sá eg að ræningjar höfðu slegið hring um mig, slitu þeir taumana úr höndum mjer, og rifu upp spjót mitt, er eg hafði stungið niðrí jörðina hjá mjer; tóku þeir og sverð mitt og ferðabagga mína. Nokkrir þeirra bundu þrælana og kom mótvörn þeirra að engu liði. Sá eg að ræningjar þessir voru Kúrdar.

Fyrirliðanum leizt svo á mig, sem eg væri væskill og ónytjungur, brá hann því sverði sínu og ætlaði að höggva af mjer höfuðið. En einn af ræningjunum sagði, að þeir kynnu þó að geta haft hag á mjer og selt mig, því kaupmenn í Halep væru vanir að kaupa unga og veikbyggða þræla. Stöðvaði þá vegandinn höggið, og var það ágirnd hans að þakka, að eg komst lífs af. Ræningjarnir fóru nú með mig þangað sem þeir höfðust við, en það var lengst upp í fjöllum; var þess skammt að bíða, að kaupmenn frá Halep komu þangað til fjárkaupa. Seldu þeir mig kaupmönnum þessum fyrir þrjú sauðarverð og þóktust vera vel í haldnir. Eg hrósaði happi, er eg var sloppin úr höndum Kúrda, því þeir eru hinir verstu menn og allir dýrka þeir skurðgoð. Tigna þeir sólu, mána og stjörnur, og tilbiðja líkneskjur, sem eiga að tákna kvennmenn eða djöfulinn, eins líka standmyndir, sem gerðar eru til minningar um konu Loths, er breyttist í saltstólpa. Kaupmaðurinn, sem hafði keypt mig, fór með mig á verzlunar torg og seldi mig þar fyrir afarmikið verð; var kaupandinn sá hinn sami sem flutti mig á fund yðar hátignar. Bar hann á allri ferðinni alúðarfulla umhyggju fyrir mjer, sem faðir fyrir barni sínu. Enda sagði eg honum þegar í fyrstu frá æfintýrum mínum, og með því hann þekkti yður, tignarlegi konungur! að drenglyndi og stórmennsku, þá vildi hann koma mjer til hirðar yðvarrar og í því skyni ferðaðist hann til Indíalands.“

# Frá 741 til 779 nætur.

## Sagan af Alaeddín Abusch Schamat.

Schemseddín hefur maður heitið í Kairó; hann sókti víða verzlun og hafði mikið í veltunni, var hann hinn skilríkasti maður og trúðu honum allir. Vissi hann eigi aura sinna tal og átti ógrynni þræla; höfðu kaupmenn í Kairó kjörið hann til forstöðumanns. Ofan á alla þessa auðsæld bættist það, að hann var vel kvæntur, og unnust þau hjónin hugástum. En er þessi saga gerðist, höfðu þau lifað tuttugu ár í hjónabandi svo að þeim varð eigi barna auðið.

Einn dag sat Schemseddín í búð sinni og horfði á nágranna sína, sem allir áttu sonu, sumir einn og sumir fleiri. Sveið honum þá því sárar, að hann var barnlaus, og varð honum gramt í geði til konu sinnar, því undir niðrí kenndi hann henni um barnleysi þeirra. Þetta var á Föstudag og fór Schemseddín til lauga einsog hann átti að sjer, ljet hann þar stökkva á sig ilmvatni og skera hár sitt og skegg; síðan skoðaði hann sig í skuggsjá og varð litið á skegg sitt, sem farið var að gerast hæruskotið; varð honum þá ennþá skapþyngra.

Kona Schemseddíns vissi á hverjum tíma hans var heim von, og þvoði hún sjer og bjó í skart til þess að fagna honum eptir vanda. Kom hún vinalega á móti honum, er hann gekk inn í húsið og bauð honum: gott kvöld. En hann kvaðst ekki vera kominn upp á kvöldkveðjur hennar. Ambáttirnar báru nú inn kvöldverð, og bað hún þá mann sinn að taka til matarins, en hann sneri sjer frá henni og kvaðst einskis vilja neyta. „Hvað veldur því,“ spurði konan, „að svo illa liggur á þjer?“ „Því veldur þú,“ sagði hann önuglega; „þegar eg lauk upp búð minni í morgun, sá eg að allir kaupmennirnir, nábúar okkar eiga sonu. Mikil einfeldnisskepna var eg, þegar eg vann konu minni eið að því um brúðkaupsnóttina, að eg ekki skyldi ganga að eiga fleiri konur eða leggjast með ambáttum, já, og það enda, að eg aldrei skyldi vera nótt að heiman. En það er vitaskuld, að mjer kom þá ekki til hugar að hún mundi verða óbyrja.“ „Kallar þú mig óbyrju?“, ansaði konan reiðuglega, „barnleysi okkar getur eins mikið verið

þjer að kenna.“ þegar nú konan svaraði svo skorinort, þá varð kaupmanni eigi grunlaust, að sín væri sökin engu minni, beiddi hann því konu sína að vera góða, borðaði með henni og var þar hjá henni um nóttina. Og sjá! að nokkrum mánuðum liðnum varð hún barnshafandi. Og er að því var komið, að hún skyldi fæða, þá var sent eptir ljósmóður; varð konan ljettari og ól fagurt sveinbarn. Ljósmóðirrin blessaði sveininn hvað eptir annað með því að klifa á nöfnunum: Mahómet og Ali, og æpti í eyru honum Tekbir*) eg Adan**). Eptir þriggja daga legu reis móðirin af barnssæng; óskaði kaupmaður henni til hamingju og kvaðst vilja sjá barnið. Var honum færður sveinninn og undraðist hann, hversu hann var fríður og stór, því vel hefði mátt ætla að hann væri árs gamall. „Hvaða nafn hefurðu valið honum?“ spyr kaupmaður. „Hefði það verið meybarn,“ ansaði konan, „þá mundi eg vera búin að gefa því nafn, en fyrst það er drengur, þá ber þjer að kjósa honum heiti.“ þá var siður að gefa börnum þau nöfn, er menn heyrðu af tilviljun. Nú vildi svo til að kaupmaður í þann svipinn heyrði einhvern kalla á Alaeddín, og fyrir þá sök hlaut sonur hans það nafn og ekki annað; þartil gaf hann honum auknefnið Abusch Schamat, vegna einkennis nokkurs, er hann hafði á báðum kinnunum.

Alaeddín litli óx vel og dafnaði svo sjá mátti framför hans dag frá degi; óttaðist því faðir hans, sem var maður hjátrúarfullur, að honum mundi eitthvert slys að hendi bera, en einkum var hann hræddur um að hann yrði litinn illum augum***). Til þess nú að gera sveininn óhultan fyrir slíku, þá rjeði hann af að láta uppfæða hann í jarðhúsi þangaðtil hann yrði fullþroska. Var hann í fyrstu falinn til umsjár ambátt og þjóni nokkrum gömlum, en er fram liðu stundir var maður fenginn til að kenna honum; tók hann góðum framförum í ýmsum námsgreinum. En svo bar til einn dag að þjóninum gamla hafði gleymzt að loka jarðhúsinu,

---

*) þ. e. guð er mikill.
**) Adan merkir: boðun til bænahalds.
***) það er alþýðutrú í Suðurlöndum og Austurlöndum, að illur galdur sje í augnatilliti hatursfullra eða öfundsjúkra manna og sje því háski að verða fyrir því; þetta kalla menn „ill augu“.

sætti þá Alaeddín lagi og gekk upp riðið; kom hann inn í herbergi móður sinnar og hittist svo á, að þar voru margar hefðarkonur fyrir. Varð þeim heldur enn ekki hverft við, er þær allt í einu sáu yngismann mitt á meðal sín, og brugðu þær óðar blæjunum fyrir andliti sjer; kvörtuðu þær sáran yfir hneyxli þessu við móður sveinsins. „Vitið það, frúr mínar!“ mælti hún, „að unglingur þessi er sonur minn. Manninum mínum stóð slíkur ótti af illum augum öfundsjúkra manna, að hann ljet uppala hann í jarðhúsi; og veit eg ekki, hvernig hann hefur getað læðzt þaðan burt, en við ætluðumst til að hann yrði þar allt þangaðtil hann kæmist á fullorðins aldur.“ Óskuðu nú allar konurnar henni til hamingju, þar sem hún ætti svo fagurt barn. En Alaeddín gekk burt úr herbergi móður sinnar í innra húsgarðinn og sá þræla nokkra teyma múl inní hesthús. Spurði hann, hvernig á því stæði, og var honum sagt, að faðir hans hefði riðið múlnum til búðar sinnar og væru þeir nýkomnir með hann þaðan. Sveinninn varð nú ákafur og spurði, hver faðir sinn væri, og jafnskjótt sem hann heyrir að hann sje forstjóri verzlunarmanna í Kairó, þá skundar hann á fund móður sinnar og leitar frekari vitneskju hjá henni. „Sonur kær!“ mælti hún, „hann faðir þinn er yfirmaður allra Araba í þessu landi. Engar vörur, hvers kyns sem eru, verða aðfluttar eða útfluttar, nema um hans hendur fari; stendur verzlun hans víða fótum undir, en lánstraust óþrjótandi, og er hann fyrir þá sök orðinn vellríkur.“ „Guði sje lof fyrir það,“ segir Alaeddín, „en seg mjer elsku móðir! hvernig stendur á því, að eg hef svo lengi verið innibyrgður í jarðhúsinu?“ „það var til þess gert,“ ansaði hún, „að þú yrðir óhultur fyrir illum augum.“ þá mælti Alaeddín: „það er þó sannmæli, móðir! að enginn má sköpum renna og enginn griðastaður er til fyrir forlögunum. Dauðinn er hvers manns hlutskipti, og þó faðir minn kenni sjer einskis meins í dag, þá getur svo farið að við missum hann á morgun, og ef eg þá vildi setjast í hans sæti, þá mundu menn eigi trúa því, að eg væri sonur Schemseddíns, yrði svo allur föðurarfur minn dreginn í ríkis sjóð. þú verður að lofa mjer því, að þú skulir fá föður minn til þess að koma upp sölubúð fyrir mig, og kenna mjer það sem verzlunarmenn verða að kunna.“ Hjet þá móðir Aleddíns að spara ekkert til þess að

óskum hans yrði framgengt. Kemur nú kaupmaður heim og spyr konu sína, hversvegna hún hafi hleypt syni þeirra út úr jarðhúsinu. Hún kvaðst eigi vita, hvernig hann hefði komizt þaðan, og sagði honum allt hvernig orð hefðu farið milli þeirra mæðgina. Sagðist kaupmaður skyldu lofa syni sínum að fylgjast með sjer næsta dag og lagði ríkt á við hann, að taka gaumgæfilega eptir öllu, sem fram færi í kaupskapnum, og semja sig að kurteisi, því það væri kaupmönnum mjög svo áríðandi. Alaeddín rjeði sjer ekki fyrir tilhlökkun og þráði morgundaginn með mesta óþoli. Fór faðir hans fyrst með hann til lauga og gaf honum skrautklæði; síðan neyttu þeir morgunverðar og riðu báðir saman til kauptorgs. En er kaupmenn sáu forstjóra sinn koma með yngismanni ókunnugum og forkunnar fríðum, þá fóru þeir að stinga saman nefjum og hvíslast á; höfðu þeir í flimti, að ekki mundi Schemseddín vera sem hreinlífastur. — Einn þeirra, sá sem elztur var, stakk þegar uppá því, að forstjóra yrði vikið frá embætti sínu; varð Schemseddín þess skjótt áskynja, og kallaði á hann og spurði, hvað honum gengi til. „Það er," sagði hann, „vegna unglingsins, sem þjer hafið hjá yður." Sagði Schemseddín honum þá frá málavöxtum, en hann sagði hinum kaupmönnunum; komu þeir þá allir og óskuðu Schemseddín til hamingju. Varð þá einum þeirra að orði, að þegar fátæklingar eignuðust barn, þá væru þeir vanir að bjóða vinum og vandamönnum í veizlu. Schemseddín skildi skensið og kvaðst hafa í hyggju, að veita þeim öllum í lystigarði sínum. Daginn eptir ljet hann efna til veizlu í tvennu lagi, niðri í stofu og uppi í loptsal einum; síðan girti hann sig belti og bauð syni sínum að gera slíkt hið sama. „Nú mun eg," mælti hann, „fagna hinum eldri mönnum og fylgja þeim upp, en þú skalt taka við yngismönnunum í stofunni." „En til hvers er þessi aðskilnaður?" spurði Alaeddín. „Til þess," ansaði Schemseddín, „að hverjir um sig geti notið sín sem bezt og skemmt sjer sem frjálslegast." Reyndi Alaeddín á allar lundir að hlýðnast vilja föður síns og hafði allt á takteini við gesti sína; skorti nú ekkert sem til góðrar matveizlu heyrir, og er sætir svaladrykkir voru bornir í kring og brennt var reykelsi, þá tóku hinir eldri menn að ræða um ýmislegt, er laut að sagnafræði og bókmenntum. En yngri mennirnir töluðu

mest um kaupskap, og mátti þar heyra margar ótrúlegar sögur, og líkastar æfintýrum, er þeir sögðu frá ferðum sínum til annara landa, hversu þeir hefðu græðt mikið á litlu og auðgazt á framsýni og fjebrögðum. Einn af þeim, er nærstaddir voru, spurði Alaeddín, hvort honum væri ekki mikill hugur á að ferðast, þar sem hann allt til þessa hefði orðið að sitja í slíkri ófrelsis kreppu. Þá mælti Alaeddín: „Til hvers er að ferðast? er það ómaksins vert? er mjer ekki miklu nær að sitja kyr heima?“ Allir boðsmenn hlóu að orðum þessum, og sögðu sín í milli, að hann væri kjarklaus og ragur; en þótt eigi væri svo til ætlazt, þá heyrði samt Alaeddín, hvað þeir töluðu. „Hann er líkur fiskunum,“ sagði einn, „þeir geta ekki lifað nema í vatni; það yrði hans bráður bani, ef hann ætti að skilja við föðurhúsin.“ En annar sagði: „Hann veit ekki, að menn fræðast og menntast á ferðum, hann veit ekki, að enginn kaupmaður getur orðið fullfær í verzlun, eða haft nokkurt álit á sjer meðal fjelaga sinna, nema því að eins að hann hafi farið um hin fjarlægustu lönd.“ Alaeddín vöknaði um augu við skósur þessar; stje hann múl sínum á bak með hryggum huga og reið heim til sín. Móðir hans sá að illa lá á honum og spurði hvað til bæri; sagði hann henni þá frá háðsyrðum hinna ungu kaupmanna og kvaðst fyrir hvern mun vilja ferðast. Hún leitaðist nú í fyrstu við að telja honum hughvarf, en þegar hún komst að raun um, að það mundi verða fyrir gíg, þá spurði hún, hvert hann ætlaði sjer að fara.“ „Eg ætla til Bagdad,“ ansaði Alaeddín, „því þar er mjer sagt að mönnum veiti hægt að tvöfalda eigur sínar.“ Móður Alaeddíns fjellst mikið um að sjá honum á bak, því hún unni honum hugástum, en samt lofaði hún að mælast til við föður hans, að hann ljeti af hendi við hann vöruforða nokkurn, svo sem skaplegt væri eptir efnahag hans. En Alaeddín hafði litla eirð að bíða þess og sárbændi móður sína, að gefa sjer nokkuð af því, er hún sjálf hefði undir höndum og búa þegar um það. Gerði hún það fúslega og sendi eptir verkmönnum, fjekk hún þeim ym san vefnað og vöfðu þeir hann saman í tíu stranga.

Meðan þetta gerðist, kom Schemseddín niður í stofuna og spurði eptir syni sínum, var honum sagt að hann væri riðinn á brott og flýtti hann sjer þá heim á eptir honum. Sjer hann þar varningsstrangana og spyr konu sína, hvernig á þeim standi; sagð i

hún honum þá allt einsog var. Vjek Schemseddín sjer þá að Alaeddín og leiddi honum fyrir sjónir, hvílíkar hættur og þrautir væru langferðum samfara, og það hefðu vitrir menn sagt, að sá gerði hyggilegast, sem aldrei færi svo mikið sem míluveg frá heimili sínu. En Alaeddín sat fast við sinn keip, og kvaðst skyldu verða förumunkur og komast fram á bónbjörgum, ef sjer ekki yrði leyft að ferðast. „Eg skal þá ekki lengur andæfa móti þjer, sonur!“ mælti Schemseddín, „með því eg líka get gert þig svo úr garði, að þú hafir gagn og gleði af ferðinni, sem mest má verða.“ Því næst gekk hann með Alaeddín til geymslubúra sinna og sýndi honum hinar dýrustu vefnaðartegundir, og vörur þær, er einkennilegastar voru fyrir hvert land. Valdi hann út fjörutíu stranga handa Alaeddín, og var hver um sig fjörutíu gullpeninga virði. „Eigðu stranga þessa,“ mælti Schemseddín, „og þar að auki hina tíu, er móðir þín gaf þjer. Far nú vel og heill, og guð veri með þjer. Vegurinn til Bagdad liggur um Ljónaskóginn og dal þann er Benú Kalab heitir, og er hvorttveggi staðurinn ískyggilegur vegna Bedúína.“ Alaeddín kvaðst fela sig handleiðslu drottins með óbilugu trausti, og ansaði því ekki frekar. Fór nú Schemseddín með honum út á torgið til að kaupa eyki. Þar hittu þeir flutningamann nokkurn, hann hjet Kemaleddín og heilsaði hann Schemseddín, því þeir voru gamalkunnugir. Kaupmaður sagði honum af áformi sonar síns og kvað sjer skyldu þykja vænt um, ef hann vildi fylgja honum og vera honum í föður stað. Flutningamaðurinn var þess allfús, og gaf Schemseddín honum þá hundrað gullpeninga til útbýtingar meðal þræla hans; áminnti hann Alaeddín að vera hlýðinn og auðsveipur flutningamanninum. Þegar kaupmaður var kominn heim aptur, þá gerði hann stórveizlu og sátu menn allt kvöldið við gleði og glaum. Morguninn eptir gaf hann Alaeddín tíu þúsundir gullpeninga, ef svo skyldi fara, að hann ekki gæti undireins selt vörur sínar við aðgengilegu verði. Lagði nú Alaeddín á stað frá Kairó ásamt flutningamanninum. Farnaðist þeim vel um eyðimörkina og náðu farsællega til Damaskus, þaðan fóru þeir til Aleppó og hjeldu síðan áfram ferðinni og bar ekki til tíðinda, unz þeir voru svo sem þingmannaleið svaraði frá Bagdad. Komu þeir í dalverpi nokkurt og vildi Alaeddín slá tjöldum. En flutningamaðurinn mælti

21*

fastlega í móti og kvað þeim meiri þörf að hraða förinni, svo þeir gætu náð til Bagdad fyrir sólsetur, því þá yrði borghliðum lokað og ekki lokið upp fyr enn með sólaruppkomu; en það bar til þeirrar siðvenju, að menn voru hræddir um, að Persar*) kynnu að ráða á borgina og fleygja öllum fræðibókum í Tígrisfljótið. Alaeddín kvaðst ekki eingöngu vera kominn til að verzla, því sjer væri líka hugur á að skemmta sjer og skoða löndin. Flutningamaðurinn leiddi honum fyrir sjónir, hvílíkur háski þeim væri búinn af Bedúínum, sem væru hinir verstu ránsmenn. Þá mælti Alaeddín: „Hver hefur hjer ráðin, þjer eða eg? Eg vil ekki ríða inn í Bagdad nema um hábjartan dag, svo að borgarmenn sjái varning minn og auðæfi.“ Sá þá Kemaleddín, flutningamaðurinn, að ekki var til neins að mótmæla Alaeddín. „Breytið þá eptir hugþótta yðar,“ mælti hann, „eg hef gert skyldu mína, en það uggir mig, að þjer munið komast að raun um, að eg rjeði yður heilt, þó um seinan verði.“ Bauð nú Alaeddín að menn skyldu taka ofanaf múlunum og slá tjöldum. Um miðnætti gekk hann út fyrir tjald sitt og litaðist um; sá hann að eitthvað blikaði við langt í burtu. Ljet hann Kemaleddín vita þegar í stað, og fór hann þá á fætur og sá að blikið stóð af kesjum og sverðum Bedúínaflokks, er að þeim stefndi. Leið á skömmu að ræningjarnir komu; æptu þeir og sögðu: „Heilar hendur! hjer ber vel í veiði!“ slóu síðan hring um ferðamennina og sóktu að þeim í ákafa. En Kemaleddín kallaði til þeirra: „Snáfið burtu ránsmenn og níðingar! skömm og svívirðing Araba þjóðar;“ að svo mæltu steðjaði hann fram á móti þeim, en ránsmanna foringinn lagði hann í gegn með kesju sinni, steyptist þá Kemaleddín dauður niður í tjalddyrunum. Þá óð fram maður sá, er hafði það starf að brynna eykjunum, og ögraði ræningjunum með líkum skapraunarorðum og Kemaleddín, enda var hann óðara drepinn. Varð Alaeddín skelfdur mjög, er hann sá aðfarir þessar, og sat hann grafkyr í tjaldi sínu útí horni; auðnaðist honum svo að sleppa undan grimmdaræði ræningjanna. Bedúínar brytjuðu alla menn hans niður vægðarlaust, klyfjuðu aptur múlana sem fljótast, knýttu þeim hverjum í tagl annars og fóru svo leiðar sinnar.

*) Persar hafa að vísu Islamstrú, en heyra til öðrum trúarflokki enn Arabar.

En er Alaeddín var kominn til sjálfs síns aptur, þá hugsaði hann með sjer, að ræningjarnir kynnu að koma aptur, og mundi ekki tjá griða að biðja, ef þeir sæju hann. Fór hann þá af öllum klæðum, nema skyrtu og nærbrókum, og fleygði sjer niður innan um alblóðug líkin. En er Bedúínar sneru burt með herfang sitt, þá spurði fyrirliðinn, hvort ferðamennirnir, sem þeir ræntu, hefðu komið frá Egyptalandi eða Bagdad; honum var sagt, að þeir hefðu komið frá Egyptalandi, bauð hann þá ræningjunum að hverfa um hæl aptur, því hann grunaði að lestareigandinn mundi ekki hafa verið drepinn. Bedúínar sneru þegar við; tóku þeir að bylta líkunum og stanga þau með spjótum sínum. Þegar þeir komu að Alaeddín, sá einn þeirra, að hann var enn á lífi; kallaði hann þá og sagði: „Bíddu karl! þú hefur látizt vera dauður; en eg skal nú bisa þjer.“ Ætlaði hann þá að leggja kesjunni fyrir brjóst honum. En Alaeddín var nýbúinn að þylja andheita bæn til hins helga Abdalkaders Algilani, og sá hann hönd nokkra sveigja kesju ræningjans frá brjósti sínu, svo að lagið kom í brjóst Kemaleddín dauðum. Kippti þá ræninginn aptur kesju sinni og lagði til Alaeddíns, en þá kom sama höndin og stýrði laginu í brjóstið á öðru líki, og reið ræninginn við svo búið burt með fjelögum sínum.

En er Alaeddín hjelt að Bedúínar væru farnir, þá spratt hann upp og hljóp, einsog fætur toguðu. Þá varð ræningja foringjanum litið um öxl og sagði: „Fjelagar góðir! þarna sje eg mann flýja.“ Þá þeysti einn af ræningjunum eptir Alaeddín á harða spretti. Nú bar Alaeddín að vatnsdæld einni; var þar regnþró rjett hjá og klifraðist Alaeddín uppá þróarbarminn, lagðist þar flatur og bað guð að gera sig öllum mönnum ósýnilegan. Nú kom ræninginn að, reis upp í söðlinum og ætlaði að leggja hendur á hann. Þá bað Alaeddín í annað sinn, og í sama vetfangi skreið sporðdreki út úr fylgsni sínu og stakk ræningjann svo sárt í höndina, að hann hljóðaði upp yfir sig og kallaði til lagsmanna sinna, að hann væri frá. Komu þá hinir ræningjarnir með þys miklum og fundu hann liggjanda á jörðinni, hófu þeir hann upp á hest sinn og spurðu, hvað hefði viljað honum til. En er þeir heyrðu, að sporðdreki hafði stungið hann, þá urðu þeir hræddir um, að hjer mundi vera krökkt af sporðdrekum, hugsuðu þá ekki um annað enn að flýja.

og voru þegar horfnir úr augsýn, ásamt hinum flokknum. Var Alaeddín þá svo yfirkominn af þreytu, að hann sofnaði fastasvefni uppi á þróarveggnum. En er hann vaknaði að nokkrum tíma liðnum, þá fór hann leiðar sinnar til Bagdad, og með því kvöld var komið, þá gekk hann inn í anddyri musteris nokkurs og ætlaði sjer að láta þar fyrirberast um nóttina. þá sjer hann þangað koma tvo kaupmenn og voru tvö skriðljós borin á undan þeim. Annar þeirra var hniginn á efra aldur og virðulegur ásýndum, en hinn var á æskuskeiði. „Gef mjer aptur frændstúlku mína,“ sagði yngismaðurinn. „Eg er búinn að margsegja þjer,“ ansaði gamalmennið, „að það getur ekki komið til mála; hefurðu ekki sjálfur kveðið upp skilnaðardóminn.“ Nú kemur karlinn auga á Alaeddín; verður hann frá sjer numinn af fegurð hans og háttprýði, og heilsar honum með blíðu. Alaeddín tók kveðju hans kurteislega. Spurði karlinn. hvað manna hann væri. þá tók Alaeddín til orða og mælti: „Nafn mitt er Alaeddín Abusch Schamat, og er eg sonur Schemseddíns, forstjóra verzlunarmannanna í Kairó; fór eg þaðan með fimmtíu stranga af hinum dýrasta vefnaði og ymsan annan varning, auk tíu þúsund gullpeninga; ætlaði eg hingað að fara, en Bedúínar nokkrir rjeðust á lest mína og ræntu mig aleigu minni. Átti eg mjer engan næturstað vísan, og því kom eg hingað og leitaði skjóls í musterisanddyri þessu.“ Karlinn þagði stundarkorn og mælti: „En segið mjer nú, ef eg gæfi yður fullkominn fatnað, sem væri þúsund gullpeninga virði, múl sem ekki væri minna virði og sjóð með jafnmiklu fje, hvernig ætli yður yrði það að skapi?“ „Slíkt er stórmannlega boðið,“ mælti Alaeddín „en hver er tilgangurinn?“ „Yngismaður þessi,“ ansaði karlinn, og benti um leið á unga manninn, „er bróðurson minn og var hann eptirlætisgoð föður síns. Eg á dóttur, er Sobeide heitir, og hef eg eigi minni ást á henni; hún er kvenna fríðust, og þartil hið mesta afbragð í hljóðfæralist. Eg hef margsagt honum, að það sje ógjörningur, nema annar maður gangi fyrst að eiga hana og láti hana svo eina. Nú er eg að leita fyrir mjer, hvort eg geti ekki fundið einhvern útlending, sem vildi gera honum þenna greiða, svo menn fái sjer þetta síður til umræðu; þjer eruð útlendingur, komið með mjer til dómarans og skuluð þjer þar semja kaupmála við

dóttur mína. Skuluð þjer vera hjá henni í nótt, og snemma í fyrra málið þegar þjer eruð skilinn við hana, skal eg efna við yður öll heit mín.“ Alaeddín hugsaði með sjer, að betra væri að liggja í mjúkri sæng heldur enn á borgarstrætunum eða í anddyrinu. Varð hann því samferða hinum til dómarans. Fannst dómaranum mikið um prúðmennsku Alaeddíns og ljek á als oddi við hann. „Hvað er yður á höndum?“ spyr hann karlinn. „Eg ætla,“ svaraði hann, „að gipta þessum unga manni dóttur mína, en ekki samt nema með því skilyrði, að hann skilji við hana í býtið á morgun og gefi hana aptur fyrra manni sínum. Fyrir þá sök skal hann skuldbinda sig til að greiða dóttur minni á morgun fimmtíu þúsundir gullpeninga. En það er ekki vinnandi vegur fyrir hann, og því mun hann standa við orð sín, og þá skylda eg mig til að gefa honum fullkominn fatnað, þúsund gullpeninga virði, múl sem ekki sje minna virði og sjóð með jafnmiklu fje.“ Og er enginn mælti þessu í móti, þá samdi dómarinn kaupmálann og fjekk föður konunnar skuldbindingarskrá Alaeddíns. Karlinn ljet nú nýja tengdasoninn fara heim með sjer og gaf honum skrautlega skikkju; fór hann síðan til dóttur sinnar og sagði henni hvað gerzt hafði. Hann sýndi henni skuldbindingarskrána og kvaðst hafa gipt hana ungum manni og elskuverðum, er Alaeddín hjeti. Biður hann dóttur sína að fagna honum vel og gengur því næst til herbergis síns. En á meðan hafði frændi Sobeide lagt svo undir við kerlingu nokkra, að hún skyldi koma í veg fyrir, að Alaeddín fengi góðar viðtökur, því hann var hræddur um, að Sobeide mundi ekki vilja þýðast sig framar. Fór kerling þegar til Alaeddíns og mælti: „Mjer er einhvernveginn svo vel við yður sakir æsku yðar og fríðleika, og finn eg mjer því skylt að leggja yður heilræði. Konan unga, sem þjer hafið gengið að eiga, er að vísu girnileg eptir ytri ásýnd, en farið samt að mínum ráðum og komið ekki ofnærri henni. Heilsa yðar er í veði, ef þjer eigið nokkuð við hana.“ „Hvað ber til þess?“ spurði Alaeddín. Þá mælti kerling: „Allur líkami hennar er útsteyptur í andstyggðar kláða; mun hún eflaust gera yður veikan, ef þjer snertið við henni, hvað lítið sem er.“ „Því megið þjer treysta,“ svaraði Alaeddín, „að eg skal halda mjer svo langt frá henni, að mjer ekki sje nein hætta búin.“ Því næst

fór kerling til konunnar ungu og sagði henni slíkt hið sama af Alaeddín. „Vertu óhrædd, móðir góð!“ sagði Sobeide, „eg skal hlýðnast ráðleggingu þinni. það er bezt hann sofi einn, þessi þokkapiltur; hann skal fara frá mjer einsog hann kom.“ Nú lætur Sobeide ambátt eina breiða dúk á borð og setja á það mat. Borðaði Alaeddín einn, og að lokinni máltíðinni settist hann út í horn og las einn kapítula í kóraninum með hárri rödd. Tók Sobeide þegar eptir því, að rödd hans var hin fegursta. Sagði hún þá við sjálfa sig: „Kerling hefur víst látið villa sjer sjónir; kláðugir menn geta ekki haft svo hreina og bragðlega rödd, mun því engin tilhæfa vera í því, er hún sagði mjer af honum.“ Nú vildi hún laða hann að sjer og tók því í hönd sjer fiðlu eina, er smíðuð hafði verið á Indlandi, ljek hún á hana og söng með hljóðfagri rödd, svo fuglar himinsins stöðvuðu flug sitt til að hlýða á hana:

Fráan elska eg hjört, sem hýr
Hvarflar augum blíðum,
Ýmist eltir eða flýr,
Útí lundum fríðum.
Festi eg hendur honum á,
Hversu farsæl væri eg þá!

þá varð Alaeddín óumræðilega feginn og söng:

Ó, hvað elska eg og blessa
Unaðsfagra sköpun þessa,
Ó, hvað má eg mætra finna
Morgunrósum hlýra þinna.

Brá yngiskonunni svo vel við fagurmæli þessi, að hún tók af sjer höfuðdúkinn og sá þá Alaeddín, að hún var hin fegursta að andlitskapnaði og prýðilega vaxin, og fannst honum mikið um. Færði hún sig þá að honum, en hann bægði henni hóglega frá sjer. þá ljet hún hann sjá handleggi sína, og voru þeir hvítir sem snjór og skínandi bjartir einsog fílabein. Varð þá Alaeddín frá sjer numinn og fór að færa sig að Sobeide, en hún bað hann að halda sjer sem lengst í burtu, því hann væri kláðugur. Spurði hann, hver það væri, sem hefði talið henni trú um slíka markleysu.

Hún svaraði: „það gerði kerling ein, sem opt kemur hingað —.“ „Æ, það er líklega sú, sem sagði mjer að þjer væruð þjáðar af sama kvillanum.“ — Skildu þau bæði, að þetta hafði verið gert til að blekkja þau, og voru nú ekki hrædd við að sýna hvert öðru blíðlæti, sem mest mátti verða. Nú vaknar Alaeddín um morguninn og sjer að sæla hans er þegar horfin sem örskot; segir við Sobeide, að nú verði þau að skilja og ber sig aumlega út af því. „Nú er ekki eptir nema ofurlítil stund,“ sagði hann grátandi, „og verð eg þaðan af að sakna samvista yðar.“ Spurði hún, hvernig á því stæði og sagði hann þá: „Faðir yðar hefur látið mig lofa því skriflega, að eg skuli greiða yður fimmtíu þúsundir gullpeninga einsog morgungjöf. Borgi eg ekki fje þetta, þá lætur hann setja mig í dýflissu. en svo er hagur minn nú, að eg á ekki einn skilding.“ „En þjer getið samt komið vörn fyrir yður,“ mælti Sobeide. „Satt er það,“ ansaði Alaeddín, „en hvernig á eg að geta það án peninga?“ „það er ekki svo erfitt sem þjer haldið,“ sagði Sobeide; „verið óhræddur og takið við þessum hundrað gullpeningum; ætti eg meira til, þá væri yður það guðvelkomið, en faðir minn hefur tekið frá mjer allar eigur mínar. og ætlar svo að kúga mig til að taka aptur saman við frænda minn. Megið þjer nú vænta dómþjónsins á hverri stundinni. En skyldi faðir minn eða dómarinn vilja neyða yður til að skilja við mig, þá skuluð þjer spyrja þá djarfmannlega, hvaða lög það sjeu, sem skyldi mann til að skilja við konu sína næsta morguninn eptir brúðkaupið. Verðið þjer um leið að víkja lítilræði að dómaranum og dómþjóninum. Gangið að dómaranum með lotningu og laumið tíu gullpeningum í lófa hans, megið þjer þá reiða yður upp á, að hann mun gera sjer allt far um að styrkja mál yðar. Nú ef menn spyrja yður, hversvegna þjer ekki viljið þiggja þessa þúsund gullpeninga, múlasnann og skikkjuna, einsog tiltekið var í samningnum, sem þjer genguð að í gærdag, þá skuluð þjer svara því, að hvert hár á höfði konu yðar sje yður dýrmætara enn þúsund gullpeningar, munið þjer því aldrei við hana skilja og viljið hvorki hafa múlinn nje skikkjuna. En krefjist faðir minn þess, að þjer greiðið morgungjöfina af hendi, þá skuluð þjer biðja um frest.“ Í sama bili heyrðu þau að barið var hart á strætis dyrnar. Fór Alaeddín ofan til dyra að ljúka upp og sá dómþjóninn;

var hann kominn í nafni tengdaföður hans og stefndi honum fyrir dóm. Alaeddín stakk fimm gullpeningum í lófa honum og spurði, hvaða lagaboð það væri, sem skyldaði sig til að skilja nú að morgni við konu þá, er hann hefði gengið að eiga kvöldinu áður. Dómþjónninn svaraði, að það stæði hvergi í lögum, og bauðst til að flytja mál hans, ef hann ekki treysti sjer til þess sjálfur. Fóru þeir nú báðir til dómhússins. Dómarinn krafðist þess, að Alaeddín greiddi morgungjöfina af hendi, fyrst hann færðist undan að skilja við konu sína. Alaeddín varð nú ekki uppnæmur við það, og heimtaði frest þann, er heimill væri að lögum; sagði dómarinn að þrír dagar væri lengsti frestur eptir lögum. „Þrír dagar nægja mjer ekki,“ mælti Alaeddín, „og krefst eg þess, að mjer sje veittur sjö daga frestur.“ Og með því krafa þessi var sanngjörn, þá var honum veitt hún með því skilyrði, að þegar fresturinn væri á enda. þá skyldi hann annaðhvort greiða morgungjöfina eða skilja við konuna. Gekk Alaeddín að skilyrði þessu og fór því næst út úr dómhúsinu; keypti hann sjer kjöt, hrísgrjón og smjör og annað fleira, er hann þurfti með til kvöldverðar. Fór hann síðan heim og sagði konu sinni hvernig farið hafði. Sagði hún honum, að margt undarlegt gæti við borið frá kvöldi til morguns, og því til staðfestingar tilfærði hún spakmæli vitrings nokkurs, er þannig hafði komizt að orði: „Vertu þolinmóður í mótlætinu, því nóttin fæðir af sjer óvænta atburði og allskonar undur.“ Eptir bað bjó hún til matar og drykkjar, og er þau höfðu matazt, þá beiddi Alaeddín hana að leika á fiðlu sína og syngja um leið vísur nokkrar. Sobeide var ekki sein til að verða við beiðni hans; hún tók fiðluna og náði svo sætu hljóði úr strengjum hennar, að enda veggirnir í herberginu virtust hlusta á hina himnesku hljóma þeirra.

Þá var allt í einu barið hart á dyrnar. Alaeddín lýkur upp og sjer að komnir eru fjórir förumunkar; voru þeir næsta hljúgir og biðjandalegir í yfirbragði. Spurði Alaeddín, hvað þeim væri á höndum og svaraði þá einn þeirra: „Við erum ókunnugir förumunkar, herra góður! og vildum fegnir fá að vera hjá yður í nótt. Munum við fara leiðar okkar aptur jafnskjótt sem lýsa tekur af degi. Ef þjer látið að bæn vorri, þá mun drottinn umbuna yður ríkuglega með blessun sinni. Við höfum

hinar mestu mætur á söng og strengleikum, og getum við hver um sig, þulið upp úr okkur öll hin frægustu kvæði og skáldmæli.“ „Eg verð nú fyrst að ráðgast um þetta við aðra,“ ansaði Alaeddín og fór inn til Sobeide; sagði hún að þeir væru fyrir sitt leyti velkomnir. Nú leiddi Alaeddín þá inn í hús sitt og var hinn alltilegasti við þá. Tók þá einn af þeim til máls: „Herra! við erum nú þeirrar stjettar menn, að ekki hlýðir, að við tökum þátt í skemmtunum þeim, er tíðkast í samsætum manna; en samt viljum við með engu móti gera gleðispjöll hjá yður. Þegar við gengum fram hjá húsi yðar, þá heyrðum við inndælan hljóðfæraslátt, en hann fjell allt í einu niður þegar við komum. Megum við nú vera svo djarfir og spyrja: var það hvít eða svört ambátt, eða var það yngiskona í heldri stjett, sem ljek og söng?“ „Það var kona mín,“ ansaði Alaeddín; sagði hann þeim því næst frá æfintýri sínu, og að tengdafaðir sinn hefði frá sjer skriflegt skírteini fyrir því, að honum bæri að greiða fimmtíu þúsundir gullpeninga; vissi hann nú engin sköpuð ráð til að æra út svo afarmikið fje. „Verið óhræddur,“ sagði einn af munkunum, „eg er yfirmaður þrjátíu munka og hef allt ráð þeirra í hendi mjer, mun mjer veita hægt að láta þá útvega þessar fimmtíu þúsundir gullpeninga, sem yður liggur svo mikið á. En ef þjer nú vilduð gera bón vora og lofa okkur að heyra söngrödd hinnar ungu konu, þá munduð þjer veita oss hina mestu skemmtun, því mörgum þykir fagur söngur betri enn hin dýrðlegasta veizla, og sumum þykir hann öllum hlutum fremri.“

En nú er þess að geta, að hinir fjórir munkar voru þeir kalífinn Harún Alraschid, stórvezírinn Gíafar, skáldið Móhamed Abú Navas og Mesrúr, höfuðsmaður geldinganna. Hafði kalífinn sent eptir þessum þremur mönnum, er hann ætlaði að ganga í dularbúningi um borgarstrætin sjer til skemmtunar; höfðu þeir allir búizt gerfi ölmusumunka, svo sem fyr er frá sagt. Nú er þeim varð gengið fram hjá húsi Alaeddíns, þá höfðu þeir heyrt Sobeide syngja. Hafði kalífinn orðið frá sjer numinn af raddfegurð hennar og snild, er hún ljek á hljóðfærið, forvitnaði hann því að hlýða á sönginn í betra tómi og sjá hver kona sú væri, sem kunni svo afbragðs vel til hljóðfæralistar. Veittist honum nú ósk þessi og voru þeir þar allir um nóttina

og höfðu góða skemmtun. Um morguninn laumaði kalífinn sjóð með hundrað gullpeningum undir hægindi sitt; því næst þökkuðu þeir allir fyrir viðtökurnar, kvöddu hjónin með virktum og fóru leiðar sinnar. Fann Sobeide sjóðinn og færði manni sínum, kvaðst hún halda, að það hefði verið einhver af munkunum, sem hefði falið hann undir hægindinu. Alaeddín tók við sjóðnum, og um kvöldið keypti hann sjer kjöt, hrísgrjón og aðrar nauðsynjar. Og er búið var að kveikja á vaxkertunum, þá sagði hann við konu sína, að hann hjeldi, að munkarnir hefðu svikið sig, og mundu þeir ekki færa sjer hinar fimmtíu þúsundir gullpeninga. Í sama bili komnu munkarnir og börðu á dyr. Sobeide bað Alaeddín að ljúka upp, og bauð hann munkunum inn, og spurði þá, hvort þeir væru komnir til þess að binda enda á loforð sitt. Þá sögðu munkarnir: „Bræður vorir hafa ekki viljað verða við beiðni vorri, en á morgun ætlum við að búa til gullið með blöndunargaldri. En gleðjið okkur nú aptur í kvöld með því að lofa okkur að heyra konu yðar syngja; við höfðum svo mikið yndi af því í gær kveldi, að okkur sárlangar til að mega njóta sömu skemmtunar í kvöld.“ Sobeide ljet fúslega að orðum þeirra og tók ofan fiðlu sína; fanust þeim nú engu minna um snild hennar enn í fyrra skiptið, og skemmtu sjer eins vel þessa nóttina og hina fyrri. Um morguninn laumaði kalífinn aptur sjóði með hundrað gullpeningum undir hægindi sitt og gekk síðan heim aptur til hallar sinnar. Liðu svo nokkur kvöld, að munkarnir komu með sama hætti, og ávallt er þeir fóru, faldi kalífinn sjóð með hundrað gullpeningum undir hægindi sínu. En á hinum tíunda degi sendi kalífinn eptir einhverjum hinum frægasta kaupmanni í Bagdad og skipaði honum að koma með fimmtiu stranga af hinum dýrasta rósavefnaði og þesskonar varningi, sem vanalega kæmi frá Egyptalandi; skyldi hann skrifa utan á hvern stranga, að hann kostaði þúsund gullpeninga. Síðan ljet hann fá einum af þrælum sínum skartmikinn klæðnað, og þartil vatnskönnu og mundlaug af gulli, fjekk honum sjálfur brjef í hendur til Alaeddíns og skipaði honum að fara með strangana til forstjóra verzlunarmannanna; en hann var tengdafaðir Alaeddíns. „Þegar þú ert búinn að finna hús hans,“ mælti kalífinn, „þá skaltu spyrja, hvar Alaeddín, lánardrottinn þinn búi.“ Lagði

hann svo niður fyrir þrælnum, hvað hann ætti að segja og hvernig hann bezt gæti leyst erindi sitt af hendi. Nú vildi svo til, að sama daginn hafði frændi Sobeide farið til föður hennar og skorað á hann að hjálpa sjer, svo hann gæti kúgað Alaeddín til að skilja við hana. En er þeir ætluðu á stað til hans, þá sáu þeir þræl nokkurn ríðandi múlasna og hafði fimmtíu aðra í taumi, sem allir voru klyfjaðir varnings ströngum; var auðsætt að það mundi vera hin ágætasta og dýrgildasta vara. Spurðu þeir hver strangana ætti og svaraði þrællinn: „Alaeddín Abusch Schamat húsbóndi minn á þá; faðir hans hafði sent hann með vörur til Bagdad, en á leiðinni rjeðust ræningjar á hann og ræntu hann aleigu sinni. Þegar faðir hans spurði þessi illu tíðindi, þá sendi hann mig til hans með þessa fimmtíu múlasna og bauð mjer að afhenda honum fimmtíu þúsundir gullpeninga, og böggul einn með allskonar fatnaði, fullt eins skrautlegum og sá var, sem hann missti; eg á líka að færa honum safalafeld og mundlaug með vatnskönnu úr gulli.“ Nú rak föður Sobeide í rogastanz, er hann heyrði um öll þessi auðæfi; bauðst hann til að fylgja þrælnum til Alaeddíns og kvaðst vera tengdafaðir hans. Alaeddín sat þá heima hjá konu sinni og sinnti engu fyrir hryggð og örvæntingu. Nú heyrir hann háreysti fyrir dyrum úti og kallar: „Sobeide! elskan mín góða! nú eru víst dómþjónarnir komnir, og hefur faðir þinn sent þá til þess að svipta þjer burt úr faðmi mínum.“ „Farðu út,“ mælti Sobeide, „og sjáðu hvaða menn þetta eru.“ Fór Alaeddín seinlega til dyra og lauk upp með ólund; þykir honum kynlegt að tengdafaðir hans er þar kominn gangandi með abyssínskum þræl, og þrællinn ríðandi. Í sama vetfangi stökk þrællinn af baki og ætlaði að kyssa á hönd hans. „Hvað vilt þú mjer?“ spurði Alaeddín. Þrællinn svarar: „Eg er auðmjúkur þræll drottins míns, Alaeddíns Abusch Schamat, og sendur hingað af Schemseddín föður hans, sem er forstöðumaður kaupstjettarinnar í Kairó. Hjerna er brjefið, sem á að sanna sögu mína.“ Að svo mæltu fjekk hann Alaeddín brjefið, en hann reif það upp og las það sem fljótast. Brjefið var svo látandi: „Elskulegi sonur! Rjett í þessu voru mjer borin þau sorgar tíðindi, að ræningjar hafi ráðizt á þig og rænt þig aleigu þinni. En vertu samt hughraustur; eg sendi þjer aðra fimmtíu stranga af dýrasta rósavefnaði, einn múlasna og

safalafeld, ennfremur mundlaug og vatnskönnu, hvorttveggja af gulli. Útrýmdu nú öllum áhyggjum úr huga þínum, því eigurnar, sem þú misstir eru einskisvirði, ef þú verður hygginn af skaða þínum. Móður þinni líður vel og öllum hjer á heimilinu, og á eg að bera þjer kæra kveðju þeirra allra. Eg er líka orðinn þess vísari, að þú hefur gengið að eiga unga konu, Sobeide að nafni, sem kvað vera hið mesta fyrirtak til söngs og hljóðfæralistar, en hún var þjer gefin með því skilyrði, að þú skildir við hana aptur, og varstu látinn skuldbinda þig til þess skriflega, að þú skyldir greiða henni fimmtíu þúsundir gullpeninga í morgungjöf. Sendi eg þjer nú fje þetta með Selim, þræl þínum, sem er þjer hollur og trúr.“ Og er Alaeddín var búinn að lesa brjefið, þá sagði hann við tengdaföður sinn: „Takið við þessum fimmtíu þúsund gullpeningum, sem áskildir voru í morgungjöf handa Sobeide; varningsstrangana skuluð þjer selja yður í hag og ekki borga mjer meira enn þeir eru virtir; hitt, sem umfram verður, megið þjer sjálfir eiga.“ En faðir Sobeide vildi ekki hagnýta sjer drenglyndi Alaeddíns. Eg get ekki þegið boð yðar,“ mælti hann, „þó gott sje; morgungjöfina á dóttir mín og megið þið gera við hana hvað ykkur gott þykir. Þeir Alaeddín og tengdafaðir hans ljetu nú bera inn strangana og spurði Sobeide föður sinn, hver þá ætti. „Alaeddín bóndi þinn á þá,“ svaraði hann; „hefur faðir hans sent honum þá til að bæta honum skaða þann, er hann varð fyrir af ræningjunum. Hann hefur og sent honum fimmtíu þúsundir gullpeninga auk annara góðgripa. Megið þið nú fara með þetta einsog ykkur bezt líkar, og það er til þín kemur, þá ber þjer fullkomið forræði fjár þess, er þú fjekkst í morgungjöf.“ Afhenti Alaeddín konu sinni hina fimmtíu þúsund gullpeninga. En frændi hennar var sem steini lostinn af undrun út úr öllu þessu, og með því honum þókti sem öll von væri úti, þá spurði hann föðurbróður sinn, hvort hann væri þá orðinn alveg afhuga því, að kúga Alaeddín til að skilja við konu sína. „Það tekur engu tali hjeðan af,“ ansaði karlinn, „Alaeddín hefur fullnægt öllum skyldum sínum, svo að lögin hljóta að dæma honum í vil.“ Gekk þá frændi Sobeide á brott með örvæntingarfullu hjarta, og dó hann skömmu síðar af skapraun.

Nú sagði Alaeddín við Sobeide: „Mundi eg nokkuð hafa getið

skakkt til? Munkarnir eru falsarar og hafa lofað öllu útí bláinn; sjer þú nú hvað vel þeir hafa ent orð sín." Ekki máttu gera þeim getsakir," mælti Sobeide; „þú ert þess manns sonur, sem stendur fyrir allri verzlunarstjettinni í Kairó, og þó varstu svo snauður í gær, að þú áttir ekki einn skilding. Má þá nærri geta, að það er enginn hægðarleikur fyrir þessa bláfátæku munka, að útvega fimmtíu þúsundir gullpeninga." „Hvað sem því líður," ansaði Alaeddín, „þá þakka eg guði fyrir, að við erum ekki framar uppá þá komin; verði þeir svo djarfir að koma aptur, þá vísa eg þeim burt og skelli aptur hurðinni uppí opið geðið á þeim." „Því þá?" segir Sobeide, „eg er fyrir mitt leyti sannfærð um, að þeir hafa verið okkur til heilla; manstu ekki, að þeir skildu eptir hundrað gullpeninga á hverju kvöldi?" Þegar búið var að kveikja um kvöldið, þá beiddi Alaeddín konu sína að leika á fiðluna og syngja eitt af kvæðum þeim, er þau höfðu mestar mætur á. En rjett sem Sobeide var byrjuð að leika og syngja, þá var barið hart á dyrnar. Lauk Alaeddín upp og sá munkana, kallaði hann þá hlægjandi: „Heilir og sælir oflátungar mínir, gerið svo vel og færið ykkur nær." Munkarnir gengu inn og settust niður; ljet Alaeddín þegar bera kvöldverð á borð fyrir þá. Tók þá einn þeirra svo til orða: „Herra góður! okkur var reyndar lífs ómögulegt að koma því til vegar, sem okkur var mest um hugað, en allt fyrir það tökum við innilega hlutdeild í öllu sem yður snertir; í öllum bænum, segið okkur nú, hvernig yður hefur veitt í viðskiptunum við tengdaföður yðar." Alaeddín svarar: „Guð hefur úthellt yfir okkur meiri náð enn við nokkurntíma gátum vonast eptir." „Það gleður oss af hjarta," segir munkurinn, „því satt að segja vorum við hugsjúkir yðar vegna; og því megið þjer trúa, að við mundum fegnir hafa útvegað yður peningana, ef við hefðum með nokkru móti getað." Þá mælti Alaeddín: „Guð hefur hjálpað mjer úr vandræðum mínum. Faðir minn hefur sent mjer fimmtíu þúsundir gullpeninga, fimmtíu stranga af dýrindis rósavefnaði, og er hver um sig þúsund gullpeninga virði; fylgdu og þarmeð ýmsir kostgripir. Hef eg nú sættzt heilum sáttum við tengdaföður minn, en eitt er þó sem lyptir sælu minni á hæzta stig, og það er, að mjer auðnast að njóta elskulegrar konu, sem ann mjer hugástum. Sjáið þið nú af þessu að guð yfirgaf

mig ekki, þótt eg væri nauðuglega staddur.“ Nú kvaðst kalífinn þurfa að bregða sjer út stundarkorn, og er hann var farinn, þá laut vezírinn Gíafar að Alaeddín og bauð honum varnað á, að segja nokkuð það, er særa mætti gesti hans, en einkum yrði hann að gæta mikillar varúðar við þann, sem út var farinn. Spurði Alaeddín hvernig á því stæði og bætti við: „Eg sje ekki betur enn að eg hafi sýnt svo mikla alúð og kurteisi, að ekki gæti orðið ætlazt til meira, þó sjálfur kalífinn hefði verið gestur í húsum mínum.“ „Það var líka sjálfur kalífinn, sem núna gekk út,“ mælti Gíafar. „Eg er Gíafar vezír, þessi þarna er skáldið Móhamed Abú Navas og hinn þriðji er Mesrúr, höfuðsmaður geldinganna.“ Alaeddín var nú forviða á æfintýri þessu og vissi ekki hvað hann ætti að halda. „Heyrið mjer, Alaeddín!“ mælti vezírinn, „hugsið eptir því allra snöggvast, hvað margar dagleiðir eru frá Kairó til Bagdad?“ Alaeddín svarar, að það sjeu fjörutíu dagleiðir. „Hvernig haldið þjer þá,“ spurði Gíafar, „að vörur yðar hafi orðið fluttar alla þessa leið á tíu dögum? Hvernig getur það átt sjer stað, að faðir yðar hafi frjett af óförum yðar, búið um varninginn og látið flytja hann til yðar, og ekki þurft til þess meira enn tíu daga.“ „Þjer hafið rjett að mæla,“ ansaði Alaeddín, „mikið flón var eg, að eg skyldi ekki sjá þetta! En eg er nú sem stendur svo ringlaður, að eg skil ekkert, hvernig á þessu stendur.“ „Allt þetta,“ mælti Gíafar, „hefur verið gert eptir skipun kalífans. Það er sjálfur drottinn rjetttrúaðra manna, sem hefur sent þjer allar þessar gjafir; svo mikla vináttu hefur hann lagt við þig.“ Í sömu andránni kom kalífinn inn, og fleygði Alaeddín sjer þá fram fyrir fætur honum og vottaði honum þakklátsemi sína. „Guð lengi lífdaga yðar hátignar,“ mælti hann, „hann veiti yður ótalfalda blessun fyrir stórmennsku þá, er þjer hafið sýnt mjer, auðmjúkum þjón yðar.“ Kalífinn skipaði Alaeddín að standa upp aptur og bað hann að lofa sjer að heyra Sobeide syngja enn þá einusinni; kvaðst hann ekki ætlast til annara launa fyrir velgjörðir sínar þeim til handa. Var það hvorttveggja að Sobeide var vel beðin, enda lá hún ekki á liði sínu, og söng hún svo ununarlega sætt og fagurt, að kalífinn gat aldrei orðið fullsaddur á að hlýða á hana. Og er hann skildi við Alaeddín, þá bauð hann honum að koma í ríkisráðið næsta dag. Fór Alaeddín þangað morguninn eptir og

hafði með sjer tólf þræla, bar hver þeirra fat á höfði sjer og ágætustu gersemar á hverju fati. Gengur hann nú fyrir kalífann þar sem hann sat í hásæti sínu, og fleygir sjer fram á ásjónu sína, stendur síðan upp og flytur ræðu fyrir kalífanum með miklum fagurmælum, biður hann að þiggja gjafir þær, er hann sje kominn með handa honum. Kalífinn fagnaði Alaeddín náðarsamlega og þáði fúslega gjafir hans. Ljet hann samstundis færa hann í tignarklæði, og gerði hann að forstöðumanni verzlunarstjettarinnar í Bagdad; vísaði hann honum síðan til sætis í ríkisráðinu. Í sama bili kom tengdafaðir Alaeddíns inn í salinn; hafði hann áður haft embætti þetta á hendi og sjer nú Alaeddín skrýddan tignarklæði í sínu sæti. Gerðist hann þá svo djarfur, að hann spurði kalífann, hverju þetta sætti. Kalífinn svaraði: „Eg hef fyrir skemmztu sagt, að Alaeddín skyldi vera forstjóri verzlunarmannanna. Metorð og embætti eru ekki veitt mönnum til ævinlegrar eignar, og nú hefur mjer þóknazt að víkja þjer úr sæti.“ „Það var vel og viturlega gert af yðar hátign,“ mælti öldungurinn, „enda nýt eg líka sjálfur góðs af sæmd þeirri, er þjer hafið auðsýnt tengdasyni mínum. Þjer hafið auðsjáanlega valið eptir guðs vilja, því hann upphefur lítilmagnann til hinnar æztu tignar þegar honum þóknast. Hafa menn ekki optsinnis sjeð, að stórhöfðingjar hafa orðið að kyssa á hendur þeirra manna, sem þeir deginum áður sýndu fyrirlitningu?“

Um kvöldið þegar fundi var slitið, gekk lögreglustjórinn á undan Alaeddín um borgarstrætin, og fylgdi þeim mikil sveit. Kallari fór á undan lögreglustjóranum og hrópaði á öllum strætishornum, að kalífinn hefði gert Alaeddín Abusch Schamat að forstjóra kaupstjettarinnar í Bagdad, og bæri honum einum þaðan frá að gegna störfum þeim, er því embætti fylgdu. Daginn eptir hóf Alaeddín sjálfur kaupskap og lauk upp glæsilegri sölubúð, er hann hafði keypt sjer; ljet hann einn af þrælum sínum standa fyrir útsölunni, en sat sjálfur í ríkisráðinu á degi hverjum. Það var einhvern dag, er hann var á fundi, að embættismaður nokkur kom og sagði kalífanum, að einn af ráðgjöfum hans væri dáinn. Ráðgjafi þessi var einn af þeim, sem kalífinn hafði bezt trúað. Veitti kalífinn þá samstundis Alaeddín embætti hans. Skyldi hann hafa þúsund gullpeninga í laun. Þannig komst Alaeddín alltaf í meiri

og meiri kærleika hjá kalífanum. Skömmu síðar andaðist forsetinn í sextíu manna ráðinu og bauð kalífinn honum þá að setjast í hans sæti. Og með því hvorki lifði kona nje börn eptir hinn framliðna, þá sagði kalífinn, að Alaeddín skyldi erfa alla þræla hans og auðæfi, ef hann aðeins sæji um útför hans. Þegar kalífinn hafði slitið fundi og ráðherrarnir gengu út úr salnum, þá sjer Alaeddín fjörutíu manns af varðliði kalífans; hjet sá Ahmed Aldanaf, sem rjeði fyrir flokk þessum, og átti hann að fylgja Alaeddín heim í virðingar skyni. Og með því Alaeddín vissi hversu mikið Aldanaf mátti sín hjá kalífanum, þá sá hann sig nú ekki úr færi og mælti til vináttu við hann. Þótti Aldanaf virðing að og tók vinmælum hans feginsamlega, því honum hafði jafnan hneigzt hugur til Alaeddíns, frá því hann fyrst sá hann í hirðinni. Lofaði hann nú til vináttumerkis, að hann skyldi láta liðsmenn sína fylgja honum í hvert skipti sem hann gengi á ríkisráðs fund, eða færi þaðan heim aptur.

Það var eitthvert kvöld, er Alaeddín var nýkominn heim og sat hjá konu sinni, þá stóð hún upp og gekk frá honum, en sagðist mundu koma bráðum aptur. Rjett á eptir heyrir Alaeddín aumkvunarlegt óp, og stökkur út til að sjá hvað um sje að vera; sjer hann að Sobeide liggur flöt á gólfinu, hleypur til í skyndi og reisir hana á fætur; sló þá yfir hann dauðans angist, því hann fann að hún var örend. Nú hagaði svo til, að faðir Sobeide bjó gagnvart herbergjum Alaeddíns, og heyrði hann hljóð dóttur sinnar; lauk hann þá upp og spurði tengdason sinn, hverju það sætti. „Þjer hafið misst dóttur yðar,“ mælti Alaeddín, „Sobeide kona mín er dáin.“ Nú þótt hinum gamla manni fjellist mikið um dótturmissinn, þá hafði hann samt rænu á að aumkvast yfir Alaeddín, er hann sá, hversu sárt og innilega hann syrgði hana. Reyndi hann til að hugga hann og leiddi honum fyrir sjónir, að það væri nú síðasta elsku merkið sem þeir gætu sýnt Sobeide, að annast útför hennar. Sýsluðu þeir því báðir í sameiningu um greptrunina, og reyndu að hugga hver annan, sem þeir bezt gátu.

Nú bjóst Alaeddín sorgarbúningi og gerðist svo harmþrunginn og sinnulaus, að hann hætti með öllu að koma á ríkisráðs fundi. Þetta þókti kalífanum kynlegt og spurði Gíafar, hversvegna Alaeddín kæmi aldrei í höll sína. „Hann hefur misst konu sína,“ ansaði

Gíafar, „og getur hann ekki á sjer tekið fyrir harmi; hann grætur hana dag og nótt.“ „Við verðum að fara að finna hann,“ mælti kalífinn. Þeir kalífinn og Giafar bjuggust nú dularbúningi og fóru til húsa Alaeddíns. Hittu þeir hann í öngum sínum, og sat hann harmandi og grúfði andlitið niður í hendur sínar. Stóð Alaeddín upp til að fagna þeim, og jafnskjótt sem hann þekkti kalífann, þá fleygði hann sjer fram fyrir fætur honum. Kalífinn var hinn vingjarnlegasti og bað hann að standa upp; kvaðst hann jafnan hafa hann í huga sínum. „Guð lengi lífdaga yðar hátignar!“ sagði Alaeddín grátandi. Þá mælti kalífinn: „Hvernig stendur á því, að þú hefur ekki komið í ríkisráð mitt í svo langan tíma?“ „Herra!“ ansaði Alaeddín, „eg er óhuggandi út af missi Sobeide konu minnar.“ „Þú mátt ekki gugna svo mjög fyrir sorginni,“ mælti kalífinn, „heldur ber þjer að taka vilja forsjónarinnar með þolinmæði. Tárin, sem þú úthellir, eru árangurslaus og geta ekki vakið upp konu þína frá dauðum.“ En Alaeddín stundi þungan við og sagði: „Eg mun aldrei hætta að gráta hana fyr enn dauðinn samtengir okkur aptur.“ Fór þá kalífinn, en sagði honum áður, að bezt væri að hann kæmi á ráðstefnu einsog að undanförnu. Viknaði Alaeddín við þessa hjartagæzku kalífans, og morguninn eptir stje hann á bak hesti sínum og reið til ráðstefnu. Þegar hann var kominn inn í salinn, fleygði hann sjer til jarðar með andlitið á grúfu. Og jafnskjótt sem kalífinn sá hann, þá stje hann niður úr hásæti sínu og gekk fram til að reisa hann á fætur. Fagnaði hann honum með mestu vinsemd og ljet hann setjast í sæti það, er hann áður hafði haft. „Eg vona,“ sagði kalífinn, „að þú verðir hjá mjer í kvöld.“ Eptir að fundi var slitið, gekk kalífinn aptur inn í kvennabúr sitt og ljet sækja ambátt nokkra Kút Alkúlúb að nafni. Sagði hann við hana: „Alaeddín hefur fyrir skemmstu misst Sobeide konu sína, sem var hið mesta afbragð til söngs og hljóðfæralistar; hún ein var yndi hans og eptirlæti í þessum heimi og útrýmdi öllum sorgum úr huga hans. Nú þækti mjer vænt ef þú vildir leika á fiðlu þína eitthvert lagið, sem þú kannt; hver veit nema það gæti orðið honum til huggunar.“

Um kvöldið faldi Kút Alkúlúb sig á bak við fortjald og söng hún þar svo yndislega hjartnæmt og ljek svo fagurt á hljóðfærið,

að kalífinn varð frá sjer numinn af unun; vjek hann sjer þá að Alaeddín og spurði, hvernig honum þækti ambátt þessari láta sönglistin. „Hún syngur fagurt,“ svaraði Alaeddín, „en rödd hennar fær með öðru móti á mig enn rödd Sobeide.“ „Því get eg nærri,“ mælti kalífinn, „en geðjast þjer ekki vel að hljóðum hennar?“ Varð þá Alaeddín kynlegur við og svaraði: „Illt mætti þá vera að gera mjer til hæfis, ef eg hefði enga skemmtun af að hlýða á hana.“ „Gott og vel,“ sagði kalífinn, „eg gef þjer ambátt þessa og allar ambáttir þær, er henni þjóna.“ Alaeddín hjelt að kalífinn segði þetta í gamni, og í þeirri trú fór hann heim til sín. En morguninn eptir ljet kalífinn flytja allan húsbúnað Kút Alkúlúb í höll Alaeddíns; var hún og sjálf borin þangað í burðarstól og allar ambáttir hennar, en þær voru ekki færri enn fjörutíu. Fór þetta fram meðan Alaeddín var á ríkisráðs fundi, en hann varð með lengsta móti þann dag, og sleit kalífinn honum ekki fyr enn seint um kvöldið. Og er Kút Alkúlúb var komin inn í höll Alaeddíns með ambáttum sínum, þá ljet hún setja tvo menn af varðliði kalífans sinn hvoru megin dyra; áttu þeir að skila til Alaeddíns, að ambáttin væri komin og biði hans í herbergi sínu. Alaeddín datt ekki Kút Alkúlúb í hug nje hjarta, og brá honum undarlega við, er hann kom heim og sá varðmenn kalífans við húsdyr sínar. „Er þetta húsið mitt?“ segir hann við sjálfan sig, en í sama vetfangi komu varðmennirnir til hans, og kysstu á hönd hans. Sagði annar þeirra: „Við erum þjónar Kút Alkúlúb, vildarkonu kalífans; hefur hann gefið yður hana ásamt öllum ambáttum hennar. Biður hún yður nú svo vel gera að koma inn í herbergið til sín.“ Þá mælti Alaeddín: „Farið og segið frú yðvarri, að hún sje velkomin, en berið henni líka þau orð mín, að meðan henni þóknast að dvelja í mínum húsum, þá skal eg aldrei gerast svo djarfur að eg vitji hennar, því ekki hæfir þrælnum það sem drottni hans hæfir. Biðjið hana líka að segja, hversu mikið kalífinn hafi verið vanur að gefa henni á degi hverjum.“ Þessu skiluðu varðmennirnir og komu aptur til að segja Alaeddín, að Kút Alkúlúb hefði fengið hundrað gullpeninga á degi hverjum. Hugsaði hann þá með sjálfum sjer, að þessi gjöf kalífans væri sjer til lítilla þarfa. Var ambáttin lengi hjá Alaeddín, og ljet hann skilvíslega greiða henni hundrað gullpeninga á hverjum

morgni. Nú bar svo til einn dag, að hann var í þungu skapi út af missi Sobeide og gleymdi að fara á ríkisráðsfund. Sagði þá kalífinn við Gíafar: „Þú veizt að eg gaf Alaeddín Kút Alkúlúb til þess að hún gæti orðið honum til huggunar, eptir konumissinn. En samt kemur hann aldrei á fund minn, sem hann fyr átti vanda til.“ „Það hefur lengi verið sagt og það með sönnu,“ ansaði vezírinn, „að unnustar gleymdu gömlum vinum, þegar þeir væru hjá ástmeyjum sínum.“ En Gíafar sá villu sína daginn eptir, er hann kom á fund Alaeddíns. Varð Alaeddín það fyrst að orði, að hann spurði, hvað kalífanum hefði gengið til að gefa sjer Kút Alkúlúb. Svaraði vezírinn, að kalífinn hefði gert það í vináttu skyni og spurði Alaeddín, hvort hann hefði vitjað hennar mörgum sinnum. „Satt að segja, aldrei,“ ansaði Alaeddín, „og aldrei ætla eg mjer að sjá hana.“ Spurði vezírinn því hann firrðist ambáttina og sagði Alaeddín þá, einsog fyrri: „Þrælnum hæfir ekki það sem drottni hans hæfir.“ Sagði nú Gíafar kalífanum, hvers hann var orðinn vísari, og fóru þeir báðir í dularbúningi á fund Alaeddíns. Og jafnskjótt sem Alaeddín sá þá koma, þá gekk hann til móts við kalífann, fjell fram fyrir honum og kyssti á hönd hans. Sá kalífinn á honum, að hann var sárhnugginn og bað hann upp standa. „Kæri Alaeddín!“ mælti hann, „á eg þá aldrei að sjá þig öðruvísi enn hryggan? hefur Kút Alkúlúb ekkert gert til að hugga þig?“ „Drottinn rjetttrúaðra manna!“ ansaði Alaeddín, „þrælnum hæfir ekki það sem drottni hans hæfir. Mjer er eiður sær, að eg hef ekki komið, og mun aldrei koma nálægt henni. Mætti eg beiðast nokkurs af mildi yðvarri, þá mundi eg biðjast undan vanda þeim að gæta hennar framar.“ Þá mælti kalífinn: „Mjer þækti gaman að sjá hana snöggvast.“ Fór Alaeddín þegar og sókti Kút Alkúlúb; spurði kalífinn hana, hvort Alaeddín aldrei hefði vitjað hennar. Sagði hún honum frá því, er Alaeddín synjaði að koma á fund hennar, og ljet kalífinn þegar að bragði flytja hana heim í kvennabúr sitt; bað hann Alaeddín að heimsækja sig og sneri síðan heim aptur til hallar sinnar. Nú var Alaeddín feginn, er hann hafði losazt við Kút Alkúlúb, og svaf betur næstu nóttina enn hann átti að sjer. Daginn eptir settist hann aptur í sæti sitt á ríkisráðs fundi. Skipaði kalífinn vezír sínum að fara á mansals torgið og

kaupa þar ambátt handa Alaeddín; mætti hann eigi taka hana ódýrari enn á tíu þúsund gullpeninga. Bjóst Gíafar þegar til að hlýðnast boði kalífans og gekk út á mansals torgið með Alaeddín.

Nú er að nefna þann mann til sögunnar, er Habaslam Besasa hjet; faðir hans var emírinn Kaled, lögreglustjóri í Bagdad, en móðir hans hjet Katún. Besasa var herfilega ljótur ásýndum, og var hann, er saga þessi gerðist, á tvítugs aldri; mjög var hann fákunnandi og hafði ekki numið neinar af íþróttum þeim, er tíðkuðust meðal ungra manna á hans reki. Gat hann valla setið á hestbaki, en faðir hans var einhver hinn mesti riddari á sinni öld, og þókti afbragð annara manna sakir kurteisi, menntunar og hugprýði. Með því nú Besasa var orðinn fullgamall til að kvongast, þá vildi móðir hans láta hann biðja sjer konu. En Kaled sá gjörla, hvílíkt aflagi sonur hans var, og leiddi henni fyrir sjónir, hversu stjúpmóðurlega náttúran hefði gert hann úr garði, bæði til sálar og líkama, mundi því trautt finnast nokkur ung stúlka, sem tæki honum. „Þá er að kaupa handa honum ambátt,“ ansaði Katún. Hittist nú svo á, að sama daginn sem þeir Gíafar og Alaeddín gengu út á mansals torgið, þá komu feðgarnir þangað líka í sömu erindagjörðum. Kallari einn stóð þá á torginu og hafði við hönd sjer unga ambátt, afbragðs fríða, mittismjóa og prýðilega vaxna; var hún svo blómleg og ungleg og siðsamleg í fasi, að vezírinn undraðist stórum og bauð strax fyrir hana þúsund gullpeninga. Og nú er feðgarnir gengu þar framhjá og Besasa sá ambáttina, þá felldi hann þegar ást til hennar, svo hann rjeði sjer valla, og bað föður sinn fyrir alla muni að kaupa hana handa sjer. Gerði Kaled kallaranum bendingu og spurði hann, hvað ambáttin hjeti; kallarinn svaraði, að hún hjeti Jasmín, og væru boðnir fyrir hana þúsund gullpeningar. Sagði þá Kaled við son sinn, að ef hann ætlaði sjer að ná í ambáttina, þá yrði hann að bjóða hærra. Bauð Besasa þá einum gullpeningi meira, en Alaeddín bauð óðara tvær þúsundir; og í hvert skipti sem emírssonurinn bauð einum gullpeningi meira, þá hækkaði Alaeddín boðið með þúsund gullpeningum. Varð nú Besasa fokvondur út af því, að nokkur skyldi vera svo djarfur, og spurði kallarann rembingslega, hvað maðurinn hjeti, sem væri að bjóða í kapp við sig. „Það er stórvezírinn Gíafar,“ ansaði kallarinn, „hann

ætlar að kaupa ambáttina handa Alaeddín Abusch Schamat.“ Var nú Alaeddín búinn að bjóða tíu þúsundir gullpeninga, og var ambáttin slegin honum eptir skipun þess er átti; ljet stórvezírinn þegar greiða andvirðið. Og jafnskjótt sem Alaeddín var orðinn eigandi ambáttarinnar, þá gaf hann henni frelsi, tók hana fyrir eiginkonu og fór með hana heim til sín. Ljet nú kallarinn þá feðgana vita um kaupin, og örvílnaðist Besasa þá, svo að hann fór samstundis heim og lagðist veikur. Vissi móðir hans eigi, hvað gerzt hafði og spurði, hvernig stæði á veikindum hans. „Kaupið Jasmín*) handa mjer,“ svaraði hann með veikum málrómi; hjelt móðir hans þá að hann talaði óráð, og lofaði að kaupa honum Jasmín, þegar blómasalinn gengi framhjá í næsta sinni. „Hvað er hjer um blóm að tala?“ kallaði hann með óþoli, „eg vil hafa Jasmín, ambáttina; án hennar get eg ekki lifað.“ Leitaðist Katún við að hugga hann og fór til manns síns. Sagði hann henni hver Jasmín væri, og hversu Besasa hefði runnið ástarhugur til hennar. Nú með því Katún tók sárt til sonar síns, þá álasaði hún bónda sínum fyrir, að hann skyldi hafa látið annan mann kaupa ambátt, sem syni hans ljek svo ákaft hugur á. En emírinn svaraði: „Þrælnum hæfir ekki það sem drottni hans hæfir, það var ofurefli mitt, að kaupa hana, því Alaeddín Abusch Schamat vildi fyrir hvern mun hafa hana, en hann er höfðingi mikill og forseti í sextíu manna ráðinu.“ Nú versnaði Besasa dag frá degi, svo móðir hans tók að örvænta honum lífs, bjóst hún þá sorgarbúningi og bar sig sem aumlegast. Um þessar mundir kom til hennar kona nokkur, sem sjaldan var kölluð annað enn: Kómakóms móðir. Ahmed Kómakóm var rummungs þjófur og hafði frá blautu barnsbeini tamið sig við stuld og skelmiskap. Var hann hinn fimasti til slíkra verka, og svo vel hafði honum tekizt að leyna óknyttum sínum, að hann var tekinn til foringja yfir liðsmannaflokk lögreglustjórnarinnar. En með því hann stal og rændi frá borgarmönnum í stað þess að veita þeim hlíf, þá ljet lögreglustjórinn taka hann fastan og leiða hann fyrir kalífann; dæmdi kalífinn hann til dauða. Nú þekkti Kómakóm mannelsku Gíafars vezírs og vissi að bænir hans hjá

---

*) Jasmín er jurtarnafn.

kalífanum urðu aldrei árangurslausar. Ljet hann því biðja Gíafar að mæla sjer líknarorð við kalífann. Vezírinn gerði svo, en kalífinn sagði: „Hvernig getur þú fengið af þjer að tala máli svo svívirðilegs illvirkja?“ „Dæmið hann, herra! til æfilangs fangelsis,“ mælti vezírinn „fangelsið er grafar ígildi og gert til þess að kviksetja skaðræðis fanta, sem nauðsynlegt er að stía frá mannlegu fjelagi.“ Kalífinn fór að ráði Gíafars og breytti dómsatkvæðinu þannig, að Kómakóm skyldi sitja í fangelsi æfilangt; á hlekki hans ljet hann grafa þessi þrjú orð: *allt til dauðans.* Var nú Kómakóm hnepptur í dýflissu. Kenndu menn almennt í brjósti um móður hans, og leyfði Kaled henni einnig að koma í hús sitt. Færði hún syni sínum mat í fangelsið, og ávítaði hún hann optsinnis fyrir það, að hann ekki hafði hlýðnazt áminningum hennar. Sagði hann við hana einn dag: „Móðir góð! það er ekki hægt að sporna við örlögunum; en fyrst þú ert orðin heimagangur hjá lögreglustjóranum, þá ættirðu að fá konu hans til að leggja mjer liðsyrði.“ Fer nú kerling til konu lögreglustjórans og sjer að hún er sorgarbúin og sárhnuggin í bragði. „Æ!“ móðir góð!“ kallaði hún upp, „eg missi víst blessunina hann Besasa son minn.“ Spurði nú kerling, hvað að honum gengi, og sagði Katún henni þá, hvernig farið hafði fyrir honum. Kerling sá að hjer bauðst gott tækifæri til að leysa son hennar úr prísundinni. Hún mælti: „Eg sje gott ráð til að hjálpa syni yðar til lífs aptur. Kómakóm, sonur minn, gæti numið Jasmín burt og fengið hana í hendur syni yðar, en því er nú verr, að hann er dæmdur til æfilangrar prísundar. Neytið nú valds þess, er þjer hafið yfir manni yðar, og reynið að útvega syni mínum frelsi, skal eg þá að mínu leyti sjá svo um, að sonur yðar fái óskum sínum framgengt.“ Lofaði þá Katún að gera sitt sárasta til þess að Kómakóm fengi lausn úr fangelsinu. Vakti hún samdægris máls á því við mann sinn og sagði honum, að Kómakóm iðraðist af hjarta synda sinna; fór hún og mörgum hjartnæmum orðum um mæðu þá, er á móður hans lægi. „Ef þú nú,“ sagði hún,“ gætir komið því til leiðar að bandingi þessi yrði látinn laus, þá gerðir þú gott verk, og veit eg að það yrði okkur til hinnar mestu blessunar, og það sem mest er um vert, hann Besasa okkar mundi aptur verða heill heilsu.“ Lögreglustjórinn

komst við af tárum og kveinstöfum konu sinnar. Morguninn eptir gekk hann til fangelsisins og spurði Kómakóm, hvort hann iðraðist síns fyrra lífernis af hjarta, og væri fastur í þeim ásetningi, að bæta ráð sitt framvegis. Svaraði Kómakóm þá af yfirdrepskap, að guð hefði fyrir löngu síðan hrært hjarta sitt, og hjet því hátíðlega, að, ef hann yrði látinn laus, þá skyldi hann á allar lundir reyna að bæta yfir ávirðingar sínar og útrýma óþokka þeim, er menn nú höfðu á honum. Eptir heitstrengingu þessa fór lögreglustjórinn með hann á ríkisráðs fund, því ekki þorði hann upp á sitt eigið eindæmi að leysa af honum fjötrana. Þegar lögreglustjórinn kom inn í salinn, þá fleygði hann sjer flötum niður á gólfið. Því næst leiddi hann Kómakóm fram fyrir kalífann. „Þú lifir þá ennþá, þorparinn þinn!“ sagði kalífinn reiðuglega. „Herra!“ svaraði Kómakóm „það er vant að teygjast úr æfi aumingjanna ekki síður enn hörmungunum, sem þeir verða að þola.“ „Kaled!“ hrópaði kalífinn, „því ertu kominn til mín með óbótamann þenna?“ „Drottinn rjetttrúaðra manna!“ ansaði lögreglustjórinn, „ógæfumaður þessi iðrast glæpa sinna, og auminginn hún móðir hans, sem hafði sett alla von sín til hans, hún grátbænir yðar hátign, að láta leysa af honum fjötrana og skipa hann aptur í embætti það, sem hann hafði á hendi, áður enn honum sázt yfir.“ „Iðrast hann af hjarta síns fyrra lífernis?“ spurði kalífinn. Þá mælti Kómakóm: „Drottinn rjetttrúaðra manna! eg kalla guð til vitnis mjer, að eg iðrast af öllu hjarta og vil af hjarta bæta yfir það illa sem, eg hef gert.“ Kenndi kalífinn þá í brjósti um móðurina og ljet sækja járnsmið til að brjóta sundur hlekki Kómakóms. Sagði hann að nú skyldi hann vera frjáls maður og skipaði hann aptur í sitt fyrra embætti; lagði hann ríkt á við hann, að villast ekki optar út af vegi dyggðarinnar og skyldunnar. Varð þá Kómakóm allshugarfeginn, fjell fram á ásjónu sína fyrir kalífanum og bað til guðs, að hann mætti lengi og farsællega ríkja. Nokkrum dögum eptir lausn Kómakóms hitti kona lögreglustjórans móður hans; gekk hún þá ríkt eptir við hana, að hún efndi heit sitt, og leiddi henni fyrir sjónir, að Kómakóm ætti sjer einni lausn sína að þakka, en heitið annarsvegar skýlaust, að hann skyldi nema burt Jasmín, ambátt Alaeddíns, og fá hana í hendur Besasa, syni hennar. Lofaði Komakóm móður sinni að

vinna verk þetta næstu nótt, en það var fyrsta nóttin í mánuðinum. Þá nótt var kalífinn ávallt vanur að vera hjá eiginkonu sinni, og helgaði hana fyrst með einhverju góðverki, með því að gefa þrælum frelsi eða öðru slíku. En áður hann gengi inn í herbergi Sobeide, þá lagði hann konungsskikkju sína, bænaband sitt, ríkisinnsiglið og aðrar gersemar í legubekk einn. Ein af gersemum þessum var gullstika með þremur stórum demöntum, og hafði kalífinn miklar mætur á henni. Þetta kvöld, sem nú um ræðir, gekk hann heldur í fyrra lagi til herbergis drottningar sinnar, og hafði hann boðið varðmönnum sínum að gæta gripanna. Kómakóm beið nú þangaðtil liðið var af miðnætti og notaði einmitt þann tímann, er allir dauðlegir menn sváfu sætum blundi, og guð breiddi hulu myrkranna yfir jarðríki; þá tók hann sverð sitt og leitaði þangað að höllinni, er herbergi kalífans voru. Komst hann upp á þakið með því að klifrast upp stiga; lauk hann þar upp fellihurð og sá að varðmenn sváfu, ljet þá sígast ofan og fór sem hægast. Hjelt hann svefndupti fyrir vitin á varðmönnunum, tók síðan konungsskikkjuna, bænabandið, vasaklútinn, ríkisinnsiglið og gullstikuna. Slapp hann heppilega burt með þetta og fór rakleiðis til hallar Alaeddíns. Hittist svo á, að hann svaf þessa nótt hjá Jasmín konu sinni. Kómakóm læddist inn í svefnherbergi þeirra, tók marmarahellu eina upp úr gólfinu[1], vafði síðan hina stolnu gripi innan í klútinn og faldi þá niðrí hellufarinu. Gullstikunni einni hjelt hann eptir og ætlaði sjer sjálfum að eiga hana. Því næst kom hann marmarahellunni í samt lag, og komst svo burt að enginn varð var við. Á heimleiðinni var hann alltaf að skoða gullstikuna með demöntunum og sagði þá við sjálfan sig: „Þegar eg sit að víndrykkju, þá skal eg láta gullstiku þessa standa frammi fyrir mjer, og skal þá mjöðurinn í staupi mínu endurskína við ljómann af gullinu og gimsteinunum.“

Morguninn eptir kom kalífinn að varðmönnum sínum sofandi; svo vel hafði svefnduptið hrifið. Vakti hann þá og ætlaði að taka gripina, sem hann hafði lagt niður í legubekkinn. Brá honum mjög í brún, er hann sá að þeir voru horfnir og reiddist ákaflega. Hann bjó sig hárauðum klæðum frá hvirfli til ilja til merkis um reiði sína, gekk síðan inn í ríkisráðs salinn og settist

þar í hásætið, umkringdur af öllum veldisljóma sínum. Og sem Gíafar kom inn og sá að kalífinn var reiður, þá fleygði hann sjer niður svo að ennið nam við gólfi og mælti: „Guð varðveiti yðar hátign frá öllum óhöppum og bægi frá yður öllu því, sem verða má að þykkju eða reiðiefni.“ þá mælti kalífinn: „Óhappið er mikið, vezír!“ „Hvað hefur þá til borið, herra!“ spurði Gíafar. En rjett í því kalífinn ætlaði að fara að segja vezírnum, hvað gerzt hafði, þá kom Kaled lögreglustjórinn í salinn, og var Kómakóm með honum. Vjek kalífinn sjer þá að lögreglustjóranum og spurði: „Hvað er tíðinda í Bagdad?“ „þar er allt með kyrrð og spekt,“ svaraði hann. „því lýgur þú,“ mælti kalífinn. Lögreglustjórinn fleygði sjer þá flötum til jarðar og mælti með auðmýkt: „Drottinn rjetttrúaðra manna! má eg vera svo djarfur og spyrja, hvernig á því stendur, að þjer eruð orðinn svo reiður.“ Sagði kalífinn honum, hvað til þess bar, og mælti ennfremur: „þú verður nú að gera þitt sárasta til að hafa upp gripi þessa og fá mjer þá aptur; að öðrum kosti skaltu engu fyrir týna nema lífinu. „þá mælti Kaled: „þjer verðið þá að láta drepa Kómakóm áður enn þjer dæmið mig til dauða. Enginn ætti að þekkja þjófa og bófa betur enn hann, sem er foringi lögregluliðsins.“ Og er Kómakóm heyrði þetta, þá gekk hann fram fyrir kalífann og mælti: „Drottinn rjetttrúaðra manna! látið mig um það, að hafa upp þessa þjófstolnu gripi. En fáið mjer samt tvo dómara og tvö vitni til fylgdar, því sá sem drýgt hefur slíkan stórglæp, hann hræðist víst ekki yðar vald, eða lögreglustjórans eða nokkurs annars.“ Fjellzt nú kalífinn á þetta og bauð, að hefja skyldi rannsóknina með því að leita í höll sjálfs hans, en síðan skyldi leita í húsum stórvezírsins og höfðingja þeirra, er sæti áttu í sextíu manna ráðinu. Innti Kómakóm í þann veginn, að sá einn mundi stolið hafa, sem opt væri hjá kalífanum; sór kalífinn þá við höfuð sitt, að hver sem drýgt hefði glæpinn, enda þó það væri sonur sinn, þá skyldi hann vægðarlaust drepinn. Hafði Kómakóm þenna fyrirvara til þess, að kalífinn skyldi veita sjer sem skýlausasta heimild til að brjótast inní hvert hús og rannsaka þar eptir hugþótta. Tók hann stóran járnvafinn staf í hönd sjer og hóf rannsóknina; kom hann að lyktum að höll Alaeddíns. Heyrir nú Alaeddín háreysti

mikið úti á strætinu, og fer að vörmu spori ofan; sjer hann að lögreglustjórinn er kominn með liði sínu: „Hvað er yður á höndum, Kaled?“ mælti Alaeddín. Og er Kaled hafði skýrt honum frá erindi sínu, þá sagði hann: „Gerið þá svo vel og gangið inn í hús mitt; þjer megið rannsaka það bæði hátt og lágt.“ Lögreglustjórinn varð einhvernveginn kynlegur við og mælti: „Þjer megið fyrir alla muni ekki misvirða þetta við okkur, þjer eruð upphafinn yfir allar grunsemdir, og kemur oss sízt til hugar að ætla yður þvílík svik og níðingsskap.“ „Gerið nú einsog ykkur hefur verið skipað,“ mælti Alaeddín; „þið eigið ekki að fara í manngreinarálit.“ Lögreglustjórinn, dómararnir og vitnin fóru nú að rannsaka og sagði Kómakóm þeim fyrir. Nú er hann kom í herbergi það, er hann hafði stolizt inn í um nóttina, þá gekk hann að marmarahellunni, sam þýfið var undir, og ljet járnstafinn með ásettu ráði falla niður á hana svo hún brotnaði í marga parta. Sá Kaled að glitti í eitthvað innan um brotin, og sagði hann þá: „Guð hefur sjálfur leitt okkur á stað þenna, og eru hjer fjársjóðir fólgnir, sem þjer eigið; komið og sjáið hvað það er.“ Flykktist nú allt lögregluliðið utan um Kaled, og jafnskjótt sem menn báru kennsl á gripina, þá var samin skýrsla, og staðfest með vitnum, að hinir þjófstolnu munir hefðu fundizt í húsi Alaeddíns. Rjeðust þá lögregluþjónarnir á Alaeddín, rifu af honum túrbaninn, bundu hendur á bak honum, og innsigluðu því næst allar eigur hans. En í þeim svifum brauzt Kómakóm inn í herbergið þar sem Jasmín var, tók hana með ofbeldi, þótt hún væri harðóljett, og fór með hana til móður sinnar. Skipaði hún honum að fara strax með hana til konu lögreglustjórans, og gerði hann svo. Lifnaði Besasa allur við, er hann sá Jasmín, og rjeði sjer ekki fyrir fögnuði. Ætlaði hann að færa sig nær henni til að láta gleði sína í ljósi, en hún bað hann að hafa sig á burtu, að öðrum kosti kvaðst hún ekki ábyrgjast tiltektir sínar; svo ljótur og viðbjóðslegur þækti sjer hann vera. „Vil eg heldur ráða mjer bana enn þýðast slíka ófreskju sem þú ert.“ „Æ! þú ert svo yndisleg, Jasmín!“ mælti Besasa, og nötraði eins og hrísla, „þyrmdu lífi þínu sakir elsku minnar.“ Móðir hans leitaðist líka við að spekja Jasmín og sagði: „Góðin mín! þú verður að lofa honum syni mínum að segja þjer, hversu mjög hann brennur og

kvelst af elsku til þín, hann getur ekki án þín lifað.“ Þá mælti Jasmín: „Hvenær hefur það heyrzt, að hundarnir hafi að ósekju ruðzt inn í bæli ljónsins?“ Varð þá Besasa frá sjer af örvæntingu og hnje niður í legubekkinn, einsog hann ætlaði að gefa upp öndina, en móðir hans óð að Jasmín í bræði og mælti: „Ætlarðu þá að drepa fyrir mjer son minn, óhræsið þitt? en þú skalt nú ekki lengi vænta þjer hlífðar af mjer; það skal ekki verða langt þangaðtil hann Alaeddín þinn dinglar í gálganum.“ „Eg mundi telja mig sæla,“ ansaði Jasmín,“ ef eg gæti vottað honum elsku mína með því að fylgja honum í gröfina.“ Þá varð Katún svo hamslaus, að hún rauk í Jasmín, og reif utan af henni fötin og allt skartið; ljet hún færa hana í strigapilz og hárserk og rak hana til að gegna eldhússverkum, með hinum ljelegustu ambáttum. Sagði hún að það skyldi nú hjeðan af vera iðja hennar, að kljúfa skíð, flysja baunir og lauka og kynda undir pottunum. En Jasmín brá sjer hvergi, og kvað hún enga vinnu vera svo auðvirðilega og ekkert strit svo þungbært, að ekki þækti sjer það betra, heldur enn að hafa slíkt afskræmi fyrir augum, sem sonur hennar væri. En hinar ambáttirnar kenndu í brjósti um Jasmín. Hún var svo hógvær og blíðlynd og þolinmóð, að þær fengu allar góðan þokka á henni, og kepptist hver við aðra að ljetta á henni stritinu. Meðan þetta gerðist, fór lögreglustjórinn og lið hans til ríkisráðsins með Alaeddín; sat kalífinn þar í hásæti og all hirðliðið í kringum hann. Og er lögreglustjórinn kom með skikkju hans og hina gripina, þá spurði kalífinn, hvar hann hefði fundið þá. „Eg fann þá hjá Alaeddín Abusch Schamat,“ ansaði lögreglustjórinn. Saknaði þá kalífinn gullstikunnar með demöntunum, og mælti til Alaeddíns með illilegu augnaráði: „Hvar er gullstikan mín, mannfýla?“ Svaraði þá Alaeddín með stillingu: „Herra! mjer er eiður sær, að eg hef aldrei snert á hlutum þeim, sem eg er ákærður fyrir að hafa stolið, get eg þar enga grein fyrir gert.“ „Svikahrappur!“ mælti kalífinn, „er þetta þakklætið fyrir allar þær mörgu og miklu velgjörðir, sem eg veitti þjer. Eg trúði þjer eins vel og sjálfum mjer, og nú hefur þú svikið mig.“ Bauð hann lögreglustjóranum samstundis að láta festa Alaeddín á gálga. Brá þá Kaled strax við með liði sínu og leiddi Alaeddín til aftökustaðarins, en kallari fór á undan og

hrópaði á öllum strætum: „Svona er þeim hegnt, sem dirfast að hafa svik í frammi við kalífa þá, er komnir eru af Abassída kyni.“ Varð nú hinn mesti ys og þys og flykktist allur borgarlýðurinn þangað sem aftakan átti fram að fara.

Meðan þetta gerðist, sat Ahmed Aldanaf, ástvinur Alaeddíns í aldingarði sínum, og vissi ekki neitt af neinu. Kemur þá allt í einu til hans einn af mönnum þeim, er báru vatn til hallarinnar; hann stóð á öndinni og sagði honum að nú væri farið með Alaeddín til gálgans. Og sem Aldanaf var orðinn þess vísari, hvað ástvini hans var gefið að sök, þá spurði hann manninn, hver hans ætlun væri um mál þetta. „Eg þori að veðja höfði mínu,“ svaraði maðurinn, „að Alaeddín er saklaus, og er þetta ekki annað enn svívirðilegt vjelræði, sem óvinir hans hafa upp spunnið til að steypa honum. En nú er dýrmæt hver stundin, ef honum á að verða borgið.“ Fór Aldanaf þegar til fangelsisins og skipaði bandingjaverðinum að fá sjer í hendur glæpamann nokkurn, sem dæmdur var til dauða og geymdur þar í dýflissunni. Nú vildi það til allrar hamingju, að þar var sakamaður einn, sem var nokkuð líkur Alaeddín. Brá Aldanaf skýlu yfir höfuð honum og ljet svo einn af varðliði sínu hjálpa sjer til að draga hann á aftökustaðinn. Ruddist hann í gegnum mannþröngina og steðjaði fram fyrir böðulinn með miklum asa. Kallaði þá böðullinn: „Lofið mjer að komast að, herra góður! svo eg geti gegnt embættisverki mínu.“ „Heyr þú manna-armastur!“ mælti Aldanaf, „tak við sakamanni þessum, er eg færi þjer, í stað Alaeddíns Abusch Schamats, því hann er saklaus af glæp þeim, er hann var kærður fyrir. Vjer færum hrút til útlausnar Ismael.“*) Þorði böðullinn ekki í móti að mæla, tók við manninum, sem honum var færður og hengdi hann í stað Alaeddíns. En Aldanaf hafði vin sinn burt með sjer, og komst með hann heim til sín, án þess nokkur yrði var við. Þakkaði Alaeddín honum af hjarta fyrir lífgjöfina, en hann veitti honum harðar átölur fyrir, að hann hefði unnið þvílíkt svívirðu verk. En Alaeddín sór og sárt við lagði, að hann væri með öllu sýkn saka og vissi ekki heldur enn af dauða sínum, hvernig gripirnir hefðu komizt heim í

*) Eptir ritningum Mahómets manna var Ismael ætlaður til fórnar, en ekki Isaak.

hús sitt. þá mælti Aldanaf: „Fyrirgef mjer ákafa minn, en eg var svo órór og áhyggjufullur þín vegna, að eg hreytti fram ámælum þessum, sem betur hefðu verið ótöluð beggja okkar vegna. Mig grunaði þegar í fyrstu, að allt þetta mundi hafa upptök sín frá hatri og fúlmennsku. Betur að svikaranum hefndist einhverntíma fyrir vjelræði þessi, einsog hann á skilið. En hvað sem því líður, kæri Alaeddín! þá er þjer nú ekki til setu boðið í Bagdad. Konungar taka sjaldan aptur dóma þá, er þeir einusinni hafa upp kveðið, og er lítt mögulegt að komast undan, ef þeir sitja um líf manns. Mun eg nú fara með þig til Alexandriu, og mun þjer ekki veita erfitt að leynast þar.“ Var Alaeddín fús til þess og lögðu þeir samdægris á stað frá Bagdad. þegar þeir voru komnir góðan kipp frá borginni, þá mættu þeir tveimur Gyðingum, sem voru skattheimtumenn kalífans í þeirri sýslu; komu þeir ríðandi á múlum. Hepti Aldanaf för þeirra og skipaði þeim að afhenda sjer skatta þá, er þeir höfðu heimt saman. Færðust þeir undan í fyrstunni, en hann sagði þeim, að hann væri skipaður valdsmaður yfir sýsluna, og fengu þeir honum þá hundrað gullpeninga hver um sig. En til þess að Gyðingarnir ekki skyldu geta borið vitneskju af sjer og Alaeddín, þá drap hann þá báða og tók múlana. Riðu þeir svo sinn hverjum múlnum og komust farsællega til hafnborgar þeirrar, er Ayas heitir; voru þeir þar nætur sakir í gesthúsi einu. Morguninn eptir seldi Alaeddín múl sinn, en Aldanaf bað dyravörðinn í gesthúsinu að geyma sinn, þangaðtil hann kæmi aptur. Stigu þeir síðan á skip eitt, sem ætlaði til Alexandríu og náðu þangað eptir skamma útivist. Og er þeir reikuðu um borgarstrætin þar, þá varð á vegi þeirra kallari nokkur, sem var að bjóða upp sölubúð eina litla með vöruhúsi, er þartil heyrði. Var búið að bjóða níu hundruð og fimmtíu drökmur, þegar þeir komu, en Alaeddín bauð þúsund, og var boð hans þegar tekið gilt; en búð þessi var ríkiseign. Óðara enn Alaeddín var handhafi orðin að lyklunum, þá lauk hann upp búðinni og leizt vel á, því hún var í bezta standi. Í vöruhúsinu voru skildir og sverð, segldúks strangar, akkeris kaðlar, og fullir sekkir af þess konar skeljum og steinum, sem hafðir eru til prýðis á reiðtygi; þar voru og ístöð, hnífar, skæri og margt hvað annað, einsog vænta mátti, því ruslamangari hafði haft búðina áður, en

hann var nú dáinn. Aldanaf rjeði Alaeddín að stunda verzlun, og taka því með þolinmæði, sem guð vildi vera láta. Var hann þar þrjá daga um kyrt, en á fjórða degi kvaddi hann Alaeddín og hóf heimferð sína til Bagdad. Bað hann Alaeddín að skilnaði, að búa í búð þessari, þangaðtil hann gæti komið til hans aptur, og fært honum óyggjandi griðaloforð frá kalífanum; kvaðst hann skyldu verða vakinn og sofinn í því að hafa upp fantinn, sem hafði flekað hann svo níðangalega. Kvaddi hann Alaeddín ennþá einusinni, og stje síðan á skip eitt, er ætlaði til Ayas; komst hann þangað eptir fljóta för, sókti múlinn í gesthúsið og flýtti sjer til Bagdad. Nú með því hann varð opt að ferðast um fjarlægustu hjeröð ríkisins, þá furðaði kalífinn sig ekki á fjærveru hans. Tók hann nú aptur að gegna embætti sínu og lagði alla stund á að komast fyrir, hver stuldinum hefði valdið, svo hann fengi sannað sakleysi Alaeddíns.

Nú er í annan stað að segja, að daginn sem lífláta átti Alaeddín, þá mælti kalífinn til Gíafars: „Nú, nú! vezír! hvernig lízt þjer á tiltektir Alaeddíns? En að nokkur maður skuli geta búið yfir slíkri fúlmennsku og níðingskap!“ „Herra!“ svaraði Gíafar, „hann hefur nú fengið makleg málagjöld, og ættuð þjer að gleyma þrælmenninu.“ „Mjer þækti samt gaman að sjá hann í gálganum,“ mælti kalífinn. Enda fór hann þegar með vezírnum til aftökustaðarins. Og er hann sá manninn í gálganum, þá mælti hann: „Hverju sætir þetta? ekki er þetta Alaeddín; því hann var lítill vexti, en þessi maður er miklu stærri.“ „Það tognar alltjend úr mönnum, sem hengdir eru,“ ansaði Gíafar. „En Alaeddín,“ mælti kalífinn, „var allra manna skinnræstnastur, og þessi maður er blakkur í framan.“ „En þjer vitið, herra!“ mælti Gíafar, „að dauðinn afmyndar menn, og verða líkin föl og bláleit.“ En kalífinn gaf orðum hans engan gaum og ljet taka líkið ofan úr gálganum. Var það vandlega skoðað og höfðu*) nöfnin Abúbekur og

*) Abúbekur og Ómar eru nöfn tveggja hinna fyrstu kalífa, er Sjítar (þ. e. hinir rangtrúuðu) eigi vilja kannast við; rita þeir þau því undir iljarnar og hælana, til að sýna þeim fyrirlitningu. Hefja Sjítar kalífatalið með Alí, dóttursyni Mahómets, og kallast því einnig Alítar. Til þessa trúarflokks heyra Persar. Hinn flokkurinn, (Sunnítar), álítur hina tvo fyrstu kalífa jafntigna hinum síðari, og hefur þar að auki gert munnmæla sögurnar af Mahómet að helgum átrúnaði, en þeim hafna Sjítar með öllu.

Ómar verið brennd í hælana. Þegar kalífanum var sagt það, þá mælti hann: „Sjáðu nú, vezír! Alaeddín var Sunníti, en þessi hefur verið Sjíti.“ Varð þá vezírinn að játa, að vafasamt væri, hvort þetta væri Alaeddín eða ekki. Sagði nú kalífinn, að greptra skyldi líkið, og fór síðan heim í höll sína; sökkti hann sjer niður í stjórnarstörf, svo atburður þessi leið honum fljótt úr minni.

Það var hvorttveggja, að Besasa hafði með svívirðilegum hætti fengið Jasmín á vald sitt, enda voru notin að því skapi, því hún hafnaði ást hans með viðbjóð og fyrirlitningu; fjekk það honum svo mikillar skapraunar, að hann dó eptir stuttan tíma. Um sama leyti ól Jasmín sveinbarn og var það hið fegursta. Spurðu lagssystur hennar, hvaða nafn hún ætlaði að gefa sveininum. „Æ!“ svaraði hún, „ef faðir hans væri á lífi, þá mundi hann velja honum nafn, en fyrst hann er dáinn, þá skal hann heita Kind Aslan (þ. e. ljón).“ Hafði hún hann sjálf á brjósti og dafnaði hann vel og komst fljótt upp á að ganga einsamall. Nú var það einhvern dag, að Jasmín var að bjástra í eldhúsinu eptir vanda, þá staulaðist sveinninn Aslan upp eptir riðinu og kom í salinn þar sem Kaled sat. Fjekk það honum yndis hvað sveinninn var fríður, svo hann gat ekki á sjer setið að knjesetja hann. Virti Kaled hann vandlega fyrir sjer og furðaði sig á, hvað líkur hann var Alaeddín Saknaði nú Jasmín sonar síns og leitaði hans fyrst í eldhúsinu og úti í garðinum; en er hún fann hann hvergi, þá fór hún upp í salinn og sá hvar Kaled sat undir honum og var að leika sjer við hann. Og er sveinninn leit móður sína, þá vildi hann fara til hennar, en Kaled hjelt honum fast í fangi sínu, og spurði hver ætti sveininn. „Það er sonur minn,“ ansaði Jasmín skjálfandi. „Og hver er faðir hans? spurði Kaled. Jasmín svaraði: „Hann hjet Alaeddín Abusch Schamat, og vita allir hvað sorglega fór um hann. En nú á barn þetta engan annan verndarmann enn yður.“ „Mæl ekki slíkt,“ sagði lögreglustjórinn, „heldur þú eg taki að mjer þess manns son, sem uppvís varð að drottins svikum?“ „Æ herra!“ mælti Jasmín, „Alaeddín var einhver hinn dyggasti og trúlyndasti meðal þjóna kalífans, og kom honum aldrei til hugar að níðast á trúnaði herra síns.“ Hafði Kaled fengið einhverja ást á sveininum, fyrst þegar

hann sá hann, en nú fór hann að kenna í brjósti um hann og sagði hann því við Jasmín: „Þegar sonur þinn verður stærri og spyr þig, hver sje faðir þinn, þá skaltu segja honum, að það sje emírinn Kaled, lögreglustjóri í Bagdad.“ Nú er sveinninn var sjö ára gamall, þá ljet Kaled umskera hann og fjekk honum hina beztu kennara; fræddu þeir hann hver í kapp við annan og menntuðu hann að öllu leyti, einsog hann í raun rjettri hefði verið emírs sonur. En Kaled tókst sjálfur á hendur að kenna honum að ríða og skilmast, og hverskonar hernaðaríþróttir. Átján vetra gamall var Aslan orðinn hinn ágætasti riddari, og kom nú engum annað til hugar, enn að hann væri sonur Kaleðs; fannst höfðingjunum í hirðinni svo mikið um kurteisi hans, að þeir lofuðu hann í hverju orði. Kómakóm reyndi og á allar lundir að ávinna sjer hylli hans og tókst það líka; varð svo kært með þeim, að hvorugur mátti án annars vera. Einusinni sátu þeir í veitingahúsi, og tók þá Kómakóm upp gullstikuna, sem kalífanum hafði þókt svo mikið fyrir að missa, setti hana fyrir framan sig, og skemmti sjer við að horfa á birtuna, sem stóð af gullinu og demöntunum. Drakk hann jafnharðan hvert staupið á fætur öðru.

En Aslan leizt svo vel á gullstikuna, að hann bað Kómakóm að láta sig fá hana. En það kvaðst Kómakóm með engu móti geta, því maður nokkur hefði látið líf sitt fyrir stikuna. „Hvaða maður var það?“ spurði Aslan forviða. — „Það var útlendingur nokkur, sem kalífinn hafði gert að forseta í sextíu manna ráðinu; hann nefndi sig Alaeddín Abusch Schamat.“ — „En hvernig er gullstika þessi þar við riðin?“ mælti Aslan. Þá sagði Kómakóm í hálfum hljóðum: „Þjer áttuð bróður einn, er Besasa hjet; þegar hann hafði aldur til kvonfangs, þá ætlaði Kaled faðir þinn að kaupa handa honum ambátt“ . . . . Og nú sagði Kómakóm honum alla söguna, hversu ambáttin Jasmín var keypt, hversu hann sjálfur stal gripunum í höll kalífans og faldi þá í húsi Alaeddíns, og hversu þetta varð til þess að Alaeddín var líflátinn. Varð Aslan hlessa á sögu þessari og fór að gruna margt. Hann hugsaði með sjálfum sjer: Jasmín þessi er víst sú hin sama, sem mig hefur borið og fætt, og hlýtur þá Alaeddín Abusch Schamat að vera faðir minn. Hafði hann nú enga eirð á sjer og flýtti sjer heim,

en á leiðinni varð valmennið Aldanaf á vegi hans. Sjer Aldanaf nokkuð það í yfirbragði og líkamaburði hins unga manns, er honum þykir furðu gegna, svo hann nemur staðar og kallar hátt: „Undur er það, hvað hann er líkur honum; hann er svo líkur Alaeddín, að enginn getur líkara sjeð.“ Gekk hann þá að Aslan og bað hann segja sjer, hvað faðir hans hjeti. Þá mælti Aslan: „Faðir minn heitir Kaled og er lögreglustjóri í Bagdad.“ „Og hvað heitir móðir yðar?“ spurði Aldanaf. „Hún heitir Jasmín,“ ansaði Aslan, „og er ambátt lögreglustjórans.“ „Er það satt?“ segir Aldanaf, „er Jasmín móðir yðar? ef svo er, þá hlýtur Alaeddín að vera faðir yðar. Farið og spyrjið móður yðar; hún mun geta sagt yður margt, sem yður er ekki vanþörf á að vita.“ Þókti Aslan þetta kynlegt og fór til móður sinnar; kallaði hana á eintal og læsti að þeim. Bað hann hana að segja sjer, hver faðir sinn væri. Brá Jasmín nokkuð við spurningu hans og svaraði: „Hann Kaled, lögreglustjóri í Bagdad er faðir þinn.“

„Nei, nei!“ sagði Aslan, „nú gabbar þú mig; faðir minn heitir Alaeddín Abusch Schamat.“ Og sem Jasmín heyrði Alaeddín nefndan, þá rifjuðust svo margar raunir upp fyrir henni, að hún flaut öll í tárum og spurði son sinn, hver hefði birt honum leyndarmál þetta; kvaðst hún þó bæði vel og lengi hafa geymt það í fylgsnum hjarta síns. „Það hefur Aldanaf sagt mjer,“ ansaði hann, og sagði henni síðan allt sem farið hafði. Þá mælti Jasmín: „Elsku sonur! sannleikurinn mun í ljós koma, þó síðar verði, en lygin mun um koll hrynja. Já, elsku sonur! Alaeddín var faðir þinn, en Kaled er fóstri þinn og hefur gengið þjer í föður stað og veitt þjer ágætt uppeldi.“ Nú er Aslan hafði fengið fulla vissu um faðerni sitt, þá flýtti hann sjer á fund Aldanafs, kyssti á hönd hans og mælti: „Nú hefur Jasmín sannað það sem þjer fyr sögðuð; og hef eg heyrt nafn Alaeddíns föður míns af hennar eigin munni. Veit eg hversu trygga og einlæga vináttu þjer báruð til hans, og bið eg yður því fulltingja mjer til að hefna dauða hans og refsa þeim, er bjó honum banaráðin.“ „Hver rjeð honum bana,“ spurði Aldanaf forviða. „Það gerði fúlmennið Kómakóm,“ ansaði Aslan. „Hvernig hafið þjer komizt að því?“ mælti Aldanaf. Þá svaraði Aslan og var mikið niðri fyrir: „Eg sá hjá Kómakóm

gullstikuna, sem hvarf frá kalífanum; bað eg hann gefa mjer hana, en hann vildi ekki, og kvað dauða eins manns hafa hlotizt af henni; sagði hann mjer þá frá því, er hann stal henni frá kalífanum ásamt öðrum gersemum, og faldi svo alltsaman í húsi föður míns.“ Aldanaf mælti: „það tjáir ekki, vinur! að hrapað sje að þessu, og verðið þjer fyrst að kynna yður að afreki nokkru, áður enn þjer berið þetta upp fyrir kalífanum. Nú er þjer sjáið Kaled búast embættisbúningi sínum og hertygjum, þá skuluð þjer biðja hann lofa yður að fylgjast með. þegar þjer svo eruð kominn þangað, sem hirðin öll er fyrir, þá reynið að gera yður eitthvað til frægðar, svo kalífinn taki eptir yður. Og ef hann þá segir: „þetta líkar mjer, Aslan! bið mig bænar nokkurrar,“ þá skuluð þjer biðja hann að taka hefndir á föðurbana yðrum. Og með því hann er í sömu villunni og aðrir, mun hann segja að faðir yðar sje ennþá heill og á lífi; skuluð þjer þá segja honum að Alaeddín sje faðir yðar, en Kaled hafi aðeins veitt yður fóstur. Segið honum svo ítarlega frá tilverknaði Kómakóms og biðjið hann að láta leita á honum samstundis, svo framburður yðar megi sannast.“ Fór nú Aslan heim til Kaleðs. Svo bar til einn dag að kalífinn ætlaði að halda liðkönnun, og hafði Kaled búið sig að öllu til að vera við hana; bað þá Aslan hann að lofa sjer með. Gerði Kaled það fúslega og fóru þeir nú báðir útá sljettlendi nokkurt fyrir utan borgina; hafði kalífinn látið reisa þar búðir og tjöld. Var öll hirðin þar saman komin og hernum skipað í fylkingar. Meðan stóð á liðkönnuninni, hjelt Aslan sjer ávallt í nánd við Kaled. Voru nú leiknar ýmsar hernaðar íþróttir, en því næst átti að leika kylfuleik til skemmtunar kalífanum. Var þá komið með kylfur og knetti, og tóku ýmsir riddarar að sýna snilld sína og slóu knöttunum hverjir til annara. En á meðal þeirra var einn, sem óvinir kalífans höfðu sent til höfuðs honum. Keyrði hann knöttinn beint á andlit kalífanum, en Aslan brá svo fljótt við, að hann gat slegið hann aptur á þann, er sent hafði, kom knötturinn á bringspalir honum, og fjell hann við það af hestinum. Sá kalífinn hvílíkur lífsháski sjer hafði verið búinn og kallaði hátt: „Veri sá maður margblessaður, sem nú frelsaði líf mitt!“ Var leiknum þegar hætt og bauð kalífinn, að menn leiddi fyrir sig hinn ofdirfskufulla mann, sem

vogað hefði að beina að sjer knettinum. Kalífinn mælti til hans: „Hver hefur ginnt þig til að fremja slíka óhæfu? Ertu vinur minn eða óvinur?“ „Óvinur,“ svaraði riddarinn fullum hálsi; „eg sat um líf þitt.“ „Hversvegna?“ spurði kalífinn, „ertu ekki sanntrúaður múselmaður?“ „Nei, það er eg ekki, einsog þú mátt nærri geta,“ svaraði hann, „eg er einn af flokksmönnum kalífans Alý og það tel eg mjer til lofs.“ Skipaði þá kalífinn mönnum sínum að leiða hann til lífláts. Því næst vjek hann sjer að Aslan og mælti: „Þú hin unga hetja! þjer á eg líf mitt að þakka; bið mig nú einhverrar bænar.“ Aslan hneigði sig djúpt og mælti: „Drottinn rjetttrúaðra manna! eg bið yður að taka hefndir á föðurbana mínum.“ Kalífinn svaraði: „Mjer sýnist ekki betur enn að hann faðir þinn sje þarna hjá þjer, og er guði svo fyrir þakkandi, að honum líður vel.“ „Þar skjátlast yður“, mælti Aslan, „því Kaled er ekki nema fóstri minn, en ógæfumaðurinn Alaeddín Abusch Schamat var faðir minn.“ „Þú ert þá sonur drottinssvikara,“ mælti kalífinn. „Faðir minn var aldrei svikari,“ ansaði Aslan, „hann var einhver hinn dyggasti og trúlyndasti af þjónum yðar.“ Kalífinn segir: „Var það þó ekki hann, sem stal frá mjer skikkju minni og hinum ágætustu gersemum?“ „Drottinn rjetttrúaðra manna!“ ansaði Aslan með þótta nokkrum, „faðir minn hefur aldrei þjófur verið. Bið eg yður segja mjer, hvort gullstikan fylgdi með, þegar yður voru fengnir gripirnir aptur.“ „Eg hef aldrei getað fengið hana aptur,“ ansaði kalífinn. „Þá hef eg,“ mælti Aslan, „sjeð gullstiku þessa í höndum Ahmeðs Kómakóms. Bað eg hann að gefa mjer hana, en hann synjaði þess, og kvað dauða eins manns hafa hlotizt af henni.“ Sagði nú Aslan kalífanum frá allri atferð Kómakóms og lauk þannig máli sínu: „Nú særi eg yður enn að síðustu, að þjer hefnið föður míns á morðingja þessum.“ Bauð kalífinn þegar að menn skyldu taka Kómakóm fastan og leiða hann fram fyrir sig. Og sem hann sá hann, þá leit hann til höfuðvarða sinna, ef hann sæji Aldanaf á meðal þeirra. En er hann sá hann hvergi, þá sendi hann mann eptir honum með þau boð, að hann skyldi leita á Kómakóm. Aldanaf gerði svo og dró hann gullstikuna demantskreytta upp úr barmi Kómakóms. „Þú hinn vondi svikari! „mælti kalífinn, „hvar hefur þú fengið gersemi þessa?“ „Eg hef keypt hana,“ svaraði Kómakóm

blygðunarlaust. „þú ert lygari,“ sagði kalífinn með fyrirlitningar svip; „hefur þú framið slíkt ódæði til þess að fyrirkoma Alaeddín, sem var hinn dyggasti af öllum þjónum mínum. Ljet hann síðan veita Kómakóm iljastroku og meðgekk hann eptir nokkur högg; var honum þá varpað í dýflissu. Grunaði kalífann að Kaled hefði verið í vitorði með honum og vildi líka láta setja hann fastan. þá mælti lögreglustjórinn: „Drottinn rjetttrúaðra manna! eg er saklaus af glæp þessum, og grunsemd yðar ástæðulaus; hef eg að vísu leiðt Alaeddín til líflats, en það gerði eg eptir yðar skipun, og sver eg það, að mjer var með öllu ókunnugt, að Kómakóm sat á svikráðum við hann. Hefur Kómakóm hugsað upp þetta svívirðilega vjelræði til þess að geta náð ambáttinni Jasmín, en það hefur aldrei verið á mínu vitorði.“ Að svo mæltu vjek hann sjer að Aslan og sagði: „Svo framarlega sem þú ber nokkurn ræktarhug til mín fyrir elsku þá og alúð, sem eg hef auðsýnt þjer allt í frá barnæsku og fram á þenna dag, þá er þjer nú skylt að biðja mjer líknar.“ Viknaði Aslan þá, er hann sá hversu komið var fyrir velgjörðamanni hans, og bað honum miskunar. Kalífinn spurði lögreglustjórann, hvað orðið væri af móður Aslans, og er hann heyrði að hún væri hjá honum enn, þá mælti hann: „Seg þú móður þinni, að hún búist slíkum klæðum, er samboðin sjeu mannvirðingu þeirri, er maður hennar hafði; skal hún og samstundis vera frjáls kona. En þú Kaled! skalt sjálfur brjóta innsigli það, er þú settir á höll Alaeddíns og selja öll auðæfin í hendur syni hans.“ Hlýðnaðist lögreglustjórinn rækilega skipun þessari; hann fór heim og skipaði konu sinni að gefa Jasmín frelsi og fá henni klæði, sem við hennar hæfi væru. Eptir það fór hann til hallar Alaeddíns, braut af innsiglið og fjekk Aslan lyklana. En kalífinn ljet ekki þar við sitja; hann bað Aslan að biðja sig einnar bænar ennþá og kvaðst þegar skyldu veita honum hana. Svaraði Aslan, að ekki væri nema eitt, sem hann óskaði sjer, og það væri, að honum mætti auðnast að sjá föður sinn aptur. þá fjekk kalífinn eigi tára bundizt og mælti: „Æ! sonur kær! hann faðir þinn er ekki framar á lífi. Enginn mundi verða fegnari enn eg, ef eg vissi hann lífs, og þeim manni, sem færði mjer slík fagnaðartíðindi, mundi eg einskis synja, er hann beiddi mig.“ En er Aldanaf

heyrði kalífann mæla þannig, þá fjell hann fram fyrir hann og mælti: „Drottinn rjetttrúaðra manna! er mjer hættulaust að tala?“ „Tala þú óhræddur,“ ansaði kalífinn. — Þá þori eg að segja yðar hátign fyrir fullt og fast, að Alaeddín Abusch Schamat er enn á lífi og kennir sjer einskis meins.“ — „Er það satt?“ mælti kalífinn og hnykkti honum við af undrun. „Herra!“ svaraði Aldanaf, „eg sver það við yðar helga höfuð, að eg tala hreinan sannleik. Eg ljet drepa sakamann nokkurn í stað Alaeddíns, og forðaði eg honum svo frá bráðum bana, fór eg með hann til Alexandríu og keypti þar sölubúð handa honum.“ Varð nú kalífinn frá sjer numinn af fögnuði og mælti: „Eg vil sjá hann; farðu nú samstundis til Alexandríu og sæktu hann.“ Hneigði þá Aldanaf sig djúpt til merkis um hlýðni sína. Ljet konungur fá honum þúsund gullpeninga og fór hann þá samstundis á stað til Alexandríu.

Nú víkur aptur sögunni til Alaeddíns. Hafði hann leitazt við að selja vörur sínar og komið talsverðu út. Nú hafði hann í skúmaskoti einu fundið skinnpoka dálítinn; var dýrindis steinn í pokanum og hjekk við gullfesti. Var steinninn svo stór, að hann fyllti lúku manns; hann var þrístrendur og nafn eitt með galdrastöfum rist á hvern flöt, var það líkast á að sjá sem maurafór í sandi. Hjelt Alaeddín að steinninn væri verndargripur, en hvað opt og ákaft sem hann neri hann, þá kom samt enginn andi til að gera vilja hans. Og er allar tilraunir hans urðu árangurslausar, þá hengdi hann steininn upp í búð sinni. En einusinni gekk kaupmaður nokkur frá Norðurálfu framhjá búðinni og sá hann steininn; gekk hann þá nær og spurði hvort steininn væri falur. „Já,“ svarar Alaeddín, „hann er falur einsog allt annað, sem hjer er í búðinni. Bauð þá kaupmaðurinn honum áttatíu þúsundir gullpeninga. En Alaeddín kvaðst ekki geta selt hann fyrir það. Bauð hinn þá hundrað þúsundir gullpeninga og það boð ljet Alaeddín sjer lynda. Þá mælti kaupmaðurinn: „Þjer getið því nærri, að eg get ekki fært yður hingað slíkt ógrynni peninga, því hjer í borginni er fullt af ræningjum og bíræfnum hermönnum. En ef þjer viljið ómaka yður út á skip mitt, þá skal eg enda í þokkabót gefa yður eitt stykki af kamelotsvefnaði, eitt af silkivefnaði, eitt af flossilki, og enn eitt, sem þjer megið velja sjálfur.“ Alaeddín

tók boði þessu feginshugar og fjekk kaupmanni steininn; síðan lokaði hann búðinni, fjekk einum af nábúum sínum lyklana og bað hann að geyma þá, þangaðtil hann kæmi aptur. Hann sagði honum einnig, hvert hann færi og mælti að endingu: „Ef svo skyldi fara, að eg yrði nokkuð lengi í burtu, og skyldi Aldanaf vinur minn koma, þá fáið honum lyklana og segið honum, hvernig á burtför minni stóð í þetta skipti.“ Fór nú Alaeddín út á skip með kaupmanninum. Voru þeim undireins færðir stólar og ljet kaupmaður sækja peningakistu sína; tók hann úr henni hundrað þúsundir gullpeninga einsog áskilið var, og fjekk Alaeddín, því næst gaf hann honum fjögur stykki af vefnaði einsog hann hafði lofað, og mælti: „Viljið þjer nú ekki gera mjer þá ánægju, að taka morgunverð hjá mjer og fá yður hressingu.“ Alaeddín svarar: „Mjer væri þökk á einni skál með sætum svaladrykk, ef þjer skylduð hafa þesskonar fyrir hendi.“ Nú er þess að geta, að kaupandi steinsins var reyndar ekki kaupmaður, heldur var hann yfirmaður á skipinu og hafði búizt kaupmanns gervi, til þess að sjer veitti því hægra að blekkja Alaeddín. Gerði hann nú einum af þjónum sínum bendingu, að hann skyldi koma með drykkinn; fleygði hann svefndupti í hann svo enginn sá, og jafnskjótt sem Alaeddín hafði rennt út skálina, þá valt hann aptur á bak af stólnum. Voru hásetar slíku vanir, brugðu þeir því óðara við og ljettu akkerum, undu upp segl og ljetu ganga á haf; var á blásandi byr og bar þá skjótt út í rúmsjó. Nú ljet yfirmaðurinn bera Alaeddín af þiljum ofan og niður í skipið; hjelt hann þar annarskonar dupti fyrir vit honum, sem eyddu áhrifum svefnduptsins. Lauk þá Alaeddín upp augum sínum og spurði með undrun, hvar hann væri. „Þjer eruð í mínu valdi,“ ansaði yfirmaðurinn og hló kaldahlátri. „Og hvað manna eruð þjer?“ spurði Alaeddín. „Eg er fyrirliði á skipi þessu,“ ansaði Norðurálfumaðurinn, „eg kom rakleiðis frá Genúu til Alexandríu til þess að ræna yður handa unnustu minni.“ Nokkrum dögum síðar sást skip eitt, og voru á því fjörutíu kaupmenn frá Alexandríu. Bauð skipsforinginn þegar, að elta skyldi skipið, og sem hann hafði náð því, ljet hann greiða uppgöngu og urðu þá kaupmenn að gefast upp. Sigldi hann síðan til Genúu og hafði kaupfarið í eptirdragi. En áður hann

sigldi inn á höfnina, þá ljet hann skjóta sjer á land, og gekk aleinn til hallar nokkurrar, er stóð þar á sjáfarbakkanum. Kom þar ung kona til móts við hann; hún hafði þykka skýlu fyrir andliti, og spurði hún skipsforingjann, hvort hann kæmi nú með steininn góða og þann sem átt hefði. Skipsforinginn kvaðst hafa hvorttveggja og fjekk henni steininn, kom hann síðan út á skipið aptur, sigldi inn á höfnina og hleypti af fallstykkjum sínum. Og er konungi var sögð tilkoma hans, þá fór hann út á skip með varðliði sínu og spurði hann, hversu förin hefði heppnazt. „Í bezta lagi,“ ansaði skipsforinginn, „því eg kem með skip eitt, sem ekki eru færri á enn fjörutíu kaupmenn, og allir saman múselmenn.“ Bauð konungur þá að flytja þá á land; voru þeir leiddir upp í borgina til ríkisráðsins, og voru bundnir tveir og tveir saman. Fylgdi konungur þeim ásamt með skipsforingjanum og helztu hirðmönnum sínum. Sezt nú konungur í hásæti og lætur skipsforingjann setjast í lægra sæti á hægri hönd sjer; skipar hann mönnum að leiða fram heiðingjana. Spurði hann þann, sem fyrst var fram leiddur, hver hann væri. Hann kvaðst vera frá Alexandríu. Benti þá konungur böðlinum og hjó hann óðar á háls honum, svo höfuðið fauk af bolnum. Og eins fór með hinn annan og hinn þriðja og alla hina fjörutíu, að allir svöruðu hinu sama og allir voru höggnir. Var þá enginn eptir nema Alaeddín; harmaði hann sáran ófarir fjelaga sinna og bað til guðs, að hann mætti deyja með þeim hið bráðasta; beið hann vongóður þangaðtil að sjer kæmi. „Hvaðan ert þú hinn heiðni hundur?“ spurði konungur reiðuglega. „Frá Alexandríu,“ svaraði Alaeddín. „Gerðu þá skyldu þína, böðull!“ mælti konungur. En í því böðullinn reiddi til höggs, kom gömul nunna og tróð sjer gegnum mannþröngina að hásæti konungs. Stóð þá konungur upp í lotningar skyni og svo gerðu allir þeir, er viðstaddir voru. „Herra!“ mælti nunnan, „munið þjer ekki, að eg bað yður að minnast klaustursins, ef skipsforinginn kæmi með nokkra bandingja, og mæltist eg til, að þjer ljetuð einn eða tvo lifa, svo þeir yrðu hafðir í þarfir kirkjunnar.“ „Þjer komið heldur seint, móðir góð!“ segir konungur, „en þarna er nú einn eptir og hann er yður velkominn.“ Nunnan spurði nú Alaeddín, hvort hann vildi vinna kirkjunni til þarfa; kvað hún honum eigi

annars von enn lífláts, ef hann skoraðist undan. Sá Alaeddín eigi annað sýnna enn að taka boði þessu, og fór nunnan þegar með hann til klaustursins. Alaeddín spurði nú, hvaða verk það væru, sem honum væri ætlað að vinna. Nunnan mælti: „Undireins og lýsir af degi, skaltu fara út í skóg með fimm múlasna og sækja þurran við til eldhússins í klaustrinu; þar næst skaltu taka gólftjöldin og sefmotturnar, berja þær vel og busta úr þeim rikið; skaltu sópa og fægja kirkjugólfið og altarisgráturnar, en þær eru úr marmara; skaltu svo leggja gólftjöldin þar sem þau lágu áður. Að því búnu skaltu sælda hálfa skeppu hveitis, mala það og búa til deig; skaltu hnoða deigið vandlega og baka smábrauð úr því handa munkunum í klaustrinu. Því næst tínirðu sex mæla af flatbaunum og sýður þær; fyllir svo með vatni fjórar þrór og hundrað og sextíu steintrog, sem standa úti í garðinum. Þegar það er búið, skaltu hreinsa lampana og hella á þá olíu, skaltu kveikja á þeim við fyrsta klukkuhögg; að endingu áttu að þvo þrjú hundruð sextíu og sex skálar og skera niður í þær smábrauðin, ausa í þær baunavellingnum og færa hverjum munki og hverjum presti sína skál.“ „Nei! góða kona!“ mælti Alaeddín, „nú verð eg að biðja yður fyrir guðs sakir, að fara með mig aptur til konungsins og lofa honum að höggva af mjer höfuðið, ef honum gott þykir.“ Nunnan svaraði: „Ef þú gegnir skyldu þinni rækilega, þá mun allt fara vel, en ef þú ert hyskinn og tómlátur, þá neyðist eg til að ofurselja þig konunginum, og mun hann óðar láta drepa þig.“ Að svo mæltu gekk nunnan burt, en Alaeddín settist niður út í horni. Meðal annara voru sex blindir krypplingar í klaustri þessu. Hafði einn þeirra heyrt fóthljóð Alaeddíns, og beiddi hann nú að rjetta sjer næturgagnið. Varð Alaeddín að gera honum þenna greiða og þar til að steypa úr næturgagninu aptur. En krypplingurinn þakkaði honum og mælti: „Guð almáttugur blessi klausturþjóninn!“ En í þessu bili kom nunnan gamla og spurði Alaeddín önuglega, því hann væri ekki farinn til vinnu sinnar. „Æ! góða kona!“ svaraði hann, „þó eg hefði hundrað hendur, þá væri mjer ómögulegt að komast yfir öll þessi ósköp.“ — „Til hvers heldur þú þá, að eg hafi farið með þig hingað? ætli það hafi ekki verið til þess, að þú gerðir það sem eg skipa þjer?“ Þetta sagði nunnan með þjósti, en blíðkaðist

þó rjett á eptir og mælti: „Taktu við staf þessum, sonur sæll!“ það var koparstafur ogkrossmark á honum framanverðum; „far með hann úr klaustrinu, og skyldir þú mæta lögreglustjóranum hjer í borginni, þá skaltu ganga í veg fyrir hann og segja: „Eg kalla þig til vinnu í kirkjunnar þarfir; taktu þessa fimm múlasna og sæktu þurran eldivið í skóginn.“ En ef hann færist undan, þá skaltu lemja hann; og máttu gera það óhræddur. Ef þú hittir stórvezírinn, þá skaltu keyra stafinn niður í jörðina fyrir framan hest hans, og skaltu með líkum hætti skipa honum að sælda hveiti, mala það og búa til úr því brauð handa munkunum. Og hvern þann, sem undan skorast að hlýða, hann máttu strax drepa og þarftu ekkert að hræðast, því eg tek alla ábyrgðina upp á mig.“ Daginn eptir fór Alaeddín úr klaustrinu og gafst honum ráðlegging nunnunnar prýðilega; þorði enginn annað enn að hlýðnast skipun hans. Með þessum hætti var hann seytján ár í klaustrinu, og kvaddi hann eptir hugþótta háa og lága til að vinna í klaustrinu. Einn dag var hann sjálfur að dunda eitthvað útí kirkjunni; kom þá nunnan gamla heldur gustmikil og skipaði honum að fara. Spurði Alaeddín, hvert hann ætti að fara. „Þú verður að fara burt hjeðan,“ sagði nunnan, „og í nótt verður þú annaðhvort að vera í gestaherbergi eða hjá einhverjum af vinum þínum.“ „Því viljið þjer þá endilega hafa mig burt úr kirkjunni?“ spurði Alaeddín. „Svo er mál með vexti,“ svaraði nunnan, „að dóttir konungs er ávallt von að koma hingað á þessu kvöldi, til að gera bæn sína; má þá enginn maður verða á vegi hennar.“ Alaeddín ljet nú einsog hann ætlaði að hlýðnast skipun nunnunnar, en hugsaði með sjálfum sjer: það er annaðhvert um það, að eg fer ekki burt úr kirkjunni, þegar svo hátíðlegur viðburður er fyrir höndum; eg hef þjónað henni of lengi til þess. Vil eg hafa skemmtun af að horfa á kóngsdóttur, og þykir mjer gaman að sjá, hvort kvennfólkið hjer er fegra enn í voru landi. Fór Alaeddín hvergi, en faldi sig út í horni og bjó svo um sig, að hann gat horft á allt í makindnm. Kom nú kóngsdóttir og var hún svo fögur, að Alaeddín þókti sem hann sæji mánann bruna fram úr skauti skýjanna. Virti hann hana lengi fyrir sjer, en síðan horfði hann á konu þá, er fylgdi henni; heyrði hann að kóngsdóttir sagði við hana: „Mjer þykir ofur vænt um það,

Sobeide mín! að þú verður hjá mjer.“ Og er Alaeddín heyrði Sobeide nefnda, þá fór hann að gá betur að, og varð nú frá sjer af undrun og fögnuði, því hann sá að þarna var Sobeide komin, hin ástkæra eiginkona hans, sem hann fyrir löngu hugði dauða. Kóngsdóttir tók þá fiðlu, rjetti hana að Sobeide og bað hana að syngja. Þá mælti Sobeide: „Eg get með engu móti sungið fyr enn þjer efnið það, sem þjer hafið lofað mjer.“ „Og hverju hef eg þá lofað þjer?“ spurði kóngsdóttir. „Þjer hafið heitið að samtengja mig aptur Alaeddín, bónda mínum.“ „Grem nú ekki geð þitt lengur, Sobeide!“ mælti kóngsdóttir, „það er vísast, að ekki sje svo langt þangað til þjer auðnast að njóta þess, sem þjer er kærast. Syngdu nú fyrir mig eitthvert fjörugt gleðilag, fyrst að slíkur feginsfundur er fyrir höndum.“ Varð þá Sobeide himinglöð og mælti: „Hvar er hann? hvar er hann?“ Hafði kóngsdóttir sjeð Alaeddín, og sagði í hálfum hljóðum: „Hann hefur falið sig hjer nálægt og heyrir hvert orð, sem við tölum.“ Þá rjeði Sobeide sjer ekki fyrir fögnuði og söng eitthvert hið blíðasta og hjartnæmasta kvæði, og ljek svo yndislega á hljóðfærið, að Alaeddín gat ekki lengur setið á sjer; hljóp hann fram úr felunum og vafði hana að hjarta sínu. Sje svo á þau ómegin, er þau lágu hvert í annars faðmi, en kóngsdóttir stumraði yfir þeim og stökkti á þau rósavatni. Og er þau röknuðu við aptur, þá samfagnaði hún þeim með blíðu. „Við eigum yður lán okkar að þakka,“ sagði Alaeddín. Leit hann ástríkum augum til konu sinnar og mælti: „Þú lifir þá ennþá, Sobeide mín!“ Svaraði hún þá með klökkum málrómi: „Lifað hef eg alltaf og þráð með andvörpum til þeirrar stundar, að við mættum aptur finnast. Eg var numin burt af anda nokkrum voldugum, og þar sem þú hugðist sjá lík mitt, þá var það reyndar annar andi, sem tók á sig mína mynd og líkingu, og ljezt vera dauður. En er þú hafðir jarðsett andann, þá stje hann undireins upp úr gröfinni og hvarf aptur til drottningar sinnar, konungsdótturinnar Husn Mariam, sem þarna stendur. Þegar eg lauk upp augum mínum og sá hana hjá mjer, þá spurði eg hana, hver hefði flutt mig þangað. Svaraði hún þá: „Forlögin hafa svo fyrir skipað, að eg skyldi líka verða kona Alaeddíns; er þjer nokkuð móti skapi, að við sjeum báðar jafnt um ástir hans? Eg hef komizt að því

með kunnáttu minni, að ógæfa mikil vofir yfir höfði honum. Og með því enginn vegur var að afstýra henni, þá vildi eg samt láta þig komast hjá, að sjá mann þinn í slíkum voða; ljet eg því flytja þig hingað, svo við gætum huggað hver aðra, þar sem við erum skildar frá manni þeim, er við unnum. En skilnaður þessi verður aðeins um vissan tíma.“ Hef eg svo verið hjá þessari ástríku köngsdóttur allt fram á þessa stund.“ Kóngsdóttirin vjek sjer nú að Alaeddín og spurði, hvort hann væri einráðinn í því að eiga sig fyrir konu. „Tignarlega kóngsdóttir!“ svaraði hann, „eg trúi á Mahómet, en þjer eruð kristin kona.“ þá mælti kóngsdóttir: „þeim meinbugum hefur drottinn hrundið af gæzku sinni, og eru nú átján ár síðan eg komst svo niður í höfuðlærdómum Islams trúar, að eg játaði hana að vera þá einu sönnu trú.“ „En mjer er hugur á að komast aptur til Bagdad,“ sagði Alaeddín og stundi við. „það er líka vilji forlaganna,“ mælti Mariam, „og mun ósk yðar bráðum verða framgengt. Get eg og sagt yður þær frjettir, sem yður mun þykja vænt um. þjer eigið son á lífi átján vetra gamlan; hann heitir Aslan og hefur nú sömu metorð hjá kalífanum og þjer höfðuð fyrrum. Vefur vonzkunnar og svikanna er sundur rifinn, og guð hefur látið sakadólginum hefnast eptir maklegleikum fyrir illgjörðir sínar. það er orðið uppvíst, hver gripunum stal frá kalífanum, og var það illmennið Kómakóm; situr hann nú fjötraður í myrkvastofu. Skuluð þjer og vita, að það var eg, sem kom til yðar töfrasteininum í skinnpungnum, sem þjer funduð í búðinni. Eins var það eptir mínu boði, að skipsforinginn sókti yður ásamt með töfrasteininum. Vildi hann eiga mig, en eg svaraði, að honum væri til einskis að leita þeirra mála, nema hann færði mjer steininn og eigandann líka. Fjekk eg honum hundrað gullsjóði, til að kaupa fyrir steininn, og ljet hann búast kaupmanns gerfi. Og er konungurinn, faðir minn, hafði látið drepa fjörutíu landa yðar, og ætlaði að láta hálshöggva yður, þá sendi eg nunnuna gömlu til að forða lífi yðar.“ þá mælti Alaeddín: „Ó! hversu mikið á eg yður að þakka, en sú er þó velgjörðin, sem út yfir tekur, að þjer kjósið mig til eiginmanns.“ Ítrekaði nú kóngsdóttir trúarjátningu sína í viðurvist Alaeddíns og kvadst í lífi og dauða skyldu halda við átrúnað Mahómets. Bað Alaeddín hana því næst

að segja sjer, hver náttúra fylgdi steininum og hversu hún hefði eignazt hann. Kóngsdóttir svaraði: „Steinninn hefur fimmskonar náttúru, og má það verða okkur að liði, ef þörf gerist. Amma mín var hin fróðasta í allskonar fjölkynngi og kunni að lesa úr flóknustu rúnum; gat hún farið í fjehirzlur hvaða konungs, sem hún vildi, og hvar á jarðríki sem vera skyldi. Fann hún einhverju sinni stein þenna í fjehirzlu nokkurri, hafði hann verið þar vandlega geymdur. Þegar eg var komin á fjórtánda árið, var eg látin lesá í guðspjöllunum. En með því eg fann hvervetna nafn Mahómets, það blessaða nafnið, bæði í Mósebókum, í guðspjöllunum, sálmunum*) og kóraninum, þá varð eg af öllu hjarta sannfærð um, að trú Mahómets manna er sú eina sanna trú. Þegar amma mín lagðist veik, þá gaf hún mjer steininn og sagði mjer náttúru hans. Og er henni elnaði sóttin, fór faðir minn á fund hennar og bað hana fyrir krapt fjölkynngi sinnar að segja sjer ókomin forlög sín, og þó einkum, hvaða dauðdaga hann ætti fyrir höndum. „Sonur kær!“ svaraði amma mín, „þjer væri hollara að eg sagði þjer ekki forlög þín fyrir fram; en fyrst þú neyðir mig til þess með beiðni þinni, þá skaltu vita, að útlendingur nokkur frá Alexandríu mun veita þjer bana.“ Sór þá faðir minn, að hann skyldi láta drepa alla þá menn frá Alexandríu, sem þegnar hans kæmu höndum á. Sendi hann eptir skipsforingjanum, sem flutti yður hingað, og lagði svo fyrir hann, að hvenær sem hann mætti skipi, sem hefði Mahómets átrúendur innanborðs, þá skyldi hann ráðast á það; skyldi hann drepa alla bandingja sína, sem frá Alexandríu væru. Var skipsforinginn illmenni og hlýðnaðist grimmdarboði þessu helzt til vandlega; mun hann víst hafa drepið fleiri átrúendur Mahómets enn hár eru á höfði yðar. Eptir andlát ömmu minnar var mjer hugur á að grennzlast eptir, hver það væri, sem eptir vilja forsjónarinnar ætti að verða maður minn; varð eg þess vísari fyrir fjölkynngi mína, að það var Alaeddín Abusch Schamat, vinur og trúnaðarmaður kalífans Haruns Alraschiðs.“

Alaeddín undraðist mjög og viknaði, er hann heyrði þessi orð

---

*) Átrúendur Mahómets halda að rit þessi, einsog þau nú eru, sjeu fölsuð, og hafi allar tilvísanir til Mahómets verið felldar úr með ásettu ráði.

kóngsdóttur. Ljet hann í ljósi, hversu vænt sjer þækti að fá slíkrar konu, sem hafði orðið svo mikillar guðlegrar náðar aðnjótandi, og auðsýnt honum svo miklar velgjörðir. En samt vildi hann ákaft halda á stað til Bagdad, og kvaðst þá kóngsdóttir skyldu annast allan undirbúning til ferðarinnar. Fylgdi hún honum til hallarinnar eptir leynivegum, sem enginn þekkti nema hún ein; lokaði hún hann inni í einu af herbergjum sínum og fór á fund föður síns. Hann var þá genginn til borðs og var í þungu skapi. Bað hann Mariam að vera hjá sjer og var hún þess allfús. Bauð konungur öllum að fara út, sem viðstaddir voru; sætti þá Mariam lagi og hellti svo opt á staup hans, að hann gerðist drukkinn. Ljet hún svefndupt í skál eina, hellti svo á hana og rjetti konungi. Og sem hann hafði tæmt hana, þá valt hann aptur á bak af stólnum. Skundaði Mariam þá til Alaeddíns og sagði honum, hversu komið var. Fór hann inn í herbergið þar sem konungur var, og batt á honum hendur og fætur. Hjelt hann dupti fyrir vit honum, sem ónýtti áhrifin af svefnduptinu. Vaknaði þá konungur og brá mjög í brún, er hann sá sig bundinn og útlendan mann hjá sjer. Ámælti Alaeddín honum fyrir grimmdarverk þau, er hann hafði unnið á játendum Mahómets trúar og kvað það vera eina ráðið til að friðþægja fyrir slíka glæpi, ef hann tæki Mahómets trú. En konungur hafnaði þeim kosti með andstyggð og valdi Mahómet hæðiyrði. Varð Alaeddín þá svo reiður, að hann rak konung í gegn með tygilkníf sínum. Skrifaði hann síðan brjef og skýrði stuttlega frá því, hversu atburður þessi hefði atvikazt, og hversu drottinn hefði látið konungi hefnast fyrir grimmdarverk hans; lagði hann brjef þetta ósamanbrotið á enni konungs. En meðan Alaeddín var að þessu, hafði Mariam tekið dýrmætustu gersemarnar, og hafði hún ekki hugann á öðru enn að flýja burt sem fljótast. Tók hún upp töfrasteininn og sýndi Alaeddín hvar legubekksmynd var rist á einn flötinn. Neri hún þann flötinn ofurlítið, og í sama vetfangi var horfinn til þeirra legubekkur. Settist hún fyrst sjálf í hann og ljet síðan Alaeddín og Sobeide setjast sitt hvoru meginn. Þá mælti hún: „Líði nú legubekkur þessi í lopt upp, þess óska eg fyrir remi rúna þeirra, sem ristar eru á stein þenna.“ Í sama vetfangi svifu þau hátt yfir djúpum dal; þá hallaði kóngsdóttir

legubekks fletinum að jörðinni, en lypti hinum fjórum flötunum upp til himins, bar þau þá skjótlega niður í dalinn. Þá neri kóngsdóttir annan flöt, sem tjaldmynd var á, og samstundis var komið til þeirra skrautlegt tjald; gengu þau nú bæði inn í það. Í dalnum var enginn vatnsdropi, en fljót var myndað á einn steinflötinn og sneri kóngsdóttir honum niður á við og óskaði að fljótið kæmi í ljós. Rann það þá jafnskjótt fyrir fótum þeirra. Þvoðu þau sig í kynjavatni þessu, báðust síðan fyrir og svöluðu þorsta sínum. Nú neri kóngsdóttir fjórða flötinn, en á hann var myndað matborð, og í sama bili stóð frammi fyrir þeim borð eitt, er svignaði af allskonar dýrindis rjettum. Daginn eptir atburð þenna gekk konungssonur inn í herbergi föður síns, fann hann þá líkið alblóðugt og brjefið sem Alaeddín hafði skrifað. Furðaði hann sig á fádæmum þessum og reiddist ákaflega. Leitaði hann þegar að systur sinni og með því hann fann hana hvergi, þá fór hann inn í kirkjuna og spurði nunnuna gömlu eptir henni. Kvaðst hún hvorki hafa sjeð systur hans nje Alaeddín síðan daginn áður. Safnaði kóngsson þá að sjer fjölda liðsmanna og sagði þeim hver efni í voru; bauð þeim undireins að stíga á bak hestum sínum og veita strokufólki þessu eptirför. Þeysti hann fremstur allra og þeir á eptir, komu þeir skjótt í dalinn þar sem þau þrjú voru að hvíla sig, kóngsdóttirin, Alaeddín og Sobeide. Sá kóngsdóttir fyrst hvað um var að vera, og þekkti hún bróður sinn í broddi fylkingar. Fór nú liðið að þeim með ópi og kalli. Spurði Sobeide Alaeddín, hvort hann gæti veitt svo stórum flokki viðnám og svaraði hann, að enda hinn hraustasti maður mundi eigi vera þess um kominn, hvað þá heldur hann, sem aldrei hefði verið í bardaga. Neri þá kóngsdóttir riddara mynd, sem var á fimmta steinfletinum. Þá hleypti fram riddari allt í einu og ljet sverðið dynja svo hart og títt á óvina flokknum, að hann tvístraðist til allra hliða.

Nú rjeði Alaeddín það af, að fara fyrst til Alexandríu og settust þau öll í legubekkinn; hurfu þau þangað á svipstundu fyrir atkvæði kóngsdóttur. Fór Alaeddín með Mariam og Sobeide í búð sína og gekk síðan út til að kaupa ýmislegt, er hann þurfti. Hitti hann þá Aldanaf, er hann var nýkominn frá Bagdad. Urðu þar fagnaðarfundir og þókti Alaeddín vænt um að heyra góðar frjettir af

Aslan syni sínum, en hann sagði Aldanaf frá hinu kynjafulla æfintýri, er hann hafði í ratað. Nú þótt kalífinn hefði sent eptir Alaeddín, þá vildi hann samt fyrst finna foreldra sína í Kairó; seldi hann því búð sína og hvarf svo þangað í legubekknum með Aldanaf og konum sínum. Foreldrar hans höfðu talið hann af og grátið hann mörgum tárum; vildu þau nú ekki sleppa honum frá sjer, er þau höfðu fundið hann aptur. En Alaeddín kvaðst fyrir hvern mun verða að fara, því hann hefði enga eirð á sjer af löngun til að sjá Aslan son sinn. Dvaldi hann þrjá daga í Kairó, en að þeim liðnum fluttist hann til Bagdad í legubekknum og hafði með sjer foreldra sína. Skundaði Aldanaf á fund kalífans og sagði honum komu Alaeddíns, en hann brá við skjótt og kom með Aslan syni hans og tók við honum tveim höndum. Ljet þá kalífinn leiða fram þjófinn Kómakóm, og mælti til Alaeddíns: „Hefndu þín nú sjálfur á fjandmanni þínum.“ Brá þá Alaeddín sverði sínu og klauf Kómakóm í herðar niður. Því næst sendi kalífinn eptir dómara og vitnum og skrifaði sjálfur undir hjúskaparsamning Alaeddíns og Mariam kóngsdóttur. Hjelt hann síðan stórhátíð, gerði stórvel til Alaeddíns og Aslans og veitti þeim virðing á virðing ofan. Leið svo líf þeirra allra í sælu og bezta samlyndi þangaðtil dauðinn skildi samvistir þeirra.

# Frá 780 til 796 nætur.

## Sagan af Heykar hinum fróða.

Fátt mun það í fornum dæmum, að eldra sje enn sagan af Heykar enum fróða. Hann var æðsti ráðgjafi Senkaribs, Assyríu konungs, er ríkti í Ninive, og rjeði hann einn allri ríkisstjórn. Hann var þar á ofan skarpvitur lærdómsmaður og djúpsær spekingur, en eitt stóð honum þó jafnan fyrir gleði, og það var barnleysi. Hafði hann gengið að eiga sex konur og komið fyrir ekki, og var hann nú úrkula vonar um, að eignast erfingja að ættarnafni sínu og metorðum. Það var einhverju sinni, að hann var staddur á fundi spekinga, spámanna og stjörnuvitringa ríkisins, og barmaði hann sjer þá sáran út af óláni sínu. Rjeðu þeir honum til að hylla guðina með fórnum og ölmusugjöfum. Heykar hlýddi ráðum þeirra,

en það kom allt fyrir ekki, og varð hann þá svo örvæntingarfullur, að hann sór að hafna heiðnum goðum og sneri bæn sinni með brennandi hjarta til hins eina guðs, sem yfir öllu ríkir. En sem hann baðst fyrir, þá svaraði honum rödd af himni: „Heykar! með því þú blótaðir heiðin goð, þá skal sú refsing á þig lögð, að þú skalt ekki barn eignast; en heimilt skal þjer að taka systurson þinn í sonar stað og nefna hann til erfingja eptir þinn dag.“ Heykar gerði svo. Ljet hann fóstra Nadan systurson sinn með mestu alúð, en hann var þá ungbarn og hafður á brjósti. Þegar fram liðu stundir, veitti hann honum ágætt uppeldi, og var honum kennt með svo mikilli kostgæfni, að hann varð á fáum árum heima í öllum vísindum. Senkarib konungi fjekk það hryggðar, er hann sá, hversu ráðgjafi hans eldtist dag frá degi; var það einhvern dag að hann mælti við hann þessum orðum: „Kæri Heykar! þú sem ert allra vina minna tryggastur og einlægastur, þú sem með reynslu þinni og vizku aflar ríki mínu farsældar og hamingju, árin fara nú heldur að fjölga þjer á baki og fær það mjer hryggðar, að skilnaður okkar nálægist. Hver er nú þess maklegur, að koma í þinn stað, og vera slíkur trúnaðarmaður minn sem þú ert? hver getur verið slíkur máttarstólpi ríkis míns sem þú ert?“ Þá svaraði Heykar: „Eg hef tekið systurson minn í sonar stað og allt frá æsku kennt honum öll þau fræði, sem eg sjálfur kann.“ „Lát hann þá koma á minn fund“ mælti Senkarib, „og ef mjer virðist hann fær um að stjórna ríki mínu, þá fel eg honum samstundis embætti þitt á hendur, svo að þú megir hvílast í elli þinni. Þú skalt eptirleiðis njóta allra einkarjettinda við hirð mína, sem fylgdu embætti þínu, því þú hefur nú stýrt því lengi með heiðri og sóma. Og þess óska eg þjer, góði Heykar! að þú lifir í sæmd og friði það sem eptir er æfinnar!“ Heykar leiddi nú Nadan fram fyrir Senkarib, og fleygði hann sjer með lotningu til jarðar; mælti hann fáein orð og fór honum það svo vel og kurteislega, að konungur fjekk á honum hinn bezta þokka og sagði við vezírinn: „Margfróði Heykar! unglingur þessi virðist maklegur þeirrar sæmdar, að heita sonur þinn, og einsog þú þjónaðir mjer og Sarkadon föður mínum, svo skal og sonur þinn þjóna mjer og sjá fyrir velgengni þegna minna.“ Heykar þakkaði konungi með hrærðu hjarta, og beiddi hann að taka

ekki hart á systursyni sínum, þó honum sökum æsku sinnar kynni að yfirsjást í einhverju. Eptir það gekk hann heim með Nadan. Ítrekaði hann þar fyrir honum heilræði þau, er hann einatt hafði brýnt fyrir honum frá fyrstu æsku. Heykar var með sjálfum sjer sannfærður um, að Nadan hefði hugfest sjer heilræði sín, og óraði hann alls ekki fyrir því, að hann mundi gjalda sjer fósturlaunin með hatri og vanþakklæti. Lagði hann nú niður embætti sitt og settist í helgan stein; fjekk hann og Nadan forræði fjár síns með fullri heimild. En það verður mörgum, að þeir hrokast af hamingjunni, og svo fór fyrir Nadan; hann hafði nú fullkomin ráð yfir auðæfum móðurbróður síns og þurfti ekki að fara eptir öðru enn hugþótta sínum og tilhneigingum. Tók hann að leggja fyrirlitningu á velgjörðamann sinn og gerði háð að honum í hvers manns eyru. Hann sagði: „Nú eru farin að stríða elliglöp á móðurbróður minn, og veit hann hvorki upp nje niður í stjórnarmálum.“ Hann lamdi þræla Heykars, seldi fasteignir hans og hesta og eyddi í ráðleysi auðæfum þeim, er lengi hafði verið til safnað. Varð Heykar þá reiður og rak hann úr húsum sínum. Kærði Nadan þetta fyrir konungi, en konungur sagði honum, að meðan Heykar væri á lífi, þá skyldi enginn dirfast að beita ofbeldi í húsum hans. Heykar reyndi nú að bæta úr hörmum sínum og tók til sín yngra bróður Nadans, Ebnasadam að nafni, og fjekk honum eigur sínar til umsjónar. Nadan sór með sjálfum sjer, að hefna sín á móðurbróður sínum og hugsaði nu ekki um annað enn að búa honum tálsnörur. Skrifaði hann því svo látandi brjef til Akis Persa konungs: „Senkarib konungur Assyríu og Niniveborgar biður Persakonungi heiðurs og hamingju. Undireins og þú fær brjef þetta, skaltu fara útá Baskríns völlu og skal eg þar fá þjer ríki mitt og höfuðborg í hendur bardagalaust.“ Hann sendi og brjef sama efnis til Faraós Egypta konungs. Hafði Nadan stælt rithönd Heykars og sett fyrir innsigli hans, svo að svikin yrðu því berari og órækari; fleygði hann síðan báðum brjefunum í höll konungs. Ennfremur ritaði hann falsbrjef í nafni Senkaribs til Heykars og var það á þessa leið: „Safna þú saman öllu herliði voru næsta Fimmtudag á Baskrínsvöllu og haf það búið til orrustu. Þegar eg kem, skaltu skipa liðinu að ráðast á mig og föruneyti mitt sem fjandmenn væru, svo að sendiboðar Faraós,

Egypta konungs, sem nú eru við hirð mína, sjái vígfimi hermanna vorra og verði hræddir við oss.“ Sendi Nadan einn af hirðþjónunum með brjef þetta til Heykars.

Nú fundust bæði brjefin til konunga Persalands og Egyptalands, og var farið með þau til Senkaribs. Varð hann fokreiður og forviða er hann las brjefin, og sýndi þau Nadan, en hann ljet einsog kæmi á sig vöflur og kannaðist þó við rithönd og innsigli móðurbróður síns; ljet hann einsog sjer væri hin mesta mæða að verða að játa það. „Með hverju hef eg þá styggt Heykar,“ mælti konungur, „að hann skuli launa mjer velgjörðir mínar með slíkum svikum?“ „Herra!“ svaraði Nadan, „hryggist ekki ofsnemma, bíðið þangað til svikræði Heykars verða uppvís af verkum hans. Þetta er hulinn leyndardómur, sem ekki mun skýrast fyrir yður fyr enn á Baskríns völlum.“ Fór þá konungur með hirðmönnum sínum og húskarlaliði út á Baskríns völlu, og sá hann Heykar þar með her mikinn í fylkingu, og reið hann sjálfur fremstur. Og sem hann sá konunginn, þá hugsaði hann ekki um annað enn að hlýðnast skipun herra síns og gerði liðinu bendingu, að það skyldi ráðast á föruneyti konungs. En er konungur sá aðfarir vezírsins, þá rjeði hann sjer ekki fyrir heipt. Þá mælti Nadan: „Nú sjáið þjer með eigin augum, hvað svikarinn Heykar ætlar yður. Verið samt óhræddur og farið heim aptur til hallarinnar og skal eg takast á hendur að varpa þrælnum í hlekki og leiða hann fyrir yður.“ Senkarib gerði svo, en Nadan fór til móðurbróður síns og sagði við hann í nafni konungsins: „Konungi líkar vel að þjer hlýdduð skipun hans svo vel og rækilega, en nú skuluð þjer veita liðsmönnum heimfararleyfi og láta leiða yður fyrir hásæti konungs með hlekki á höndum og fótum, svo að sendimenn Egyptakonungs sjái yður auðmjúkan einsog þeir fyr sáu yður voldugan.“ Heykar skildi fullvel yfirdrepskap þenna og svaraði því einu, að sjer væri skylt að hlýða boðum konungs; ljet hann þá leggja fjötra á hendur sjer og fætur og var farið með hann til konungshallarinnar. Hneigði hann höfuð sitt með lotningu, svo ennið nam við gólfi. Senkarib átaldi hann harðlega fyrir vanþakklæti hans og sýndi honum bæði brjefin, er hann átti að hafa skrifað til Egypta og Persakonungs, og voru bæði með hans innsigli. Og er Heykar sá brjefin, þá varð hann sem steini

lostinn; hann skalf og teygðist allur, honum vafðist tunga um tönn og mátti engu orði upp koma. Konungur misskildi þögn hans og skipaði að leiða hann burt til lífláts. En hrekkjadólgurinn og fúlmennið Nadan óð uppá Heykar með skömmum og bríxlyrðum, og hrópaði: „Hvað stoðar þig nú mannvonzka þín, óhræsis Heykar? hverra launa væntirðu fyrir hrekki þá, er þú bjóst drottni þínum og velgjörðamanni?“ Í sama bili kom böðullinn; hann hjet Abú Sómeika. Skipaði konungur honum að taka Heykar og hálshöggva hann fyrir utan húsdyr sínar. Heykar rankaði nú aptur við sjer og mælti: „þjer hafið skipað líflát mitt, og virði eg vilja konungs míns, en eg er saklaus og beiðist eg þeirrar miskunnar, að lík mitt verði fengið þrælum mínum til greptrunar.“ þessu játti konungur, og er Heykar sá að komið var að aftökunni, þá ljet hann skila til konu sinnar, að hún skyldi safna saman fjölda ungra ambátta og færa þær í skrautklæði; skyldi hún síðan koma til hans með þær og gráta dauða hans. Ennfremur ljet hann leggja ríkt á við hana, að hún skyldi halda Abú Sómeika og hermönnum hans veizlu og veita þeim óspart mat og vín. Kona Heykars, sem var hin skarpvitrasta, skildi undireins hvað manni sínum gengi til, og hlýddi hún boði hans trúlega. Og er böðullinn kom með þjónum sínum, þá var þar fyrirbúin hin dýrlegasta veizla með beztu vínföngum. Tóku þeir nú freklega til matar og drykkjar og gerðust ölvaðir, en það hafði Heykar mest þreyð, og tók hann nú Abú Sómeika afsíðis og mælti: „Minnstu nú þess dags, er Sarkadon faðir Senkaríbs skipaði líflát þitt. þú manst að eg þá geymdi þig í fylgsni þangaðtil konungi var runnin reiðin. Harmaði Sarkadon fljótt missi þinn og varð feginn, er hann sá þig aptur; áttu mjer því líf þitt að þakka. Gleymdu því ekki, Abú Sómeika! og forðaðu nú lífi mínu á sama hátt og eg forðaði þínu. Menn hafa rægt mig við konung og hefur hann látið blekkjast, en hver veit nema hann gráti dauða minn á morgun. Á heimili mínu er jarðhús nokkurt sem enginn veit af; leyf mjer nú að leynast í því, svo enginn verði þess áskynja nema kona mín. Á meðal bandingja minna er þræll nokkur sem hefur fyrirgjört lífi sínu, og skaltu láta taka hann úr varðhaldi, færa hann í föt mín og lífláta hann í minn stað. þjónar þínir eru drukknir og munu eigi taka

eptir skiptunum. því næst skaltu afhenda líkið svo það verði jarðsett samkvæmt leyfi Senkaribs. Á þenna hátt verð eg þjer eilíflega skuldbundinn, og vinnur þú bæði mjer og konunginum gagn.“ Abú Sómeika var ekki vanþakklátur og gerði hann einsog Heykar velgjörðamaður hans lagði fyrir hann, enda heppnaðist bragðið. Var konungi nú sagt, að ráðgjafi hans væri líflátinn. Enginn vissi af fylgsni Heykars, nema kona hans ein, og fór hún ekki til hans nema einusinni í viku, er hún færði honum vistir. Barst nú bráðum fregn sú um Niniveborg og hjeröð landsins, að konungur hefði látið drepa æðsta ráðgjafa sinn. Varð þá hinn mesti harmur um allt ríkið og sögðu menn hvervetna: „Mannvalið Heykar! hvílík eptirsjá er oss að gáfum þínum, kunnáttu og speki; hversu mun ríkið níðast niður eptir dauða þinn!“ Senkarib fann líka fljótt, hvert afráð hann hafði goldið, og iðrunin kom út á honum tárum, en það var nú um seinan. Nú með því hann vildi sýna opinberan vott sorgar sinnar, þá skipaði hann Nadan að stefna saman öllum vinum móðurbróður síns, og skyldi hann þá og þeir allir saman, búast sorgarklæðum, og halda sorgarhátíð í minningu Heykars. En fúlmennið Nadan safnaði þá að sjer kunningjum sínum, hinum örgustu landeyðum, og sló sjer með þeim til svalls og ólifnaðar í húsi móðurbróður síns og framdi hverskyns óhæfu; kvað svo rammt að því, að hann mátti ekki einusinni sjá ekkju hans í friði. Heyrði Heykar glauminn og háreystið í fylgsni sínu og ákallaði drottinn andvarpandi með brennheitri bæn. Kom Abú Sómeika opt til hans um nætur og hughreysti hann með fortölum sínum.

Nú spurðist lát Heykars til hinna næstu landa. Var það öllum konungum gleðifregn, því þeir höfðu jafnan haft öfundar augu á velmegun Ninive borgar. Vissu þeir af reynslu sinni, að það var einkum stjórnspeki Heykars, sem gerði Assyríu öðrum ríkjum yfirsterkari. þókti Egyptalands konungi sem nú væri hræðilegum óvin úr vegi rýmt, og hóf hann fyrstur herskjöld og leitaði sjer yfirvarps til að herja á Senkarib. Ritaði hann honum því svolátandi brjef: „Egyptaland er móðir heimsins; allar þjóðir dást að stórbyggingum þess; en eg ætla mjer að verða fornkonungunum, forfeðrum mínum meiri, og reisa höll milli himins og jarðar. Sje

nú húsasmiður í ríki þínu, er þetta furðuverk geti af hendi leyst, og viðstöðulaust svarað hinum þyngstu spurningum, þá skaltu senda mjer hann, og lofa eg þá að gjalda þjer tekjur Egyptalands um þrjú ár. Að öðrum kosti skalt þú gjalda mjer þriggja ára tekjur af Assyríu.“ Senkarib reiddist mjög brjefi þessu, en þó varð nokkuð úr að ráða og tók nú að vandast málið. Sagði hann fyrst höfðingjunum í hirð sinni, hvers Faraó krefðist, en er hann sá að enginn vildi takast á hendur að svara honum, þá stefndi hann saman fjölmennan fund hinna fróðustu manna. „Hver á meðal yðar,“ mælti hann, „vill fara til hirðar Faraós og leysa úr spurningum hans?“ Brá þeim öllum í brún og svöruðu: „Sá maður var einusinni í ríki yðar, sem hefði getað leyst úr þessum flóknu spurningum, og það var spekingurinn Heykar. Enginn af oss er hans jafningi; en Nadan systursonur hans er sá eini, sem getur tekizt slíkan vanda á hendur, því Heykar kenndi honum fróðleik sinn.“ En er Nadan var spurður, þá svaraði hann ekki öðru, enn að krafa Faraós væri fjærstæð, og væri bezt að láta hann einan um heilabrot sín. Og er Senkarib heyrði svar þetta, þá fann hann til fulls, hve sárt hann mátti sakna Heykars; gekk hann þá úr hásæti sínu, settist í ösku og útjós tárum. Abú Sómeika sá nú sjálfur, hversu konungur var harmþrunginn og rjeði af því, að nú nálgaðist lausnarstund hins ógæfusama ráðgjafa. Gekk hann því með lotningu fyrir konunginn og fleygði sjer fram fyrir fætur honum. „Herra!“ mælti hann, „skipið að lífláta mig.“ „Hvað hefur þú þá misgert?“ spurði Senkarib og undraðist; þá svaraði Abú Sómeika: „Hver sá þegn, sem ekki hlýðir konungi sínum, er dauða verður, eg hef ekki hlýtt yður.“ Sagði hann þá konungi frá því, er hann drap þrælinn í stað Heykars, og kvaðst hafa verið sannfærður um sakleysi hans. „Heykar er enn á lífi,“ mælti hann, „og skal eg sækja hann þegar í stað, ef þjer viljið.“ Varð konungur frá sjer numinn af undrun, er hann heyrði þetta, og hjelt í fyrstu, að sjer hefði misheyrzt, en Abú Sómeika margsór honum, að hann segði satt, og rjeði konungur sjer þá valla fyrir gleði. Varð honum það fyrst að orði, að hann skipaði að sækja Heykar. Valmennið Abú Sómeika kom nú að dyrum jarðhússins, og jafnskjótt sem hann sá Heykar, þá kallaði hann hárri röddu: „Nú ertu frjáls! nú ertu frjáls!“

Sagði hann honum allt sem farið hafði, og gengu þeir síðan báðir á fund konungs. Hrærðist Senkarib til meðaumkvunar, er hann sá, hversu Heykar var orðinn fyrirgengilegur; hann spratt upp úr sæti sínu, hljóp ámóti honum og faðmaði hann að sjer grátandi. „Guði sje lof!“ mælti hann; „hann hefur frelsað þig úr greipum dauðans og gefið mjer aptur vináttu þína.“

Þá svaraði Heykar: „Vanþakklátur svikari olli því, að eg komst í ónáð. Eg hafði klakið upp pálmaviði, er vera skyldi stoð og stytta elli minnar, en hann fjell á mig ofan og varpaði mjer til jarðar. En guð hefur frelsað líf mitt, sem helgað var þjónustu yðvarri, hrindið því frá yður allri hryggð og leggið mjer á herðar byrði stjórnarinnar.“ „Slíks var von af þjer,“ mælti Senkarib, „en eg vil að þú hvílir þig fyrstu dagana, sem þú nýtur frelsis.“ Tjáði konungur honum vináttu sína á hjartnæmilegasta hátt, og skildu þeir með mikilli blíðu. Abú Sómeika var færður í tignarklæði og sæmdur ágætum gjöfum. Gerðist þetta fyrir augum Nadans og kom á hann slíkt ofboð og skelfing, að hann vissi ekkert hvað hann ætti að gera eða ógert að láta. Nú er liðnir voru hvíldar dagar Heykars, þá gekk hann fram fyrir Senkarib með öllum einkunnum sinnar fyrri tignar; fagnaði konungur honum vel, ljet hann setjast hjá sjer og fjekk honum brjef Faraós. Gat hann þess um leið, að margir Assyríumenn hefðu flúið til Egyptalands, því þeir hefðu verið hræddir um, að þeir yrðu að leggja fje til skattsins, sem Faraó hafði krafist, ef enginn fengi ráðið gátu hans. Nú er Heykar hafði lesið brjefið, þá mælti hann: „Gott og vel! eg skal fara til Egyptalands. Og því lofa eg, að eg skal koma heim aptur með þá, sem hafa úr landi flúið, og þar á ofan neyða Faraó sjálfann til að borga skatt þann, er hann krafðist af oss. En fjörutíu daga þarf eg til að búa mig til ferðar.“ Senkarib varð stórglaður við, og treysti hann fullkomlega vizku ráðgjafa síns, þókti honum nú sem hin borginmannlega áskorun Faraós væri ekki annað enn fáfengileg orðaflækja, sem að engu mundi verða fyrir speki Heykars.

Þegar Heykar var kominn heim til sín, þá gerði hann boð eptir veiðimönnum og skipaði þeim að veiða tvo lifandi erni, og gerðu þeir það. Hann ljet og smíða tvær kistur úr ljettum viði og gera tvær silkifestar, var hver um sig tvær þúsundir álna á

lengd. Því næst ljet hann færa sjer tvo unga sveina og ljet þá á hverjum degi venja sig við að standa upprjetta í kistunum, en þær voru bundnar við klær arnanna; hófu þeir þannig sveinana í lopt upp, en Heykar hjelt í annan enda festarinnar. Þetta gerði hann opt og tömdust ernirnir við það æ betur og betur. Voru ernirnir aldir á sauðakjöti og jók það þeim krapta. Hafði Heykar lagt svo undir við drengina, að þegar þeir svifu uppi í loptinu, þá skyldu þeir kalla hárri rödd og segja: „Færið okkur grjót og kalk, svo við getum reist höll handa Faráo konungi. Það stendur ekki á öðru og við bíðum. Flýtið ykkur nú! það er fráleitt, að láta okkur sitja svona aðgjörðalausa!“ Heykar þóktist nú viss um, að bragð þetta mundi heppnast og fór til konungs; ætlaði hann að reyna vjel þessa að honum ásjáanda. Fór Senkarib því með hirðsveit sína út á sljettlendi nokkurt, er þar var nálægt, og svo vænt þókti honum um þetta hugvitsbragð ráðgjafans, að hann faðmaði hann að sjer svo öll hirðin sá, og bætti á hann nýjum metorðum. Og nú veitir hann honum orlof, að hann hefji för sína til Egyptalands. En er Faraó spurði, að sendimaður frá Assyríu konungi væri á leið til sín, þá sendi hann helztu embættismenn í hirð sinni til móts við hann og fylgdu þeir honum til konungshallarinnar með mestu viðhöfn. Fleygði Heykar sjer fram fyrir fætur konungi með lotningu og mælti: „Herra! Senkarib konungur, drottinn minn, sendir yður kveðju sína. Eg er sá af þrælum hans, er hann hefur kosið til að leysa úr spurningum yðar. Þjer hafið skrifað honum, að þjer ætlið að gera höll milli himins og jarðar, en eg ætla að vinna það verk með guðs fulltingi og yðru samþykki. Mistakist mjer það eða verði nokkur sú spurning upp borin, sem eg ekki get leyst úr, þá mun herra minn gjalda yður þriggja ára tekjur af ríki sínu. En geti eg leyst úr því, er þjer leggið fyrir mig, þá gjaldið þjer drottni mínum þriggja ára tekjur af Egyptalandi. Þessu hjetuð þjer, konungur! og munuð þjer binda enda á heit yðvart.“ Þetta sagði hann svo blátt áfram og einarðlega, að Faraó varð forviða og spurði hann að nafni. „Abímakam heiti eg,“ svaraði Heykar, „og er eg einhver hinn lítilmótlegasti af þegnum Assyríukonungs.“ Þá mælti Faraó: „Gat herra þinn þá ekki fengið neinn álitlegri mann til að takast svo áríðandi og vandasama sendiför á hendur?“ Heykar svaraði:

„Guð lætur lítilmagnann optsinnis verða hinum volduga manni að undrunar efni.“ Þar með lauk hinu fyrsta viðtali þeirra. Ljet Faraó fylgja Heykar með förunautum hans til herbergja þeirra, er þeim voru ætluð, og var þeim veittur góður beini. Á þriðja degi var Heykar boðaður á fund Faraós; sat hann þá í hásæti sínu, búinn konungsskrúða, og allir höfðingjar ríkisins umhverfis hann. Var nú ráðgjafi Senkaribs leiddur inn og tók Faraó þannig til máls: „Líttu nú á samkomu þessa, Abímakam! og segðu okkur umhugsunarlaust, hverju eg er líkur þar sem eg sit með gæðingunum í hirð minni.“ „Herra!“ svaraði Heykar, „þjer eruð líkur goðalíkneski og hirðmenn yðar eru líkir hofgoðunum, sem því þjóna.“ Konungi geðjaðist vel að svari þessu og ljet sendimann frá sjer fara, en beiddi hann að koma aptur næsta morgun. Þá hafði Faraó tekið yfir sig hárauða skikkju, en hirð hans gekk öll í hvítum klæðum. „Hverjum er eg nú líkur,“ spurði hann Heykar, „og hverjum eru höfðingjar mínir líkir?“ Þá svaraði Heykar: „Þjer eruð líkir sólinni, en höfðingjar yðar eru líkir geislum hennar.“ Gekk Heykar þá af fundi hans, en næsta dag er hann gekk fyrir Faraó, þá var hann enn í hinum rauða skrúða, en hirðmenn á allavega litum klæðum. „Við hvað viltu nú líkja okkur?“ mælti Faraó. „Við mánuðinn Nísan,“ ansaði Heykar, „og blómin, sem hann fram leiðir.“ „En seg mjer nú og,“ mælti Faraó, „við hvað líkir þú Senkarib drottni þínum og hirðar höfðingjum hans.“ „Guð varðveiti mig frá því,“ mælti Heykar, „að nefna nafn herra míns, þegar þjer sitjið. Eg get ekki talað um Assyríu konung, nema þjer standið upp.“ Faraó undraðist mjög, hversu sendimaður var einbeittur, reis upp úr hásætinu og ítrekaði spurningu sína. „Herra!“ mælti Heykar, „konungur minn er líkur allsvaldanda guði og þjónar hans eru líkir þrumum og eldingum. Hann bandar höfði sínu, og ofviðrið skellur yfir, sólin sveipast skýjum, regnið eys niður í steypihríðum, en byljirnir losna úr böndum og umturna mánuðinum Nísan með öllum hans blómum.“ Faraó varð hissa á þessu svæsna svari og skildi ekki í því að alþýðumaður þyrði að mæla slíkum orðum. „Sendimaður Assyríuríkis,“ mælti hann, „seg mjer nú hreinskilnislega, hvert er hið rjetta nafn þitt?“ Vildi Heykar þá ekki lengur dyljast við hann og sagði til nafns síns og embættis.

Spurði Faraó, hvernig á því stæði, að hann hefði verið sagður látinn. Sagði Heykar honum það, og var honum nú sleppt með þeim skildaga, að hann segði konungi næsta morgun eitthvað, sem hvorki hann nje nokkur þegna hans hefði nokkru sinni áður heyrt. Og sem Heykar var orðinn einn sjer, þá ritaði hann brjef og afhenti konungi það daginn eptir; var það svo látandi: „Assyríu konungur sendir Egyptalands konungi kveðju sína. Opt þarf bróðir til bróður að sækja, og leita eg nú til þín, því eg þarf sex hundruð vættir gulls til að búa út her minn. Vona eg að þú gerir svo vel og lánir mjer fje þetta.“

Þá hló Faraó og mælti: „Slíks hefur enginn fyrri beiðzt af mjer.“ „En allt fyrir það,“ mælti Heykar, „er það skuld, sem þjer hafið gengizt undir að borga herra mínum, og verðið þjer að gera það bráðum.“ Faraó skildi hvað Heykar átti við og mælti: „Betur allir þjónar konunganna væru þjer líkir. Lof sje hinni eilífu veru, sem gæddi þig vizku og gaf þjer slík hyggindi og vitsmuni. En þú átt eptir að fullnægja einum þungum skilmála. Þú lofaðir að reisa höll milli himins og jarðar.“ „Það er aldrei nema satt,“ ansaði Heykar, „og stendur ekki á mjer. Eg tók með mjer húsasmiði; skipið því að grjót og kalk sje haft til taks og fengnir verkmenn, er rjetti smiðunum það sem til smíðarinnar þarf.“ Faraó gerði svo, og næsta morgun fór hann með allri hirðsveit sinni út á víðan völl, og var þar kominn fjöldi fólks, er langaði til að sjá, hvernig Heykar færi að efna heit sitt. Kom hann þangað með báða sveinana. Báru menn hans á eptir honum búrin, er ernirnir voru í. En er hann var kominn inn fyrir grindur þær, er reistar höfðu verið þar á vellinum, þá tók hann báða ernina út úr búrunum og ljet sinn drenginn fara ofan í hverja kistuna, reyrði hann þær við klær arnanna og ljet síðan laust bandið. Í sama vetfangi flugu ernirnir í lopt upp, en drengirnir æptu svo hátt sem þeir gátu: „Fáið okkur steina og kalk, svo við getum reist höllina handa Faraó konungi. Flýtið ykkur, verkmenn! Við höfum setið hjer svo lengi aðgjörðalausir; það er fráleitt að láta okkur bíða svo lengi.“ Meðan sveinarnir æptu orð þessi hvað eptir annað, lömdu förunautar Heykars verkmenn Faraós í augsýn mannfjöldans, og sögðu: „Gerið skyldu ykkar, verkmenn!“ og börðu þeir á þeim í sífellu, en Faraó hló að og hirðmenn hans. En samt gat hann ekki að því gert, að

hann hálft um hálft fyrirvarð sig, og segir hann því við Heykar, til þess að leikurinn skyldi hætta: „Ertu orðinn ær? hvernig eiga menn mínir að komast svo hátt í lopt upp með svo þung verkfæri?“ „Auðsjeð er það,“ ansaði Heykar, „að Senkarib herra minn hefur miklu lagtækari verkmenn, og mundu þeir geta reist tvær hallir á einum degi, ef honum þóknaðist.“ Faraó tók til sín sneiðina og mælti: „Hana þá! eg kæri mig ekki um að þú gerir handa mjer höllina, en búðu þig undir að leysa úr ýmsum spurningum á morgun.“ Kemur Heykar snemma næsta morgun og leggur Faraó spurningu þessa fyrir hann: „Hvaða hestur er það í hesthúsi herra þíns, sem hræðir hryssur mínar svo mjög í hvert skipti sem hann hneggjar í Ninive, að þær kasta í ótíma.“ Heykar kvaðst fljótt mundu geta leyst úr spurningu þessari, fór til herbergja sinna, tók kött og lamdi hann með svipu. Og er nábúar hans heyrðu skræki kattarins, þá fóru þeir til konungs og sögðu honum frá, en hann sendi þegar eptir Heykar og spurði, því hann færi svo illa með varnarlaust kvikindi.

„Það hefur gert meira til saka enn þjer ætlið,“ svaraði Heykar. „Senkarib herra minn hafði gefið mjer fríðan hana, er gól án afláts dag og nótt, og nú hefur kötturinn hlaupið til Niniveborgar í nótt eð var og drepið fyrir mjer hanann.“ Þá mælti konungur: „Af tali þínu mætti ætla, að þú værir orðinn vitskertur; en seg mjer, mikli vitringur! hvernig getur það átt sjer stað, að kötturinn hafi hlaupið til Niniveborgar í nótt eð var og sje nú kominn aptur, því þú veizt að þrjúhundruð og sextíu mílur eru milli Ninive og aðseturs-borgar minnar?“ „Sje svo,“ mælti Heykar, „hvernig getið þjer þá sagt, að merhryssi yðar heyri hest hneggja í hesthúsi herra míns?“ Faraó leitaðist nú við að reka Heykar í vörðurnar með öðru móti og segir við hann: „Hvað segir þú um húsasmið þann, er reist hefur höll úr átta þúsund sjö hundruð og sextíu steinum og gróðursett tólf trje í höllinni; eru þrjátíu greinar á hverju trje, en hver grein ber tvær þrúgur, aðra hvíta, en hina svarta?“

„Þessu gæti hver leikmaður í Ninive svarað,“ ansaði Heykar. „Smiðurinn er guð, höllin er árið, en hinir áttaþúsund sjöhundruð og sextíu steinar jarteikna stundirnar í árinu. Hin tólf trje eru mánuðirnir, en báðar þrúgurnar merkja dag og nótt.“

„Vel er ráðin gátan,“ mælti Faraó, „og vil eg nú biðja þig einnar bónar og skal það vera hin síðasta. Eg á hjer mylnustein, sem er sprunginn, viltu ekki gera svo vel og þræða hann saman fyrir mig?“ „Feginn vil eg gera bæði það og annað fyrir yður,“ ansaði Heykar; ljet hann þá einn af þrælum sínum sækja sjer tinnustein, hjelt honum framan í konung og mælti: „Þjer vitið, konungur! að eg er hjer utanlands og hef ekki hjá mjer nauðsynleg áhöld; gerið því svo vel að skipa verkmönnum yðar, að smíða mjer al, skæri og þjöl úr þessum steini, svo eg geti gert við mylnusteininn.“ Faraó gat ekki að sjer gert að hlægja, og fór lotning hans fyrir vizku Heykars æ vaxandi. Sá hann nú að hann hafði fullkomlega leyst úr öllu, sem fyrir hann var lagt, og sýnt mikla speki; kannaðist hann því við að hann hefði tapað, og vildi nú verða drengilega við og standa við öll sín ummæli. Hann ljet færa Heykar í skrautlegan, skinndreginn möttul, gaf honum stórgjafir og greiddi honum þriggja ára ríkistekjur út í hönd; sýndi hann honum frábæra virðingu í alla staði og ljet klyfja úlfalda með stórgjöfum til konungsins í Ninive.

„Far nú heim í friði,“ mælti Faraó, „og óska eg þess, að Senkarib taki gjafir þær, er eg sendi honum, einsog vináttumerki. Reyndar eru þær ekki honum samboðnar, en konungar verða opt litlu fegnir. En þú margvitri Heykar! sem ert til heiðurs og sóma drottni þínum, seg honum umfram allt í mínu nafni, að eg samfagni honum, þar sem hann hefur slíkan ráðgjafa sem þú ert.“ Heykar fleygði sjer þá fram fyrir fætur Faraós, tjáði honum þakklæti sitt og bað hann láta boð út ganga, að nú skyldu allir þeir Assyríumenn fara heim, sem flutt hefðu úr átthögum sínum til Egyptalands. Var nú skipun þessi kunngjörð, og kvaddi Heykar Faraó konung og undi vel ferð sinni. Og er Senkarib frjetti til hans, þá fór hann til móts við hann og grjet af fögnuði, er þeir fundust. Vottaði hann Heykar vináttu sínu og þakklátsemi með hjartnæmum orðum, kallaði hann föður sinn og bjargvætt ríkisins, og bað hann sjálfan að ákveða verðlaun ágætisverka sinna; kvaðst hann allt mundu veita honum, og jafnvel ríki sitt og konungstign, ef hann gerði kröfu til. En Heykar svaraði: „Herra! allur minn metnaður er fólginn í því að þjóna yður, og er honum nú fullnægt. Eg þigg því eigi vel-

gjörðir yðar sjálfum mjer til handa; en eg þakka það guði einum og drengskap Abú Sómeika, að eg er enn á lífi. Takið að yður þá skuld, sem eg á honum að gjalda, og skal eg þá jafnan blessa nafn yðar.“ „Nei!“ mælti Senkarib,“ eg á honum þá skuld að gjalda.“ Og er hann var kominn í höll sína, þá hafði hann ekkert hóf á rausn sinni, því þótt hann hefði áður gefið Abú Sómeika stórgjafir, þá þókti honum, sem þær væru mikils til of rýrar, og lagði nú undir hann álitlegar tekjur. Beiddi hann Heykar að segja sjer ítarlega frá viðskiptum þeirra Faraós. Skýrði Heykar honum frá ferð sinni og ljet færa honum gjafirnar og skattinn frá Egyptalands konungi. „Eg þakka drottni,“ mælti Senkarib. „Vitsmunir þínir, Heykar! hafa sigrað Egyptalands konung, en nú kemur til minna kasta, að hefna fyrir þig á systursyni þínum, fyrir vjelræði hans og vanþakklæti.“ Skipaði Assyríu konungur samstundis að handtaka Nadan og lífláta hann. En Heykar fjell til fóta honum og mælti: „Konungur minn og herra! látið mig sjá fyrir hefndinni. Fáið mjer Nadan í hendur, svo eg megi refsa honum sjálfur, einsog hann hefur til unnið með óverknaði sínum; blóð hans er mín eign, úr því þjer hafið ályktað, að því skuli mín vegna úthellt verða.“ Ætlaði Heykar, þótt hann ekki ljeti á bera, að forða lífi varmennisins, sem hafði búið honum fjörráð. Hafði hann í hyggju, að sleppa allri hefnd, en sjá svo um, að hann gæti ekki gert neitt illt af sjer, og kveldist þar á ofan af samvizkubiti. Var nú Nadan fenginn í hendur Heykars með járn á höndum. Ljet Heykar setja hann í fangelsi með öruggu varðhaldi, og ljet á degi hverjum færa honum vatn og brauð en annað ekki. Og í hvert skipti sem Heykar kom til hans, þá ámælti hann honum fyrir vanþakklæti sitt og mannvonzku.

„Son minn!“ sagði hann við Nadan, „eg tók þig að mjer einsog barn mitt, eg uppfæddi þig, elskaði þig og veitti þjer virðing á virðing ofan; eg ljet tignarembætti mitt af hendi við þig og trúði þjer fyrir auðæfum mínum; og í stuttu máli, eg ljet mjer vera eins annt um þig og föður er um son. Hvernig hefur þú nú launað velgjörðir mínar? Þú hefur rægt mig, ausið yfir mig hrópi og svívirðingu, og setið um líf mitt. Já! glötunin var mjer vís, en guð sem les í fylgsnum hjartnanna, sem huggar hina kúguðu og niðurlægir hina ofmetnaðarfullu, hann kannaðist við sakleysi mitt

og frelsaði mig frá ofsóknum þínum. Einusinni ætlaði maður að fleygja steini í himininn, en steinninn fjell í koll sjálfum honum og rotaði hann. Það er þín saga, son minn! Eg hugði að þú mundir byggja elli minni griðastað, en þú grófst hyldjúpa gröf undir fótum mínum. Skógarhöggsmenn ætluðu einhverju sinni að höggva upp trje, en trjeð kallaði til þeirra og mælti: „Hefði eg ekki gefið ykkur skeptin í axirnar, þá munduð þið ekki ná að fella mig.“ — Voru þetta launin fyrir umönnun þá, er eg bar fyrir þjer frá bernsku? Veiztu ekki, að uppfóstrið er miklu meiri velgjörð enn lífið? En samt hefur þú sýnt, að gott uppfóstur má sín ekkert við meðfæddri illsku. Einusinni var sagt við köttinn: „Haltu þjer frá þjófnaði, þá skaltu fá gullhelsi og möndla með sykri á degi hverjum.“ Þá svaraði kötturinn: „Þjófnaður var atvinnuvegur föður míns og afa, hvernig á eg þá að geta hafnað honum?“ Úlfur var einusinni settur í skóla og átti að kenna honum að lesa; kennarinn stafaði fyrir hann og sagði: „Á, bje, sje,“ en úlfurinn sagði: „Ána, bekrann, sauðinn,“ af því hann hugsaði ekki um annað. Einusinni átti líka að venja asna við þrifnað og kenna honum vandaðri lifnaðarháttu; hann var allur þveginn og settur í glæsilega stofu á dýrindis gólftjald. En hvernig fór? Undireins og húsbóndi hans gaf honum nokkurt frelsi, þá fór hann út á stræti og velti sjer í saurnum. Þá sagði maður nokkur sem framhjá gekk: „Lofið honum að velta sjer, það er hans náttúra og þið megnið ekkert ámóti henni.“

Nú sagði Nadan opt og tíðum við móðurbróður sinn: „Fyrirgefið mjer! fyrirgefið mjer! eg skal vera lastvar og lifa ráðvandlega eptirleiðis. Misgjörð mín er stór, en göfuglyndi yðar er margfalt meira; eg er sekur, en þjer eruð veglyndur. Ef mjer er gjarnt til glæpsku, þá er yður aptur eins tamt að fyrirgefa. Fyrirgefið mjer; eg skal vera sem hinn auðvirðilegasti þræll í húsum yðar, svo eg geti bætt yfir vanþakklæti mitt við yður. Látið mig hafa hin lúalegustu verk á hendi, eg lægi mig fyrirfram undir alla háðung og hneisu?“ En Heykar ljet ekki blekkjast af þessum hræsnis loforðum. Hann mælti: „Trje nokkurt stóð á fljótsbakka í frjófsömum jarðvegi og bar allt fyrir það engan ávöxt. Eigandinn ætlaði þá að höggva það upp, en trjeð sagði: „Gróðursettu mig á öðrum stað, og beri eg þar engan ávöxt, þá máttu höggva mig upp.“ En eig-

andinn svaraði: „þú hefur staðið hjer á vatnsbakka og engan ávöxt borið, hvernig áttu þá að verða frjófsamt, ef eg gróðurset þig annarstaðar?“ — Minnstu ekki á það, að þú sjert ungur; elli arnarins er betri enn æska hrafnsins; og aldrei hafnar nokkur maður tilhneigingum þeim, sem honum eru meðfæddar. En hvað þarf eg frekar að minnast á lesti þína? Hverjum manni verður launað eptir hans verkum. Guð les í allra hjörtu og hann mun dæma okkar í milli.“

Svo mælti Heykar og læstust átölur hans í hjarta Nadans eins og sárbeittir gaddar. Hann kvaldist af sárasta samvizkubiti og örvílnaðist þangað til hann gaf upp öndina með hryllilegum harmkvælum, svo að hans víti mættu verða öllum guðlausum mönnum til varnaðar.

# Fra 796 til 829 nætur.

## Læknirinn og matsalinn ungi í Bagdad.

Svo er frá sagt, að læknir nokkur persneskur, sem opt var á ferðalagi, kom einhverju sinni til Bagdad og tók sjer náttból í gesthúsi einu. Morguninn eptir sá hann sig um í borginni og dáðist mjög að mikilleika hennar og fegurð. Bar hann þá að matsölubúð nokkurri; voru þar allskonar rjettir fram settir til sölu. Búðareigandinn var ungur maður og hafði fimm um tvítugt; hann var afbragðs fríður sýnum og skrautlega búinn. En er læknirinn tók að hyggja betur að honum, þá sá hann merki hinnar dýpstu hryggðar á yfirbragði hans. Staðnæmdist hann þá fullur undrunar og heilsaði honum. Hinn ungi maður tók kveðju hans blíðlega og bauð honum til miðdegisverðar. Þáði læknirinn það, og færði matsölumaðurinn honum rjetti þá, er hann óskaði. Tók þá læknirinn þannig til máls: „Mjer sýnist þú vera fölur. Ertu sjúkur?“ Yngismaðurinn varp þá öndinni mæðilega og svaraði grátandi: „Spyr mig ekki um harma mína, herra!“ „Því ekki!“ ansaði persneski maðurinn, „eg er læknir og þakka eg guði mínum, að eg er svo vel að mjer gjör um íþrótt mína, að eg víst mun geta læknað þig, ef þú segir mjer tildrög og einkenni sjúkleika þíns.“ Ungi maðurinn stundi þá á ný

og mælti: „Eg er ekki sjúkur, en eg hef fellt ástarhug til konu og er vonlaus um að fá hennar.“ „Hver er sú?“ spurði læknirinn, „seg mjer það.“ „Eg skal segja þjer það“, ansaði yngismaðurinn, „ef þú kemur til mín seinna í dag, því nú verð eg að fara og þjóna gestum mínum.“ „Ger þú það,“ segir læknirinn; „eg skal koma til þín seinna í dag, þegar fer að kvölda.“

Læknirinn neytti nú matar og gekk síðan hingað og þangað um borgina, en um kvöldið kom hann aptur til matsalans. Þókti matsalanum vænt um að sjá hann aptur, því hann var vongóður um, að hann mundi geta bætt úr harmi sínum; tók hann því heim með sjer í hús sitt. Var húsið hið fegursta og vandað mjög að öllum búnaði, því foreldrar hans höfðu eptirlátið honum stórmiklar eigur. Var nú hinn dýrlegasti kvöldverður á borð borinn, og er þeir báðir höfðu matazt, þá beiddi læknirinn hann að segja sjer það sem hann hafði lofað. Matsölumaðurinn gerði það og mælti: „Svo er mál með vexti, að kalífinn Mótaded-billah á dóttur eina; er hún slíkt afbragð fyrir fegurðar sakir og annara kosta, að hún má kallast heims undur. Margir konungar og konungasynir hafa beðið hennar, en öllum hefur verið synjað, og mun föðurnum ekki þykja neinn þeirra við hennar hæfi. Á hverjum Föstudegi, þegar sölubúðum er lokað og allur borgarlýðurinn er í musterunum, þá fer þessi fagra mær frá höll sinni og gengur um borgina sjer til skemmtunar; fer hún síðan til lauga og þaðan heim aptur í dyngju sína. Það var einn dag, að mjer datt í hug að sleppa musteris ferð, og ljek mjer meir í mun að sjá dóttur kalífans, ef unnt væri. Faldi eg mig því í búð minni og leið ekki á löngu, að eg sá kóngsdótturina koma; fylgdu henni fjörutíu ambáttir, hver annari fegurri, en hún ljómaði á meðal þeirra, einsog sól í hádegisstað þegar heiðríkt er. Ambáttirnar hjeldu upp möttulfaldi hennar, og horfði eg fyrst á þær um stund, en því næst renndi eg augum til kóngsdótturinnar; heillaðist eg þá samstundis af elsku og tók hún hjarta mitt svo fast, að tárin hrundu af augum mínum. Varð eg altekinn af sárblíðri löngun, sem upp frá þeirri stundu hefur kvalið hjarta mitt, og alltaf þróazt dag frá degi.“

Svo mælti hinn ungi maður og setti að honum svo mikinn ekka, að læknirinn hugði hann dauðvona. „Hvað fæ eg að launum,“

sagði læknirinn, „ef eg kem því til vegar, að þú megir njóta konu þessarar, er þú elskar?“

„Allar eigur mínar,“ svaraði hinn ungi maður, „já, líf mitt.“ Þá þuldi læknirinn töfraformála og þrítók hann hvað eptir annað; síðan mælti hann við hinn unga mann: „Far nú í hin beztu föt þín og ber angandi smyrsli í hár þitt, því nú muntu að vörmu spori líta konu þessa, er þú þráir svo mjög.“ Ungi maðurinn gerði einsog fyrir hann var lagt, og sem hann var aptur kominn inn í herbergið, þá sjer hann allt í einu hvílu eina; lá kóngsdóttir í henni sofandi, og var fegurri á að sjá, enn sólin í uppgöngu sinni. „Mikil undur!“ sagði hann frá sjer numinn. „Lofaði eg þjer því ekki,“ mælti læknirinn, „að koma til þín mey þessari, er þú elskar? Eg hef nú efnt heit mitt.“ „Mikill afbragðsmaður ert þú,“ segir yngismaðurinn, „aldrei sá eg nokkurn dauðlegan mann, sem guð hafði gædt slíkum mætti.“ Tjáði hann lækninum þakklæti sitt með mestu alúð og ástsemd, en hann hafði sig á burt og mælti að skilnaði: „Nú er mærin komin á þitt vald; sjá þú nú til, að hún verði þjer unnandi.“ Ungi maðurinn færði sig nú nær kóngsdóttur; hún lauk upp augunum og undraðist mjög, er hún sá hann, og spurði, hver hann væri. „Eg er sá maður,“ mælti hann, „sem augun þín fögru hafa hneppt í ánauð, sem þjáist sáran af að þreyja þig, og aldrei mun bregða við þig ást nje trúnaði.“ Kóngsdóttur gekkst hugur við orð þessi og sagði: „Ertu dauðlegur maður eða ertu andi? Hvernig er eg hingað komin?“ Þá svaraði hann: „Eg er hverjum dauðlegum manni sælli, og ekki vildi eg fyrir nokkurn mun hafa skipti við andana, sem fluttu þig hingað eptir skipun minni.“ „Heill þá, unnusti minn!“ mælti hún, „lofaðu mjer því með svardaga, að þú skulir láta þá flytja mig hingað á hverri nótt.“ „Hann svaraði: „Svo frábær er nú sæla mín, ástkæra mær! að eg get einskis framar óskað, því nú hefur þú heitið mjer ástum þínum alla tíma framvegis.“ Töluðu þau síðan lengi um æfintýri þetta og áttu saman hinar unaðsömustu stundir.

Morguninn eptir kom læknirinn aptur í herbergið til hins unga manns, kallaði til hans með lágri rödd og bauð honum að koma með sjer til lauga. Spurði hann þá, hvernig koma ætti kóngsdóttur til hallarinnar aptur og sagði læknirinn, að hún mundi flytj-

ast heim aptur með sama hætti og hún hefði þaðan horfið; og mundi enginn verða þess áskynja. Hvarf nú kóngsdóttir sofandi heim í höll sína og var hún ekki svo skyni skroppin, að hún færi að segja frá æfintýri sínu, er hún vaknaði. Þókti henni langt að bíða næstu nætur, en er hún kom að hendi, þá var hún aptur flutt til unnusta síns, og svo var framvegis hverja nótt. Nú liðu nokkrir mánuðir og sást þá að kóngsdóttir fór ekki einsaman. Varð þá kalífinn, faðir hennar, æfareiður, óð að henni með brugðið sverð og heitaðist við hana. „Ólánskindin þín!“ mælti hann, „allir konungar jarðarinnar hafa beðið þín, og nú gerirðu mjer slíka svívirðingu. Sver eg það við moldir forfeðra minna, að þú skalt lífið láta fyrir minni hendi, nema þú strax nefnir mannfýlu þá, er vjelaði þig.“ Fjellust þá dóttur hans hendur og sagði hún honum upp alla söguna, en hann sendi undireins boð eptir vezír sínum, sem var ráðspakur mjög og trúnaðarmaður hans að öllum einkamálum, þókti honum nauðsyn til bera að ráðgast við hann um vandkvæði þessi. Vezírinn hugsaði sig stundarkorn um og mælti: „Drottinn rjetttrúaðra manna! kænlegra ráða mun þurfa til að fá vitneskju um það, hvar dóttir yðar er niður komin. Veit eg til þess ráð eitt, sem er einfalt, en óbrigðult. Látið binda dálítinn kornpoka ofan til við hvílu dóttur yðar og búa svo um, að kornið sáldist niður út um rifu nokkra, ef rúmið verður burt flutt í nótt; mun þá hægðarleikur að rekja slóðina til hússins, sem oss er hugur á finna.“ Kalífinn lofaði mjög kænsku vezírsins og ljek honum enginn efi á, að ráðið mundi heppnast. Hvarf nú rúmið eptir vanda. Snemma næsta morgun fór læknirinn til lauga með hinum unga manni og sagði honum, að nú væri komið upp um þungun kóngsdóttur og vissi faðir hennar um bústað hans. „En vert þú samt óhræddur,“ sagði hann, „þjer skal ekki mein að þessu verða heldur enn mjer, og nú skaltu sjá ný stórmerki.“ Síðan lauguðust þeir báðir og gengu heim.

Þegar lýsa fór af degi, gekk kalífinn með vezírnum í svefnstofu dóttur sinnar; hittu þeir hana þar fyrir, og var kornpokinn tómur. „Nú munum við eflaust finna sakadólginn,“ mælti vezírinn. Síðan stigu þeir báðir á hesta sína og riðu á stað með fjölda hermanna. Röktu þeir kornslóðina og voru nú komnir í námunda

við hús matsalans, en í því heyrir hann ysinn og mannaferðina og gerir læknirinn varan við. Þá mælti læknirinn: „Far þú upp á flatþakið með fulla vatnskönnu, skaltu stökkva vatninu allt umhverfis húsið og fara því næst ofan aptur.“ Hinn ungi maður gerði svo; kemur kalífinn nú með mönnum sínum og sjer að straumhörð móða fossar hringinn í kringum húsið. Þeir kalífinn og vezírinn vissu ekki annara fljóta von í Bagdad enn Tígrisfljótsins og hugðu þetta vera sjónhverfingar einar, skipuðu þeir því hermönnunum að sækja djarflega útá vatnsfallið. En svo fór, að þeir sem hættu sjer út í það, drukknuðu samstundis. Vezírinn hugði nú vænlegast til ráðs, að skora á þá, sem í húsinu byggju, að segja til sín, með því skilyrði, að ef þeir gerðu svo, þá skyldi þeim ekkert verða gert til meins.

Kalífanum leizt þetta ráðlegt og ljet hann kalla hárri röddu og segja, að íbúum hússins væri óhætt að segja til sín, hverjir þeir væru og skyldu þeir hafa full grið. Læknirinn lofaði mönnum kalífans að hrópa svo lengi sem þeim líkaði; bauð hann síðan hinum unga manni að stíga upp á húsþakið og segja kalífanum, að þeir skyldu báðir tafarlaust koma á hans fund, ef hann aðeins sneri heim aptur til hallar sinnar. Ungi maðurinn gerði svo. Kalífinn þóktist að vísu svívirtur með þessum boðum, en úr því þess var enginn kostur, að hann gæti hefnt sín strax, þá sá hann ekki annað sýnna enn að hverfa heim aptur við svo búið. Hafði hann tæpa stundu verið í höll sinni áður enn læknirinn kom til dyra með hinum unga manni. Var þeim hleypt inn og ljet kalífinn undireins sækja böðulinn; skipaði hann honum að hálshöggva hinn unga mann. Böðullinn tætti sundur klæði hans og batt fyrir augu hans með þeim; síðan gekk hann þrisvar í kringum hann með brugðið sverðið og spurði, hvort höggva skyldi. „Þú skyldir höggið hafa fyrir löngu,“ svaraði kalífinn, er hann spurði í síðasta sinni. Þá reiddi böðullinn sverðið og brá því til höggs, en hönd hans vattst ósjálfrátt við og slæmdist sverðið á háls hundaranum og rauk af honum höfuðið niður fyrir fætur kalífanum. „Mikill klaufi ertu,“ sagði kalífinn, „hvernig gaztu verið svo blindur, að þú misstir sakamannsins og hæfðir fylgisvein þinn? Hyggðu vandlegar að honum og varaðu þig.“ Böðullinn reiddi aptur sverðið og kom

höggið á son hans, er stóð honum til annarar handar. Brá kalífanum mjög í brún og spurði vezírinn hverju þetta gegndi. Þá svaraði vezírinn: „Máttur þinn og veldi stoðar hjer ekki grand; hverjar varnir mundu gefast móti slíkri fjölkynngi? Það er því mitt ráð, að þú gangir til móts við lækninn, fagnir honum með virktum og biðjir hann að gera þjer ekkert til meins.“ Kalífanum þókti sem ekki mundi annað betur hlýða enn að breyta eptir ráði vezírsins. Sagði hann þá að hinn ungi maður mætti upp standa og ljet leysa frá augum hans. Fór hann síðan ofan úr hásætinu til læknisins, kyssti á hönd hans og mælti: „Heyr mig, þú, sem ert vitrastur allra manna; hvorki hafði eg minnsta hugboð um óskir þínar nje heldur vissi eg að slíkur afbragðs maður væri í borg minni. En ef svo er, að þú hefur drenglyndi til að bera, ekki síður enn aðra kosti, því fórstu þá svona með dóttur mína og því ljeztu nokkra af liðsmönnum mínum týnast?“ „Drottinn rjetttrúaðra manna!“ ansaði læknirinn, „eg er útlendur maður, og þegar eg var kominn hingað, þá kynntist eg yngismanni þessum. Var hann orðinn sjúkur af elsku til dóttur yðar og sá eg aumur á honum. Eg hafði líka gaman af að láta yður kenna á mætti mínum, en reyndar vil eg eigi beita honum til annars enn að koma góðu til vegar. Legg eg það nú á drengskap yðar, að þjer giptið þessum unga manni dóttur yðar. Hún á skap við hann, og hann er henni samboðinn.“ „Það virðist mjer sanngjarnt,“ ansaði kalífinn, „og skal svo vera.“ Að svo mæltu ljet hann færa yngismanninn í afardýrmætan kyrtil og bauð honum sæti hjá sjer, en handa lækninum ljet hann sækja hásæti af ebenviði. Nú er þeir sátu og voru að tala saman, þá varð lækninum litið á silkifortjald eitt; voru mynduð á það tvö heljarstór ljón. Benti hann þeim með hendinni, og jafnskjótt flugu þau hvert á annað með hræðilegu öskri, og var það líkast að heyra sem drynjandi þrumugnýr. Þá gerði hann þeim aptur bendingu og sáu menn þá ekki annað enn tvo ketti, sem voru að leika sjer. Ljet kalífinn vezír sinn segja lækninum, að sjer þækti gaman að sjá meira af þessu tægi. Þá bað læknirinn um vatnsker, og sagði vezírnum að fara úr öllum fötunum, hjúpa sig höfuðblæju og stíga niður í kerið. Vezírinn gerði svo, og er hann stóð í kerinu, þá þókti honum sem hann væri útá ómælanlegu hafi

í rjúkandi öldugangi. Greip hann þá til sunds, en öldurnar hröktu hann til og frá, og var hann rjett að kalla drukknaður. Þá kastaði holskefla honum upp á ókunna strönd. Þegar hann var á land stiginn, þá fann hann að hár hans var orðið geysiþykkt og fjell eptir baki honum allt niður á hæla. Furðaði hann sig mjög á því og fór að skoða sig í krók og kring; sá hann þá að hann var orðinn að kvennmanni. „Tarna er ljóta gamanið,“ segir hann við sjálfan sig; „það er reyndar eitthvað sjerlega fágætt, að vezír verði að konu, en til hvers átti eg að verða fyrir slíkum ósköpum?“ Í sama bili kom fiskimaður, klappaði á herðar honum og mælti: „Mikil blessuð hamingja! aldrei hafði eg búizt við slíkri veiði; undur er hún falleg; það er margýgur, sem guð hefur sent mjer, til þess að eg gipti hana syni mínum; hann er fiskimaður og getur ekki æskt sjer betra kvonfangs.“ Og svo var fiskimaðurinn feginn veiði þessari, að hann sleppti í það sinn að fara til fiskjar. Hafði hann margýgina heim með sjer í kofann til konu sinnar. „Hvar er hann sonur okkar?“ spurði fiskimaður, „forsjónin hefur ætlazt til að margýgur þessi verði kona hans.“ „Hann er útí haga með kúna,“ ansaði konan, „en eg vonast eptir honum á hverri stundinni.“ Kom nú sonur fiskimannsins heim; og er vezírinn sá hann, þá mælti hann: „Fari það nú kolað! í nótt á eg að hátta hjá þessum bannsettum slána. Hvað dugar þó eg segi: „Ykkur skjátlast; eg er ráðgjafi kalífans,“ — þeir trúa mjer ekki, því eg er kvennmaður að öllu útliti og sköpulagi.“ Sagði nú fiskimaður við son sinn: „Góðu heilli ert þú getinn og fæddur, drengur minn! þú átt nú því stórhappi að fagna, sem engum hefur hlotnazt áður, og sem líklega engum mun hlotnast síðar; guð hefur sent þjer margýgi og er bezt hún giptist þjer í dag og ekki seinna.“ Sonur fiskimannsins rjeði sjer ekki fyrir fögnuði og trúði því valla, að hann væri slíkur lánsmaður. Fór brúðkaupið fram sama kvöldið, og varð konan skjótt barnshafandi; og er tímar liðu til jafnlengdar, þá ól hún vænt og bústið sveinbarn. Varð hún skjótt þunguð aptur, og er það ekki að orðlengja, að hún var alltaf að eiga börnin, þangað til sjö voru komin, og alltsaman sveinar. En nú var vezírinn orðinn fullsaddur á þessari æfi og sagði við sjálfan sig: „Ætli eg geti þá aldrei losast úr þessu volæði, sem eg komst í fyrir forvitni mína og talhlýðni? Eg verð

að fleygja mjer út í sjóinn þar sem mjer kastaði á land, og er mjer miklu betra að deyja heldur enn að lifa við slíkar hörmungar.“ Vezírinn framkvæmdi þegar ásetning sinn, og keyrðist hann út á haf með holskeflu einni. Og sem hann lyptir upp höfði sínu, þá sjer hann að hann situr í kerinu, en yngismaðurinn, læknirinn og kalífinn með allri hirðinni horfðu á hann með frábærri athygli. Spurði nú kalífinn ráðgjafa sinn, hvað hann hefði sjeð, en hann hló við og svaraði: „Herra! læknirinn er afbragðs töframaður. Eg hef sjeð himneska paradís, yndislegar meyjar, fagra yngissveina og hluti þá, sem ekkert mannlegt auga hefur litið. Nú ef þjer sjálfir viljið reyna, þá getið þjer komizt að raun um, að ekkert er fegurra til nje undrunarverðara.“ Varð nú kalífinn forvitinn og fór úr fötunum, sveipaði um sig líndúk og stje niður í kerið. Fórst honum á eina leið og vezírnum; honum þókti sem hann synti útí hafi og bæru öldurnar hann uppá fjarlæga strönd. En er hann var stiginn á land, þá tók hann eptir því, að hann var nakinn; sagði hann þá við sjálfan sig: „Nú skil eg, hvernig í öllu liggur; vezírinn og læknirinn hafa komið sjer saman um að steypa mjer frá völdum og ætlar læknirinn að setjast í hásæti mitt.“ Sá þá kalífinn ungar stúlkur, sem voru að sækja vatn í lind eina, skammt frá sjáfarmálinu. Yrti hann á eina af þeim og kvaðst vera skipbrotsmaður, og kominn frá fjarlægu landi, spurði hann hvaða land þetta væri, sem hann hafði að borið. Svaraði hún, að ekki væri langt þaðan til Ómans borgar, og þyrfti hann ekki annað enn að ganga upp á fjallið, sem fram undan honum væri, mundi hann þá sjá borgina, því hún stæði niðri undir fjallinu fyrir handan. Fór kalífinn sem honum var til vísað og kom í borgina. Hugðu menn þar, að hann væri kaupmaður og kominn af skipbroti, aumkvuðust menn því yfir hann og gáfu honum fatnað. Hjelt hann síðan áfram og kom á torg eitt, staðnæmdist hann þar fyrir utan matsölubúð eina, því hann var hungraður. Matsölumaðurinn í búðinni hafði líka fyrir satt, að hann væri útlendur skipbrotsmaður. Bauð hann honum vist og vinnu hjá sjer, og tvær drökmur að launum á degi hverjum. Þekktist kalífinn boð þetta, því með öðru móti hefði hann ekki getað haldið í sjer lífinu Nú borðaði hann sig saddan og var honum því næst sagt, hvað honum var ætlað að vinna. Sagði hann þá við sjálfan

sig: „Hvílík breyting! áður ríkti eg sem alvaldur kalífi og lifði í vegsemd og fögnuði, en nú verð eg að þvo diska. Aldrei hef eg vitað önnur eins fádæmi; en það eru reyndar sjálfskaparvíti. Mjer hefði verið nær að forvitnast ekki um hvað töframaðurinn var máttugur.“

Nokkrum dögum síðar gekk kalífinn út á kauptorg eitt, þar er gimsteinasalar höfðu búðir sínar; en þeir voru ærið margir þar í borginni, og höfðu mikla verzlun, því í sjónum þar nálægt var ógrynni af perlum, demöntum og kóröllum. Varð kalífanum þá hugur á að gerast verzlunarmiðill, svo hann þyrfti ekki lengur að vera hjá matsölumanninum. Næsta dag í býtið fór hann út á sama torgið og ljezt vera verzlunar miðill. Kom þá til hans maður með demant forkunnar fagran og sagði hann vera meira verðan enn allar tekjurnar af Egyptalandi og Sýrlandi. Spurði kalífinn, hvort steinninn væri falur, og kvað maðurinn já við því. Fór kalífinn þá með demantinn til ýmsra kaupmanna og sýndi þeim hann. Og er honum var boðið fyrir hann allt að hundrað þúsundum gullpeninga, þá fór hann aptur til eigandans og spurði, hvort honum þækti það nóg borgun. Tók hann boðinu og bað kalífann að láta telja sjer peningana út í hönd. Fór kalífinn til kaupmannsins, sem mest hafði boðið, og kvaðst eiga að taka við andvirði steinsins fyrir eigandann; bað hann að telja sjer nú þessar hundrað þúsundir gullpeninga. Kaupmaður svaraði, að slíkt væri ekki venja, og mundi hann ekki borga öðrum enn eigandanum sjálfum. Kalífinn fór þá að leita að honum, en fann hann hvergi, kom hann svo aptur og kvaðst sjálfur eiga demantinn. Var kaupmaður kominn á flugstig með að borga fjeð, en þá fór hann aptur að virða fyrir sjer steininn, og sá að hann var svikinn. Varð hann þá reiður og hrópaði: „Þorirðu, fanturinn þinn! að hafa svik í frammi á almanna torgi? Veiztu ekki að hjer er dauðahegning lögð við slíkum glæp?“ Þegar hinir kaupmennirnir heyrðu þetta, þá þustu þeir að, tóku kalífann fastan og drógu hann fyrir Ómans konung; spurði hann vitnin og dæmdi hinn ákærða til hengingar. Var þá brugðið festi um háls honum og túrbaninn tekinn af höfði hans, var hann svo leiddur um borgina og hrópað á undan honum: „Svona byrjar refsing þeirra, sem svíkja á almanna torgum upp í opið geðið á

konunginum sjálfum.“ Var nú kalífinn að hugsa um forlög sín og sagði við sjálfan sig: „Eg vildi ekki vera hjá matsölumanninum og ætlaði að verða kaupmiðill, og fyrir hið sama verð eg nú hengdur. En því er eg að kvarta? Allt þetta kemur ekki fram við mig til annars enn að forlögin rætist.“

Þegar kalífinn var kominn á aftökustaðinn, þá var snörunni brugðið um háls honum og fór böðullinn að toga. En í þeim svifum lýkur hann upp augum sínum og sjer að hann er að stíga upp úr vatnskerinu. Læknirinn, yngismaðurinn og vezírinn stóðu hlægjandi í kringum hann og rjetti vezírinn honum hönd sína. „Því hlærðu?“ sagði kalífinn. „Eg hlæ að æfintýri mínu,“ ansaði vezírinn, „því eg var gipt kona og móðir sjö barna.“ „Segðu ekki lengur;“ mælti kalífinn, „þú hefur þá reynt blítt með stríðu, en eg kem beina leið frá gálganum.“ Nú sögðu þeir kalífinn og vezírinn frá því, er þá hafði hent, og varð mönnum fremur enn ekki skemmt; dáðust allir að mætti og kunnáttu læknisins. Ljet kalífinn hann vera kyrran hjá sjer og veitti honum fje og frama, sem mest mátti verða. Kvaddi hann dómara og vitni til að semja hjúskaparsáttmála dóttur sinnar; var síðan drukkið brullaup með miklu hátíðahaldi og almennri skemmtun. En yngismaðurinn og læknirinn, sem hafði hjálpað honum, voru ávallt hinir beztu vinir allt til dauðadags.

# Frá 830 til 848 nætur.

## Sagan af Habib kóngssyni og Dorrat-al-Gavas kóngsdóttur.

Salama hjet höfðingi einn á Arabalandi; hann var hinn mesti kappi, en hniginn á efra aldur, er þessi saga gerðist. Honum laut kynkvíslin Benú-halal og sextíu og sex aðrar, og fylgdu honum þúsund riddarar, fríðir og fræknir. En það eitt var honum að angri, að hann var barnlaus maður; dró það lítið úr ógleði hans, þótt vegur hans og veldi stæði með svo miklum blóma. Var hann nú kominn á þann aldur, að honum þókti fyrir von komið, að sjer yrði barna auðið. Þá bar svo til, að hann heyrði á náttar-

þeli rödd nokkra leyndardómsfulla, sem sagði honum, að kona hans mundi þunguð verða. Liðu svo nokkrir mánuðir og gat þá Salama sjeð með eigin augum að spásagan rættist. Og að liðnum meðgöngutímanum ól kona hans sveinbarn, afbragðs fagurt. Gaf Salama sveininum nafn og kallaði hann Habib (þ. e. hinn elskulegi). Vildi móðirin ekki trúa neinni barnfóstru fyrir honum, og hafði hún hann sjálf á brjósti. Var Salama hið mesta yndi að sonareigninni. Og er honum þókti tími til kominn, þá fjekk hann dugandis mann til að kenna sveininum, og gegndi hann því starfi með alúð og kostgæfni. Tók Habib frábærum framförum, og er hann var sjö vetra gamall, þá var hann fullkomlega heima í málfræði, sagnafræði og skáldskap, og leikinn í allskonar leturgjörð. Efnaði þá faðir hans til stórveizlu og bauð yfirmönnum kynkvísla þeirra, er undir hans vald lutu. Í þeirri veizlu var reynt hvað Habib kynni, og sýndi hann þá svo frábæran lærdóm og þekkingu, að alla rak í rogastanz. Luku menn upp einum munni um það, að hann mundi ekki verða síður að íþróttum búinn enn lærdómi. Varð Salama þá svo feginn, að hann ljet sækja kennarann og hjelt yfir honum mikla lofræðu; ætlaði hann að gefa honum fjóra úlfalda klyfjaða með gulli og silfri og gersemum, og gera hann að yfirmanni einnar kynkvíslar; kvað hann þó laun þessi vera helzt til lítilfjörleg, þar sem hann ætti honum svo mikið að þakka. En kennarinn drap hendi við gjöfum hans og þókti honum það furðu gegna. „Eg sje það,“ mælti kennarinn, „að nú er tími til kominn, að eg láti þig ekki lengur vefjast í villu um það, hver eg er. Eg er ekki af mennskra manna kyni, heldur er eg einn í tölu þeirra anda, sem langt eru hafnir yfir mannkynið og allan jarðneskan hjegóma. En eg heyrði leyndardómsfulla rödd, sem sagði, að eg skyldi fara til hirðar þinnar og takast á hendur að kenna syni þínum. Eg hlýðnaðist þeirri skipun; eg bað þig að kjósa mig til starfs þessa og þú kaust mig. En nú er sendiför mín á enda.“ Datt þetta ofan yfir Salama og fjellust honum orð til að láta þakklátsemi sína í ljósi, en andinn mælti ennfremur: „Nú verð eg að skilja við lærisvein minn, og fær það mjer mikillar hryggðar, fellur mjer það sárast fyrir þá sök, að eg veit að ógæfa mikil mun steðja að honum, þá eg er farinn.“ Að svo

mæltu faðmaði hann Habib að sjer, en ekki svaraði hann neinum af spurningum Salama, heldur hljóðaði hann upp yfir sig og hvarf burt grátandi. Þá kveinaði og Habib hástöfum, svo að undir tók í höll föður hans. „Ó mig auman!“ hrópaði hann, „hvernig á eg að geta lifað án fræðara míns, sem eg á allt að þakka? Hann mun ávallt standa mjer fyrir hugskotssjónum dag og nótt, og mun hjarta mitt kveljast af sífeldum söknuði og trega. Mun harmur þessi verða mjer þyngri enn svo að eg fái risið undir honum.“ Rann þetta öllum til rifja, sem viðstaddir voru, en þá heyrðist í sama bili rödd, sem sagði: „Habib verður að yfirbuga sorgina og íhuga það, að honum byrjar að renna skeið það, sem honum er fyrir sett. Hann á að herða og stæla líkama sinn undir þrautir og hættur, einsog hann áður aflaði sjer andlegrar menntunar og þroska.“ Við þessa áskorun hughreystist Habib aptur og mælti: „Hingað til hefur andinn reynzt mjer ágætur leiðtogi og fyrst hann nú skorar á mig, að eg leggi stund á vopnaburð, þá vil eg hans ráði hlíta, og mun þá skammt þangaðtil jörðin bergmálar af hljómi frægðar minnar.“ Varð Salama stórglaður er hann sá vígahug þenna á syni sínum og tók þannig til orða: „Heill svo, sonur! eldur brennur úr augum þínum og er það mjer skýlaus fyrirboði þess, að þú munir verða einhver hinn ágætasti kappi á meðal hinna hraustu kynþátta, er eg býð yfir. Og fyrst að drottinn ljet þjer hlotnazt svo ágætan kennara, þá látum oss ekki örvænt þykja, að hann leiðbeini oss til að kjósa þann úr, sem bezt er fallinn til að kenna þjer vopnfimi.“

Nú voru þar margir höfðingjar saman komnir, og beiddu þeir konung að unna sjer slíkrar sæmdar, hver í kapp við annan. Þá kom þar allt í einu riddari einn, ókunnugur. Reið hann hesti svo ágætum, að enginn hafði eins fríðan eða rennilegan sjeð á öllu Arabalandi. Herklæði hans voru því líkust sem spámaðurinn Davíð *) hefði smíðað þau. Hann hafði í hendi sjer steinkylfu, og var hún svo þung, að fjörutíu sterkustu mönnum mundi hafa verið um megn að bera hana. Við síðu honum hjekk sverð eitt, er smíðað hafði verið á Indlandi, og burtstöng hans var eptir völundinn Samher.

*) Í kóraninum segir svo, að Davíð hafi fyrstur smíðað góðar spangabrynjur.

Stökk hann þegar af baki, kvaddi Salama og alla hirðina og mælti: „Eg er hingað kominn, herra! til þess að bjóða syni yðar þjónustu mína, hef eg lengi við herskap fengizt og aflað mjer reynslu mikillar í hernaðar íþróttum. Nú ef þjer viljið reyna styrkleik minn og vígfimi, svo þjer vitið með vissu, hvort eg er því vegsamlega starfi vaxinn, sem eg vil á hendur takast, þá býð eg yður þann kost, að við reynum með okkur.“ Vaknaði þá hinn forni hugmóður öldungsins og var sem hann yrði ungur í annað sinn; tjáði ekkert, þó menn leiddu honum fyrir sjónir, hversu óforsjállegt væri að skipta vopnum við útlending, sem vel mætti vera sendur til höfuðs honum. Ljet Salama þegar sækja vopn sín. Hann steypti yfir sig hringabrynju, sem engi járn bitu, og gyrtist sverði sínu; það var svo snarpeggjað, að það sneið í sundur hörðustu steina. Tók hann svo í hönd sjer geysistóra burtstöng og stje á hest sinn.

Nú skipuðust áhorfendur í hring, og riðu kapparnir fyrst í sundur til að leggja sem lengst skeiðrúm undir sig; síðan hleyptu þeir hver á annan af slíku heljarafli, að burtstengurnar stukku sundur í ótal parta. Þrifu þeir þá til sverða sinna og hjuggust í ákafa. Finnur Salama hvílíkt afbragð útlendingurinn er að vígfimi; hættir þá leiknum og er hinn glaðasti. Fjell útlendingurinn til fóta honum og bað hann fyrirgefa dælsku sína, er hann hafði skorað á hann til vopnaviðskiptis, kvaðst hann hafa ráðizt í það, af því sjer hefði leikið svo ákaft hugur á, að verða kennari sonar hans. Þá benti Salama sveininum, og kom hann þegar, faðmaði að sjer útlendinginn og spurði hann að nafni. „Nafn mitt er Al-Abús,“*) svaraði útlendingurinn. „Þá er nafn yðar óheppilega valið,“ mælti Habib, „því ekki eruð þjer svipillur, heldur skín af yður ljúfmennska og mildi, og fá því allir hinn bezta þokka á yður.“ Al-Abús svaraði engu, en faðmaði Habib að sjer með blíðu. Hjet hann Salama að neyta allrar orku til að uppala son hans sem bezt, svo hann yrði hraustur og hugprúður einsog konungbornum manni sæmir að vera. Lærði nú Habib herskapar íþróttir undir hans tilsögn og var hinn kappsamasti; sá það fljótt á, að honum ljek það í hendi einsog allt annað. Gafst honum skjótt færi á að nota sjer það, er hann

*) þ. e. hinn skuggalegi.

hafði numið, og varð hann frægastur allra hermanna á Arabalandi. Þá ásetti Al-Abús sjer að skilja við Habib, því hann þurfti hans ekki framar. Og einn dag er þeir voru úti að ganga sjer til skemmtunar, þá tók Al-Abús þannig til máls: „Kæri Habib! það er skylda mín að búa þig undir það sem fyrir þjer liggur, og er ekki þess að dyljast, að þú átt miklar þrautir og hættur fyrir höndum; en forlögin heita þjer fögrum sigurlaunum, þegar þrautirnar eru afstaðnar. Þjer er ætlað að eiga Dorrat-al-Gavas, hina fögru drottningu, sem ríkir bæði yfir öndum og mönnum í fjarlægu ríki, óraveg frá Arabalandi. Hún hefur tvo ráðgjafa, er annar karlmaður en hinn kona, og hlýða báðir boðum hennar með auðsveipni. Skal eg nú segja þjer sögu drottningarefnis þíns.

## Frá konunginum á Bellúreyjum og Dorrat-al-Gavas, dóttur hans.

Þar er til máls að taka, að konungur Bellúreyja sat að ríkjum sínum og rjeði yfir mörgum eyjum í Indlandshafi; var hann afarvoldugur, en þjáðist þó mjög af hugsýki, er kona hans var óbyrja og engin erfingja von. Það var einhvern dag, er hann var í öngum sínum útaf þessu, að andi nokkur birtist honum allt í einu og mælti: „Mikli konungur! eg er kominn til þess að bjóða þjer þann kost, er eg hygg að fái bætt úr hörmum þínum. Eg á unga, fríða og auðuga dóttur; og viljir þú ganga að eiga hana, þá hlotnast þjer það, sem hinir voldugustu konungar heimsins hafa eptir sókzt og ekki fengið. En mannkostir þínir og góðverk valda því, að eg tek þig fram yfir hinn voldugasta konung í heimi. Er nú vafalaust, að þú munt barn geta við dóttur minni; mun það verða þjer líkt að rjettlæti og góðsemi og efla farsæld þegna sinna í hvívetna. Nú bið eg þig þess eins, að þú haldir áfram breytni þinni, því þar undir er komin hamingja mín og dóttur minnar.“ Brást konungurinn glaður við þenna óvænta ráða kost, og var ekki seinn á sjer að ganga að boði andans. Benti þá andinn þrælum þeim, er stóðu ósýnilegir í kringum hann, að þeir skyldu sækja dóttur hans. En er konungur leit hana, þá sá hann vel, að andinn hafði eigi dregið hann á tálar. Drakk hann

brullaup sitt til dóttur hans og fór það fram með mikilli viðhöfn. Rættist spádómur andans og ól drottning fríðasta meybarn; lagði hún alla stund á að uppfæða það sem bezt. þessi dóttir hennar er Dorrat-al-Gavas sú, er eg nefndi. — Er kóngsdóttir þessi hið mesta kvennval og öllum listum búin; gerðist hún drottning yfir Bellúreyjum að látnum foreldrum sínum, og eru þegnar hennar ærið margir, en þess utan ræður hún yfir miklum fjölda anda, er gengið hafa til handa henni.“

Að svo mæltu hvarf Al-Abús. Stóð Habib eptir þungt hugsandi útaf því, er hann hafði heyrt. Gekk hann einsog í leiðslu inní skóg þann, er var umhverfis höll föður hans. Sá hann þá mey nokkra fríða undir hinum þjettlaufguðu eikum, og heillaðist hann af fegurð hennar. Hugði hann, að þar mundi vera ein af yndismeyjum þeim, er spámaðurinn kveður vera í sælubyggðum annars heims. Nú vildi hann ganga úr skugga um, hvort svo var sem fyrir hann bar, og faldi sig svo að ómögulegt var að sjá hann. En sem hann var kominn í fylgsni sitt, þá sá hann hvar fjörutíu skrautfjaðraðir fuglar svifu niður að fótum yngismeyjarinnar fögru. En í sama vetfangi sem þeir stigu fótum sínum á jörðina, þá breyttust þeir í jafnmargar meyjar. Reyndu þær á allar lundir að sýna drottningu sinni virðingu. Tók hún þannig til máls: „því fylgduð þið mjer ekki undireins þegar eg fór á stað? þið vissuð þó að eg ætlaði að finna emírs soninn Habib, er eg elska svo heitt; hvað hefur aptrað ykkur og hvað hafið þið ykkur til afsökunar, að þið skylduð leggjast skipanir mínar undir höfuð?“ Svöruðu meyjarnar þá: „það er ekki okkur að kenna; við höfum neytt allrar orku til að fylgja yður, en flug yðar var svo geysi hart, að við gátum með engu móti fylgt yður.“

Habib sá nú undireins að þetta var sama kóngsdóttir, sem andinn hafði sagt honum frá; langaði hann fyrst til að fleygja sjer flötum fyrir fætur henni, en kom sjer ekki að því fyrir ótta og lotningu. Mælti kóngsdóttir ennfremur: „Hjer ætla eg að bíða mannsins míns tilvonanda. Hann kemur opt í garð þenna og skildi eg við ríki mitt og fór um hálfan heiminn til að leita hann upp. Að líkindum leiðir hamingjan hann í lund þenna; nei! mjer skjátlast ekki, því þarna sje eg að hann er á leiðinni til okkar.“ þekkti Dorrat-al-Gavas Habib er hann kom útúr lund-

inum til hennar. Gekk hún til móts við hann og ljet í ljósi feginleik sinn er þau fundust. Svaraði Habib henni að sínu leyti eins ástúðlega og kvað sig ávallt hafa langað ákaft til að sjá drottningu sína tilvonandi, allt frá því andinn Al-Abús kennari sinn hefði sagt sjer frá henni. Kvað hann ástarlöngun sína jafnan hafa staðið sjer fyrir svefni. Í því hann mælti þetta, sá hann álengdar hvar geysistór fugl kom fljúgandi, og er fuglinn kom, þá settist hann við fætur kóngsdóttur og varð allt í einu að gömlum karli; heilsaði hann þeim báðum vingjarnlega. Þekkti kóngsdóttirin þar undireins vezír sinn, og spurði hvað hann vildi sjer. „Kóngsdóttir!“ svaraði vezírinn, „eg kem hingað með öndína í hálsinum til þess að biðja yður fyrir hvern mun að hverfa heim aptur. — Þegar þjer voruð farnar, gerðust andarnir hugsjúkir og kröfðust þess, að þeir mættu sjá yður; svaraði eg þeim, að þjer sætuð yfir málum, sem eigi mætti á frest skjóta og mættuð þjer því ekki ganga frá höllinni. En þessa undanfærslu skilja þeir svo sem þeir sjeu lítilsvirtir. Nú ef þjer verðið lengur burtu, er vísast að einhver þeirra geri uppreist og beri þetta fyrir sig.“ Andadrottningin hugsaði nú ekki um annað enn hvað sárt var að skilja við Habib og mælti: „Kæri Habib! þjer getið því nærri hvað mjer sárnar að fara burt við svo búið og mega ekki hafa yður með mjer; en því er miður, það er vilji forlaganna, að við eigum í allskonar þrautum og mótlætingum áður enn við fáum notist. En munið jafnan Dorrat-al-Gavas, látið mynd hennar standa fyrir hugskotssjónum yðar og efla yður þrek til að vinna það sem forlögin heimta, svo þjer getið fengið mín.“ Að því mæltu settist hún á bak vezír sínum, er hann var aptur kominn í fuglshaminn, kvaddi hún emírssoninn, og flaug síðan burt með fylgikonum sínum; en þær höfðu aptur breytt sjer í minni fugla.

Habib gat nú ekki að sjer gert að gráta; hann stóð lengi grafkyr og horfði í þá áttina sem Dorrat-al-Gavas hafði flogið. Urðu þau Salama og kona hans áhyggjufull, er sonur þeirra var svo lengi burtu og gengu þau til garðsins, því þau hugðu að hann mundi vera þar. Hittu þau hann grátinn og kveinandi útaf forlögum sínum, og var hann nær því sinnulaus. En er foreldrar hans höfðu komið honum til sjálfs síns, þá sagði hann þeim, hvað

sjer hefði viljað til. Rankaði þau þá við því, sem andinn kennari Habibs hafði spáð, og með því þau hjeldu, að ófarir þær, er hann hafði sagt fyrir, mundu hljótast af Dorrat-al-Gavas, þá gerðu þau allt til að telja Habib hughvarf, er hann ráðgerði að fara í leitarför eptir henni. Kom það fyrir ekki, þó faðir hans sýndi honum fram á allar þær hættur, er fyrirætlun þessi hafði í för með sjer, og byði honum að senda reynda riddara í allar áttir til að leita upp andadrottninguna. En Habib ljet eigi fæla sig frá áformi sínu, þótt hann sæji fyrir sjer opinn dauðann; beiddi hann föður sinn að fá sjer úlfalda og öll farargögn, sæmilegt föruneyti og gjafir handa unnustu sinni. Bað hann Salama að útrýma allri hugsýki og lagði því næst á stað með lest sína. Fylgdu honum tuttugu hinir áræðnustu riddarar af kynþætti hans; var hann sjálfur í ágætri brynju og reið fyrirtaks gæðingi. Og er Habib var kominn á stað, þá þókti honum sem steini væri ljett af hjarta sínu, og tók hann að þylja fyrir förunautum sínum ljóðmæli nokkur, er lýstu elsku hans og eptirþrá. Þessir förunautar hans höfðu eigi getað hliðrað sjer hjá skipun Salama emírs nje skorast undan að fylgja Habib; en allir sáu þeir ofsjónum yfir giptu hans, er hann hafði unnið sigur í svo mörgum orrustum; og sakir þessarar svívirðilegu öfundar rjeðu þeir af að drepa hann í svefni. Einhver sá, er áræðnastur var í flokki þessum, tókst á hendur að gefa honum svefndrykk, enda tókst honum það einusinni, er lestamenn höfðu tjaldað að kvöldi dags í dalverpi nokkru. Kenndi Habib óðar áhrifa drykkjarins og rann á hann þungur svefnhöfgi. Báru nú riddararnir saman ráð sín, hvað gera skyldi. Vildu sumir drepa hann, en einn var sá er forða vildi lífi hans og lagði hann það til, að þeir skyldu skilja hann einan eptir, og ekki gera sig seka í manndrápi, nema nauðsyn drægi til; en tækju þeir allt frá honum, er hann þyrfti til að geta haldið áfram ferð sinni, þá mundi eigi geta hjá því farið, að hann biði bana í eyðimörkinni. Fjellust nú flestir á tillögu þessa og ljetu sjer nægja, að taka frá honum hest hans og vopn, og allt sem orðið gat honum til bjargar. Því næst fóru þeir aptur sömu leið og þeir voru komnir og var samkomulag þeirra á þessa leið: „Þegar emírinn Salama spyr eptir Habib syni sínum, þá skulum

vjer telja honum trú um, að hann hafi sýkzt af ofraun á ferðinni og dáið, og hafi komið fyrir ekki, þótt við gerðum okkar sárasta til að bjarga lífi hans. En spyrji hann, því við ekki komum með lík hans, þá mun oss vera næg afsökun að segja, að vjer höfum verið hræddir um, að það mundi rotna af hita í eyðimörkinni.“

Þegar riddararnir höfðu talað sig saman um þetta, þá tóku þeir upp sorgarlæti og sorgarbúning, og sem þeir komu í nánd við Salama emír, þá hljóðuðu þeir hástöfum og kveinuðu sáran. Teymdi einn þeirra hest Habibs með tóman söðulinn, og er emírinn sá þetta sorglega atferli, þá skildi hann þegar, hverskonar mótlæti sjer hefði að hendi borið. Verður því eigi með orðum lýst, hve mjög hann hryggðist, er einn af riddurunum sagði honum sorgartíðindin. „Habib sonur yðar er dáinn;“ mælti riddarinn, „sólarhitinn í eyðimörkinni lagðist svo þungt á hann, að hann vanmegnaðist og dó. Við leituðumst við að veita honum alla hjálp, sem unnt var, en það varð til einskis og andaðist hann með nafn unnustu sinnar á vörunum.“ Þá varð Salama yfirkominn af harmi og mælti: „Ó vei! helzt til sannar hafa spásagnirnar verið; eiga þá hinar síðustu æfistundir mínar að beiskjast af svo hryggilegu óláni? Æ, veslings sonur minn! að þú skyldir deyja svo ungur og í blóma aldurs þíns! hreysti þín var betra hlutskiptis makleg. Þú mundir hafa orðið huggun mín í ellinni og sómi ríkis míns.“ Svo mælti hann og reif sundur klæði sín og jós ösku í höfuð sjer, en í sama bili kom kona hans hlaupandi og æpti hástöfum: „Hvar er sonur minn? „hvað hafið þið gert af honum? Því komuð þið ekki aptur með lík hans? þá hefði eg sjálf sveipað hann í náklæði, og þá hefði eg að minnsta kosti ennþá einusinni litið hann augum mínum.“

Svikararnir báru það fyrir, sem þeir höfðu orðið ásáttir um, og sögðu, að hitinn hefði verið svo fjarskalegur, að þeir hefðu ekki getað flutt líkið, því það hefði undireins farið að rotna; kváðust þeir hafa gert útför Habibs virðulega. Beiddi móðir hans þá að segja sjer, hvar hann væri greptraður, en þeir svöruðu, að þeir hefðu jarðað hann í hinum hræðilegustu öræfum, hefði engi maður stigið þar fæti sínum áður, og væri eigi kunnugt, hvað eyðimörk sú hjeti. En foreldrar Habibs urðu óhuggandi, lögðust í

öskustó og vildu einskis neyta. Og allir sem heyrðu til kynþætti Salama, tóku innilega hlutdeild í harmi hans og syrgðu Habib af hjarta, enda þóktist hver maður í honum hafa misst hinn bezta vin og fulltíngismann.

Nú vaknar Habib og verður mjög óttasleginn, er hann sjer sig aleinan, en endalausar auðnir á alla vega. Var hann nú hestlaus og vopnlaus og hafði enga von aðra enn að guð mundi hjálpa sjer; fjell hann því á knje og baðst þannig fyrir: „Alvaldi drottinn! þú sjer hversu illa eg er svikinn; þú einn getur frelsað mig úr slíkum dauðans nauðum og bjargað mjer úr háskasemdum þeim, er yfir mjer vofa; eg gef ráð mitt í þína hönd; tak líf mitt ef þjer þóknast, en veit mjer hug til að ganga útí dauðann.“ Óðara enn hann hafði mælt þetta, sá hann langt í burt einhvern sorta niðurvið sjóndeildarhringinn. Stefndi Habib óhræddur á hann og óð sólheitan sandinn í eyðimörkinni, en svo leizt honum sem sortinn þokaðist undan við hvert spor, er hann gekk áfram. Þá sýndist honum allt í einu, einsog skýji svipaði niður, enn hann sá fljótt að það var ekki ský heldur geysistór fugl. Voru fætur hans viðlíka digrir og pálmaviðarstofnar; þókti Habib sem sjer væri með þessu bent til að leita sjer lífs og batt sig fast við fætur fuglsins. Flaug fuglinn á stað aptur og stefndi rakleiðis á svarta blettinn, sem Habib gat eigi nálgast. Voru það geysimikil fjöll, en höfðu sýnzt svo lítil vegna fjarlægðarinnar. Settist fuglinn þar niður, en Habib leysti sig frá fótum hans. Skyggndist hann þar í kring um sig og fann dyr á víðum og voðalegum helli. Samt ljet hann ekki hugfallast, heldur gekk hann óskelfdur inn í hellinn. Og sem hann gekk inn, þá heyrði hann andann Al-Abús kalla á sig, og sá hann skammt frá sjer. Hjelt andinn í annari hendinni á dýrmætu sverði, er andar höfðu smíðað, en með hinni hendinni rjetti hann Habib gullskál fulla af vatni til hressingar, því hann var ljemagna af þreytu. Tæmdi Habib skálina í einum teig og tjáði síðan kennara sínum, hversu feginn hann væri fundi hans. Sagði hann honum frá því er hann hitti Dorrat-al-Gavas og kvaðst eiga mikinn fögnuð í vændum, þegar hann sæji hana aptur.

Þá svaraði andinn: „Æ! barn mitt! þú átt langt í land enn, og mikið er ógert; þú verður enn að sigla um ómælanleg höf,

sigra ógurleg ferlíki og þola allskonar þrautir. Eg skyldi feginn fulltingja þjer í vandræðum þessum, en mig brestur mátt til þess; eg get aðeins komið þjer heim aptur til foreldra þinna, ef þú fellst á það úrræði.“ Þókti Habib hann misbjóða sjer með slíku boði og mælti: „Á eg þá að koma heim aptur með svívirðingu eptir að eg hef skilið við ættmenni mín og haft mig í lífsháska? Nei! slíkur ódrengur skal eg aldrei verða, og hef eg einsett mjer að berjast til þeirrar konu, sem eg elska, eða láta líf mitt að öðrum kosti.“ En er andinn sá að lærisveinn hans var svo einbeittur, þá gaf hann honum heilræði og mælti: „Hjer í helli þessum eru geymd auðæfi Salómons konungs og hefur hann skipað mjer að gæta staðar þessa og skilja aldrei við hann nema hann leyfði. Viljir þú sjá auðæfi þessi, þá get eg gert þjer hægra fyrir að komast inn, og muntu þá sjá ótölulegan fjölda gimsteina með allskonar lit og lögun, og eru þeir geymdir í fjörutíu stórum sölum yzt við göng þessi, er ei sjer endir á. Undir þröskuldinum muntu finna lykilinn að fjehirzlum þessum; en ef þú ekki vilt tefja þig á að skoða auðæfin, þá skaltu ganga gegnum salina, þangað til þú kemur að fortjaldi einu, sem fest er með áttatíu krókapörum, skaltu eigi krækja því frá, fyr enn þú ert búinn að vefja þau með baðmullarbandi, sem eg ætla að fá þjer. Bakvið fortjaldið muntu finna gullna hurð með helgiskurðarletri, og verður þú að lesa það áðurenn þú fer lengra. Takist þjer að komast að merkingu letursins, þá skaltu ljúka hurðinni upp gætilega og ekki hræðast anda þá og óvætti, er vilja aptra þjer. Muntu þá sjá ómælanlegt og ólgufullt haf; skaltu ganga ofaná ströndina og kalla til skips þess, er þú sjer renna fram hjá, mun það þá óðara koma og taka við þjer. Eg get ekki sagt þjer meira, því hið ókomna er mjer hulinn leyndardómur, en það veit eg fyrir víst, að þessi mun vera hinn síðasti fundur okkar. — En áðurenn eg kveð þig, vil eg gefa þjer sverð þetta, er andar hafa smíðað.“

Nú varð Habib sárfeginn, þakkaði honum með handabandi og tók við sverðinu; gekk hann innar eptir hellinum og fann dyrnar, er andinn hafði sagt honum frá, og undir þröskuldinum skinnpoka með lyklunum í. Þekkti hann fljótt úr þann lykilinn, sem gekk að dyrunum, lauk hann þeim upp og kom nú í herbergi eitt ljómandi bjart.

Las hann þar letrið og komst að meiningunni; var það spakmæli eitt um hjegóma heimsins, og hversu þrek og þor sje nauðsynlegt til hættulegra fyrirtækja. En er hann færði sig nær fortjaldinu, er andinn hafði lýst fyrir honum, þá geystust að honum skrímsli og draugar hópum saman og byrgðu hann í reykjarsvælu og eldgangi, en hann brá sjer hvergi við. Vafði hann krókapörin á fortjaldinu vandlega með baðmullarbandi. Veitti honum þá hægt að lypta fortjaldinu. Í sama vetfangi hurfu allir óvættirnir, og hugðist hann með öllu laus við þá, en þá varð honum sú vangæzla, að hann lokaði dyrunum, en það hafði andinn bannað honum. Komu þá andarnir undireins aptur og æptu að honum: „Þú ofdirfskufulli maður! því truflarðu einveru þá, er vjer lifum í? þú átt það vopnum þeim að þakka, er verja þig, að þú sleppur undan æði voru, en tældu ekki sjálfan þig á þeirri von, að þú fáir afstaðið allar þær þrautir, sem þú enn átt fyrir höndum.“

En Habib skelfdist eigi, þótt ógnir þessar færu óðum vaxandi. Ljón og tígrisdýr og hræðilegir höggormar sóktu að honum; eldingarnar blossuðu, skruggurnar rumdu allt umhverfis, og steypihríðir fossuðu niður úr skýjunum, en hann fór óhræddur leiðar sinnar. Urðu óvinir hans loksins uppgefnir og hættu að ofsækja hann; veitti honum þá hægar að komast áfram. Bar hann nú þegar ofan að ólganda hafi; beið hann þar skipsins, er andinn hafði getið um, en það kom eigi. Leið svo næsti dagur að eigi kom skipið, og tók hann nú að kveljast af hungri og þorsta; beið hann þar í fjóra daga við harmkvæli mikil. En loksins sá hann tvær konur koma upp úr hafi og sagði önnur þeirra: „Sjerðu hann Habib þarna á ströndinni; hann er unnusti Dorrat-al-Gavas hinnar fögru; og vill hann feginn komast til hennar, en hann veit ekki, að milli þeirra er endalaus hafgeimur, sem fullur er af klettum og skerjum og allskonar hættum; ætlar þú að hann muni bera gæfu til þvílíks stórræðis?“ „Að vísu hygg eg svo,“ svaraði stallsystir hennar; „úr því hann hefur ratað í svo mörg hættuleg æfintýri og hvergi látið undan, þá er enginn vafi á því, að hann mun vinna hinar þrautirnar, sem eptir eru, en þó á hann ennþá langt í land með ósk sína.“ Þó nú orð þessi gæfu Habib litla von, þá jókst honum samt hugur. Enda bar skjótt meira gleðiefni að höndum, er hann

sá skip með fullum seglum útvið sjóndeildarhringinn. Kallaði hann til þess og var þá báti skotið út til að sækja hann. Og sem hann var kominn upp á skipið, þá hitti hann þar kaupmenn, og lögðu þeir alla stund á að veita honum hjálp og hjúkrun, því hann var hálfdauður af hungri og þorsta.

Nú er hann hafði borðað sig saddan, þá sagði hann þeim sögu sína, og vjek henni þó við eptir því sem honum þókti henta; sagði hann þeim, að hann hefði verið á kaupferð er hann sigldi um haf þetta, hefði hann brotið skip sitt og allir förunautar hans týnzt, en hann einn hefði bjargazt á skipflaki. Leituðust kaupmenn við að hugga hann í bágindum sínum; hughreystu þeir hann og hjetu að bæta honum skaða sinn. Gekk nú ferðin vel í nokkra daga og voru menn vongóðir um að ná bráðum til hafnar, en þá hljóp á hræðilegt stormviðri og hrakti skipið afleiðis. Neytti stýrimaður allrar orku að halda skipinu í horfi, en fjekk eigi að gert, leið svo nokkur tími og lægði storminn, gerði þá kyrt veður; en nú sást það fyrst, að skipið var komið á ókunnar hafleiðir. En út yfir tók hræðsla skipverja og farþega, er stýrimaður sagði þeim, hvar þeir væru niður komnir; kvað hann þá vera komna í græna haf, og væru þar hin verstu skrímsli og skaðræðisandar, sem gleyptu alla þá er hrektust á þessar slóðir; væri þeim nú dauðinn vís. Urðu nú allir dauðhræddir, en Habib hughreysti þá og mælti: „Hræðist ekki þessa illfúsu anda, eg hef boðið þeim byrginn áður, og það optar enn einusinni. Eg mun geta bjargað ykkur úr klóm þeirra." Bjóst nú Habib til bardaga við sjálfan fyrirliða andanna, en það var hann sem dró skipið og rjeði stefnu þess. Batt hann sig við streng og einhentist útí sjóinn, með töfrasverðið í hendi. Kom þá óvætturinn og ætlaði að gleypa Habib; en hann hjó til hans með sverðinu svo að af tók höfuðið. Þvínæst ljet hann draga sig upp aptur með strengnum og mátti þá skipið njóta skriðar síns. — Slíkt stórvirki var nú svo frábært, að öllum þókti sem eigi væri það einhama. Gáfu kaupmenn Habib allar eigur sínar í þakklætis skyni. Hugði einn þeirra, sem elztur var, að enginn vafi gæti verið á því, að einhver hulinn máttur verndaði Habib og hlífði honum í öllum hættum. Sárbændi hann Habib að segja til sín, en hann færðist lengi vel undan; ljet hann þó loksins til leiðast fyrir þrábeiðni

þeirra, og sagði þeim, hversu það hefði atvikazt, að hann komst út á skip þeirra. Bar nú skipið að Bellúreyjum í hagstæðum vindi, og sigldi það inná höfn borgar einnar fagurrar; flykktist undireins kringum það fjöldi manns á bátum, og buðust til að flytja ferðamenn og vörur á land.

Dorrat-al-Gavas syrgði ennþá sáran, er hún hafði orðið að skilja við unnusta sinn, og var hugsjúk út af hættum þeim, er yfir honum vofðu; en þá kom einn af öndum hennar og sagði henni komu Habibs. Bauð hún þá af stundu, að allir þegnar sínir skyldu samfagna sjer með virktum og viðhöfn, og prýða veginn fyrir Habib með fögrum ábreiðum og dýrindis rósavefnaði. Sendi hún og fjölmennan varðliðs flokk til móts við hann. Varð Habib óumræðilega feginn er hann hitti þá konu, sem hann hafði svo miklar þrautir fyrir þolað; en nú gleymdi hann öllu andstreymi í faðmlögum hennar. En í öllum glaumnum og gleðinni hryggðist hann, er hann hugsaði til þess, hversu faðir hans og móðir mundu hafa kvalizt af hugsýki frá því er hann skildi við þau. Rjeði hann af að segja kóngsdóttur ógleði sína. Lofaði hún honum því, að hann skyldi sjá foreldra sína samdægris. Stefndi hún þá saman hinum æðstu öndum og sagði þeim, að hún gildra orsaka vegna yrði að fara burt úr ríki sínu og fela stórvezírnum stjórnarstörf á hendur, meðan hún væri í burtu. Því næst skipaði hún öndum þeim, er henni þjónuðu, að flytja sig og Habib í aldingarðinn þar sem hún fyrst hefði sjeð hann. Gerðu andarnir það á einni svipstundu.

Þau Salama og kona hans hörmuðu ennþá missi sonar síns, og trúðu því ekki sínum eigin augum er þau sáu hann aptur. En ástaratlot Habibs tóku samt af allan efa, og sem heimkoma hans var kunnug orðin, þá komu allir höfðingjar í kynþætti hans og fluttu honum hamingju óskir. Var gleðihátíð haldin í sjö daga, en að þeim liðnum var dómur upp kveðinn yfir riddurum þeim, er svikið höfðu Habib og skilið við hann í eyðimörkinni; voru nítján af þeim dæmdir til hengingar. Og er fram liðu stundir og Salama safnaðist til sinna feðra, þá gerðist Habib yfirdrottnari kynkvísla þeirra, er fyrrum höfðu gengið til handa föður hans, en þar hjá var hann konungur yfir Bellúreyjum. Lifði hann lengi og farsællega með Dorrat-al-Gavas hinni fögru, og er margt manna frá þeim komið.

# Frá 849 til 861 nætur.

## Attaf frá Damaskus.

Einn dag er kalífinn Harún Alraschid var orðinn þreyttur á erfiðum stjórnarstörfum, þá fór hann inn í kjörgripasalinn til að ljetta sjer upp, og hafði hann með sjer vezírinn Gíafar og Mesrúr, sem var honum allra manna trúlyndastur. Lætur hann Mesrúr rjetta sjer eina af bókum þeim, er þar voru geymdar; voru á þá bók ritaðir margskonar kynlegir leyndardómar og spásagnir. Fór kalífinn að lesa í bókinni og þókti þá vezírnum kynlega við bregða, því fyrst hryggðist hann ákaflega, en rjett á eptir ætlaði hann að verða hamslaus af kæti og urðu skapbrigði þessi þrisvar í rennu. Þá mælti Gíafar: „Má eg vera svo djarfur og spyrja yðar hátign, hvað því veldur, að þjer grátið og hlægjið í sömu andránni einsog vitlaus maður?“ Kalífinn svaraði: „Það situr illa á vezír, að líkja drottni sínum saman við vitlaust flón; því hann á að sýna honum lotningu og auðmýkt. Annars get eg því nærri, að þig muni langa til að vita, hvað bók þessi hefur inni að halda. Gott og vel! farðu þá samstundis á stað, en komdu ekki í mína augsýn fyr enn þú veizt, hvað í henni stendur. Þú munt þá skilja atferli mitt og ekki framar ætla mig vitlausan. En komirðu til mín áður enn þú veizt grein á þessu, þá skaltu engu fyrir týna nema lífinu.“ — Að svo mæltu ljet kalífinn aptur bókina og gekk burt, en Gíafar stóð eptir höggdofa af undrun og hræðslu. Lötraði hann nú heimleiðis og var að hugsa um óþokka þann, er hann var fyrir orðinn, en gat með engu móti skilið, hvernig á honum stæði. Og meðan hann var í öngum sínum út úr þessu, þá mætti hann Yahia föður sínum. Rjeði hann Gíafar að taka þessu með þolinmæði og fara strax á stað til Damaskusborgar; skyldi hann ekki tefja sig á því að kveðja konu sína og ættmenni. Gíafar stje nú á bak múlasna og reið á stað. Fórst honum erfiðlega þangaðtil hann kom í hinar fögru sveitir, er liggja kringum Damaskus. Þá var þar í borginni maður nokkur stórríkur og hinn bezti drengur; hann hjet Attaf, og hittist svo á að hann var á skemmtigöngu í Fjóludalnum þegar Gíafar kom. Hann fagnaði vezírnum með blíðu, bauð honum til sín, og

fór með hann til hallar sinnar, en hún var þar í nánd við. Og sem Gíafar hafði styrkt sig þar á hinni dýrlegustu máltíð og drukkið kaffi, þá spurði Attaf, í hverju skyni hann hefði tekizt ferð þessa á hendur. Sagði vezírinn honum þá allt einsog farið hafði milli hans og kalífans. Reyndi Attaf að hugga hann á allar lundir og sagði hann mætti lifa og láta í höll sinni einsog hann væri heima hjá sjer; hann mætti vera hjá sjer svo lengi, sem honum líkaði, og þyrfti ekki að óttast, að hann yrði sjer nokkurntíma til leiðinda eða þyngsla. Þegar kominn var háttatími, ljet Attaf búa upp skrautlegt rúm handa gesti sínum og annað minna handa sjálfum sjer. Furðaði vezírinn sig á þessu og spurði, hvort hann engar konur ætti. „Þó eg sje kvongaður,“ svaraði Attaf, „þá skal eg samt ekki vera svo ókurteis, að láta yður einan, meðan þjer gerið mjer þá sæmd, að dvelja í húsum mínum.“ Þakkaði Gíafar honum fyrir kurteisi hans og ástsemd. Morguninn eptir fóru þeir báðir saman til lauga, og er Gíafar ætlaði að fara aptur í föt sín, þá voru þau horfin og hafði Attaf látið önnur miklu dýrmætari í staðinn. Eptir það stigu þeir á hesta og riðu út til þess að skoða það sem merkilegt var í borginni; höfðu þeir það sjer til skemmtunar hina næstu daga.

Með þessum hætti voru nú liðnir fjórir mánuðir. Teygðist svo úr útlegðartíma Gíafars og fjekk það honum ógleði. Og einn dag var það að hann gat ekki að sjer gert að gráta. Spurði þá Attaf hvað að honum gengi. Svaraði vezírinn, að sjer yrði alltaf skapþyngra dag frá degi, og það enn þótt Attaf af góðvilja sínum neytti allra ráða til að hafa af fyrir sjer. Kvað hann sjer nú bezt henta að fara einförum, og því hefði hann ásett sjer að ganga til Ommiada musteris. Sagði Attaf að hann vildi sízt af öllu gera nokkuð það, er honum mætti mislíka, og þá ekki heldur meina honum, að vera einsömlum, ef honum þækti það betra. Bauð hann honum pyngju sína, ef hann skyldi þurfa á peningum að halda; tók Gíafar því með þökkum og gekk á burt. Þegar hann var kominn að musterinu, þá gekk hann upp eptir riði einu með þrjátíu þrepum að höfuðdyrunum; fannst honum stórmikið um, hversu þar var prýtt með gulli og gimsteinum og marmarasmíði. Fór hann síðan inn í musterið og gerði þar bæn sína. Þegar hann kom þaðan, varð

honum reikað hingað og þangað um strætin. Gerðist hann þá þreyttur og settist á steinbekk gagnvart glugga einum, sem fullur var af blómum, svo að nær því lukti fyrir. Nú var lokið upp glugganum og sá þá Gíafar unga konu afbragðs fagra; vökvaði hún blómin og var að því stundarkorn, þangað til hún sá vezírinn, því þá lokaði hún glugganum í skyndi. Sat hann þá kyr og beið lengi, en sá hana ekki framar á þeim degi. Fór nú að nátta og varð hann þá að halda heimleiðis. Kom Attaf til móts við hann og kvaðst hafa verið orðinn áhyggjufullur, er hann var svo lengi í burtu.

Gíafar sagði sjer til afbötunar, að það kæmi til af því, að hann hefði skemmt sjer svo vel á göngunni, og hefði því teygzt úr henni fyrir sjer. Þegar þeir voru seztir að kvöldverðinum, þá tók Attaf eptir því að Gíafar var með öllu lystarlaus; spurði hann, hvernig á því stæði. Bar vezírinn það fyrir, að hann hefði neytt svo ríflega af miðdegis verðinum, að hann byggi að því enn. Um nóttina kom honum ekki svefn á augu, því honum stóð alltaf fyrir hugskotssjónum konan fagra, sem hann sá í glugganum. Hann sagði við sjálfan sig andvarpandi: „Ó, þú hin eingilfagra! hversu öfunda eg þann sem á þig.“ Morguninn eptir var hann svo veikburða, að hann komst ekki á fætur, og sendi Attaf þá eptir lækni. Þreifaði læknirinn á lífæð sjúklingsins og fann þegar, hvernig á veikindunum stóð; mátti skilja á honum, að ekki mundi hann ætla sóttina banvæna. Ritaði hann nú eitthvað á miða og stakk honum undir höfðalagið; sagði hann Attaf til miðans og fjekk hjá honum einn gullpening fyrir ómak sitt. Tók nú Attaf miðann og sá af honum, að Gíafar var sjúkur af ást, og mundi horfa til vandræða, nema ástríðu hans yrði svalað. Ámælti Attaf honum fyrir það, að hann hafði verið svo dulur, og sýndi honum læknisblaðið. Undraðist Gíafar skarpleika læknisins og varð nú að segja allt einsog var. En svo lýsti hann konu þeirri, er hann hafði fellt hug til, að Attaf gekk þegar úr skugga um, að það var kona sjálfs hans, er bjó þar nálægt höllinni í tjaldhúsi einu. Segir hann þá vezírnum, að hann þekki konu þessa, er honum leizt svo vel á, og hafi maður hennar látið hana eina. Kvaðst hann skyldu gera sitt til að vezírinn fengi hennar, og enginn annar. Fer hann þegar, en lofar Gíafar

fyrst, að hann skuli koma fljótt aptur og láta hann vita hvað sjer hafi orðið ágengt; gengur svo rakleiðis á fund konu sinnar. Fagnaði hún honum með blíðu og ástúð, og það því fremur sem hann hafði aldrei vitjað hennar frá því Gíafar kom. Attaf segir henni, að hann sje kominn til að láta hana vita, að móðir hennar er dauðveik; kveðst eiga að skila til hennar, að hún vilji finna hana sem bráðast. Varð konan hrædd og flýtti sjer til móður sinnar. Hitti hún hana fyrst á heimilinu og varð nú þess vísari, að hún var alheil og kenndi sjer einskis meins. Í sama bili var barið á dyr; voru það menn með byrðar og sögðu að Attaf hefði sent sig þangað með muni konu sinnar. Rak foreldra og vandamenn konunnar í rogastanz og strax gerði faðirinn henni skemmilegar getsakir, en móðirin reyndi að bera af henni. Og sem hæzt stóð á þessu, gengur Attaf inn með nokkrum vinum sínum. Faðir konunnar spurði hann, hvað honum gengi til breytni þessarar, en Attaf svaraði, að hann væri í alla staði vel ánægður með konu sína, en sjer hefði eittsinn orðið sú vanhyggja, að hann hefði svarið að skilja við hana. Og nú fjekk Attaf konu sinni morgungjöfina og skilnaðarskrána; mátti hann þá eigi tára bindast, því hann unni henni mikið og þókti sárt að skilja við hana. Að svo búnu sneri hann aptur til hallar sinnar. Mælti hann þá til Gíafars: „Hyggið nú af öllum harmi; eg hef búið svo um hnútana að kvonfangið getur ekki gengið yður úr greipum. Skemmtið yður því og verið glaður þangað til þjer getið gengið að eiga konu þá, er þjer elskið.“ Brá vezírnum svo vel við þessi tíðindi að hann varð samstundis albata; þakkaði hann Attaf með virktum og hugsaði ekki um annað enn að skemmta sjer. En Attaf gerði sjer nú enn meira far um að sýna honum alúð og ástsemd, svo hann eirði því betur til brúðkaupsins. Og er honum þókti tími til kominn, þá rjeði hann Gíafar að fara til borgar einnar þar í grenndinni og varpa af sjer dularhaminum, halda síðan innreið sína í Damaskus með allri þeirri dýrð og vegsemd, sem tign hans væri samboðin. „Þjer skuluð,“ mælti hann, „láta boða jarli vorum, að þjer farið um Sýrland eptir skipun kalífans; getur þá ekki hjá því farið, að hann sýni yður þann sóma, sem þjer eigið skilið. Þá skuluð þjer hefja bónorð yðar til konunnar fögru, og mun yður ekki verða frá vísað.“ Fór vezírinn að ráði þessu og sendi

tuttugu boðbera, er segja skyldu jarlinum, að hann ætlaði sjer að koma við í Damaskus.

Sá hjet Abdel-Malek-Ebn-Mervan, sem þá var jarl í Damaskus. Hann brá skjótt við og fór til móts við vezírinn hálfa dagleið; fylgdu honum allir embættismenn úr borginni. Fagnaði hann vezírnum í glæsilegu tjaldi og var þar fyrirbúin hin dýrlegasta veizla. Allur borgarlýðurinn gekk til móts við vezírinn og var almenn hátíð um gjörvalla borgina, er hann hjelt innreið sína. Nú varð honum það fyrst fyrir, að hann gerði orð fyrir föður konunnar, sem honum ljek hugur á; vakti hann þá bónorð sitt og var honum heitið konunni. Sagði hann föður hennar, að hann yrði að halda á stað næsta dag og yrði kona sín að búast til að verða sjer samferða. Faðirinn varð fegnari enn frá verði sagt og flýtti sjer heim til að segja dóttur sinni frá þessu hinu ágæta gjaforði, er hann hafði fengið henni. En hún ljet sjer fátt um finnast. Alla nóttina var mikill hátíðaglaumur og ljósadýrð um alla borgina; og var það allt í virðingar skyni við ráðgjafa kalífans. Daginn eptir hóf hann ferð sína til Bagdad, og stje kona hans upp í glæsilegan burðarstól. Og er gengið var til bænagjörðar í borginni, þá ljet hann blása í lúðra og tók sig upp með allri sveit sinni. Fylgdi jarlinn honum á leið með öllu stórmenni borgarinnar og sneri ekki aptur fyr enn við Kobbal-al-Assafir. Á heimleiðinni mætti hann Attaf; hafði hann riðið á stað eptir vezírnum til að kveðja hann. Kvaðst jarlinn furða sig á því, að hann hefði ekki slegizt í hópinn með hinum, og svaraði þá Attaf, að hann hefði tafizt og reið þegar frá honum hvað af tók. Þegar hann hafði náð vezírnum, þá fór hann af baki og mælti: „Njótið heilir, herra! guði sje lof að ósk yðar er framgengt orðið.“ „Já, kærasti vinur!“ ansaði Gíafar, „aldrei skal eg gleyma ástsemd yðar og alúð mjer til handa. Snúið nú við, og vitið fyrir víst, að eg skal ávallt muna yður velgjörð þá, er þjer hafið auðsýnt mjer.“

Þetta atvik notuðu nú óvinir Attafs til að steypa honum í glötun og fórust þeim þannig orð við Abdel Malek: „Haldið þjer ekki að Attaf hafi haft einhvern sjerlegan tilgang með það að taka sig út úr og kveðja vezírinn svona einslega? hefur ekki vezírinn verið hjá honum huldu höfði í marga mánuði? Vitið það líka,

herra! að Attaf hefur eptirlátið honum konu sína og fyrir slíkan greiða hyggur hann víst valla til minni launa enn að fá jarlsdæmið í Damaskus.“ þessi svívirðilegi rógburður fjekk nú jarlinum svo mikils, að hann einsetti sjer að fyrirkoma Attaf. Var því á náttarþeli laumað líki vegins manns í lystigarð hans. Morguninn eptir kom embættismaður nokkur, tók Attaf fastan og fór með hann til jarlsins. „þjer eruð þá hafður fyrir morðsök,“ segir jarlinn, „voruð þjer maður til að vinna slíkan glæp?“ Attaf kvað já við því, og gekk honum drenglyndi til, því hann vildi ekki að nábúar sínir skyldu gjalda vígsbætur; „eg hef drepið manninn,“ sagði hann, „og því er skylt eg bæti hann.“ En jarlinn var illfúsari enn svo, að hann ljeti sjer það nægja, og gekk hann í þetta skipti ríkt eptir boðorði kóransins, sem segir, að blóð skuli fyrir blóð koma. Var því Attaf dæmdur til dauða og átti strax að fullnægja dómnum. En er tíðindi þessi spurðust um borgina, þá kom í menn illur kurr, því Attaf var kunnur að drenglyndi og hvers manns hugljúfi; þókti því jarlinum ráðlegast að fresta aftökunni. Sendi hann Attaf í dýflissu og ljet skila til dýflissuvarðarins, að hann ætlaði að láta kyrkja sakadólginn á náttarþeli. Nú vildi það til allrar hamingju, að dýflissuvörðurinn var Attaf hollur í huga. Sagði hann honum skipun jarlsins, og lagði niður fyrir honum, hversu hann ætlaði sjer að koma honum undan. Leysti hann Attaf úr fjötrum, og ljet hann setja kefli í munn sjer; bað hann síðan að forða sjer. Fjekk drenglyndi þetta Attaf svo mikils, að hann mátti ei tára bindast. Flýr hann nú úr fangelsinu og heldur á leið til Bagdad. En bandingjavörðurinn rífur sig í framan og slítur skegg sitt, lætur svo fangelsisdyrnar standa galopnar. Um miðnætti kemur Abdel Malek með böðulinn og bregður honum heldur í brún, er hann sjer dýflissuvörðinn svo illa útleikinn. Sagði dýflissuvörðurinn að grímumenn, margir saman, hefðu komið um nóttina og brotið upp fangelsið; hefðu þeir misþyrmt sjer, en leyst bandingjann. þannig varð Abdel-Malek á tálar dreginn, en svo ákaft reiddist hann af undankomu Attafs, að hann setti dýflissuvörðinn af embættinu. Hafði hann sig nú allan við að grennzlazt eptir hvar Attaf væri niður kominn, en leitir hans urðu með öllu árangurslausar.

Nú er það að segja af Attaf, að hann hafði farið leiðar sinnar,

en þó sneiðt hjá öllum mannavegum, og var nú kominn í námunda við Bagdad. Þar rjeðust á hann stigamenn nokkrir og rændu þeir hann öllu; var hann því herfilega til reika, er hann kom í borgina. Spurðist hann undireins fyrir, hvar höll stórvezírsins væri og gekk að dyrum hennar; en með því hann var svo tötralega til fara, þá var honum synjað inngöngu. Leitaði hann þá á náðir karls nokkurs og fjekk hjá honum skriffæri; ritaði því næst brjef til vezírsins og skýrði honum frá bágindum sínum. Fjekk hann einum af varðmönnunum brjefið og bað hann að koma því sem fljótast í hendur Gíafars. En í sama vetfangi komu þau tíðindi, að kalífinn hefði eignazt barn; varð þá ys mikill og troðningur og týndi varðmaðurinn brjefi Attafs í mannþrönginni. Og er varðskipti urðu við hallarhlið stórvezírsins, þá var Attaf tekinn fastur, en látinn laus aptur, því kalífinn hafði orðið svo feginn barneigninni, að hann ljet boð út ganga, að allir bandingjar skyldu látnir lausir. Var og alþýðu manna haldin gleðihátíð með ríkulegum veitingum og lifði Attaf svo í nokkra daga á opinberan kostnað.

Einusinni um kvöldtíma ætlaði hann að ganga inn í musteri nokkurt og leggjast þar til hvíldar; en musterisvörðurinn rak hann í burt, því þaðan hafði verið stolið gólftjaldi daginn áður. Varð Attaf því að hafast við á strætum úti, en þar var hinn mesti sægur hunda og ljetu þeir hann engan frið hafa. Kölluðu þá næturverðir til hans og skipuðu honum að hafa sig á burt. Flýði hann þá inn í skot nokkurt, þar er dimmt var, en þar hnaut hann um lík eitt og stóð upp alblóðugur. Og í sama bili fór lögreglumaður einn þar fram hjá með þjónum sínum; hjelt hann undireins að Attaf væri vegandinn og fór með hann í dýflissu. Látum vjer hann nú sitja þar að sinni og víkjum þangað sem fyr var frá horfið, er Gíafar var kominn á stað með konu sína til Bagdad. Um dagseturs skeið nemur hann staðar með föruneyti sínu og lætur reisa tjöldin. Gekk hann þegar ástfanginn inn í tjald konu sinnar, en henni brá kynlega við komu hans og greip báðum höndum fyrir ásjónu sína. „Því byrgir þú ásjónu þína fyrir mjer?“ mælti Gíafar, „erum við ekki hjón, og ert þú ekki að lögum orðin eiginkona mín?“ „Jú“ svaraði hún, „það er eg

að vísu, ef stórvezír kalífans hefur ekki meiri drengskap til að bera enn svo, að hann þiggur vinarfórn þess manns, sem fyrst sóaði auðæfum sínum hans vegna, en þar næst eptirljet honum konu sína, sakir stórmennsku sinnar og göfuglyndis.“ Ræddust þau nú við um þetta eg skýrðist málið á báða vegu. Fjell Gíafar í stafi, er hann heyrði, hversu mikið Attaf hafði lagt í sölurnar fyrir hann. En þó kvað hann eigi annað vera fyrir að svo komnu, enn að hún færi með sjer til Bagdad, mundi henni verða fagnað þar einsog lögmætri konu hans og valdar virðulegar gjafir. Hjet hann að fá henni þar höll eina til íbúðar og svo mikið fje sem hún þyrfti til framfærslu, þangað til hún gæti farið til manns síns aptur með óskertum sóma. Enti stórvezírinn heit sitt og gerði allt sem unnt var, til þess að konunni yrði skilnaðurinn frá manni hennar ljettbærari. Skundaði hann nú á fund kalífans og var vongóður um, að reiði hans mundi sefast, þegar hann segði honum æfintýri sitt. Kalífinn spurði, hvað á daga hans hefði drifið síðan þeir skildu; sagði Gíafar honum frá öllu, sem honum hafði að höndum borið í Damaskus. „þetta vissi eg fyrir,“ mælti Harún; skipaði hann Mesrúr að sækja bókina, sem vezírinn hafði sjeð hann lesa í. Mesrúr sókti bókina, og sá Gíafar nú að í henni var skýrt frá öllu því, er hann hafði hent í Damaskus. Gekk það hreint fram af honum, og er hann hafði lesið þangað í sögunni, sem sagt var af burtför hans úr borginni, þá tók kalífinn af honum bókina og skipaði Mesrúr að láta hana aptur á sama stað. „þú sjer nú, Gíafar!“ mælti hann, „að það, sem þig kynjaði mest á í atferli mínu, var öldungis náttúrlegt. þegar eg las um æfintýri þín, þá urðu að koma í mig gleðiköst og hryggðarköst á víxl, og sagði eg þá með fullkomnum rjetti, að þú skyldir ekki fyrir mín augu koma fyr enn þú vissir efni bókarinnar. Skaltu nú fara til hallar þinnar og stýra embætti þínu einsog fyrrum; máttu ávallt treysta náð herra þíns.“ þakkaði Gíafar kalífanum og hlýddi skipun hans.

Nú er að segja af Attaf, að hann situr mótlættur í fangelsi sínu og á við illan kost að búa. þegar hann var dreginn fyrir dómarann, þá játaði hann á hendur sjer morði því, er honum var að sök gefið; svo leiður var hann orðinn á lífinu. Var hann þá

óðara dæmdur til dauða. Og er hann var dreginn til gálgans og snaran komin um háls honum, þá fór Gíafar þar fram hjá og varð honum ósjálfrátt litið til aftökustaðarins, spurði hann hvaða maður það væri, sem lífláta ætti. Þegar hann heyrði að það var Attaf frá Damaskus, þá kalladi hann hástöfum og skipaði mönnum að láta hann lausan. Hljóp Attaf þá í fang Gíafars og sveif á þá ómegin, svo mikils fjekk þeim, er þeir fundust aptur. Þegar þeir voru raknaðir við aptur, þá ljet vezírinn vin sinn fara til lauga og sendi honum þangað skrautlegan klæðnað; eptir það bauð hann honum heim í höll sína. Og er Attaf hafði hresst sig á mat og drykk, þá ljet Gíafar hann segja sjer, hvað honum hefði að höndum borið frá því er þeir skildu. Þegar Attaf hafði lokið þeirri sögu, sagði Gíafar honum allt sem farið hafði milli hans og konunnar, og fylgdi honum því næst á fund hennar. Varð Attaf frá sjer numinn af fögnuði, er hann sá hana aptur, því hann unni henni hugástum jafnt sem áður, og vissi um elsku hennar og trygglyndi sjer til handa. Sagði hún honum, hversu drengilega Gíafar hefði farizt við sig, og nú gleymdu þau hjónin öllu því andstreymi, sem þeim hafði að hendi borið. En meðan þau voru að gleyma því, sem hafði verið, og gleðjast yfir því sem var, þá fór Gíafar á fund kalífans og sagði honum hvað til hafði borið. Sýndi kalífinn honum að atburður þessi var einnig sagður fyrir í bókinni, og bauð honum nú að leiða Attaf á sinn fund. Kom Gíafar þá með Attaf og fagnaði kalífinn honum með vinsemd, og spurði hann, hvort hann vildi ekki biðja sig neins. Attaf svaraði þá: „Eitt er það aðeins, herra! sem eg vildi biðja yður að veita mjer af náð yðvarri, og það er, að þjer vægið Abdel Malek, jarlinum í Damaskus, og gefið honum upp allar sakir; því reyndar ofsókti hann mig með rangsleitni, en eg er sannfærður um, að fláráðir vildarmenn hafa dregið hann á tálar. En svo að hann ekki hrapi í sömu villu framvegis, þá legg eg það til, að fangelsisvörðurinn, sem frelsaði líf mitt, verði fenginn honum til ráðaneytis; hann er maður hugprúður og vammlaus, og ætti að fela honum á hendur að hafa eptirlit með jarlinum og framkvæmdum hans.“ Fundust kalífanum orð um göfuglyndi Attafs og veitti honum fúslega bæn sína. Ennfremur sagðist Attaf hafa gefið fangelsisverðinum allar eigur

sínar og bað kalífann að staðfesta gjöf þessa. Kalífinn gerði það líka og gerði nú út sendimann til Damaskus með skipanir sínar. En stórvezírinn tókst á hendur að bæta Attaf fjárlát, svo hann yrði skaðlaus; gerði hann það með slíkri rausn og stórmennsku, að Attaf varð nú margfalt auðugri enn hann hafði verið fyrrum, þá er hann dvaldi í Damaskus.

## Solíman konungur og sonur hans.

Solíman hefur konungur heitið, og var hann allra konunga ríkastur og voldugastur á Arabalandi; var honum í engu hamingju vant, nema því einu, að hann var sonlaus; bað hann því drottinn dag og nótt að miskuna sjer og gefa sjer erfingja. Guð bænheyrði hann líka á endanum og varð ein af konum hans barnshafandi; rjeði hann sjer þá valla fyrir gleði, og gerði stórvel til konunnar. En þá bar konungi nokkuð að hendi, sem honum þókti á illt vita, og fjekk það honum mikils kvíða. því einhverja nótt þóktist hann í svefni sjá anda nokkurn skínandi og bjartleitan; mælti hann á þessa leið: „þú særðir drottinn lengi með bænum þínum, að þjer mætti verða sonar auðið, og nú mun það veitast þjer. Á sjöunda aldursári mun hann með furðanlegum hætti frelsast úr grimmdarklóm ljóns nokkurs, en það verður til þess, að hann á tvítugasta ári sínu veiti þjer bana. Svo er vilji forlaganna.“ Að svo mæltu hvarf andinn, en konungurinn sat eptir óttasleginn. Og sem hann vaknaði, þá kallaði hann til sín vezírana og bar undir þá draum þenna, er fjekk honum svo mikils kvíða. Ámeðal vezíranna var einn, sem var ágætlega vel að sjer í kabbalistiskum fræðum og stjörnuvísi, bauðst hann til að rannsaka forlög hans eptir stjörnunum og ljet konungur sjer það vel líka. En stjörnurnar sönnuðu hrakspár andans. „Er þá ekkert ráð,“ spurði Solíman, „til að undanstýra óhamingju þeirri, sem yfir oss vofir?“ „Nei, ekkert,“ ansaði stjörnuspámaðurinn.. „Gott og vel!“ mælti konungurinn, „ef mjer tekst að gera hrakspár þínar að lygi, þá skaltu engu fyrir gjöra nema lífinu.“ „Ekki kvíði eg því, herra!“ ansaði vezírinn.

Nú lætur konungur strax gera jarðhús langt uppá fjöllum í auðn

og ógöngum og ætlar hann það syni sínum og barnfóstru hans; sparði hann ekkert til, að það yrði sem viðkunnanlegastur bústaður. Og jafnskjótt sem drottning hafði alið sveininn, þá ljet hann flytja hann þangað. Unni hann syni sínum hugástum, þótt illa hefði verið spáð, og sjaldan leið nokkur vika svo, að hann ekki vitjaði hans. Liðu svo sjö ár, og kom nú að hendi annar ógæfutíminn, sem andinn hafði fyrir sagt; bar þá svo til, að ljón nokkurt, sem var að elta tóu, steyptist niður í jarðhúsið, hremmdi kóngsson og grýtti honum út fyrir jarðhúss dyrnar, en barnfóstruna reif það í sundur. Bar þar að veiðimann nokkurn af tilviljun; fann hann sveininn og hafði hann með sjer til borgarinnar. Fjekk hann bezta ástarþokka á honum og kenndi honum allt það, er menntuðum mönnum ber að kunna. En er konungur eptir vanda fór að finna son sinn, þá kom hann að jarðhúsinu tómu, og fjekk það honum mestu hryggðar. — Nú með því fóstran fyrir nokkrum dögum hafði kvartað heldur stygglega yfir veru sinni á slíkum eyðistað, þá hugði hann að hún væri strokin burt með barnið og sendi riddara í allar áttir til að leita hana upp. En allar leitir urðu árangurslausar. Veiðimaður sá, er tekið hafði sveininn að sjer, var í hirð konungs, og er hann var orðinn stálpaður, þá leyfði hann honum að fylgjast með sjer. Sá Solíman hann þá einusinni á dýraveiðum og rann honum hugur til hans, án þess hann vissi, hvernig á því stóð. Langaði hann til að hafa hann hjá sjer og gerði hann að hestaverði sínum.

Nokkrum árum síðar hófst stríð ámilli Arabiu og annars ríkis þar í grennd við. Sóktu bæði herliðin hvert á móti öðru og sló þar í bardaga; varð þar hin snarpasta hríð, því báðir konungarnir voru nærstaddir. Nú með því Solíman sá að sigurinn var tvísýnn, þá rjeði hann af að láta sverfa til stáls og ruddist þar að með föruneyti sínu sem orrustan var hörðust. Höfðu fylkingarnar riðlazt og þyrlaðist rykið upp á allar hliðar, svo að ekki mátti þekkja vini frá óvinum. Og í þeim svifum hjó hestavörðurinn til konungsins föður síns og lagði hann að velli, því vígamóður var á honum og sá hann ekki hver fyrir varð. „Þinn bölfaði hundur!“ æpti konungurinn, „ætlar þú —!“ En hestavörðurinn tók ekki eptir því, heldur hjelt hann áfram að berjast og vann fádæmis hreystiverk. En hreysti

hans og ákafi kom fyrir ekki, því herlið Solímans konungs beið gjörsamlegan ósigur. — En þótt Sólíman væri særður, þá entist honum samt dugur til að forða sjálfum sjer og því, sem eptir var af hernum. Beiddi hann fjandmann sinn friðar, og náði hann friðarkostum með því skilyrði, að hann gerðist skattkonungur hans. Hugsaði Solíman nú, að hann skyldi refsa hestaverði sínum; hafði hann látið setja hann í dýflissu með hlekki á höndum og fótum. Eins vildi hann hegna vezírnum fyrir lygaspár sínar. Og sem hann var aðfram kominn, þá sendi hann eptir vezírnum og sagði við hann: „Spásaga þín var einber lygi, því aldrei var syni mínum hætta búin af ljóni, og eigi var það heldur hann, sem veitti mjer banasár. Þú veizt sjálfur, hverri hegningu þú áttir von á, ef þú gabbaðir konung þinn; vertu nú við henni búinn.“ — „Herra!“ svaraði vezírinn, „stjörnurnar bregðast aldrei. En gerið svo vel að spyrja þann, sem veitti yður sárið, áður enn þjer látið taka mig af lífi.“ Var nú hestavörðurinn leiddur fyrir Sólíman og spurður að ætterni sínu, og sagði hann þá frá öllum atvikum, sem fyr er frá greint. Tók nú konung að óra fyrir ymsu, er hann heyrði sögu sonar síns, og sendi hann eptir fóstra hans. Sannaði hann sögu kóngssonar og sýndi til sannindamerkis örin eptir sár þau, er ljónið hafði veitt honum. Þetta færði konungi heim sanninn og flýtti hann sjer nú að launa vezírnum, sem hann hafði haft fyrir svo rangri sök. Setti hann kórónuna á höfuð sonar síns og ljet alla höfðingja ríkisins vinna honum trúnaðareiða. Nokkrum dögum síðar andaðist Sólíman af sári sínu, og sannaðist þannig á honum, að enginn mannlegur máttur getur raskað því, sem einusinni er fyrirskipað af forlögunum.

# Frá 862 til 874 nætur.

## Sagan af syni Alýs Dschoharýs.

Herra! maður hjet Alý Dschoharý; hann hafði tekið það embætti að arfi eptir forfeður sína, að hafa ráðsmennsku á hendi innanhallar hjá kalífanum í Bagdad. Hafði hann því geysimiklar tekjur og varði hann miklum hluta þeirra til að gera öðrum gott;

hafði hann með því áunnið sjer virðingu kalífans og allra borgarmanna. Hann átti einn son og ekki fleira barna, og ljet hann uppala hann með mestu kostgæfni.

Þegar ellin fór að sækja á hendur Alý, þá neytti hann góðvildar herra síns og beiddi hann leyfa sjer að leggja niður embætti sitt. Veitti kalífinn honum fúslega bæn hans, og jók á auðlegð hans með nýjum gjöfum; flutti hann þá með heimafólki sínu til Damaskusborgar. Ljet hann byggja þar dýrðlega höll á fljóts bakka með aldingörðum allt umhverfis; ljet hann um leið byggja gesthús, musteri og spítala, því loptið í Damaskus er svo hreint og heilnæmt, að yngri mönnum batnar þar meðalalaust, en gamlir menn halda þar heilsu sinni.

Þegar hús þessi voru fullgerð, þá hugsaði hann fyrir kvonfangi sonar síns og gipti honum bróðurdóttur sína; hafði hann fóstrað hana frá blautu barnsbeini, því hún var munaðarlaus. Unnust þau hjónin hugástum og mátti þar með sanni segja, að tvær sálir voru orðnar að einni. En sú sæla átti ekki að verða langgæð, og varð sorgleg breyting á heimilinu, sem öllum fjekk hryggðar. Hin unga kona tók þunga sótt, og voru hinir beztu læknar sóktir til hennar, en allar tilraunir þeirra urðu árangurslausar.

Nú er þar til máls að taka, að emír nokkur stórvitur var í borginni Kúfah, hafði hann heyrt svo mikið látið af fegurð Damaskusborgar, að hann tók sjer ferð á hendur þangað. Og sem hann nálgaðist borgina, þá varð hann öldungis hugfanginn, svo mikið fannst honum um hina himnesku aldingarða og hina ótölulegu læki, sem vökva þá og veita þeim svalandi kælu. Dillaði kliður söngfuglanna eyrum hans, og þókti honum sem þeir lofsyngju guði fyrir það, að hann hafði valið þeim svo inndælan samastað. Hann hrópaði frá sjer numinn: „Heillaráð var það, er Mahómet bauð lærisveinum sínum að vinna borg þessa, því þó hin fjögur vatnsföll, sem vökva hana, sjeu eitt með hinu minna, sem hún hefur sjer til ágætis, þá nægja þau samt einsaman til að gera hana að jarðneskri paradís.“

Emírinn settist nú að í höll einni í Damaskus, sem kalífinn hafði boðið, að vera skyldi til taks handa honum, er hann kæmi þangað. Með því nú orðrómur emírsins hafði borizt á undan honum,

þá leið ekki á löngu áður enn Alý Dschoharý spurði komu hans. Ljet hann undireins leggja á tvo múla, fyllti körf eina með skrautlegum rósavefnaði og ýmsum gersemum, og fór með syni sínum til hallar emírsins; hitti hann helztu höfðingja borgarinnar þar hjá honum. Tók emírinn þeim feðgum vingjarnlega og bauð þeim að drekka hjá sjer kaffi. En er hann sá að illa lá á syni Alýs, þá spurði hann, hvað að honum gengi, og óðar enn Alý var búinn að segja honum frá veikindum bróðurdóttur sinnar, þá fór hann að vitja hennar og fylgdu honum allir, sem viðstaddir voru. Sá hann skjótt, að hjer var engin lífs von framar, en eigi sagði hann það með orðum, hann varpaði öndinni mæðilega, og það var nóg. Því sonur Alýs skildi, hvað honum bjó í huga, og hnje hann samstundis í ómegin. Þá spurði Alý emírinn, hverrar trúar hann væri um veikindi bróðurdóttur sinnar, og svaraði hann þá, að þau væru ólæknandi. Kvað hann að vísu eitt meðal vera til, sem gæti frelsað hana, en á því væru hin mestu vandkvæði. Hann mælti: „Það er til jurt ein, er vex svo sem sex dagleiðum fyrir norðan Kákasusfjöll, þar sem andar þeir búa, er uppreisn hófu gegn Salómon. Hefur Salómon sjálfur sagt mjer náttúru jurtarinnar og kvað hann hana vera ótvílugt meðal við öllum mannlegum sjúkdómum. Hún heitir fuglajurt og vex á ey nokkurri, sem varin er af illum öndum. Reyndar hefur sonur yðar svo innilega ást á konu sinni, að hann líklega stofnar sjálfum sjer í lífsháska til að frelsa hana frá dauða. Hefur hann og gert svo mörg önnur góðverk, að guð mun eflaust vernda hann fyrir árásum illra anda.“

Að svo mæltu dreypti emírinn úr höfuðvatnsflösku á son Alýs og kom honum til sjálfs síns aptur. Hann lagði ríkt á við hann, að gefa sig með lotningu undir vilja drottins og leitast við að afneita sjálfum sjer, svo hann gæti unnið til hinna sjötíu paradísar meyja, sem hinn helgi spámaður hefði heitið honum einsog öðrum rjetttrúuðum. „Æ!“ svaraði hinn ungi maður, „til hvers eru paradísarmeyjar fyrir mig núna? Það er einsog ef þjer vísuðuð fátæklingi, sem biður um vatnssopa, til fljótanna í paradís; það er viðlíkt og þegar Gyðingaklerkurinn fór að hugga landa sinn, sem dómari nokkur í Bagdad hafði dæmt til hengingar; hann lýsti fyrir honum veizlu þeirri, sem Isak og Jakob væru að búa í móti honum, en

hermaður nokkur hlýddi á og leiddist að heyra slíka markleysu, hratt hann því klerkinum útí Tígrisfljótið og kallaði á eptir honum: „Heill svo, vinur kær! far þú þá fyrst til að þvo upp drykkjar kerin undir veizluna.“ Þá mælti emírinn: „Þú mátt fyrir alla muni ekki örvílnast, en reyndu að ná fuglajurtinni, og skal eg taka að mjer að halda lífinu í konu þinni meðan þú ert í burtu. Skal eg og segja þjer allt, sem getur gert þjer ferðina auðsóktari.“

Sonur Alýs þakkaði honum góðsemi sína og var honum nú mest í mun að komast sem fljótast á stað. Þegar faðir hans heyrði það, kom upp fyrir honum óstöðvandi grátur, og leiddi hann honum fyrir sjónir hættur þær, er hann stofnaði sjer í. En hinn ungi maður sat svo fast við sinn keip, að hann fjekk engan bilbug á unnið. Hughreysti emírinn föður Alýs og mælti: „Takið baðmullarkjarna þenna, gróðursetjið hann í garði yðar og hlynnið sem bezt að kvistinum sem upp af honum sprettur; meðan hann tímgast, megið þjer vera óhræddur um son yðvarn, en hrörni hann og þorni, þá skiljið það svo sem hinn sundursprungni fræknappur segi yður: „Spinn þú ull mína í náklæði handa syni þínum.“ Emírinn gaf nú hinum unga manni allar þær vísbendingar, sem hann þurfti til þess að geta ferðast um Tattaraland og Kínland; kvaddi hann því næst Alý Dschoharý og sneri heim aptur til hallar sinnar. Sonur Alýs lagði nú á stað og fór bæði dagfari og náttfari; náði hann eptir langa ferð til höfuðborgarinnar á Kínlandi. En þar vildi honum sú óhamingja til, að menn komust á snoðir um, að hann var múselmaður. En á Kínlandi er sett blátt fyrir bann að trúa á Mahómet, og var sonur Alýs fyrir þá sök handtekinn og geymdur í því skyni, að hann síðar yrði hafður að slátrunarfórn fyrir blótguði landsins. Sat nú sonur Alýs í fjötrum og beið hins kvíðvænlega blótdags grátandi og kveinandi. En úr þeim nauðum frelsaðist hann bráðum fyrir ráðsályktun drottins.

Höfðingi nokkur kínverskur hafði dvalið lengi í Damaskus og farið þar huldu höfði í munkaklæðum; hafði hann búið í einu af gesthúsum þeim, er Alý Dschoharý hafði látið byggja. Hann hafði jafnaðarlega komið í musteri og hlýðt á lestur guðhræddra vitringa, og með því hann líka sá, að átrúendur Mahómets gerðu mörg miskunarverk, þá hafði hann gengið úr skugga um ágæti Islams trúar og fastráðið að fara pílagrímsferð til Mekka. Alý Dschoharý

veitti honum fjárstyrk til þeirrar ferðar; fór hann nú til Mekka, og gerði bæn sína í Kaaba, við brunninn Sem-Sem og gröf hins helga spámanns í Medína; eptir það hjelt hann heim í átthaga sína. Nú heyrði hann sagt að blóta ætti útlendingi nokkrum frá Damaskus, syni Alýs Dschoharýs, og fjekk það honum slíkrar skapraunar, að hann var nær því hniginn í ómegin. — Fjekk hann glöggva tilvísun um staðinn þar sem sonur Alýs var í höptum, og gekk út á völl einn, er þar var í grennd við, kveikti upp eld og varp í reykelsi, þuldi síðan töfraformála og brást í fugls líki. Flaug hann inn í borgina til fangelsisins og smaug inn í gegnum járngrind þá, er fyrir glugganum var. Síðan brást hann aptur í sína náttúrlegu mynd og gekk ofan eptir riði nokkru, með sexhundruð og fjörutiu þrepum; fann hann nú son Alýs Dschoharýs og fleygði sjer í faðm honum. Nú hafði svo illa til tekizt, að honum gleymdist að slökkva eldinn, en blótgoðanum, sem æztur var við hofið, varð gengið þar framhjá og sá hann hvað um var. Var hann sjálfur vel fær í fjölkynngi og hafði yfir töfraformála; komst hann svo fyrir, til hvers leikurinn var gerður. Hann flýtti sjer þá allt hvað af tók til dýflissuvarðarins og sagði honum hvernig á stæði; gætti hann þá bandingjanna svo vandlega, að hvorugur þeirra sá sjer neitt færi til að flýja. Svo var blótgoðinn grimmur, að hann ljet sjer ekki þetta nægja, heldur bauð hann þar á ofan að báðum skyldi veita ljastroku. Gerðist hinn nýji bandingi næsta hugsjúkur út úr hrakningum þessum og gramdist honum sárlega, að ráð hans var ónýtt fyrir honum. Sonur Alýs huggaði hann sem bezt hann gat, en blótdagurinn var alltaf að nálgast, og jókst því kvíði þeirra með hverri stundinni.

Svo bar til einn dag, að Kínverjinn var að leita að einhverju í vasa sínum og fann dýrmætan smaragð, er hann var vanur að bera á sjer; varð honum þá illt í skapi, grýtti gimsteininum á gólfið af afli og sagði: „Til hvaða gagns ert þú fyrir mig? Eg skyldi glaður láta þig fyrir lítið brot af hinu ódýrasta járni.“ Óðar enn hann hafði sleppt orðinu, lagði skínandi birtu um myrkvastofuna og heyrðist drynjandi þrumuródd, er sagði: „Hvers beiðist þú? Ekkert það er til, er eg eigi fúslega geri fyrir velgjörð þá, er þú nú auðsýndir mjer. Eg er einn af öndum þeim, er hófu uppreisn

mót Salómon konungi og var eg innibyrgður í smaragðsteini þessum til hefndar fyrir óhlýðni mína. Nú hefur þú frelsað mig úr kreppu minni með því að mola hann í sundur, og vil eg reynast þjer þakklátsamur fyrir þenna mikla greiða.“

„Gott og vel!“ ansaði bandinginn, „eg beiðist þá sama greiða af þjer. Frelsaðu okkur og hefndu mín á mannfýlu þeirri, er ofsækir okkur.“ Í sömu svipan sókti andinn blótgoðann og hneppti hann í sömu fjötrana, sem hann leysti af báðum vinunum. Tók hann þá í fang sjer, og laukst jörðin sundur undir fótum þeirra; voru þeir samstundis horfnir í glæsilega höll, er hlaðin var af gimsteinum og hvíldi á smaragðsúlum, en í kringum hana voru víðáttumiklir aldingarðar. Þoldi sonur Alýs valla að sjá í slíkan ljóma og spurði, hver ætti þessa hina glæsilegu höll. „Það er ein af höllum Salómons,“ ansaði andinn, „og býr drottning mín í henni. Veit eg að fagrar konur eru í Damaskus, en þær, sem eg nú ætla að sýna ykkur, munu samt bera langt af þeim öllum.“ Að svo mæltu fylgdi hann þeim inn í glæsilegan laugasal; voru þar tuttugu og fjórir þrælar og ambáttir, er þjónuðu þeim með miklum virktum. Þaðan fóru þeir inn í annan sal, og var þar fyrirbúin dýrleg matveizla; allt í kring voru ilmandi rósir og gosbrunnar og lagði af þeim notalega kælu. En þrátt fyrir allt þetta bar sonur Alýs sífelt kvíðboga fyrir konu sinni og hugsaði eigi um annað; tjáði ekkert þó leiddar væru fyrir hann margar ungar ambáttir, sem voru fríðari enn meyjarnar á Ódáinslandi. Spurði andinn, af hverju hugsýki hans væri sprottin. „Æ!“ svaraði sonur Alýs, „þegar eg fór að heiman, lá kona mín fyrir dauðanum, og mun hún vafalaust deyja, nema því að eins mjer heppnist að ná fuglajurtinni. Veit eg eigi, hvernig eg á að fara að ná henni.“ Andinn bauð honum varnað við svo háskalegri fyrirætlun og mælti: „Jurtin, sem þú átt að sækja, er í valdi anda þeirra, er risu í gegn Salómon, og eru engar líkur til, að þú komizt lífs af.“ Nú er andinn fjekk eigi talið honum hughvarf, þá gaf hann honum heilræði nokkur og ljet hann svo fara leiðar sinnar. Stje sonur Alýs á hest sinn og fylgdi hnoða einu, er andinn hafði fengið honum til leiðbeiningar; hafði hann sagt, að það mundi jafnan velta á undan honum, unz hann kæmi þangað, er förinni var heitið. Stöðvaðist hnoðað loksins

í skógi nokkrum miklum, fyrir framan hellismynni; var hellirinn geysi djúpur og dimmur. Sonur Alýs stje af baki og batt hest sinn við eik, gekk síðan inní hellinn og kom að eldi miklum. Kerling afgömul sat við eldinn og voru fingur hennar einsog álmur á kvísl og neglurnar álíka stórar og ostruskeljar í Rauðahafi. Var hún að snúa geysistórum steikarateini og var þremur mönnum stungið upp á teininn; lá við að sonur Alýs liði í ómegin, er hann sá essa hryllilegu sjón. Fann hann gjörla að ekki tjáði undan að hopa. „Vei mjer!“ sagði hann, „illa hefur andanum farizt, sem hýsti mig; hann hefur svikið mig og verð eg nú að taka á allri hugprýði minni.“ En hræðsla hans átti sjer ekki langan aldur, því kerling brosti við honum svo vingjarnlega sem henni var lagið og mælti: „Komdu nær, ásjálegi yngismaður! vertu velkominn. Nú er eg búin að lifa í þrjár þúsundir ára og hef eg engan dauðlegan mann litið, er svo væri fagur ásýndum sem þú ert. Tel eg víst að dóttursonur minn muni hafa vísað þjer til híbýla vorra. Bíð nú litla stund, því faðir minn mun bráðum koma heim og getur hann orðið þjer að liði.“ Eigi var þess langt að bíða, að andi nokkur kom og var sá afskaplegur á að sjá. Hældi hann dóttur sinni fyrir það, að hún hafði veitt hinum unga manni vinsamlegar viðtökur, og spurði hann, hvert hann ætlaði sjer að ferðast. En er hann var þess vísari orðinn, þá tók hann þannig til máls: „Illa þykir mjer það farið, að þú hefur hætt þjer út í þvílíkt stórræði, og getum vjer ekki orðið þjer að liði, því vjer eigum í styrjöld við anda þá, er gæta fuglajurtarinnar.“

Nú er fólk þetta hafði sagt yngismanninum, hvaða veg hann ætti að fara, þá ljet hann ekki með neinu móti letjast, heldur hjelt hann ótrauður áfram ferð sinni. Og er hann hafði farið nokkrar þagleiðir, þá kom hann í fagurt dalverpi; var þá eigi mjög langt þangað sem fuglajurtin var. Var honum að vísu mikill hugur á að ná henni, en bæði var hann þreyttur og þurfti að gegna trúarskyldum sínum; varð hann því að hafa þolinmæði. Þvoði hann sig nú allan og gerði bæn sína; neytti síðan aldina af trje nokkru og lagðist niður við rætur þess. Nú þótt hann væri dauðlúinn eptir langa ferð og erfiða, þá hafði hann samt illar svefnfarir. Sóktu á hann illir draumar og hver öðrum voðalegri. Stundum

þóktist hann staddur við líkferð konu sinnar, og stundum þókti honum sem risi nokkur ætlaði að jeta sig; veinaði hann þá með öðrum, sem hljóðuðu undir sverðseggjum risans og sprikluðu blóðugir í andarslitrunum. Þá hrökk hann allt í einu upp við dunandi reiðarþrumu, og var þá lokið draumórunum, en í þeirra stað var hann umkringdur af hinum ógurlegustu vökusjónum; því jafnskjótt sem hann lauk augum sundur, þá var allt í einu eldhafi af blossandi eldingum. Sá hann ótölulega anda og vofur, og var öskur þeirra svo ógurlegt og ámátlegt, að enda hinum hugprúðasta manni mundi hafa orðið felmt við. Nú gaus upp brennusteins ódaun og þókti honum uggvænt, að eldingunni hefði slegið niður í nánd við sig; og er hann þreifaði eptir túrban sínum, þá fann hann að ekkert var eptir af honum nema húfan. Sá hann við birtuna af skrugguljósunum, að hestur hans lá þrumulostinn og steindauður á jörðinni; fjekk það honum sárustu hryggðar. Hann varpaði sjer niður yfir veslings dýrið dauða, þrýsti höfði þess í fang sjer og mælti kveinandi: „Fagra vina mín! trygglynda vina! flugfráa, rásvakra hind! þú hin eina vera, sem fylgdir mjer í nauðum mínum. Æ, að eg skuli missa þig, þegar svo nálægt var komið takmarki þrautanna! Æ! þú munt aldrei framar renna augum til mín, og aldrei framar mun eg leiða þig í hin grasfrjóu haglendi?“ Tók þá fyrir mál hans af grát og ekka, og þagnaði hann með orðið: Damaskus, á vörunum. En vonum bráðar herti hann upp hugann, og tók sverð sitt, er hann hafði bundið við söðulbogann. Gekk hann áfram, en því lengra sem hann kom, því voðalegri urðu skruggurnar og óhljóð andanna, jörðin skalf undir fótum hans, en eldingarnar lýstu svo vel á leið hans, að hann mátti kenna trje nokkurt, er andarnir höfðu vísað honum á. Hjekk fuglabúr í limum trjesins og seildist hann upp eptir því, en í sama vetfangi bar aumkvunarlegar eymdarstunur fyrir eyru honum, og þókti honum sem hann heyrði rödd andans, er var honum vinveittur. Leit hann þá í kringum sig til að sjá hvað um væri, en í sömu svipan var hann sniðinn sundur í fjóra hluti með einu sverðs höggi.

Nú er þar til máls að taka sem foreldrar hans eru. Harma þau bæði fjærveru sonar síns og veikindi konu hans; höfðu þau

sjer ekkert annað til hugfróar enn að horfa á baðmullarkvistinn. Var hann sígrænn og fagur og gættu þau vandlega á hverjum morgni, hvort fræknappurinn væri fagurrauður enn einsog fyrri, og ósprunginn. En sama daginn og sonur þeirra ljet líf sitt, þá sprakk fræknappurinn allt í einu sundur og fölnuðu blöðin á runninum. Örvílnuðust þau þá og kveinuðu hástöfum, svo undir tók í húsinu. Kom emírinn frá Kúfah manna fyrstur á fund þeirra og iðraðist hann beisklega eptir ráðleggingu sína, sem hafði orðið syni þeirra til ógæfu og konu hans til einskis gagns. Nú var haldin glæsileg líkferð og fengnar til söngkonur og grátkonur, sem vanar voru að fylgja líkum, kyrjuðu þær upp sorgarsöngva og kveinuðu svo hjartnæmilega, að jafnvel hinn skapharðasti maður mundi hafa komizt við. Voru fátæklingum gefnar ríkuglegar ölmusugjafir og ekki spurt úr hverju landi þeir væru. Var öllu stórmenni í Damaskus boðið til sorgarhátíðar þessarar. En foreldrarnir sátu inni í þrjátíu daga og komu ekki út fyrir dyr; neyttu þau aðeins svo mikillar fæðu, að þau máttu halda lífinu, en ekki meira.

Það er nú að segja af Kínverjanum, sem eptir varð í höll Salómons, að honum tók að lengjast biðin eptir fjelaga sínum. Hafði hann því galdur í frammi til að komast fyrir, hvað af honum væri orðið, og varð þess vísari, að hann hafði fengið hinn hryggilegasta dauðdaga. Og með því hann gat ekki framar orðið honum að liði, þá bað hann andann að flytja sig til Damaskus. Í sömu svipun var hann kominn að hliðum Damaskusborgar og hvarf andinn þegar burtu. Kínverjinn gekk inn í borgina og fór til Múju musteris; voru þar lögmenn og dómarar, klerkar og einsetumunkar og fjöldi guðhræddra manna, og lágu þeir allir á bæn. Lýsti sjer hjartgróin hryggð á yfirbragði þeirra, og var auðsjeð, að þeir grjetu missi einhvers ástvinar. Varð hann þess brátt vísari, að hjer var haldin sorgarhátíð til minningar um son Alýs Dschoharýs. Honum þókti nú undrum sæta, að harmasaga þessi skyldi hafa getað borizt svo fljótt til Damaskus, og gekk hann sem fljótast heim til góðvinar síns Alýs Dschoharýs. Og er þeir fundust, þá gátu þeir engu orði upp komið fyrir geðshræringu, en fögur tárin hrundu niður eptir kinnum þeirra; og var ekki meira enn svo að þeir heldu megin til að kyssast; hnje faðir Alýs harmþrunginn í faðm vinar

síns. Sagði hann honum frá baðmullarkvistinum, sem sáð var til, þegar sonur hans lagði á stað. Fór Kínverjinn strax út í garðinn til að líta eptir hvað kvistinum liði; og sá hann þá, að hann hafði verið rifinn upp með rótum og var með öllu horfinn. Skoraði nú Kínverjinn á andann, sem var á valdi hans, að hann skyldi hjálpa sjer til að hugga föður Alýs. En andinn svaraði: „Hvað á að gera við mann, sem er högginn í fjóra hluti? Eg get að vísu tínt saman stykkin og fært yður þau, svo greptrunin verði meira enn að nafninu til, en það er líka allt og sumt. Sál hans fær þá að minnsta kosti notið sælu þeirrar, sem hverjum sönnum átrúanda Mahómets er fyrirheitin.“ Nú ljet andinn Rokfugl sinn koma með líkamsparta ungmennisins, og skeytti þá hnitjafnt saman; reið síðan á þá smyrslum, er Salómon konungur hafði tilbúið sjálfur og þvoði þá í vatni úr brunni lífsins. Tveimur dægrum síðar tók sonur Alýs að fá andardrátt sinn aptur og hjartað að hreifast í brjósti honum, varð hann á skammri stundu með fullu fjöri og alheill. Rjeði andinn honum til að fara heim aptur til foreldra sinna, en hann bað þess innilega, að hann yrði fluttur þangað sem stykkin úr honum höfðu verið tínd saman; sór hann að fara þangað aptur einsamall, ef ekki yrði látið að orðum sínum. Vildi þá andinn að minnsta kosti sjá svo um, að ferðin sjálf yrði honum ekki að fári, og skipaði því Rokfuglinum að flytja hann til grænu eyjarinnar; fór þá andinn burt og bjóst ekki framar við að sjá hina drenglyndu hetju, sem lagði svo mikið í sölurnar fyrir hjúskapar elsku sína.

Nú rifjuðust hinar fyrri þrautir og ógnir upp fyrir syni Alýs og lá þá við að honum hugfjellizt. En þegar hann hugsaði til konu sinnar, sem var sárveik og dauðvona, ef ekki næðist fuglajurtin, þá fylltist hann aptur hugmóði og elskan varð óttanum yfirsterkari. En áður hann tæki til að framkvæma fyrirætlun sína, þá vildi hann fullnægja trúarskyldu sinni; ætlaði hann að þvo sjer í sandi, því ekki var vatn fyrir hendi, en þá komu tveir ernir og færðu honum vatn í stóru keri. Lögðu þeir hjá kerinu brauð eitt lítið, sem bakað var í ösku. Síðan hurfu þeir og sást ekki, hvert þeir flugu. Gerði nú sonur Alýs bæn sína og mataðist, tók hann því næst að reyna sverð sitt á eikum nokkrum, er stóðu þar í kringum hann. En jafnskjótt sem hann hafði brugðið sverðinu úr

sliðrum, þá bar fyrir augu hans ennþá hræðilegri ógnir enn hann hafði sjeð í fyrra skiptið. Dagsbirtan varð allt í einu að koldimmu svartnætti, nema hvað endrum og eins lýsti af eldinga blossunum; skall á steinóður vindbylur og sveigði toppana á hinum himingnæfandi eikum, sem margopt höfðu stöðvað skýin og hept þau á fluginu. Jörðin skalf og hristist í sífellu, þangað til hún tók að rifna í sundur, og stóðu reykjar mekkir og eldstrokur uppúr sprungunum. En langt í burtu heyrðist voðalegt brimhljóð, því hafið bálrauk og rótaðist upp frá grunni í stormviðrinu; lá við sjálft að það yfirstigi þau takmörk, sem guð setti því í öndverðu, þegar máttarhönd hans úthellti því yfir jarðarkringluna. En sonur Alýs brá sjer ekki við þessar geigvænlegu sjónhverfingar; sverðin leiptruðu allt umhverfis, en hann tók fuglabúrið óskelfdur ofan úr trjenu. Mælti hann þá til töfrafuglsins, sem sat í því: „Nú ert þú á mínu valdi; vísa mjer strax þangað sem eg get fundið fuglajurtina, og flyt mig síðan til Damaskus. Skal eg þegar drepa þig, ef þús ýnir af þjer nokkra prettvísi.“ Fuglinn var slægvitur og lofaði honum öllu fögru, en reyndi þó að ginna hann til að skoða auðæfi þau, er andarnir geymdu á stöðvum þessum, en hann ljet það einsog vind um eyrun þjóta og hugsaði ekki um annað enn að ná fuglajurtinni. Fór hann nú með búrið í hægri hendinni og kippti upp jurtinni. Þá reyndi fuglinn aptur að ginna hann og lýsti fyrir honum auðæfunum og gersemunum; ætlaði hann með því móti að koma honum til að setjast um kyrt, enda voru farnar að renna á hann tvær grímur, en þá kom honum allt í einu til hugar, að kona hans lá fyrir dauðanum, og var sem hann sæji hana með hugskotssjónum sínum. Hafði hann eigi sleppt tökum af hálsi fuglsins og krafðist nú af honum, að hann flytti sig til Damaskus. Sá nú fuglinn að hann gat ekki fengið aptur frelsi sitt með öðru móti og hlýðnaðist því boði hans. Fór sonur Alýs á bak fuglinum, og var þá sem honum bljesi sundur, og stækkaði gríðarlega. Að fám stundum liðnum komu þeir til Damaskus og liður niður í aldingarð nokkurn. Maðurinn, sem garðinn átti, var vel kunnugur syni Alýs; hann var úti og sá er þeir komu. Kynjaði hann stórum á því og fór að virða þá betur fyrir sjer, rak hann í rogastanz, er hann sá að það var sonur Alýs Dschoharýs, sem kominn var. Hann segir: „Nú, þjer eruð vel

ríðandi, þykir mjer; þjer eruð þá hjer á jarðríki ennþá, og allir vandamenn yðar halda að þjer sjeuð annars heims, en þaðan ber yður þó líklega, fyrst þjer komið svona fljúgandi í loptinu. Við höfum gert líkför yðar, einsog þjer getið nærri, en komið nú og fáið yður kaffibolla hjá mjer, því mjer lízt svo á yður, sem þjer munið vera ferðmóður, segið mjer svo æfintýri yðar, því mjer er forvitni á að heyra það.“ „Herra góður!“ svaraði sonur Alýs, „reyndar er eg þreyttur, en mjer er samt annara að vita, hvernig konu minni og foreldrum líður, heldur enn að hvíla mig og neyta hressinga. Gerið mjer nú þann greiða, að fylgja mjer heim í hús foreldra minna.“ Og sem hann mælti þetta, þá sleppti hann ósjálfrátt hendinni af fuglinum og sætti hann þá undireins lagi og laumaðist burt, en sonur Alýs og kunningi hans tóku eigi eptir því. Flýttu þeir sjer nú til húsa Alýs Dschoharýs. Stóð þar ambátt nokkur út við glugga og sá til þeirra. Sá hún undireins hver kominn var og æpti hástöfum, að sonur Alýs væri kominn. Hugðu þá allir, að hún væri orðin vitlaus. Í sama bili var barið á dyrnar og gekk sonur Alýs inn í húsið. Brá heimilisfólkinu svo mjög við komu hans, að það varð öldungis höggdofa, og líkast til að jafna, sem í borginni, þar sem allir innbúarnir breyttust í steinstyttur. En upp úr þeim steindofa varð mesti og háværasti fögnuður, og lýstu menn tilfinningum sínum með ýmsu móti, sumir grjetu og sumir lustu upp gleðiópi, sumir hlupu fram og aptur og klifuðust á nafni þess, er kominn var. Alý Dschoharý og kona hans sátu inni í kvenna stofunni og voru að furða sig á þessum óvenjulega glaum og hávaða, en þá kom inn til þeirra kona sú, er fóstrað hafði son Alýs, og sagði þeim komu hans. Kom hann sjálfur rjett á eptir henni og fleygði sjer í faðm foreldra sinna. Og svo miklaðist móður hans fögnuðurinn, að hún fjekk hvert öngvitið á fætur öðru, og lá við að gefa upp öndina. En er fyrsta ofurkætin tók að setjast nokkuð, þá leiddi faðirinn son sinn þangað er kona hans lá. Fögnuðu þau hjónin hvert öðru með innilegri ástúð og blíðu, og sinntu í þann svipinn engu nema elsku sinni; en sonur Alýs gleymdi samt ekki vinum sínum, Kínverjanum og emírnum, er hann átti svo mikið að þakka, og faðmaði hann þá að sjer með miklum feginleik. Fjekk hann emírnum fuglajurtina og tilreiddi hann

heilsudrykk af henni. Vildi konan þá eigi bergja á honum, því henni þókti sem sjer hefði batnað við tilkomu manns síns; en er hann lagði að henni með blíðum ástaratlotum og emírinn með alvarlegum fortölum, þá ljet hún þó til leiðast. Og sem hún hafði tæmt þriðju skálina af drykknum, þá reis hún upp úr rekkju sinni og lofaði drottinn fyrir skjótan heilsubata. Síðan bað hún mann sinn að segja sjer og öllu fólkinu frá æfintýrum sínum, „því eg vil njóta þeirrar ánægju að heyra þig sjálfan segja frá þrautum þeim, er þú sakir elsku þinnar hefur afstaðið mín vegna.“ Sagði nú sonur Alýs í stuttu máli frá æfintýrum sínum og lagði Kínverjinn orð í, þegar honum þókti vanta í frásöguna. Alý Dschoharý hjelt hina dýrðlegustu hátíð í minningu þess, að sonur hans var heim kominn, og fannst mönnum svo mikið um hin kynjafullu æfintýri hans, að þau voru í langan tíma umtalsefni manna í Damaskusborg.

## Örlæti Hatim-Et-Tayis í lifanda lífi og eptir dauðann.

Hatim hefur maður heitið og var hann af kynkvíslinni Tayi; hann var víðfrægur fyrir stórmennsku sína og lifði hann á vankunnáttu öldinni, en Adi sonur hans tók Mahómets trú og er talinn meðal samlagsbræðra spámannsins.

Meðan Hatim lifði, var um ekkert í heiminum eins tíðrætt og örlæti hans. Einusinni kom sendiboði Grikklands keisara á fund hans; átti hann að flytja honum orðsendingu keisarans, að hann beiddi hann að láta sig fá góðan reiðskjóta gefins. En áður enn Hatim vissi erindi hans, þá slátraði hann hesti sínum til að veita honum beina, því hann hafði þá ekkert annað jafngott fyrir hendi, til að veita honum gestbeina. Það er og mælt, að hann hafi optsinnis slátrað yfir fjörutíu úlföldum til að veita nágrönnum sínum og fátækum Aröbum, sem bjuggu í eyðimörkinni.

Þegar hann var dáinn, var hann greptraður á tindi fjalls þess, er Óvarid nefnist. Voru hellur tvær settar á gröf hans og meyjalíkneski úr steini með slegna lokka. Niðri við rætur fjallsins rann vatnsfall og þegar ferðamenn lágu þar úti um nætur, þá heyrðu þeir jafnan hljóð mikil; en er þeir skyggndust um að morgni dags,

þá sáu þeir ekkert nema steinmeyjarnar. Nú fór konungurinn í Yemen einhverju sinni þessa leið; ljet hann staðar numið niðri undir fjallinu og var þar um nóttina. Og er hann heyrði ópið og veinið uppi á fjallinu, þá fór hann að gerast forvitinn, en enginn gat sagt honum annað enn þetta: „þarna uppi á tindinum er gröf Hatim-Et-Tayis og standa á henni meyjalíkneski úr steini með flakandi lokka; og allir sem hjer eru nætursakir heyra sama kveinið og hljóðin, sem við nú heyrum.“

þá datt konungi í hug að spotta Hatim og sagði: „Hatim! við erum gestir þínir í nótt og verðum þó að kveljast af hungri.“ Nokkru síðar sofnaði hann, en hrökk allt í einu upp og kallaði hátt: „Arabar! komið og hjálpið mjer og úlfalda mínum!“ En er förunautar hans komu, þá fundu þeir úlfaldann stynjanda; slátruðu þeir honum þá og gerðu hann til, steiktu kjötið og átu. Spurðu þeir konunginn seinna, hvernig á þessu hefði staðið, en hann svaraði: „Hatim-Et-Tayi birtist mjer í svefni með sverð í hendi og sagði við mig: „þú ert kominn á vorn fund, og hittir svo á, að vjer ekkert eigum.“ því næst særði hann úlfaldann með sverði sínu, og mundi hann hafa drepizt, ef vjer ekki hefðum slátrað honum.“

Morguninn eptir tók konungurinn úlfalda eins af förunautum sínum, og stje á bak honum; ljet hann manninn setjast fyrir aptan sig og fóru þeir síðan leiðar sinnar. En um hádegisbil sáu þeir hvar maður kom með lausan úlfalda, spurðu þeir hann að nafni. „Adi heiti eg,“ svaraði hann og spurði eptir Yemens konungi. En er honum var vísað til hans, þá mælti hann: „Eg er kominn hingað með úlfalda; farðu á bak honum og hafðu hann í staðinn fyrir þann, er faðir minn drap fyrir þjer.“ „Hvernig veizt þú það?“ mælti konungur; þá mælti Adi: „Faðir minn vitraðist mjer í draumi og sagði við mig: „Yemens konungur beiddi mig gestbeina og slátraði eg úlfalda hans; færðu honum því annan, því eg á ekkert til í eigu minni.“ þáði konungur úlfaldann og undraðist örlæti Hatims í lífi og dauða.

# Fra 875 til 893 nætur.

## Bedúíninn Gíafar og baunasalinn.

Einusinni var Bedúíni, sem bjó í fjarlægu hjeraði úti á eyðimörkinni; hann var vanur að flytja Barmekíðanum Gíafar kvæði á ári hverju. Ljet Gíafar ætíð fá honum eina þúsund gullpeninga að bragarlaunum; fór Bedúíni með fje það og lifði af því árið um í kring. En loksins sækir Bedúíni svo að, er hann kemur með kvæði sitt, að Gíafar hangir í gálga. Fór hann með úlfalda sinn til aftökustaðarins og ljet hann leggjast þar niður; grjet hann þá og barmaði sjer sáran, flutti síðan kvæðið og sofnaði.

Og sjá! Gíafar vitraðist honum í draumi og sagði við hann: „Þú gerðir þjer ómak og komst að finna mig, en þú hittir mig í því ástandi, sem mjer var fyrirhugað í öndverðu.“ Vísaði Gíafar honum til kaupmanns nokkurs í Balsora, en sagan greinir eigi frá nafni hans. „Ber þú honum kveðju mína,“ mælti hann, „og seg honum, að hann skuli fá þjer eina þúsund gullpeninga eptir bauna jarteikninu.“

Næsta morgun lagði Bedúíni á stað til Balsora. Fann hann kaupmann þann, er honum var til vísað, og bar honum orð Gíafars; kom þá upp fyrir honum mikill grátur. Auðsýndi hann Bedúína alla þá sæmd, sem hugsast gat, og í þrjá daga gerði hann allt sitt til að þarvera hans yrði sem unaðsömust. Og er hann ætlaði á stað, þá fjekk kaupmaður honum þúsund og fimm hundruð gullpeninga og mælti: „Þúsund gullpeninga á eg að gjalda þjer, en fimmhundruð gef eg þjer í tilbót; skalt þú og eptirleiðis fá hjá mjer þúsund gullpeninga á ári hverju.“

Þá sárbændi Bedúíni kaupmanninn að segja sjer, hvernig þessu viki við um baunajarteiknið og tók kaupmaður þá þannig til máls: „Eg var bláfátækur þegar eg byrjaði á verzlun og hafðist eg við á því að selja soðnar baunir í Bagdad. Það var einhvern dag að kuldi var og rigning, og gekk eg um stræti til að selja baunir; hafði eg ekki efni á að búa mig út svo sem þurfti í vondu veðri, og skalf eg því og nötraði af kulda og vosbúð. Þá hittist svo á, að Gíafar sat með helztu þjónum sínum og ambáttum í lystiskála

einum, og sá hann þaðan yfir strætið. Varð honum þá litið á mig og komst hann við af meðaumkvun. Sendi hann einn af þjónum sínum eptir mjer og skipaði mjer að selja föruneyti sínu allar baunirnar, sem eg hefði. Mældi eg þá einn mæli hverjum, og fjekk eg aptur fullan mæli gulls af hverjum um sig, þangaðtil körf mín var gjörtæmd. Spurði Gíafar mig, hvort nokkuð væri eptir af baunum í körfinni, leitaði eg þá í henni og fann eina. Tók hann hana og klauf í sundur, hjelt öðrum helfingnum sjálfur, en hinn fjekk hann einni af konum sínum og mælti: „Hvað mikið viltu gefa fyrir þessa hálfu baun?"

Þá svaraði hún: „Helfingi meira gull enn maðurinn hefur fengið fyrir allar hinar baunirnar." Þá gekk öldungis yfir mig og hugði eg það ómögulegt; en konan ljet undireins telja mjer gullið af hendi. Þvínæst mælti Gíafar: „Fyrir minn helfing mun eg nú greiða tvöfalt við allt sem gefið er," og skipaði hann þræl sínum að færa mjer gullið. Hellti eg öllu fjenu í körf mína og fór til Balsora, heppnaðist mjer kaupskapurinn prýðilega og varð eg stórríkur. Lofaður sje drottinn og vegsamaður! Þó eg á ári hverju gefi þjer eina þúsund af gullpeningum þeim, sem allir eru runnir til mín af rausnar uppsprettu Gíafars, þá tek eg mjer samt ekki í mein. Minnstu öðlingsins Gíafars og lofaðu hann í lífi og dauða. Friður guðs og miskunn sje með honum!"

## Frá því er kalífinn Almamún gekk að eiga Búran.

Söngmeistarinn Ibrahim Abú Ishak kunni að segja margt skrítilegt af kvonfangi Almamúns kalífa, og eittsinn var það, að honum sagðist frá sem nú skal greina: „Einn dag var eg hjá kalífanum og var þar glatt á hjalla; við drukkum, sungum og ljekum á hljóðfæri og gerðum okkur margt til skemmtunar. Þegar farið var að skyggja, gekk Almamún í kvennabúr sitt og sagði við mig: „Vertu nú hjer í nótt, svo eg geti átt víst að hafa þig hjá mjer að dagverði á morgun. En rjett sem kalífinn var farinn, þá kom mjer til hugar, að heima hjá mjer var ung ambátt, sem vonaðist eptir mjer. Gekk eg því heim og var kominn kippkorn áleiðis; en þá sá eg körf eina stóra, sem fóðruð var með persneskum

rósavefnaði bæði utan og innan, og hjekk í silkifestum. Og með því eg var ekki öldungis algáður, þá datt mjer í hug að setjast í körfina. En jafnskjótt sem eg settist í hana, þá var hún dregin upp og sett niður á húsþak eitt, sem var alveg flatt: komu þar til mín þrælar og ambáttir með blys í höndum og leiddu mig niður í skrautlegan sal. Innst í honum stóðu legubekkir tveir eins skrautlegir og þeir, sem drottinn rjetttrúaðra manna er vanur að hvílast í. Settist eg nú niður í annan legubekkinn og fór að hugsa um æfintýri mitt. En er farið var að líða á kvöldið, þá komu ambáttir margar með logandi blys í höndum og mær ein á meðal þeirra skrautbúin; var hún svo fögur, að eg gat valla trúað, að hún væri dauðleg kona. Stóð eg upp með lotningu, en hún bað mig að setjast niður aptur, og settist sjálf í hinn legubekkinn. Sá hún að eg var feiminn og sýndi hún mjer því mestu vinsemd í öllu viðmóti. Var nú búið til borðs og var máltíðin svo dýrleg, að konungi mátti sæma; ljómuðu þar silfurskálar á borði með aldinum, bæði nýlesnum og þurrkuðum, og þar í milli kristallsflöskur fullar af ágætasta víni. Meðan stóð á máltíðinni var hinn fegursti hljóðfæra sláttur og var eg frá mjer numinn af unun. Skemmtum við okkur nú vel, töluðum um almælt tíðindi, sungum og sögðum hvert öðru sögur. Hældi mærin mjer fyrir kurteisi mína og svaraði eg henni, að allt það þokkabragð, sem á mjer væri, ætti eg frænda mínum að þakka. Undireins og lýsa tók af degi, var mjer fylgt aptur upp á húsþakið; var eg látinn síga í körfinni niður á stræti og fór fyrst heim til mín, en þaðan til kalífans. Sagði hann þá við mig með reiðisvip: „Manstu það ekki, Abú Ishak! að eg bannaði þjer að fara burt úr höll minni? Hvað kallaði svo ótt að þjer, að þú skyldir verða að fara?“ „Drottinn rjetttrúaðra manna!“ ansaði eg, „mjer datt í hug, að heima hjá mjer var ung ambátt, sem vonaðist eptir mjer.“ Settumst við nú aptur að drykkju og drukkum allan daginn. Þegar farið var að rökkva, gekk Almamún inn í kvennabúr sitt og skipaði mjer að vera þar í höllinni um nóttina. En er hann var farinn, þá vaknaði aptur sama fýsnin, sem hafði hreift sjer hjá mjer kvöldinu áður, og gekk eg frá höllinni. Á leiðinni sá eg aptur körfina hanga niður, settist eg þá í hana og var dreginn upp á þak. „Það er sá sami sem í gær,“ sögðu

þrælarnir; „bíðið þjer nú við þangaðtil við spyrjumst fyrir, því satt að segja er engum hleypt að nema einusinni.“ Nú var spurt um þetta og komu þau skilaboð, að eg mætti stíga upp úr körfinni. Var mjer aptur fylgt niður í salinn fagra þar sem báðir legubekkirnir voru; kom þar aptur hin fagra mær með fylgikonum sínum og spurði mig ástúðlega, hvernig mjer liði. Ljek hún við hvern sinn fingur og fagnaði mjer svo frábærlega, að eg varð hálf kynlegur við. Nú borðuðum við og drukkum og var skemmtun okkar ennþá fjörugri enn kvöldið áður. „þú ert reyndar mesta gersemi,“ sagði hún, „undur er hvað þú kannt af skrítnum og skemmtilegum sögum.“ „En sæjirðu hann frænda minn,“ svaraði eg, „þá mundi þjer nú fyrst lítast á.“ „Nei!“ mælti hún „enginn maður kemst í hálfkvisti við þig.“ — „Og samt er eg ekki nema ambaga ein í samanburði við hann; lofaðu mjer að sýna þjer hann, þá muntu sanna orð mín.“ Mjer var nú svo mikið um þetta hugað, því eg taldi víst, að ekki mundi annað tjá enn að segja kalífanum hreinan sannleikann. „Komdu þá með hann í nótt,“ sagði hún, og þá þókti mjer vænt um. Fórum við nú að tala um annað og skemmtum okkur allt til morguns; fór eg þá burt með sama hætti og eg var kominn. Eg skundaði á fund kalífans og hitti hann bálreiðan; heilsaði eg honum með lotningu, en hann svaraði: „Eg tek ekki kveðju þinni, því þú fyrirlítur skipanir mínar og virðir vinfengi mitt að vettugi.“ þá mælti eg: „Vertu ekki svo bráður, drottinn rjetttrúaðra manna! eg get sagt þjer nokkuð skrítið.“ „Segðu mjer það þá,“ svaraði hann. Sagði eg honum þá frá æfintýri mínu og gat þess að síðustu, að eg hefði mælt honum mót við mærina fögru. Varð þá Almamún allur á lopti af fögnuði og var allan daginn að láta mig segja upp söguna aptur og aptur, og spyrja mig um mærina. Jafnskjótt sem dagur var runninn, fórum við báðir á stað og komum okkur saman um, að við skyldum sleppa öllu siðdekri og láta öldungis einsog við værum frændur. Hittum við fyrir tvær karfir og settumst við sinn í hverja, vorum við svo dregnir upp á húsþakið, og gengum þaðan niður í salinn. Í þetta skipti voru í honum þrír legubekkir, og settist eg í einn, en kalífinn í annan, svo að sá einn var óskipaður, er stóð í miðið. Kom nú mærin fagra með ambáttum sínum; var matur og drykkur fram borinn og fór allt fram eins og í fyrri

skiptin. Leizt mærinni prýðilega á kalífann, enda var hann mjer miklu fremri að menntun og kurteisi. „Mjer lízt svo á frænda þinn,“ mælti hún, „að hann sje enda meiri ágætismaður enn þjer sagðist frá.“ Því næst tók hún gígju sína, ljek á hana og söng svo yndi var að heyra. Leið svo nóttin í himneskri unun, með dýrðlegu borðhaldi og inndælli sönglist. Fórum við loksins heim aptur til hallarinnar, og var kalífinn svo hugfanginn af fegurð mærinnar, að hann hóf bónorð sitt til hennar. Var því vel svarað og drakk hann skömmu síðar brullaup sitt til hennar í Kóm með mikilli viðhöfn; hafði kalífinn farið í þann stað sjer til heilsubótar. Og er hann kom inn í brúðarhúsið, þá lofaði amma brúðarinnar að gefa henni þúsund perlur, dregnar upp á band, og skyldu þær vera svo fagrar og fullkomnar, að hvergi fengjust betri. Settist nú kalífinn andspænis brúðurinni, en hún hjet Búran; var breidd fyrir þau gullofin ábreiða og á hana bar amma brúðarinnar perlur sínar í gullskálum og raðaði þeim niður fyrir fótum kalífans. Sagði Almamún, að kona sín ein skyldi eiga perlur þessar, og kvað henni heimilt að biðja sig hvers sem hún vildi. Það er mælt að Al-Hassan tengdafaðir kalífans hafi kostað fimmtán milíónum silfurpeninga til brúðkaups þessa. Því er og bætt við, að þegar festar fóru fram, hafi hann skrifað hvern einstakan hlut, sem hann átti, á pappírsmiða og fleygt öllum miðunum á meðal hirðmannanna, svo að hver fjekk það, sem stóð á miða þeim, er hann náði. Að endingu er þess getið, að allan þann tíma, sem á hátíð þessari stóð, var engu brennt, nema sandelsviði.

## Frá Selim Egyptalands konungi.

Það er upphaf þessa máls, að konungur einn voldugur ríkti á Egyptalandi; honum kom til hugar, hversu jarðnesk hamingja er svipul og fallvölt, og rjeði hann því af, að láta yngra son sinn læra einhverja iðn. Kom hann honum fyrir til kennslu hjá skraddara þeim, er frægastur var í aðsetursborg hans. „Son minn!“ mælti hann, „lát þjer enga lægingu þykja að iðn þeirri, sem þú átt að nema. Enginn er óhultur fyrir aðköstum forlaganna, og vel getur svo farið, að þú reynir einhverntíma, hvort það er ekki satt sem

persneska máltækið segir: „Kunnátta, þótt ekki sje þyngri enn hveitikorn, jafnast samt á við hundrað vættir gulls.“

Konungssonurinn ljet sjer orð þessi að kenningu verða og tók skjótum framförum í skraddaraiðninni. Nú andaðist konungurinn faðir hans, og tók þá eldri bróðirinn við konungdómi, en hinn yngri vissi, að hann ól til sín heiptarhug og flýði því leynilega til Hedschas. Þar slóst hann í för með pílagrímum og kom til Mekka. Nú er hann ráfaði um strætin í Mekka, sem er ein með hinum stærstu borgum, þá drap hann fæti sínum við einhverju hörðu, sem glamraði við; tók hann það upp og sá að það var peningapyngja. Varð hann þá heldur enn ekki glaður, en sem hann hafði gengið spölkorn áfram, þá mætir hann kaupmanni einum öldruðum; var sá hryggur mjög, barði sjer á brjóst og hrópaði af æði og örvæntingu: „Heyrið mig allir múselmenn! hver ykkar sem finnur pyngju mína, þá skili hann mjer henni aptur fyrir sakir guðs og hins helga musteris í Mekka. Skal hann fá helfing þess fjár, sem í pyngjunni er, og eiga það með rjettu.“ Nú er kóngssonur sá manninn svo örvæntingarfullan, þá var hann ekki lengi að velkja fyrir sjer, hvað hann ætti að gera, heldur gekk hann strax til hans og mælti: „Látið nú huggast, hjerna er pyngjan, sem þjer hafið týnt og ætlast eg ekki til annara launa fyrir greiða þenna, enn að þjer útvegið mjer atvinnu.“ „Feginn vil eg gera það fyrir þig, son minn!“ ansaði gamalmennið, „ósjerplægni þín skal ekki verða varlaunuð. Eg á heima í Bagdad og viljir þú fylgja mjer þangað, þá get eg þar orðið þjer að miklu liði.“ Tók nú kóngssonur feginshugar boði þessu.

Nú komu þeir eptir langa ferð til Bagdad, sem er höfuðborg í Irak Arabi; kom kaupmaður kóngssyni fyrir hjá skraddara einum. Og með því kóngssonur var snillingur í iðn sinni, þá ávann hann bæði sjálfum sjer og húsbónda sínum mesta lof. Jókst vinna skraddarans stórum svo hann hafði valla undan og þakkaði hann það kóngssyni. Sagði hann því einusinni við hann: „Vinur kær! þú vinnur á degi hverjum í minnsta lagi fyrir tólf peningum; hjerna eru þeir; taktu við.“ Fyrir slík laun gat kóngsson lifað allgóðu lífi í Bagdad. Um þessar mundir varð kaupmaðurinn ósáttur við konu sína, enda var tilgjörningur hennar ekki sem beztur; hafði

hann orðið svo reiður, að hann þrisvar mælti fram hinn helga skilnaðar formála. Reyndar iðraðist hann þess áður langt um liði, en hann gat ekki endurnýjað hjúskapinn fyr enn kona hans giptist öðrum manni. Var nú kaupmaður lengi að hugsa um, hvern hann ætti að fá til þess, því það varð að vera maður, sem óhætt væri að trúa, komst hann til þeirrar niðurstöðu, að enginn mundi sjer hollari enn kóngssonurinn. Fór hann með hann til konu sinnar og skildi þau eptir ein saman, svo sem lög bjóða. En nú var bæði að kóngsson var ungur og álitlegur, en konan hin fríðasta, og varð því brátt ástúðugt með þeim. Sýndi konan honum auðæfi þau, er hún hafði fengið í heimanfylgju og voru þau afar mikil, bauð hún honum þau til eignar, ef hann vildi segja næsta morgun, að sjer væri ómögulegt að skilja við hana. Varð Selim stórglaður við og hjet að lýsa þessu yfir í návist dómarans.

Morguninn eptir kom kaupmaðurinn og lauk upp dyrunum. „Fljótt nú!“ kallaði hann til Selims, „komdu nú með mjer til dómarans.“ „Hvað á eg að gera til dómarans?“ segir Selim. „Þú átt að skilja við konu mína,“ segir kaupmaður. „Ekki held eg verði af því,“ ansaði Selim, „það er nú siðvenja á Egyptalandi, að hver, sem kvongast, verður að sitja með þá konu, sem hann hefur fengið.“ „Hvað á þetta?“ hrópaði kaupmaður, „en að þú skulir láta þjer farast svona við mig.“ En það kom nú í einn stað niður hvað hann sagði, því Selim sat við sinn keip. Fjellst kaupmanni svo mikið um missi konu sinnar, að hann tók þunga sótt. Og sem hann var aðfram kominn, þá ljet hann biðja kóngsson að vitja sín. Mælti hann til hans þessum orðum: „Eg er sjálfur valdur að hörmungum mínum og væri því rangt af mjer að veita þjer nokkrar átölur. Þegar þú fjekkst mjer pyngju mína, þá sagði eg í gáleysi: „Drottinn minn! getur aleiga mín hrokkið til að launa slíka ósjerplægni?“ Þú sjer nú að drottinn hefur helzt til glöggt heyrt þessi orð mín, því þú hefur á einni svipstundu eignazt mestan hlut þess, sem eg átti, og konu mína í tilbót. Þetta er forlaganna vilji og vitna eg það undir alla, sem hjer eru nærstaddir, að eg gef þjer líka allan þann fjárhlut, sem eg læt eptir mig.“ Þremur dögum síðar andaðist kaupmaður og varð Selim nú vel fjáður. Hætti hann þá við skraddaraiðnina og lifði stórmannlega.

Liðu svo nokkur ár af hendi, en þá var líka velsæld hans á enda. Það hafði leynzt fyrir Selim, að einn af kunningjum hans hafði lagzt á hugi við konu hans. Það var einhvern dag, er hann hafði verið úti að skemmta sjer með vinum sínum, að hann kom heim og barði á húsdyr sínar, en enginn lauk upp. Barði hann þá harðara, en þar var steinshljóð. Þá mölvaði hann upp dyrnar og æddi inn í húsið; sá hann þá að þar var enginn maður, en öllu komið burt sem fjemætt var. Gekk hann þá úr skugga um ótryggð konu sinnar og sór, að hann skyldi hefna sín á henni. Spurðist hann því hvervetna fyrir, hverja leið hún hefði farið með friðli sínum, seldi það sem hann átti og veitti þeim eptirför á vegum þeim, er liggja til Ispahan.

## Skóarakonan og afskorna nefið.

Nú leitar Selim hvervetna að konu sinni, og sem hann hafði farið tvær dagleiðir, þá varð hann uppgefinn af þreytu og lagðist niður við húsdyr skóara nokkurs. „Þú ert þreytulegur, kunningi!“ mælti skóarinn við hann, „en viljirðu halla þjer út af á mottunni minni, þá er þjer það velkomið.“ Varð Selim þá guðs feginn, lagðist endilangur á mottuna og sofnaði útaf. Nokkru síðar vaknaði hann við háreysti nokkurt, og stóð nú skrítilega á því. Svo var mál með vexti, að skóarakonan hafði lengi haldið við ungan verzlunarmann, og var þar í nágrenninu rakarakona nokkur, sem var henni hjálpleg til þesskonar athafna og hylmdi yfir með henni. Nú hittist svo á, að skóarinn var nýfarinn út að erindum sínum og ætlaði því konan að sæta lagi og skreppa til kaupmannsins, en rjett þegar hún var á förum, þá kom skóarinn heim aptur öldungis að óvörum. Spurði hann konu sína, hvert hún ætlaði, en henni fjellust orð við, og varð hann þá svo reiður, að hann reyrði hana í hefndar skyni við stoð eina. Eptir það lagðist hann niður og sofnaði. Þókti Selim skóaranum farast illmannlega við konu sína, en hann sá nú bráðum, að þessi aðferð hans var ekki allskostar ófyrirsynju. Að stundarkorni liðnu kemur inn kona rakarans og segir í hljóði: „Hvað ertu að hugsa, granna mín! veiztu ekki að hann bíður þín og eirir sjer hvergi fyrir eptirlöngun?“ Sagði skóarakonan henni þá,

hversu farið hafði með þeim hjónum og bætti við: „Nú gerðirðu gott verk ef þú gengir ofurlitla stund í minn stað og hjálpaðir mjer svo til að hefna á bónda mínum.“ „Það er velkomið,“ ansaði rakara konan, „en vertu ekki mjög lengi.“ Að svo mæltu leysti hún vinkonu sína og hljóp hún þá sem fætur toguðu til friðilsins. Nú vaknar skóarinn við þetta og kallar hvað eptir annað á konu sína, en þar var steinshljóð, því rakarakonan, sem hafði gengið í stað hennar, var hrædd um, að hún kynni að koma upp um sig með málrómi sínum. Verður nú skóarinn leiður á þessu, stendur upp og tekur skinnakníf sinn, gengur að stoðinni, er hann hafði bundið við konu sína, og sker miðsnesið af rakarakonunni. Stakk hann því svo í lófa hennar og mælti: „Hana þá! eg skal kenna þjer að hlýða; en gefðu nú friðlinum af þjer nefið einsog annan menjagrip.“ Þetta hafði nú konukindin fyrir greiðvikni sína, en þorði þó ekki að mjæmta nje skræmta af hræðslu fyrir ofsa og illleikni skóarans. En í annan stað lagðist hann niður og hugðist hafa refsað konu sinni. Rjett á eptir kom hún heim og heyrði hversu illa hafði farið fyrir grannkonu hennar. Varð hún fegin undir niðrí, er hún sjálf hafði sloppið hjá svo grimmdarfullri meðferð, en tjáði þó rakarakonunni meðaumkvun sína með hjartnæmum orðum og grátandi tárum; ljet hún hana svo aptur reyra sig við stoðina. Nú fór hún að hugsa um, hvernig hún ætti að telja manni sínum trú um, að hún hefði fengið miðsnesið aptur og hugkvæmdist henni kænlegt ráð til þess. Að góðri stundu liðinni tók hún allt í einu að biðjast fyrir með hárri röddu og mælti: „Ó þú líknsami miskunsemdanna faðir! þú hjartnanna rannsakari! getur þú látið slíkt við gangast, að menn níðist á mjer með svívirðilegum sakargiptum og þrælslegri meðferð? Bænheyr mig, drottinn! og íklæð mig aptur fegurð þeirri, sem er einkenni hreinna og óflekkaðra sálna.“ Skóaranum blöskraði, sem von var, að heyra bæn þessa, og hrópaði hann í vonzku: „Bannsett hórkonan! hvernig getur þú ætlast til að guð bænheyri þig?“ „Æ, mikil blessun!“ kallaði konan, „guð hefur bænheyrt mig; komdu nú hörkutólið þitt, og sjáðu með þínum eigin augum, að bættur er hinn skemmilegi áverki, sem þú veittir mjer.“ Þetta sagði konan með þeim sannfæringarinnar krapti, að skóaranum gekkst hugur við. Hann kveikti aptur á lampanum og lýsti framan

í konu sína, sá hann þá að nefið var heilt einsog það hafði áður verið. þóktist hann þá ekki framar þurfa vitnanna við, fleygði sjer niður fyrir fætur konu sinnar og mælti: „Ó, mig auman og ógæfusaman! eg játa að eg hef haft svívirðileg rangindi í frammi við þig, og lofa eg þjer nú að eg skal bæta yfir mína fyrri breytni með góðleik og eptirlátsemi. Uppfrá þessari stundu skal eg hlýða boði þínu og banni sem hinn auðsveipasti þræll."

Allt þetta sá og heyrði Selim þar sem hann lá útí horni, og gat hann ekki að sjer gert að hlægja að trúgirni veslings skóarans. Meðfram var líka atburður þessi sjálfum honum til huggunar og þelfróa, svo hann sofnaði út af og heyrði því ekki hvað fram fór eptir sættargerðina. Undireins og lýsa tók af degi, fór hann á fætur og þakkaði skóaranum fyrir gistinguna, en ekki raskaði hann hugarró hans með því að ljóstra upp því, er hann hafði orðið áskynja um. Hjelt hann síðan áfram ferð sinni til Ispahan. Og er hann bar að hinni næstu borg, þá mætti hann förumunki einum. Sá förumunkurinn á honum, að hann var hryggur í bragði, og tók svo til orða: „Eg sje að það liggur illa á þjer, seg mjer, hvernig stendur á ógleði þinni." „Æ, herra!" svaraði Selim, „kona mín er strokin frá mjer og er eg að leita að henni." „Vertu þá hughraustur," mælti förumunkurinn, „því ekki ert þú sá eini, sem sú ógæfa hefur hent. Og þó þitt hlutskipti kunni að hafa verið hart, þá mun þó valla hafa farið hraparlegar fyrir þjer enn mjer. Hef eg orðið fyrir grátlegu hrakfalli og ber eg merki þess á andliti mínu sem aldrei mun afmáð verða." Svo mælti hann og sýndi Selim ör á hægra vanga sínum, og var auðsjeð að sárið hafði verið mikið og djúpt. „Sár þetta," sagði hann ennfremur, „mun ávallt minna mig á hina hörmulegustu stund, sem eg hef lifað, og skal eg nú segja þjer sögu mína, því mjer þykir eigi ólíklegt, að hún megi verða þjer til huggunar."

## Förumunkurinn með örið.

Áður enn eg gerðist ölmusumunkur, var eg sveitarforingi í landshernum. það var einhverju sinni að eg fór á dýraveiðar með fjelögum mínum, og varð fyrir oss hjörtur vænn og mikill; elti eg

hann svo ákaft, að eg varð viðskila við hina og datt hesturinn undir mjer, en eg kastaðist til jarðar og fjell í rot. Lá eg svo langa stund í óviti, og er eg loksins rjetti við, þá sá eg hvar kerling nokkur var að staulast til mín; var hún afarhrukkótt í framan og kinnfiskasogin. Og með því eg var veikur fyrir eptir biltuna og staðurinn eyðilegur, en náttmyrkrið farið að færast yfir, þá varð eg enn hræddari, er eg sá kerlinguna enn eg mundi ella, og skalf eg allur einsog hrísla. Tók kerlingin eptir því og leitaðist við að útrýma hræðslu minni með vinsemd og blíðu. Spurði hún mig, hvernig eg hefði farið að villast í auðn þessa, og sagði eg henni það með fám orðum; bauð hún mjer þá hjálp sína og sá eg ekki annað sýnna enn að þiggja hana, er eg var svo báglega staddur. Dró hún mig þá djarflega við hönd sjer gegnum þykka skógarrunna og fór með mig í ótal króka, þangað til við komum út úr mörkinni. Sá eg þá hús eitt fagurt, er stóð innan um inndæla aldingarða á fljótsbakka. Þangað fór kerling með mig og sýndi mjer staklega gestrisni, var þar auðlegð mikil og alls nægtir, og ekkert til sparað, sem mjer mátti vera til yndis og ánægju. Um kvöldið sá eg yngismey eina afbragðs fríða, og varð eg frá mjer numinn af yndisleik hennar og óskaði með sjálfum mjer, að eg mætti dvelja með henni á þessum fagra stað. Fór eg nú að verða ennþá stimamýkri við kerlinguna, og daginn eptir sætti eg einusinni lagi, þegar mærin ekki var við, og mælti eg þessum orðum: „Móðir góð! hvernig á eg að geta fullþakkað yður hinar vinsamlegu viðtökur, sem þjer hafið veitt mjer? En er það brot á móti lögmáli gestavináttunnar, þó eg spyrji, hvað yngismærin heitir, sem eg sá hjer í gærkveldi.“ „Son minn!“ svaraði kerling, „þú hefur ekkert mjer að þakka. Þegar eg dró mig út úr glaumi heimsins til þess að helga guði líf mitt í einverunni, þá varð það sjálfsögð skylda mín að hjálpa öllum nauðstöddum. En jafnframt því lagði eg alla stund á að uppala yngismey þá, er þú hefur sjeð í húsum mínum, en hún er dótturdóttir mín. Missti hún foreldra sína á bernsku skeiði og sá eg það ráð fyrir henni, sem bezt var, að hún skyldi hafna veraldlegum hjegóma og ekki hugsa um annað enn sína eilífu velferð.“ Þá mælti eg: „Svo vel geðjast mjer að yðru dæmi, móðir góð! að eg sje mjer ekkert betra ráð enn að breyta eptir því; en eins verð eg

samt að biðja yður í launa skyni. Giptið mjer dótturdóttur yðar, og verðum við þá bæði hjá yður, og veitum yður stoð og hjúkrun í ellinni með alúð og nærgætni. Verðið við bæn minni og látið guðs vilja framgengt verða, því svo virðist, sem hann hafi ætlað mjer þenna ráðahag og ekki annan, er hann ljet mig bera að húsi þessu.“

Kerling ljet nú að orðum mínum, er eg bað hana svo innilega, og máttu geta því nærri, hvað sælan eg taldi mig, er eg hafði eignazt svo yndisfagra og siðsama konu. En þessi sæla mín varð eigi langgæð. Kerlingin tengdamóðir mín andaðist, og fjekk kona mín þá allt í einu megna óbeit á sveitalífinu og ljet mig engan frið hafa fyr enn eg flutti til borgarinnar. Leigði eg þar handa okkur hús nokkurt á afviknum stað, og rjeði eg til mín ráðskonu til að annast það er þurfti á heimilinu. Nú varð eg opt að fara úr borginni til að sjá yfir sýslur á búgörðum þeim, er við höfðum skilið við á landsbyggðinni. Þá var það einhvern dag, er eg bjóst til slíkrar ferðar, að ráðskonan kom til mín og mælti: „Eg er nú farin að gerast gömul, húsbóndi góður! og treysti eg mjer ekki til að annast heimili yðar eins vel og vera ber, bið eg yður því að sleppa mjer úr vistinni. Það er líka vitaskuld, að mjer er ekki sýnt um vjelar þær, er tíðkast í þessum stóru borgum, og til sumra verka er eg með öllu óhæf.“ Skildi eg ekkert, hvað ráðskonan fór, því eg trúði konu minni einsog nýju neti og var með öllu grunlaus; leyfði eg henni því fúslega að fara úr vistinni. En er hún sá að eg gaf orðum hennar engan gaum, þá þókti henni skylda sín að tala ljósara, og í næsta skipti er eg fór af heimili mínu, þá tók hún þannig til orða: „Auðtryggi yðar, húsbóndi góður! keyrir fram úr öllu hófi og verður nær því að heimsku. Hafið þjer þá ekki opin augun til að sjá, hvað fram fer á heimilinu? eruð þjer ekki gætnari enn þetta, þar sem þjer eigið við kvennvjelar að etja?“ „Seg mjer þá, hvað áttu við?“ mælti eg og vissi eg þá valla til mín fyrir reiði. Ráðskonan svaraði: „Eg talaði þetta ekki til annars, enn þess að þjer skylduð vera var um yður; að öðru leyti hef eg engann ákært.“ Að svo mæltu gekk hún burt og skildi mig eptir milli heims og helju.

Eg var nú lengi á báðum áttum, hvort eg ætti að fara eða

vera kyr heima; en með því eg vildi komast fyrir, hvað satt væri í þessu máli, þá hagaði eg ráði mínu þannig. Eg hjelt áfram að búa mig til ferðarinnar, kvaddi konu mína og fór úr borginni, en reyndar ekki lengra enn í lystigarð einn, sem við áttum þar í grennd við. Var eg í honum allan daginn, en um kvöldið tók eg á mig stafkarls gerfi og gekk heim í borgina. Læddist eg að húsabaki heima hjá mjer og heyrði þar háreysti nokkurt, þóktist eg þá vita, að eitthvað misjafnt mundi vera á seyði. Klifraðist eg þá skjálfandi og nötrandi yfir húsagarðs vegginn og kleif upp í hávaxið trje, er stóð gagnvart herbergi konu minnar. Sá eg úr trjenu, hvað fram fór þar inni og máttu nærri geta, að nú varð mjer sárt í skapi, er eg sá aðfarir konu minnar, óhræsisins, þar sem hún var að skenkja karlmanni vín, og kjassaði hann með allskonar blíðubrögðum. Nú gekk hún snöggvast út með ambátt nokkurri og sætti eg þá lagi, klifraðist ofan úr trjenu og gekk inn í herbergið þar sem friðillinn var. Var hann dauðadrukkinn og lagði eg sverði mínu fyrir brjóst honum; hefndi eg svo ósæmdar þeirra, er hann hafði gert mjer. Að því búnu skauzt eg út og klifraðist sem fljótast upp í trjeð. Og sem kona mín kom aptur og fann ástmann sinn dauðan í blóðtjörninni, þá fylltist hún æðis og örvæntingar, þreif sverðið úr sárinu, og rauk ofan í garðinn til að leita upp vegandann. En er hún fann hann hvergi, þá greptraði hún líkið útí einu garðshorninu og hjálpaði ambáttin henni til þess; sat hún svo alla nóttina með gráti og harmatölum yfir friðlinum dauðum. En undireins og eg sá mjer fært, þá læddist eg burt úr garðinum.

Morguninn eptir kom eg heim og sá eg að kona mín leitaðist við að leyna harmi sínum, en það var henni um megn. Spurði eg hana, því hún væri svo stúrin, en hún svaraði, að það kæmi allt saman af fjærveru minni. Sat eg á mjer í það skipti og ljet ekki á neinu bera, en daginn eptir sá eg að harmur hennar ágerðist heldur, og fór eg þá aptur að ganga á hana. „Æ!“ svaraði hún, „eg get ekki annað enn grátið og andvarpað, þegar eg hugsa til draumsins, sem mig dreymdi í nótt eð var. Mjer þókti sem við værum bæði á gangi fram með sjáfarströndu, og var hvassviðri mikið og illt í sjóinn. Þá kom allt í einu voðalegt skrímsli

og stökkstu undan því út í boðana, en það hlemmdist á eptir þjer.“ Nú gat eg ekki lengur þolað slíkan yfirdrepskap og svaraði eg henni þannig: „Þú skalt ekki æðrast; draumurinn þinn veit á gott, þó hann sje geigvænlegur í fyrsta áliti. Hlustaðu nú til: skrímslið, sem þú sást, er einn af óvinum mínum; þegar eg stökk út í boðana, þá hjet eg á drottinn til fulltingis mjer og drap eg þá skrímslið; en þar sem það steyptist út í sjóinn, þá jarteiknar það greptrun þess í garðshorninu.“ Nú skildi hún meiningu málsins og varð hamslaus af vonzku; tók hún hníf sinn og veitti mjer sárið á kinninni, sem eg ber örið eptir. Og með því nú var auðsætt, að hún sat um líf mitt, þá sneri eg hnífinn úr hendi henni og drap eg hana og ambáttina í reiði minni. Rjeði eg þá af að vera jafnan á ferðalagi og hafa með því móti af fyrir mjer; seldi eg allan fjárhlut minn og fór svo úr einni borginni í aðra. Er eg nú sem stendur á leið til Egyptalands.“

Nú skipast hugur Selims nokkuð, bæði af sögu förumunksins, og svo því, er fyrir hann hafði borið í húsi skóarans; unir hann nú betur óláni sínu og verður því afhuga að leita upp konu sína. Rjeðist hann því í för með munkinum og hjelt heimleiðis til Egyptalands. Og er þeir voru komnir að landamærum ríkisins, þá settust þeir að í gesthúsi einu stóru. Voru þar ferðamenn fyrir úr ýmsum löndum. Einn þeirra virti kóngsson fyrir sjer með mikilli athygli og mælti: „Má eg vera svo djarfur og spyrja, hvaðan eruð þjer?“ „Eg er frá Kairó,“ ansaði Selim. Þá fjell hinn ókunnugi maður til fóta honum og sagði: „Leyfið mjer, kóngsson! að faðma knje yðar, og kannast við yður einsog konung minn og herra. Eg er skraddarinn, sem hafði yður til kennslu eptir boðum föður yðar. Er nú bróðir yðar dáinn og hjelt eg fram rjettindum yðar til konungdómsins á móti einum af frændum yðar; gengu áhangendur yðar í flokk sjer og báru þeir hærra hlut. Sagði eg þá í heyranda hljóði, hversvegna þjer hefðuð orðið að fara úr landi, og var mjer veittur tveggja ára frestur til að leita yður upp. Skyldu vezírar yðar stjórna ríkinu á meðan; en nú munuð þjer sjálfur takast stjórnina á hendur, og það þráir líka landslýðurinn mikillega.“ Selim þakkaði kennara sínum innilega og lofaði að muna honum æfinlega velgjörðir þær, er hann hefði

auðsýnt sjer. Bað hann skraddarann að fylgja sjer til höfuðborgarinnar og fjekk hann förumunkinn einnig til að verða sjer samferða þangað. Komu þeir að fám dögum liðnum til Kairó og var Selim tekið þar með miklum fögnuði og vegsemd. Og er hann var seztur að ríki forfeðra sinna, þá ætlaði hann að gera skraddarann að stórvezír, en hann kvaðst ekki vera maður til að standa í svo þungri stöðu. „Eg er ekki svo stórhuga,“ mælti hann, „en vænt skyldi mjer þykja, ef þjer vilduð sýna mjer þá náð, að gera mig að hirðskraddara.“ Ljet hinn nýji konungur fúslega að orðum hans, en förumunkinn gerði hann að stórvezír. Kostuðu þeir báðir kapps um að bæta skaða þann, er landið hafði beðið af ofríki og yfirgangi þess, er síðast ríkti. En einkum ljet Selim sjer vera annt um rjettarfarið, en það hafði lengi verið afrækt; ljet hann skýra sjer frá hverju merku máli, sem kom fyrir dóm.

Það var einhvern dag, er Selim sat í ríkisráðinu, að yfirdómarinn í Kairó gekk fyrir hann og mælti: „Eg er kominn til að skýra yður frá einu flóknu máli og til þess að heyra vilja yðar í því efni. Þrír menn eru ákærðir fyrir morð og hafa tveir meðgengið, og tekið út dauðahegningu, en hinn þriðji segist vera sýkn saka og vill þó fyrir hvern mun láta dæma sig til dauða.“ Bauð þá konungur, að menn skyldu leiða mann þenna fyrir sig. Og sem bandinginn stóð frammi fyrir honum, þá sá hann að þar var kominn ungi maðurinn, sem hafði átt vingott við konu hans, þegar hann var í Bagdad. Varð konungur kynlegur við, en ljet samt á engu bera, og skipaði hann bandingjanum að segja sögu sína. Hann tók svo til máls: „Þegar eg var í Bagdad, þá þekkti eg ungan mann, sem erft hafði talsverðar eignir; og vissi eg ekki, að hann er í þeim stað og hvergi annarstaðar, þá mundi eg ætla að hann væri hjer kominn, svo líkur eruð þjer honum í yfirbragði, og fær það mjer undrunar. Þessi ungi maður hafði gengið að eiga ekkju eina, sem var kvenna fríðust, og unni hann henni hugástum. Einn dag kom kona þessi til mín og spurði mig, hvort eg vildi ekki strjúka burt með sjer, og skyldum við svo bæði dvelja einhverstaðar fjærri Bagdad. Kvaðst hún eiga fjölda gimsteina, og gæti hún haft þá með sjer. Í fyrstunni varð eg hissa á þessu svívirðilega boði konunnar og lengi vel stóð eg af mjer ginningar hennar,

en að lokum ljet eg þó til leiðast og strauk burt með hana einusinni, þegar maður hennar var ekki heima. Komum við að vatni einu og hvíldum okkur á bakkanum, því við vorum uppgefin af þreytu. Skammt frá vatninu var glæsileg höll og höfðum við okkur til skemmtunar að horfa á hana. Þá kom maður ungur og fyrirmannlegur og fylgdu honum þjónar margir, er báru fiskinet. Gekk hinn ungi maður að okkur, og varð honum starsýnt á fylgikonu mína. „Fagra kona!“ mælti hann, „ef yður skyldi þóknast að dvelja í höll minni, þá vildi eg feginn bjóða yður að hvílast í henni.“ Hún tók boði þessu feginshendi og ypti dálítið höfuðblæjunni, til þess að maðurinn gæti sjeð, hvað hún var falleg. En þessi hinn ungi maður var bróðursonur konungsins í Balsora. Fór hann með okkur heim í höll sína, og var honum nú annað meira í mun enn að veiða fiska, sem fyrst hafði verið áform hans. Var okkur fylgt inn í skrautlegt herbergi og veittur kostulegur kvöldverður; ljek hinn ungi maður á als oddi við lagskonu mína, en mjer var óspart borinn drykkur; varð mjer sú vanhyggja, að eg drakk hvert staupið af öðru þangaðtil eg sofnaði fasta svefni. Og er eg vaknaði morguninn eptir, þá brá mjer illa við, því eg sá að eg var kominn á vatnsbakkann, þar sem eg hafði legið daginn áður. Kom mjer til hugar, að mjer hefði verið gerður hrekkur og gekk eg til hallarinnar og barði á dyr; lauk upp maður nokkur og spurði, hvað eg vildi, og svaraði eg þá: „Eg vil tala við konuna, sem fór hjerna inn í gærkveldi.“ „Hvaða vitleysa! hjer er engin kona,“ sagði hann, og skellti aptur hurðinni. Nú barði eg í annað sinn, en ekki fór þá betur og var eg rekinn burt með hörðum hótunum. Eg fór hálft um hálft að halda, að mig væri að dreyma, en er eg rifjaði upp fyrir mjer öll atvik, þá sannfærðist eg um, að eg var glaðvakandi, og barði eg nú í þriðja sinn. Lauk þá upp sami maðurinn sem fyrri, og í sama vetfangi flugu á mig fjórir eða fimm þjónar með stafi í höndum; lömdu þeir á mjer þangaðtil eg lá hálfdauður eptir. Og sem eg raknaði úr rotinu og hugleiddi æfintýri mitt, þá taldi eg mig sælan, að eg hafði komizt lífs af, en ekki gat eg samt að mjer gert að gráta yfir óláni mínu. Vildi eg nú ekki hverfa aptur til Bagdad, heldur sneri eg á leið til Egyptalands. Kom eg hingað í gærkveldi og varð mjer gengið um stræti eitt, er

lá afsíðis, heyrði eg þá hljóð til manns, sem verið var að drepa. Mennirnir, sem verkið höfðu unnið, flýðu undan lögregluþjónunum og komu þangað sem eg var; var eg þá tekinn fastur ásamt þeim. Nú þótt eg sje sýkn af manndrápi þessu, þá er eg samt engu að síður dauða verður fyrir það, að eg strauk burt með konu vinar míns; því fjærri fer, að mjer sje fullrefsað með svikum þeim, er eg varð fyrir af kvennflagðinu.“

Selim rann til rifja iðrun hins unga manns og gaf hann honum frelsi, en bað hann samt framvegis að vara sig á þesskonar glappaskotum. Hafði honum gengið til hjarta, er hann heyrði svo illar sögur af háttalagi konu sinnar, en nú var ekkert framar, sem gat aptrað honum frá að kvongast í annað sinn. Drakk hann nú brullaup til seinni konu sinnar og er tímar liðu fram, þá ól hún efnilegt barn og fjekk það honum mikils fagnaðar. Var þá haldin stórhátíð í Kairó og lögreglumenn margir settir til að sjá um, að allt færi friðsamlega og skipulega í borginni. Gekk konungur sjálfur optsinnis um borgina til þess að sjá með eigin augum, hvort menn hlýðnuðust skipunum hans. Og eittsinn er hann fór þeirra erinda, þá heyrði hann allt í einu hljóð mikil, og rjett á eptir kom ung kona í flasið á honum, og fleygði sjer fram fyrir fætur honum; bar hann þegar kennsl á hana. Ávarpaði hún hann með kurteisi og siðsemd og mælti: „Herra! eg grátbæni yður, að þjer unnið mjer rjettlætis.“ Selim skipaði henni að standa upp og koma með sjer til hússins, sem hljóðin höfðu heyrzt frá. Og er þau komu þangað, þá sá konungur þar tvo sterka þræla með nautssinar í höndum. Þá mælti konan: „Eg bið yðar hátign, að þjer verndið mig fyrir mönnum þessum.“ En nú gekk ungur maður tíguglegur fyrir konung og mælti með lotningu: „Ef yðar hátign vissi öll þau níðingsverk, sem vændiskona þessi hefur framið, þá munduð þjer ekki tálma því, að hún hlyti maklega refsingu. Skal eg færa yður heim sanninn um það, ef þjer viljið hlýða á mál mitt stundarkorn.“ Nú með því konungur sá að hjer var komin kona sú, er hann hafði gengið að eiga í Bagdad, þá leyfði hann honum að tala. Tók hann þannig til máls: „Herra! eg er frá Balsora, og konungurinn þar er móðurbróðir minn. Eg bjó í höll einni við veginn, sem liggur til Bagdad, og bar svo til eitt kvöld, að eg ætlaði að veiða

í vatni nokkru mjer til skemmtunar; hitti eg þá konu þessa með karlmanni á vatnsbakkanum. Bauð eg henni að hvílast í höll minni, en hún tók því með þökkum. Eg spurði hana, hvernig stæði á þessu ferðalagi hennar, og svaraði hún mjer svofeldum orðum: „Herra! eg hef orðið fyrir meira gæfuleysi, enn nokkur annar í ætt minni. Faðir minn var embættismaður í konungshirðinni, og ætlaði hann af eintómri metnaðargirni að gipta mig gömlum jarli; hafði eg hina mestu óbeit á ráðahag þessum, og tók það úrræði, að flýja til Balsora með þrælnum, sem þjer sáuð hjá mjer.“ Nú með því kona þessi var hlaðbúin og skein öll í skarti, þá þókti mjer saga hennar sennileg; bauð eg henni að vera hjá mjer og hjet að vernda hana fyrir öllum ofsóknum. „það vil eg hjartans fegin,“ svaraði hún, „en þjer verðið endilega að láta drepa þrælinn minn, svo hann komist ekki heim aptur til Bagdad, og segi hvar mjer varð hælis auðið.“ Eg lofaði henni að gera svo, en hafði þó aðra, og ekki eins níðangalega aðferð til að losast við manninn. Vildi eg nú firra mig öllum ofsóknum og flutti mig til Kairó með allt, sem flytjandi var. þegar þangað var komið, gekk eg að eiga konuna og gaf henni stórgjafir, því eg hafði fest við hana innilega ást. En takið nú eptir, hvaða laun hún ætlaði mjer í staðinn. Hún sló upp á því við einn af þjónum mínum, að hann skyldi drepa mig og strjúka svo burt með hana og öll auðæfi mín. En þjónninn hafnaði boði hennar með andstyggð og sagði mjer frá öllu einsog var. Varð eg svo uppvægur við þetta djöfullega svikræði, að eg lagði á hana þann dóm, að hún skyldi á hverjum degi vera húðstrýkt með nautssinum, og byrjaði þessi refsing hennar fyrst í dag. Svona stóð á hljóðunum, sem þjer heyrðuð, og getið þjer nú sjálfur dæmt um, hvort eg hafi haft ranglæti í frammi.“

Meðan höfðinginn frá Balsora var að segja sögu þessa, hafði Selim runnið kalt vatn milli skinns og hörunds. Hann mælti: „Fjærri fer því, að eg lasti vandlæti yðar í þessu máli, miklu fremur lýk eg því orði á, að dauðinn einn geti afplánað glæpi sakakonu þessarar.“ Og þegar skipaði hann mönnum sínum að fleygja ókindinni út í Nílfljótið. Bauð hann manninum frá Balsora að vera við hirð sína og sagði honum, hvernig á því stæði, að

hann hefði dæmt harðari refsingu á hendur konunni. Lifði Selim lengi og farsællega með seinni konu sinni, en gleymdi vonum bráðar hinni fyrri.

# Frá 894 til 905 nætur.

## Sagan af konungssonunum frá Kochinchina og systur þeirra.

Einusinni var konungur í Kochinchina, sem var allra manna fjölvitrastur í ríki sínu. þegar hann lá á banasænginni, þá sendi hann eptir báðum sonum sínum, konu sinni og dóttur. Og sem þau höfðu heitið að hlýðnast rækilega öllu því, er hann fyrir mælti á deyjanda degi, þá tók hann þannig til máls við elzta son sinn: „Chansad! þú ert borinn og fæddur til ríkis míns, en minnstu þess ávallt, að mildi og mannúð er hin sæmsta prýði á konungi, og ef þú lætur það vera þjer hugfast, þá muntu lengi og farsællega að ríkjum sitja, einkum ef þú þar á ofan sýnir móður þinni sonarlega rækt og lætur þjer vera annt um Múrad bróður þinn; hann er barn að aldri og er því öll þörf á, að þú gangir honum í föður stað, er mín missir við. En það er til Aisku systur þinnar kemur, þá er það vilji minn, að þú giptir hana þeim, sem fyrst biður hennar, hver sem hann er og hvaðan sem hann kann að vera kominn. Nú þótt þjer þyki þetta kynlegt, þá skaltu samt skoða það einsog dómsatkvæði forlaganna.“ Að svo mæltu bljes konungur mæðilega og gaf upp öndina. Sýndi Chansad föður sínum hinar hinnztu virktir, og er hann var seztur að völdum, þá fór stjórnin honum prýðilega úr hendi, og efldist svo heill og velsæld ríkisins.

það var einhvern dag að maður nokkur ókunnur kom og beiddist að finna konung að máli. Var maður þessi heldur hryssingslegur og hrikalegur ásýndum; gekk hann fryjulaust fyrir konung og mælti: „Guð lengi lífdaga þína, konungur! en þess bið eg hann öllu fremur, að hann láti þig eigi styggjast við mig nú, því erindi mitt hingað er að mæla til samfara við Aisku systur þína.“ Varð konungur fyrst æfareiður og ætlaði að hegna komumanni fyrir ósvífni hans, en þá hugkvæmdist honum, hverju hann hafði heitið

föður sínum. Sat hann því á sjer og bauð að vísa skyldi komumanni til herbergis í höll sinni, en veitti honum ekki skýlaust svar að svo komnu. Fór hann þegar til drottningarinnar móður sinnar og bar mál þetta undir hana. Hryggðist drottning ákaflega, er hún heyrði, hver efni í voru, en hvorugu þeirra mæðgina gat hugkvæmzt nokkurt ráð til þess að smeygjast undan hinu helga heitorði, er þau höfðu veitt hinum framliðna konungi. Ljetu þau því skila til komumanns, að þau mundu gipta honum kóngsdótturina. Var brúðkaupið haldið innst í höllinni og framfór það næsta hljóðlega, því öllum, sem að stóðu, þókti það fremur hryggðar efni enn fagnaðar. Þó var brúðurin dapurlegust; sagði brúðguminn að nú skyldi hún búast til ferðar með sjer, og fjekk hún þá eigi tára bundizt. Lofaði hann henni í huggunar skyni, að hún skyldi fá að fara orlofsferð á ári hverju til ættingja sinna og vera hjá þeim í þrjár vikur.

Nú fóru þau hjónin og leið svo heilt ár að ekki kom kóngsdóttir; var því sorg mikil og harmur í konungshöllinni. Sendi konungurinn menn í allar áttir til að leita upp systur sína og hjet að launa stórmannlega þeim, sem tækist að uppgötva, hvar hún væri niður komin. Hjelt hann þessu áfram í þrjú ár og varð einskis vísari; fylltist hann þá örvæntingu og rjeði af að fara sjálfur á stað, og snúa ekki heim aptur fyr enn hann væri búinn að finna systur sína. Nú segir hann móður sinni frá áformi þessu, en hún verður yfirkomin af harmi og segir grátandi: „Yfirgef mig ekki elsku son minn! Dótturmissirinn var mjer helzt til þungbær, og svo segir mjer hugur um, að ef þú fer líka, þá muni eingill dauðans slökkva lífsljós mitt áður enn þú kemur aptur. Og hverjum ætlarðu að trúa fyrir ríkisstjórn í fjærveru þinni? Bróður þínum líklega, sem ekki er kominn til lögaldurs, eða mjer, sem komin er af fótum fram.“ En Chansad ljet ekki fá sig ofan af áformi sínu; hann fól stórvezírnum landsstjórn á hendur og reið á stað einsamall, til þess menn skyldu því síður geta þekkt sig.

Nú var hann í mörg ár á ferðalagi þessu og fór um mörg lönd, en frjetti hvergi neitt til systur sinnar. Bar hann eittsinn að eyðimörk nokkurri og ásetti sjer að rannsaka hana; reið hann í tvo daga yfir sólheitan sandinn og hafði ekki einn vatnsdropa til að slökkva með þorsta sinn. Þá sá hann loksins fjall eitt langt

í burt og reið þangað allt hvað af tók. En reiðskjóti hans var þá orðinn svo máttdreginn af lúa og ofraun, að hann steyptist dauður niður undir honum. Varð Chansad þá að fara fótgangandi, en ljet samt ekki hugfallast, og náði hann að kvöldi sama dags upp undir fjallið; sá hann þar einsetukofa og jókst honum þá styrkur. Enda gerði það herzlumuninn, svo hann komst að kofadyrunum, en þá var hann svo af sjer kominn, að hann fjell í ómegin. Hljóp munkurinn þá til dyra og kom honum fljótt aptur til sjálfs síns; fór hann síðan inn með hann í kofa sinn og bar á borð fyrir hann þurrkuð aldin og úlfaldamjólk. Snæddi nú konungur og drakk, og er hann var búinn að því, þá lagði munkurinn ullar ábreiðu á gólfið og spurði, hvort hann vildi hvílast á henni. Tók konungur því vel og svaf á henni til morguns.

Nú er munkurinn hafði þvegið sjer um morguninn og lesið bænir sínar, þá bauð hann gestinum að setjast niður hjá sjer. Greip hann um hönd hans og mælti: „Ungi maður! þjer hefðuð átt að hlýða heilræðum móður yðar og sitja kyr heima í konungssætinu.“ Þá varð konungur orðlaus af ótta og undrun, en munkurinu mælti ennfremur: „Eg veit hvernig á ferðalagi yðar stendur og get eg sagt yður það fyrir, að þjer munuð sjá aptur systur yðar, en ekki lengur enn í þrjá daga; mun andi nokkur illgjarn í langan tíma bægja yður frá ríki yðar. Ef þjer nú vilduð fara að mínum ráðum, þá væri lítill vegur, að þjer gætuð komizt hjá óláni þessu. En þá munduð þjer ekki heldur geta frelsað systur yðar. Verið nú hjá mjer þangaðtil lestin frá Balsora fer hjer fram hjá; hennar er nú von á hverri stundinni. Með henni getið þjer komist til Bagdad og þaðan heim í ríki yðar. Til eins vil eg líka ráða yður, eg það er, að þjer farið aldrei lengra enn tvær þúsundir skrefa frá kofa mínum, fyr enn lestin er komin.“ Þakkaði nú Chansad munkinum fyrir ráð sín og lofaði að hlýða þeim rækilega.

Einusinni þegar konungur var á gangi hjá einsetukofanum, þá sá hann trje eitt í eyðimörkinni ekki allfjærri, og hjengu á því ávextir harla fagrir og ólíkir öllum þeim, er hann áður hafði sjeð. Þykir honum þetta kynlegt, og stefnir á trjeð; en þótt hann gengi eptir því stundunum saman, þá gat hann samt ekki náð því, og sýndist það þó vera mjög svo nálægt. En er hann hafði gengið

allan daginn, þá komst hann loksins að rótum trjesins. Karl einn aldraður sat uppi í liminu og heilsaði konungi vingjarnlega, stje hann þegar ofan og hvarf þá trjeð í sama svip. Spurði karlinn, hvað konungur væri að fara og hversvegna hann hefði elt sig svo þrálátlega. Nú iðraðist Chansad, að hann hafði ekki hlýðt betur ráðum munksins og ásetti sjer að fara varlega. Svaraði hann því, að hann væri úlfaldamaður og hefði hann heillazt svo mjög af fegurð ávaxtanna, að hann hefði yfirgefið hjarðir sínar; en með því ganga sín væri orðin til ónýtis, þá vildi hann nú hverfa aptur til úlfalda sinna. Þá glotti karlinn og mælti: „Sonur sæll! ekki þarftu að hugsa til að komast þangað í dag, sem þú varst í morgun, þegar þú fórst á stað. Öll þessi landsálfa lýtur töfravaldi andans Abútavíls, og situr hann ávallt um ferðamenn. Munkurinn, sem þú skildir við í morgun, er einn af þjónum hans, og því aðeins hýsti hann þig, að hann ætlaði sjer að selja þig í hendur drottni sínum. En þú ert maður rjetttrúaður og hefur spámaðurinn frelsað þig með trjenu. Vertu nú hughraustur og skal eg gefa þjer aldin nokkur, svo þú getir neytt af þeim þjer til styrkingar.“

Að svo mæltu klappaði andinn saman höndum sínum þrisvar sinnum og hvarf þá samstundis til þeirra borð eitt hlaðið hinum völdustu og dýrustu rjettum. Chansad vissi nú ekki, hvort mikið væri eigandi undir þessum nýja gestgjafa, en með því hann vissi ekki, hvernig hann ætti að komast til munksins aptur, þá var nú ekki annað fyrir enn að láta hamingjuna ráða. Þegar hann var búinn að matazt, þá spurði karlinn, hvort hann vildi fylgjast með sjer; kvaðst hann á fám dögum skyldu koma honum til aðsetursborgar sinnar. Konungur var þess allfús og gengu þeir nú báðir eptir troðningi, sem víðast hvar var orpinn brennheitum sandi. Og er konungur hafði gengið nokkur spor, þá komst hann ekki lengra; bauð karlinn honum að setjast upp á bak sjer og kvað svo að orði: „Spámaðurinn eykur mjer afl, enda eru fætur mínir alvanir sandinum; skal eg á einni svipstundu koma þjer þangað sem förinni er heitið.“ Færðist konungur undan og kvaðst ekki geta fengið af sjer, að vera að mæða karlinn afgamlan, sem væri svo hrumur og veikburða; en að lokum ljet hann til leiðast og settist á bak honum. Og í sömu svipun sveiflaðist karlinn upp í

loptið, og voru þeir þegar af stundu komnir til hallar einnar glæsilegrar. Þar ljet karlinn Chansad stíga af baki og hvarf þá óðara úr augsýn hans. Var konungur ringlaður eptir hamför þessa, en nú rak hann í rogastanz er hann leit á höllina, því hún var smíðuð úr einu heilu demantsbjargi, og stóð svo mikil geislabirta af henni, að honum kom glýja fyrir augu og varð að horfa til jarðar. Nú með því konungur vænti sjer hjálpar í höllinni, þá gekk hann umhverfis hana hvað eptir annað, og leitaði dyra, en fann hvergi. Að endingu hnje hann niður af þreytu og sofnaði upp við hallarvegginn.

Þá vildi svo til, að þræll nokkur lauk upp glugga og sá konunginn. Þókti honum kynlega við bregða og sagði frú sinni. Hrærðist hún til meðaumkvunar, er hún sá manninn svo nauðuglega staddan og ásetti sjer að hjálpa honum, en þótt þrællinn leiddi henni fyrir sjónir, að hún mundi þar með baka sjálfri sjer reiði manns síns og stofna miskunarmanni sínum í glötun. Vakti hún konunginn af svefni með því að fleygja ofan á hann aldinum, en þrællinn hleypti niður kaðalstiga og gekk Chansad upp eptir honum og inn í höllina. Og sem hann var að þakka þrælnum fyrir hjálpina, þá heyrir hann hljóð og lítur í kringum sig, sjer hann þá Aisku systur sína liðna í öngvit í fangi þjónustukvenna sinna. Hljóp hann þegar til að stumra yfir henni, og jafnskjótt sem hún raknaði við, þá faðmaði hún hann að sjer grátandi, og spurði, hversu hann hefði mátt finna bústað hennar. Sagði konungur henni þá frá öllum æfintýrum sínum. Var þá einsog sorgarsvipur kæmi á Aisku og styggðist Chansad við það. „Hverju sætir það," mælti hann, „að þú hryggist svo mjög við tilkomu mína, þar sem eg er sárfeginn að sjá þig aptur, og gleymi öllum hrakningum mínum fyrir fagnaðar sakir?" „Já, því er miður," mælti Aiska, „hjerkoma þín er mjer sorgarefni. Það er enginn vafi á því, að það hefur verið Abútavíl bóndi minn, sem flutti þig hingað og til þess hefur hann brugðizt í gamals manns líki. Skal eg nú segja þjer, hvílíkur meinvættur hann er. Þú manst, að eg fór með honum heiman frá okkur fám dögum eptir brúðkaupið. Bar svo til á ferðinni að við áðum í sandels- og myrtusviðarskógi og gekk Abútavíl frá mjer allrasnöggvast, en sem hann kom aptur, þá hafði hann vatnsskál í hendi; stökkti hann vatninu á förunauta mína og breytti þeim í trje. Síðan drap

hann úlfalda okkar og bjóst eg ekki við öðru enn dauða mínum. En hann gerði mjer ekkert mein, heldur þreif hann mig í fang sjer og sveif með mig hátt í lopt upp. Flaug hann með mig alla nóttina og komum við daginn eptir í eyðimörk þessa. Þá dró Abútavíl stóran hring í kringum okkur og þuldi töfraformála; skaut þá höll þessari upp í miðjum hringnum. „Líttu á,“ mælti Abútavíl, „þetta er bústaður okkar; á morgun skaltu hafa konur til að þjóna þjer.“ Hef eg verið hjer síðan og skyldi eg telja mig sæla, ef eg hefði hjá mjer ættfólk mitt, og gæti komizt hjá að líta óvættinn, sem alltaf heldur mjer í fangelsi, og neyðir mig til að horfa upp á grimmdarverk sín. Er það vandi Abútavíls, að hann leggst út í fjörutíu daga og sætir þá lestamönnum, drepur þá og rænir; kemur svo heim aptur og heldur kyrru fyrir þrjá daga í senn. Á morgun er hans heim von, og með því hann drepur alla, þá hryllir mig við að hugsa til þess, hver afdrif þín muni verða.“

En Chansad brá sjer hvergi og bað hann systur sína að minnast þess, að hann hefði unnið sigur á hinum sjö konungum Indíalands, þá er hann var aðeins átján vetra gamall; kvaðst hann þegar mundu ráðast á andann og neyta allrar orku til að frelsa hana. En allt um það fjekk hann eigi útrýmt hugarkvíða hennar, og voru þau að tala um þetta alla nóttina. Og er lýsa tók af degi og sá tími nálgaðist, að vænta mátti Abútavíls, þá sárbændi Aiska bróður sinn að halda sjer í skefjum, og fela sig þangaðtil andinn færi. Gekkst honum hugur við fortölur hennar og faldi hann sig í einu horni hallarinnar, sem lengst var í burtu. Nú gekk Abútavíl inn í höllina og skalf allt og nötraði við komu hans. Aiska leitaðist við að leyna hræðslu sinni, hljóp til móts við hann og faðmaði hann með blíðu, bar hún sig aumlega útaf því, að hún hefði orðið að sakna návistar hans svo lengi. En það var nú engum kunnugra um það enn andanum, að Chansad var þar í höllinni; sagði hann því við konu sína: „Hvernig getur þú látið þjer til hugar koma, að eg vilji granda bróður þínum, sem var svo veglyndur, að hann unni mjer ráðahags við þig, þótt hann ekkert þekkti til mín og vissi ekki betur enn að eg væri mennskur maður af lágum stigum? En vertu nú ekki að þessum ólíkindalátum; veittu mjer þá ánægju að sjá hann. Eg veit hvar hann er, en eg

vil að þú fylgir mjer á fund hans.“ Aiska hafði nú reyndar enga sjerlega trú á fagurmælum þessum, en hitt sá hún, að til einskis var að leyna sannleikanum og leiddi hún því mann sinn að fylgsni Chansads. Faðmaði Abútavíl hann með blíðu og fór með hann inn í herbergi konu sinnar, ljet hann færa honum þangað mat og drykk og sýndi honum svo mikla alúð og vinsemd, að honum varð með öllu óskiljanlegt, að systir sín skyldi geta verið svo hugsjúk og kvíðafull. Liðu svo þrír dagar, að ekki gekk á öðru enn veizlum og skemmtunum og var sem andinn gerði allt til þess að votta konunginum ást sína og vinsemd. En er að þeim tíma kom, að Abútavíl skyldi leggjast út í eyðimörkinni, þá bað hann Chansad að dvelja ennþá nokkurn tíma hjá systur sinni, og kvað svo að orði: „Verið hjer nú kyrr og ráðið öllu einsog yður bezt líkar í höllinni. En það er satt, eg verð að sýna yður lystigarða mína áður enn eg legg á stað.“ Chansad rjetti honum hönd sína í þakklætis skyni og gengu þeir báðir út úr höllinni. Aiska beið þess að bróðir sinn kæmi aptur, en hann var ekki kominn að morgni hins næsta dags, og þóktist hún ganga að því vísu, að maður sinn hefði drepið hann með svikum. Reif hún þá sundur klæði sín og gerðist svo sturluð, að hún kenndi sjer einni um alla þá óhamingju, sem komið hafði yfir ætt hennar.

Nú er þar til máls að taka, að drottningin, móðir Chansads og Aisku lifir við mikinn harm og hugarkvíða, er hún ekkert frjettir til þeirra systkina; lá hún er þetta gerðist fyrir dauðanum. Sendi hún því eptir Múrad yngra syni sínum; hann var þá sextán vetra gamall; faðmaði hún hann grátandi og sagði honum sögu ættar hans. Bað hún hann að geyma þá sögu vandlega í hjarta sínu, og reyna að verða forfeðrum sínum líkur. Því næst stefndi hún stórvezírnum og helztu gæðingum ríkisins til fundar í hallarsal þeim, er í var konungs hásætið; þangað ljet og drottning bera sig dauðvona. Og er þeir allir stóðu umhverfis hvílu hennar, þá minnti hún þá á velgjörðir þær, er þeir höfðu þegið af henni og ætt hennar, og skoraði á þá, að vinna Múrad syni sínum hollustueiða, því hann væri nú hinn síðasti, er eptir lifði af þeim ættstofni. Tók vezírinn Múrad við hönd sjer, leiddi hann í hásæti og krýndi hann. Andaðist drottning tveimur dögum síðar. Sá það fljótt á, að hinn nýji

konungur var hverjum manni framar að viturleik og stillingu. En með því hann fann, að hann skorti reynslu þá, er til stjórnar starfa útheimtist, þá trúði hann stórvezírnum fyrir þeim, og varði öllum tíma sínum til að nema vísindi þau og íþróttir, sem konungum hlýðir að kunna. Hinn fyrsti kennari hans var gamall geldingur, sem víða hafði farið um lönd. Sagði hann konungi einatt frá siðum þeirra þjóða, er hann hafði haft kynni af, og lýsti fyrir honum því, er hann hafði merkast sjeð á ferðum sínum. Fór þá að vakna ferðalöngun hjá Múrad, og með því honum líka var hugur á að vita, hvað orðið væri af systkinum sínum, þá rjeði hann af að takast ferð á hendur til að leita þau upp. Býr hann sig nú til ferða og tekur með sjer pyngju fulla af peningum og fjölda demanta. Ætlaði hann að kaupa varning fyrir fje þetta í næstu hafnborg, leigja sjer skip til flutnings og sigla svo til Indíalands. Hafnborgin var eigi lengra enn tvær dagleiðir frá konungsaðsetunni, og er Múrad kom þangað, þá var þar skip eitt fyrir, sem ætlaði til eyjarinnar Serendyb, en af því landi hafði geldingurinn sagt honum margt og mikið. Samdi hann því við skipstjórnarmann um far og flutning til Serendyb. Gaf þeim vel byri í samfleytta sextán daga og ljek allt í lyndi, en að aptni hins seytjánda dags gerði að þeim ofviðri og hjelzt það í marga daga. Og er veðrinu slotaði, þá var skipið orðið svo laskað, að þeir komust aðeins með naumindum til eyjar einnar ókunnugrar, sem þá hafði borið í nánd við. Eyjan var hin fegursta og skein öll í blómum, er sendu frá sjer hinn sætasta ilm; voru þar trje með fullþroskuðum aldinum, veiðidýr nóg og skærar uppsprettulindir.

Það var einhvern dag að Múrad fór á dýraveiðar og villtist; ráfaði hann í nokkra daga villur vegar þangaðtil hann fann aptur lendinguna. En á meðan hafði runnið á hagstæður byr; höfðu þá fjelagar Múrads sætt lagi og siglt á burt, en ekki tekið eptir, að hann vantaði. Má nú nærri geta, hversu hann varð örvæntingarfullur, er hann var aleinn eptir á ókunnri eyðiey. En samt ljet hann ekki með öllu hugfallast, heldur byggði hann sjer kofakorn og lifði við pálmahnetur, fíkjur og önnur aldin, sem hann át með dýrakjötinu; hafði hann svo nóga fæðu og ljúffenga. Leið svo eitt misseri og vildi þá svo til einhverju sinni, að Múrad hafði gengi

æði langt frá kofa sínum, og hitti hann fyrir sjer svarta marmara hellu, sem var höggin til einsog legsteinn; var hún þakin þykkri gullplötu að ofan og festur við demantshringur. En með steininum utanverðum var höggið ebreskt letur, og fjekk Múrad eigi lesið úr því. Nú gerðist hann forvitinn og hugði sjer að taka á öllu afli sínu til að velta hellunni; en þess þurfti ekki, því óðara enn hann snerti við hringnum, þá velti hellan sjer sjálfkrafa. Og í sama vetfangi laust þar upp hvínandi vindbyl, svo Múrad skall flatur til jarðar, en rjett á eptir gaus upp hræðilegum eldsloga, svo að nema þókti við himin. En loginn þreyngdist fljótt saman og varð að ógurlegum risa; var hann svo óttalegur, að enda hinum hugdjarfasta manni mundi hafa skotið skelk í bringu. „Vertu hughraustur," mælti risinn við Múrad, „þú hefur frelsað mig og er skylt að eg launi þjer fyrir. Eg er einn af öndum þeim, sem gerðir voru útlægir af himni og flæmdir niður á jarðríki; hafði Seth innibyrgt mig í gryfju þessari, og mælt það um, að eg skyldi sitja fastur í henni, þangað til einhver mennskur maður leysti mig úr álögum." Fór nú hræðslan af Múrad og spurði hann risann, hvað orðið væri af bróður sínum og systur. Risinn sagði honum, að þau væru í höll andans Abútavíls. Og er Múrad heyrði það, þá krafðist hann þeirra launa af andanum, að hann kenndi sjer ráð til að frelsa þau. Þá mælti risinn: „Eg skal flytja þig til þeirra, og jafnskjótt sem þú ert þangað kominn, þá skal eg fá þjer verndargrip nokkurn. Með honum muntu fá lokið upp leyniklefa Abútavíls, og í honum muntu finna öskjur með töfradupti, sem Salómon hefur til búið. Skaltu stinga á þig öskjunum, og þegar andinn vitrast þjer, þá fleygðu duptinu framan í hann og mæltu þessum orðum: „Niður, þú hinn armi! svo vill Salómon vera láta!" Mun þá andinn skelfast og falla til jarðar. Þá skaltu sæta lagi og ganga að honum óskelfdur; skaltu taka úr barmi hans fugl einn. Við þann fugl eru forlög Abútavíls riðin og náirðu honum, þá geturðu þröngvað honum til að gera, hvað sem vera skal."

Múrad þakkaði nú risanum, en rjett sem hann hafði sleppt seinasta orðinu, þá fann hann hristing mikinn og vissi ekki fyrri til enn hann var kominn í demants höll eina. Gaf honum að skilja, að þar mundi vera bústaður Abútavíls, og fór hann þegar

að leita að herbergi systur sinnar. Hittist þá svo á, að hún ætlaði ofan í lystigarð sinn og brá henni undarlega við, er hún sá ókunnugan mann í húsum sínum. Múrad þekkti undireins systur sína, en þókti óráðlegt að segja strax, hver hann væri; vildi hann heldur bíða þess að hún yrpi á sig orði. Heilsaði Aiska honum og spurði, hvernig hann hefði komizt í höllina. Þá mælti Múrad: „Göfuga frú! eg er konungssonur, og var eg barn að aldri, er faðir minn var með svikum veginn af vezír sínum. Komst eg með naumindum undan ofsóknum vezírsins, og var eg nú lengi á flækingi, þangaðtil eg tók mjer fari og stje á skipsfjöl. Braut skipið í spón og týndust allir, sem á voru, nema mjer einum varð lífs auðið og komst eg upp á strönd þessa. Og er eg sá höll yðar langt í burtu, þá hjelt eg, að eg mundi komast til hennar á tveimur stundum. En ekki varð mjer að því, heldur var eg í þrjá daga á leiðinni hingað. En þegar til kom, þá fann eg engar dyr á höllinni, og þókti mjer það illt, er eg hafði gengið svo langan veg til að leita mjer hjálpar. Sá eg þá Rokfugl yðar sofanda skammt frá mjer, og með því eg vissi að slíkir fuglar fylgja hverri töfrahöll, þá rjeðist eg í að binda mig við annan fót hans. Og jafnskjótt sem hann vaknaði, þá flaug hann með mig hingað.“ Dáðist Aiska að hyggni og hugrekki komumanns, en er hún hugsaði til þess, að hann mundi eigi til lengdar geta leynzt fyrir manni hennar, þá stundi hún við og mælti: „Þjer hafið leitað hælis í híbýlum hins versta meinvættar; flýjið því sem fljótast. Hans er von á hverri stundinni, og allt hvað þjer eruð hraustur og hugprúður, þá þurfið þjer ekki að hugsa til að reisa rönd við honum.“ Því næst sagði hún honum af ýmsum grimmdarverkum andans, og það meðal annars, hversu hann hefði svikið bróður hennar í tryggðum. Kom þá upp fyrir henni grátur, en Múrad tók þannig til máls: „Verið hughraustar og óhræddar um mig; ekki skal eg flýja eða hlaupa í felur. Mun eg þora að sjá framan í óvættinn, og er eg vongóður um, að eg muni geta frelsað yður, en fyrirkomið honum. En tíminn er naumur, og bið eg yður nú svo vel gera að fylgja mjer inn í herbergi bónda yðvars.“ Og er Aiska fjekk ekki talið honum hughvarf, þá ljet hún að orðum hans. Veitti Múrad hægt að ljúka upp

dyrunum, er hann hafði verndargripinn, og fann hann þegar öskjurnar og stakk þeim á sig.

Nú kemur Abútavíl heim og veit hann þegar, að Aiska er inni í leyniklefa hans með Múrad bróður sínum. Vissu þau eigi fyrri til enn hann stóð frammi fyrir þeim í risa líki og var þá afskræmislega ljótur ásýndum. En Múrad var hvergi hræddur, heldur fleygði hann duptinu framan í hann og hrópaði: „Niður, þú hinn armi! svo vill Salómon vera láta.“ Steyptist þá andinn til jarðar, en Múrad fleygði sjer ofan á hann og tók af honum fuglinn, sem hann bar innst í barmi sínum. „Þú veizt hver eg er,“ mælti Múrad, „seg mjer nú, hvað þú hefur gert við bróður minn.“ „Hann er dauður,“ svaraði andinn. „Því lýgur þú,“ segir Múrad, „eg veit að þú hefur brugðið honum í annan ham, og það skaltu vita, að ef þú ekki framselur hann strax í stað, þá drep eg fuglinn þinn.“ Sá nú Abútavíl, að ekki tjáði að þræta lengur, og bað Aisku konu sína að fara ofan í garðinn, og færa sjer hundinn, sem fjötraður væri við gosbrunninn. Nú þótt Aiska væri hálfdauð af angist, þá dróst hún samt ofan og sókti hundinn. Sagði þá Abútavíl við hana: „Taktu glerkringlu litla og ríddu á hana smyrslum úr gullbauknum þarna;“ og benti hann henni um leið á baukinn, „haltu svo glerinu fyrir augun á hundinum.“ Aiska gerði svo, en Abútavíl bljes á hundinn og mælti: „Hafi allsvaldandi drottinn skapað þig einsog þú nú ert, þá vertu óbreyttur sem þú ert; en sjertu fyrir krapt særinga minna kominn í ham þenna, þá býð eg að þú verðir aptur að mennskum manni.“ Óðara enn andinn hafði mælt orð þessi, breyttist Chansad í hina fyrri mynd sína; kannaðist hann undireins við systkini sín og faðmaði þau að sjer með innilegri blíðu.

Múrad þurfti nú ekki að heimta meira af andanum, en hitt var honum mest í mun, að reka á honum harma sín og sinna; bríxlaði hann honum harðlega fyrir illvirki sín og drap síðan fuglinn. Í sama bili heyrðust ógurlegir brestir og brak; höllin hvarf og líkami risans leystist sundur og varð að þykkum og þefillum reykjarstólpa. En reykjarstólpinn varð brátt að sættilmanda skýji og úr því myndaðist ungur maður, afbragðs fagur. Fjellu þau systkin hreint í stafi og undruðust fegurð hins unga manns, en hann mælti þá til þeirra þessum orðum: „Nú þurfið þið ekki

lengur að hræðast andann Abútavíl. Því nafni nefndist eg í morgun, en nú er mjer horfin öll ástríða til illra verka, og skal eg leggja hið fremsta kapp á að launa góðverk ykkar mjer til handa með hverjum þeim velgjörðum, sem eg get í tje látið, og þó hvað helzt með fölskvalausri ást á Aisku systur ykkar, því hún er góð kona og elskuverð." Varð nú Aiska frá sjer numin af fögnuði, er hún heyrði, að ungi maðurinn aðkomni var Múrad bróðir hennar, og faðmaði hún hann að sjer með feginstárum. En andinn mælti ennfremur: „Nafn mitt er Habib, og var eg einn af öndum þeim, er Salómon konungur drottnaði yfir; sýndi hann það í öllu, að hann hafði sjerlegt traust á mjer. Nú hafði einn af bræðrum mínum reitt hann til reiði og fól hann mjer á hendur að refsa honum; gerði hann það til að reyna trúleika minn. En mjer þókti refsingin allt of hörð, því bróðir minn hafði lítið af gert; reyndi eg því að fara í kringum Salómon konung og ljet í veðri vaka, að eg hefði framkvæmt skipun hans. Þá mælti hann: „Þú lýgur að mjer, þinn vanþakkláti þræll! og skaltu hitta sjálfan þig fyrir." Síðan mælti hann fram orð nokkur og fann eg á mjer einhverja kynlega breytingu. „Hjeðanaf," mælti Salómon „skaltu vera til kvalræðis fyrir alla á jarðríki, sem nærri þjer koma. Þú skalt unna konu einni hugástum og þó kvelja hana án afláts. Þú skalt vinna mönnum mein á móti vilja þínum, og bíða refsingu fyrir af átölum illrar samvizku. Tak nú við fugli þessum; það er lífsfugl þinn, og við hann eru forlög þín bundin. Þegar hann er dauður, þá fyrst muntu aptur komast í þitt fyrra ástand, en samt muntu gera allt sem í þínu valdi stendur til að lengja líf hans." Hafa ummæli þessi þunglega á mjer ræzt, og fæ eg ei með orðum lýst, hve sárt eg kvaldist í hvert sinn, er eg var búinn að fremja illskuverk mín. En loksins dreymdi mig andann, sem hafði dæmt mig, og talaði hann þessum orðum til mín: „Nú er hörmunga tími þinn bráðum á enda, og má eg nokkuð stuðla til þess að hann styttist. Þú skalt fara í dularbúningi til konungsins í Kochinchina og biðja dóttur hans, sem er allra kvenna fríðust; hef eg búið svo í haginn fyrir þig, að þjer mun ekki verða frá vísað. Mun ráðahagur þessi verða tilefni til þess, að þú leysist úr álögunum." Nú gat eg ekki beðið kóngsdóttur fyr enn að föður hennar önduðum; en það vildi

til hamingju, að hann hafði á deyjanda degi boðið eldra syni sínum að víkjast vel undir bónorð mitt. Og nú hafið þið heyrt sögu mína og vitið hvernig á þrautum ykkar stendur. Vona eg að mjer auðnist að veita ykkur ríkuglegar bætur fyrir það, sem þið hafið þolað mín vegna."

Nú urðu þau systkin óumræðilega fegin og sögðu andanum, að sjer væri það fullkomin harmabót, að eiga hann fyrir vin og verndara. Þá ljet Habib anda sína samstundis reisa skrautlegt landtjald. Í tjaldinu stóð borð eitt hlaðið hinum dýrustu rjettum, og settust þau nú öll til snæðings og sögðu hvert öðru frá æfintýrum sínum. Og er Múrad sagði þeim andlát drottningarinnar móður þeirra, þá úthelltu þau beiskum tárum, og nöguðu sig í handarbökin, að þau skyldu hafa flýtt fyrir dauða hennar með fjærveru sinni. Beiddu þau nú andann að segja sjer, hvað gerzt hefði í löndum þeirra frá því Múrad fór að heiman. Þá mælti Habib: „Einn af grannkonungumykkar hefur brotið lönd ykkar undir sig með herskildi. En verið samt óhrædd, því landsbúarnir hafa haldið við ykkur trúnaði sínum og mun hægðarleikur að æsa þá til uppreisnar. Í nótt skal eg flytja ykkur heim í ríki ykkar og getum við þá ráðgast um hvað gera skuli." Nú skemmtu þau sjer það sem eptir var dagsins, og sem tekið var að nátta, þá lögðust þau til svefns, því þau voru næsta þreytt og þurftu hvíldar við. En er þau vöknuðu morguninn eptir, þá sáu þau að þau voru örskammt frá aðsetursborg sinni; og þó þau mættu muna, hverju andinn hafði lofað, þá þókti þeim það engu að síður furðu gegna. Leituðu þau húsaskjóls á kotbæ nokkrum, og fóru þar inn; var bóndi dapur í bragði og spurði Chansad, því svo illa lægi á honum. „Þjer eruð víst langt að kominn," mælti bóndinn; „eða vitið þjer ekki, að einhver hinn versti ribbaldi og níðingur hefur svælt undir sig ríki þetta? Áður ríktu hjer synir konungsins sæla og voru þeir honum líkir að vizku og manngæzku, en þeir hurfu báðir með kynlegum hætti og veit enginn hvað af þeim er orðið." Þókti þeim bræðrum vænt um, er þeir heyrðu að mönnum var svo mikill söknuður að þeim. Fóru þeir nú að leggja niður ráðin sín í milli, hvernig þeir ættu að vinna aptur lönd sín og brjóta harðstjórann á bak aptur, en í sama bili sáu þeir á bæjarhlaðinu fjóra reið-

skjóta fríða og rennilega. Var andi nokkur kominn með þá og gekk hann inn í bæinn, og afhenti Chansad konungsskrúðann. Þá mælti Habib til Chansads: „Furðið yður ekki á þessu, því andinn þarna gerir ekki annað enn það sem eg skipa honum. Nú mun bráðum annar andi koma með óvin yðar fjötraðan, en landslýðurinn, sem eg hef æst til upphlaups, mun stökkva öllu liði hans á flótta. Búist því nú til að halda innreið yðar í konungshöllina.“ Báðir konungarnir og Aiska systir þeirra bjuggust nú skrúðklæðum þeim, er andarnir fengu þeim; riðu þau svo öll til borgarinnar. En er tilkoma þeirra spurðist, þá fór allur lýðurinn til móts við þau, og vegsamaði drottinn fyrir það, að hann hafði frelsað báða hina rjettbornu konunga og leiðt þá heila á húfi heim til ríkja sinna.

# Frá 906 til 908 nætur.

## Víxlarinn og þjófurinn.

Einusinni gekk víxlari nokkur heim til sín með troðfullan gullsjóð. Sáu þjófar nokkrir til hans, og sagði þá einn þeirra, og hældist um við hina, að hann treysti sjer til að stela gullinu frá víxlaranum. „Hvernig ætlarðu að fara að því?“ spurðu hinir. „Það skal eg fljótt sýna ykkur,“ ansaði hann. Veitti hann þá víxlaranum eptirför þangaðtil hann kom til húsa sinna; gekk víxlarinn inn og lagði gullsjóðinn á steinborð. Síðan skipaði hann ambátt sinni að koma með vatn, og sagðist ætla að þvo sjer. Tók hún þá vatnsfötu og gekk út, en varð það á, að hún skildi dyrnar eptir uppi á gátt, og veitti þjófnum því hægt að læðast inn. Húsbóndinn var farinn inní afhús nokkurt og þangað færði ambáttin honum vatnið, en meðan hann var að þvo sjer, stal þjófurinn gullsjóðnum og fór aptur til fjelaga sinna. En er hann hafði sagt þeim allar aðfarir sínar, þá luku þeir lofsorði á fimleik hans og kænsku. En eitt þókti þeim samt að vera; þeir sögðu, að nú mundi víxlarinn lemja á ambáttinni þegar hann saknaði gullsins og veita henni þunga refsingu; mætti hann því til með að koma í veg fyrir þetta, ef hann ætti að bera þjófs nafnið með rentu. Svaraði þjófurinn þá kumpánum sínum: „Sje það drottins vilji, þá skal eg spara-

ambáttinni refsinguna en sjálfum mjer gullið.“ Fór hann nú aptur heim til víxlarans og var hann tekinn til að lumbra á ambáttinni. þjófurinn barði á dyr, og spurði víxlarinn hver þar væri kominn, en þjófurinn svaraði: „það er búðardrengurinn hjá honum nábúa þínum.“ Gekk þá víxlarinn til dyra og spurði, hvað honum væri á höndum. þá mælti þjófurinn: „Hann húsbóndi minn biður að heilsa þjer, og á eg að bera þjer þau orð hans, að hann segist ekki þekkja þig fyrir sama mann. Eða er það nokkru líkt, að þú fleygir niður gullsjóð hjá búðarþröskuldinum og tekur hann ekki upp aptur, heldur lætur hann liggja þar á almannafæri? Hefði ókunnugur maður fundið sjóðinn, þá mundi hann sjálfsagt hafa eignað sjer hann. En það vildi til allrar guðs lukku, að hann húsbóndi minn tók hann upp og varðveitti hann, annars hefðirðu aldrei sjeð neitt af honum framar.“ Sýndi hann þá víxlaranum sjóðinn, en hann kannaðist við hann og sagði: „Já, þarna er hann kominn.“ Seildist hann þá eptir honum með hendinni, en þjófurinn mælti: „Nei! nei! blessaður, eg afhendi þjer hann ekki fyr enn þú fær mjer skýrteini, því annars trúir húsbóndinn mjer ekki, að eg hafi fengið þjer gullið með skilum.“ Víxlarinn fór nú inní stofu sína til að skrifa skýrteinið, en á meðan hljóp þjófurinn burt með gullsjóðinn og hafði hann nú forðað ambáttinni frá allri hegningu.

# Fár 909 til 927 nætur.

## Tveir menn um eina kona.

Svo er frá sagt, að þegar einn af fornkonungum Egyptaþjóðar sat að völdum, þá hafi þar í landi verið einhver hin slóttugasta og brögðóttasta kona, sem menn hafa sögur af. Eg get sagt yður eitt til merkis, hvað hún var slungin. Hún kom sjer svo vel á laggirnar, að hún hafði tvo bændur, og smánaði þannig lögmál spámannsins, sem veitir hverjum rjetttrúuðum manni heimild til að hafa þrjár eiginkonur. Og svo fór hún kænlega að ráði sínu, að hvorugur maðurinn vissi af öðrum.

það hjálpaði nú reyndar mikið til, að atvinnuvegum beggja þessara manna var þannig háttað, að annar þeirra var heima á

daginn, en úti um nætur, þar sem hinn var allajafna úti um daga, og kom aldrei heim fyr enn farið var að nátta. Hinn fyrnefndi hjet Haram; hann var stigamaður og ráfaði úti um nætur til að ræna vegfarendur, en hinn síðarnefndi hjet Akil og var sjónhverfingamaður. Svona ljek konan á báða menn sína mánuðum saman og urðu þeir einskis varir. Þá bar svo til einusinni, að ræninginn segir við hana, að hann verði að skilja við hana um nokkurn tíma. Bar hún sig þá aumlega og sagði að þetta kæmi sjer óvænt; ljet hún samt allt til reiðu, er hann þurfti til ferðarinnar. Tók hún meðal annars sauðarlæri kalt, skar það í tvo hluti og fjekk honum annan helfinginn. Kvaddi ræninginn því næst konu sína og fór ofan eptir bökkum Nílfljótsins. Góðri stundu eptir að hann var farinn, kom sjónhverfingamaðurinn Akil og kvaðst hann einnig ætla burt úr Kairó; bað hann konuna að fá sjer dálítið nesti til ferðarinnar. Þakkaði hún guði fyrir í hjarta sínu, að fundum bænda hennar hafði ekki borið saman. Tjáði hún Akil hryggð sína útaf burtför hans og fjekk honum þann helfinginn af sauðarlærinu, sem eptir var.

Akil fór nú sömu leið og Haram ofan eptir bökkum Nílfljótsins og kom um kvöldið að einu fögru gesthúsi. Tók hann sjer þar náttból, og hitti ekki fyrir nema einn gest. Yrti Akil á hann og mælti: „Mikið sýnist mjer þú vera ferðlúinn, kunningi!“ „Og er ekki kyn,“ sagði hinn, „eg er kominn frá Kairó, og fór eg þaðan alla leið í dag.“ „Eg kem líka frá Kairó,“ mælti Akil, „og ef þú ætlar lengra að halda, þá getum við orðið samferða. Mjer hafði líka gleymzt að hlýða boðorði spámannsins, er hann segir: „Þú skalt eigi byrja ferð þína fyr enn þú hefur fengið góðan samferðamann.“ Nú ef þú vilt borða mjer til samlætis, þá get eg boðið þjer stykki af sauðarlæri með hvítlauki og nokkrum pálmahnotum.“ Þáði hinn ókunni maður boð hans, en vildi líka leggja sinn skerf til máltíðarinnar. Tóku þeir nú upp vistir sínar hver um sig, og sem þeir höfðu lagt niður á ábreiðuna það sem þeir höfðu matarkyns, þá þókti þeim kynlegt, að báðir lærhelfingarnir fjellu hnitjafnt saman. „Seg mjer, kunningi!“ mælti Akil, „hvar hefurðu fengið lærstykkið að tarna?“ „Konan mín fjekk mjer það áður enn eg lagði á stað,“ ansaði Haram, því það var hann, sem Akil hafði

hitt fyrir; „en seg mjer, hvaðan er lærhelfingurinn, sem þú komst með?“ „Eg hef líka fengið hann hjá konu minni,“ svaraði Akil; „en hvar býr þú í borginni?“ „Eg bý við Sigurhliðið,“ mælti Haram. „Þar bý eg líka,“ sagði Akil. Jókst nú orð af orði og komust þeir báðir í einu til þeirrar niðurstöðu, að þeir höfðu verið eiginmenn sömu konunnar mánuðum saman. Lá í fyrstunni við, að úr þessu yrði áflog og illindi milli þeirra, en þeir sáu sig um hönd og urðu ásáttir um, að bezt væri að hverfa heim aptur og rannsaka, hvernig á þessu stæði. Og nú fóru þeir Akil og Haram til Kairó og komu skjótt til sinna sameginlegu híbýla. Þegar konan sá þá báða koma í einu, þá skildi hún undireins, að allt mundi vera komið upp um sig, og sá því ekki annað sýnna enn að gangast við sannleikanum. Fleygði hún sjer þá fram fyrir fætur þeirra, játaði ávirðingu sína og beiddist miskunnar. Nú höfðu báðir bændur hennar unnað henni hugástum, og var elska þeirra eigi kólnuð þrátt fyrir þessa ótryggð hennar. Ljetu þeir sjer nægja að veita henni harðar átölur fyrir háttalag hennar, og með því óhæfa var, að þeir tvímenntu í hjúskapnum eptirleiðis, þá sögðu þeir að hún yrði að kjósa annanhvern þeirra til eiginmanns og búa svo saman við hann einan. En til þess var hún ófáanleg og vildi með engu móti taka einn fram yfir annan. En þó sagði hún að endingu: „Gott og vel! fyrst eg endilega verð að kjósa milli ykkar, og veit þó enga ástæðu til að taka einn fram yfir annan, þá vil eg bera nokkuð undir ykkur. Þið hafið báðir atvinnu af fimleik ykkar og atgjörfi, og því skal eg halda þeim ykkar sem eiginmanni, er mesta sýnir snildina.“ Fjellust þeir nú báðir á uppástungu konunnar og bjuggust til að þreyta kappleik þenna. Skyldi Akil reyna sig fyrst og fór hann með Haram á eitthvert fjölsóktasta kauptorgið í Kairó; benti hann honum á gamlan, ráðsettan Gyðing, sem gekk á torginu og fór mjög gætilega. „Sjerðu Gyðinginn þarna?“ segir Akil við Haram; „eg skal hafa af honum pyngjuna hans, áður enn hann verður kominn að hinum endanum á torginu.“ Að svo mæltu laumaðist hann að honum og stal af honum pyngjunni. Var pyngjan allstór og samfagnaði Haram fjelaga sínum fyrir snildarbragð þetta. Þá mælti Akil: „Mjer kemur ekki til hugar að eigna mjer fje þetta, því eg gæti orðið dæmdur

til að skila því aptur. Nei, eg skal koma ár minni svo fyrir borð, að dómarinn sjálfur skal afhenda mjer pyngju Gyðingsins.“ Gekk hann síðan afsíðis og taldi peningana, tók tíu sekkínur úr pyngjunni og ljet í hana fingurgull sitt í staðinn; batt hann svo vandlega fyrir opið á pyngjunni. Fer hann nú aptur og laumar pyngjunni á Gyðinginn, svo hann verður einskis áskynja heldur enn í fyrra skiptið. En sem Gyðingurinn var kominn fáein spor frá honum, þá grenjaði hann hástöfum: „Ertu svo ósvífinn, bannsettur Júðinn! að þú vogar að koma fyrir manna sjónir eptir að þú hefur stolið frá mjer svo hroðalega?“ Gyðingurinn vissi ekki hvaðan á sig stóð veðrið og sór við Abraham, Ísak og Jakob, að enginn fótur væri fyrir sakargipt hans; kvað hann sjer aldrei hafa komið í hug nje hjarta, að snerta á neinu sem hann ætti. En Akil hjelt áfram og mælti: „Þú þrætir þá fyrir, ærulaus þjófurinn! þú gerir þig auðmjúkan og heldur svo að þú getir komist undan hegningu, en þjer skal ekki verða kápan úr því klæðinu. Komdu nú strax til dómarans.“ Þar með þreif hann til Gyðingsins og dró hann hálfdauðan af hræðslu fyrir dómarann. Tók Akil svo til orða: „Herra dómari! hjer er eg kominn til yðar með þjóf, og þori eg að fullyrða, að bíræfnari bófi hefur aldrei undir yðar hendur komið. Gyðingur þessi hefur stolið frá mjer miklu fje, og sem aðeins fáar stundir eru liðnar frá því hann framdi stuldinn, þá fer hann að reygsa á miðju torginu, rjett einsog enginn blettur væri á æru hans.“ Veslings Gyðingurinn sór og sárt við lagði, að hann hefði aldrei aðhafzt neitt það, er hann ætti refsingu skilið fyrir, og aldrei sjeð mann þenna, er nú hefði hann fyrir svo rangri sök; hann tæki sig víst fyrir annan mann, eða hann væri ekki með öllum mjalla.

„Heyr á endemi!“ sagði Akil, „enn að hundvís Júðinn skuli dirfast að smána rjetttrúað fólk! Herra dómari! látið yður ekki blekkja af þessum heiðna hundi; hann þrætir eins blygðunarlaust og indverski kaupmaðurinn, þegar hann ætlaði að halda fjenu, sem honum hafði verið falið til geymslu. En þjer munuð nú ónýta undanbrögð Gyðingsins þarna, einsog dómarinn á Indlandi ljet hrekki kaupmannsins til skammar verða.“ „Og hvernig fór embættisbróðir minn að því?“ spurði dómarinn. Tók þá Akil þannig til frásagna.

# Sagan af Abdallah.

Í einhverri hinni stærstu verzlunarborg á Indlandi var einusinni maður nokkur, Abdallah að nafni, sem nafntogaður var fyrir guðhræðslu sína og ráðvendni. Þessi helgi maður var dögum saman í musterum, og þegar fastað var í Ramadhan, þá bætti hann ávallt ofan á föstuhald sitt með allskonar meinlætum, sem hann lagði á sig. Aldrei á æfi sinni hafði hann dreypt vörunum í hinn áfenga vökva, sem Dschemsyd Persakonungur bjó til fyrstur manna, en spámaðurinn bannaði mönnum að bergja á. Með þessari hegðun ávann hann sjer traust og virðingu allra manna, og fór svo mikið orð af siðvendni hans og vandlæti að það varð að máltæki. Var ætíð til hans jafnað, ef einhver þókti tiltakanlega guðhræddur eða magur, og sögðu menn þá, að hann væri eins guðhræddur eða eins magur og hann Abdallah í Ramadhan.

Skammt frá húsi Abdallah bjó einhver hinn ríkasti kaupmaður þar í borginni, og bar hann djúpa lotningu fyrir nábúa sínum sakir guðhræðslu hans. Nú bar svo til einusinni að kaupmaður þessi varð að takast ferð á hendur og bjóst við að verða eitt misseri í burtu. Átti hann mikinn auð í gulli og hafði ásett sjer að grafa það í jörð niður, áður enn hann færi burt. En með því honum kom til hugar, að einhver kynni að finna gullið af tilviljun, þá sleppti hann áformi þessu og þókti ráðlegra að koma gullinu til geymslu hjá einhverjum ráðvöndum manni, sem ekki ætti mikið í hættu. Leizt honum enginn betur til þess fallinn enn Abdallah, og fór því til hans með fje sitt. Sókti hann svo að honum, að hann lá á gólfi og horfði í áttina til Mekka; las hann hárri röddu kapítula einn úr kóraninum sem hann kunni utanbókar.

„Nábúi góður!“ mælti kaupmaður, „fyrirgef mjer, að eg tipa fyrir þjer í guðræknisiðkunum þínum, en eg varð að flýja á þínar náðir, því mjer er vandamál á höndum.“ „Friður sje með þjer!“ ansaði Abdallah, „hvaða vandamál er það?“ Þá mælti kaupmaður: „Eg á ferð fyrir höndum, nábúi góður! og mun eg verða nokkurn tíma burtu; en eg á talsvert fje, sem eg hef dregið saman með sparnaði og vildi eg koma því til geymslu á óhultan stað. Nú kom mjer til hugar, hvort þú vildir ekki takast á hendur

að varðveita það í fjærveru minni; mun eg kunna þjer mikla þökk fyrir, ef þú auðsýnir mjer þenna greiða.“

Abdallah var þess allfús og treysti kaupmaður ráðvendni hans betur enn svo, að hann færi að heimta af honum skýrteini. Biður hann Abdallah að skilnaði að árna sjer góðs með guðlegum bænum, en hann óskaði kaupmanni allrar hamingju og farsældar. Var nú kaupmanni ljettara um hjarta og stje hann glaður á skipfjöl. Varð hann vel reiðfara og aflauk erindum sínum fljótt og farsællega, og kom hann heim aptur fyr enn misseri væri liðið. Nú varð honum það fyrst fyrir, að hann fór að finna Abdallah nábúa sinn. Tók hann kaupmanni vel og samfagnaði honum, er hann var heill heim kominn, en ekki minntist hann einu orði á fjeð, sem honum var falið til varðveizlu. Nú er þeir höfðu ræðzt við æði lengi, þá neyddist kaupmaðurinn til að biðja Abdallah, að skila sjer aptur gullinu, sem hann hafði tekizt á hendur að geyma.

„Guð hjálpi þjer, bróðir!“ hrópaði Abdallah, „hvaðan er þjer kominn sá hugarburður, að þú hafir beðið mig fyrir nokkuð? Þig hefur víst dreymt það; einsog gull hafi nokkurn tíma komið í hendur fátæklingsins hans Abdallah. Nei, eg hefði ekki viljað vinna það til fyrir líf mitt að taka fje þitt í ábyrgð mína.“ Kaupmaður hjelt fyrst að nábúi sinn hefði brugðið á glens, en er hann sá að honum var full alvara, þá gat hann ekki dulið reiði sína og mælti: „Manstu það ekki, þorparinn þinn! að eg afhenti þjer troðfullan gullsjóð fyrir sex mánuðum síðan?“ „Er djöfullinn kominn í þig, nábúi?“ svaraði Abdallah, „eg segi þjer það ennþá fyrir satt, að þú hefur ekkert fengið mjer; rankaðu við þjer, maður guðs og lifandi, og vertu ekki að drótta að mjer þesskáttar verkum, sem hvert mannsbarn veit, að eru mjer eins fjærstæð og austrið er vestrinu.“

Kaupmaður reyndi nú bæði að fara bónarveg að Abdallah og heitast við hann, en hvorugt hafði neitt upp á sig. Hann varð að fara tómhentur burt, en bölfaði þó og ragnaði þrælnum að skilnaði, einsog andinn inngaf honum. Því næst fór hann til dómarans og sagði honum hreinskilnislega frá málavöxtum. Nú þegar dómarinn — hann var spekingur að viti, herra góður! einsog þjer og hverjum manni ráðkænni, — þegar hann hafði með athygli

hlýðt á sögu kaupmannsins, þá tók hann þannig til máls: „Með því þjer hafið fengið hræsnara þessum gullið vottalaust, þá mundi það koma fyrir ekki, þó hann yrði leiddur fyrir dómstól minn. Hann mundi þræta fyrir og gæti eg þá með engu móti dæmt hann sekan að lögum. það verður að beita við hann brögðum, og hugkvæmist mjer ráð eitt, er eg hygg að muni heppnast. Farið nú heim og látið yður hægt, en þegar komið er að bænatíma, þá hótið honum aptur, að þjer skulið ákæra hann fyrir dómstól mínum. þjer megið óhræddur reiða yður upp á það, að hann verður minnugri í kvöld enn hann var í morgun.“

Kaupmaður þakkaði nú dómaranum fyrir góðvild sína og gekk á burt. Skrýddist dómarinn samstundis einkunnarbúningi sínum og flýtti sjer á fund Abdallah. Tók Abdallah honum með virðingu einsog tilhlýðilegt var. „Herra Abdallah!“ mælti dómarinn, „það er vitaskuld, að jafn guðhræddur maður sem þjer eruð, muni hljóta guðlega umbun fyrir föstuhald sitt og meinlæti. Eg er nú hingað kominn til að bjóða yður þann kost, sem eg hygg að muni veita yður farsæld hjer í heimi og forsmekk þess, sem þjer eigið í vændum annars heims. Eg er maður gamall og farinn að gerast lasburða fyrir elli sakir. það er annað enn gaman að vera dómari í eins víðáttumikilli borg og þessi er, og er það meira annríki enn eg fái undir risið; hef eg því ráðið af, að kjósa annan mann í minn stað, og vissi eg engann, sem eg heldur skyldi til leita enn yðar. þjer eruð mikils metinn af öllum og enginn færari til að gegna embætti því, er eg nú mun fá yður í hendur. Bið eg yður því að koma til mín í kvöld um bænatíma, svo við getum betur talast við um þetta.“ „Verði guðs vilji,“ svaraði Abdallah, „fyrst hann hefur litið mig, auðmjúkan og auðvirðilegan þjón sinn, miskunaraugum, þá byrjar mjer ekki að bægjast við því, sem hann vill vera láta.“

Nú kvaddi dómarinn hann og bað hann fyrir hvern mun að gleyma ekki að koma. Og sem dómarinn var farinn frá Abdallah, þá gekk kaupmaðurinn inn til hans og mælti: „Nú, nú, nábúi sæll! ertu orðinn nokkuð vandaðri í hugsunarhætti þínum enn áður?“ „Mæl ekki slíkt, bróðir!“ ansaði Abdallah, „hvernig gaztu grunað mig um slíka óráðvendni? hjelztu að eg væri sá maður, að eg

færi að halda gullinu, sem þú hafðir trúað mjer fyrir? Líttu á, hjerna er gullið þitt, öldungis ósnert. En þar sem eg vildi ekki fá þjer það í morgun, þá gekk mjer það til, að eg vildi venja þig við að bera þolinmóðlega andstreymi það, sem forsjóninni kynni að þóknast að láta þjer að hendi bera. Taktu nú við gulli þínu og vertu mjer svo samferða, því eg ætla að finna dómarann; hann er mjer ofur ljúfur og hefur beðið mig að koma til sín í kvöld.“ „Já, þá getum við orðið samferða,“ mælti kaupmaðurinn, „því eg á líka erindi til hans.“

þegar dómarinn sá þá koma báða saman, þá sagði hann við kaupmanninn: „Nú ertu víst ánægður með hann Abdallah.“ „Já, prýðilega,“ svaraði kaupmaður.

þá mælti dómarinn: „Eg skal líka sjá svo til, að hann fari ánægður af mínum fundi. Eg lofaði í morgun að launa honum og skal eg standa við orð mín.“ Bauð hann þá að menn skyldu lemja í berar iljarnar á hinum guðhrædda manni, tvö hundruð stafs högg, og var skipun hans samstundis fullnægt.

„Herra dómari!“ mælti Akil ennfremur, „svona tókst einum af embættisbræðrum yðar að koma upp hræsni og hrekkvísi hins argasta þrælmennis; vona eg nú að yður takist eins heppilega að láta ósvífni heiðingja þessa til skammar verða. Skipið mönnum að leita á honum og mun hann þá fljótt verða uppvís að þjófnaðinum.“ Ljet þá dómarinn leita á Gyðingnum og fannst á honum pyngja með sekkínum í, sór hann og sárt við lagði, að pyngjan væri sín eign. En Akil stóð á því fastara enn fótunum, að pyngjunni hefði verið stolið frá sjer og kvaðst þekkja hana. Nú er svo var komið, skipaði dómarinn báðum málspörtunum að segja hvað í pyngjunni væri. „það eru tvö hundruð gullpeningar í henni,“ mælti Gyðingurinn. „því lýgur þú, fanturinn þinn!“ sagði Akil, „það eru ekki nema níutíu gullpeningar í henni og innsiglishringurinn minn á að vera þar líka, ef þú ekki hefur skotið honum undan; eg held þetta megi vera nóg til að taka af tvímælin.“ Nú komu vöflur á veslings Gyðinginn, en þá datt fyrst ofan yfir hann, er framburður ákærandans reyndist sannur. Hann reyndi að stynja upp einhverju sjer til varnar, en dómarinn ljet að vörmu spori refsa honum með ilja stroku og afhenti Akil pyngjuna með fje því, er í henni var.

Haram játaði nú, að sjer mundi víst verða erfitt að yfirstíga Akil í áræði og fimleik, en allt um það kvaðst hann ekki vilja gefast upp að óreyndu. Bað hann Akil að hitta sig sama kvöldið hjá konungs höllinni. Og er þeir fundust, þá tók Haram svo til máls: „Akil! þú hefur leikið á Gyðing og dómara, en eg ætla mjer meira stórræði og mun eg leggja að konunginum sjálfum. Mjer er kunnug húsaskipun í höllinni innanverðri, og ef við förum upp eptir kaðalstiganum þeim arna, sem eg held á, þá mun oss veita hægt að komast í innstu herbergin í kvennabúrinu. Hefurðu nú hug til að fylgja mjer?“ Nú þótt Akil óaði við þessari háskalegu fyrirætlun, þá þókti honum samt skömm að mælast undan, og hjálpaði Haram til að fleygja kaðalstiganum upp á hallarmúrinn. Varð þeim lítið fyrir að komast yfir hann. Gengu þeir síðan gegnum víða lystigarða, og mættu þeir engum manni, því langt var liðið fram á nótt. Mölvaði Haram upp hurð eina litla og leiddi með sjer fjelaga sinn gegnum mörg göng, þangaðtil þeir komu að anddyri nokkru, er var fyrir framan konungs herbergin. Þá brá Haram dyratjaldi einu til hliðar og sýndi Akil, hvar konungur lá sofandi fyrir innan, en hirðsveinn nokkur stóð yfir honum og virtist vera dauðsyfjaður. Úr næsta herbergi heyrðist fótadynur sveitarforingja þeirra, sem vörð hjeldu hjá konungi. Varð Akil þá svo skelkaður, að honum lá við að hníga til jarðar. „Guð hjálpi mjer,“ sagði hann stynjandi í hálfum hljóðum, „hvert ertu kominn með okkur? eigum við nú ekki að hverfa aptur sem fljótast? við erum frá, ef nokkur verður var við okkur.“

„Ekki þarf mikið til að gera þig smeikan,“ mælti Haram. „En hvað um gildir, þú hefur talað við dómarann, og eg verð fyrir hvern mun að eiga tal við konunginn.“ Að svo mæltu laumaðist hann með frábærum fimleik að hirðsveininum, en hann var þá að núa um iljar konungi, og tuggði harpeis til þess að sofna ekki alveg útaf. Hjelt Haram á svefnlyfjaglasi og brá því liðlega fyrir vit sveininum; hreif þefurinn óðara, er hann andaði honum að sjer og rann þegar á hann þungur svefnhöfgi. Því næst brá Haram kaðli yfrum hann undir höndunum, og hengdi hann svo upp undir loptið. Settist hann þá í sæti sveinsins, fór að núa konungi um iljar og gerði það svo tilfinnanlega, að hann vaknaði. Þá geispaði

konungur, en Haram sætti lagi og ávarpaði þann þannig: „Herra! með því þjer eruð vaknaður, þá bið eg yðar hátign segja til, ef yður skyldi þóknast, að eg stytti yður stundir með dálítilli frásögu.

Konungur ljet sjer það vel líka og tók Haram þá til frásagna.

## Vildarkonan slægvitra.

Einusinni var kaupmaður í Ispahan, sem verzlaði með silki-vefnað og þókti afbragð annara manna sakir fríðleika síns og blíðskapar í allri umgengni. Og er svo mátti heita, að öll borgin bergmálaði af lofi manns þessa, þá barst það einnig til vildarkonu Persa konungs, þess er þá sat að völdum. Kom þá yfir hana lostug löngun til að sjá kaupmanninn, og er hún leit hann augum og svalaði forvitni sinni, þá þókti henni sem menn hefðu heldur gert of lítið enn of mikið úr fegurð hans. Felldi hún svo ákafan girndarhug til hans, að hún mátti hvorki neyta svefns nje matar. Spurði fóstra hennar, hvað að henni gengi, en hún færðist lengi undan, þangað til hún loksins varð að játa fyrir henni ástríðu sína. Sagði hún þá, að kaupmaðurinn ungi stæði sjer ávallt fyrir hugskotssjónum, svo hún mætti aldrei friðar njóta; væri sjer þá öll hamingju von horfin, ef hún aldrei fengi að líta hann framar. Fóstran reyndi nú fyrst að telja þessa skaðvænu ástríðu úr huga henni, en sem hún sá að allar fortölur hennar urðu árangurslausar, og vildarkonan veslaðist upp dag frá degi, þá lofaði hún að gera allt, sem í sínu valdi stæði, til þess að vilja hennar yrði framgengt.

Fóstran fór nú til kaupmannsins og sagði honum ósk og vilja vildarkonunnar, að hann kæmi sem fyrst á fund hennar. Kom þeim báðum saman um, að bezt væri að fylla margar kistur með silkivefnað handa vildarkonunni, og skyldi kaupmaður vera í þeirri kistunni, er síðast færi; framkvæmdu þau þetta áform að kvöldi hins sama dags. Ljet fóstran bera kisturnar inn í höllina og sýndi geldingunum, sem hjeldu vörð fyrir kvennabúrinu, að þær voru fullar af silkivefnaði; sagði hún þeim að þær ættu að fara til vildar-konunnar og dirfðist þá enginn að rannsaka frekar, hvað í þeim væri. Nú er kaupmaður með slíkum hætti var kominn inn, þá var

honum þegar hleypt upp úr kistu þeirri, er hann hafði falizt í. En sem hann er farinn að tala við vildarkonuna í makindum, þá kemur fóstran dauðhrædd og segir að konungurinn sje á leiðinni. Enda var hann rjett á hælum henni, svo tæpast var tími til að koma kaupmanninum niðrí kistuna aptur. Varð kaupmaður þá næsta hræddur, og hálfu hræddari, er hann heyrði konung segja með þjósti, að vildarkonan yrði að gera svo vel og sýna sjer hvað í kistunum væri. En út yfir tók, er vildarkonan svaraði konungi, að hún gæti með engu móti orðið við tilmælum hans, því ástmaður sinn væri í einni af kistunum.

„Ókindin þín!“ hrópaði konungur, „dirfist þú svo mjög að svívirða höll mína? Eg skal strax láta drepa þig með vanmenni því, er þú veittir ást þína. Hafið hendur á henni, varðmenn!“

Við þessi orð var nærri liðið yfir kaupmann og hjelt hann að vildarkonan væri með öllu rænulaus og ráðþrota, en í sama bili heyrir hann að hún rekur upp skellihlátur og segir með þótta: „Herra! mig langaði til að vita, hvert þjer hefðuð nokkurt traust á mjer, og þykir mjer nú gott, að eg veit hvað mjer ber að halda um ást yðar mjer til handa. Ætlið þjer mig þá svo skyni skroppna, að eg fyrst mundi taka fram hjá yður og segja yður svo frá því á eptir? Yður er velkomið að ljúka upp kistunum; hjerna eru lyklarnir, en það segi eg yður fyrir satt, að eg verð ekki einni stundu lengur í híbýlum þessum, eptir að eg hefi verið höfð fyrir hinni svívirðilegustu grunsemd; vil eg eigi nýta ást yðar, fyrst þjer synjið mjer trausts.“ Og er konungur heyrði hana mæla slíkum orðum með einurð og óskelfdri rödd, þá drap hljóð úr honum, og hugði af allri grunsemd; hafði hann sig nú allan við að sefa reiði vildarkonu sinnar. Með slíku vjelræði tókst henni að frelsa ástmann sinn.“

Konungur hafði haft gaman af að hlýða á sögu þessa og tók nú Haram þannig til orða: „Herra! nú skal eg segja yður annað æfintýri, sem hent hefur einn af grannkonungum yðar fyrir skemmstu, og er það hvergi óskemmtilegra enn hitt, sem eg er búinn að segja. Það kom svo til, að ræningi og sjónhverfingamaður deildu kappi um það, hver áræðnari væri og fimari, og fóru þeir nú þannig að ráði sínu.“ Sagði Haram síðan konungi frá bíræfni

Akils og gerðist enda svo djarfur, að hann skýrði honum nákvæmlega frá því, er nú var að gerast í höll sjálfs hans, en þó nefndi hann eigi mennina eða staðinn með rjettum nöfnum. Og er hann hafði lokið sögu sinni, þá spurði hann konung, hver þessara tveggja manna, að hans dómi, hefði borið sigur frá borði. „Ræninginn sjálfsagt, sem læddist inn í höllina,“ ansaði konungur; og er hann hafði kveðið upp dóm þenna, þá ljet Haram svefnlyfja þef leggja fyrir vit honum og sofnaði hann þegar. Hafði Akil meðan þetta stóð yfir, verið milli heims og helju fyrir angistar sakir. Fóru nú þeir fjelagar úr höllinni með sama hætti og þeir voru komnir.

Morguninn eptir sá konungur hirðsveininn hanga undir loptinu og ljek honum þá enginn efi á því, að hann hefði sjálfur átt hvað mestan þátt í sögu þeirri, er honum hafði sögð verið um nóttina. En því fór fjærri, að hann reiddist, er þannig hafði verið leikið á hann, og varð honum miklu fremur hugur á að kynnast manni þeim, er sýnt hafði slíka dirfsku og lagkænsku. Ljet hann því hvervetna gera heyrumkunnugt, að hann fyrirgæfi manninum, sem um nóttina hefði læðzt inn í höll sína, og skyldi hann enda sæma hann verðlaunum, ef hann kæmi á sinn fund. Haram gerði svo, og er konungur sá hann, þá lauk hann lofsorði á hugrekki hans, og gerði hann að lögreglustjóra í borginni. En það gefur að skilja, að Akil deildi ekki lengur við hann um konuna, enda hafði hann þegar játað sig unninn, er þeir gengu frá höllinni.

## Jússúf og indverski kaupmaðurinn.

Einusinni var kaupmaður í Kairó sem var mikils virtur af samborgarmönnum sínum fyrir mannkosta sakir. Hann átti einn son, Jússúf að nafni, og ekki fleira barna; unni hann honum hugástum og hafði uppalið hann með hinni mestu kostgæfni. Enda hafði Jússúf aldrei verið föður sínum nema til gleði, því hann var guðhræddur og gæflyndur, reglusamur og ráðvandur, og luku þar allir upp einum munni, að hann væri afbragð annara unglinga. Og sem hann var kominn á það aldursskeið, er ungir menn vanalega festa ráð sitt, þá tók faðir hans að hugsa honum fyrir kvonfangi. Leizt honum einna bezt á kaupmanns dóttur nokkra afbragðs fríða

og bað hann hennar syni sínum til handa; fóru festar fram með ljúfu samþykki af beggja hálfu og var skömmu síðar haldið brúðkaup þeirra með mestu viðhöfn og vegsemd.

Nú varð Jússúf heimilisfaðir og veitti honum erfitt með búskapinn, er hann var honum lítt vanur. Ekki var hann heldur lundlaginn á kaupskap og hafði hann því aldrei nennt að gefa sig við honum; liðu svo fyrstu árin eptir kvonfangið, að hann tók sjer ekkert fyrir hendur. En jafnóðum hlóðst á hann ómegð og átti hann nú tvo sonu og tvær dætur með konu sinni. Þar á ofan bættist, að hann missti föður sinn, og var það mikið tjón, því hann hafði ávallt unnað honum hugástum og verið honum haukur í horni. En með því Jússúf hjelt fram uppteknum hætti og stundaði hvorki kaupskap nje aðra atvinnu, þá fór svo að lokum, að hann varð að selja eigur þær, er hann hafði erft eptir föður sinn og lá við sjálft að hann kæmist á vonarvöl með konu sinni og börnum. Rjeði hann þá af að fara burt úr Kairó og reyna á öðrum stöðum, hvort sjer yrði engrar hamingju auðið. Slóst hann allslaus í för með lest einni, sem ætlaði til Suez. Voru með lest þeirri margir og valinkunnir kaupmenn frá Yemen, Indlandi og Kínlandi og ætluðu þeir að stíga á skipfjöl, er þeir kæmu til Suez, sem er hafnborg fræg og mikil.

Nú er Jússúf kom til Suez og sá öll þau auðæfi, sem þar voru saman komin, þá sveið honum örbyrgðin ennþá sárar. Niðri við höfnina var allt fullt af varningi og úði og grúði þar af kaupmönnum og hásetum, sem allir voru eitthvað að starfa. Iðraði Jússúf þá beisklega, að hann hafði eyðt æskuárum sínum til ónýtis. Þarna var hann sársvangur að horfa á allt í kringum sig, og sá ekkert úrræði til að komast úr bágindum sínum. Þá bar þar að kaupmann nokkurn svipmikinn og virðuglegan ásýndum; mátti ráða það af búningi hans, að hann mundi vera frá Indlandi. Sá hann þegar á Jússúf, að hann mundi búa yfir einhverjum harmi, gekk hann því að honum og spurði hann að heiti og hverrar stjettar hann væri. Jússúf sagði honum það. Spurði þá kaupmaður, hvaðan hann væri. „Eg er frá Kairó“, ansaði Jússúf „varð eg þaðan að fara vegna ýmislegs andstreymis, sem of langt yrði frá að greina. Er eg nú kominn til Suez í von um að finna einhvern góðan mann,

sem vildi taka mig að sjer og flytja mig til annara landa, því mjer þykir ekki örvænt, að mjer gæti orðið þar betra hlutskiptis auðið.“ „Gott og vel, vinur!“ ansaði kaupmaðurinn, „eg er farinn að eldast og hef talsvert umleikis, þarf eg því ávallt að hafa hjá mjer aðstoðarmann. Nú er eg á leið til Dschiddah og viljir þú fylgjast með mjer þangað, þá skal eg borga ferðakostnað þinn og þaraðauki greiða þjer einn pjastur að launum á degi hverjum.“

Jússúf tók boði kaupmanns feginshendi og keyptu þeir þessu þegar í stað. Og er kaupmaður var búinn að ferma, þá stje hann á skipfjöl með aðstoðarmanni sínum. Urðu þeir vel reiðfara og komu að mánuði liðnum til Dschiddah. Geðjaðist kaupmanni vel að Jússúf, meðan á ferðinni stóð, því hann var bæði ötull og aðgætinn; ljet hann sjer því ekki nægja að greiða honum kaup sitt, heldur gaf hann honum einnig talsvert fje að auki. Var nú Jússúf aptur orðinn sjálfum sjer ráðandi og fór nú að skoðast um í borginni. Og er hann var orðinn fullsaddur á að skoða hana, þá gekk hann inn í kaffihús eitt. Voru þar ljelegar veitingar og þó afardýrar, en það gagn hafði hann af þarkomu sinni, að hann komst í kunningsskap við ýmsa kaupmenn. Sáu þeir undireins að hann var útlendingur og spurðu þeir, hverra erinda hann væri þangað kominn. Hann kvaðst vera kaupmaður einsog þeir og kominn þangað í borgina kaupskapar vegna, en meðfram væri erindi sitt að fara pílagrímsferð til Mekka og væri það ógert enn. Gazt kaupmönnum vel að Jússúf, því hann var allra manna kurteisastur og háttprúðastur, og varð brátt vingott með þeim og honum. Lifði Jússúf enn af fje því, er hann hafði fengið hjá indverska kaupmanninum. Þá bar svo til einn dag, að hann mætti einum af kaupmönnunum, sem hann var kominn í kunningskap við; tók hann þannig til máls við Jússúf: „Eg á að bjóða yður nokkuð það, er eg hygg eigi muni verða yður fjærri skapi. Kaupmaður nokkur er nýdáinn frá konu sinni og hefur látið eptir sig mikla auðlegð; er ekkjan bæði ung og fríð og var mjer falið á hendur að bjóða yður gjaforð hennar. Hún er yður í alla staði jafnkosta og auður hennar svo mikill, að þjer getið lifað áhyggjulausu lífi það sem eptir er æfinnar.“

Þetta þókti Jússúf kostaboð, sem von var, og þáði hann það gjarnsamlega. Þakkaði hann kaupmanninum fyrir drengskap sinn

og kvaðst hjartans feginn vilja ganga að ráðakosti þessum. Fór nú kaupmaður til ekkjunnar og sagði henni undirtektir Jússúfs; var þá óðar saminn hjónasáttmálinn. Var í honum ákveðið, að konan skyldi veita Jússúf svo mikið fje, sem hann þyrfti til fæðis og framfærslu, en hann gekkst að sínu leyti undir, að greiða henni morgungjöf nokkra; var hún að vísu eigi allmikil, en þó meiri enn hann gat af hendi reiðt. Jússúf hugsaði með sjer, að guðleg forsjá mundi veita sjer efni og úrræði til að greiða fje þetta þegar þar að kæmi, en að svo komnu reið honum hvað mest á að leyna örbyrgð sinni, því konan vissi ekki betur enn að hann væri auðugur kaupmaður. Nú kemur Jússúf heim í hús ekkjunnar og undrar stórum hvað þar er skrautlegt og ríkmannlegt. Vígði dómarinn þau saman með veg og virktum og var Jússúf hinn glaðasti; liðu svo nokkrir dagar, að hann hugsaði ekki um annað enn að njóta sælu þeirrar, er þetta nýja kvonfang veitti honum. En þó kom þar um síðir, að hann gerðist áhyggjufullur, er hann hugsaði til morgungjafarinnar, sem hann átti að greiða, því til þess vissi hann engin sköpuð ráð. Var hann optsinnis kominn á flugstig með að gangast við sannleikanum fyrir konu sinni, en kom sjer þó aldrei að því fyrir óvirðingu.

Það var einhvern dag er illa lá á honum út úr þessu, að hann var að ganga sjer til afþreyingar úti á kauptorginu; sá hann þá allt í einu stóran sjóð, er lá fyrir fótum hans. Var meira fje í sjóðnum enn til morgungjafarinnar þurfti og fjekk það honum mikils fagnaðar. Gekk hann þá afsíðis og taldi fjeð, sem var í sjóðnum, og var það ein þúsund gullpeninga. Þakkaði hann drottni af hjarta fyrir þessa óvæntu hjálp, en á heimleiðinni heyrði hann kallara einn kunngjöra hárri röddu, að sá maður, sem aptur skilaði týndum sjóði, skyldi fá hundrað gullpeninga að launum. Jússúf efaði ekki, að hjer væri meintur sami sjóðurinn, sem hann hafði fundið, og var hann ekki lengi að skoða huga sinn um hvað gera skyldi. Honum höfðu í uppeldinu verið innrættar betri lífsreglur enn svo, að það gætu runnið á hann tvær grímur, þegar eins bar undir og í þetta skipti. Gekk hann því að kallaranum og spurði, hver sá væri, sem týnt hefði sjóðnum. Kallarinn spurði aptur, hversvegna hann vildi vita það. „Vegna þess,“ svaraði Jússúf, „að eg held eg hafi fundið

sjóðinn, og vil eg aptur selja hann í hendur rjettum eiganda. Gerið því svo vel og fylgið mjer á fund hans; og geti hann leiðt óræk rök að því, að hann eigi sjóðinn, þá skal hann samstundis fá hann aptur.“

Allir, sem viðstaddir voru og á heyrðu, undruðust nú mjög og dáðust að ráðvendni Jússúfs, lofuðu þeir hann í hverju orði og óskuðu honum allrar hamingju. En kallarinn fylgdi Jússúf til mannsins, sem týnt hafði sjóðnum, en það var karl einn æruverðugur; sat hann innanum bókahrúgur og var sem hann hefði sökkt sjer niður í einhverjar djúpar hugleiðingar. „Herra!“ mælti kallarinn, „hjer er maðurinn, sem fundið hefur sjóðinn, er þjer týnduð. Vill hann skila honum aptur, ef þjer getið sagt hve mikið fje er í honum og lýst honum svo, að þar af sjáist, að þjer sjeuð rjettur eigandi.“ „Það skal eg strax gera,“ ansaði karlinn, en Jússúf greip fram í og mælti: „Það er hreinn óþarfi, herra! yfirbragð yðar vekur svo mikið traust í hjarta mínu, að eg vil ekki misbjóða yður með því að viðhafa varúðarreglu þessa. Takið við, hjer er gullsjóðurinn, sem þjer týnduð.“ Tók karlinn við sjóðnum úr hendi hans, og mælti með hátíðlegum málróm og yfirbragði: „Guð umbuni ráðvendni þína, ungi maður!“ Að svo mæltu tók hann aptur til að lesa í bókinni, er lá fyrir framan hann, og var á honum mikill guðræknis svipur. En Jússúf stóð kyrr og beið þess að karlinn fengi sjer laun þau, er kallarinn hafði lofað. Að klukkustundu liðinni leit karlinn upp og spurði Jússúf eptir hverju hann væri að bíða. „Herra!“ svaraði Jússúf, „kallarinn lofaði í yðar nafni, að sá sem fyndi sjóðinn og hjeldi honum til skila, skyldi fá hundrað gullpeninga. Eg hefði getað haldið sjóðnum og aldrei þurft að fá yður hann, en eg hugsaði með sjálfum mjer, að guð mundi umbuna ráðvendni mína; eg gat ekki efast um, að þjer með gleði ynnuð mjer tíunda hlutans af fjenu, þegar eg færði yður það aptur.“ „Beiðni þín er sanngjörn,“ ansaði karlinn, „en viltu ekki gera þig ánægðan með níutíu gullpeninga?“ „Það vil eg feginn,“ svaraði Jússúf, „ef yður svo líkar.“ Nú talaði karlinn ekki meira um þetta og fór að biðjast fyrir. Og sem hann hafði lokið bæn sinni, þá spurði hann Jússúf aptur, eptir hverju hann væri að bíða.

„Eptir hinum níutíu gullpeningum, sem þjer hafið lofað mjer,“

svaraði Jússúf. Tók þá karlinn aptur bók sína og fór að lesa. Að stundarkorni liðnu leit hann upp og mælti: „Heyrðu, vinur! helðurðu ekki þú værir fullvel í haldinn með áttatíu peningum?“ Jússúf ljet sjer það vel líka og tók karlinn bók sína í fjórða skipti, spurði Jússúf þvínæst, hvort hann gæti ekki látið sjer nægja með dálítið minna, og að þessu var hann þangaðtil hann var búinn að koma því niður í einn gullpening. Jússúf ljet sjer það lynda, en ætlaði nú samt að fara; vildi hann heldur hafa einn gullpening enn ekkert. En karlinn vildi reyna enn betur, hvað hann gæti verið lítilþægur, og kallaði eptir honum: „Þig munar ekkert um þenna eina gullpening; gef mjer hann upp, og skal eg gera mitt til, að þjer verði það að skaðlausu, því eg skal af hjarta árna þjer og þínum allrar guðs blessunar.“ „Það er líka velkomið,“ mælti Jússúf, „og það læt eg mjer vel lynda. Andheitar bænir eru þess fullverðar, að þær sjeu teknar fram yfir tímanleg gæði.“ Þá lagði karlinn hendur í höfuð honum, sneri sjer í áttina til Mekka og bað allsvaldanda guð að veita honum margfalda blessun. Kyssti Jússúf á hönd karlsins að skilnaði, og var þess eigi langt að bíða, að bænir hans báru góðan ávöxt. Atburður þessi varð hljóðbær um alla borgina og varð mönnum tíðrætt um drengskap þann, er Jússúf hafði sýnt; luku allir lofsorði á ósjerplægni hans og ráðvendni og þóktust ganga að því vísu, að hann hlyti að vera vel efnaður, er hann hafði farið svo að ráði sínu. Komu tíðindi þessi einnig fyrir konu Jússúfs og bað hún hann njóta heilan handa, er hann hafði breytt svo viturlega og stillilega. En Jússúf ljet lítið yfir því og kvaðst ekki hafa gert nema skyldu sína, þar sem hann bætti gömlum manni tilfinnanlegt tjón, enda hefði hann hlotið meiri velgjörð í staðinn, því andheit og einlæg árnaðarorð gamals manns væru dýrmætari enn allir jarðneskir fjársjóðir. „Og bænarorð hans munu bráðum verða að áhríns orðum“ mælti kona hans, því henni geðjaðist vel að svari þessu. Fór hún þegar og sókti lykla kippu, fjekk Jússúf og mælti: „Fyrri maður minn ljet eptir sig miklar eigur og sá eg ekki að eg gæti ráðstafað þeim með öðru móti betur, enn að fá slíkt valmenni, sem þú ert, til að hafa umboð yfir þeim. Skaltu nú hjeðan í frá hafa óbundin yfirráð yfir öllu sem eg á, búgörðum og búshlutum, gersemum og varningi og ráða yfir því öllu eptir hugþótta.“

Eptir þetta hafði Jússúf stórmikið undir höndum, einkum dýran silkivefnað, persneskan rósavefnað og indverskan nettludúk af smágjörvustu tegund, þar með hafði hann einnig allskonar varning frá Kínlandi og Zeylon. Þar að auki voru fjehirzlur ekkjunnar fullar af gullpeningum, og var Jússúf einnig heimilt að verja fje því einsog honum bezt líkaði. En nú varaði hann sig á iðjuleysinu, sem honum hafði orðið svo hált á, þegar hann var á Egyptalandi; hafði hann því allan hugann á því, að gera eigur konu sinnar sem arðsamastar. Stundaði hann verzlunina af miklu kappi, og með því hann hafði áunnið sjer almennt traust og virðingu fyrir drengskap þann, er hann auðsýndi gamla manninum, þá sókti þegar fjöldi fólks til varningshúsa hans. Fjölguðu kaupunautar hans dag frá degi, því hann var hinn ljúfasti í viðmóti og þókti öllum gott við hann að skipta; varð hann á stuttum tíma einhver hinn ríkasti kaupmaður í Dschiddah. Tóku því aðrir kaupmenn að leggja á hann öfund, og þegar er þeir sáu sjer færi, þá reyndu þeir að búa honum tjón.

Nú var það vandi jarlsins í Mekka, að þegar hann þurfti á peningum að halda, þá fjekk hann lán hjá kaupmönnum í Dschiddah. Borgaði hann þeim aptur með tollfje því, sem honum galzt af skipförmum, er komu frá Indlandi. Og einn dag kallaði jarlinn fyrir sig kaupmenn þá, er í borginni voru, og heimtaði af þeim fje það, er hann þurfti. Þókti þeim þá sem nú byðist gott tækifæri til að steypa Jússúf í glötun og svöruðu þeir jarlinum: „Herra! þótt oss falli nær, þá verðum vjer nú að synja fjár þess, er þjer krefjist. En verzlunin gengur svo báglega, að vjer getum ekkert látið af hendi rakna, og er nú svo komið fyrir oss, að vjer verðum að selja það, sem vjer eigum innanstokks, til þess að geta haldið í oss lífinu. Eigum vjer þetta upp á einn af samstjettarmönnum vorum, sem kom hingað bláfátækur, en gekk að eiga ekkju eptir einhvern ríkasta kaupmanninn hjer í borginni; fjekk hann fyrir kvonfang þetta yfirráð yfir geysi miklum vörubyrgðum, og sóar hann þeim í ógegnd, svo vjer getum með engu móti selt vörur vorar eins ódýrt og hann. Verðið þjer því að krefja hann einan fjár þessa, sem þjer heimtuðuð af oss.“ Þessi áburður kaupmannanna hafði nú æskilegan árangur; jarlinn sendi undireins her-

menn og skipaði þeim að taka Jússúf fastan. En hann hafði komizt á snoðir um, hvað í býgerð var, og hafði hann gert ráð sitt svo, að hann var með öllu óhultur fyrir óvinum sínum. Leituðu jarlsmenn vandlega, en fundu hvergi neitt, fóru síðan og sögðu jarli í viðurvist kaupmanna, að för sín hefði orðið til ónýtis. Þá mæltu kaupmenn: „Hvað sakar það, herra! þó Jússúf sje fjærverandi? hann á stór geymslubúr. Látið ljúka þeim upp og munuð þjer þá finna ferfalt meira enn þjer hafið þörf á.“ Sendi þá jarlinn menn sína aptur til húsa Jússúfs og sagði þeim að taka alla peninga, sem þeir fyndu; skyldu þeir og skrásetja nákvæmlega vörur þær, er þeir tækju. En er til kom, þá fundu þeir ekkert í vörubúrunum og komu þeir nú aptur og sögðu jarlinum, að þeir hefðu í annað sinn farið erindisleysu.

Kaupmenn sögðu nú, að ekki mundi hafa verið rjett farið að leitinni, en væri svo, að ekki fyndust neinar vörur, þá yrði að grafa niður í jörðina, því óhugsandi væri, að svo mikil auðæfi hefðu horfið svo gjörsamlega allt í einu. Þá fór jarlinn sjálfur til geymsluhúsa Jússúfs og ljet menn sína grafa. Og sem menn hans stungu rekunum niður í einu horni, þá fundu þeir fjögur ker, og voru fjórar þúsundir gullpeninga í hverju um sig. Ljet jarlinn telja gullið í votta viðurvist, því hann var sanngjarn maður og vildi ekki taka neitt af undirmönnum sínum með rangsleitni. Tók hann aðeins svo mikið fje, sem honum nauðsynlega lá á í það skipti, ljet síðan loka kerunum aptur og setja innsigli fyrir. Sendi hann þau heim í hús Jússúfs með skriflegu skýrteini um það, að hann hefði orðið að lána nokkuð af gullinu til almennra ríkisþarfa.

Nú frjettir Jússúf alla aðferð jarlsins og fer heim í hús sitt; hittir hann konu sína stórglaða af því, er síðast hafði til borið. Segir hún honum, hversu jarlinum hafi farizt, og kveðst furða sig á því, að Jússúf skuli hafa átt svo mikið fje að sjer óvitandi. Þá mælti Jússúf: „Mig furðar engu minna enn þig á fje þessu, sem menn hafa fundið í geymslubúrum okkar; eg á það ekki og verðum við að skoða það einsog annað geymslufje, sem við ekki megum verja eptir eigin hugþótta. Skulum við fá það aptur rjettum eiganda, þegar hann segir til sín.“ Skömmu síðar borgaði jarlinn Jússúf fje það, er hann hafði tekið til láns og gaf honum þar að auki ríkmannlega

gjöf. Ljet Jússúf gullið aptur niður í kerin, innsiglaði þau og gróf þau niður á sama staðnum sem þau höfðu fundizt. þessi ráðvandlega breytni Jússúfs bar nú góðan ávöxt áður langt um liði.

Einn dag er hann sat við dyrnar á geymsluhúsinu, þar sem gullið var niður grafið, þá kom til hans gamall karl og heilsaði honum. Leit hann inn í húsið með raunasvip og var einhvern veginn kynlegur; spurði Jússúf hann, hvernig á því stæði, en karlinn vildi ekki segja honum það að svo komnu. Kvaðst hann skyldu finna hann að kvöldverði, og segja honum allt sem hann vildi vita. þakkaði Jússúf hinum ókunnuga manni fyrir sóma þann, er hann gerði sjer, með því að koma heim í hús sitt, og tiltók tímann, er hann skyldi koma. Og er Jússúf var kominn heim, þá hafði hann allan viðbúnað til þess að fagna gestinum sem bezt, og beið hans með mikilli óþolinmæði. Nú er karlinn kom, þá settust þeir að ágætum kvöldverði og ræddu þeir mest um marklausa hluti meðan á máltíðinni stóð. En er þeir stóðu upp frá borðum, þá spurði Jússúf, því hann hefði horft svo forvitnislega inní geymsluhús sitt.

„það skal eg nú segja þjer, son minn!" ansaði karlinn. „Eg er frá Indlandi og kem eg hingað á ári hverju í verzlunarerindum. Hef eg orðið að kenna á hverflyndi lukkunnar, beðið optsinnis skipbrot og orðið fyrir öðrum hrakföllum; tók eg því það ráð, að verja mestum hluta eigna minna í gullpeninga og grafa þá niður á ýmsum stöðum, svo eg gæti tekið til þeirra í viðlögum. þarf eg sízt að iðrast þess nú, því á seinustu ferðinni hingað brotnaði skipið, sem eg var á, í hræðilegu ofviðri, og fjekk eg með naumindum bjargað lífi mínn. Missti eg þar allar vörur mínar og verð eg því að taka á fjársjóðum nokkrum, er eg hafði grafið niður í geymsluhúsinu, sem þú hefur nú fengið til umráða. Eg vona þú meinir mjer ekki að taka fje mitt aptur." „þjer eigið að vísu að ganga," mælti Jússúf; „gullið fannst af kynlegri tilviljun og tók jarlinn í Mekka nokkuð af því til ríkis þarfa. Borgaði hann það aptur með stakri skilvísi og ljet eg það þá aptur niður í sömu kerin. Skal eg nú afhenda yður fje þetta." Að svo mæltu ljet hann sækja kerin og bað karlinn að taka við þeim. En karlinn færðist undan og kvað gullið vera í góðum höndum, svo sjer þækti

engin ástæða til að skipta um geymslustað. þakkaði hann Jússúf með fögrum orðum fyrir geymsluna og lofaði drengskap hans og ráðvendni. Sátu þeir langt fram á nótt og töluðu saman sjer til skemmtunar, drukku gómtama drykki og átu sætabrauð. En er þeim þókti mál til komið að hátta, þá lögðust þeir til hvíldar, en sváfu eigi lengi. Skildu þeir um morguninn og fór hver að sínum erindum. Um kvöldið hittust þeir aptur og sagði þá karlinn Jússúf, að hann væri orðinn ofgamall til að fást við verzlun, og hefði því ráðið af, að fara heim aptur í átthaga sína og sitja þar um kyrt til dauðadags; bað hann Jússúf taka við verzlun sinni og verja til hennar peningum þeim, er fundizt höfðu í geymsluhúsinu. Fór Jússúf þegar til konu sinnar og sagði henni frá kostaboði þessu; gazt henni vel að því, en kvað sjer bezt þykja, að áður enn hann færi, þá gerðu þau hjónin sáttmála sín í milli, að hvert þeirra, sem lengur lifði, skyldi erfa það sem fyr dæji. Var sáttmáli þessi saminn skömmu áður enn Jússúf lagði á stað og var honum fengið endurrit hans. Varði hann nokkru af peningum karlsins í vörur og ljet flytja þær á skip það, er þeir ætluðu með til Indlands. Og er allt var búið til ferðarinnar, þá kvaddi Jússúf konu sína og stje á skipfjöl; gekk ferðin vel og stigu þeir á land í hafnborg þeirri, þar er karlinn átti heima. Kom nú Jússúf heim í hús hans og fjell í stafi, er hann sá hve þar var skrautlegt og ríkmannlegt. Heyrði hann brátt að kaupmaður þessi var hinn mesti skörungur í borginni og forstjóri verzlunarmanna þeirra, er þar voru. Trúði hann Jússúf svo vel, að hann undireins fjekk honum öll verzlunar forráð í hendur, en það var ekki þar með búið, því þegar hann var búinn að vera hjá honum svo sem mánaðar tíma, þá bauð hann honum gjaforð einkadóttur sinnar. En til þess að aðrir kaupmenn skyldu ekki öfundast yfir láni Jússúfs, þá rjeði hann honum til að láta þá flytja bónorð sitt. Fór þetta mjög að vonum. Karlinn var fljótur til að játa því, er hann sjálfur óskaði í hjarta sínu. Var þegar sent eptir dómara og saminn kaupmáli; var brúðkaupið haldið samdægris með frábærri vegsemd og viðhöfn. þá voru fátæku fólki gefnar stórmannlegar ölmusugjafir, og er mælt, að brúðkaupshaldið hafi kostað allt að hundrað þúsundum gullpeninga.

Nú hafði Jússúf allar eigur tengdaföður síns undir höndum, og hafði hann mikil not af ráðum hans í verzlunar fyrirtækjum sínum, því karlinn gamli var frábær að vitsmunum og reynslu. Þegar liðið var eitt ár frá brúðkaupinu, þá ól kona Jússúfs sveinbarn og fjekk það honum mikils fagnaðar. En sá fögnuður varð harmi blandinn, því tengdafaðir hans andaðist skömmu síðar. Var Jússúf alltaf hjá honum meðan hann lá banaleguna. Og sem karlinn var aðfram kominn, þá mælti hann til hans þessum orðum: „Son minn! nú er útsjeð um það, að eg mun ekki framar á fætur rísa, og verð eg fyrir andlát mitt að segja þjer frá leyndarmáli einu. Þú manst víst eptir karlinum, sem tók þig með sjer frá Suez til Dschiddah, og ekki muntu víst heldur vera búinn að gleyma hinum karlinum, sem var eigandi að sjóðnum, er þú hjelzt svo ráðvandlega til skila. Hjer sjerðu nú báða karlana í einu, því þú áttir við mig í bæði skiptin; mjer var orðið vel við þig sökum hógværðar þinnar og ljúfmennsku og vildi eg einnig reyna ráðvendni þína og hreinskilni. Og er mjer líkaði vel, hversu þú reyndist, þá fastrjeð eg að samtengja þig því, sem eg átti dýrmætast hjer í heimi, og tók þig í sonar stað. Er nú ósk minni framgengt orðið og dey eg frá þjer sem dótturmanni mínum. Sýn þú dóttur minni ávallt virðingu og nærgætni; hún á það skilið, þar sem eg hef falið farsæld hennar á þitt vald. Minnstu þess, hversu hógværð þín og ósjerplægni hefur orðið þjer heilladrjúg og lát því dyggðir þessar ávallt prýða hegðun þína. Vertu nú sæll og guð varðveiti þig.“ Að svo mæltu andaðist karlinn; var útför hans síðan gerð með mikilli viðhöfn og stóðu börn hans fyrir henni.

Nú var ekkert, sem knúði Jússúf til að vera lengur á Indlandi og kvaddi hann því konu sína til ferðar með sjer til Egyptalands; seldu þau eignir sínar og fóru fyrst til Dschiddah, því Jússúf gerði ráð fyrir að finna þar konu sína. En er þangað kom, þá var honum sagt andlát hennar; og erfði hann svo sem til stóð allar eigur hennar, en þær voru geysimiklar. Varði hann þeim öllum til varningskaupa og leigði skip nokkur til flutnings, auk þeirra er hann kom með frá Indlandi, sigldi hann svo með allan flota sinn til Suez og kom þangað heill á hófi eptir farsællega ferð. Skipaði hann þar upp allan varning sinn og klyfjaði með honum ógrynni

úlfalda; slóst hann svo ásamt konu sinni í för með lestamönnum, sem ætluðu til Kairó. Þar settist hann að í skrautlegu húsi og lagði nú mest kapp á, að leita upp hina fyrstu konu sína, er hann hafði neyðzt til að yfirgefa. En þrátt fyrir allar rannsóknir sínar varð hann einskis vísari nema þess, að kona hans og börn höfðu átt í mestu bágindum frá því er hann skildi við þau. En er hann heyrði það, þá gerði hann þannig ráð sitt. Hann efnaði til stórkostlegrar veizlu og ljet kallara fara um alla borgina og bjóða til hennar hverjum þeim, er þurfandi væri. Hugsaði hann með sjer, að ef kona sín væri í Kairó, þá mundi hún koma í veizluna. Stóð hann því útí horni einu í veizlusalnum og hugði vandlega að öllum, sem inn gengu; enda varð ekki von hans að lygi, því kona hans kom inn og kannaðist hann undireins við hana, þótt hún hefði látið ásjást af eymd og örbyrgð. Ljet hann þegar fylgja henni inní annað herbergi og þjóna henni með virktum; gekk hann því næst sjálfur inn til hennar og spurði, hvernig hún hefði ratað í þvílík bágindi; en sem hún tók að segja honum frá hörmungum sínum og barma sjer yfir missi bónda síns, þá var lokið ólíkindalátum hans og mælti hann til hennar: „Hjer er sá kominn, sem þú syrgir og tregar; eg er Jússúf bóndi þinn.“ Þá fjellust þau í faðma og grjetu þangað til þau höfðu svalað hjörtum sínum. Ljet Jússúf þá fylgja konu sinni og börnum þeirra beggja til lauga og færa þau í skrautlegan fatnað. Eptir það ljet hann báðar konur sínar heilsast og var dóttir indverska karlsins ljúf og ástrík við hina fyrstu konu manns síns. Bjuggu þau svo öll saman með ást og eindrægni, og hjelzt sæla þeirra óröskuð til æfiloka.

## Frá El Melik Ennasír Egyptalandskonungi og þremur lögreglustjórum.

Svo er mælt, að einhvern dag varð El Melik Ennasír konungi mikill hugur á að heyra eitthvað, sem fáheyrt væri og nýstárlegt að marki; ljet hann löngun þessa í ljósi við einn af hirðmönnum sínum. Sagði þá hirðmaðurinn, að honum væri bezt að senda eptir nokkrum lögreglustjórum, þeir mundu víst geta sagt honum frá einhverju af því tægi, sem honum ljeki í mun að heyra. Sendi þá

konungur eptir lögreglustjórunum í Kairó, Búlak og Misrel-Kadimeh. Gengu þeir fyrir hann með lotningu og mælti hann þannig til þeirra: „Það er vilji minn, að hver ykkar um sig segi mjer frá því kynlegasta og fáheyrðasta, sem fyrir hann hefur komið, frá því hann tók við embætti sínu.“

Þeir svöruðu: „Vjer heyrum og hlýðum,“ og tók lögreglustjórinn í Kairó fyrstur til máls. „Herra!“ sagði hann, „það kynlegasta, sem eg hef lifað í allri minni embættistíð, er atburður sá, er eg nú mun greina:

Hjer í borginni voru tveir menn, sem kvaddir voru að dómum einsog lögmætir vottar. Allt um það áttu þeir mök við vændiskonur, drukku vín og lifðu klækjafullu líferni. Nú þótt eg hefði mig allan við, þá tókst mjer samt aldrei að sanna sakir á hendur þeim. Loksins tók eg það til bragðs, að eg gekk til vínsölumanna og þeirra, sem verzluðu með ávexti, bæði nýlesna og þurrkaða, svo og til kertasala og allra, er húsaráð áttu þar sem ólifnaður var framinn; bað eg þá alla að láta mig vita, þegar báðir hinir fyrnefndu menn væru í vínhúsum eða nokkurstaðar annarstaðar á svalli, eins líka ef þeir keyptu einhverja þá hluti, sem menn eru vanir að búa sig út með, þegar þeir fara í þessháttar leiðangra.

Þeir svöruðu: „Við heyrum og hlýðum.“ Og nú bar svo til eitt kvöld, að maður kom til mín og sagði mjer, að báðir hinir fyrnefndu kumpánar væru nú í því og því stræti, í því og því húsi, hefðu þeir þar illa sambúð og ósæmilega breytni. Spratt eg þá strax upp og bjóst dularklæðum, kvaddi mann til fylgdar við mig og fór gagngert til hússins, sem mjer var til vísað. Drap eg þar á dyr og lauk upp fyrir mjer ambátt nokkur; spurði hún, hver eg væri, en eg svaraði henni engu og gekk inn. Sá eg þá báða mennina, sem eg var að leita að, og sátu þeir að víndrykkju með lauslátum kvennsniptum. Og sem þeir sáu mig, þá stóðu þeir upp og heilsuðu mjer með lotningu, leiddu mig í öndvegi og sögðu: „Vertu velkominn með oss, einsog heiðursgestur og góður fjelagsbróðir.“ Voru þeir með öllu ófeilnir við mig og óttalausir. Fór nú húsráðandinn út sem allra snöggvast og kom aptur með þrjú hundruð gullpeninga. Mæltu þeir þá til mín þessum orðum: „Heyrðu okkur herra lögreglustjóri! Þú getur reyndar gert okkur

mikla vanvirðu og refsað okkur, en þú mundir ekki hafa af því annað enn amstur og ómak. það er því miklu ráðlegra fyrir þig að taka við fje þessu og vernda okkur, því sjálfur guð hinn alvaldi, — hvers nafnið vegsamist! — hann er kallaður verndari, og hann elskar þá meðal þjóna sinna, sem eru ósparir á vernd sinni. það er því vafalaust, að þú munt hljóta þökk og umbun, ef þú lætur að orðum okkar.“ þá hugsaði eg með sjálfum mjer: „Nú jæa! eg get þá sleppt þeim í þetta skipti og tekið við gullinu; það er nógur tíminn að hegna þeim, ef eg næ í þá seinna.“

Eg stakk nú gullinu í vasa minn og gekk burt; ljet eg þetta ekki vera á fleiri manna vitorði. En daginn eptir kom sendimaður frá dómaranum og mælti: „Herra lögreglustjóri! dómarinn stefnir þjer á fund sinn; þú verður að gera svo vel og koma strax.“ Stóð eg þegar upp og fór með sendimanninum til dómarans, en sízt kom mjer til hugar, hversvegna mjer var þangað stefnt. Nú er eg kom til dómarans, þá voru þar fyrir bæði vitnin og húsráðandinn, sem hafði fengið mjer gullpeningana. Eg gat ekki þrætt fyrir, því hann hafði með sjer skriflegt skýrteini og bæði vitnin báru það, að eg væri skuldugur manninum um fjeð. Og er dómarinn hafði lagasönnur í máli þessu, þá dæmdi hann mig til að borga; gerði eg það í fússi og sáriðraðist eptir að eg hafði ekki tekið almennilega ofan í lurginn á þrælunum.“

þá stóð upp lögreglustjórinn í Búlak og mælti: „Drottinn minn og herra! nú skal eg segja yður það kynlegasta, sem mig hefur hent frá því eg tók við embætti mínu. það stóð einusinni svo á fyrir mjer, að eg skuldaði svo sem svaraði þrem þúsundum gullpeninga, og átti að borga skuldina innan skamms tíma. Seldi eg þá allt sem eg átti, bæði laust og fast, en fjekk ekki meira upp úr því enn tvær þúsundir gullpeninga. Varð eg nú hræddur og kvíðafullur út úr þessu. En eitt kvöld er eg sat heima hjá mjer í þungu skapi, þá heyri eg að barið er að dyrum. Hleypur þá einn af þrælum mínum til dyra, en kemur aptur nábleikur og skjálfandi. „Æ, herra!“ sagði hann, „það er maður fyrir utan í skinnklæðum með sverð og kníf, og fylgja honum aðrir fleiri; þeir vilja fá yður í tal.“ Tók eg þá sverð mitt og gekk út til að sjá hverjir komnir væru. Hafði þrællinn sagt satt og spurði eg komu-

menn, hvað þeir vildu. „Við erum stigamenn,“ svöruðu þeir, „tókum við geysimikil auðæfi að herfangi í nótt eð var, og ætlum nú að gefa þjer þau, svo þú losnir við allar áhyggjur og getir borgað skuldir þínar.“ Spurði eg þá nú, hvar herfang þeirra væri. Komu þeir þá með stóra kistu og leizt mjer hún vera full af gullkerum og silfurkerum. Varð eg frá mjer numinn af fögnuði og hugsaði með sjálfum mjer, að nú gæti eg borgað skuldir mínar, og hefði eg þó ógrynni fjár afgangs. Þókti mjer nú ósanngjarnt að veita ekki þessum góðu mönnum dálitla hugnun, og sókti því hinar tvær þúsundir gullpeninga, er eg hafði. Gaf eg þeim fje þetta og þakkaði þeim hjartanlega fyrir auðæfin, en þeir tóku við gullinu og fóru burt með það í náttmyrkrinu. Þegar ljómaði af degi fór eg að skoða í kistuna, og sá eg þá að öll kerin í henni voru ekki annað enn gylltur kopar og tin, og harðast hundrað silfurpeninga virði. Varð eg þá frá mjer af gremju og skapraun, en gullpeningarnir voru farnir og áhyggjurnar margfaldar við það sem áður var.“

Nú stóð upp lögreglustjórinn í Misrem-el-Kadimeh og mælti: „Drottinn minn og herra! það kynlegasta, sem fyrir mig hefur komið í allri minni embættistíð, er atburður sá, er eg nú mun greina. Eg hafði einusinni látið hengja tíu ræningja, hvern á sínum gálga. Setti eg verði við gálgana og bannaði þeim að taka nokkurn ofan af þeim, er hengdir voru. En sem eg kom þangað morguninn eptir, þá var einn gálginn horfinn, en í öðrum hjengu tveir menn fyrir einn. Spurði eg varðmennina, hvernig á því stæði, en þeir kváðust ekki vita. En er eg hótaði þeim með barsmíði, þá sögðu þeir einsog var: „Herra! við sofnuðum útaf í nótt eð var, og þegar við vöknuðum, þá sáum við að einum af ræningjunum var stolið ásamt gálganum, er hann hjekk í. Urðum við þá hræddir, og með því svo hittist á, að bóndi nokkur kom þar aðvífandi og rak á undan sjer asna, þá tókum við bóndann og hengdum hann á gálgann þarna, svo hann gengi í stað hins stolna.“ Furðaði mig stórum á þessu, og spurði eg þá, hvað bóndinn hefði flutt á asna sínum; þeir sögðu, að hann hefði ekki flutt á honum annað enn einn þverbakspoka. „Hvað var í honum?“ spurði eg; þeir sögðu það vera sjer ókunnugt. Ljet eg þá færa mjer pokann og leysa

frá honum. Og sjá! við fundum manns líkama sundurlimaðan í pokanum. Og er eg sá það, þá hrópaði eg: „Lofaður sje algjörleiki drottins. Þetta er eigi til annars fram komið enn þess, að bóndinn fengi makleg málagjöld fyrir níðingsverk það, er hann vann á hinum vegna manni, og er með þessu sýnt, að herrann fer ekki í ofharðan reikningsskap við þjóna sína.“

## Draumurinn.

Frá því er sagt, að maður einn í Bagdad vellríkur missti allan auð sinn og komst í mestu bágindi, svo að hann loksins varð að vinna baki brotnu til að hafa ofanaf fyrir sjer.

Einhverja nótt er hann svaf eptir hita og þunga dagsins, þá þókti honum sem maður kæmi til sín og segði: „Heill þín er í Kairó; far þangað og leita hana upp!“

Nú fer hann á stað til Kairó og kom þangað seint á kveldi; svaf hann því um nóttina í musteri einu. Nú stóð hús eitt rjett hjá musterinu, og svo sem fyrir hugað var af drottni, þá komu ræningjar og brutust útúr musterinu inn í húsið. En þeir, sem í húsinu bjuggu, urðu þess varir, kölluðu eptir hjálp og lustu upp ópi; kom lögreglustjórinn þegar með varðliðið og lögðu ræningjarnir þá á flótta.

Lögreglustjórinn gekk inn í musterið og fann þar manninn frá Bagdad sofanda. Ljet hann þá taka hann fastan og húðstrýkja hann svo að hann var nærri dauður. Eptir það ljet hann setja hann í myrkvastofu. En er þrír dagar voru liðnir, ljet hann leiða manninn fyrir sig og spurði hann, hvaðan hann væri. „Eg er frá Bagdad,“ svaraði hann. „Og hvert var erindi þitt til Kairó?“ spurði lögreglustjórinn. Þá mælti bandinginn: „Mig dreymdi eg sæji mann, og þókti mjer sem hann segði við mig: „Heill þín er í Kairó; far þangað og leita hana upp.“ Fór eg því hingað og hef eg nú reynt, að hýðingin var sú eina heill, sem eg hjer átti í vændum.“

Þá setti óstjórnlegan hlátur að lögreglustjóranum og tók hann þannig til orða: „O, mikil er heimskan, mjer hefur þrisvar vitrazt maður í draumi og þókti mjer hann segja: „Í þeim og þeim hluta

borgarinnar Bagdad er hús nokkurt, sem er svo og svo útlits. — Aldingarður liggur að húsinu og er neðst í honum gosbrunnur; en undir brunninum eru mikil auðæfi fólgin. Farðu þangað og grafðu þau upp. En eg var ekki það barn, að eg færi að þjóta á stað þangað, og þú, flónið þitt! tókst þjer ferð á hendur til að elta einhvern hjegóma, sem fyrir þig hafði borið í ringluðum draumórum.“

Að svo mæltu fjekk lögreglustjórinn honum nokkra peninga og mælti ennfremur: „Taktu við skildingum þessum og reyndu svo einhvernveginn að dragnast heim aptur.“

Maðurinn fór nú heim aptur til Bagdad. En húsið sem lögreglustjórinn hafði lýst fyrir honum, var hús sjálfs hans. Og sem hann var kominn heim, þá tók hann reku og pál og gróf undir gosbrunninum og fann þar mikil auðæfi. Með slíkum hætti veitti drottinn manni þessum fje og fullsælu.

# Frá 928 til 945 nætur.

## Sagan af Benasír kóngssyni.

Einusinni var konungur á Persalandi, sem var barnlaus og hafði þó verið kvæntur í mörg ár. En þó kom þar um síðir, að drottning hans varð barnshafandi og voru þá haldnar fagnaðarhátíðir um allt ríkið. En er meðgöngutíminn var á enda og drottning hafði tekið jóðsóttina, þá mátti hún ekki fæða. Kom fyrir ekki þótt allir hinir beztu læknar væru til kvaddir, því þeim bar öllum saman um, að annaðhvert yrði að deyja, móðirin eða barnið. Og sem konungurinn og öll hirðin var í öngum sínum útaf þessum hörmulegu vandræðum, þá kom þangað maður nokkur ókunnugur og bauðst til að hjálpa drottningu svo hún mætti fæða. En það áskildi hann sjer að launum, að barnið yrði sjer afhent, þegar það væri átján vetra að aldri.

Konunginum leizt hinn ókunni maður ískyggilegur og færðist lengi undan að gangast undir skilyrði það, er hann setti honum. En vezírinn sagði, að konungur gæti leiðt hjá sjer að efna heitið,

þegar þar að kæmi; ljet þá konungur til leiðast, enda lá honum sjálfum hvað mest á hjarta, að bæði móðirin og barnið mætti lifa. Og nú greiddi hinn ókunni maður svo vel fyrir drottningu, að hún ól barnið og hjelt sjálf lífi; var það sveinbarn vænt og fagurt. Var sveininum nafn gefið og kallaður Benasír (þ. e. hinn óviðjafnanlegi). Nú þökkuðu allir komumanni og báðu hann njóta heilan handa, en hann gaf sig lítt að því; segir hann konunginum að skilnaði, að hann muni finna hann aptur að átján árum liðnum og ganga þá ríkt eptir, að efnt verði heitið. Hafði konungur þá þegar fastlega ásett sjer að efna ekki orð sín. Fjekk hann hina ágætustu meistara til að kenna syni sínum, og vandaði uppeldi hans sem bezt hann gat; en sem sveinninn stálpaðist, þá gerðist hann æ hugsjúkari og vissi ekki, hverjum undanbrögðum hann ætti að beita, til þess að firra sig efndum heitorðsins. Var drottning að sínu leyti eins áhyggjufull og komust þau bæði til þeirrar niðurstöðu, að bezt væri að senda sveininn til einhvers konungs, sem væri þeim vinveittur. Mundi þá hinn ókunni maður grípa í tómt, er hann kæmi, og enginn til frásagna um það, hvar sveinninn væri niður kominn. Sendu þau því Benasír ekki fullra sjö vetra gamlan til keisarans á Kínlandi. Fagnaði keisarinn honum vel og tók hann þegar ástfóstri. Ólst Benasír þar upp með sonum sjálfs hans og hafði sama eptirlæti, enda ljet keisarinn í veðri vaka, að hann væri sonur sinn; hefði hann á bernskuárunum verið að fóstri hjá Persakonungi, en væri nú aptur kominn til föðurhúsa. Vissi Benasír sjálfur ekki betur enn að svo væri, og þókti þá vandamönnum hans því meiri von, að hann mundi geta leynzt fyrir þeim, er mestan hug höfðu á að finna hann.

Nú átti Kínlands keisari eina dóttur og ólust þau Benasír þar upp í höllinni, einsog systkin. Var þessi dóttir keisarans ung að aldri og svo fögur að undrum þótti gegna, og átti hún hvergi sinn líka. Benasír vissi eigi annað enn hún væri systir sín, en ást hans á henni fór æ vaxandi sem honum jókst aldur, og varð að ákafri ástríðu. Og með því hann hugði ást sína syndsamlega, þá reyndi hann með öllu móti að kæfa hana niður, en hún magnaðist miklu fremur að því skapi sem hann þroskaðist, og er hann fann, að hann mátti eigi lengur halda tilfinningum sínum í taumi, þá

sagði hann keisaranum föður hennar, hversu komið var, og sárbændi hann að senda sig burt frá hirðinni, ef ást sín mætti nokkuð þar við spekjast, því með skynsamlegum rökum yrði hún eigi sefuð. Hugði Benasír, að keisarinn mundi reiðast við þessa játningu sína, en það varð ekki, og þókti honum það furðu gegna. Keisarinn gladdist yfir því, að svo mannvænlegur kóngsson skyldi hafa fellt hug til dóttur sinnar og svaraði honum á þessa leið: „Son minn! elska sú, er þú hefur lagt á dóttur mína, er innblásin þjer af guði, og er okkur ofvaxið að skilja ráðsályktanir hans. Treystu forsjóninni; eg er sannfærður um, að hún mun ekki vekja aðrar tilfinningar í hjarta þínu enn þær, sem þú vel mátt við kennast. En ekki get eg veitt þjer orlof til að fara frá hirð minni, og eru þar orsakir til, sem eg ekki get sagt þjer fyr enn þú ert kominn af átjánda ári þínu. Far nú aptur til bræðra þinna og legg alla stund á, að ást sú, er þú ber til systur þinnar, eigi verði um hóf fram.“

Benasír fjekk eigi skilið, hvernig keisarinn gat tekið meðkenningu hans með slíku jafnaðargeði, og gerði hann sjer nú allt far um að sitja á ástríðu sinni. En með því honum gafst svo opt færi á að sjá dóttur keisarans og tala við hana, þá sá hann að öll sín barátta mundi verða fyrir gíg. Og einn dag er þau voru saman tvö ein, þá tók hann þannig til orða: „Eg veit ekki, hvernig eg á að lýsa tilfinningum mínum, en svo mikið er víst, að mjer er raun að því, að þú skulir vera systir mín, því mætti eg eiga þig fyrir eiginkonu, þá þæktist eg hafa himin höndum tekið.“ Dóttir keisarans roðnaði við og svaraði engu, en auðsjeð var það, að henni rann ekki síður hugur til Benasírs; samt vildi hún ekki við gangast, að svo vítaverð elska hefði kviknað í hjarta sínu og hljóp hún því burt frá honum. En upp frá þeirri stundu sá Benasír sig ekki úr færi, að tala við fóstursystur sína, þegar hann komst höndunum undir, og varð það til þess, að ást hans þróaðist enn meir.

Nú voru liðin seytján ár frá fæðingu Benasírs og hugðu foreldrar hans, Persakóngur og Persadrottning, að hinn ókunni maður mundi vera búinn að gleyma því, er honum hafði verið heitið. Voru þau farin að hugsa um, að senda eptir Benasír til Kínlands,

en það fórst fyrir, því á hinum átjánda jafnlengdardegi frá því er drottning varð ljettari, þá vissi enginn fyrri til enn ókunni maðurinn allt í einu stóð í höllinni. Sló þá miklum ótta á konung og drottningu, en komumaður krafðist harðlega, að þau efndu ummæli sín; kvað hann nú liðin vera átján ár og ættu þau því ekki með að halda syni sínum lengur. Ókunni maðurinn kom ekki að tómum kofunum, því konungur hafði lengi haft svarið á reiðum höndum; en samt bar hann það fram með hálfum huga. „Þjer rifjið upp raunir mínar,“ sagði hann; „sonur minn lifði ekki nema fáeina daga eptir að kona mín varð ljettari; eg er barnlaus maður, og er það mikil mæða.“ Þá brást hinn ókunni maður reiður við og svaraði: „Þjer þurfið ekki að hugsa til, að þjer getið blekkt mig eða svikist undan loforði yðar; eg veit að sonur yðar lifir og eg veit hvar hann er. Hann er á Kínlandi við hirð keisarans.“ Þá hryggðist konungur ákaflega, er hann sá að allar varúðarreglur hans höfðu orðið til ónýtis, en þó reyndi hann að leyna geðshræringu sinni. Hann mælti: „Eg skal þá ekki lengur dylja yður sannleikans. Sonur minn er á Kínlandi; en eg sárbæni yður, að þjer ekki sviptið mig ógæfusaman þeirri einu huggun og gleði, sem eg hef af svo ástkærum einkasyni. En ef þjer viljið hafa laun fyrir hinn mikla greiða, sem þjer auðsýnduð mjer, þá krefjist þess, er yður sýnist, og skal eg gera allt sem í mínu valdi stendur til að fullnægja yður. Viljið þjer helfing auðæfa minna eða nokkurn hluta af ríki mínu.“ „Eg vil hafa það, sem mjer var lofað,“ svaraði komumaður, „og eg vil hegna yður fyrir svikin. Þjer hafið reynt að pretta mig, og það skal einmitt verða syni yðar til ógæfu, en ekki frelsis.“

Nú er konungur sá að maðurinn vildi ekki ganga að neinum boðum, þá tók hann til að biðja hann með auðmýktarfullum orðum. En er það stoðaði eigi heldur, þá hótaði hann honum hörðu og mælti: „Fyrst þjer hvorki gangist fyrir boðum nje bænum, þá neyðist eg til að beita valdi. Takið manninn fastan, varðmenn!“ Gerði hann þá mönnum sínum bendingu, að þeir skyldu leggja hendur á hann. En komumaður brást samstundis í arnarlíki og flaug burt, svo ekki festi auga á. Þá skildu þau kóngur og drottning hverskyns var, að þetta var illur andi, sem ásókti son þeirra,

og fjekk þeim það ómrædilegrar hryggðar. Enda höfðu þau eigi getið skakkt til, því hinn illi andi flaug rakleiðis til höfuðborgarinnar á Kínlandi, og kom niður skammt frá henni; gekk hann síðan til keisarahallarinnar og kvaðst vera sendur af Persakonungi. Var hann þá óðara leiddur fyrir keisarann og tók þannig til máls: „Herra! nú eru yfirliðnar hættur þær, er lánardrottinn minn uggði mest, að yrðu syni sínum að grandi. Sonur hans hefur nú átjánda árið á baki og þarf engu að kvíða. Er eg sendur af Persakonungi til að sækja hann og biður hann yður að trúa mjer fyrir honum.“ Þá ljet keisarinn kalla á Benasír og sagði við hann: „Son minn! — ef eg má kalla þig svo, sem mjer jafnan hefur látið ljúfast — þjer er eigi til setu boðið, og verður þú þegar að fara til konungshirðarinnar á Persalandi; það varðar sjálfan þig miklu og muntu verða þess vísari þegar þú ert þangað kominn.“ Hnikkti Benasír mjög við þessi tíðindi, og fylltist harmi, þegar hann hugsaði til þess, að hann varð að skilja við dóttur keisarans. Bað hann keisarann lofa sjer að kveðja bræður sína og systur. Grjet hún mjög er Benasír kvaddi hana, og varð honum þá enn skapþyngra. En allt fyrir það hlýðnaðist hann boði keisarans og lagði á stað með leiðtoga sínum. Spurði andinn, því hann væri svo hryggur. „Herra!“ svaraði Benasír, „þjer getið því ekki nærri, hvað eg er hrelldur í skapi. Eg á systur eina, er eg ann meira enn sjálfum mjer, og nú verð eg að sjá henni á bak og sakna samvista hennar.“ Þá hló andinn kaldahlátri og mælti: „Ef þjer viljið, þá skal eg fara til hallarinnar aptur og gera hvað eg get til að fá systur yðar með mjer. Bíðið mín bara dálitla stund.“ Kóngsson hjet því og sneri andinn um hæl aptur til höfuðborgar Kínlands. Og sem hann var kominn úr augssýn kóngssyni, þá brást hann í arnar líki, flaug til keisarahallarinnar og settist á þakið. Sá hana keisaradótturina þar sem hún var að hafa af fyrir sjer í aldingarðinum við höllina, því hún var yfirkomin af harmi; steypti hann sjer þá yfir hana og hremmdi hana í klær sínar, en allir, sem það sáu, hrinu upp yfir sig og hljóðuðu hástöfum. Kom hann fljótt aptur til Benasírs, sem hafði beðið hans með miklum hugarkvíða. Lagði hann keisaradótturina hálfdauða niður fyrir fætur honum og brást aptur í manns líki.

Benasír varð nú höggdofa við atburð þenna, en jafnskjótt sem hann rankaði við sjer aptur, þá fór hann ásamt andanum að stumra yfir keisaradótturinni. Sókti hann vatn í lind eina, sem var þar rjett hjá, og tókst honum með því að vekja fóstursystur sína til lífs aptur. Tjáði hann henni gleði sína yfir því að hann fann hann aptur; kvaðst hann hafa verið farinn að kvíða því, að þau mundu aldrei framar sjást í þessu lífi. Nú vildi keisaradóttirin fara heim aptur til föðurhúsanna, en andinn og Benasír mæltu því í móti. Tók andinn þannig til orða: „Ef við eigum að halda til höfuðborgar Persalands með þessu ferðalagi, þá verðum við í marga mánuði að komast þangað. Munu og tattariskir riddarar verða sendir í allar áttir til að leita upp keisaradótturina. En eg get boðið ykkur annan flutning, sem bæði er hægari og fljótari, og er bezt við reynum hvernig hann gefst okkur.“

Að svo mæltu þreif hann kóngssoninn og keisaradótturina í fang sjer og sveiflaðist hátt í lopt upp; en ekki hjelt hann til Persalands, heldur beindi hann fluginu norður til Afríku stranda og sveif niður að hinum háu fjallshnúkum við Túnis; renndi hann sjer þar niður í hyldjúpa klettagjá, ógurlega og afar þröngga. Allt til þessa hafði andinn verið vingjarnlegur í viðmóti, en nú varð hann önugur og illúðlegur. Lagði hann Benasír og keisaradótturina á jörð niður og mælti: „Hingað var förinni heitið.“ Spurði Benasír, hvort nú væri langt til hallar Persakonungs, en andinn tautaði einhver töfraorð fyrir munni sjer, og í sama vetfangi opnaðist jörðin; þreif hann þá óþyrmilega í handlegginn á Benasír og mælti: „Áfram! áfram! eg skal leysa úr spurningum þínum seinna.“ Gengu þau nú þrjú saman ofan eptir riði einu og komu í afarvíð göng, en jörðin laukst saman að baki þeim. Var þar ógurlegt umhorfs, svo að keisaradótturinni reis hugur við, en þá þókti henni versna um helling, er andinn greip um hönd hennar og sagði henni að koma með sjer. Hún hljóðaði upp yfir sig af hræðslu, fleygði sjer fram fyrir fætur andanum og sárbændi hann að skilja sig ekki frá bróður sínum. En andinn skeytti hvorki grátbeiðni hennar nje hótunum Benasírs. Og svo snarlega vatt hann sjer burt með hana, að kóngsson fjekk engri vörn við komið. Kom andinn þegar aptur og skipaði honum að fylgjast með sjer,

sá hann þá eigi annan kost enn að hlýða. Leiddi andinn hann í gegnum mörg jarðgöng þangað til þeir komu í stórt herbergi; var þar fyrir karl einn hrumur og visinn og harla viðbjóðslegur. Mælti þá andinn til Benasírs: „Hjer er þjer ætlað að vera, og er karlinn þarna faðir minn. Skal það hjeðanaf vera þitt starf að þjóna honum, og ræð eg þjer að leysa verk þín vel af hendi, því þú skalt eiga mig á fæti, ef þú gefur honum nokkurt tilefni til umkvörtunar.“ Ætlaði Benasír þá að svara einhverju, en andinn gekk snúðugt burt og skelldi eptir sjer dyrunum.

Nú byrjaði auma æfin fyrir Benasír, er hann varð að stjana undir karlinn einsog auðvirðilegasti þræll, og var hafður til hinna hvumleiðustu vika; fjekk það honum svo mikils, að hann örvílnaðist og óskaði sjer dauða. Keisaradóttirin hafði nú reyndar betri vist, og var henni þó engu minni harmur í huga enn kóngssyni. Hafði andinn fengið henni bústað í glæsilegum herbergjum, og mátti hún þar njóta alls, sem hún óskaði, nema frelsisins. Spurði hún andann, hvað hann hefði gert við Benasír. Hann svaraði: „Þjer eruð drottning í höll þessari, og skal boðum yðar hlýðt verða; en þess krefst eg, að þjer minnist aldrei á þann, sem þjer unnið. Þjer ættuð að bera kinnroða fyrir ást þá, er þjer hafið á honum.“ Kóngsdóttir skildi vel hvert orð hans lutu, en ljet samt eigi bera á harmi sínum nje þykkju; brá hún á yfirdrepskap og ljet sem hún yndi vel hlutskipti sínu. „Herra!“ mælti hún, „þjer gerið mjer getsakir. Eg treysti drengskap yðar og veglyndi svo vel, að eg geng að því vísu, að þjer munið ekki rjúfa tryggðir við Benasír bróður minn nje brjóta á honum lögmál gestavináttunnar. En fyrst að nafn hans er yður ógeðfelt, þá treystið því, að það skal aldrei framar koma yfir mínar varir. Kann eg yður þökk fyrir vinsemd á, er þjer auðsýnið mjer, og skal eg gera mjer allt far um að vera yður til vilja.“ Brá andanum vel við þessi orð hennar og brosti hann við henni eins vingjarnlega og honum var lagið eptir eðli sínu; kvaddi hann hana því næst með blíðu. Liðu svo nokkrir dagar að hann kom ekki á fund hennar. Var þá enginn hjá henni nema kerling nokkur, er andinn hafði sett til að gæta hennar; þjáðist hún nú mjög af hugsýki Benasírs vegna og var aldrei með hýrri há. En það hafði hún sjeð á andanum, að hann hafði fellt

hug til hennar og hugði hún að neyta þess til að forða sjer og bróður sínum. Og er andinn vitjaði hennar, þá fagnaði hún honum með vinsemd og mælti: „Herra! þjer hafið verið svo lengi í burtu, og vonaðist eg eptir yður miklu fyrri. Eg á hjer engan að nema yður í einverustað þessum, og vona eg að þjer aldrei verðið svo lengi í burtu eptirleiðis.“ Varð andinn ljettbrýnn við og spurði hana innvirðuglega, hvort henni hefði verið sæmilega þjónað meðan hann var í burtu, og hvort hún vildi ekki biðja sig neins. Hún mælti: „Eg hef aðeins eina bæn að biðja yður, og hún er sú, að þjer segið mjer, hversvegna þjer hafið flutt mig hingað og hversvegna þjer látið mig sitja hjer í ófrelsi.“ „Tignarlega mær!“ ansaði andinn, „enn að þjer skulið geta spurt svo; þegar eg heyrði Benasír lofa fegurð yðar, þá varð mjer ákaflega mikil forvitni á að sjá yður, og er eg sá hversu sárt hann harmaði við skilnað ykkar, þá fýsti mig að kynnast konu þeirri, er vekja mátti svo ákafa elsku. Og sem eg leit yður, þá fann eg að þjer voruð slíkrar elsku makleg, og við það kviknaði brennandi ást í hjarta mínu sem aldrei mun slökkna.“ Þannig heyrði keisaradóttirin af andans eigin munni, að svo var sem hún hafði getið til; sá hún að yfir sjer vofði hin mesta hætta, en það var ætlun hennar, að þessi hætta skyldi einmitt verða sjer vegur til frelsis. Sagði hún því við andann: „Ef þjer ætlist til að eg sýni yður nokkra blíðu, þá verðið þjer að gæta allrar þeirrar virðingar og nærgætni, sem tign minni er samboðin. En þjer munuð aldrei ná ást minni og hylli með því að halda mjer í ófrelsi.“ Var þá andinn fljótur til svars og mælti: „Þjer eruð hjer sem drottning og megið öllu ráða; þjer eigið frjálst með að ganga hvar þjer viljið. Hjer eru lyklar að öllum herbergjunum; en tvær hurðir tek eg undan, sem þjer ekki megið upp ljúka.“ Var önnur hurðin fyrir herbergi því, er Benasír dvaldi í hjá föður andans.

Keisaradóttirin ljet nú sem hún kynni andanum mikla þökk fyrir traust það, er hann sýndi henni, og gaf honum nokkurn ádrátt. En sem hann var farinn, þá varð henni það fyrst fyrir, að hún lauk upp öllum dyrum, sem lyklarnir gengu að. Og innst í göngum nokkrum fann hún handrit æðimörg á ýmsum tungumálum. Nú var hún prýðilega menntuð og bóklærð og tókst henni að grafa

upp galdraskræður nokkrar; varði hún mörgum stundum á degi hverjum til að kynna sjer innihald þeirra. Og að nokkrum mánuðum liðnum datt hún ofan á sögu andans sjálfs, sem hjelt henni þar í valdi sínu. Fór hryllingur um hana, er hún las um afdrif þau, sem Benasír kóngsson átti í vændum; því svo var ritað, að andinn gæti með engu móti teygt úr æfi föður síns, nema með mannblótum. Þóktist hún þá ganga að því vísu, að Benasír mundi til blóts ætlaður, ef hann annars væri á lífi.

Nú varð keisaradóttirin frá sjer af hræðslu og kvíða; hún æddi úr einum staðnum í annan og rannsakaði hvern krók og kima, en það kom allt fyrir ekki. Samt varð hún eigi með öllu vonlaus, því hún hafði lesið í galdrabókinni, að líf andans var riðið við leyndardóm nokkurn; en þessi leyndardómur var sverð eitt, sem falið var í einhverju af hinum yztu hornum hallarinnar. Á sverðið var ristur dauðadómur andans, og reið nú keisaradótturinni mest á að finna hvar það væri geymt. Taldi hún víst, að lykillinn, sem andinn hafði haldið eptir, mundi ganga að hirzlu þeirri, er sverðið var geymt í. Lagði hún því alla stund á að vera sem blíðust við andann, og einusinni er vel lá á honum, þá sætti hún lagi og mælti: „Herra! þjer vitið hvað kvennfólkið er þrálátt stundum. Þjer hafið haldið eptir einum af lyklunum, sem ganga að herbergjum yðar, og er eg útúr þessu orðin svo forvitin, að eg eiri mjer hvergi, fyr enn þjer segið mjer og sýnið, hvernig á því stendur.“ Var sem andinn yrði uppvægur af reiði við þessi tilmæli hennar. Hann mælti: „Eg hjelt eg væri búinn að sýna yður svo mikið eptirlæti, að þjer mættuð vera ánægðar, en nú sje eg mjer til skapraunar, að því meira sem eg læt eptir yður, því heimtufrekari verðið þjer. Þjer verðið að virða mjer til vorkunar, þó eg geti ekki sinnt öllum brekum yðar og barnalátum.“ „Verðið þá afhuga ást minni,“ ansaði keisaradóttirin, „fyrst þjer viljið ekkert til hennar vinna.“ Þetta voru djörf og háskaleg orð. En andinn hafði svo ákafan girndarhug á keisaradótturinni, að hann dirfðist ekki að synja þess er hún beiddi. „Fyrst ekki er annar vegur,“ sagði hann, „þá skal eg svala forvitni yðar. Reyndar þori eg ekki að fá yður lykilinn, en eg skal sýna yður hvað geymt er þar inni sem hann gengur að. Munuð þjer nú sjá að það var aldrei

þess vert, að þjer færuð að forvitnast um það.“ Að svo mæltu fór hann með hana gegnum öll herbergin, þangað til þau komu í skúmaskot eitt. Þar dró andinn upp lykil, er hann hafði fólgið mjög vandlega í barmi sínum; því næst lauk hann upp járnskáp með lyklinum, og stóð sverð í skápnum. „Sjáið þjer nú?“ sagði hann við keisaradótturina, „þetta er svo ómerkilegt, að þjer ættuð ekki að tefja augu yðar á því að skoða það.“ Þá mælti hún: „Sverðið er þó víst hinn mesti kjörgripur, fyrst þjer geymið það svo vandlega; mjer þækti gaman að sjá það.“ „Sverðið er öldungis einfalt,“ svaraði andinn, „það tekur því ekki að vera að sýna yður það.“ „Æ!“ sagði hún, „þessi undanfærsla yðar gerir mig ennþá forvitnari; ætlið þjer að synja mjer um þessa síðustu bæn mína?“ Og nú var hún þangaðtil að nauða á andanum, að hann ljet eptir henni. En sem hún var orðin handhafi að sverðinu, þá brá hún því úr sliðrum, reiddi það yfir höfuð andanum og mælti: „Þú hinn armi, bústu nú við dauða þínum.“ Varð nú andinn óttasleginn, er hann sá yfir höfði sjer sverðið, sem dauðadómur hans var á ristur; fjell hann því fram fyrir keisaradótturina og bað hana miskunar. Svaraði hún þá, að hún skyldi fresta hefnd sinni, ef hann segði sjer, hvað orðið væri af Benasír bróður sínum.

Nú vildi andinn fyrir hvern mun forða fjöri sínu og sýndi hann því keisaradótturinni hvar Benasír var innibyrgður. Hljóp hún þangað strax, með sverðið í hendi; þorði hún eigi að leggja það frá sjer, því það gerði hana einvalda yfir töfrahöllinni og lífi andans. En Benasír hitti hún svo til reika, að hann var nærri dauður af örvílnan, því hann hafði verið látinn vita, að ekki væri nema einn dagur til þess að honum yrði blótað. Og er keisaradóttirin heyrði það, þá gat hún ekki lengur stillt heipt sína og hjó andann banahögg. Í sama vetfangi hurfu öll herbergin með hræðilegum gný, og vissu þau keisaradóttirin og Benasír eigi fyrri til, enn þau stóðu í klettagjánni þar sem andinn hafði svifið niður með þau, er hann kom norður á Afríku. Byrjuðu nú nýjar hættur og þrautir, en að þeim afstöðnum komust þau loksins niður á sjáfarströnd og tóku sjer fari með skipi einu, er ætlaði til Persalands. Og er þangað var komið, þá varð Benasír þess vísari, hve

kynlega hafði til borið um fæðingu hans og hver leynd hafði á verið um faðerni hans í uppvextinum. Voru nú gerðir sendiherrar á fund Kínlands keisara og skyldu þeir biðja hann samþykkis til þess að Benasír fengi dóttur hans til eiginkonu. Samþykkti keisarinn ráðahag þenna feginshugar, og gekk Benasír að eiga fóstursystur sína, er hann átti líf sitt að launa.

## Albondúkaní.

Einusinni varð kalífinn Harún Alraschíd liðlangan daginn að taka við ávörpum emíra sinna og annara höfðingja; var hann að lokum orðinn dauðþreyttur og leiður á allri hæverskunni og hinu einstrengingslega siðdekri, sem hann gat eigi hjá komizt sökum tignar sinnar, og langaði hann því til að hafa af fyrir sjer með einhverri skemmtun. — Rjeði hann það af að búast dularklæðum ásamt með Giafar stórvezír sínum, og ganga svo út til þess að útbýta ölmusum. Vildi hann og jafnframt komast að raun um, hvort embættismenn hans gegndu skyldum sínum samvizkusamlega. Og sem þeir báðir voru komnir í dularbúninginn og höfðu gert sig torkennilega, þá leyndust þeir burt úr höllinni.

Nú reikuðu þeir lengi vel um strætin í Bagdad og gáfu fátæklingum margar ölmusugjafir. Mættu þeir konu einni á miðju stræti og beiddist hún ölmusu; var hönd hennar næsta nett og smá og mjallahvít, svo að kalífanum varð starsýnt á; tók hann þá upp gullpening og fjekk Giafar til að gefa konunni.

Konan sá þegar að það var óvenju stór og þungur gullpeningur, sem henni var gefinn; virti hún hann fyrir sjer og kallaði eptir stórvezírnum, sem var kominn nokkur spor á undan henni. „Herra!“ mælti hún, „þjer hafið fengið mjer gullpening; var yður full alvara að gefa mjer hann?“ Þá mælti stórvezírinn: „Þjer eigið ekki að þakka mjer fyrir gjöfina, sem þjer fenguð, heldur þessum unga manni,“ og benti henni um leið á kalífann. Bað ölmusukonan Giafar að spyrja hann, hvort hann hefði ætlað sjer slíka stórgjöf; kvað kalífinn svo vera og beiddi hún þá guð að blessa hann. Skipaði kalífinn Giafar að spyrja hana, hvort hún vildi eiga sig. Giafar gerði svo og mælti: „Samfylgdarmanni mínum leikur hugur

á að eiga yður fyrir konu.“ — „Eg tek þeim kosti,“ ansaði konan, „svo framarlega sem hann getur gefið mjer morgungjöf þá, er eg vil hafa.“ Hugsaði Gíafar þá með sjer, að nú mundi kalífanum fara að þykja nóg um, er hann skyldi svona verða að fullnægja óskum förukonu, og spurði hann, hvers hún krefðist að morgungjöf. „Eg vil ekki hafa minni morgungjöf,“ ansaði konan, „enn svo sem samsvarar árstekjunum af Khorasan og Ispahan.“ Gíafar sagði kalífanum, hvað konan færi fram á, en hann gekk að kostum hennar og þókti vezírnum það furðu gegna. Þegar förukonan heyrði það, kvaðst hún vilja vita hvað mannsefni sitt hjeti, og svaraði Gíafar henni þá og sagði: „Það er kalífinn Harún Alraschid og enginn annar.“ En það var einsog konuefninu brygði ekki hið minnsta við þessi snögglegu umskipti á lífskjörum hennar, og varð henni ekki annað að orði enn að hún þakkaði guði fyrir það, að hann hefði gefið sjer drottinn rjetttrúaðra þjóða að eiginmanni. Færði hún síðan andlitsblæju sína nokkuð í lag og gekk með þeim til hallarinnar. Þegar kalífinn var þangað kominn, skipaði hann konu nokkurri roskinni og mörgum ambáttum að þjóna þessari nýju eiginkonu sinni. Var henni fylgt til lauga, og þar var hún þvegin með ilmvatni og færð í ljómandi skart. Eptir það var henni fylgt í glæsilega höll og fór kalífinn þangað sama kvöldið með valdsmönnum þeim, er semja skyldu hjúskaparsáttmálann. En er þau voru orðin tvö ein, Harún og kona hans, þá spurði hann hana, hver hún væri, og hversvegna hún hefði krafizt svo stórrar morgungjafar. „Herra!“ svaraði hún, „eg hef ekki krafizt meira af yður, enn ættgöfgi mín heimilar mjer. Eg er komin af hinum víðfræga Khosru Nuschirwan, sem beið hvert hrakfallið á fætur öðru þangaðtil hann rataði í eymd og bágindi. Í sömu bágindum var eg stödd þegar þjer hittuð mig.“

„Ef að sagnaritarar herma rjett frá,“ mælti kalífinn, „þá hefur samt hinn göfugi ættfaðir yðar optsinnis verið rangsleitinn og kúgað þegna sína.“ „Enda var það mótlæti á oss lagt,“ svaraði konan, „að vjer skyldum lifa á bónbjörgum, og það hefur drottinn gert til þess að hegna fyrir ávirðingar konungs þessa, og til einskis annars.“

„En þó hafa menn það fyrir satt,“ mælti kalífinn, „að hann

hafi síðar orðið betri maður og sýnt drenglyndi og miskunsemi.“ „Og það er ef til vill þessvegna,“ svaraði hún, „að miskunn guðs hefur hafið mig upp úr djúpi volæðisins og sett mig á veldisstól yðar, drottinn rjetttrúaðra manna!“

Kalífinn var vel ánægður með hina nýju konu einsog líka mátti. Í það mund er eitt ár var liðið frá atburði þessum, þá gekk hann einusinni út með Gíafar ráðgjafa sínum og Mesrúr höfuðsmanni geldinganna, og voru þeir allir í dularbúningi. Nú er hann reikaði um strætin í Bagdad fram og aptur, þá varð honum litið á sölubúð nokkra, harla snotra og þokkalega. Þar var inni ungur maður og var hann að búa til kryddkökur. Leizt kalífanum vel á manninn og hugsaði sjer að láta honum fjenast á verzlun sinni. Þegar hann var kominn heim í höll sína, ljet hann undireins sækja hundrað smákökur til bakarans; voru nú kryddkökurnar færðar kalífanum og lagði hann einn gullpening undir hverja köku, sendi hann þær því næst til hinnar konungbornu konu sinnar. Ljet hann um leið skila til hennar, að hann væri sjálfur væntanlegur til hennar um kvöldið, og skyldi hún segja til, ef hún óskaði sjer nokkurs hlutar. Beiddi hún hann þá um eina þúsund gullpeninga og konu til fylgdar við sig, er hún færi út til að gefa ölmusur. Kalífinn varð fúslega við bón hennar og sendi henni það, er hún beiddi um; gekk hún síðan út með konu þeirri, er henni var fengin til fylgdar; fór hún víða um stræti borgarinnar og útbýtti rausnarlegum ölmusugjöfum. Veður var heitt mjög og sókti á hana ákafur þorsti, er hún hafði gengið lengi, en henni bauð við að drekka af ílátum vatnsberanna, og beiddi því konuna gömlu, er fylgdist með henni, að berja á dyr á húsi einu allsnotru, og biðja þar um einn bikar vatns. Konan drap þá hægt á dyr og kom út ungur maður fríður sýnum og skrautbúinn og spurði, hvað henni væri á höndum. „Sonur sæll!“ ansaði konan, „við erum komnar til að biðja yður greiða. Dóttir mín er sárþyrst og vill ekki drekka hjá neinum af vatnsberunum; dirfumst við því að biðja yður um einn bikar vatns.“ Fór nú maðurinn inn í húsið aptur og kom með fullan vatnsbikar. Teigaði kona kalífans stórum og sneri sjer undan um leið svo hinn ungi maður ekki skyldi geta sjeð framan í sig; þakkaði hún honum fyrir greiðann og beiddi guð að launa honum. Gengu

nú báðar konurnar heim aptur til hallarinnar. Nú vissi hin nýja kona kalífans ekki, hvernig hún ætti að umbuna kurteisi hins unga manns, sem hafði gefið henni svaladrykkinn; tók hún það til bragðs, að hún sendi fylgdarkonu sína til hans með kryddkökurnar, sem hún hafði nýfengið frá kalífanum. Blóðlangaði hana á leiðinni til að neyta af þeim, en þorði þó ekki, því eyða hefði sjezt á fatinu, þó ekki hefði hún tekið nema eina og fjekk hún það því ósnert í hendur hinum unga manni. Sat hann fyrir utan húsdyr sínar og þakkaði konunni fyrir hugulsemi þá, er honum var sýnd, og beiddi hana að setja niður kökurnar hjá sjer á bekkinn, er hann sat á. En rjett sem konan gamla var brott gengin, kom næturvörður nokkur, er heima átti þar í nágrenninu, til mannsins og mælti: „Herra! í dag er hátíðisdagur; gefið þjer mjer ofurlítið, svo eg geti keypt sætabrauð handa börnum mínum.“ „Taktu fatið þarna!“ ansaði maðurinn, „færðu þeim það og segðu það sje sending frá mjer.“ Næturverðinum þókti vant velboðnu að neita, tók við fatinu og færði konu sinni. „Ólánsmaður!“ sagði hún, er hún sá hann koma, „hvar hefurðu stolið þessum kökum?“ „Og ekki hef eg stolið þeim,“ svaraði maðurinn, „einn af þjónustumönnum kalífans hefur gefið mjer þær. Komið þið nú öllsaman og gleðjið ykkur á sælgæti þessu.“ En konan æpti hátt og sagði: „Þú getur þá fengið af þjer að eta kryddkökurnar þær arna, meðan krakkarnir þínir ganga allsnaktir og eiga ekki spjarirnar utan á sig! skammastu þín ekki? Nei, farðu heldur og seldu kökurnar, því við getum fengið þær vel borgaðar.“ Næturvörðurinn varð nú að láta undan konu sinni og fjekk hann kallara einum kökurnar og bað hann að selja. Voru nógir kaupendur og var rjett að því komið, að kökurnar yrðu seldar, en þá varð manni nokkrum litið á letur, er stungið var í röndina á fatinu; en letrið vottaði það, að kökurnar væru bakaðar að boði kalífans. Sagði maðurinn þá við kallarann: „Hvað ertu að hugsa, veslings maður! að þú skulir hafa kökur þessar á boðstólum? langar þig til að komast á gálgann? sjerðu ekki að drottinn rjetttrúaðra manna á þær?“ Datt þá kallaranum allur ketill í eld og sá hann að maðurinn hafði rjett að mæla; hugðist hann bezt geta komizt úr hættunni, ef hann flytti kökurnar heim aptur í höll kalífans, og gerði hann svo.

Varð Harún þá æfareiður útaf þessu, að kallari skyldi færa sjer aptur kryddkökurnar, er hann hafði vandað sig svo mjög á að raða niður. Spurði hann kallarann, hver hefði gefið honum kökurnar, en hann sagði, að það hefði næturvörðurinn gert; var þá samstundis sent eptir honum. Var hann dreginn fyrir kalífann með hendurnar bundnar á bak aptur. „Æ mikil skelfing!" sagði næturvörðurinn við sjálfan sig, „alla þessa ógæfu á eg upp á konuna mína bannsetta; bara hún hefði lofað okkur að jeta kökurnar í friði, þá hefði eg aldrei komizt í þetta klandur." Spurði kalífinn hann nú, hvar hann hefði fengið kökurnar. Svaraði maðurinn einsog var, að einn af hirðarherrunum hefði verið svo örlátur að gefa sjer þær; tilgreindi hann um leið bústað hans. Espaðist þá Harún enn meira og varð hamslaus af reiði; þókti honum ódæmi, að einn af embættismönnum sínum skyldi hafa orðið til að fremja slíka óhæfu. Bauð hann að menn skyldu sækja hann þegar, slíta af honum höfuðbúnaðinn, draga hann eptir jörðinni með andlitið á grúfu, en ræna og rupla hús hans. Fóru þá sendimenn kalífans að húsi hirðmannsins og börðu óþyrmilega á dyr; tóku þeir hann fastan og sögðu: „Við sárkennum í brjóst um þig, Aladín! en við verðum að fullnægja boði drottins vors; hann hefur skipað oss að ofurselja ránsmönnum hús þitt, rífa sundur höfuðbúnað þinn og draga þig á fund sinn; okkur er nauðugur einn kostur að hlýða."

Nú var Aladín dreginn fyrir kalífann. Spurði hann í bræði, hvort hann þekkti næturvörðinn og kvað hann já við. Þá skipaði kalífinn honum að meðkenna strax í stað, hvar hann hefði fengið kryddkökurnar. Sagði Aladín hreinskilnislega einsog var, að tvær konur, önnur ung, en hin gömul, hefðu beðið sig um vatn að drekka, og það hefði hann veitt þeim; hefðu þær í hugnunar skyni sent sjer fatið með kökunum, en hann hefði aptur gefið það næturverðinum. Nú sefaðist nokkuð reiði kalífans, en til allrar óhamingju spurði hann Aladín, hvort hann hefði sjeð ásjónu ungu konunnar er hún lypti upp blæju sinni til að drekka vatnið. Svaraði þá Aladín hugsunarlaust og gagnstætt því sem var, að hann hefði sjeð ásjónu konunnar. Varð þá kalífinn bálreiður og ljet sækja konu sína; bauð hann að þegar skyldi höggva höfuð af henni og

Aladín. Og er hin ógæfusama kona heyrði átölur kalífans og dauðadóm sinn, þá sveif sárbeittur harmur að hjarta henni. Spurði hún Aladín, hvað honum gengi til að bera fram ósannindi, sem hlutu að verða báðum þeim til líftjóns. Vjek þá Aladín sjer að henni og mælti: „þetta hlýtur að vera forlaganna vilji; eg ætlaði að mæla gagnstætt því er eg sagði. Hefur mjer orðið hraparlega mismæli og verðum við fyrir þá skuld að deyja bæði saman.“

Meðan hann mælti þetta, var dýrshúð breidd á gólfið og skyldi blóð þeirra renna á hana. Böðullinn reif sundur klæði þeirra og batt fyrir augu þeim; spurði hann því næst, hvort höggva skyldi og kvað kalífinn já við því. þrítók böðullinn spurningu þessa, en kalífinn svaraði hinu sama í öll þrjú skiptin. þá spurði böðullinn Aladín, hvort hann vildi beiðast nokkurs áður enn hann yrði högginn. Aladín bað hann leysa sjer að rífa bandið frá augum sínum allra snöggvast, svo hann mætti líta vini sína í síðasta sinn. Böðullinn leyfði honum það. Sá þá Aladín alla vini sína hrædda og harmþrungna. Vjek hann sjer þá að kalífanum og mælti: „Herra! sýnið mjer þá miskunn, að þjer frestið aftöku minni í þrjá daga; eg segi yður fyrir satt, að þjer munuð innan þess tíma lifa einhvern hinn merkasta atburð.“ Kalífinn svaraði: „Að þessum tíma liðnum skaltu vissulega deyja, og þá skal ekkert frelsa þig undan hefnd minni.“ Nú liðu þrír dagar og bar ekki til tíðinda. Gerðist þá kalífinn óþolinmóður og bjóst í dularklæði. Hann fór í óvönduð föt, og setti upp ljótan túrban; gekk hann svo frá höll sinni með byssu um öxl og púðurtösku við hlið. Reikaði hann víða um stræti Bagdaðsborgar, og gekk í búningi þessum um hábjartan daginn; kveið hann því eigi að nokkur maður mundi bera kennsl á sig, er hann var þannig til fara.

Nú kemur hann á kaupmannatorgið og sjer þar mann nokkurn ungan, sem var að furða sig á einhverju og hafði næsta hátt um sig. Spurði kalífinn hann, hvað um væri að vera, en hann sagði, að þar væri kona nokkur gömul, og læsi hún reiprennandi upp úr kóraninum utanbókar; væri það svo áheyrilegt, að mönnum þækti sem þeir hlýddu á sjálfan eingilinn Gabriel; en það var hann, sem opinberaði Mahómet hina helgu lærdóma. „En hitt

sárnar mjer,“ sagði maðurinn, „að aumingja konan hefur setið svo lengi og hefur enginn orðið til að rjetta henni ölmusu. Þetta virðist mjer furðu gegna og svo get eg til að yður muni þykja.“ Fór þá kalífinn lengra fram á kaupmanna torgið og hlýddi á lestur hinnar gömlu konu. Gengur hann að henni og ætlar að gefa henni ríflega ölmusu, en í sama bili heyrir hann hana spyrja kaupmann nokkurn í hálfum hljóðum, hvort hún eigi að sýna honum fallega stúlku. Kaupmaður tekur því vel og gengur burt með konunni. Nú langaði kalífann til að vita, hversu af stæðist um konu þessa, og veitti hann þeim eptirför. Sjer hann þau ganga inn í hús eitt og tekst honum að læðast inn á eptir þeim; sjer hann kerlingu leiða dóttur sína út úr herbergi einu. Varð kalífinn þá frá sjer numinn af undrun, því mærin var hin fegursta, svo trautt gat fríðari kvennmann að líta í allri Bagdaðsborg. Var hún tignarleg álitum, en þó blíðleg og bauð af sjer bezta þokka; augu hennar voru mikil og svört og full af ástarlöngun. Nú sem yngismærin sá að ókunnugur maður var kominn, þá hörfaði hún undan í skyndi og átaldi móður sína fyrir, að hún hefði komið með karlmann og látið hann sjá sig. En konan svaraði að þetta væri manns efni hennar og mætti hún vel sjá hann einusinni fyrir brúðkaupið.

Nú fóru þau brátt að tala um morgungjöfina og heimtaði konan fjórar þúsundir gullpeninga. Kaupmaður svaraði, að svo mikið fje ætti hann ekki til í eigu sinni; bauð hann kerlingu tvær þúsundir og kvaðst ætla að verja nokkru af þeim til að kaupa búsgögn og brúðkaupsklæði. En konan kvaðst ekki slá einum skildingi af kröfu sinni og varð kaupmaðurinn að fara burt við svo búið, þó honum þækti súrt í brotið. Nú ásetti kalífinn sjer að bjóða sig fram í stað kaupmannsins; skauzt hann þá fimlega út úr húsinu og kom síðan inn aptur með miklu háreysti, og gekk fyrir kerlingu og mælti: „Eg mætti rjett núna ungum manni, sem kom frá yður, kvaðst hann eigi geta átt dóttur yðar fyrir vanefna sakir. Nú skal eg greiða brúðgjöf þá, er þjer heimtið, ef þjer viljið gipta mjer mærina.“

Konan rak upp stór augu og virti kalífann fyrir sjer í krók og kring, þangað til henni varð þetta að orði: „Og hvaðan ætli

þú fáir fje þetta, bannsettur ræninginn! Eg sje það á búningnum þínum, hvers kyns þú ert." „Nei, yður skjátlast, kona góð!" svaraði kalífinn, „eg skal greiða yður peningana út í hönd." „Jæa! láttu mig þá sjá," ansaði konan, „fáðu mjer fjórar þúsundir gullpeninga; þá skal eg gipta þjer dóttur mína." „Kaups kaups," mælti kalífinn, „og nú kaupum við þessu; farið nú þegar til yfirdómarans og segið honum, að Albondúkani vilji finna hann." þá mælti konan: „Heldur þú, þorparinn þinn! að yfirdómarinn fara að ómaka sig hingað þín vegna?" „Hvað sem um það er, móðir góð!" svaraði kalífinn, „þá farið nú strax og segið honum að koma með ritfæri sín." Fór nú konan á stað og hugsaði með sjálfri sjer, að ef yfirdómarinn kæmi eptir þessari orðsendingu þá mætti tengdasonur sinn vera meira enn meðalfantur, og að minnsta kosti foringi yfir stigamannaflokki. Og sem hún gekk inn í hús yfirdómarans og sá hann sitja þar umkringdan af samdómendum sínum, þá hörfaði hún þegar aptur fyrir hræðslu sakir. Fór hún þá að ásaka sjálfa sig fyrir ístöðuleysi sitt og gekk nokkur spor áfram, en hopaði samt aptur á hæl, og tók þá yfirdómarinn loksins eptir henni; skipaði hann dyraverðinum að leiða hana inn. Nú herti hún upp hugann og gekk fyrir yfirdómarann; spurði hann hvað hún vildi sjer, en kerling svaraði, að það væri maður heima hjá sjer sem vildi tala við hann. Spurði dómarinn, hver maður þessi væri. „Herra góður!" svaraði kerling, „hann heitir Albondúkaní."

„Albondúkaní!" hrópaði dómarinn og spratt upp úr sæti sínu; „fljótt, fljótt, flýtum okkar á stað." Og þótt hinir spyrði, hvert hann ætlaði að fara, þá svaraði hann engu, en rauk á stað í ofboði. „það veit trú mín," segir kerling við sjálfa sig, „að dómarinn sá arna getur ekki verið neinn sjerlęgur garpur; hann tengdasonur minn hefur líklega lúskrað honum, manntetrinu, og langar hann svo ekki til að komast í hendurnar á honum aptur. þessvegna er hann svo ákafur að hlýða skipun hans."

Nú er yfirdómarinn kom heim í hús kerlingar, þá sá hann það á öllum lotum, að kalífinn vildi dyljast; og fyrir þá sök heilsaði hann honum blátt áfram og spurði, hvað hann vildi sjer. þá mælti kalífinn: „Eg ætla að biðja yður að semja hjúskaparsáttmála

fyrir mig og yngismey þessa, er eg ætla að eiga.“ Þá spurði yfirdómarinn mæðgurnar, hvað mikil morgungjöfin ætti að vera; svaraði kerling honum að hún heimtaði fjórar þúsundir gullpeninga og bjóst dómarinn þá til að skrifa sáttmálann. Nú hafði hann í ofboðinu gleymt að taka með sjer pappír, en óttaðist reiði kalífans, ef hann ekki fullnægði skipun hans strax í stað; þrífur hann því hornið á skikkju sinni og tekur að rita á það sáttmálann. Byrjaði hann með nafni kalífans og forfeðra hans, og sem hann hafði ritað nöfn þeirra, þá vjek hann sjer að kerlingu og spurði að nafni hennar og manns hennar og tengdaföður. Þá fjekk kerling eigi tára bundizt, og kvað hún svo að orði: „Æ, mikla eymd og niðurlægingu verð eg að þola, að stigamaður skuli brjótast svona inn í hús mitt og ræna frá mjer dóttur minni. Æ, þetta hefði aldrei komið á mína daga ef maðurinn minn sálugi væri enn á lífi.“ „Verið þjer hugbraustar,“ mælti kalífinn, „guð er verndari mæðumanna og munaðarleysingja.“ En kerling gaf orðum hans engan gaum og var alltaf að gráta og kveina. Var hún að þessu eymdavæli þangað til kalífinn gat ekki stillt sig lengur og rak upp skellihlátur; átti yfirdómarinn líka bágt með sig og lá við hlægja upp úr. Nú er hann loksins var búinn með sáttmálann, þá sneið hann hornið af skikkjunni, fjekk kalífanum og ætlaði að fara. Þá sneri kerling sjer að tengdasyni sínum og mælti: „Ætlarðu þá ekki að víkja neinu að þessum heiðvirða embættismanni, sem hefur lagt skikkju sína í sölurnar fyrir þig?“ „Lofið þjer honum að fara,“ mælti kalífinn, „eg hef ekkert að gefa honum.“ Espaðist kerling þá og mælti: „Guð hjálpi mjer! ósköp er hvað þessir ræningjar eru ágengir, þeim er ekki nóg, að þeir svíkjast um að borga, ef maður gerir fyrir þá handarvik, heldur fjefletta þeir mann í tilbót.“ Hló kalífinn dátt að rausi kerlingar og kvaddi yfirdómarann. Kvaðst hann nú ætla að sækja peningana, sem hann hefði lofað og svo aðrar gjafir, er hann ætlaði konuefni sínu. „Já, já! eg skil,“ mælti kerling, „þú munt ætla að ræna ennþá nokkra kaupmenn og hrekja þá á vonarvöl, svo að þú getir gefið okkur gjafir.“

Kalífinn gekk nú heim til hallar sinnar og fór úr dularbúningnum. Því næst ljet hann sækja málara, snikkara og marmarasmiði, og byrjaði með því að hann ljet lemja hvern þeirra tvö hundruð

stafshöggum til þess þeir skyldu verða þess ötulli að hlýða boðum hans. Eptir það lýsti hann fyrir þeim húsi kerlingar og sagði þeim fyrir, hversu þeir skyldu bæta það og prýða; hótaði hann þeim, að ef þeir ekki hefðu aflokið ætlunarverki sínu fyrir dagsetur, þá skyldi hann láta handhöggva þá alla. „Ef nú húsfreyjan“ mælti hann, „skyldi spyrja, hver hafi sent yður, þá segið að það hafi tengdasonur hennar gert; spyrji hún, hvað hann hafi sjer til atvinnu, þá svarið, að það vitið þjer ekki; og spyrji hún að nafni hans, þá svarið, að hann heiti: Albondúkaní. Setjið nú þetta vel á ykkur, því auki nokkur ykkar einu orði hjer við, þá læt eg án tafar festa hann á gálga.“

Marmarasmiðirnir fóru nú til hússins, sem kalífinn hafði vísað þeim á, og höfðu þeir með sjer svo margar marmara hellur sem til smíðarinnar þurfti. „Hvað er ykkur á höndum?“ spurði kerling. Þeir svöruðu: „Við eigum að leggja hús þetta bæði að utan og innan með marmarahellum.“ „Hver hefur sent ykkur hingað?“ spurði kerling. „Tengdasonur yðar,“ sögðu þeir. „Og hvers konar maður er tengdasonur minn?“ spurði hún aptur. „Það vitum við ekki,“ önsuðu þeir. „Segið mjer þá að minnsta kosti nafn hans.“ „Hann heitir Albondúkani,“ sögðu þeir. Nú er kerling heyrði slík svör og sá aðfarir þeirra, þá varð hún enn fastari í þeirri trú, að tengdasonur hennar væri einn af stigamanna foringjum þeim, er höfðust við í kringum Bagdad. Á sömu leið fór er snikkararnir og málararnir komu til að vinna það, er kalífinn hafði fyrir þá lagt. Kerling spurði þá að hinu sama, en fór jafn nærri. Hugsaði hún þá með sjálfri sjer: „Mikill óttalegur ræningi hlýtur Albondúkani þessi að vera; það er auðsjeð að allir skirrast við að nefna hann, af því þeim stendur svo mikill ótti af honum.“

Nú varð húsasmíðinni lokið í tækan tíma og fóru þá verkmennirnir til kalífans og sögðu að skipun hans væri fullnægt. Sendi kalífinn síðan fjölda þjóna með allskonar húsbúnað og karfir fullar af rósavefnaði, glitsaumuðum dúkum og gersemum; áttu þeir að færa allt þetta konuefni hans. Nú er kerling sá þjónana koma með gjafir þessar, þá spurði hún þá fyrst, hvort þeir hefðu ekki villzt, en þeir kváðust vera komnir í rjettan stað og afhentu henni sendingarnar; sögðu þeir um leið, að hún yrði að

búa sig undir og koma öllu í lag, því tengdasonur hennar ætlaði að heimsækja hana um kvöldið. Þókti kerlingu ískyggilegt, er tengdasonur hennar valdi þann tíma dagsins, og sannfærðist þá enn betur um það, að hann hlyti að vera ræningi. Æddi hún nú á stað til grannkvenna sinna og bað þær að hjálpa sjer til að koma hlutum þeim fyrir, er hún hafði fengið. Rak þær í rogastanz er þær komu og sáu breytingu þá, er orðin var á húsinu. „Hverju sætir þetta?“ sögðu þær, „er það draumur? húskofinn yðar er orðinn að glæsilegri höll. Hvaðan er allt þetta skínandi marmara skraut? og allar þessar fögru litmyndir? nei, þetta er víst ekki einhama.“ „Það er allt saman frá tengdasyni mínum,“ mælti kerling. „Er þá dóttir yðar gipt?“ spurðu grannkonurnar. „Já, hún giptist í dag,“ svaraði kerling. „Og hver er tengdasonur yðar?“ spurðu hinar. „Það veit eg ekki, ef satt skal segja, og því er nú verr, eg er hrædd um að atvinna hans sje ekki sem heiðarlegust. En þi skuluð samt ekki halda að hann sje einsog ræningjar gerast að jafnaði, hann er að minnsta kosti yfirmaður allra annara ræningja.“ „Æ! guð hjálpi okkur!“ sögðu konurnar; „þjer eruð orðin tengdamóðir stigamanna foringja; biðjið þjer hann þá fyrir alla muni að þyrma okkur hjerna, nábúum yðar.“ Bað konan þær vera óhræddar og sagði að þeim væri óhætt að treysta drenglyndi tengdasonar síns, og mundi hann sjá eigur þeirra í friði. Fór þá af þeim öll hræðsla og lágu þær ekki á liði sínu með að koma fyrir búshlutunum; færðu þær og brúðurina í dýrustu skrautklæði og skreyttu hana með ljómandi dýrgripum og gimsteinum. Var skömmu síðar drepið á dyr, og voru þar komnir þjónar kalífans með hinar ágætustu krásir og kryddbrauð; sögðu þeir konunni gömlu, að tengdasonur hennar sendi henni þetta í því skyni, að hún gleddi sig á því ásamt grannkonum sínum. „En segið mjer nú, góðir hálsar!“ tók hún til orða, „hvaða maður er tengdasonur minn?“ „Það vitum við ekki,“ svöruðu þeir, „en nafn hans er Albondúkaní.“ „Veri hann þá hver hann vill fyrir mjer,“ sagði kerling, „en það veit eg, að sá sem sýnir slíkan drengskap, hann á ekki sinn jafningja í allri Bagdadsborg. Komið nú, systur sælar! og takið fyrir ykkur af vistunum.“ Ljetu konurnar ekki biðja sig þess optar enn einusinni og átu þær með góðri lyst af öllum rjettunum og aukamatnum,

en samt voru þær svo hæverskar, að þær skildu hið bezta eptir handa brúðhjónunum.

Nú má nærri geta að þetta varð fljótt hljóðbært um allt nágrennið, að kerling hefði gipt stigamanni dóttur sína; gengu miklar sögur af auðæfum þeim og gersemum, er hann hafði látið flytja í hús hennar. Nú er fregn þessi kom fyrir eyru kaupmannsins, sem kerling hafði frá vísað, af því honum varð fjefátt til morgungjafarinnar, þá varð hann reiður mjög, og þókti ódæmi, að kerling skyldi hafa tekið ræningja fram yfir sig; vildi hann því fyrir hvern mun hefna sín, og vonaðist meðfram að geta kúgað hana til að gipta sjer dóttur sína. Brá hann því skjótt við og fór til lögreglustjórans, sagði honum frá öllum málavöxtum og hjet að launa honum vel, ef hann gæti tekið ræningjann höndum; kvað hann vera mikla fjár von í húsi kerlingar og mætti hann draga það allt í sinn sjóð. Lögreglustjórinn varð glaður við þessi tíðindi, en kvaðst mundu bíða til tíundu stundar, því á þeim tíma mætti ganga að því vísu, að ræninginn mundi vera í húsi tengdamóður sinnar; „mun eg þá,“ sagði hann, „hegna bæði honum og kerlingu greypilega, en þjer mun eg fá dóttur hennar í hendur, og máttu fara með hana sem þjer bezt líkar.“ Og um tíundu stundu reið lögreglustjórinn á stað með kaupmanninum og fjórum hundruðum liðsmanna; stýrðu því liði fjórir hundraðshöfðingjar. Hjeldu þeir á blysum og skriðljósum og komu nú að húsi kerlingar. Var húsið fagurlega prýðt með ljósum og voru þær mæðgurnar að bíða eptir Albondúkaní. En allt í einu heyrðu þær að lamið var á dyrnar af öllu afli, og fór kerling þá ofan og horfði út í gegnum rifu, sem var á hurðinni; sá hún þá hvar lögregluliðið hafði skipazt fyrir utan og fyllti allt strætið. Bjóst það þegar til að mölva upp húsið og ryðjast inn. Sá var einn meðal fyrirliðanna, er Schamama hjet, hann var hinn versti níðingur og manndjöfull og fús til allra illra verka. Og er hann sá að ekki var lokið upp, þá mælti hann til lögreglustjórans: „því hikum vjer oss við að mölva upp dyrnar, þegar ekki er upp lokið? Gefum þeim ekki ráðrúm, en göngum að með oddi og egg, þá mun oss hægðarleikur að ná því, sem í húsinu er, bæði fjenu og fantinum.“ Þá gaf sig fram annar uhndraðshöfðingi, Hassan að nafni, og talaði hann svo um fyrir

lögreglustjóranum, að hann hafnaði ráði Schamama. „Gætum þess vel,“ mælti hann, „að oss getur orðið hált á slíku ofbeldi og yfirgangi. Förum varlega; hver veit nema kaupmaður hafi logið upp ákærunni í hefndar skyni, er honum var frá vísað? Ef að svo er, þá mundum vjer nú vinna hið versta verk; en gerið samt hvað yður gott þykir.“ Stóð kerling dauðhrædd á hleri fyrir innan dyrnar, meðan þeir ræddust þetta við, og heyrði hvert orð. „Æ! guð sje oss næstur, dóttir mín!“ hrópaði kerlingin, „við erum hreint frá, lögregluliðið er fyrir utan og á víst að taka ræningjann.“ „Lokaðu þá dyrunum sem vandlegast, móðir mín!“ svaraði dóttirin, „það er ekki fokið í öll skjól enn; guð kann að hjálpa okkur.“

Gerði nú kerling sem hún rjeði henni, en alltaf harðnaði barsmíðin á hurðinni og gauragangurinn fyrir utan. Spurði þá kerling, hvaða menn það væru, er svo ljetu, og hvað þeir vildu. „Ljúktu upp, endemið þitt!“ svaraði Schamama, „þín ótætis kerling, sem gerir hús þitt að ræningjabæli; lögreglustjórinn skipar þjer að ljúka upp.“ Kerling svaraði, að hjá sjer væri enginn ræningi; kvaðst hún vera kona fátæk og ráðvönd og kæmi sjer ekki til hugar að þrjózkast við skipunum lögreglustjórans. Síðan æddi hún inn aptur til dóttur sinnar og mælti: „Sagði eg það ekki alltjend? við eigum allt þetta upp á bannsettan ræningjann. En guð gæti samt að hann kæmi ekki hingað í kvöld. Æ! mikil hörmung er það, að hann faðir þinn skuli vera dáinn. Ef hann væri á lífi, þá mundi enginn maður, og ekki lögreglustjórinn sjálfur, hafa þorað að gera slíkt háreysti fyrir dyrum okkar.“ Dóttir kerlingar bað hana nú að hafa hægt um sig og þreyja við, því þær væru varnarlausar og ekki annað fyrir enn að bíða þess, sem að hendi kæmi.

Nú er að segja af kalífanum, að þá er kyrt var orðið á borgarstrætunum, þá tók hann á sig stigamanns gervi einsog fyrri og ætlaði á fund hinnar nýju konu sinnar í náttmyrkrinu. En sem hann kom inn í stræti það, er tengdamóðir hans bjó í, þá sá hann lögreglumennina og varðliðsflokkana við birtu þá, er stóð af blysunum; þókti honum það furðu gegna. Heyrði hann háreysti mikið og voru sumir, sem vildu mölva upp dyrnar og pína kerlingu til sagna, en einn var sá, er reyndi að þagga niður ofstopann í

hinum; kvað hann það vera lagabrot og níðingsverk að brjótast inn í híbýli tveggja varnarlausra kvennmanna, þar sem allar líkur væru til, að þær væru hafðar fyrir rangri sök. Þá æpti Schamama: „Snáfaðu burt, Hassan! og seztu í dómara sæti, því þú ert lagasnápur og lundlaginn á hártoganir, en vertu ekki að sletta þjer fram í fyrirtæki, sem karlmennsku þarf til og áræðis; þú ert handónýtur til slíkra hluta. En hjer er allt komið undir hugrekki og snarræði.“

Kalífinn hugsaði nú Schamama þegjandi þörfina, og var honum hugur á að refsa honum harðlega fyrir ósvífni hans og ofstopa. Fór hann þá að leita fyrir sjer, hvort hann gæti hvergi komizt að húsi tengdamóður sinnar. Kom hann að húsdyrum nokkrum opnum og sá þar langt innar af hurð eina með fortjaldi fyrir; stóð geldingur einn þar á verði og gekk kalífinn þangað inn. En í húsi þessu bjó einn af varðliðsforingjum kalífans, Júnís að nafni; hann var hinn mesti berserkur og bölsóti, og svo grimmur, að hann bragðaði eigi mat fyrir bræði sakir, nema hann dræpi að minnsta kosti einn mann á degi hverjum. Nú með því logaði á lampa í göngunum, þá sá geldingurinn til kalífans, og óð þegar að honum með brugðið sverð; spurði hann kalífann hvert hann ætlaði. Svaraði kalífinn honum þá með ógurlegri rödd: „Hvað varðar þig um það, þinn armi þræll?“ Varð geldingurinn lafhræddur einsog hann hefði sjeð grenjandi ljón æða móti sjer og flýði hann þegar inn til herra síns. „Hvað gengur á?“ mælti Júnís. „Æ, herra!“ svaraði geldingurinn, „meðan eg stóð á verði kom inn maður ókunnugur og ætlaði eg að verja honum inngöngu, en hann hrópaði: „Flý þú hinn armi þræll!“ varð mjer þá svo felmt, að eg sá ekki annað ráð enn að segja yður til.“ „Hverju sætir slíkt?“ mælti Júnis og spratt upp hamslaus af reiði; „hver vogar að smána þjóna mína í mínum eigin húsum? hann skal hitta sjálfan sig fyrir.“ Að svo mæltu þreif hann upp geysistóra kylfu og óð fram grenjandi til að hegna hinum ókunna manni. „Hvar er þrællinn?“ hrópaði hann. „Hjer er eg, Júnis!“ svaraði kalífinn. En er Júnis kannaðist við rödd kalífans, þá fleygði hann sjer til jarðar og bað hann fyrirgefningar. „Nú! nú!“ segir kalífinn, „þú kúrir hjer makráður í húsum þínum og lætur ekki til þín taka, er lögreglustjóri minn

veður hjer uppi í grennd við þig og misþyrmir hjálparlausu kvennfólki, sem engan karlmann hefur til varnar sjer; og ekki kemur þjer til hugar að stemma stiga fyrir yfirgangi þessa samvizkulausa valdsmanns." „Herra!" svaraði Júnis, „eg hef orðið að hlífast við hann í þeirri stöðu sem hann er, og meðfram verið hræddur um að eg kynni að tálma honum í þeim framkvæmdum, sem þjer hafið fyrir hann lagt; hefði það eigi aptrað mjer, þá mundi eg fyrir löngu hafa veitt honum maklega refsingu. En segið þjer til, eg er boðinn og búinn til að hlýða, og skal eg á svipstundu stökkva lögreglusnápum þessum á flótta."

Kalífinn þakkaði honum orð sín og kvaðst nú vilja stíga upp á flatþakið á húsi hans. Leiddi Júnis hann upp þangað. En húsið, sem kona kalífans og tengdamóðir bjuggu í, var þar rjett við, og með lægra þaki; komst kalífinn ofan á það eptir kaðalstiga, er hann fjekk hjá Júnis. Bauð hann Júnis að bíða þar og vera til taks, ef á þyrfti að halda, en sjálfur læddist hann eptir þakinu og komst niður í húsið án þess nokkur yrði var við. Var þar svo bjart, að hann mátti valla í gegn sjá, því húsið var víðast hvar logagyllt að innan og skreytt með ljómanda listasmíði, skein af því dýrðlega við birtu þá, er stóð af ljósahjálmunum og hinum fagursettu ljósaröðum. En brúðurin sjálf sat prúðbúin í skínanda skarti á glæsilegum hástól, og var hún líkust morgunsól eða mána um sumarnótt, þegar heiðríkt er. Stóð kalífinn stundarkorn og horfði á hana hugfanginn; hafði hann gott tóm til þess, því mæðgurnar urðu hans eigi varar. Heyrir hann að kerling segir: „Æ, dóttir mín! hvað á að verða um okkur? hvernig eigum við að komast undan þessum ofsafengnu mönnum? Æ, mikil neyð og skelfing! Mikið ólán var það að þessi árans ræningi fór að biðja þín. Eg vildi hann faðir þinn lifði! En við verðum að taka því með þolinmæði, sem guð vill vera láta." Þá mælti brúðurin: „Guð hefur sjálfur sent hann, móðir mín! til þess hann yrði eiginmaður minn, og þú hefur gipt mig honum; það er því illa gert af þjer, að skaprauna mjer með því að kalla hann ræningja."

„Bara hann komi ekki hjerna í nótt, veslings maður," sagði kerling, „þá mundi fara illa fyrir honum." Þá tók kalífinn upp lítinn stein og kastaði honum svo fimlega í eitt ljósið, að það

slökknaði. „Hvað er þetta?“ segir kerling, „þarna slökknaði eitt ljósið og öll hin loga.“ Kveikti hún þá aptur á ljósinu, en meðan hún var að því, slökkti kalífinn tvö önnur. þókti kerlingu þetta undrum sæta; þá kom steinn í hönd hennar, og við það atvik leit hún upp og sá kalífann. „Sjáðu nú,“ mælti hún við dóttur sína, „þarna er maðurinn þinn; hann hefur skriðið eptir þökunum, og eru slíkum kumpánum allar leiðir kunnar. En það hefur líka viljað honum til hamingju, því annars hefði hann rekizt í fangið á þeim, sem eru við dyrnar. Flýðu blessaður, Albondúkaní! annars verðurðu tekinn fastur af illmennum þeim, er sitja um hús vort; því ekki þarftu hjálpar eða varnar að vænta af tveimur ístöðulausum konum.“ „Látið þá mig um það,“ svaraði kalífinn, „eg skal ekki verða uppnæmur fyrir þrælum þessum.“ „Hugsaðu ekki til þess,“ mælti kerling, „að þú getir hrædt þá í burtu; það er sjálfur lögreglustjórinn með varðliðinu.“

Nú settist kalífinn niður og mælti: „Heyrið þið heillur mínar! eg er dauðsvangur, getið þið ekki getið mjer eitthvað að borða.“ „Nei, nú gengur yfir mig,“ sagði kerling, „þú hefur matarlyst í slíkum dauðans vandræðum.“ „Allrabeztu matarlyst,“ svaraði kalífinn. En nú byrjuðu aptur ólætin og skarkalinn við dyrnar, og versnaði um allan helfing; svo kalífinn gerðist óeirinn; og sem hann hafði matazt, þá dró hann innsiglishringinn af hendi sjer, fjekk tengdamóður sinni og mælti: „Fær þú lögreglustjóranum hring þenna og seg honum að eigandi hans sje í húsum þínum; skipa þú honum í mínu nafni að koma hingað inn með þeim fjórum sveitarforingjum, er honum fylgja, og skulu þeir hafa með sjer stiga, kaðla og hrísvendi.“*)

„Ekki nema það!“ ansaði kerling, „ætli hringurinn muni aptra honum? Nei, eg er hrædd um að hann fljúgi á mig og drepi mig.“ „Verið þjer hughraustar, móðir góð!“ mælti kalífinn, „eg skal ábyrgjast, að lögreglustjórinn hlýðir skipunum mínum.“ þá mælti kerling: „Ef þú getur þröngvað slíkum manni til hlýðni, þá vona eg þú kennir mjer þann galdur; eg fer þá að stela frá kvennfólkinu einsog þú frá karlmönnunum.“ Gekk hún síðan að dyrunum, og

*) þ. e. þau áhöld, sem höfð eru til að veita mönnum iljastroku.

kallaði: „Nú! hvað viljið þið?“ „Og hvernig ætli þú spyrjir, kerlingar skrukkan þín!“ æpti Schamama, „við ætlum að leggja hendur á ræningjann, og höggva af honum annan fótinn og aðra höndina. Eg skal finna þig í fjöru, hansvítis nornin þín!“

„Er nokkur læs á meðal ykkar?“ segir kerling, „það er innsiglishringur hjerna, sem eg á að fá ykkur. Lesið nafn eigandans, sem grafið er á hringinn.“ „Fjandinn sjálfur hafi eigandann,“ æpti Schamama, og rjeði hann lögreglustjóranum til að sæta lagi, þegar kerling lyki upp hurðinni, varpa henni til jarðar og ryðjast svo inn í húsið til að ræna og rupla; gætu þeir svo á eptir haft sjer til afsökunar, að þeir hefðu ekki sjeð hringinn. En kerling sá við þessu og lauk hún ekki meira upp enn svo, að hún aðeins gat smeygt út hringnum. Tók nú Schamama við hringnum og fjekk lögreglustjóranum. Og er lögreglustjórinn leit á hann, þá bliknaði hann upp og tók að skjálfa sem hrísla. „Hvað er um?“ mælti Schamama, „hvað var það?“ Lögreglustjórinn svaraði engu, en fjekk honum hringinn. Kannaðist Schamama undireins við innsigli kalífans og brá honum svo við það, að hann fjell til jarðar og bað guð að hjálpa sjer. En hann reis brátt á fætur aptur og spurði kerlinguna með dýpstu lotningu, hverja skipun hún hefði að færa. Svaraði hún þá: „Eigandi hringsins kallar fyrir sig lögreglustjórann og fjóra sveitarforingja, skulu þeir hafa með sjer allt sem með þarf til iljastroku.“ Sagði Schamama að bæði hann og allir hinir væru reiðubúnir til að hlýða, og fór nú kerling inn aptur til að segja tengdasyni sínum, hversu vel hafði skipazt við orðsendingu hans. „Þjer eruð undarlegur ræningi,“ mælti hún, „allir menn eru dauðhræddir við yður, dómarinn, lögreglustjórinn og lögregluþjónarnir. Mjer er full alvara, eg geng í yðar þjónustu og stel frá kvennfólkinu einsog þjer stelið og rænið frá karlmönnunum; eg skáka þá í hróks valdi, þar sem eg hef yður að yfirmanni og reyni að breyta eptir yðar dæmi, því eptir höfðinu dansa limirnir. En hvað sem því líður, þá verðið þjer að játa, að það hefði verið úti um okkur, ef dyrnar hefðu verið mölvaðar upp áður enn þjer komuð.“

Þetta rausaði nú kerlingin, en kalífinn gladdist með konu sinni, er ófriðnum var afstýrt og kyrð á komin. Og nú gekk inn

lögreglustjórinn með Schamama og Hassan og báðum hinum hundraðs höfðingjunum. Ljet þá kalífinn kalla á Júnís, og sem hann var kominn, þá skipaði hann honum að refsa lögreglustjóranum og Schamama með iljastroku. Gerði Júnis það svo rækilega, að neglurnar fjellu af tám þeirra. Því næst sagði kalífinn að Hassan skyldi taka við embætti lögreglustjórans. „Nú, nú!“ mælti hann við tengdamóður sína, „þykir yður ræningjanum verða mikið fyrir að hirta slíka sveina?“ Hún svaraði og sagði: „þetta eru hin beztu málalok og hef eg nú eigi nema eina bón til guðs míns, og hún er sú, að hann hegni kalífanum fyrir rangsleitni þá, er hann hefur í frammi haft við oss. Hefði honum eigi farizt svo illa, þá mundir þú aldrei hafa vogað að stíga fæti þínum í hús vort, og ertu þó hinn voldugasti maður.“ Brá kalífanum mjög við ámæli þessi, og komu þau honum heldur enn ekki óvart; en samt hugsaði hann með sjer, að hann kynni að hafa beitt rangindum óviljandi og bað hann því tengdamóður sína að segja sjer, hvaða rangsleitni það væri, er hún kærði á hendur kalífanum.

Þá mælti kerling: „Kalífinn hefur látið ræna hús vort bæði hátt og lágt, og ekki eptir skilið okkur svo mikið sem einn brauðbita; mundum við hafa dáið úr hungri, ef við ekki hefðum notið þín að. En þetta atvikaðist þannig, að sonur minn var einn af hirðmönnum hans. Og einn dag bar svo til, að tvær konur börðu á dyr hjá okkur og báðu um vatn að drekka. Nokkru síðar kom önnur konan, sú sem eldri var, og færði honum fat með kryddkökum; var það í launa skyni fyrir vatnsdrykkinn. En sonur minn gaf næturverði nokkrum fatið með kökunum, og skömmu síðar kom hingað liðsmannaflokkur frá kalífanum, rænti húsið og fór burt með son minn. Og það segi eg þjer satt, að hefðum við ekki ratað í ólán þetta, þá skyldirðu aldrei hafa fengið dóttur mína.“ „Verið hughraustar, móðir góð!“ ansaði kalífinn, „eg skal tala máli yðar við kalífann og mun hann fyrir mín orð gefa syni yðar frelsi, veita honum veglegt embætti og bæta yður fjártjón.“ Hýrnaði fyrst yfir kerlingu við þessi fögru loforð, en í sömu andránni varð hún alvarleg og mælti: „Sonur sæll! hafðu ekki slíkt í fíflskapar málum. Hjer er ekki við dómara að skipta eða lögreglustjóra, heldur við hinn víðfræga Harún Alraschid, drottinn rjetttrúaðra

þjóða, sem ræður yfir voldugum höfðingjum. Hinn lítilfjörlegasti af þrælum hans hefur meira vald enn allir embættismenn í ríkinu. Fyrir alla guðs muni, hættu þjer ekki í hendurnar á kalífanum, því þá er þjer dauðinn vís og þá missum við okkar síðasta athvarf. Eg vil heldur fela mál sonar míns guði á vald og treysta því, að hann af sinni óþrjótandi miskunn hjálpi mjer og honum.“ Þessi orð kerlingar fengu kalífanum mikils. Fór hann þegar út, þótt mæðgurnar beiddu hann að vera kyrran hjá sjer, og skundaði hann rakleiðis til hallar sinnar. Settist hann í hásæti og stefndi saman öllum hirðmönnum sínum. Og er þeir höfðu sýnt kalífanum lotningar merki, þá tók hann til máls og kvað sig undra, að enginn þeirra hefði dirfzt að biðja Aladín hirðmanni sínum miskunar. Þá mælti einn af emírunum: „Drottinn rjetttrúaðra manna! vjer þorðum það eigi fyrir lotningar sakir við yðar hátign, en fyrst þjer veitið oss heimild til að segja, hvað oss býr í brjósti, þá bið eg yður nú að gefa Aladín upp hegningu, og þykist eg vita að öll hirðin muni gjalda þessum orðum mínum samkvæði.“ Brá þá kalífinn skjótt við, sendi Aladín tignarklæði og ljet leiða hann á sinn fund, gerði hann að yfirmanni allra emíra og bað hann síðan að fara heim til móður sinnar. Gerði Aladín svo og fylgdu honum flestallir gæðingar í hirðinni, og mikill mannfjöldi þar að auki, er samfagnaði honum með gleðiópi. Höfðu hirðmenn nokkrir farið á undan og sagt móður hans og systur frá fögnuði þeim, er þær áttu í vændum; en þær höfðu gefið þeim stórgjafir að sögulaunum. Nú kom hann sjálfur og urðu þá fagnaðarfundir; faðmaði hann þær að sjer og sagði þeim frá öllum raunum sínum. En þær sögðu honum að sínu leyti, hvað gerzt hafði frá því hann var tekinn fastur, hversu húsið hafði verið rænt, en þær bjargþrota í þrjá daga og nær því hungurmorða. „En seg mjer, móðir!“ mælti Aladín, „hvaðan er allt þetta, sem eg sje hjer? eru það töfrar eða draumur?“ „Nei, son minn!“ ansaði hún, „það er öðru nær; það er allt saman gjöf frá tengdasyni mínum.“ „Frá tengdasyni þínum?“ segir Aladín, „er þá systir mín gipt að mjer fornspurðum? hvenær giptist hún og hver er maður hennar?“ „Hún giptist í gær,“ ansaði kerling, „og er maður hennar stigamannaforingi.“ „Stigamannaforingi?“ ansaði Aladín, og rjeði sjer valla fyrir reiði,

„hvernig gaztu fengið af þjer að gipta systur mína stigamanni? hvar er spillvirki sá? seg mjer til hans, svo eg geti refsað honum strax fyrir ósvífni hans.“ „Láttu þjer hægt, son minn!“ mælti kerling, „hann sá hjer þá menn fyrir skemmstu, sem ægilegri eru enn þú, og brá sjer þó hvergi.“ Sagði hún honum því næst, hvað miklu þessi hinn undarlegi maður hefði til vegar komið, og mælti að endingu: „Hann lofaði okkur að biðja þjer miskunnar hjá kalífanum, og rjett sem hann er farinn, þá sjáum við þig heilan í húsum okkar, og er það víst honum að þakka.“

„En hvert er nafn hans?“ spurði Aladín. „það veit eg nú ekki, son minn!“ ansaði kerling, „eg margspurði iðnaðarmennina, sem hann sendi hingað, en þeir vildu ekki segja mjer nafn hans, en það sögðu þeir mjer, að hann væri kallaður Albondúkaní að viðurnefni. Og er Aladín heyrði nafn þetta, þá stökk hann upp úr sæti sínu og kyssti sjö sinnum á gólfið. Spurði þá móðir hans, hvort þessi Albondúkaní bæri líka ægishjálm yfir sjálfum kalífanum. þá mælti Aladín: „Kæra móðir! þessi maður, sem þú talar um, er sjálfur kalífinn, Harún al Raschid, drottinn rjetttrúaðra manna.“

„Æ, guð almáttugur hjálpi mjer!“ hrópaði kerling. „mikil ólánsskepna er eg; eg hef látið við hann einsog hann væri ræningi. og styggt hann svo margfaldlega, að hann getur víst aldrei fyrirgefið mjer.“ Í því hún mælti þetta, sá hún sjálfan kalífann koma, og flýði hún þá dauðhrædd út úr herberginu. En er kalífanum var sagt, að hún þyrði ekki að koma í augsýn hans, þá ljet hann sækja hana og mælti til hennar mildilega: „Nú, nú móðir góð! hvernig stendur á því að þjer flýjið mig? munið þjer ekki að þjer rjett fyrir skemmstu ráðgerðuð að ganga í þjónustu mína?“ Bað þá kerling kalífann að fyrirgefa sjer, en hann sendi eptir dómara, og skildi við dótturdóttur Khosrú Nuschirvans og gipti Aladín hana. Eptir það drakk kalífinn brullaup til hinnar nýju konu sinnar með mikilli viðhöfn og var öll hirðin í veizlunni; ljet hann útbýta ríkuglegum ölmusugjöfum ámeðal allra fátæklinga og var hinn mesti fögnuður um alla borgina.

# Sagan af ambáttinni og drottni hennar.

Einusinni var maður nokkur í Bagdad, ungur og stórríkur, sem hafði erft fjarska miklar eignir eptir föður sinn. Hann felldi hug til ambáttar nokkurrar og keypti hana; unnu þau hvert öðru hugástum. Dró hann allt til muna við hana og hleypti sjer í svo mikinn kostnað hennar vegna, að eigur hans smámsaman eyddust, þangaðtil hann varð öreigi. Fór hann þá að hugsa um, hvernig hann ætti að geta haft ofan af fyrir sjer, en sá sjer engan veg til þess. Leitaði hann loksins til eins af vinum sínum og bað hann að gefa sjer gott ráð.

Nú skal þess geta, að meðan hann átti velgengni að fagna, þá höfðu menntaðir menn einatt haft hann í samsætum sínum fyrir þá sök, að hann var afbragð til söngs og hljóðfæralistar. Sagði því vinur hans: „Mjer lízt bezt, að þú gangir milli manna og syngir með ambáttinni; betra ráð veit eg ekki. Þú getur með því móti grætt mikið fje, en fengið gefins mat og drykk.“ En hvorki honum nje ambáttinni var mikið um það gefið; segir hún að sjer hafi hugkvæmzt annað ráð. „Hvað er það?“ spyr hann. „Þú skalt selja mig,“ svaraði hún, „með því móti komumst við bæði úr vandræðum þessum. Mun eg þá aptur lifa í allsnægtum, því ekki mun öðrum detta í hug að kaupa mig, enn ríkismönnum; er þá ekki að vita, nema mjer verði eitthvað til að endurnýja ástarsamband okkar.“ Fjellst hann á ráð þetta, þótt honum þækti súrt í brotið, og fór hann með ambáttina út á kauptorg. Varð þar fyrstur á vegi hans Haskími*) nokkur frá Balsora, kurteis maður og menntaður, háttprúður og göfuglyndur. Keypti hann ambáttina fyrir fimmtán hundruð gullpeninga. En er hann hafði greidt fjeð af hendi, þá iðruðust þau bæði, seljandinn og ambáttin, og grjetu beisklega. Reyndi hann að ripta kaupunum, en það var enginn vegur. Stakk hann þá peningunum niður í sjóð sinn og gekk á burt; vissi hann eigi hvað hann átti að gera af sjer, því heimili hans var nú heldur enn ekki eyðilegt, er ambáttin var farin. Gekk hann grátandi inn í musteri, og settist þar niður til að svala sorgarlöngun sinni.

*) Haskímar nefnast þeir, sem eiga kyn sitt að rekja til Haskims langafaföður Mahómets.

Varð hann loksins yfirkominn af þreytu og sofnaði; faldi hann sjóðinn undir höfði sjer er hann lagðist út af. Meðan hann svaf, kom þangað þjófur og læddi burt sjóðnum, en hann varð einskis var, og slapp svo þjófurinn burtu.

Nú vaknar hann og saknar sjóðsins; ætlar hann að stökkva á stað og elta þjófinn; en þjófurinn hafði verið svo sjeður, að hann batt snæri um fætur honum, svo hann datt niður þegar hann rjeði til hlaupsins. Varð hann svo að sleppa eptirförinni og fór að gráta á ný. „Æ!“ sagði hann, „sál mín er frá mjer horfin og aleiga mín er glötuð.“ Staulaðist hann nú örvæntingarfullur ofan að Tigrisfljótinu, vafði skikkjunni um höfuð sjer og steypti sjer út í strauminn. En menn nokkrir sáu til hans og sögðu: „þetta gerir hann víst af því hann hefur ratað í eymd og bágindi;“ stukku þeir út í fljótið á eptir honum og björguðu honum á land. Spurðu þeir, hvað honum hefði gengið til og sagði hann þeim hreinskilnislega frá öllu. Heldri maður einn gekk að honum og mælti: „þú hefur misst eigur þínar; viltu þá líka bíða tjón á sálu þinni og komast í eldinn til hinna fyrirdæmdu? Rístu nú upp og láttu mig fylgjast með þjer heim til þín.“ Tók hann því fúslega og sem hinn ókunni maður var kominn heim til hans, þá settist hann hjá honum og var þar þangað til honum hafði tekizt að spekja hann með fortölum sínum. þakkaði hinn ungi maður huggara sínum er hann fór, en jafnskjótt sem hann var farinn, þá kom aptur að honum sama freistingin, að ráða sjálfum sjer bana. En þá hugsaði hann til helvítis og kvalanna og fór að finna einn af vinum sínum til þess að kæra fyrir honum bágindi sín. Kenndi vinurinn svo mjög í brjóst um hann, að hann táraðist með honum og gaf honum fimmtíu gullpeninga. Hann mælti: „Ef þú vilt fara að mínum ráðum, þá vertu ekki einni stundu lengur í Bagdad. Fje þetta nægir þjer til viðurværis þangaðtil þú ert búinn að sigrast á ástar ástríðu þinni og harmi þeim, er af henni leiðir. þú ert af skrifurum kominn og skrifar prýðilega. Leitaðu því til einhvers embættismannsins og reyndu að hafa gagn af list þinni. Hver veit nema það sje guðs vilji, að þú verðir aptur samtengdur unnustu þinni.“ Yngismaðurinn fór að ráði þessu. Hann harkaði af sjer og rjeði af að fara til ættingja sinna í Vasit; liggur sá bær hjá Tigrisfljótinu og fór hann

því ofan á fljótsbakkann; var þar fyrir skip eitt fullfermt og spurði hann, hvort hann mætti fara með skipinu. Svöruðu hásetar að Haskími nokkur ætti skipið og gætu þeir ekki tekið við honum. En hann lofaði þeim góðri þóknun og svöruðu þeir: „Fyrst þú fyrir hvern mun vilt komast með, þá farðu úr skrautklæðunum og bústu í háseta föt; vertu svo í vorum hóp og láttu sem þú sjert einn af oss.“ Yngismaðurinn fjekk sjer þá háseta föt og fór út á skipið, en það átti að fara til Balsora. Og sem hann hafði verið nokkra stund úti á skipinu, þá sjer hann þar ambátt sína með tveimur öðrum ambáttum, sem settar voru til að þjóna henni. Sagði hann þá við sjálfan sig: „Hvað sem öðru líður þá fæ eg samt að horfa á hana og heyra hana syngja, á meðan við erum á leiðinni til Balsora.“ Rjett á eptir kom Haskími ríðandi með sveit sinni. Stje hann á skip sitt og sigldi það ofan eptir fljótinu. Ljet hann nú bera á borð og mataðist með ambáttunum, en hinir borðuðu út af fyrir sig á miðju skipinu. Eptir máltíðina sagði hann við hina nýju ambátt sína: „Nær á eg þá að heyra þig syngja? hvað lengi ætlarðu að syrgja og gráta? það hefur fleiri konum komið að hendi enn þjer einni að skilja við ástmenn sína.“ þetta heyrði yngismaðurinn og skildi hann af því, að ambáttin bar sömu elsku til hans og fyrri. Ljet þá Haskími hengja fortjald um þvert skipið og þar bak við ljet hann ambáttirnar vera. Gaf hann sig því næst á tal við skipverja, en þeir voru bræður hans; ljet hann bera þeim vín og aldin. Var nú lagt fast að ambáttinni að hún skyldi syngja, og bað hún þá loksins um gígju og söng vísu þessa:

þeir sjafna frá mjer sviptu
Um svarta næturstund,
Nú horfna græt eg giptu,
Og gremja fælir blund;
Í hvarf eg svífa sá
Úlfalda lengst við leiti,
Síðan mjer sveið með þrá
Elskunnar eldur heiti.

þá gat hún ekki sungið lengur fyrir gráti og ekka og fleygði frá sjer gígjunni. Urðu nú allir kvíðafullir, en ástmaður hennar

hnje í ómegin; hjeldu því skipverjar að hann væri orðinn óður og hvísluðu ýmsum töfraorðum í eyru honum. Báðu menn nú ambáttina að halda áfram söngnum og tók hún þá aptur gígjuna og söng:

Viknandi grjet eg vininn þann,
Sem var mjer numinn frá,
Fólginn eg ber í hjarta hann
Þó hvergi megi sjá;
Stóð eg við rústir húss með hryggð,
Sem helgað ástum var,
En autt var þar og engin byggð,
Ó, hvað það sárt mig skar!

Þá fjell hún aptur í óvit og tóku allir að kveina yfir henni. Ástmaður hennar hljóðaði upp yfir sig og leið einnig yfir hann. Einn af þjónum Haskíma spurði skipverja, því þeir hefðu tekið við slíkum manni, sem þessi var. Þeir svöruðu: „Þegar við förum fram hjá næstu borg, þá skjótum við honum á land og losum okkur svo við hann.“ Og er hinn ungi maður heyrði þetta, þá gerðist hann kvíðafullur, en herti þó upp hugann og bjóst til að taka hverju, sem að höndum bæri. Sagði hann við sjálfan sig: „Hjer á skipinu get eg ekki fengið að vera, nema því að eins eg láti hana vita að eg er hjer, því þá mun hún sjá svo til, að mjer verði ekki vikið burt. Fór nú skipið leiðar sinnar og bar að byggðu landi; þar gekk Haskími á land og hafði með sjer ambáttina og fylgdarmenn sína. En meðan hann var í burtu gekk yngismaðurinn bak við fortjaldið, tók gígjuna og ljek á hana nokkur lög, sem hann hafði kennt ambáttinni. Ljet hann síðan hljóðfærið á sama stað og settist aptur í sæti sitt. Kom nú Haskími aptur með þeim, er honum fylgdu.

Um nóttina var veður heiðskírt og fegursta tunglsskin; sagði þá Haskími við ambáttina: „Nú sárbæni eg þig, að þú ekki mæðir okkur lengur.“ Hún tók gígjuna, ljet fingurna leika eptir strengjunum og stundi þungt við, einsog hún ætlaði að gefa upp öndina. Þvínæst sagði hún: „Viti það himin, að meistari minn er hjer á skipinu.“ Þá svaraði Haskími: „Viti það himin, að ef svo væri,

þá skyldum við fljótt hafa tal af honum. Hver veit nema hann geti haft úr þjer ólundina, svo við megum hafa yndi af söng þínum. En mjer er óskiljanlegt, að hann geti verið hjer á skipinu." Ambáttin mælti: „Eg get ekki leikið á gígjuna eða sungið þegar meistari minn er nærstaddur." „Þá er bezt að spyrja skipverja," sagði Haskími; „heyrið góðir hálsar! hafið þið veitt nokkrum ferðamanni viðtöku hjer á skipinu?" Þeir kváðu nei við því. Var nú yngismaðurinn hræddur um að ekki mundi verða frekar eptir þessu leitað, gall hann því við og sagði hlægjandi: „Eg var bæði meistari hennar og lánardrottinn." Þá hrópaði ambáttin: „Í sannleika, þetta er raust drottins míns." Var þá yngismaðurinn leiddur fyrir Haskíma, og kannaðist hann undireins við hann. „Vei þjer!" mælti hann, „hversu dirfist þú að koma þannig fyrir mín augu?" Sagði yngismaðurinn honum frá öllu einsog var, og kvaðst hafa leiðzt til þess af sárri eptirlangan og elsku til ambáttarinnar. Grjet hann þá hástöfum og eins ambáttin bak við fortjaldið, svo að Haskími og bræður hans viknuðu af öllu hjarta. Tók þá Haskími þannig til orða: „Eg kalla guð til vitnis mjer, að eg hvorki hef snert ambáttina nje heyrt hana syngja. Guð hefur veitt mjer mikla auðlegð og var eg kominn til Bagdad, fyrst og fremst til að heyra fagra sönglist, og þar næst til að taka við lífeyri þeim, er kalífinn hefur veitt mjer. Þetta var nú auðsókt, og sem eg var að búast til heimferðar, þá kom mjer til hugar, hvort eg ekki gæti haft heima hjá mjer sömu skemmtunina og í Bagdad, að heyra fagran söng. Keypti eg því ambátt þessa, en hitt var mjer ókunnugt, að svona var með ykkur komið. Nú kalla eg guð til vitnis, að jafnskjótt sem eg kem til Balsora, þá skal eg gefa ambáttinni frelsi og gipta þjer hana. Skal eg veita ykkur nægilegt fje til framfærslu með því skilyrði, að ambáttin syngi fyrir mig þegar eg beiðist þess, og skal hún þá sitja bak við fortjald, svo eg sjái hana ekki. En þú skalt vera einn í tölu bræðra minna og borðnauta." Varð nú yngismaðurinn sárfeginn, en Haskími leit bak við tjaldið og sagði við ambáttina: „Ert þú nú ánægð með þetta?" Þakkaði ambáttin honum af hjarta og bað honum allrar blessunar og heilla. Síðan ljet hann fá yngismanninum skrautklæði og smyrja hann með ilmandi smyrslum, og sem hann kom aptur í þessum nýja búningi,

þá var honum borið vín með aldinum og öðru hnossgæti. Tók nú ambáttin gígju sína og söng svo unun var á að hlýða.

Þeir orð mjer völdu vond og sár
Á víls og hryggðar stundu,
Þá vin eg kvaddi og tregatár
Mjer tíð af hvörmum dundu.

En reynt ei hafa þeir nje þekkt,
Hvað þungbært er að skilja,
Hve gremja hjartað grætir frekt,
Þá gengur allt mót vilja.

En sá veit bezt hvað ástin er,
Sem einn í heimsins glaumi,
Vonlaus og hnugginn svalar sjer
Á sárum tárastraumi.

Höfðu allir hið mesta yndi af söngnum og varð yngismaðurinn svo hrifinn, að hann tók gígjuna, sló hina blíðustu hljóma úr strengjum hennar og söng með sætri rödd:

Viljir þú velgjörð hljóta
Veglyndra gakk á fund,
Sem auðs og nægta njóta,
Naum er ei þeirra mund.

Oflætis odd að brjóta
Ef eymdin býður þjer,
Voldugum fall til fóta,
Föllnum það virðing ljer.

Láðskreyti lotning veita
Læging er sízt nje vömm,
En þræla þræll að heita
Það verður jafnan skömm.

Gerðu allir góðan róm að vísum þessum og var nú hin bezt skemmtun, því yngismaðurinn og ambáttin sungu alltaf á víxl og

hættu ekki fyr enn skipið sigldi inn á höfnina. Og sem elskendurnir gengu inn í hús Haskímans, þá sagði hann við yngismanninn: „Tak nú það sem þitt er.“ Yngismaðurinn játti því, en sagði þó um leið, að Haskími yrði fyrst að gefa ambáttinni frelsi, þá kvaðst hann skyldu ganga að eiga hana. Var Haskími fús til þess og gaf hann þeim hús eitt, með öllum búsgögnum og húsbúnaði. Þar að auki gaf hann þeim fimm hundruð gullpeninga og mælti: „Jafnmikið fje og þetta skal eg gefa ykkur á hverjum mánuði með því skilyrði, að þú sjert hjá mjer og skemmtir mjer, og kona þín syngi fyrir mig í hvert skipti sem eg vil.“ Var yngismaðurinn í mörg ár hjá Haskíma og varð svo ríkur, að hann gat nú lifað jafnsælu lífi og fyrrum, er hann dvaldi Bagdad. Guð eyddi raunum þeirra og ljet velgjörðir sínar hrynja í skaut þeim, en tryggð þeirra og þolinmæði bar hinn fegursta ávöxt. Og lýkur svo þessari sögu. Lofað sje nafnið drottins fyrst og síðast. Hann einn er alvitur.

# Frá 946 til 965 nætur.

## Sagan af Abdallah á landi og Abdallah í sjó.

Herra! einusinni var fiskimaður, er Abdallah hjet og hafði mikla fjölskyldu. Hann átti konu og níu börn og var bláfátækur; fiskinetið var aleiga hans. Á hverjum degi, sem guð gaf honum, gekk hann til sjáfar og veiddi fiska. Þegar hann fiskaði lítið, þá seldi hann afla sinn og varði andvirðinu í þarfir barna sinna einsog nauðsyn var til. En þegar hann aflaði vel, þá keypti hann sjer góðan mat og lifði óspart þangaðtil ekkert var eptir. Var hann þá vanur að segja: „Það sem eg þarf á morgun, mun eg fá á morgun.„

Nú ól kona hans eitt barnið enn og átti hann þá tíu börn. En á þessum degi átti hann ekkert í eigu sinni; beiddi konan hann að útvega sjer eitthvað til viðurværis og hressingar. „Eg er nú að leggja á stað ofan að sjónum,“ mælti hann, „og set eg traust mitt til guðs; eg ætla að vita, hvort ekki barnið okkar nýfædda færir heimilinu einhverja heill.“ Þá mælti konan: „Treystu drottni;“

en maðurinn tók net sitt og gekk á burt. þegar hann var kominn ofanað sjáfarmálinu, þá fleygði hann út netinu og mælti: „Ó. drottinn! láttu framfærslu barnsins verða ljetta en ekki örðuga, sendu því alls nægtir, en ekki sorgir!“ þvínæst beið hann stundarkorn og dró upp netið, en það var fullt af steinum, sandi og marhálmi. En enga fiska sá hann í því, hvorki fáa nje marga, Hann kastaði því netinu út í annað sinn og fór á sömu leið; hann reyndi í þriðja, fjórða og fimmta sinn, en aldrei var neitt kvikt í netinu. Reyndi hann því á öðrum stöðum og ákallaði fulltingi drottins; var hann að þessu allt þangað til um kvöldið, en fjekk ekki svo mikið sem eitt seyði. Furðaði hann sig á því og hugsaði með sjálfum sjer: „Hefur drottinn þá ekki ætlað þessu nýfædda barni viðurværi? það get'eg ekki ætlað. því sá sem lauk kjálkunum sundur, hann sjer fyrir því, sem þeir með þurfa, og guð er algóður og elur önn fyrir öllu sem lifir.“ Að svo mæltu tók hann net sitt og gekk heimleiðis hryggur í huga. Hyski hans hafði ekki haft málungi matar þegar hann fór heiman að; kona hans lá enn á sæng og hann gat ekkert fært henni til hugfróar. „Hvað á eg að taka til ráðs?“ hugsaði hann með sjer á leiðinni, „hvað á eg að segja við börn mín í kvöld?“ Leið hans lá fram hjá bakarabúð einni og stóð margt fólk fyrir utan hana. þá ljet illa í ári og voru fæstir byrgir af matvöru. Voru menn að fala brauð af bakaranum og buðu honum peninga fyrir, en hann gegndi engum, því ösin var svo gríðarleg. Fiskimaður stóð álengdar glorhungraður og lagði að honum ilminn af brauðunum glóðvolgum. Varð bakaranum litið til hans og kallaði á hann: „Komdu hingað, fiskimaður!“ Kom þá Abdallah nær og sagði bakarinn við hann: „Langar þig í brauð?“ Fiskimaðurinn svaraði engu. „Segðu til,“ mælti bakarinn, „og vertu ekki svona feiminn; guð er algóður. þó þú ekki hafir peninga á þjer, þá skal eg samt láta þig fá brauð, og skal eg bíða þig um borgunina þangað til þjer bætist fje.“ „Hamingjan veit að eg er fjelaus,“ svaraði Abdallah, „en láttu mig fá brauðið, svo eg geti saðt hungur konu minnar og barna; eg skal fá þjer netið mitt að veði þangaðtil á morgun.“ „Veslings maður!“ svaraði bakarinn, „netið er lás og lykill atvinnu þinnar, og með hverju ætlarðu að fiska, ef þú setur það að veði? hversu mikils brauðs þarftu með?“

„Svo sem fyrir tíu peninga," ansaði Abdallah, og fjekk þá bakarinn honum brauðið og tíu peninga að auki, og mælti: „Láttu nú sjóða þjer góðan mat fyrir skildinga þessa og borgaðu mjer svo skuld þína á morgun í fiski. En þó þú ekkert veiðir, þá komdu samt til mín og skal eg aptur gefa þjer brauð og tíu peninga. Eg skal líða þig þangaðtil þú getur borgað." Þá mælti Abdallah: „Drottinn launi þjer og umbuni með öllu því sem gott er; blessað sje nafnið drottins." Því næst tók hann brauðið og peningana og gekk glaður á burt. Keypti hann þá ýmislegt matarkyns sem hægast var að bera og kom heim til konu sinnar. Hitti hann svo á að hún var að þagga niður í börnunum, er þau grjetu af sárum sultinum, og heyrði hann að hún sagði við þau: „Nú kemur hann faðir ykkar undireins og færir ykkur eitthvað að borða." Og sjá! þegar hann var inn kominn, þá lagði hann brauðið frá sjer og borðuðu þau það með beztu lyst; sagði hann konu sinni allt sem farið hafði. „Mikil er miskunn drottins," sagði hún.

Daginn eptir tekur Abdallah aptur net sitt, gengur út og biðst fyrir: „Ó drottinn! gefðu mjer í dag það sem eg með þarf, svo eg ekki þurfi að bera kinnroða fyrir bakaranum." Þegar hann var kominn ofan að sjáfarmálinu, þá kastaði hann út neti sínu og svo gerði hann hvað eptir annað allan daginn, en aflaði einskis. Fór hann þá sorgbitinn heim til sín og gekk fram hjá bakarabúðinni einsog fyrr. Hann gat ekki sneytt hjá bakaranum og ásetti sjer því að greiðka sporið svo hann ekki tæki eptir sjer. En er hann var kominn nálægt bakarabúðinni, sá hann fjölda fólks standa þar fyrir utan og flýtti hann sjer þá til þess að hann gæti sloppið fram hjá, svo bakarinn ekki sæji. En hann hafði komið auga á hann og kallaði til hans: „Fiskimaður! komdu og taktu við brauðinu þínu og skildingunum, þú hefur líklega gleymt því." „Ó nei, herra!" ansaði Abdallah, „en eg skammaðist mín fyrir þjer, því eg hef ekkert fiskað í dag." „Ekki skaltu skammast þín fyrir það," mælti bakarinn, „sagði eg þjer ekki að þú mættir fresta borguninni þangaðtil þjer fjenaðist?" Fjekk hann honum því næst brauðið og peningana einsog daginn áður og flýtti Abdallah sjer með það til konu sinnar og sagði henni einsog fyrri hvernig farið hafði. „Guð er algóður," mælti hún, „þegar honum þóknast mun

þjer auðnast að borga allt, sem aðrir eiga hjá þjer.“ Abdallah fór nú til fiskiveiða í fjörutíu daga og fjekk aldrei skepnu úr sjó. En bakarinn gaf honum samt alltaf brauð og peninga og minntist aldrei á skuld hans. En færi Abdallah að vekja máls á því, þá sagði hann: „Sleppum því núna; það er ekki kominn tími til þess ennþá. Við skulum bera saman reikninga okkar þegar þjer fer að ganga betur.“ Fiskimaður þakkaði bakaranum velgjörðir hans og bað honum alls góðs. Þegar hinn fertugasti og fyrsti dagur kom að hendi, sagði Abdallah konu sinni, að nú ætlaði hann að skera í sundur netið og hætta við atvinnu sína. „Því þá?“ mælti hún. „Af því mjer virðist,“ mælti hann, „sem eg ekki geti haft ofanaf fyrir mjer með fiskiveiðum. Hvað lengi á slíku fram að fara? Guð veit að eg skammast mín ofaní hrúgu fyrir bakaranum, og því mun eg nú aldrei framar ganga ofan til sjáfar og aldrei framhjá bakarabúðinni. Mjer er lífs ómögulegt að komast undan bakaranum, því í hvert skipti sem eg geng framhjá búðinni, þá kallar hann á mig og gefur mjer brauð og peninga. Hvað lengi á eg að vera að safna skuldum hjá honum?“ „Guði sje lof fyrir það,“ svaraði konan, „að hann hefur hrært hjarta bakarans, svo að hann gefur þjer brauð. Hvað þykir þjer að því?“ „Eg er nú orðinn honum stórskuldugur,“ mælti Abdallah, „og hann mun vafalaust krefja mig um fje sitt.“ „Hefur hann þá móðgað þig með orðum sínum?“ spurði konan, en Abdallah kvað nei við og mælti: „Hann hefur aldrei viljað telja saman það, sem hann á hjá mjer, en alltaf sagt, að nógur væri tíminn þangaðtil hagur minn batnaði.“ „En skyldi hann krefja þig,“ mælti konan, „þá þarftu ekki annað enn að segja: Bíddu þangaðtil hagur minn batnar einsog við báðir vonumst eptir.“ „Og nær ætli það verði?“ sagði Abdallah. „Guð er algóður,“ ansaði konan. „Þú segir satt,“ mælti hann. Tók þá Abdallah net sitt, gekk ofan til sjáfar og baðst fyrir: „Herra! gef mjer einn fisk, þó ekki sje meira, svo eg geti fært hann bakaranum!“ Að svo mæltu fleygði hann út netinu, og var það ákaflega þungt fyrir er hann ætlaði að draga það upp. En þangaðtil var hann að stritast við, að hann fjekk bisað því upp á land, en þá var ekki annað í því enn asnahræ og lagði af því megnan ódaun. Hryggðist hann við það, losaði hræið úr netinu og mælti: „Hvergi er vald nje máttur

nema hjá guði hinum mikla og háleita. Eg sagði við konu mína í gremju, að sjórinn vildi ekki fæða mig, og að eg ætlaði að hætta allri fiskimennsku, en hún taldi mjer hughvarf með þessum orðum sínum: „Guð er algóður og mun senda þjer blessun.“ Er þá asnahræið þessi blessun?“ Fór hann því áhyggjufullur á annan stað lengra í burt til að flýja ódauninn af asnanum og kastaði aptur út neti sínu. Dró hann það upp að stundarkorni liðnu og var það þá svo heljarþungt, að lófar hans urðu blóðugir af dráttinum. Og sem hann hafði togað netið upp á sjáfarbakkann, þá sá hann að í því var skepna svipuð manni. Hugði hann þá, að þar mundi kominn einn af öndum þeim, er Salómon konungur lokaði niður í eirker og varpaði í sjáfardjúp; hjelt hann að kerið, sem hann var í, hefði dottið í sundur fyrir elli sakir og andinn svo flækzt í netið. Flýði því Abdallah hræddur og kallaði: „Vægðu mjer! vægðu mjer andi!“ En skepnan kallaði til hans úr netinu: „Komdu fiskimaður! hlauptu ekki burt, því eg er maður einsog þú. Eg skal launa þjer vel, ef þú losar mig úr netinu.“ Við þetta fór hræðslan af fiskimanninum og mælti hann: „þú ert þá ekki andi?“ „Nei!“ svaraði hinn, „eg trúi á guð og spámenn hans.“ „Hversvegna varstu þá í sjónum?“ spurði Abdallah. „Eg er eitt af börnum hafsins,“ svaraði hinn, „eg var á gangi niðrí sjónum, en í sama bili varpaðirðu netinu yfir höfuð mjer. Við marbendlarnir hlýðum boðorðum guðs og erum velviljaðir öllum lifandi skepnum. Mjer hefði verið hægt að rífa sundur netið þitt, en mjer þókti uggvænt að sýna mótþróa. Eg tek með glöðu geði öllu, sem guð hefur ályktað mjer til handa. þegar þú ert búinn að leysa mig, þá verður þú herra minn, en eg bandingi þinn. En viljir þú gefa mjer frelsi og gera sáttmála við mig, báðum okkur til ánægju, þá skaltu færa mjer hingað á degi hverjum ávexti, sem á landi gróa. þið landbúarnir hafið vínþrúgur, epli, kjarnepli, sítrónur, melónur og fleira þesskyns. Aptur höfum við kóralla, smaragða, hýasinta og aðra gimsteina, og í hvert sinn er þú færir mjer fulla körf af ávöxtum, þá skal eg aptur fylla hana handa þjer með dýrindis gimsteinum. Hvernig lízt þjer á það, bróðir minn!“ Fiskimanni leizt vel á það og hjetu þeir hver öðrum að halda sáttmála þenna. þá losaði fiskimaður bandingja sinn úr netinu og spurði hann að nafni, en hann svaraði:

„Eg heiti Abdallah í sjó; þegar þú kemur hingað og finnur mig ekki, þá þarftu ekki annað enn kalla: „Hvar ertu Abdallah í sjó?“ og mun eg þá koma. En hvert er nafn þitt?“ „Eg heiti líka Abdallah,“ svaraði fiskimaður. „Þú ert þá Abdallah á landi,“ mælti marbendillinn, „en eg er Abdallah í sjó. Bíddu mín hjerna meðan eg sæki þjer gjöf.“ Að svo mæltu steyptist Abdallah marbendill ofaní öldurnar, og iðraðist þá fiskimaðurinn, því hann var hræddur um að marbendillinn mundi aldrei koma aptur. Sagði hann þá við sjálfan sig: „Hann gerir bara háð að mjer, fyrir það að eg slepti honum. Hefði eg haldið honum föstum, þá hefði eg getað grætt margan skilding á að sýna mönnum hann í borginni.“ Og sem hann var að naga sig í handarbökin út úr þessu, þá kom Abdallah aptur uppúr sjónum með fullar lúkurnar af perlum og kóröllum, smarögðum og hýasintum. Rjetti hann þær að fiskimanni og mælti: „Reiðstu mjer ekki, bróðir minn! en eg á enga körf í eigu minni. Hefði eg átt körf, þá skyldi eg hafa kúffyllt hana handa þjer.“ Varð nú fiskimaður sárfeginn einsog nærri má geta. Lofaði nafni hans, marbendillinn, að hann skyldi hitta hann á degi hverjum fyrir sólaruppkomu þarna á sama stað; þvínæst kvaddi hann fiskimann og stakk sjer niður í sjóinn. Gekk nú fiskimaður heim í borgina og var hreifur og kátur. Þegar hann var kominn að búðinni bakarans, þá gekk hann til hans og mælti: „Bróðir kær! eg hef hreppt mikið happ og er nú tími til kominn að eg lúki þjer skuld mína.“ „Það er óþarfi,“ ansaði bakarinn; „getirðu látið mig fá nokkuð, þá láttu mig fá það, og hafirðu ekkert, þá taktu brauðið þitt og skildingana einsog að undanförnu og láttu það gott heita þangaðtil hagir þínir batna.“ Þá mælti Abdallah fiskimaður: „Guð hefur miskunað mjer og sent mjer blessun. Þú átt hjá mjer mikið fje, taktu nú við þessu í staðinn.“ Þar með rjetti hann bakaranum handfylli sína af perlum og gimsteinum, helfing þess er hann átti, og mælti: „Láttu mig fá nokkra peninga til útgjalda minna þangaðtil eg get selt gimsteina þessa. Fjekk bakarinn honum alla þá peninga, er hann hafði fyrir hendi, og allt það brauð, er hann hafði í körf sinni; þakkaði hann Abdallah fiskimanni og mælti: „Eg er þjónn þinn og þræll.“ Bar hann brauðkörfina heim fyrir Abdallah, fór síðan út á torg og keypti aldin og akurmeti; var hann allan þann dag hjá honum og

þjónaði honum. En Abdallah fiskimaður færðist undan og mælti: „Bróðir minn! þú hefur haft of mikið umstang mín vegna.“ „Það var aldrei nema skylt,“ ansaði bakarinn, „því góðsemi þín hefur blessað mig með allsnægtum og er eg orðinn þjónn þinn.“ „En þú varst velgjörðamaður minn þegar eg var í kröggum,“ mælti Abdallah. Var nú bakarinn hjá honum allt til kvölds í góðum fögnuði og gerðust þeir mestu mátar.

Fiskimaður sagði konu sinni frá því, er farið hafði ámilli hans og Abdallah marbendils, og fjekk það henni mikillar gleði. Rjeði hún manni sínum til að þegja yfir leyndarmáli þessu, svo að jarlinn þar í landi ekki skyldi skerða hlut hans. Kvaðst fiskimaður ekki heldur mundu láta nokkurn mann vita af því nema bakarann einann. Um kvöldið hafði hann fyllt körf eina með allskonar ávöxtum. Reis hann á fætur árdegis næsta morgun og gekk ofanað sjó með körfina, lagði hana niður á sjáfarbakkann og kallaði: „Hvar ertu, Abdallah í sjó?“ þá gall við raust er sagði: „Hjer er eg; hvað býður þú að eg skuli gera?“ og í sama bili kom Abdallah til hans upp úr sjónum. Rjetti fiskimaður honum aldina körfina, en hann tók við og sökk niður með hana. Að stundarkorni liðnu kom hann aptur með körfina fulla af allskonar gimsteinum. Abdallah fiskimaður brá henni þá upp á höfuð sjer og gekk heim til borgarinnar. Og sem hann gekk fram hjá bakarabúðinni, þá kallaði bakarinn til hans: „Herra! eg hef bakað handa þjer fjörutíu kryddkökur og sent þær heim til þín, en nú ætla eg að baka brauð handa þjer úr hinu smágjörvasta mjöli og færa þjer þegar það er tilbúið; eg ætla líka að sækja þjer kjöt og kálmeti.“ Abdallah gaf þá bakaranum þrisvar handfylli sína úr körfinni og fór síðan leiðar sinnar. En er hann var kominn heim, þá valdi hann úr þá steina, sem dýrmætastir voru af hverri tegund og fór með þá til kauptorgs, þar sem gimsteinasalar höfðu búðir sínar. Gekk hann til þess, er æztur var af kaupmönnum þessum og bauð honum gimsteina sína. Kvaðst hann vilja sjá þá og sýndi Abdallah honum þá steinana. Varð þá gimsteinasalinn hissa og spurði, hvort hann ætti fleiri slíka. „Eg á fulla körf af slíkum steinum,“ svaraði Abdallah. „Hvar eigið þjer heima?“ mælti gimsteinasalinn og læsti greipum sínum fast um steinana. Fiskimaður sagði honum það. Skipaði kaupmaðurinn þá

þjónum sínum að taka hann fastan, því hann væri þjófur sá, er stolið hefði frá drottningunni. þvínæst ljet hann lemja hann, og binda hendur hans á bak aptur, og að svo búnu fór hann með hann til konungs. Fylgdu honum allir kaupmennirnir og sögðu: „Hjer höfum við þjófinn; það er óhugsandi, að nokkur annar hafi stolið frá drottningunni enn þessi þorpari;“ var og dróttað að honum öðrum þjófnaði, en Abdallah þagði við öllu, þangaðtil hann var kominn á fund konungs. þá mælti yfirmaður gimsteinasalanna: „þú konungur veraldarinnar, þegar hálsmeni drottningar var stolið, þá sendir þú mann til að segja oss það og skipaðir oss að leita upp þjófinn. Eg hef nú lagt mig mjög í líma, enda hef eg fundið þann, er stuldinum veldur. Hann stendur nú hjer frammi fyrir þjer og eru gimsteinar þessir frá honum.“ Skipaði konungur þá höfuðsmanni geldinganna að sýna drottningu gimsteinana og spyrja hana, hvort hún ætti þá. Fór geldingurinn þegar og sýndi henni gimsteinana. Dáðist hún að þeim, en kvaðst hafa fundið hálsmen sitt, og ætti hún ekki gimsteina þessa. Sagði hún að þeir væru miklu fegri enn þeir, er í meninu voru, og beiddi hann að sýna eigandanum enga rangsleitni. Kvaðst hún mundu kaupa steinana ef hann vildi selja, og mundi hún láta búa til úr þeim hálsmen handa dóttur sinni. þegar höfuðsmaður geldinganna færði konungi þetta svar, þá varð hann afarreiður sakaráberanum og öllum þeim, er komnir voru með honum. Sögðu þeir þá með auðmýkt: „Voldugi konungur! vjer vissum ekki annað enn að maðurinn var fátækur fiskimaður, og hjeldum vjer að hann gæti eigi átt slíka dýrgripi. Fyrir þá sök hugðum vjer að þeir væru stolnir.“ En konungur veitti þeim átölur og mælti: „Haldið þið ekki, þorpararnir! að hver rjetttrúaður maður geti eignast það sem gott er? því spurðuð þið hann þá ekki fyrst? hver veit nema drottinn hafi blessað hann þegar hann sízt átti von á. Hvernig gátuð þið þýfgað hann svona ófyrirsynju og misþyrmt honum einsog þjóf? Snáfið burt úr augsýn minni og flýji ykkur öll guðs blessun.“ Gengu þeir þá burt óttaslegnir. En er þeir voru farnir, segir konungur við fiskimann: „Guð leggi blessun sína yfir allt það, er hann hefur veitt þjer! En seg mjer nú, hvernig komstu að dýrgripum þessum? Segðu sannleikann, því eg er konungur og á þó ekki slíkar gersemar.“ þá mælti

Abdallah: „Herra! eg á fulla körf af þeim og er eg kominn að þeim á þessa leið.“ Þvínæst sagði hann konungi frá viðskiptum sínum við Abdallah marbendil og sáttmála þeim, er þeir höfðu fest sín ímilli. Hlýddi konungur á sögu hans með athygli og undraðist mjög. En er hann hafði lokið sögu sinni, þá tók hann þannig til máls: „Slíkum auðæfum verður mikil mannvirðing að fylgja og skal eg búa svo í haginn fyrir þig, að þú verðir ekki öðrum háður. Nú gæti svo farið, að eg dæji eða yrði rekinn úr löndum mínum og kynni þá einhver að myrða þig til fjár. Er það því ósk mín, að þú gangir að eiga dóttur mína og verðir vezír minn, en erfir ríki mitt að mjer látnum.“ Því næst skipaði konungur þrælum sínum að fylgja Abdallah til lauga; þeir gerðu svo, þvoðu hann og smurðu og færðu hann í nýjan og skrautlegan búning, sem konungi sæmdi að bera; fóru síðan með hann til konungs og tók hann þá við vezírs embættinu. Sendi konungur eptir konu hans og börnum. Fóru höfuðverðir konungs og hirðfrúrnar heim til hans, og var þá fiskimanns konan færð í dýrustu skrautklæði og sömuleiðis börn hennar; voru þau síðan borin til konungshallarinnar í burðarstól, en höfuðverðir, hirðmenn og geldingar gengu á undan. Var farið með börn þeirra hjóna til konungs; sýndi hann þeim virðingu mikla, setti þau á knje sjer og fjekk þeim síðan sæti hjá sjer. Níu af börnum þessum voru sveinbörn en hið tíunda meybarn. Var konungur sjálfur sonlaus, og var dóttir hans, sem fyr var nefnd, einkabarn hans. Drottning gerði og virðuglega til konu Abdallah og veitti henni veglegt embætti við hirð sína. Konungur lagðist ekki undir höfuð að semja hjónasáttmála Abdallah og dóttur sinnar. Abdallah gaf henni í brúðgjöf alla gimsteina, er hann átti, og var haldin almenn hátíð um alla höfuðborgina þá er brúðkaup þeirra fór fram. Morguninn eptir brúðkaupið sat konungur snemma dags við glugga og sá tengdason sinn ganga fram hjá með aldina körf á höfði sjer. Kallaði hann þá til hans og mælti: „Hvað á þetta að þýða? hvert ætlarðu að fara?“ „Til vinar míns,“ svaraði Abdallah, „til hans Abdallah í sjó, svo hann sjái að eg man, hverju eg hef heitið honum og hann mjer.“ Konungur kvað það vera rjett gert og fór Abdallah leiðar sinnar. En nú þekkti lýðurinn hann og sagði hver við annan: „Þarna fer tengdasonur kon-

ungs að sækja sjer gimsteina fyrir ávexti sína. Gerði hann það í tíu daga samfleytt, en í hvert skipti sem hann gekk framhjá bakara búðinni, þá var henni lokað. Þókti honum það kynlegt einsog von var, og fór hann því á hinum tíunda degi til nábúa bakarans og spurði þá, hvernig á því stæði. Sögðu þeir honum að bakarinn væri sjúkur. Spurðist þá Abdallah fyrir hvar hann byggi, og fór þangað samstundis og drap á dyr. Og sjá! bakarinn gægðist útí gluggann og sá hvar góðvinur hans stóð fyrir utan dyrnar með körfina á höfðinu. Flýtti hann sjer þá ofan til dyra og lauk upp; faðmaði Abdallah hann að sjer, spurði hvernig honum liði og sagði honum, hversu hann hefði orðið hugsjúkur hans vegna, þegar hann heyrði að hann væri veikur. Þakkaði bakarinn honum innilega fyrir hlutdeild þá, er hann tæki í högum sínum, og kvaðst hann eigi hafa verið sjúkur, en orðið frá sjer af kvíða þegar hann heyrði að farið var með Abdallah til konungs. Þessvegna sagðist hann hafa lokað búðinni og falið sig í húsi sínu. Sagði Abdallah honum þá, hversu farið hafði, er hann kom til gimsteinasalanna og hversu þar af leiddi, að hann kom á konungsfund og varð vezír hans og dótturmaður. Gaf hann síðan bakaranum allt, sem var í körfinni. En er Abdallah kom tómhentur heim til hallarinnar, þá spurði konungur, hvort hann hefði ekki fundið Abdallah í sjó. Abdallah á landi sagði honum þá, að hann hefði gefið bakaranum, vin sínum, það sem hann fjekk hjá marbendlinum. Innti þá konungur eptir, hver bakari þessi væri, og sagði Abdallah honum frá góðgjörðasemi hans og hversu mikið gott hann ætti honum upp að unna. „Hvert er nafn hans?“ spurði konungur. „Hann heitir: Abdallah bakari,“ svaraði Abdallah á landi, „en hinn vinurinn heitir: Abdallah í sjó.“ „Og eg heiti líka Abdallah,“ mælti konungur, „og allir þjónar drottins*) eru bræður. Sendu því eptir vin þínum bakaranum; eg ætla að gera hann að öðrum vezír mínum.“ Var nú bakarinn sóktur til hirðarinnar og gerði konungur hann að vinstra vezír sínum, en Abdallah var hægri vezír hans.

Nú hafði Abdallah á landi í heilt ár útvegað sæbúanum, vin sínum ávexti. Þegar ekki voru til nýlesin aldin þá færði hann

*) Abd Allah þýðir: drottins þjónn.

honum þurkaða ávexti og tók hann jafnan við því öllu og ljet dýrgripi hafsins í staðinn. það var einhvern morgun er Abdallah fiskimaður hafði farið til sjáfar með körf sína; sat hann á landi og var að skeggræða við Abdallah marbendil þar sem hann hnipraði sig í sjónum. þeim varð tilræðt um legstaði og sagði þá Abdallah í sjó: „Bróðir minn! það er sögn manna, að spámaðurinn sje greptraður á landi uppi hjá ykkur. Veiztu þá hvar hann er grafinn?“ „Já!“ mælti Abdallah á landi, „hann er grafinn í borginni Teybeh.“ „Sækja þá rjetttrúaðir menn til legstaðar hans?“ mælti Abdallah í sjó. Abdallah á landi kvað já við því; þá mælti marbendillinn: „það er ykkur til fagnaðar og hamingju, sem á landi búið, að þið megið vitja legstaðar þessa veglynda, blessunarríka og miskunsama spámanns og verðið þannig hans árnaðar aðnjótandi. Hefur þú sjálfur komið þangað?“ „Nei,“ svaraði Abdallah á landi, „eg var alltaf fátæklingur, örsnauður og öðrum háður, þangað til eg kynntist þjer og þú gerðir mig að lánsmanni. En nú er mjer næsta hugleikið að vitja legstaðar hans í hinu heilaga húsi drottins, og aptrar mjer ekki annað enn samband mitt við þig, því eg má engan dag við þig skilja?“ Abdallah marbendill ámælti honum þá fyrir að hann virti sig umfram spámanninn, og gæti hann þó frelsað hann úr eldinum og hjálpað honum til himnaríkis. En Abdallah leitaðist við að mæla sjer bót og beiddi vin sinn orlofs. Abdallah marbendill gaf honum það undireins og mælti: „Ber þú legstað hans kveðju mína þegar þú kemur til hans. En eg hef helgigjöf nokkra og viljir þú koma með mjer niður í sjóinn, þá skal eg sýna þjer borgina, sem eg bý í, og húsakynni mín; skal eg þar veita þjer vel og fá þjer það, er þú átt að leggja á gröf spámannsins og mæla svofeldum orðum: „Ó þú postuli drottins! Abdallah marbendill sendir þjer kveðju sína með gjöf þessari og biður hann þig að varðveita sig fyrir eldinum.“ Abdallah á landi barði því við, að hann væri ekki fæddur í sjó, og væri sjer þar ekki líft, einsog Abdallah í sjó mundi ekki heldur þola við á landi. Hinn kvað það satt vera og mælti: „Á landi mundi eg að vísu þorna upp og deyja, þegar landvindarnir færu að leika um mig.“ „Viðlíkt mundi fara fyrir mjer í sjónum,“ sagði Abdallah á landi, „og mundi eg víst kafna.“ Marbendillinn kvað

hann ekki þurfa að hræðast það. Kvaðst hann mundu færa honum smyrsli og skyldi hann núa þeim á líkama sinn; mundi þá ekki vatn fá grandað honum, þó hann ætti að lifa í sjó það sem eptir væri æfinnar. „Þú munt vaka, sofa og hafa þar alla hentisemi þína einsog á landi,“ mælti Abdallah í sjó, „og mun ekkert verða þjer að grandi.“ Abdallah á landi ljet nú til leiðast að reyna þetta.

Abdallah marbendill tók við körfinni og stakk sjer; kom hann aptur með gulleita feiti og lagði af henni þægan ilm. Spurði Abdallah á landi, hvað það væri, og sagði marbendillinn honum, að feiti þessi væri úr lifur fiskjar nokkurs, sem væri allra fiska stærstur og hinn versti meinvættur sæbúa; kvað hann vera stærra enn nokkurt landdýr og mundi hann geta gleypt í sig heilan fíl. „Á hverju lifir ókind þessi?“ spurði Abdallah á landi. „Hún lifir á sjódýrum,“ svaraði Abdallah marbendill, „hefurðu ekki heyrt það, að í sjónum gleypa stærri fiskarnir hina minni?“ „Satt er það,“ ansaði Abdallah á landi, „en eru þá margir slíkir fiskar til í sjónum?“ „Þá getur enginn talið nema guð einn,“ svaraði Abdallah í sjó, „blessað sje nafnið drottins.“ „Eg kvíði því mjög,“ mælti hinn,“ að einhver þeirra verði á vegi mínum og gleypi mig þegar eg fer með þjer ofaní sjóinn.“ „Vertu óhræddur,“ mælti Abdallah í sjó, „því undireins og hann sjer þig, þá veit hann að þú ert Adams-niðji og leggur á flótta. Hann hræðist ekkert í sjónum eins mikið og menn; undireins og hann gleypti mann, þá mundi hann deyja, því öll mannsfita er banvænt eitur fyrir þesskonar fiska. Enda náum við aldrei lifrarfeiti fiska þessara, nema þegar einhver þeirra hefur glæpzt á líki sjódauðs manns, sem ókennilegt hefur orðið í sjónum, og etið af því; deyja þeir þá og getum við svo náð þeim. Þessir ógurlegu fiskar deyja líka þegar þeir heyra manns rödd niðrí sjónum hvað margir sem eru í nánd.“ „Þá fel eg mig guði á vald,“ mælti Abdallah á landi, fór úr fötunum og faldi þau í gjótu einni á ströndinni; því næst smurði hann sig með feitinni frá hvirfli til ilja, fór útí sjóinn og kafaði niður til grunns með vin sínum. Þá lauk hann upp augum sínum og fann að vatnið var honum alls ekki til óhagræðis; hann fór til ýmsra hliða, skaut sjer ýmist upp eða kafaði niður rjett einsog honum líkaði, og þókti honum sjórinn yfir sjer vera til að líta einsog tjald. Þá

mælti Abdallah marbendill: „Hvað sjerðu, bróðir minn?“ „Eg sje það sem gott er,“ svaraði hinn, „þú sagðir satt bróðir minn! sjórinn er mjer ekki til meins.“ Abdallah marbendill beiddi hann nú að fylgja sjer og hjeldu þeir æ lengra og lengra áfram. Hafði Abdallah landbúi mikla skemmtun af að sjá sjóinn allt umhverfis sig og hinn ótölulega fiska grúa, smárra og stórra, er ljeku sjer í honum. Voru þar margir áþekkir vísundum, sumir hundum og sumir mönnum, en allir stukku þeir undan þegar þeir sáu landbúann Abdallah koma. Spurði hann Abdallah marbendil, hverssvegna þeir flýðu og svaraði hann: „Af því þeir hræðast þig, bróðir minn! því allt, sem drottinn hefur skapað, hræðist Adams niðja.“ Komu þeir loksins að fjalli einu miklu og gengu upp eptir því. Í sama bili heyrði Abdallah landbúi hræðilegt öskur og leit hann þá í kringum sig; sá hann þá eitthvað svart er svipaði ofanað honum. Var það geysimikið um sig og stærra enn úlfaldi; spurði hann leiðsaga sinn, hvað það væri, en hann svaraði: „Bróðir minn! það er einn af illfiskunum, sem eru oss svo skæðir; — hann eltir mig, — æ! kallaðu til hans áður enn hann nær mjer, annars er mjer dauðinn vís.“ Abdallah á landi hóf þá raust sína og datt óvætturinn í sama vetfangi dauður niður á mararbotn. Og er Abdallah landbúi sá þetta, þá mælti hann: „Lofaður sje algjörleiki drottins! eigi hjó eg þó meinvætt þenna með hvössu sverði nje stakk hann með kníf. Hvernig er því varið, að slík heljarskepna skuli ekki standast raust mína?“ „Furðaðu þig ekki á því,“ mælti Abdallah sæbúi, „því vita skaltu, að þó þúsund eða tvær þúsundir þeirra væri saman, þá mundu þeir samt ekki þola raust eins Adams niðja.“

Nú komu þeir fjelagar í borg eina; bjuggu þar aðeins konur og meyjar, en engir karlmenn. Abdallah landbúi undraðist það mjög og sagði þá sæbúinn, að þetta væri kvenna borgin og byggju í henni hafmeyjar þær, er sækonungur hefði vísað þangað í útlegð, og færi nokkur þeirra burt úr borginni, þá yrði hún sjóarskrímslum að bráð. En í hinum öðrum borgum bjuggu saman konur og karlar. Virti Abdallah hafmeyjar þessar fyrir sjer og voru andlit þeirra áþekk tungli, en hár þeirra var einsog á mennskum konum. Þær höfðu handleggi og fætur, og voru á þeim stórir

sporðar einsog á fiskum. En er hann hafði horft á þær einsog hann vildi, þá leiddi Abdallah marbendill hann til annarar borgar, og bjuggu þar bæði karlar og konur. Var það fólk eins skapað og hitt. Spurði þá Abdallah landbúi fjelaga sinn, hvernig hjúskapnum væri háttað þar í sjónum. Sagði hann að giptingar væru ekki almennar, því trúarbrögð væru þar margvísleg. Væru þar bæði átrúendur Mahómets, Gyðingar og kristnir, auk annara trúarflokka, en einkum væru það dýrkendur Mahómets, sem giptust. Skyldi hver maður, sem kvongast vildi, gjalda morgungjöf í fiskum, og skyldi hann veiða eina eða tvær þúsundir fiska, allt eptir samkomulagi við föður brúðarinnar. „þegar hann greiðir það, sem áskilið er,“ mælti Abdallah sæbúi, „þá fer allt ættfólk brúðarinnar og brúðgumans til veizlu og er honum þá fylgt til konu sinnar. Veiðir hann síðan fiska og stendur straum af henni, en sje hann ekki þess um kominn, þá veiðir hún fiska og sjer fyrir honum.“ Abdallah sæbúi fylgdi nú gesti sínum til annarar borgar og síðan til fleiri borga, þangaðtil hann var búinn að sýna honum áttatíu borgir og ný undur í hverri. En nú var Abdallah af landi búinn að vera áttatíu daga í sjó niðri og hafði ekki fengið aðra fæðu enn hráan fisk, því annað var ekki fyrir hendi; varð hann nú leiður á því og spurði Abdallah sæbúa, því hann hefði ekki ennþá fylgt sjer í borg sjálfs síns. „það er drjúgur spölur þangað.“ ansaði hann, „því hún er nálægt ströndinni þar sem við lögðum á stað. Fóru þeir því þangað aptur og fylgdi Abdallah sæbúi nafna sínum til borgar þeirrar, er hann átti heima í; var hún heldur lítil í samanburði við hinar. Gengu þeir þar inní helli og mælti Abdallah sæbúi: „þetta er nú húsið mitt. Svona eru öll húsakynni hjer, að þau eru grafin inní kletta. þegar einhver vill fá sjer hús, þá fer hann til konungs og segir, að hann vilji eiga sjer hús á tilteknum stað. Sendir þá konungur fiskahjörð og eru þeir fiskar með trjónum; mola þeir klettana sundur með þeim og fá ákveðna fiskatölu að verkalaunum. Hola þeir innan klett þann, sem þeim er á vísað, og gera húsakynni einsog til er ætlast, en sá, sem hefur þá í vinnu, veiðir fiska handa þeim og fæðir þá þangaðtil þeim er sleppt burt að aflokinni smíðinni. Svo gera allir, sem hjer búa, en kaupskapar viðskipti eru hjer engin, og þjónar enginn öðrum, heldur

verða fiskar að vinna allt og eru þeir líka hafðir til matar.“ En er þeir voru komnir inní híbýli Abdallah í sjó, þá kallaði hann á dóttur sína og kom hún þegar; var andlit hennar búlduleitt og kringlótt einsog fullt tungl, hár hennar var sítt og dökkir baugar kringum augun; hún var vel vaxin, en hafði sporð einsog fiskar. Og sem hún leit Abdallah landbúa, þá mælti hún við föður sinn: „Hver er þessi sporðlausa skepna, sem þú hefur með þjer?“ „Dóttir góð!“ svaraði hann, „það er vinurinn, sem eg eignaðist á landi, það er hann, sem útvegaði mjer aldinin, er eg hef fært þjer hingaðtil; komdu og heilsaðu honum!“ Færði hún sig þá nær og heilsaði Abdallah með liðugu tungutaki; því næst bar hún tvo stóra fiska á borð fyrir hann eptir skipun föður síns. Þrýsti hungrið honum til að neyta þessarar fæðu, því ekki var á betra völ. Að stundarkorni liðnu kom inn kona Abdallah marbendils með tvö börn, og hjelt hvert um sig á smáfisk og stýfði úr hnefa. Þegar þau sáu Abdallah landbúa, þá urðu þau hlessa á að hann skyldi vera sporðlaus, gláptu á hann frá öllum hliðum og skellihlóu að honum. Spurði þá Abdallah af landi nafna sinn, hvort hann hefði farið með sig hingað til þess að láta konu sína og börn sín hafa sig að háði og narri. En hinn beiddi hann fyrirgefningar og sagði að hann mætti ekki taka hart á hyski sínu fyrir þetta, því það vissi ekki hvað það gerði, vegna þess þar í sjónum hjá þeim væru engir sporðlausir menn. Skipaði hann þeim þá að þegja og gerðu þau svo.

Meðan þau sátu þarna og voru að skrafa saman, þá gengu þar inn tíu menn, miklir og göfuglegir og mæltu: „Abdallah! konungi vorum er sagt, að þú hafir í húsum þínum landbúa einn sporðlausan.“ Abdallah kvað svo vera og mælti: „Hann er gestur minn og ætla eg nú að flytja hann aptur til lands.“ Svöruðu sendimenn, að þeir yrðu að fara með hann til konungs, og ef Abdallah mótmælti því, þá yrði hann að fara líka og tala við konung. Abdallah marbendill leiddi þá gesti sínum fyrir sjónir, að öll mótmæli væru til einskis og væri óhæfa að standa í gegn vilja konungs. Skyldi hann vera óhræddur, því konungur mundi vafalaust sleppa honum, þegar hann heyrði að hann væri kominn af landi og gæti ekki eingöngu lifað á hráum fiski niðri í sjónum. „Þú ræður,“ mælti Abdallah af landi, „eg set allt mitt traust til drottins.“ Fóru þeir

nú báðir til konungs, en undireins og hann sá Abdallah landbúa, þá rak hann upp skellihlátur og tók hirðin undir og sögðu allir: „Satt er það að hann er sporðlaus.“ Abdallah marbendill gekk þá til konungs, sagði honum hvernig stæði á gesti sínum og beiddi hann að leyfa honum að fara heim aptur til lands. Var konungur því eigi mótfallinn úr því svo stóð á. „Fyrst hann ekki getur lifað hjá okkur,“ mælti konungur, „þá máttu fylgja honum þangað sem hann á heima, en fyrst ætla eg samt að halda honum veizlu.“ Sagði hann nú þjónum sínum fyrir og voru fram reiddir allskonar fiskar, sem fjölbreyttir vóru að lit og lögun; neytti Abdallah af þeim fyrir hlýðni sakir við konung. Eptir það skipaði konungur honum að beiðast einhvers, sem honum væri hugleikið. Beiddi Abdallah hann þá um gimsteina og ljet konungur fylgja honum til gimsteinahirzlu sinnar; leyfði hann honum að kjósa gimsteina úr henni eptir geðþekkni. Hann gerði svo og fylgdist síðan með Abdallah marbendli til híbýla hans. Fjekk hann honum þar pyngju og beiddi hann að leggja hana einsog gjöf á legstað spámannsins. Tók Abdallah landbúi við pyngjunni og vissi hann ekki hvað í henni var; lögðu þeir síðan báðir á stað til lands. Varð þeim þá gengið framhjá mörgum marbendlum, sem sátu saman kátir og syngjandi og átu fiska. Spurði Abdallah landbúi leiðsaga sinn, hvernig stæði á hátíð þessari og gleðilátum og gat til, að þar mundi vera haldin brúðkaupsveizla. „Það er öðru nær enn það sje brúðkaupsveizla,“ ansaði Abdallah í sjó, „þeir eru að gleðja sig yfir því, að einn af jafningjum þeirra er dáinn.“ „Þið fagnið þá og etið, þegar einhver deyr hjá ykkur,“ mælti Abdallah af landi. „Að vísu gerum við það,“ svaraði marbendillinn, „en hvað gerið þið, sem á landi búið?“ „Þegar einhver deyr hjá okkur,“ mælti Abdallah af landi, „þá kveinum við og hörmum, en konur lemja sig í framan og rífa sundur klæði sín.“ Þetta datt ofan yfir Abdallah í sjó og heimtaði hann aptur helgigjöf þá, er hann hafði beðið Abdallah af landi að leggja á legstað spámannsins. Þvínæst kom hann honum til lands og mælti: „Nú segi eg slitið við þig vináttu og fjelagsskap og munt þú aldrei sjá mig hjeðan í frá, nje heldur vil eg framar sjá þig.“ „Hvað veldur því?“ spurði Abdallah af landi. „Er ekki hver og einn af ykkur veðfje drottins?“ svaraði Abdallah í sjó, en hinn játti því. „Þá

segi eg:“ mælti marbendillinn, „því getið þið ekki látið ykkur lynda þegar guð tekur veð sitt aptur? því grátið þið þá og látið herfilegum látum? Og hvernig á eg að trúa nokkrum þeim manni fyrir veðfje til spámannsins, sem hefur það hugarfar, að hann grætur og harmar þegar guð kallar sálina til sín aptur? Við slíka menn vil eg ekkert samneyti hafa.“ Að svo mæltu skildi hann við Abdallah af landi og stakk sjer ofaní sjáfardjúpið.

Abdallah landbúi leitaði nú upp föt sín, er hann hafði falið á sjáfarbakkanum og fór í þau. Því næst gekk hann heim til konungsins tengdaföður síns með gimsteina þá, er hann hafði fengið hjá konungi marbendlanna. Hafði konungur þráð hann mjög og varð feginn er hann sá hann aptur. Spurði hann, því hann hefði verið svo lengi burtu, og sagði Abdallah honum hvílík undur hann hefði sjeð og reynt í sjónum. Sagði hann honum líka, hverjum orðum Abdallah marbendill hafði mælt við hann að skilnaði. Ljet konungur hann þá skilja, að honum hefði mikil vanhyggja orðið, er hann sagði Abdallah í sjó frá harmi landbúa eptir dauða menn. Abdallah á landi gekk lengi fram með sjónum á degi hverjum og kallaði á Abdallah í sjó. En hann gegndi aldrei og gerði aldrei vart við sig síðan. Varð Abdallah því þá afhuga að sjá hann framar. Hann lifði lengi með tengdaföður sínum, konu og börnum, þangaðtil spillir gleðinnar og frumkvöðull vinaskilnaðarins vitjaði þeirra. Og lýkur svo þessari sögu.

# Frá 966 til 1001 nætur.

## Gyðingurinn göfuglyndi.

Einusinni var Gyðingur einn guðhræddur, sem lifði á baðmullarvinnu með konu sinni og börnum. Tók hann á hverjum degi það sem spunnið var og seldi; keypti hann fyrir andvirðið viðarull og vistir handa heimilinu. Svo bar til einhverju sinni, er hann hafði farið út með þráðinn og selt hann, að þá varð einn af bræðrum hans á vegi hans er hann gekk heim, og bar sig aumlega útaf bágindum sínum. Gaf Gyðingurinn honum peninga þá, er hann hafði fengið fyrir þráðinn, og kom heim ullarlaus og allslaus. Spurði

þá hyski hans, hvar hann hefði baðmullina og vistirnar handa sjer. Svaraði hann, að fátækur maður hefði orðið á leið sinni og hefði hann gefið honum alla peningana. „Hvað eigum við nú að taka til bragðs?“ sagði hyski hans, „við höfum ekki meira að selja.“ En er vel var leitað, þá fannst þar samt trjeskál ein brotin og dallur; fór Gyðingurinn með hvorttveggja út á torgið og ætlaði að selja, en enginn vildi kaupa. Og sem hann var að bjóða þetta til kaups, þá kom þar maður með digran fisk og úldinn, sem enginn vildi kaupa, og bauð hann Gyðingnum að hafa skipti við sig; kvaðst skyldu láta hann fá fiskinn fyrir trjeílátin, hann gæti svo aldrei selt þau hvort sem væri. Gyðingurinn fjellst á það, ljet hann fá trjeskálina og dallinn fyrir fiskinn og fór með hann heim til sín. Spurði hyski hans þá, hvað það ætti að gera við fiskinn. Gyðingurinn svaraði: „Við skulum sjóða hann og eta þangaðtil drottinn veitir okkur betri lífsbjörg.“ Þau tóku þá fiskinn og fóru að matreiða hann. Og sem þau skáru hann sundur, þá fundu þau perlu innaní honum. Sögðu þau Gyðingnum undireins frá því, en hann beiddi þau að gá að, hvort perlan væri boruð í gegn, því þá væri hún annars eign. En væri perlan óboruð, þá væri hún gjöf frá drottni. Var nú perlan skoðuð, og sást þá að hún var óboruð. Fór því hinn ráðvandi maður morguninn eptir með hana til eins af bræðrum sínum, er kunni skyn á perlum. Undraðist hann mjög og spurði, hvar hann hefði fengið perluna, en Gyðingurinn svaraði að hún væri gjöf frá drottni. Hinn kvaðst halda, að hún mundi vera þúsund silfurpeninga virði og það vildi hann gefa fyrir hana. Samt rjeði hann honum að leita heldur til annars manns, er hann nafngreindi, því hann væri bæði ríkari og hefði betur vit á perlum. Fór hann því með hana til manns þessa og sýndi honum perluna. Sagði hann þá: „Hún er sjötíu þúsund silfurpeninga virði.“ Borgaði hann fje þetta útí hönd og sendi Gyðingurinn eptir tveimur daglaunamönnum til að bera fje þetta heim til sín. Á leiðinni kom til hans förumaður og mælti: „Gef mjer dálítið af því, sem guð hefur látið þjer áskotnast.“ Þá sagði Gyðingurinn: „Ígærdag stóð eins á fyrir mjer og þjer. Taktu og eigðu helfinginn af fje þessu.“ Þegar Gyðingurinn var búinn að skipta fjenu og hver hafði sinn part á milli handa, þá mælti förumaðurinn: „Eigðu nú sjálfur fje

þetta og fylgi þjer guðs blessun. Eg var sendur af drottni til að freista þín.“ „Guði sje lof og þökk!“ svaraði Gyðingurinn. Lifði hann áhyggjulaus og í allsnægtum það sem eptir var æfinnar.

## Sagan af konunginum, syni hans og hinum sjö vezírum.

Einusinni fyrir aldaöðli var konungur einn voldugur, er lengi hafði að völdum setið, en aldrei eignast erfingja. En þó auðnaðist honum það um síðir, er hann hafði beðið drottinn þess af heitu hjarta; ól drottning hans sveinbarn, og var ásjóna þess fögur einsog máni í fyllingu. Kóngsson óx vel og dafnaði og var hann fimm vetra gamall fenginn til fósturs vitrum manni og vel lærðum, er Sindibad hjet. Nam hann af honum allan fróðleik og öll æðri vísindi, svo að hann í þeim varð afbragð annara manna. Eins þókti hann bera af öllum öðrum í riddaralegum íþróttum. Það var einhvern dag að vitringurinn sá af stjörnunum að lífshætta vofði yfir kóngssyni nema hann þegði einsog steinn í hina næstu sjö daga. Fjekk konungur son sinn konum til geymslu eptir ráði spekingsins og skyldu þær gæta hans um þenna hættulega tíma og skemmta honum með hljóðfæralist. Í kvennabúri konungs voru fjörutíu herbergi og tíu ambáttir í hverju; hafði hver ambátt sitt hljóðfæri og í hvert skipti sem einhver þeirra ljek, þá var sem allt húsið lyptist á flug af hinum ununarfulla hljómi. Vatnsstraumur rann umhverfis húsið og stóðu hjá honum allskonar aldinviðir og ilmsæt blóm. Nú vildi það til allrar óhamingju, að vildarkona konungs felldi brennandi girndarhug til sonar hans og leitaði á hann heldur frekjulega. Varð kóngsson þá svo reiður, að hann vísaði henni burt með harðri hendi, en hún ákærði hann hjá konungi og rangfærði málið. Þá varð konungur æfareiður, stefndi vezírum sínum saman og skipaði að lífláta son sinn. En vezírarnir voru hræddir um, að konungur mundi brátt iðrast eptir skipun þessa og láta þá allt bytna á þeim, ef þeir nú ekki mæltu í móti. Fyrsti vezírinn beiddi hann að hugleiða, hvort sonur hans ekki ef til vill hefði verið of fljótt til dauða dæmdur, þar sem ekki var annað til áfellis enn sakaráburður konu, helzt þegar svo mörg dæmi væru til þess

að konur reyndust karlmönnum slægvitrari. Kvaðst hann fús á að segja konungi eitt af dæmum þessum, ef hann vildi hlýða á. Samþykkti konungur það og sagði vezírinn þá sögu þessa:

## Konungurinn, vezírinn og kona hans.

Einusinni var konungur einn voldugur, sem heldur þókti vera upp á kvennhöndina. Bar svo til einn dag að hann sá hvar kona afbragðsfögur stóð á þakfleti húss síns; felldi hann þegar girndarhug til hennar. Spurði hann, hver hún væri, og var honum sagt að hún væri gipt einum af vezírum hans. Sendi hann þá burt vezírinn, bónda hennar, og skyldi hann ferðast víðsvegar um skattlöndin. Og sem hann var kominn á stað, þá fór konungur einn dag til konu hans og leitaði til við hana, en hún þversynjaði og varð hann að hverfa frá við svo búið. En meðan hann var hjá henni, týndi hann innsiglishringnum af fingri sínum, og hafði hann oltið niður á milli svæflanna í legubekknum. Þegar vezírinn kom heim aptur, þá fann hann hringinn og fjekk hann þá svo illan grun á konu sinni, að hann kom ekki nærri henni í heilt ár. Hann talaði aldrei við hana orð og skildi hún ekki, hversu stóð á þessari breytni hans. Kærði hún vandkvæði þetta fyrir föður sínum, en hann fór til konungs og hitti þar vezírinn og herdómarann. Ákærði hann vezírinn og komst þannig að orði: „Herra! eg átti fagran aldingarð, sem eg sjálfur hafði plantað og miklu til kostað áður enn hann bar mjer ávöxt. En er hann var kominn svo vel á veg, þá ljet eg vezírinn þarna fá hann, og notaði hann það eitt, er honum líkaði, en vildi síðan ekki líta við honum. Þá spilltust blómin í honum, hann níddist niður og allt varð öðruvísi enn verið hafði.“ Þá tók vezírinn til máls og sagði við konung: „Herra! þessi maður fer með sannindi. Eg ræktaði aldingarðinn og neytti ávaxta hans. En einusinni kom eg í hann og sá í honum fótaför ljónsins. Þorði eg þá ekki að vitja hans framar.“ Konungur skildi undireins að þar sem vezírinn talaði um fótaför ljónsins, þá meinti hann innsiglishringinn. Hann mælti: „Far þú aptur í aldingarð þinn, vezír! og skal þjer ekki verða neinn órjettur gjör. Eg veit að ljónið var í garðinum, en það gerði ekkert mein, það sver eg við sæmd föður

míns og forfeðra minna.“ „Eg heyri og hlýði,“ mælti vezírinn; fór hann því næst heim til konu sinnar, sættist við hana heilum sáttum og treysti nú kvenndygð hennar.

Sami vezírinn sagði konungi: „Söguna af kvongaða manninum og páfagauknum,“ og kom hann konungi til að fresta lífláti sonar síns. En vildarkonan var heiptræk og ljet hann engan frið hafa, en nauðaði á honum sífeldlega að hann skyldi veita sjer hefndina. „Látirðu það hjá líða,“ mælti hún, „þá mun sonur þinn aptur búa þjer vjelræði og máttu þá búast við, að eins fari fyrir þjer og litaranum, sem ljet líf sitt, er hann ætlaði að bjarga syni sínum.“ Konungur vissi ekki hvað vildarkonan átti við og beiddi hana því að tala ljósara. Sagði hún þá:

## Söguna af litaranum og syni hans.

Einusinni hafði litari heilan dag verið að skola og þvo ýmsa litaða hluti í fljóti nokkru. Hann átti son, er jafnan fylgdi honum; baðaði drengurinn sig opt og synti á fljótinu. Einn dag hafði hann oftekið sig á sundinu og var farinn að sökkva. Var faðir hans nærstaddur og sá í hverri hættu sonur hans var; stökk hann undireins út í fljótið til að bjarga honum. Fljótið var djúpt, en faðirinn fór ekki svo gætilega sem skyldi, því hann leyfði syni sínum að þrífa sig dauðatökum; dróst hann svo niður í hyldýpið með honum og ljetu þeir þannig báðir líf sitt.

---

Þegar konungur heyrði sögu þessa, þá harðnaði aptur skap hans og vildi hann láta drepa son sinn næsta dag. Þá ítrekaði annar vezír mótmæli hins fyrsta og til þess að sanna, hversu illa konum væri trúandi, þá sagði hann sögu þessa:

## Gjaldkyrinn og þjónn hans.

Gjaldkyri konungs nokkurs hafði komið sjer í mjúkinn hjá giptri konu á laun við mann hennar. Kona þessi átti einnig vingott við þjón hans og vitjaði hann hennar öðru hverju á laun. Einhverju sinni þegar þjónninn var að gamna sjer við hana, þá

kom húsbóndi hans til hennar og sá hún þá ekki annað úrræði enn að fela þjóninn í kjallararúmi, sem hlemmur var yfir. Grunaði gjaldkyrann ekkert, en áður hann færi, kom maður konunnar heim. „Hvað er nú til ráðs að taka?“ mælti gjaldkyrinn, „hvernig á eg að sleppa burt hjeðan?“ Konunni kom undireins ráð til hugar. „Bregðu sverði þínu,“ mælti hún, „og farðu þarna til dyranna, hótaðu mjer og smánaðu mig og hlauptu svo burt þegar maðurinn minn kemur.“ Gjaldkyrinn gerði svo; fjell maðurinn í stafi er hann kom inn og sá gjaldkyrann standa með brugðið sverðið í herbergi konu sinnar með skömmum og hótunum. En þegar maðurinn kom, þá reygsaði gjaldkyrinn burt og ljet sem hann væri bálreiður. Varð manninum þá, einsog von var, fyrst fyrir að spyrja konu sína, hverju þetta sætti. „Æ, komdu margblessaður,“ svaraði hún, „hjer hefði orðið manndráp ef þú ekki hefðir komið. En nú skal eg segja þjer hvernig á öllu stendur. Eg sat uppi á húsþakinu og var að spinna þá veit eg ekki fyrri til enn ungur maður kemur flýjandi og nötrar allur af angist, fjell hann mjer til fóta, kyssti fætur mína og hendur og beiddi mig að veita sjer skjól, því morðingi væri á hælum sjer. Sagði eg honum þá að hlaupa sem fljótast ofaní kjallararúmið, gerði hann svo og ljet eg hlemminn yfir; kom þá rjett á eptir hinn maðurinn með sverðið blikanda. Spurði hann hvar unglingurinn væri, en eg vildi ekki segja honum það; óð hann þá uppá mig með smánar og ógnunarorðum einsog þú sást og heyrðir. En guði sje lof að þú komst mjer til frelsis, því eg var hjálparlaus og alein.“ Hældi maðurinn henni þá fyrir tiltækið og sagði, að guð mundi umbuna drengskap hennar. Því næst tók hann upp hlemminn og kallaði á hinn unga mann, sagði að nú mætti hann vera óhræddur og skyldi ekkert verða gert honum til meins. Kom þá friðillinn upp úr fylgsni sínu og var þó mjög hræddur; en maðurinn, sem var svona á tálar dreginn, huggaði hann og hughreysti; varð hann þess aldrei síðar áskynja, hversu illa kona hans hafði leikið á hann.“

Þegar konungur hafði heyrt sögu þessa, þá sá hann sig um hönd og frestaði líflátinu. En er hann kom til vildarkonu sinnar, þá veitti hún honum þungar átölur og sagði honum, að það mætti ráða af „Sögunni af vezírnum,“ hve lítt vezírum væri treystandi. Með slíkum og öðrum fortölum fjekk hún konung til að skipa aptur

líflát sonar síns. En hinn þriðji vezír gat þó talið honum hughvarf með mótmælum sínum. Beiddi hann konung að hyggja vandlega að öllu áður enn hann kvæði upp ályktardóm sinn. Sagði hann honum:

## Söguna af veiðimanninum.

Einusinni var veiðimaður að elta dýr og varð þá fyrir honum hellir. Gekk hann inn í hellinn og fann í honum gryfju fulla af hunangi. Var hann þá eigi lengi að hugsa sig um, heldur fyllti hann undireins leðurflösku sína með hunangi og fór síðan til borgarinnar með veiðihundi sínum. Á þeim hundi hafði hann mestu mætur. Fór hann nú í búð kaupmanns nokkurs og bauð honum hunang til sölu. Kvaðst kaupmaður mundu kaupa, en vildi fyrst sjá hunangið og hellti hann því dálitlu úr flöskunni. Fjellu þá nokkrir dropar á gólfið og flaug þangað dálítill fugl, sem lokkaðist af hunanginu. Og sem köttur kaupmannsins sá það, þá stökk hann á fuglinn, en hundur veiðimannsins varð ekki seinni til að fljúga á köttinn, og beit hann til bana. Varð kaupmaður þá fokreiður og drap hundinn, en veiðimaðurinn rjeðist á kaupmann og veitti honum bana. Nú er vinir og kunningjar kaupmanns frjettu þetta, þá hófu þeir liðssafnað móti veiðimanninum, en hann átti eigi heima þar í borginni. Veiðimanninum varð aptur gott til liðs hjá vinum sínum og nágrönnum og fóru þá báðir flokkarnir hver á móti öðrum; voru báðir vel vopnaðir og brunnu af hugmóði. Rjeðust hvorir á aðra og fjellu margir af báðum. Veit enginn tölu þeirra nema allsvaldandi drottinn. Allt þetta reis út af einum hunangsdropa og eins er um kvennvjelar; skal eg segja yður ennþá eitt dæmi til að sanna orð mín.

## Frá kvongaða manninum og hrísgrjónakaupunum.

Einusinni fjekk maður nokkur konu sinni einn silfurpening til að kaupa fyrir hrísgrjón. Fór hún þá til kaupmanns, er verzlaði með þesskyns vöru, og bað hann að selja sjer hrísgrjón. Voru henni þá vegin grjónin. Kaupmaður brá á blíðlæti við konuna og skotraði til hennar girndaraugum. Sagði hann að endingu: „Það er ekkert bragð að hrísgrjónum án sikurs; ef þjer viljið

fá sikur, þá komið þjer hjerna inní búðina til mín.“ Fór þá konan inn og tók kaupmaður klútinn, sem hrísgrjónin voru í, fjekk hann þræl sínum og mælti: „Farðu út og vegðu sikur fyrir einn pening handa konunni.“ Gerði hann þrælnum einhverjar bendingar um leið; fór þá þrællinn út, hellti grjónunum úr klútnum og fyllti hann aptur með sandi og steinum. Færði hann konunni klútinn að stundarkorni liðnu. En er konan fór burt, þá tók hún við klútnum óskoðuðum og vissi ekki betur enn að hún bæri hrísgrjón og sikur heim til sín. Þegar hún kom heim, þá fjekk hún manni sínum klútinn, en fór sjálf að sækja grautarpottinn. Skoðaði maðurinn á meðan hvað í klútnum var, og segir hann því þegar konan kom með pottinn: „Sagði eg þjer, að eg ætlaði að byggja hús, og að þú skyldir sækja sand og steina?“ Sá konan þá undireins að búðarþjónn kaupmannsins hafði svikið hana, en ekki komu samt á hana vöflur. Snerist hún einarðlega við manni sínum og mælti: „Heillin mín! eg hef tekið pottinn í fáti; eg ætlaði að sækja sáldið.“ „Og því var fát á þjer?“ sagði maðurinn. „Æ, eg týndi peningnum á torginu,“ svaraði hún, „og með því eg fyrirvarð mig að róta í sandinum svo allir sæju, þá sópaði eg saman öllum sandinum þar sem eg missti peninginn, því mjer datt í hug að sálda sandinn þegar eg kæmi heim, ef eg mætti finna peninginn. En nú skal eg sækja sáldið og getur þú þá sáldað, því þú sjer betur enn eg.“ Sókti hún þá sáldið og fjekk veslings manninum, en hann lagði sig svo í líma, að andlit hans og skegg varð ekki annað enn ryk og sandur og var grátlegt til þess að vita, en hitt hugkvæmdist honum aldrei, að kona hans var brellin og ótrú, bæði í þetta skipti og endrarnær.

Þá kom ennþá einusinni apturkippur í konung og frestaði hann enn að ljúka á dómsorði sínu. En vildarkonan lagði að honum á ný og leitaðist við að gera vezírana tortryggilega í augum hans. Sagði hún honum sögu þessa.

## Kóngssonurinn og vezírinn.

Einusinni í fyrndinni var konungur, sem átti einn son barna; hafði hann látið hann trúlofast dóttur annars konungs. Kóngsdóttir

þessi var hin fríðasta og hafði beðið hennar einn frændi hennar, en honum var synjað ráðsins. Nú bar hann fje á vezír konungsins, sem fyrst var nefndur, og beiddi hann að bægja syni herra síns frá ráðahag þessum með einhverju móti, eða telja hann af því að eiga kóngsdóttur. Lofaði vezírinn öllu góðu um það. Hinn konungurinn bauð nú til sín tengdasyni sínum tilvonanda, svo hann mætti kynnast festarmey sinni og drekka brullaup sitt til hennar. Konungurinn faðir hans ljet hann því fara á stað og fjekk honum vezírinn svikráða einsog leiðtoga; höfðu þeir með sjer þúsund riddara og gjafir til hins konungsins. Og sem þeir fóru um eyðimörk nokkra, þá rankaði vezírinn við, að þar nálægt var lind nokkur, er Ljósalind hjet, og hafði þá náttúru, að hver karlmaður, sem af henni drakk, varð að kvennmanni. Vissi enginn, að lindin hafði þenna krapt, og þurfti vezírinn því ekki að óttast að menn fengju neina illa grunsemd, þó hann ljeti æja hjá lindinni. Gekk hann nú með kóngssyni til lindarinnar einsog ófyrirsynju og þvoði kóngsson hendur sínar í henni og drakk af vatninu. Þá fann hann allt í einu að hann varð að kvennmanni; hljóðaði hann þá upp yfir sig og grjet hástöfum. Vezírinn spurði með hræsnissvip, hvað að honum gengi; kóngsson sagði honum það og gerði hann sjer þá upp grát mikinn. Sendi kóngsson hann heim til föður síns til þess að segja honum frá óláni þessu og láta hann vita, að hvorki mundi hann snúa heim aptur nje fara lengra; væri það ásetningur sinn að þreyja við, þangaðtil ósköp þessi færu af sjer eða hann ljeti líf sitt. Sat hann nú í þrjá sólarhringa hjá lindinni og bragðaði hvorki mat nje drykk. Á hinum fjórða degi kom riddari til hans með kórónu á höfði, og var svo að sjá, sem hann væri konungborinn maður. Spurði hann kóngsson, hver hefði flutt hann þangað. Sagði kóngsson honum allt hvernig farið hafði, en riddarinn sá aumur á honum og mælti: „Vezír föður þíns hefur steypt þjer í ólán þetta. Náttúru þessarar lindar þekkir ekki nema einn mennskur maður og það er hann.“ Bauð þá riddarinn kóngssyni að setjast uppá hestinn hjá sjer, og gerði hann svo. Þá mælti riddarinn: „Í nótt skaltu gista hjá mjer.“ „Seg mjer fyrst hver þú ert“ mælti kóngsson. „Eg er sonur konungs andanna og þú ert sonur konungs mannanna,“ svaraði riddarinn, „vertu nú glaður og í

góðu skapi, því mjer er hægðarleikur að bæta úr harmi þínum og bágindum.“ Kóngssonurinn í kvennmanns líki reið nú á stað með honum og yfirgaf föruneyti það, er vezírinn hafði skilið eptir hjá honum. Riðu þeir nú án afláts frá morgni til miðnættis. Sonur andakonungsins spurði hann nú, hvort hann vissi, hversu langan veg þeir hefðu farið, og kvað hann nei við; þá mælti hinn: „Við höfum farið svo langt sem menn geta ferðast á heilu ári.“ Sonur mannakonungsins furðaði sig mjög á því og spurði áhyggjufullur, nær hann mundi komast heim aptur til ættmenna sinna og vina. Sonur andakonungsins hughreysti hann og sagði honum að láta sig einan um það. Kvaðst hann með hægu móti skyldu koma honum heim á minna enn augabragði, þegar ólán hans væri á enda. Fóru þeir nú leiðar sinnar allt til morguns, og komu þeir þá á hið fegursta land; var það iðgrænt, og alvaxið hátypptum eikum, úði þar og grúði af sættkvakandi fuglum. Voru þar margar dýrðlegar hallir og aldingarðar óumræðilega fagrir. Fór sonur andakonungsins þar af baki og bað förunaut sinn að gera slíkt hið sama. Því næst tók hann kóngsson við hönd sjer og fór með hann til einnar hallarinnar; hitti hann þar konung einn voldugan og var hjá honum allan daginn í góðum fögnuði. Þegar skuggsýnt var orðið, stigu þeir fjelagar aptur á hest sinn. Riðu þeir hvað af tók alla nóttina til morguns og komu þá á óbyggt land; það var dimmt og drungalegt, og líkast tilsýndar sem það væri eitt af hjeröðum undirheima. Spurði kóngsson, hvað landið hjeti, og svaraði sonur andakonungsins: „Það heitir Myrkland og ræður yfir því andakonungur nokkur. Hann er svo voldugur, að enginn treystist á hann að ráða, og enginn má fæti stíga á hans land, nema fyrr sje leyfi fengið. Bíddu því meðan eg útvega þjer leyfi.“ Skildi þá sonur andakonungsins við hann, og kom skjótt aptur; riðu þeir síðan þá báðir til lindar einnar, er rann út úr svörtu fjalli. Sonur andakonungsins beiddi hann þá að fara af baki hjá lindinni og drekka af henni, Drakk kóngsson af henni og varð aptur að karlmanni, varð hann þá frá sjer numinn af fögnuði og þakkaði drottni. Spurði hann leiðsögumann sinn, hvað lindin hjeti, og sagði hann að hún hjeti Kvennalind og yrði hver kvennmaður, sem af henni drykki, að

karlmanni. Því næst stigu þeir aptur á hestbak og riðu þangaðtil þeir komu á land andakonungsins. Átti kóngsson hina beztu nótt í híbýlum hans, og næsta dag át hann þar og drakk í góðum fögnuði þangað til náttaði. Þá spurði sonur andakonungsins gest sinn, hvort hann vildi fara heim aptur til ættmenna sinna. Kóngsson kvað já við því og kallaði þá sonur andakonungsins á einn af þrælum föður síns, er Rajis hjet; skipaði hann honum að flytja kóngsson á herðum sjer og færa hann konu sinni og tengdaföður áður enn dagsbrún væri á lopti. „Eg heyri og hlýði,“ svaraði þrællinn og fór burt allra snöggvast; kom hann aptur í anda líki og skaut kóngssyni skelk í bringu. En sonur andakonungsins hughreysti hann og mælti: „Þjer skal ekki meint verða. Seztu upp á axlir honum og lokaðu augunum.“ Gerði kóngsson það og flaug þrællinn með hann gegnum loptið. Þegar vart lifði þriðjungur nætur, sveif hann með kóngsson niður að höll tengdaföður hans, setti hann á þakið og hvarf síðan. Þegar ljómaði af degi og kóngssonur kom til sjálfs síns aptur, þá fór hann ofan af þakinu. En er tengdafaðir hans sá hann, þá stóð hann upp og gekk til móts við hann. Undraðist konungur mjög að hann skyldi koma ofan af þakinu, einsog hann væri af himnum sendur, því allir aðrir væru vanir að ganga inn um hliðin.

„Guðs vilja er framgengt orðið,“ mælti kóngsson.

Og er sól var upp runnin, þá skipaði tengdafaðir hans að efna til veizlu og var þá drukkið brullaup með mikilli viðhöfn. Dvaldi kóngsson í tvo mánuði með konu sinni við hirð tengdaföður síns, en að þeim liðnum fór hann með henni heim í ríki föður síns. En það er af frænda hennar að segja, að hann dó af öfund og afbrýði.“

Nú gerðist konungur fráhverfur vezírum sínum, og varð einn þeirra næsta morgun að taka á allri talsgáfu sinni til að tálma dauðadómi sonar hans. Sagði hann í því skyni sögu þessa:

## Konan ótrygga og maður hennar.

Einusinni sá ungur maður forkunnar fagra og heiðvirða konu og lagði ástarhug á hana. Gafst honum ekkert færi á að nálgast hana og leitaði hann því loksins til kerlingar einnar; bað hann

hana að koma sjer í þokka hjá konu þessari, er hann elskaði. Tókst henni það eptir nokkra fyrirhöfn og einusinni þegar maður konunnar fögru var á ferðalagi, þá leyfði hún kerlingunni að koma til sín með yngismanninn, sem hafði fellt ástarhug til hennar. Nú hittist svo á að kerling gat ekki fundið hann í það skipti, en til þess að verða ekki ósannindakona, þá lagði hún að öðrum manni, sem varð á leið hennar, og bauð honum að koma með sjer í ástar æfintýri. Maðurinn var til í það, og batt hún fyrir augu honum skammt frá húsinu; leiddi hún hann síðan inn um dyrnar og upp í salinn.

Konan fagra hafði staðið fyrir innan gluggskýlurnar og sjeð að það var maður hennar, sem kerling kom með; sá hún að hann mundi vera heim kominn úr ferðinni. En þótt óvænlega áhorfðist, þá varð henni samt ekki ráðafátt; hún tók af sjer annan skóinn, hljóp í mann sinn, þar sem hann sat með bandið fyrir augunum, lamdi hann og húðskammaði hann fyrir ótryggð og lausung. „Svona ferðu með mig,“ hrópaði hún, „svona svíkurðu mig; þeir hafa þá sagt satt, sem vöruðu mig við þjer. Eg vissi að þú varst kominn og því sendi eg kerlinguna til að freista þín og fá vissu fyrir, hvern mann þú hefðir að geyma. Eg hef hingaðtil haldið að þú værir vandaður og hreinlífur maður, en nú sje eg að þú mangar til við hverja kerlinguna.“ Og nú ljet hún höggin án afláts dynja á manni sínum, en hann var fyrir löngu búinn að rífa bandið frá augum sínum; sór hann og sárt við lagði, að hann hefði ætíð verið henni trúr. En hún ljet ekki af að berja hann og hrein hástöfum og grjet í tilbót, einsog hjarta hennar ætlaði að bresta af harmi, en þess á milli æpti hún hátt og beiddi alla nábúa og rjetttrúaða menn að hjálpa sjer. Nú vildi maðurinn ekki að þetta yrði að hneyxli og lítillækkaði hann sig svo mjög, að hann kyssti á hendur hennar og fætur og reyndi að grípa fyrir munn henni með höndum sínum. En hún beit hann í fingurna og lamdi hann ennþá stundarkorn, þangaðtil hún gerði kerlingunni bending, að hún skyldi ganga á milli og sætta þau. Fór þá kerling að kjassa hana og biðja hana í guðs nafni að vera góða; ljet hún sjer þá loksins segjast og settist niður. Kyssti þá maðurinn á hönd kerlingar og mælti: „Æ, guð almáttugur umbuni yður með öllu góðu fyrir það að þjer

stilltuð til friðar og sættuð okkur.“ En kerling undraðist mjög og dáðist að því í hjarta sínu, hvað konan fagra var slægvitur.

Konungur furðaði sig líka á því og skipaði ekkert um líflát sonar síns. En vildarkonan reyndi ennþá einusinni að snúa huga hans. Þegar hann vitjaði hennar um kvöldið, þá gekk hún að honum með eiturbikar í hendinni og hótaði að fyrirfara sjer, ef hann ekki veitti sjer uppreisn í máli sínu. Sagði hún honum þá um leið: „Söguna af Mahmúd málara frá Ispahan,“ til þess að færa honum heim sanninn um það, hvað karlmenn væru brögðóttir. Enda varð nú konungur fús á að gera vilja hennar, en á hinum fimmta morgni dirfðist einn vezírinn enn að mæla í móti og sagði hann sögu þessa:

## Sagan af manninum, sem aldrei hló framar það sem eptir var æfinnar.

Einusinni var ríkur maður, sem átti bæði hús og garða, þjóna og þræla og einn son barna; skildi hann snögglega við heim þenna og flutti í sæluvist annars heims. Sonur hans var þá barn að aldri, en sem hann þroskaðist, þá lagði hann mikinn hug á mat og drykk, en fram úr öllu hófi á söng og hljóðfæralist; var hann hinn örlátasti og eyddi fje sínu óspart, þangaðtil arfur hans var að þrotum kominn. Fór hann þá að selja þræla sína og því næst ambáttirnar, og svo hvað af öðru, þangaðtil hann varð svo snauður, að hann varð að vinna fyrir daglegu brauði sínu. Liðu svo mörg ár að engin breyting varð á kjörum hans. Það var einhvern dag að hann sat upp við múrvegg og beið þess að einhver leigði sig til verka; kom þá til hans maður virðuglegur ásýndum og heilsaði honum. Tók hann vel kveðju hans og mælti: „Þekkið þjer mig að fornu fari?“ Hinn kvað nei við og sagði: „Eg sje á þjer, að þú hefur verið ríkur og samt ertu kominn í þetta ástand.“ „Æ, það er fram komið, sem forlögin vildu,“ svaraði fátæklingurinn. „Getið þjer, góði herra! látið mig fá nokkra vinnu?“ „Eg gæti fengið þjer hæga vinnu,“ svaraði hinn ókunni maður? „Hvaða vinna er það?“ spurði hinn. Þá svaraði ókunnugi maðurinn: „Tíu vitringar eru til húsa hjá mjer, en enginn sjer fyrir þörfum okkar. Við skulum

gefa þjer fæði og klæði einsog þú þarft með, en þú skalt þjóna okkur. Hver veit nema við verðum verkfæri í guðs hendi til að bæta þjer tjón þitt?“ „Eg heyri og hlýði,“ ansaði hinn ungi maður. „Eins skilyrðis krefst eg,“ mælti vitringurinn. „Og hvað er það?“ spurði hinn. „Það er,“ svaraði vitringurinn, „að þú þegir yfir öllu, sem þú sjer hjá okkur, hvað sem þar kann fram að fara, og spyrjir okkur aldrei, hversvegna við grátum.“ „Eg geng að þeim kosti,“ mælti ungmennið. „Komdu þá með mjer,“ mælti vitringurinn, „og treystu drottni.“ Bað nú vitringurinn hann að fara til lauga og færði honum þangað nýjan og þokkalegan klæðnað. Eptir það fór hann með hann heim til samlagsbræðra sinna. Bjuggu þeir í stóru og rúmgóðu húsi; voru í því margir salir, og gosbrunnur í hverjum sal. Mátti þar heyra fagran og lystilegan klið, því fuglar voru þar margir; sá úr gluggunum til beggja hliða yfir fagran aldingarð. Fylgdi vitringurinn hinum unga manni til eins herbergis, sem prýðt var marglitum marmara og silkitjöld-um, en loptið var heiðblátt með logagylltum skrautmyndum. Sátu þar tíu vitringar í sorgarbúningi, hver andspænis öðrum; grjetu þeir án afláts og kveinuðu. Furðaði hinn ungi maður sig á þessu og var kominn á flugstig með að bera upp spurningu þá fyrir vetringinn er hann hafði tekið honum vara fyrir. Hann rankaði samt við því í tíma og þagði. Nú afhenti vitringurinn honum peningahirzlu með þrjátíu þúsund gullpeningum í og mælti: „Sonur kær! þessu skaltu verja handa okkur og sjálfum þjer, og skaltu gæta þess vel, sem þjer er trúað fyrir.“ „Eg heyri og hlýði,“ svaraði ungmennið og gegndi nú hinu nýja embætti sínu um hríð. Andaðist nú einn af vitringunum og þvoðu þeir fjelagar hans líkið, veittu því umbúnað og greptruðu það í aldingarðinum að húsa baki. En dauðinn burtkallaði hvern þeirra af öðrum, þangaðtil ekki var eptir nema sá, sem vistað hafði hinn unga mann. Bjuggu þeir nú mörg ár tveir einir í húsinu svo að aldrei var þriðji maður undir þaki með þeim. Þá sýktist einnig þessi vitringur og er útsjeð var um bata hans, þá gekk ungmennið að rúmi hans, aumkvaði hann og mælti: „Herra! nú hef eg þjónað yður með kostgæfni í tólf ár samfleytt, svo vel sem mjer hefur verið unnt.“ Vitringurinn kvað það satt vera. „Nú mun skammt eptir æfi yðar,“ mælti ungmennið, „og bið eg yður nú

að segja mjer, hversvegna þið grjetuð og kveinuðuð, og voruð ávallt sorgbitnir og hugsjúkir?" „Son minn!" svaraði vitringurinn, „það skiptir þig alls engu; bið mig eigi þess, sem eg aldrei mundi hafa skap til, því eg hefi beðið guð að leggja ekki mitt mótlæti á nokkurn mann. Viljirðu nú vera óhultur fyrir því, sem okkur hefur hent, þá ljúktu aldrei upp hurðinni þarna. En viljir þú að það komi yfir þig, sem yfir oss hefur komið, þá ljúktu henni upp, og muntu þá verða þess vísari, hvað olli gráti okkar og kveinstöfum. En iðrunin mun koma yfir þig þegar það er um seinan." Nú elnaði vitringnum sóttin og gaf hann upp öndina. Greptraði hinn ungi maður lík hans að húsa baki í aldingarðinum þar sem fjelagar hans voru jarðaðir; var hann nú orðinn eigandi hins mikla húss og alls þess, sem í því var. Allt fyrir það gat hann ekki unað sjer, og var hann með endalausum heilabrotum um það, hvernig mundi hafa staðið á högum vitringanna, sem dánir voru. Honum þókti mesta mein að mega ekki ljúka upp hurðinni og einn dag gekk hann að henni einsog í leiðslu og skoðaði hana. Hún var fremur lítil, en harla snotur og alþakin kongulóavefjum; var hún læst með þremur stállásum. En er hann stóð við hurðina, þá rankaði hann við varnaðarorðum vitringsins og gekk því burt aptur. En ekki rjenaði samt hjá honum löngunin til að ljúka upp hurðinni. Í sjö daga stóðst hann freistnina, en áttunda daginn gat hann ekki lengur stillt sig. Hann sagði við sjálfan sig: „Eg verð að ljúka upp dyrunum og sjá hvað úr því verður. Ekkert getur að hendi borið nema það sem drottinn hefur áður fyrirhugað." Að svo mæltu gekk hann til og mölvaði hurðina; kom hann þá inn í þröng göng og gekk eptir þeim í þrjár stundir; þá kom hann að bakka stórrar elfar. Gekk hann undrunarfullur fram og aptur á elfarbakkanum, þangaðtil allt í einu steyptist stór örn úr skýjum ofan, hremmdi hann með klóm sínum og flaug burt með hann. Bar örninn hann til eyjar einnar í miðju hafi, setti hann þar niður og flaug síðan burt. Var nú hinn ungi maður utan við sig af hræðslu og öldungis ráðalaus. En er hann stóð þarna í vandræðum sínum, þá sá hann hvar segl eitt blikaði við lengst út í hafsauga, og var það tilsýndar einsog stjarna. Vonaði hann að það mundi verða sjer til frelsis og leit hann ekki af því augum sínum. Nálg-

aðist skipið og sá hann að það var prísiglt. Var það gert af ebenviði og fílabeini og víða gulli roðið, en árarnar voru úr sandelsviði. Á skipinu voru tíu mánafagrar meyjar, og jafnskjótt sem það var lent, þá stigu þær á land og gengu til hins unga manns, kysstu á hendur hans og mæltu: „Þú ert konungur vor og brúðgumi.“ Gekk þá ein af þeim fram og var hún fögur einsog sól. Bar hún samanbrotinn silkidúk í hendi og var innaní honum konungsskikkja ásamt gullkórónu og allskonar gimsteinum, Færði hún hann í allan þenna skrúða og setti kórónuna á höfuð honum. Því næst báru meyjarnar hann á örmum sjer ofaná skipið, og sá hann að það var allt saman tjaldað silkidúkum. Voru þá aptur undin upp segl og brunaði skipið óðfluga yfir hið dimmbláa sjáfardjúp. Þókti hinum unga manni sem allt þetta væri draumur, er nú bar fyrir hann, enda tók hann því einsog það væri draumur. Nú sást til lands og er skipið nálgaðist, þá mátti sjá að ströndin var alþakin herliði. Renndi nú skipið að landi og voru þá fimm hestar, hver öðrum fegurri, teymdir til hins unga manns, með skrautlegum söðlum og beizlum, og ljómuðu reiðtygin öll af gulli og gimsteinum. Stje hann á bak einum hestinum, en hinir fjórir voru teymdir á eptir honum. Og sem hann var kominn á hestbak, þá var brugðið upp herfánum og kváðu við bumbur og lúðrar, en herliðið skipaðist í tvær sveitir, aðra til hægri handar og aðra til vinstri. Vissi hinn ungi maður valla ennþá, hvort þetta bæri fyrir hann í vöku eða svefni. Hjeldu nú fylkingarnar áfram og komu á algrænt sljettlendi. Þar voru hallir og aldingarðar, lækir og blóm og lystilegur fuglakliður; bar það allt vitni um fegurð heimsins og dýrð skaparans. Þá sá hann allt í einu koma á móti sjer annan her og varð sljettlendið bráðum alþakið. Þar staðnæmdist herinn, en fram úr honum miðjum reið konungur með blæju fyrir andliti, og fór einn af hirðmönnum hans fótgangandi á undan honum. Og er konungur var kominn nálægt hinum unga manni, þá fór hann af baki og svo gerði hinn líka; heilsuðust síðan báðir með kurteisi. Því næst stigu þeir báðir á bak aptur og sagði konungur: „Kom þú með oss, því þú ert gestur vor.“ Fór hinn ungi maður með honum og töluðu þeir saman, en hið glæsilega föruneyti fór á undan með góðri skipun. Fóru nú allir til konungshallarinnar og

leiddi konungur yngismanninn inn við hönd sjer. Bauð hann honum að setjast í hásæti eitt af skíru gulli, og settist sjálfur við hlið honum. Og sjá! þegar sá, er hann hugði konung vera, brá blæjunni frá andliti sínu, þá var þar yngismær, björt og ljómandi einsog sól í heiði, fögur, og algjör og girnileg til ásta. Horfði hinn ungi maður á hana frá sjer numinn, en hún tók þannig til orða: „Vita skaltu, konungur! að eg er drottning yfir ey þessari og að allir liðsmenn. bæði fótgöngumenn og riddarar, sem þú sjer hjer eða hefur sjeð, eru konur einar. Enginn karlmaður er á meðal þeirra. Karlmennirnir verða hjer að yrkja akra, sá og uppskera, þeir eru vinnumenn og iðnaðarmenn, en kvennfólkið er hjer það kynið, sem drottnar og hefur allt stjórnarvald og hervald.“ Fjekk þetta yngismanninum undrunar einsog nærri má geta. Meðan þau voru þarna að tala saman þá kom vezírinn inn í höllina. Vezírinn var gömul kona og gráhærð, og sópaði mjög af henni. Skipaði drottning henni að sækja dómara og vitni, og fór hún undireins til að fullnægja boði hennar. En á meðan var drottning hin alúðlegasta við yngismanninn, talaði vingjarnlega til hans og spurði, hvort hann vildi verða maðurinn sinn. Stóð hann þá upp úr sæti sínu og kyssti á gólfið fyrir fótum hennar. Bannaði hún honum það, en hann sagði: „Drottning! eg er of lítilmótlegur til að þjóna þjer.“ Þá mælti hún: „Sjer þú þessa þjóna mína, þessa hermenn, þessi auðæfi og dýrgripi? Þú mátt ráða því öllu og fara með það einsog þjer bezt líkar. En þó er hurð ein,“ sagði hún og benti um leið á lokaða hurð, „henni máttu aldrei upp ljúka. Því ef þú lýkur henni upp, þá muntu iðrast, en sú iðrun verður um seinan.“ Óðara enn hún hafði sleppt orðinu, kom kvennvezírinn með dómara og vitni og voru það einnig gamlar konur og virðuglegar ásýndum. Skipaði drottning þeim að semja hjónasáttmála og giptist hún því næst hinum unga manni. Voru þá miklir dýrðardagar og gekk ekki á öðru enn veizlum og skemmtunum. Liðu nú sjö ár og lifðu þau hjónin í sífeldri dýrðarsælu og fögnuði.

En einn dag kom honum til hugar hurðin forboðna og hugsaði hann þá með sjer: „Innar af þessari hurð eru víst fólgnir miklu dýrmætari hlutir enn þeir, sem eg hefi sjeð áður, annars mundi hún ekki hafa bannað mjer að ljúka henni upp.“ Í þessari grátlegu

blindni spratt hann upp úr sæti sínu, gekk að hurðinni og lauk henni upp. Þá sá hann innar af hurðinni örninn mikla, sem hafði flogið með hann frá elfarbakkanum til eyjarinnar.

Örninn leit til hans og mælti: „Enginn fagnar þeirri ásjónu, sem aldrei verður glöð.“

Þegar maðurinn heyrði þetta, ætlaði hann að flýja, en örninn elti hann, læsti í hann klóm sínum og flaug burt með hann. Setti örninn hann niður á sama blettinum, þar sem hann hafði sókt hann fyrir sjö árum síðan og hvarf hann honum því næst úr augsýn. Þarna sat nú maðurinn einmana og vitkaðist smámsaman. Hann hugleiddi nú í hvílíkri dýrð og vegsemd hann hafði lifað, hversu hann hafði ráðið lögum og lofum í ríki sínu, og gat hann þá ekki að sjer gert að gráta. Sat hann í fulla tvo mánuði á elfarbakkanum þar sem fuglinn hafði sett hann, og vonaði að sjer mundi auðið verða að komast heim til drottningar sinnar. En eina nótt er hann lá andvaka með gráti og kveinstöfum, þá heyrði hann rödd einhverrar ósýnilegrar veru, sem kallaði til hans og mælti: „Hversu óumræðileg var sæla þín! fjærri, fjærri er hið umliðna og mun aldrei aptur snúa. Með hvílíkum andvörpum mun það verða tregað?„ Þá varð hann því afhuga að komast aptur í dýrðarvistina hjá hinni fögru drottningu og settist hann aptur að í húsi því, er vitringarnir höfðu búið í. Nú vissi hann, að viðlíkt mundi hafa drifið á þeirra daga og hefðu þeir fyrir þá sök kveinað og harmað. Nú var hryggð og gremja hans hlutskipti og iðraðist hann enn í mörg ár; hann hafnaði öllum góðum mat og drykk og stökk honum aldrei bros það sem eptir var æfinnar. Dó hann loksins úr hugarvíli og var greptraður í aldingarðinum hjá vitringunum.“

Vezírinn tók það nú fram, að iðrun fylgdi öllu bráðræði, og rjeði því konungur af að ákveða ekkert víst um líflát sonar síns. En á hinu sjötta kvöldi lagði vildarkonan fast að konungi, að hann skyldi veita sjer uppreisn. Gekk hún fram fyrir hann með hníf í hendi og sór, að hún skyldi reka sig ígegn, ef hann þyrmdi lengur syni sínum. Ámælti hún karlmönnum fyrir hrekkvísi og tilfærði sögu þessa einsog dæmi:

# Kóngssonurinn ástfangni og kaupmannskonan.

Einusinni var kaupmaður, sem var fjarskalega afbrýðisamur, og hafði hann komið konu sinni fyrir í húsi einu rambygðu, sem stóð eitt sjer fyrir utan borgina. Ljet hann hlaða háan múrvegg allt umhverfis húsið með ramgjörvu hliði og hengdi lása fyrir; tók hann lyklana að þeim með sjer í hvert skipti sem hann gekk út. Nú bar svo til einusinni að sonur konungsins þar í landi átti leið fram hjá húsinu, og varð honum starsýnt á það, er það var umgirt með múrvegg einsog kastali. Og sem hann stóð hjá húsinu og var að horfa á það, þá kom kaupmannskonan út á þakið og felldi kóngsson undireins brennandi girndarhug til hennar, því hún var allra kvenna fríðust. En það kom fyrir ekki þó hann reyndi að segja henni með orðum það, sem honum bjó í brjósti; svo langt bil var á milli þeirra. En það var einskis manns færi, að klifrast yfir múrinn. Í þessum vandræðum fjekk hann ritfæri hjá einum af þrælum sínum, ritaði ástarjátningu sína á brjefræmu, festi hana við ör og skaut henni inn yfir múrinn. Fór konan til og tók örina; las hún það sem á miðanum stóð, að kóngsson væri hugfanginn af fegurð hennar og dauðlangaði til komast í kunningsskap við hana. Hún svaraði honum skriflega, að líkt væri komið fyrir sjer, batt brjefið við stein og fleygði honum út fyrir múrinn. En er kóngsson sá af brjefi hennar, að hún vildi þýðast ástir hans, þá batt hann lykil að kistu einni við ör og skaut henni yfir múrinn; kvaddi síðan konuna með blíðlegum bendingum og gekk á burt. Konan leitaði aptur upp örina og hirti lykilinn, þó hún reyndar ekki vissi til hvers hann væri ætlaður.

Nú sagði kóngsson einum af vezírum föður síns, hvað sig hefði hent og beiddi hann að hjálpa sjer á fund kæru sinnar. „Gerðu það fyrir mig,“ mælti hann, „að loka mig niður í stóra kistu, láttu flytja hana heim til kaupmannsins og fá honum hana til geymslu; skaltu láta í veðri vaka að hún sje full af gulli og gersemum.“

Vezírinn var þess allfús og ljet konungssonurinn færa honum kistuna; lagðist hann sjálfur niðrí hana og læsti vezírinn henni. Ljet vezírinn flytja hana til kaupmannsins á úlfalda og gekk sjálfur á

eptir. Kaupmaður undraðist mjög, er svo tíginn maður kom á hans fund, og rann á leið fyrir vezírinn og spurði, hvað hann vildi gera láta. Vezírinn kvaðst vera kominn með kistu eina og beiddi hann að geyma hana þangaðtil hann sækti hana sjálfur. Kaupmaður var fús til þess og veitti kistunni viðtöku; fór vezírinn burt að svo búnu. Gekk kaupmaður því næst tll borgarinnar, en læsti samt áður húsi sínu vandlega. Konan gekk til kistunnar, bar að henni lykilinn og lauk henni upp; stje þá kóngsson upp úr henni og urðu þar fagnaðar fundir. þegar konan varð þess vör, að maður hennar var í nánd, þá læsti hún kóngsson aptur niðrí kistuna; ljeku þau þannig lyst sína í laumi. En einhvern dag varð konungi hugur á að sjá son sinn og flýtti vezírinn sjer til kaupmannsins, því hann var þá staddur í borginni. Bað vezírinn hann að fá sjer aptur kistuna og fylgdist nú heim með kaupmanni. En með því kaupmaður aldrei átti vanda til að koma á þeim tíma dags, þá fjekk konan valla ráðrúm til að koma kóngssyni niðrí kistuna, og var hún því ólæst þegar maður hennar kom inn. En er hann ætlaði að hreifa kistuna úr stað, þá hrökk upp lokið og brá honum heldur enn ekki í brún, er hann sá kóngsson niðrí kistunni. Fór hann með hann til vezírsins og varð þess nú vísari, að hann hafði verið á tálar dreginn, en öll varhyggð hans og varnarvirki höfðu orðið til ónýtis. Rak hann síðan frá sjer konuna og vann þess dýran eið, að hann skyldi aldrei framar kvongast.

„Svona eru karlmennirnir,“ mælti vildarkonan, „svo slóttugir eru þeir, þegar þeim er annt um að koma einhverju fram.“ Var þá sem hugur konungs hneigðist henni í vil.

En sjötti vezírinn fleygði sjer fram fyrir fætur konungs og beiddi um frest á lífláti sonar hans. Skírskotaði hann til þess, sem skrifað stendur í kóraninum um slægvizku kvenna, og sagði sögu eina til dæmis, sem var næsta áþekk: „Sögunni af frúnni í Kairó og friðlunum fjórum.“ Leiddi þá konungur enn sem áður hjá sjer að ákveða nokkuð um aftöku sonar síns.

Sama kvöldið gerði vildarkonan ennþá eina atreiðina til að fyrirkoma kóngssyni. Hafði hún látið kynda bál mikið og hótaði konungi að kasta sjálfri sjer á það, nema hann ynni sjer rjettlætis. Kvað hún hann ella mundu iðrast jafn sárt eptir dauða sinn einsog

konungur einn iðraðist, þá er hann ranglega hafði dæmt guðhrædda konu til dauða; henni var gefið að sök, að hún hefði stolið dýrmætu hálsmeni, sem drottning átti. Var hún pínd til sagna, fjötruð og hneppt í myrkvastofu. En loksins fannst hálsmenið í skaða hreiðri, og gat konungur með öllu sínu valdi og allri sinni auðlegð ekki apturtekið rangsleitni þá, er hann hafði í frammi haft. „Þá er Dúfnasagan," mælti vildarkonan ennfremur, „hún sannar einnig, hversu ranglátir karlmenn eru við konur.

Karldúfa og kvenndúfa höfðu allt sumarið verið að safna hveiti og byggi til hreiðurs síns. Nú þornaði þessi forði þeirra í sólarhitanum, og leit svo út sem hann minnkaði. Karldúfan kenndi kvenndúfunni um og drap hana. Þá komu votviðri og skaut kornunum upp aptur og lágu þau allt einsog þau höfðu áður legið. Þá sá karldúfan vonda rangsleitni sína, en það tjáði ekki að sakast um orðinn hlut, og fjekk það henni svo mikils harms, að það dró henni til dauða.

Og enn veit eg mörg dæmi, sem sýna lævísi karlmanna, og skal eg nú aðeins segja eitt af mörgum."

## Sagan af Bahram kóngssyni og Eddetmu kóngsdóttur.

Einusinni var kóngsdóttir, Eddetma að nafni; hún var óviðjafnanlega fögur og hafði svarið, að hún skyldi engum karlmanni giptast, nema þeim, er sigraði hana áður í einvígi. Hafði hún, er þessi saga gerðist, unnið sigur á mörgum konungasonum og tekið af þeim hesta þeirra og vopn, einsog sigurmerki; voru þeir auðþekktir, sem ósigur höfðu beðið fyrir henni, því hún hafði brennimerkt þá alla og letrað á enni þeirra: „Þessi er frelsingi Eddetmu."

Bahram hjet konungssonur einn á Persalandi, og varð honum svo mikill hugur á Eddetmu hinni fögru, að hann vildi leggja sig í hættu og bauð henni einvígi. Flykktist fjöldi manna saman til að horfa á atburð þenna; en í þetta skipti varð sigurinn torsóktari fyrir kóngsdóttur enn endrarnær, og hafði hún aldrei átt við jafnfrækinn bardagamann. En er hún sá að hún mundi bera lægra hlut, þá neytti hún bragða og brá skýlunni frá andliti sjer. Varð þá kóngsson heillaður af andlitsfegurð hennar, og fjellst jafnt hugur

sem hendur, en Eddetma sá sig ekki úr færi, heldur rjeðist hún á hann að óvörum og fleygði honum til jarðar. Vissi Bahram valla af sjer meðan hún rænti hann hesti og vopnum, og merkti hann á ennið. Nú er hann rankar við sjer, þá er hún öll á brottu. Sjer hann þá, hversu mikils hann hefur í misst, en verst var það, að hann var altekinn af ást til hinnar fögru meyjar, sem hafði sigrað hann. Skrifaði hann til föður síns, að hann mundi ekki heim koma fyrr enn vilja hans væri framgengt orðið, að öðrum kosti kvaðst hann vilja deyja. Varð faðir hans hryggur við, en sá eigi annað vænna enn að fela son sinn forsjá drottins. Varð Bahram þess vísari, að kóngsdóttir gekk opt út í aldingarð sjer til skemmtunar, og gerði hann þar eptir ráð sitt. Hann tók á sig gamals manns gerfi, fór til garðastjóra konungs og kvaðst hafa stundað garðyrkju; kom þar um síðir að garðastjórinn tók hann í þjónustu sína. Gerði Bahram margt og mikið til að prýða garðinn og sá það fljótt á, að hann kunni vel til slíkra starfa. Svo bar til einusinni að þrælar komu í aldingarðinn með ábreiður og allskonar dýrmæt ílát; mátti af því marka að kóngsdótturinnar var þangað von. Sókti Bahram þá undireins nokkuð af dýrgripum sínum, settist með þá í garðinum og ljet sem hann riðaði af elli. Komu nú ambáttir og þjónustumeyjar og kóngsdóttirin í miðjum hópnum; skein hún á meðal þeirra einsog máninn á meðal stjarnanna. Dáðust þær að hinum nýju plöntunarverkum, einsog mátti, því þau voru harla fögur. Bar þær að kóngssyninum þar sem hann sat gráhærður og gamallegur og hafði hönd á gripum sínum. Furðuðu þær sig á því og spurðu, hvað hann ætlaði að gera við gersemar sínar. „Mjer er í hug að eiga eina af ykkur,“ svaraði Bahram, „og ætla eg að gefa henni þær til brúðarskarts.“ Hlóu þær þá að honum, en hann mælti: „Eg bið ekki nema um koss, og þegar eg er búinn að fá hann, þá rek eg konuna frá mjer.“ Kóngsdóttir var gamansöm, og benti hún því á eina afbragðs fríða ambátt og mælti: „þessa gef eg þjer og hana máttu eiga.“ Stóð þá Bahram upp og studdi sig fram á stafprikið, kyssti hann ambáttina skjálfandi einsog örvasa karl, og gaf henni síðan skartgripina. Varð hún ákaflega fegin og skildu þær nú allar við hann með glensi og hlátri. Daginn eptir hitti kóngsdóttir hann aptur, einsog fyrr í karls líki; sat hann í garðinum og hafði

þá enn fleiri kostgripi hjá sjer, spurði hún hann þá aptur að hinu sama. Svaraði hann einsog í fyrra skiptið og leiddi hún þá til hans aðra stúlku; kyssti Bahram hana og gaf henni gripina. Á sömu leið fór þriðja og fjórða daginn, en nú hugsaði kóngsdóttir með sjer, að gripir þessir sæmdu sjer betur enn ambáttunum, enda væru þeir auðfengnir. Bjóst hún í ambáttarbúning og gekk einn morgun út í garðinn; leitaði hún karlinn upp og sagði við hann: „Kóngsdóttir sendir mig til þín og vill hún að þú eigir mig.“ En Bahram þekkti hana undireins og mælti: „Eg vil feginn gera vilja kóngsdóttur;“ að svo mæltu stóð hann upp skjálfandi og fjekk henni allt fjemætt, sem hann gat til fengið; laut hann því næst að henni til að kyssa hana og lofaði hún honum það hiklaust, en þá sætti hann lagi og fleygði henni til jarðar. Reif hann af sjer skeggið og mælti: „Eg er Bahram kóngsson og gerði eg það einungis þín vegna, að eg fór í dularklæði, en nú hef eg komið fram vilja mínum og sigrað þig.“ Gekk þá Eddetma sneypt og orðlaus á burt, og var henni næst skapi að ráða sjer bana, en um síðir rjeði hún það af að strjúka burt með kóngssyninum til Persalands, því hún vildi ekki að það yrði sagt, að hún hefði beðið ósigur. Sagði hún honum því fyrirætlun sína og tiltók vissan tíma. Struku þau burt á náttarþeli og vissi enginn til ferða þeirra. Komust þau farsællega til Persalands og var þeim fagnað með mestu vegsemd. Þá gerði Persakonungur sendimenn með gjafir á fund konungsins, föður Eddetmu; varð hann stórglaður er hann frjetti af dóttur sinni og veitti feginshugar samþykki til ráðahagsins. Sendi hann henni stórgjafir og óðar enn sendimenn voru heim komnir til hirðar Persakonungs, þá var efnað til dýrðlegrar veizlu, og fór brúðkaupið fram með mestu viðhöfn.

Sjöunda vezírnum tókst aptur að telja konungi hughvarf með alvarlegum fortölum, en mest með því að segja honum dæmi þess, hvað konur væru vjelráðar, og hvílík óhamingja hefði staðið af ráðum þeirra. Fyrst sagði hann:

## Söguna af kerlingunni og kaupmannssyninum.

Svo er frá sagt, að sonur stórkaupmanns nokkurs kom til Bagdad og ætlaði að flytja þar í hús eitt, sem var afar skrautlegt.

En áður hann tæki það að leigu, þá var honum sagt, að enginn byggi þar lengur enn viku eða hálfan mánuð, og skildust allir svo við húsið, að þeir væru bornir þaðan sjúkir eða dauðir. Væri leigan fyrir þá sök lítil og aðeins tíu gullpeningar á mánuði.

Þegar hinn ungi maður heyrði þetta, þá fór honum ekki að lítast á blikuna. En ekki sleppti hann samt áformi sínu, heldur styrkti hann hjarta sitt með guðrækilegum hugsunum og leigði húsið í trausti guðlegrar forsjónar. Flutti hann nú þangað og hafði þar sölubúð sína.

Nú liðu svo nokkrir dagar, að honum varð ekkert að meini. En einusinni er hann sat við húsdyrnar, þá gekk þar um kerling nokkur gráhærð, og var hún að tauta guðlegar bænir fyrir munni sjer; bar hún steina afsíðis, sem lágu á vegi hennar, og annað það, er fyrir fótum gat orðið*). Fer hún að virða fyrir sjer kaupmannssoninn og starir á hann einsog með undrun. Spurði hann því, hvort hún þekkti sig eða þæktist þekkja sig, en hún færði sig nær honum og mælti: „Hvað lengi hefurðu búið í þessu húsi?“

„Í tvo mánuði, móðir góð!“ svaraði hann, og sagði kerling honum þá, að hún hvorki þekkti hann nje þæktist þekkja, en kvað sjer undarlegt þykja, að hann skyldi geta fengið af sjer að búa í því húsi, sem enginn hefði skilið við lífs eða ósjúkur, og mundi hann víst stofna sjer í sömu hættu. „Hefurðu ekki komið upp á þakið ennþá?“ mælti hún, „og hefurðu ekki komið út á svalirnar stóru og horft þaðan?“

Að svo mæltu fór hún leiðar sinnar, en kaupmaðurinn hugsaði eptir orðum hennar og segir við sjálfan sig: „Eg hef allt til þessa ekki komið uppá þakið og um svalirnar stóru veit eg alls ekkert. Stóð hann þá undireins upp og fór að leita í garðinum, fann hann þar glæsilegar dyr útí horni og voru þær alþaktar kongulóavefjum. Já, já, hugsaði hann með sjer, þessir kongulóavefir eru víst ekki góðs viti. En hann treysti hinu helga fyrirheiti: „Ekkert skal oss að höndum bera, sem ekki er guðs vilji;“ lauk hann því upp dyrunum og kom að glæsilegu riði. Gekk hann upp eptir því

*) Slíkt telja dýrkendur Mahómets með góðum og guðrækilegum athöfnum.

þangað til hann kom upp á þakið; voru þar svalir fagrar og tók hann sjer þar sæti. Var þaðan víðsýni mikið yfir alla Bagdaðsborg. Sá hann þá hvar fögur kona sat í hásæti á öðrum svölum og varð hjarta hans samstundis töfrað af ást til hennar. Hann sagði við sjálfan sig: „Nú skil eg; menn munu segja, að þessarar konu vegna geti enginn búið hjer í húsi svo að hann ekki sýkist eða deyji. Ó, að eg vissi, hvernig eg á að komast út úr vandræðum þessum. því vit mitt er á förum.“ Fór hann því næst ofan aptur og settist við dyrnar. Og sjá! þá kom kerlingin aptur og jafnskjótt sem hann sá hana, þá spratt hann upp og heilsaði henni blítt og kurteislega. „Æ móðir góð!“ sagði hann, „eg var sæll og ánægður áður enn þú sagðir mjer frá þakinu og svölunum. En þegar eg horfði út þaðan, þá sá eg slíka sjón, að eg varð öldungis höggdofa og hugfanginn. Þykist eg nú sjá glötun mína fyrir, nema þú hjálpir mjer; því eg treysti engum til að finna bót við meini mínu, nema þjer einni.“ Kerling glotti við, en hann fór inn í hús sitt, sókti þangað hundrað gullpeninga og gaf henni. Rjeði hún honum þá að fara á kauptorg silkisölumanna og kaupa hina fegurstu andlitsskýlu, sem hann fyndi í sölubúð Abúlfeths. Sagði hún að Abúlfeth þessi væri maður hinnar fríðu konu, er hann hafði sjeð.

Daginn eptir fór kaupmannssonurinn þangað, keypti andlitsskýlu fyrir fimmtíu gullpeninga og fór heim með hana. Kom kerling þar til hans og fjekk hann henni skýluna; brenndi hún hana ofurlítið á einu horninu, braut hana saman og fór með hana heim til Abúlfeths. Var kerling þar dálítið kunnug og var henni eigi synjað inngöngu; enda laug hún því til, að hún ætlaði að taka þar helgiþvott og gera bæn sína. Sá hún sig þá ekki úr færi og laumaði skýlunni, svo enginn sá, undir hægindið í legubekknum, sem Abúlfeth var vanur að sitja í; gekk hún síðan á burt.

Nú kemur Abúlfeth heim um kvöldið og sezt í legubekkinn, og að teknum kvöldverði hallar hann sjer aptur á bak upp við hægindið. Sá hann þá hvar hornið á skýlunni stóð út undan; kannaðist hann undireins við hana og fjekk illa grunsemd á konu sinni. Kallaði hann á hana og spurði, hvaðan skýlan væri komin. Kvaðst hún eigi vita það, og sór hún og sárt við lagði, að enginn karlmaður hefði komið þangað nema hann einn. Gerði maðurinn nú ekki

meiri rekistefnu út úr þessu og vildi eigi að það yrði hljóðbært um borgina, því hann kom opt á fund kalífans. En nokkru síðar segir hann við konu sína: „Mjer er sagt að móðir þín sje veik og er því tilhlýðilegt að þú vitjir hennar.“ Fór konan þá til móður sinnar og hitti hana alfríska. En á eptir konunni komu margir þjónar fótgangandi og báru þeir alla muni hennar úr húsi Abúlfeths. Skildi móðir hennar undireins, að hún var rekin burt af manni sínum, og spurði hana, hvað þeim hefði borið á milli; en konan sór og sárt við lagði, að hún hefði í engu styggt mann sinn.

Nokkrum dögum síðar kom kerling til konunnar fögru, og ljet þá sem hún sárkenndi í brjóst um hana. Spurði hún, hvernig á því stæði að maðurinn hefði skilið við hana. Hún samhryggðist einnig móður hennar, en hún tók því með þökkum og mælti: „Hver veit nema árnaður þinn megi stuðla nokkuð til þess, að þau sættist aptur, því þú fastar mikið og biðst fyrir.“ Lofaði kerling öllu fögru um það, en henni varð það nú fyrst fyrir, að hún fór á stað til yngismannsins og sagði honum að búa sig til að fagna konunni fögru. Fór hún því næst til móður hennar og kvaðst vera boðin í brúðkaupsveizlu; bað hún hana að lofa dóttur sinni að fara með sjer, svo að harmurinn mætti rætast af henni. Kvaðst hún bæði skyldu fylgja henni í veizluna og heim aptur. Móðirin leyfði það og fylgdist dóttir hennar prúðbúin með kerlingunni, en hún gekk rakleiðis heim í hús kaupmannssonarins. Leizt konunni vel á hann, en hann sýndi henni frábæra kurteisi. Hjelt hún í fyrstunni, að hann væri brúðguminn, þangaðtil hann kvað upp úr og sagði henni hvílíkan ástarhug hann hefði lagt á hana. Daufheyrðist konan ekki við bænum hans og unnust þau nú lengi í makindum svo enginn vissi. En sem hæzt stóð á þessu, fjekk kaupmannssonurinn allt í einu boð frá föður sínum, að hann skyldi koma heim aptur frá Bagdad. Nú reið honum lífið á því, að konan kæmist aptur í sátt við Abúlfeth bónda sinn, og tókst kerlingunni einnig að koma því til vegar. Fór hann einn dag, eptir undirlagi kerlingar, í búðina til Abúlfeths og tyllti sjer þar niður. Í sama vetfangi gengur kerlingin fram hjá búðinni með bænaband í hendi og þylur upp úr sjer helgar lífsreglur úr kóraninum. Og jafnskjótt

sem kaupmannssonurinn sá hana, þá fór hann að atyrða hana og gekk í veg fyrir hana, en hún sýndi honum auðmýkt og kurteisi. Þeir, sem fram hjá gengu, flykktust þá að þeim og spurðu, hverju þetta gegndi. Sagði þá kaupmannssonurinn frá því, að hann hefði fyrir nokkru síðan keypt dýra andlitsskýlu af Abúlfeth þar í búðinni; hefði ambátt sín ekki gengið með skýluna nema einusinni, því hún hefði brunnið fyrir henni á einu horninu, hefði hann þá fengið kerlingu hana til aðgerðar, en allt frá þeim tíma hefðu þau hvorki sjeð kerlingu nje heldur skýluna.

Kerling þrætti ekki fyrir, heldur meðgekk hún strax, að hún hefði tekið við skýlunni; kvaðst hún hafa farið með hana í ýms hús og hefði hún orðið eptir í einhverju þeirra, og aldrei aptur fundizt, en ekki vantaði það, að hún hefði spurzt fyrir um hana, einsog hún hefði getað. En fyrir þá skuld, að hún væri vesæl og fátæk, þá hefði hún óttast reiði kaupmannssonarins og ekki þorað að láta hann sjá sig framar. Nú varð Abúlfeth sáraumur, er hann heyrði þetta, og bað að ekki yrði tekið hart á sjer, því þetta hefði hlotizt af glappæði sínu og misskilningi. „Varstu líka í mínum húsum?“ segir hann við kerlinguna. Kerling kvað svo vera og mælti: „Eg hef stundum komið hingað til að fá ölmusu, en þegar eg var hjer seinast, þá var mjer sagt, að þú hefðir rekið frá þjer konu þína og upp frá þeirri stundu hef eg ekki stigið fæti mínum í hús þetta.“ Þá mælti Abúlfeth við kaupmannssoninn: „Slepptu kerlingar garminum; skýlan er í mínum vörzlum;“ gekk hann þá inn í búðina og sókti hana. Því næst fór hann til konu sinnar, bað hana fyrir guðs sakir að fyrirgefa sjer og tók hana aptur til eiginkonu, en aldrei á æfi sinni varð hann áskynja um hinn illa grikk, er kerling hafði gert honum.“ — Og enn sagði vezírinn eina sögu, til að sýna hversu óhyggilegt væri að eiga nokkuð undir konum.

## Konan ótrygga.

Einusinni var maður, sem átti sjer myllu og asna, sem hann hafði til að snúa myllunni. Hann átti líka konu, sem hann unni hugástum, en hún var honum lítt unnandi. Hafði hún gott auga til eins af nágrönnum sínum, en hann vildi hvorki heyra hana nje sjá.

Nú dreymdi bónda hennar einusinni að maður sagði honum, að hann skyldi fara til og grafa niður á vissum stað undir gangbraut asnans, því þar væru fjársjóðir í jörð fólgnir. Sagði hann konunni draum sinn þegar er hann vaknaði, en hún sagði hann nábúa sínum, er henni leizt svo vel á, og gerði hún það til þess að hæna hann að sjer; lofaði hann að koma heim til hennar um nóttina, og sveikst ekki heldur um það. Gróf hann þar sem til var vísað og fann fjársjóðuna. Ráðgaðist hann því næst um það við konuna, hvað þau ættu að gera við fjeð. Hún lagði það til, að þau skyldu skipta því í tvo jafna hluti, og skyldi hann skilja við konu sína, en hún mundi finna ráð til að losast við mann sinn; gætu þau þá gipzt og slegið fjenu saman í eitt. En nábúi hennar kvaðst vera hræddur um, að þar mundi koma, að hún tæki annan mann enn sig, ef hún hefði helfing auðæfanna í húsum sínum, væri því betra að hann hefði þau öll; kvað hann hana þá mundu leggja því meira kapp á að losast við mann sinn og giptast sjer.

Ekki varð konunni þetta ráð að skapi. Hún kvaðst einmitt vera hrædd um hið sama og hann, og vildi fyrir engan mun láta hann fá helfing auðæfa þessara, sem hann átti henni einni að þakka. En er hann heyrði konuna mæla slíkum orðum, þá kom honum til hugar að myrða hana, og er hann hafði framið þetta hryllilega ódæði, þá fleygði hann líkinu niður í gryfjuna. En með því farið var að birta af degi, þá varð hann naumt fyrir og gat ekki mokað ofan í gryfjuna. Nú vaknar malarinn og fer til myllu sinnar; beitir hann asna sínum fyrir og keyrir hann áfram. Gengur asninn spölkorn áfram og stendur síðan grafkyr. Malarinn lamdi hann og gaddaði, en það dugði ekkert, því asninn fældist gryfjuna og lík konunnar, sem lá í henni. Og með því ekki var orðið albjart og malarinn gáði ekki vandlega að, þá sá hann ekkert og varð svo bálreiður asnanum, að hann keyrði hnífinn í síðu honum svo að hann datt dauður niður. Nú gætti hann að vísu betur að, og sá þá asnann dauðan, konu sína dauða og auðæfin horfin; hlutust öll þessi slys af engu öðru enn því, að hann trúði konunni fyrir leyndarmáli sínu.

Vezírinn sagði ennþá eina sögu:

# Khosróes konungur, Scherin og fiskimaðurinn.

Khosróes Persakonungi þókti fiskur ákaflega góður, og einhvern dag er hann sat með Scherin drottningu sinni í málstofu, þá kom fiskimaður og færði honum einn stóran fisk. Þókti konungi stórvænt um og ljet fá manninum fjórar þúsundir silfurpeninga að gjöf. En drottning ámælti honum fyrir það, því nú mundi hverjum, sem hann gæfi jafnmikið fje, og þetta væri, þykja skömm til koma, og mundi þá segja: „Hann gaf mjer einsog fiskimanninum og ekki meira.“ En þegar hann gæfi minna þá mundi sagt verða: „Hann hefur ekki einusinni gefið mjer eins mikið og fiskimanninum.“

Khosróes kvað þetta vera hverju orði sannara, en það væri engum konungi sæmandi, að taka það aptur, sem hann væri búinn að gefa. Sagði drottning þá, að hún skyldi finna ráð til þess. „Hvernig þá?“ segir konungur. „Sje það vilji þinn,“ ansaði hún, „þá láttu kalla á fiskimann og spurðu hann, hverrar tegundar fiskurinn sje, og þegar hann er búinn að leysa úr þeirri spurningu, þá skalt þú segja: „Eg ætlaðist til að fiskurinn væri annarar tegundar.“

Konungur ljet kalla á fiskimann og spurði, hverrar tegundar fiskurinn væri, sem hann hefði fært sjer. Fiskimaðurinn kyssti á gólfið frammi fyrir konungi og svaraði einsog von var af slóttugum manni: „Fiskurinn er ekki einnar tegundar, heldur er hann kynblendingur.“ Þá hló konungur og bauð, að menn skyldu fá fiskimanni fjórar þúsundir silfurpeninga í viðbót.

Fiskimaður tók við fjenu af gjaldkyranum og ljet það í skinnpoka, er hann bar á sjer, lypti honum upp á öxl sjer og gekk á burt. Í þeim svifum missir hann einn peninginn, stendur þá við, setur pokann niður og tekur peninginn upp. Þetta sá bæði konungurinn og drottningin og gall hún þá undireins við og mælti: „Herra! sjerðu ekki hvílíkur vesalingur maður þessi er, að hann skuli ekki einusinni tíma að láta einn pening verða eptir handa mönnum þínum?“ Reiddist konungur þá, og ljet kalla á fiskimanninn. „Kvikindið þitt!“ sagði hann í vonzku, „nánösin þín! því stendurðu við og setur niður pokann til að taka upp einn pening, sem þú misstir niður? gaztu ekki gleymt honum?“ „Guð gefi yðar

hátign langa lífdaga,“ ansaði fiskimaður, „eg tók ekki peninginn upp fyrir þá sök, að hann væri svo mikils virði, heldur af því, að hann ber ásjónu konungs öðrumegin en nafn hans hinumegin, og af því, að eg var hræddur um, að einhver kynni í ógáti að troða það undir fótum. Eg vildi ekki eiga á samvizku minni að svo færi.“

Konungur furðaði sig á svari þessu og fjell það honum vel í geð; bauð hann enn að gefa skyldi fiskimanni fjórar þúsundir silfurpeninga. Þvínæst skipaði hann kallara að fara hvervetna og hrópa hárri röddu: „Það er ótilhlýðilegt, að nokkur maður fari að kvenna ráðum.“

Nú skipaðist konungur við sögur og fortölur vezíranna og frestaði aftöku sonar síns. Næsta dag, sem var hinn áttundi, kom kóngsson sjálfur, því nú mátti hann óhræddur mæla, og þakkaði hann föður sínum og vezírunum fyrir, að þeir höfðu lofað honum að lifa. Fræddist þá konungur um alla málavöxtu fyrir sögusögn sonar síns og Sindibaðs kennara hans, og bar hann því næst upp spurningu þessa: „Hefði eg nú látið ráða son minn af dögum, á hverjum hefði þá sökin bytnað, á mjer eða vildarkonu minni, eða Sindibad?“ Enginn af þeim, sem viðstaddir voru, þorði að leggja dóm á það. Þá sagði kóngsson eptir áskorun Sindibaðs kennara síns:

## Sögu kaupmannsins.

Einusinni stóð svo á fyrir kaupmanni nokkrum, að gestur var kominn til hans, og sendi hann því ambátt sína út á torgið til að kaupa mjólk. Hún gerði svo og fór heim með mjólkina. En á heimleiðinni vildi svo til, að gammur einn flaug með höggorm í klónum hátt uppi í lopti og bar yfir höfuð hennar; og með því hann þrýsti heldur fast að orminum, þá kreistist úr honum eiturdropi og fjell hann beint niður í mjólkurkerið, og varð ambáttin þess ekki vör.

Húsbóndinn tók við mjólkurkerinu og setti það fram fyrir gesti sína, því hann hafði boðið nokkrum nábúum og vinum í virðingar skyni við gestinn, sem fyrst kom. Drukku þeir allir af mjólkinni eitraðri og drápust allir hver um annan þveran.

„Segið mjer nú,“ mælti kóngsson, „hverjum verður kennt um-

ógæfu þessa?" „þeim, sem drukku mjólkina," svaraði einn af þeim, er viðstaddir voru. „Nei!" sagði annar, „sökin bytnar á ambbáttinni einni, því hún hafði ekki lagt neitt ofaná kerið." Bað þá Sindibad konungssoninn að segja, hvernig hann liti á þetta mál, og tók hann þá þannig til orða: „Ykkur skjátlast; sökin bytnar ekki á ambáttinni og ekki á þeim, sem drukku. Skapadægur þeirra var komið og voru það forlög þeirra, að þetta atvik yrði þeim að bana." Undruðust allir dóm þenna og lofuðu viturleik kóngssonar. Kvaðst hann þá skyldu segja þeim sögu af blindum karli og fimm vetra gömlum sveini, sem hefðu verið miklu vitrari.

## Karlinn blindi.

Einusinni var vellauðugur kaupmaður, sem hafði farið mjög víða til fjarlægra landa og borga. það var einhverju sinni að hann ætlaði í kaupferð til lands nokkurs, er sagan eigi nafngreinir; spurðist hann fyrir hjá mönnum, sem nýkomnir voru þaðan, hverjar þær vörur væru, sem mest mætti græða á í því landi. Svöruðu þeir honum, að sandelsviður væri þar í afarháu verði. Varði kaupmaður því öllu fje sínu til að kaupa sandelsvið. Náði hann í hæfilegan tíma þangað sem förinni var heitið og kom að kvöldi dags í borgina, þar sem hann ætlaði að verzla. Mætti hann þar kerlingu einni, sem rak á undan sjer tvær kindur, er hún átti. Og sem hún sá kaupmann, þá yrti hún á hann og mælti: „Hvaðan ber þig að, maður sæll?"

„Eg er maður útlendur og stunda kaupskap," ansaði hann.

„Varaðu þig þá á borgarmönnunum hjerna," mælti kerling, „því þeir eru þjófgefnir og prettvísir; þeir hafa allar klær úti, svíkja útlendinga og hafa út úr þeim fje. Hugfestu þjer orð mín, því eg ræð þjer heilt." Að svo mæltu fór kerling leiðar sinnar og varð ekki viðtal þeirra lengra. Morguninn eptir kom einn af borgarmönnum til kaupmanns, heilsaði honum og mælti: „Hvaðan ert þú kominn, herra?" Sagði kaupmaður honum það og spurði þá hinn ókunni maður: „Hvaða vörur hefur þú flutt með þjer hingað?"

„Sandelsvið," ansaði kaupmaður, „hann kvað vera hjer vel útgengilegur, svo hefur mjer að minnsta kosti verið sagt."

„þá hefur þjer verið rangt frá sagt,“ mælti ókunni maðurinn, „því hjer er hann hafður undir pottana og ekki metinn dýrar enn hver annar eldiviður.“

Kaupmaður stundi við, er hann heyrði þetta, og iðraðist eptir að hann hafði hleypt sjer í fyrirtæki þetta, en ekki var hann samt öldungis viss um, að óhætt væri að trúa manninum. þegar hann var kominn heim í gesthúsið, þar sem hann var seztur að, þá kveikti hann eld undir katli sínum og brenndi sandelsviði. Hinn maðurinn sjer það og spyr kaupmann, hvort hann vilji ekki láta sig fá sandelsviðinn; kvaðst hann gjarna skyldu borga hann með fullum mæli af hverju því, er hann vildi á kjósa.

„Ekki skal eg neita því boði,“ mælti kaupmaður, og ljet hinn ókunni maður flytja allan sandelsviðinn í geymsluhús sitt, en kaupmaður ætlaði að taka borgun af honum í gulli. En sem hann gekk út, þá mætti hann manni einum með glóðarauga og eineygðum, því hitt augað hafði hann misst; rauk hann í kaupmann, því hann hafði einnig glóðarauga, og mælti: „þú hefur svipt mig öðru auganu og skaltu ekki hjeðan sleppa, fyrr enn þú bætir mjer það að fullu.“

Kaupmaður varð þá öldungis hlessa og þverneitaði, að hann ætti til nokkurra bóta að sækja hjá sjer. Sagði hann eineygða manninum að færa sönnur á mál sitt, og safnaðist nú mesti manngrúi kringum þá; komst kaupmaður ekki burt fyrr enn hann hafði fengið mann til að ábyrgjast, að hann skyldi koma næsta dag fyrir dóm og verja mál sitt. En er hann gekk á burt, þá sá hann að annar skórinn hafði rifnað meðan hann var að stimpast við þann eineygða; fór hann því inní búð til skóara eins og mælti: „Hjerna er skór; gerðu við hann fyrir mig og skaltu fá að verkalaunum það, sem þjer bezt líkar.“ Fór kaupmaðurinn þaðan leiðar sinnar og hitti menn, er sátu að tafli. Settist hann þar hjá þeim, því hann var dapur og sorgbitinn. Spurðu þeir, hvort hann vildi ekki tefla sjer til skemmtunar, og var hann þess allfús. En svo fóru leikar, að hann tapaði, og heimtaði sá sem vann, að annaðhvort skyldi hann drekka upp sjóinn eða leggja fram aleigu sína. Beiddi kaupmaður nú um frest til næsta dags og gekk á brottu, fullur harms og kvíða. Settist hann niður á förnum vegi og sjer hann

allt í einu hvar kerlingin kemur sem hann fyrst átti tal við, og jafnskjótt sem hún sjer kaupmann, þá gengur hún að honum og segir: „Eg þykist vita að borgarmennirnir muni hafa gert á hluta þinn, því mjer lízt svo á þig, sem þú eigir um sárt að binda.“ Sagði þá kaupmaður henni allt sem farið hafði; þá mælti kerling: „Hver skyldi sá vera, sem hefur svikið út úr þjer sandelsviðinn? Hjer á landi jafngildir eitt pund af sandelsviði tíu pundum gulls. En hver veit nema eg geti kennt þjer ráð til að sleppa úr vanda þessum með hægu móti.“ Rjeði hún honum nú að fara að porti einu og lýsti því nákvæmlega fyrir honum. Sagði hún að þar mundi hann sjá blindan karl, sem sæti kyr og valla gæti hreift fætur sína. Kerling kvað öldung þenna vera stórvitran, enda leituðu allir ráða til hans; kynni hann vel til allra vjela og pretta og væri fjölkunnugur. Hún sagði og, að hann hefði mök við þjófa, og væru þeir vanir að safnast saman í húsi hans um nætur. Skyldi kaupmaður því fara þangað og fela sig; kynni hann þá að heyra hvað karlinn segði óvinum hans, þegar þeir kæmu þangað til að leita ráða. Þækti sjer alllíklegt að hann gæti notað eitthvað af því sjer til undanfærslu. Fór kaupmaður nú að ráðum hennar og leitaði upp karlinn. Tókst honum að finna sjer gott fylgsni í húsi hans, og var þess eigi langt að bíða, að þorpararnir komu, allir fjórir. Heilsuðu þeir karlinum og settust í kringum hann. Ljet karlinn bera mat á borð fyrir þá og tóku þeir til snæðings, en er þeir höfðu matast, þá fóru þeir að bera undir hann málefni sín.

Fyrst byrjaði sá, er keypt hafði sandelsviðinn, og sagði frá því, að hann hefði keypt sandelsvið af útlendingi með því skilyrði, að hann gæfi seljandanum í staðinn einn mæli af því, er hann krefðist. Spurði hann karlinn, hvort sjer hefði nokkuð yfirsjezt í þessu.

„Seljandinn getur vafið þjer um fingur sjer,“ ansaði karlinn.

„Hvernig þá?“ segir sá sem keypt hafði sandelsviðinn.

„Skilurðu það ekki?“ mælti karlinn; „þegar hann nú heimtar af þjer einn mæli gulls eða silfurs, læturðu hann þá fá hann?“

„Að vísu geri eg það,“ svaraði hinn, „og hef samt ærinn ábata.“

þá mælti karlinn: „En ef hann nú heimtar einn mæli af flugum og segir að annar helfingurinn skuli vera karlkyns, en hinn helfingurinn kvennkyns, hvernig fer þá?“

þá játaði sá sem keypt hafði sandelsviðinn, að hinn útlendi kaupmaður gæti vafið honum um fingur sjer.

þessu næst bar hinn eineygði málefni sitt undir karlinn. Hann mælti: „Eg mætti útlendingi með glóðarauga, rjeðist á hann og sagði, að hann hefði svipt mig öðru auganu; sleppti eg honum ekki fyrr enn hann hafði fengið mann til að ábyrgjast, að hann skyldi ganga fyrir dóm á morgun og bæta mjer skaðann.“

„það stoðar ekkert ef útlendingurinn ekki vill,“ mælti karlinn.

„Hvernig stendur á því?“ spurði eineygði maðurinn. Karlinn svarar: „Ef hann nú skyldi segja: „þú verður fyrst að færa sönnur á mál þitt. Slíttu annað augað úr höfði þjer og skal eg þá líka slíta úr mjer annað auga mitt, skulum við síðan vega bæði; sje þá mitt auga jafnt þínu að vikt, þá hefur þú rjett að mæla, en að öðrum kosti hefurðu logið. Mátt þú þá til með að bæta honum augað og verður sjálfur alveg blindur, en hann getur hælzt um við þig þar sem hann þó sjer með einu auga.“

þá sá hinn eineygði maður að hann á endanum mundi fara halloka fyrir kaupmanninum.

Nú tekur skóarinn til máls og segir: „Vitringur góður! maður færði mjer skó til aðgjörðar. Eg spurði, hvort hann ætlaði að greiða mjer nokkra þóknun fyrir verk mitt og svaraði hann þá: „Já! þú skalt fá það sem þjer bezt líkar. Nú líkar mjer allt sem hann á, og er mjer nær að halda að hann sleppi mjer ekki úr greipum.“

„Hann getur fengið skóinn hjá þjer aptur borgunarlaust, ef hann vill,“ sagði karlinn.

„Hvernig þá?“ spurði skóarinn.

Karlinn mælti: „Ef hann nú tekur þannig til orða: „Óvinir konungs eru að velli lagðir og mótstöðumenn hans eru orðnir veikir fyrir, en börn hans og vinir hafa fjölgað. Líkar þjer það eða líkar þjer það ekki? Hvernig fer þá? Ef þú segir: „það líkar mjer“ — þá tekur hann skó sinn og gengur á burt; en ef þú

segir: „Ekki líkar mjer það,“ þá tekur hann skó sinn og gefur þjer löðrunga og höfuðhögg.“ — Sá skóarinn þá að hann mundi bera lægra hlut.

Nú kom sá sem unnið hafði taflið. „Vitringur góður!“ mælti hann, „eg tefldi við útlending og hafði betur. Þá setti eg honum þann kost, að hann skyldi drekka upp sjóinn, en gæti hann það ekki, þá skyldi hann fá mjer aleigu sína. Er nú nokkuð veilt í þessu?“

„Þú fær ekki hjá honum einn skilding, nema hann sjálfur vilji,“ ansaði karlinn. „Hvernig getur það verið?“ spurði taflmaðurinn. „Ef hann nú,“ mælti karlinn, „segir við þig: „Rjettu mjer sjóinn, þá skal eg drekka hann upp.“ Hvernig fer þá?“

Þá sá taflmaðurinn að það var ekki víst, að hann mundi sækja gull í greipar kaupmanninum. En útlendi kaupmaðurinn vissi nú, hvernig hann ætti að komast úr vandræðum sínum.

Og er mótstöðumenn kaupmanns voru búnir að kveðja karlinn, þá fór hann einnig heim til gesthússins í herbergi sitt.

Morguninn eptir kom fyrst eineygði maðurinn og krafðist bóta fyrir auga sitt. Svaraði þá kaupmaður með sömu orðum, sem hann hafði heyrt karlinn mæla kvöldinu áður. Og úr því svo var komið, þókti skelmirnum vænt um, að kaupmaðurinn sleppti honum lausum og hlífði honum við dómi og refsingu, með því skilyrði, að hann borgaði sjer hundrað gullpeninga. Með skóarann fór hann að öllu leyti einsog karlinn hafði fyrir mælt, og fjekk hann skóinn aptur ókeypis. Taflmaðurinn fór einnig burt með sneypu og varð fyrir töluverðum útlátum. Ekki fór betur fyrir þeim, sem keypt hafði sandelsviðinn. Hann mátti verða því feginn, að kaupmaður tók aptur sandelsviðinn, og varð hann þar á ofan að greiða honum hundrað gullpeninga til að kaupa sig undan hegningar dómi. Seldi kaupmaður sandelsviðinn seinna fyrir afarverð og fór heim til ættjarðar sinnar með fullar hendur fjár.

Því næst sagði kóngsson hið annað vizkudæmi, er hann hafði á minnzt.

*) Því skóarinn sýndi þá konunginum ekki tilhlýðilega lotningu.

# Saga af fimmvetra gömlum sveini.

Einusinni höfðu fjórir kaupmenn skotið saman þúsund gullpeningum og látið þá í poka. Fóru þeir allir út með fje þetta til að kaupa vörur og varð þeim þá gengið fram hjá fögrum aldingarði, og leizt þeim heillaráð að fara þar inn sjer til skemmtunar. Beiddu þeir konu garðyrkjumannsins að varðveita gullið á meðan og reikuðu þeir síðan hingað og þangað um garðinn, átu ávexti af trjánum og drukku vatn af lindunum.

Nú tók einn þeirra til orða og mælti: „Eg hef dálítið hjá mjer af ilmandi viðsmjöri; komið bræður! við skulum þvo okkur í framan hjerna í læknum og smyrja á okkur skeggið.“ Hinum leizt vel á það, en einn þeirra sagði, að þeir mundu þurfa að halda á kambi. „Konan garðyrkjumannsins hefur víst kamb,“ segir annar, „við skulum fara til hennar.“ Bauðst þá einn af kaupmönnum til að fara og sækja kambinn. En honum var reyndar annað í hug; hann nefndi ekki kambinn á nafn við konuna, heldur bað hann hana að fá sjer gullpokann.

Kona garðyrkjumannsins hafði vit til þess, að færast undan beiðni hans, og bar hún það fyrir, að þeir hefðu fengið henni pokann allir fjórir og eins yrði hún að fá þeim fjórum pokann aptur. En kaupmaður var nú ekki uppnæmur fyrir það. Hann fer fram í dyrnar á garðyrkjumanns húsinu og kallar til fjelaga sinna: „Hún vill ekki fá mjer hann nema þið viljið það líka.“ Hinir höfðu ekki annað í huganum enn kambinn og kölluðu aptur, að henni væri óhætt að fá honum hann, og það sögðust þeir fegnir vilja. Fór konan þá inn með kaupmanninum og fjekk honum pokann, en hann burt einsog sending svo ekki festi auga á. Hinir þrír kaupmennirnir voru nú lengi að vona eptir honum, að hann kæmi með kambinn, en um síðir leiddist þeim að bíða, og fóru þeir þá til konu garðyrkjumannsins og spurðu hana, því hún ekki vildi ljá þeim kambinn.

„Það hefur enginn beðið mig um kamb,“ svaraði hún, „en fjelagi ykkar ljet mig fá sjer gullpokann, og þið gáfuð líka leyfi ykkar til þess. Hann hljóp undireins burt þegar eg var búinn að fá honum hann.“

Þegar kaupmenn heyrðu þetta, þá brá þeim mjög í brún og ámæltu þeir konunni. Þeir sögðust hafa fengið henni pokann allir fjórir og yrði hún nú að skila honum aptur. Leiddu þeir konuna fyrir dómara og sögðu honum málavöxtu. Var konan dæmd til að bæta þeim skaðann og fór hún grátandi heim til sín, nær því rænulaus af örvílnan. Á leiðinni varð lítill sveinn á vegi hennar, fimm vetra gamall. Og er hann sá hvað konan var harmþrungin og utan við sig, þá segir hann við hana: „Hvað gengur að þjer, móðir góð?“ En konan gaf sveininum engan gaum og ansaði honum ekki; en hann hætti ekki við hana, heldur spurði hann hana hvað eptir annað og sagði hún honum þá loksins, hvernig farið hefði fyrir sjer.

Þá mælti sveinninn: „Ef þú gefur mjer einn silfurpening til að kaupa sætindi fyrir, þá skal eg segja þjer, hvernig þú getur komizt skaðlaus frá málinu.“ Konan gaf sveininum það sem hann mæltist til og bað hann nú að segja sjer, hvað hún ætti að gera.

Sveinninn mælti: „Þú skalt fara strax aptur til dómarans og leiða honum fyrir sjónir, að þú hafir því aðeins skuldbundið þig til að skila pokanum aptur, að allir hinir fjórir kaupmenn tækju við honum í einu; munu ákærendur ekki bera móti því, og skaltu þá standa fast á því, að þú ekki viljir afhenda pokann aptur nema þeir krefji hans fjórir í einu.“

Dómarinn sendi nú boð eptir kaupmönnunum og spurði, hvort það hefði verið samkomulag þeirra, að þeir skyldu allir fjórir sækja pokann til konunnar. Þeir kváðu svo vera. Skipaði dómarinn þeim þá að sækja fjórða fjelagann, og sagði að þá skyldu þeir fá pokann aptur.

Kaupmenn fóru nú og leituðu hvervetna að fjelaga sínum, sem burt var hlaupinn, og fundu þeir hann hvergi, en kona garðyrkjumannsins leystist þannig undan skuldbindingu sinni.“

Nú lofuðu allir kóngsson í einu hljóði og faðmaði konungur hann með blíðu og kyssti hann. Skaut hann því undir hans úrskurð að ákveða refsingu þá, er leggja skyldi á vildarkonuna, hvort hún skyldi láta líf sitt eða sæta annari hegningu. En kóngsson lagði á hyggilegan og vægan úrskurð. „Henni skal burt vísað,“ mælti hann, „og komi hún aldrei í vora augsýn framar.“

# Sagan af Íbrahím og Dschemileh.

El Kasib hefur heitið jarl einn á Egyptalandi, og átti hann son, er Íbrahím hjet. Hann var svo fríður sýnum, að hann átti engan sinn jafningja. Svo bar til einn Föstudag að hann var á leið til musteris, og varð honum gengið fram hjá gömlum manni, er sat undir húsvegg og hafði fjölda bóka í kringum sig. Staðnæmdist þá Íbrahím hjá honum og fór að blaða í bókunum; fann hann í einni bókinni kvennmanns mynd svo óumræðilega fagra, að fegri gat ei hugsast á jarðríki. Varð hann þegar í stað svo hugfanginn af myndinni, að hann sagði við karlinn: „Gamli maður! seldu mjer bókina.“ Var karlinn þess allfús og gaf Íbrahím honum hundrað gullpeninga og hafði bókina heim með sjer. Og nú sat hann dag og nótt yfir myndinni og horfði á hana frá sjer numinn, en næsta Föstudag leitaði hann aptur upp karlinn og spurði hann eptir hvern myndin væri. Sagði karlinn að hún væri eptir Abúl Kasim Essandalaní í Bagdad og lýsti húsakynnum hans fyrir Íbrahím. En hitt gat karlinn ekki sagt honum, hver sú hin fagra kona væri, er Essandalaní hafði myndað á bókina. Gekk nú Íbrahím til musteris og þaðan heim aptur; fyllti hann þar skinnpoka einn með gulli og gimsteinum, og var það meira enn þrjátíu þúsund gullpeninga virði. Sagði hann engum hvað hann hefði í hyggju, en morguninn eptir stje hann á hest sinn og reið á stað til Bagdad. Náði hann lest einni og spurði Bedúína nokkurn, hversu langt væri til Bagdad. Hann kvað þangað vera tveggja mánaða leið. Bað þá Íbrahím hann að fylgja sjer til Bagdad og hjet honum þremur hundruðum gullpeninga að launum og hesti sínum í tilbót, sem væri þúsund gullpeninga virði. Bedúíni kvaðst vera fús til þess, veitti honum náttból í tjaldi sínu og fylgdi honum síðan skemmstu leið til Bagdad. Þegar þeir voru komnir að borgarhliðinu, þá fjekk Íbrahím honum hestinn og þrjú hundruð gullpeninga og gekk inn í borgina; fann hann þar hús Essandalanis. Hann var maður auðugur og höfðinglegur, og tók hann Íbrahím gestbeinlega, er hann sagðist vera útlendur maður. Bauð hann honum að tefla við sig skák og vann Íbrahím taflið; lofaði hann því mjög taflkænsku hans og kvað hann bera langt af öllum skákmönnum í Bagdad. En er þeir höfðu

etið og drukkið saman þá spurði Essandalani, hvaðan hann væri og hverra erinda hann væri kominn til Bagdad. Sýndi Íbrahím honum þá myndina og mælti: „Vita skaltu, að eg er sonur jarlsins á Egyptalandi. Eg fann mynd þessa hjá bókasölumanni einum; spurði eg hver hana hefði gert og var mjer sagt að hún væri eptir þig. En með því hjarta mitt og hugur er gagntekinn af myndinni, þá seg mjer, hver er sú hin fagra kona, sem hún á að tákna?" Svaraði Essandalani, að konan hjeti Dschemileh og væri dóttir Abúl Leys, konungs í Balsora, en bræðrunga sín að frændsemi. Hann mælti: „Fegri kona er ekki til í heimi, en hún er svarinn óvinur karlmanna og þolir ekki að nokkur þeirra sje nefndur á nafn svo hún heyri. Eg bað hennar einusinni, en faðir hennar synjaði mjer ráðsins, og jafnskjótt sem hún komst að því, er eg hafði haft í hyggju, þá ljet hún bera mjer orð þessi: „Ef þú ert með viti, þá vertu ekki lengur í Balsora, því það mundi verða þjer til ills. Nú hef eg varað þig við og ræður þú sjálfur hvað þú gerir." Fór eg þá burt með harmþrungnu hjarta og málaði mynd Dschemileh í margar bækur. En bækurnar sendi eg til allra landa, því eg vonaði að þær kæmu einhverjum ungum manni fyrir augu, sem væri fagur og álitlegur einsog þú ert; mundi honum þá finnast svo mikið um myndina, að hann reyndi til að komast á fund hinnar fögru meyjar, og yrði það svo úr, að hún gæfi honum ást sína. Tel eg það víst, son minn! að þjer muni takast að blíðka hjarta hennar. En skyldi þjer verða þess auðið að finna hana að máli og fá hennar, mundirðu þá lofa mjer að sjá hana rjett einusinni, þó ekki væri nema tilsýndar?" Íbrahím lofaði því og bað Essandalani hann að vera kyrran, þangaðtil sjer þækti tími til kominn að hann hætti sjer í slíka hamingjuraun. En Íbrahím vildi ekki bíða og lofaði þá Essandalani að innan þriggja daga skyldi skip eitt vera ferðbúið, sem hann gæti komizt með til Balsora. Ljet hann þá búa eitt af skipum sínum og lagði allt til, sem til ferðarinnar þurfti. Segir hann við Íbrahím: „Bústu nú til ferðarinnar; hásetarnir eru þjónar mínir, en skipið á eg sjálfur og máttu ráða yfir því sem þjer líkar þangaðtil þú kemur aptur." Íbrahím kveður nú Essandalani og stígur á skipfjöl. Og er skipið var komið til Balsora, þá tók hann einn af hásetunum með sjer og

fór til gesthúss þess, er kaupmenn sóktu til. þar var fyrir maður háaldraður og æruverðugur, og hafði hann umsjón yfir gesthúsinu; heilsaði Íbrahím honum kurteislega og spurði, hvort hann gæti leigt sjer fallegt herbergi. Umsjónarmaður kvað já við því og fylgdi þeim Íbrahím eg hásetanum inní herbergi eitt, er skreytt var gylltum flúrmyndum. Tók Íbrahím undireins tvo gullpeninga upp úr vasa sínum, fjekk öldungnum og bað hann að færa þá konu sinni einsog gjöf frá sjer. Öldungurinn tók við gullinu og bað Íbrahím allra virkta. Sendi þá Íbrahím hásetann aptur út á skip og fjekk umsjónarmanni einn gullpening til að kaupa fyrir brauð og kjöt og önnur matföng. Fór umsjónarmaður út á torgið og útvegaði það er um var beðið; færði hann Íbrahím það og fjekk honum það sem afgangs var af fjenu. En Íbrahím tók ekki við því og neytti hann lítils af matföngunum, en gaf þau umsjónarmanni; þáði hann þau með þökkum og lofaði stórmennsku Íbrahíms. Tók hann nú eptir því, að Íbrahím var dapur í yfirbragði og táraðist; sambryggðist hann honum þá og spurði, því hann grjeti. Íbrahím svaraði engu um það, en fjekk honum marga gullpeninga og bað hann að kaupa handa sjer vín og ávexti, bæði nýlesna og þurkaða, og þar að auki ýmislegt annað sælgæti. „Vil eg,“ segir hann, „að þú drekkir með mjer í nótt.“ „Eg heyri og hlýði,“ ansaði umsjónarmaðurinn, og gerði hann nú einsog Íbrahím lagði fyrir hann. Settist hann um kvöldið hjá Íbrahím, og átu þeir saman og drukku og spjölluðu saman. En þá tók Íbrahím aptur að tárast og andvarpa og fór hann með vísu þessa:

Fje og fjörvi
Eg feginn vildi,
Heimi gjörvöllum,
Himinssælu
Og prýðigörðum
Paradísar —
Sætu sólbjartrar
Samvist kaupa.

„því grætur̃ðu?“ mælti umsjónarmaðurinn; „hvað gengur að þjer? Hver er sú, sem vísan er til kveðin? Fyrir þínum fótum getur hún

ekki verið meira enn dupt og ryk.“ Þá stóð Íbrahím upp og sókti klút, er hann hafði bundið saman utan um allskonar kvennskart; bað hann umsjónarmann að gleðja konu sína á því. Fór hann til hennar með það, en hún kom þegar og þakkaði Íbrahím fyrir gjöfina. Sá hún að hann var grátinn og spurði, hver hin fagra kona væri, er hann þráði svo mjög. Og nú gerði Íbrahím þeim hjónum uppskátt, hver hann var, og kvaðst vera kominn til að biðja Dschemileh dóttur Abúl Leys konungs. Þá kallaði konan upp yfir sig og mælti: „Æ, guð hjálpi þjer; blessaður láttu þjer ekki slík orð um munn fara, því það gæti orðið okkur öllum til glötunar. Engin kona í heimi er ofsafengnari enn hún og má hún ekki heyra nokkurn karlmann nefndan á nafn. Hugsaðu því ekki framar upp á hana, sonur kær!“

Þá setti aptur grát að Íbrahím, því honum þókti sem nú væri sjer horfin öll von, en umsjónarmaðurinn hrærðist til meðaumkvunar og mælti: „Eg á ekki annað til að leggja í sölurnar fyrir þig enn líf mitt, og skal eg hætta því þín vegna, og gefa þjer þau ráð, er eg get bezt til fundið. Vita skaltu, að hjer er krypplingur einn; hann er skraddari og saumar fyrir Dschemileh; skalt þú leita til hans, og má vera að hann geti dugað þjer með ráðum sínum.“ Fór nú Íbrahím að finna skraddarann kroppinbak. Fannst honum mikið um fegurð Íbrahíms og starði á hann með undrun; tók hann kveðju hans kurteislega og fjekk honum sæti. Beiddi Íbrahím hann að sauma saman vasa sinn, og hafði hann rifið hann áður með ásettu ráði. En er skraddarinn hafði gert að vasanum, þá gaf Íbrahim honum fimm gullpeninga og fór leiðar sinnar. Skraddarinn furðaði sig nú stórum á þessu og fjellst honum ekki úr fötum, hvað hinn ungi maður var fríður sýnum. En morguninn eptir kom Íbrahím til hans aptur og beiddi hann enn að gera að vasa sínum; hafði hann nú rifið gat á hann í annað sinn. Gerði skraddarinn það fúslega og gaf Íbrahím honum tíu gullpeninga fyrir. Tók skraddarinn við þeim og mælti um leið: „Það veit heilög hamingjan, að yður gengur eitthvað sjerlegt til þessa háttalags. Það þarf enginn að segja mjer, að þjer komið hingað til að láta mig sauma saman götin á vösunum yðar. Segið mjer, hver tilgangur yðar er með þetta.“ Íbrahím svaraði, að það hentaði

alls ekki að tala um það þarna í búðinni; hann hefði vandamál að bera upp fyrir honum. Stóð skraddarinn þá upp og fór með hann úr búðinni inn í annað herbergi, þar sem þeir gátu verið tveir einir. Þar sagði Íbrahím honum sögu sína, en skraddarinn beiddi hann að hafa gát á tungu sinni og steypa sjer ekki í glötun með því að tala svo óvarlega um Dschemileh, því hún bæri óslökkvandi hatur til karlmanna. En allt fyrir það bað Íbrahím hann að hjálpa sjer og linnti ekki látum. Og um síðir mælti skraddarinn: „Eg skal þá hætta lífi mínu þín vegna og hugsa eptir, hvað gera skuli á morgun. Komdu til mín svo snemma sem þú getur.“ Fór nú Íbrahím aptur til gestaherbergisins og sagði umsjónarmanninum, hvað sjer hefði orðið ágengt við skraddarann. Og morguninn eptir sagði skraddarinn við Íbrahím: „Þú skalt strax kaupa þjer þrjár feitar hænur, þrjú lóð af sikri, tvær litlar leðurflöskur með víni og einn bikar; skaltu fara með þetta út í bát einn og láta ferja þig ofan eptir fljótinu. Segi þá ferjumaður, að hann geti ekki farið lengra enn hálfa mílu, þá segir þú, að því skuli hann ráða, en þegar þú ert kominn svo langt, skaltu með fje og fortölum fá hann til að róa að þeim aldingarði, sem næstur er. Það er garður Dschemileh. Þar skaltu stíga á land og muntu við garðshliðið sjá tvo háa bekki, og er breiðt yfir þá gullskotið pell; situr þar maður, sem hefur kryppu á baki einsog eg. Honum skaltu treysta og hann skaltu biðja fulltingis. Kann hann þá að stilla svo til, að þú fáir að sjá kóngsdóttur þó ekki sje nema tilsýndar. Eg sje ekki annað ráð, er dugi, og vilji hann ekki láta til leiðast að liðsinna þjer, þá verður það okkar bani.“

Nú brá Íbrahím skjótt við og fór að öllu einsog skraddarinn hafði fyrir hann lagt; hitti hann við Tígrisfljótið ferjumann einn, er svaf í bát sínum. Vakti Íbrahím hann og beiddi hann að ferja sig ofan eptir fljótinu. „Sje það ekki lengra enn svo sem svarar hálfri mílu,“ svaraði ferjumaður, „þá er eg fús til þess.“ „Þú skalt ráða,“ mælti Íbrahím og gaf honum tíu gullpeninga; hjeldu þeir nú ofan eptir fljótinu. Og sem þeir nálguðust aldingarðinn, þá sagði ferjumaðurinn: „Nú tjáir ekki að fara lengra, annarskostar er okkur báðum ógæfan vís.“ Þá gaf Íbrahím honum aðra tíu gullpeninga, og fjekk hann til að ferja sig nær garðinum, stökk hann síðan á

land, en ferjumaður flýði í ósköpum. Veitti Íbrahím hægt að finna garðshliðið, og stóðu dyrnar opnar; sat þar krypplingur einn góðmótlegur og hjelt á gylltri silfurkylfu. Hljóp Íbrahím til hans og kyssti á hönd honum. Horfði maðurinn á hann með undrun og dáðist að fegurð hans. „Hvaðan kemur þú, sonur sæll?“ mælti hann, „hver hefur flutt þig hingað?“ þá mælti Íbrahím grátandi: „Eg er ungur maður og útlendur, og öllum ókunnugur.“ Kenndi maðurinn þá í brjóst um hann og sagði: „þjer skal ekki verða gert neitt til meins. þyngi nokkur sök á þjer, þá dæmi drottinn; en sjert þú hræddur, þá hughreysti hann þig.“ „Nei, gamli maður!“ ansaði Íbrahím, „mjer amar hvorki sekt nje hræðsla;“ sagði hann honum því næst sögu sína, og hvað hann ætlaði fyrir sjer. þá hristi krypplingurinn höfuðið og mælti: „Skraddarinn, sem þú áttir tal við, er bróðir minn, en ef eg ekki tæki þig að mjer, þá mundi ykkur báðum vís bani, og öllum þeim, sem við þetta hafa verið riðnir. Enginn hefur stigið fæti sínum í garð þenna, nema eg og konungurinn og Dschemileh, dóttir hans, og í þau tuttugu ár, sem eg hef verið hjer garðyrkjumaður, hef eg engan karlmann sjeð á þessum stað nema konunginn. Kemur Dschemileh hingað á lystiskútu sinni fertugasta hvern dag; er hún þá borin á land í græntjölduðum burðarstóli og fylgja henni ambáttir margar. Skal eg nú reyna hvort eg get orðið þjer að nokkru liði, og ekki undan hika, þó eg verði að leggja líf mitt í hættu.“ Að svo mæltu tók hann Íbrahím við hönd sjer og leiddi hann inní garðinn; en honum fannst mikið um og sagði, að sjer þækti garðurinn vera sannkölluð paradís; þókti garðyrkjumanni vænt um og hló dátt af feginleik. Settust þeir nú niður og sátu alllengi. Fór garðyrkjumaður snöggvast burt og kom aptur með stórt fat; voru á því lystilegar og ljúffengar krásir, steiktir fuglar, aldin í sikurlegi og kryddkökur. Bar hann sælgæti þetta fyrir Íbrahím, en hann neytti af því með góðri lyst. Sagði garðyrkjumaður honum, að hann vonaðist eptir Dschemileh næsta 'dag, og kvaðst hann skyldu búa honum fylgsni í þjettum runni andspænis lystiskála þeim, er Dschemileh væri vön að sitja í, og mundi hann geta sjeð hana þaðan; yrði hann að lifa við vistir þær, sem hann hefði haft með sjer, því á þeim stað gæti hann ekki veitt honum beina. En þegar Dschemileh væri farin úr

garðinum, þá yrði hann að hverfa heim aptur að svo búnu, ef honum ætti þess auðið að verða. Var nú Íbrahím hjá garðyrkjumanni um nóttina og óðar enn lýsa tók af degi, þá las hann morgunbænir sínar. Kom garðyrkjumaður þá til hans með áhyggjusvip og mælti: „Rístu nú upp, sonur kær! og farðu í fylgsni þitt. Ambáttirnar eru komnar og er hennar þá bráðum von. Varastu nú að hnerra eða hósta, eða gera nokkurn hávaða, því þá erum við báðir frá.“

Íbrahím faldi sig nú og leið ekki á löngu áður ambáttirnar komu; hreinsuðu þær til í lystiskálanum og bjuggu hann með prýði, sópuðu þær og fyrir framan hann og stökktu hvervetna rósavatni. Að stundarkorni liðnu komu fimmtíu aðrar ambáttir með hljóðfæri og Dschemileh mitt á meðal þeirra í burðarstól, en hún sást eigi, því tjöldin voru fyrir. Brugðu ambáttirnar þeim til hliðar og gekk Dschemileh þá inn í lystiskálann. Gat Íbrahím ekki sjeð hana enn sem komið var, og þókti honum sem öll fyrirhöfn sín væri orðin til ónýtis. Tóku ambáttirnar nú að leika á hljóðfæri sín og syngja. Þá var fortjaldinu fyrir lystiskálanum brugðið til hliðar og gekk Dschemileh fram með perlu- og gimsteinakórónu á höfði, og búin í dýrðlegasta skart; varð Íbrahím þá svo frá sjer numinn, að hann hnje í ómegin. Og er hann raknaði við aptur, þá leit hann hvar tíu ambáttir stigu dans og sungu; óskaði hann þess með sjálfum sjer, að hann mætti sjá Dschemileh sjálfa ganga fram í dansinn. Þegar ambáttirnar voru hættar, gengu þær til hennar og beiddu hana að gera þeim öllum það til yndis, að stíga einn dans. Þá hugsaði Íbrahím með sjálfum sjer: „Sannlega hafa hlið himinsins upplokizt og eg er bænheyrður.“ Varpaði Dschemileh af sjer skikkju sinni og varð Íbrahím unaðfanginn, er hann sá hversu prýðilega hún var vaxin. Allar hreifingar hennar í dansinum voru óviðjafnanlega fagrar, og þó bikar með gullnum veigum stæði á borði, þá mundi manni gleymast að bergja á þeim, þegar slíkt inndæli væri fyrir augum. En meðan Íbrahím stóð agndofa og horfði á Dschemileh, þá varð henni litið til fylgsnisins og sá hún hann þegar. Kom þá allt í einu á hana annar svipur; hún hætti dansinum og sagði við ambáttirnar: „Syngið þangaðtil eg kem aptur,“ tók síðan langan hníf og óð að Íbrahím. Beið hann hennar grafkyr. En rjett sem hún var komin að honum

og sá framan í hann, þá datt hnífurinn úr hendi hennar og varð henni þetta að orði: „Lofaður sje algjörleiki hans, sem hneigir hugi manna og hjörtu! Vertu hughraustur fagri yngissveinn! ekkert af því sem þú óttast, skal fram við þig koma.“

Þá táraðist Íbrahím ósjálfrátt, en hún þerraði tárin af augum hans og mælti: „Seg mjer, hver þú ert og hver hefur flutt þig hingað?“ Kyssti hann á jörðina frammi fyrir fótum hennar og greip um klæðafald hennar einsog hann bæði hana miskunar. „Þjer skal ekki verða gert neitt til meins,“ ansaði hún, „því guð veit, að mínum augum hefur enginn maður hugnast nema þú einn.“

Sagði hann henni þá sögu sína, en hún undraðist stórum og mælti: „Ert þú þá Íbrahím sonur El Kasibs?“

Íbrahím kvað svo vera, en hún hljóp um háls honum og sagði: „Herra! þú ollir því einn að eg hataðist við karlmenn. Því þegar eg heyrði að yngissveinn nokkur væri á Egyptalandi sem af öllum bæri fyrir fríðleiks sakir, þá hneigðist hjarta mitt til hans, og var þá líkt komið fyrir mjer og skáldið segir: „Eyra mitt unni honum áður enn auga mitt, því eyrað er stundum fljótara til ástar enn augað.“ Lofaður sje því enn hæzti, sem hefur sýnt mjer ásjónu þína. En viti það himin, að hefði eg hitt hjer annan mann enn þig, þá skyldu allir þeir vera krossfestir, sem slík ráð hefðu haft með höndum.“ Að svo mæltu þagði hún stundarkorn og tók síðan til máls: „Hvernig á eg að fara að því að færa þjer nokkuð til matar eða drykkjar, svo að ambáttir mínar verði þess ekki áskynja?“

Nú hafði Íbrahím í fylgsni sínu vín það og vistir, er hann hafði haft með sjer frá Balsora. Tók hann það nú fram og glöddu þau sig á því bæði saman. Voru þau þar frá því um morgun og allt til hádegis. Beiddi hún þá Íbrahím að fara og taka skip á leigu og bíða sín á tilteknum stað, því hún mætti ekki án hans vera. Sagði hann henni, að hann hefði komið á sjálfs síns skipi til Balsora og væri það í góðu standi og ferðbúið. Dschemileh þókti vænt um það og fór hún aptur til ambátta sinna og mælti: „Standið upp, ambáttir! nú förum við heim til hallarinnar.“ En þær furðuðu sig á því og spurðu, hversvegna hún ekki vildi vera þrjá daga í garðinum í þetta skipti einsog endrarnær;

sagði hún þá að sjer væri óglatt og væri það líklega undanfari meiri veikinda. Ambáttirnar svöruðu: „Við heyrum og hlýðum;“ og tóku þær allt saman, er þær höfðu haft meðferðis, og báru það út á lystiskútuna. Stje Dschemileh út á hana og hjeldu þær nú heim aptur til Balsora.

Nú kom garðyrkjumaðurinn og vissi hann ekkert af því er gerzt hafði. Sagði hann við Íbrahím: „Þú hefur þá ekki orðið svo heppinn að sjá hana. Hún er annars vön að vera hjer í þrjá daga og er eg hræddur um að hún hafi orðið vör við þig.“ „Það hefur hún ekki orðið,“ ansaði Íbrahím, „og hef eg ekki sjeð hana ganga út úr lystikálanum.“ Garðyrkjumaður varð honum samdóma um það; „því,“ mælti hann, „hefði hún sjeð þig, þá værum við dauðir.“ Bauð hann Íbrahím að bíða þangaðtil hún kæmi næst; en hann bar það í vænginn, að menn sínir í borginni mundu verða hugsjúkir, ef hann yrði lengur í burtu, kvaðst hann og vera hræddur um ýmsa fjemæta hluti, er hann hefði flutt með sjer. Kvaddi hann nú garðyrkjumann og fór heim aptur til gesthússins; fagnar umsjónarmaðurinn honum með blíðu og segir: „Hvernig gekk? það mun hafa hlaupið á snærið fyrir þjer.“ „Og því er nú verr,“ svaraði Íbrahím, „mjer gafst ekkert færi til að fá óskum mínum framgengt og ætla eg því að hverfa heim aptur til átthaga minna.“ Þá hryggðist umsjónarmaðurinn og sagði, að þetta þækti sjer illa farið; flutti hann farangur hans út á skip og kvaddi hann grátandi. Íbrahím hjelt nú þangað, er Dschemileh hafði ákveðið og beið hennar þar. Og er myrkt var orðið af nótt, þá kom hún í hermanns búningi með skegg á vöngum; bar hún boga og örfamæli og var sverði gyrð; gekk hún að skipinu og mælti: „Er hjer sonur El Kasibs frá Egyptalandi?“ Íbrahím sagði til sín. „Mikill afglapi varstu,“ mælti hún, „að þú skyldir fara þaðan og ætla þjer að glepja konungsdóttur? Komdu nú, og hlýddu skipun konungs.“

Þá hrökk Íbrahím saman af hræðslu og hugðu hásetar, að nú væri sjer dauðinn vís. En í sama bili reif Dschemileh af sjer skeggið og fleygði vopnunum; sá Íbrahím þá að það var unnusta hans, sem komin var á skipið, og sigldi hann þegar í stað til Bagdad. Náðu þau þangað eptir fárra daga ferð. En er skipið bar að borginni, var kallað til þeirra af öðru skipi, sem var að leggjast við

akkeri. Lögðust þá skipin hvert hjá öðru. Á ókunnuga skipinu var Essandalani, og sagði Íbrahím honum að allt hefði gengið sjer að óskum. „Guð gefi ykkur farsællega ferð,“ mælti Essandalani, „eg er nú á leið til Balsora og á eg erindi til konungs.“ Sendi hann þeim fulla skál af sikruðum ávöxtum og sigldi síðan leiðar sinnar eptir fljótinu. Hafði Dschemileh brugðið illa við, er hún sá hver á skipinu var. Bauð Íbrahím henni að neyta af sælgæti því, er þau höfðu fengið, en hún grjet og mælti: „Veiztu hver það var sem fór þarna? það var Essandalani frændi minn. Hann hefur beðið mín einusinni fyrr, en eg synjaði honum. Nú mun hann flýta sjer til föður míns og segja honum upp alla söguna.“ En Íbrahím sagði, að nú væru þau komin svo langt á undan, að þeim yrði ekki náð. Smakkaði hann nú á ávöxtunum og sem hann hafði neytt ofurlítils af þeim, þá missti hann alla rænu og hnje í ómegin. Og er hann raknaði við, þá lá hann í múrtópt og var fremur fáklæddur, fór hann þá að barma sjer og mælti: „þenna grikk hefur illmennið Essandalani gert mjer.“ Vissi hann nú ekki, hvort hann ætti að fara og gekk því út fyrir múrtóptina af augum fram; þá sá hann álengdar hvar lögreglustjóri kom með menn sína, og flýði hann því inn í hrörlegt baðhús, sem var þar nálægt. Skriðnaði honum þar fótur í skúmaskoti einu og datt hann um eitthvað, sem lá á gólfinu; þreifaði hann þá fyrir sjer og greip á líki höfuðlausu og alblóðugu. Urðu þá hendur hans blóði drifnar, en hann gaf því engan gaum fyrir hræðslu sakir, því hann heyrði til lögregluliðsins fyrir utan; skipaði lögreglustjóri mönnum sínum að rannsaka húsið. Ruddust þá inn tíu lögreglumenn með logandi blys, en Íbrahím skreið útí afkima. Sá hann þaðan að líkið var kvennmanns lík, og búið skrautlegum klæðum; var ásjóna konunnar nábleik, en hjelt þó ennþá fegurð sinni. Kom nú dauðans angist yfir Íbrahím, en lögreglumennirnir fundu hann þegar, dróu hann fram og spurðu, því hann hefði drepið konu þessa. Sór hann og sárt við lagði, að hann vissi ekkert til þess og væri saklaus. En er lögreglustjórinn sá blóðsletturnar á höndum hans, þá kvað hann strax upp dóminn og mælti: „Hvað þurfum vjer frekar vitnanna við? takið hann sveinar og höggið af honum höfuðið!“ Kom þá grátur upp fyrir Íbrahím og bar hann sig svo aumlega, að enda böðullinn hrærðist til meðaumkvunar.

„það veit hamingjan,“ sagði hann, „að á þessum manni er enginn morðingja svipur.“ En lögreglustjórinn framfylgdi skipun sinni fastlega. Var því bundið fyrir augu Íbrahíms og var böðullinn kominn á flugstig með að höggva, en í sama bili kom riddaraflokkur þeysandi og var kallað hástöfum að hætta skyldi.

En á komu riddaranna stóð þannig, að El Kasib jarl á Egyptalandi hafði sent einn af gjaldkyrum sínum til kalífans Harúns al Raschids með brjef og gjafir; sagði hann honum í brjefinu, að sonur sinn hefði horfið fyrir ári síðan, og væri það mál manna, að hann hefðist við í Bagdad. Kvaðst hann fyrir þá sök biðja kalífann, að láta leita hann upp og senda hann heim með gjaldkyranum. Var nú leitað vandlega og komust menn að raun um það, að Íbrahím hlyti að vera í Balsora. Fór þá gjaldkyrinn þangað með opið brjef og fylgdu honum nokkrir af liði stórvezírsins.

Gjaldkyrinn kom nú, einsog fyr er frá sagt, þegar Íbrahím var undir sverðseggjum. En hann bar samt eigi kennsl á hann og spurði því lögreglustjóra, hver þessi ungi maður væri og hvað hann hefði misbrotið. Skýrði lögreglustjóri honum þá frá málavöxtum. Gjaldkyrinn mælti: „Á þessum manni er ekki morðingja svipur;“ og bauð hann að menn skyldu láta hann lausan og leiða hann fram fyrir sig. Var svo gert og spurði gjaldkyrinn Íbrahím, hvernig á högum hans stæði. Var Íbrahím orðinn torkennilegur og hafði látið ásjást af hugraun og hrakningum. En hann þekkti gjaldkyrann undireins og mælti; „Vei þjer! sjer þú ekki, hver eg er? eg er Íbrahím sonur herra þíns; þú munt vera kominn til að leita mig upp.“ þá virti gjaldkyrinn hann betur fyrir sjer og fleygði sjer fram fyrir fætur honum. En er lögreglustjórinn sá það, varð hann heldur enn ekki kollhúfulegur. Snerist gjaldkyrinn við honum reiðuglega og mælti: „Vei þjer! hinn vondi kúgari! því vildirðu láta drepa son herra míns?“

Lögreglustjórinn kyssti á klæðafald gjaldkyrans og mælti: „Herra! hvernig átti eg að geta þekkt hann? Við sáum hann á flótta og fundum lík konunnar hjerna hjá honum.“ „Vei þjer!“ ansaði gjaldkyrinn, „þú ert óhæfur til embættis þíns. Unglingur þessi hefur ekki ennþá orðið svo mikið sem eins titlings bani, hversu mátti þá ætla að hann hefði gert sig sekan í manndrápi? Gafstu honum engan

tíma til að verja mál sitt?" Bauð nú gjaldkyrinn að leita skyldi morðingjans betur og fannst hann þar í sama baðhúsinu. Var hann leiddur fyrir kalífann og málið borið undir hans dóm. Dæmdi kalífinn morðingjann til dauða og sendi síðan boð eptir Íbrahím. Tók hann honum vinsamlega og bað hann að segja sjer frá æfintýrum sínum; gerði hann svo og fannst kalífanum mikið til þeirra koma. Því næst skipaði hann Mesrúr höfuðsmanni geldinga sinna að fara þegar í stað og taka Essandalani fastan og koma með hann og Dschemileh. Lá við sjálft að Mesrúr hefði komið of seint, og var það með naumindum að hann fengi frelsað Dschemileh frá dauða. Leiddi hann nú bæði hana og illmennið Essandalani fyrir kalífann. Dæmdi kalífinn Essandalaní til kvalafulls dauða og gaf Íbrahím allar eigur hans. Í sömu svifum kom konungurinn í Balsora, faðir Dschemileh, og ákærði Íbrahím fyrir að hann hefði numið burt dóttur sína. „Gæt þess," mælti Harún, „að hefði Íbrahím ekki verið, þá mundi dóttir þín ekki hafa frelsazt frá píslum og dauða. Viltu því ekki heldur gipta honum hana?" „Drottinn rjetttrúaðra manna!" ansaði konungur: „eg heyri og hlýði." Sendi kalífinn þá eptir dómara og vitnum og ljet semja hjónasáttmála þeirra Íbrahíms og Dschemileh; veitti hann þeim allt það er þau við þurftu og hjeldu þau síðan til Egyptalands. Leið það sem eptir var æfi þeirra í fögnuði og fullsælu, þangaðtil þau burtkölluðust fyrir tímanlegan dauða. En lof og dýrð sje þeim, sem lifir og aldrei deyr.

* * *

Nú var liðin þúsund og ein nótt og hafði Scheherasade á þeim tíma alið þrjá sonu. Þegar hún hafði lokið sögu þessari, fjell hún soldáni til fóta og mælti: „Konungur tímans! aldar drottinn! má eg nú biðja þig einnar bænar í launa skyni fyrir sögur mínar?" „Þú mátt beiðast hvers sem þú vilt, Scheherasade!" ansaði soldán, „eg skal ekki synja þjer neins, er þú til mælist." Þá kallaði drottning á barnfóstrur sínar og bauð þeim að þær skyldu koma með börn sín. Fóstrurnar komu inn með þrjá sveina; einn þeirra hljóp, en annar skreið; hinn þriðji lá á brjósti fóstru sinnar. „Hjer eru nú börn þín, konungur!" mælti Scheherasade, „og bið eg þig þeirra vegna, að þú gefir mjer líf, svo að veslingar þessir verði ekki móðurlausir." Þá fjekk soldán eigi tára bundizt, hann

faðmaði að sjer börnin og sagði: „Guð veit það, Scheherasade! að eg fyrir löngu síðan hef tekið aptur hegningardóminn, því þú ert kona skírlíf og siðlát. Guð blessi þig og þína!“ Scheherasade kyssti á hönd soldáns og óskaði honum að hann mætti lengi lifa í frægð og vegsemd. Urðu nú fagnaðartíðindi þessi hljóðbær um alla höllina og litlu síðar um alla borgina. Það var hin gleðilegasta nótt og bjartari enn fegursti sólskinsdagur. Um morguninn ljet soldán blása saman öllu liði sínu og að því ásjáanda gaf hann vezírnum, tengdaföður sínum, skrautfagurt tignarklæði; þakkaði hann honum fyrir það, að hann hefði gipt sjer dóttur sína, sem aptraði honum frá því að fremja fleiri manndráp. Hann gaf einnig hinum öðrum vezírum, emírum og stórhöfðingjum góðar gjafir. Og nú ljet hann á sinn eigin kostnað prýða borgina með ljósum og halda opinbera gleðileika með allskonar skemmtun; ljet hann og útbýta ríflegum ölmusugjöfum á meðal fátæklinga, úr ríkissjóði. Stýrði hann síðan löndum sínum langan aldur í fögnuði og fullsælu, þangaðtil dauðann bar að höndum sem enda gerir á öllum jarðneskum hlutum. En lofaður sje sá, sem aldrei umbreytist, þó aldirnar líði, og friður sje með Mahómet, sendiboða hans og sæmdarprýði allra dauðlegra manna.

Endir.

# Innihald.

# Leiðrjettingar.

Bls. 13,36: lanuað, l. launað.
— 14,25: þess, at, l. þess að.
— 28, 1: vantar: honum, fyrir aptan: renna.
— 51,11: vantar: hann, fyrir aptan: haft.
— 65, 1: vantar: biðja, fyrir framan: líknar.
— 78,12: þeim, l. heim.
— 95, 8: lúð, l. alúð.
— 95,33: fellur úr: barðasta.
— 96,17: dýrlegi, l. dýrlegri.
— 192,19: vantar: heyrði, fyrirframan: að.
— 193,25: ætti, l. átti.
— 201,20: þrauti, l. þrautir.
— 290, 8: og, l. eg.
— 306,33: fellur úr: En.
— 332,11: komnu, l. komu.
— 393,24: kóngssyni, l. emírssyni.

